# HUGLEIÐINGAR

UM

## HÖFUÐATRIÐI KRISTINNAR TRÚAR

SAMDAR AF

DR. J. P. MYNSTER,
Sjálandsbiskupi og skriptaföður Danakonungs o. s. frv.

Landsbókasafn

ÚTGEFANDI:

EGILL JÓNSSON.

NÝ ÚTGÁFA.

---

KAUPMANNAHÖFN.

HJÁ LOUIS KLEIN PRENTARA.

1853.

# FORMÁLI.

---

Þegar jeg var orðinn þess vís, að fremur var skortur orðinn á hugleiðingum þessum í landinu, og jeg hins vegar var hræddur um, að presturinn sjera Þorgeir Guðmundsson mundi ekki geta snúizt við því að láta prenta þær að nýju, þá tók jeg mjer ferð á hendur suður til Danmerkur helzt þess erindis, að fá hjá sjera Þorgeiri keyptan prentrjett að bókinni, því mjer þótti það ógjörningur, að landa mína skyldi vanta þá húss-lestrabók, sem telja má hina beztu, jafnvel hina einu, sem til er — því Jónsbók og Árnapostilla eru einungis til helgidagalesturs. — Jeg þarf ekki að segja um þessa útgáfu annað, enn sagt hefur verið um hina fyrri; því hún er að öllu óbreytt, nema að letrinu til og staf-setningunni, sem löguð er eptir því sem nú þykir rjettast; einungis er einu orði breytt á sumum stöðum, þar sem það þótti valda misskilningi, þ. e. «mótbárur» í staðinn fyrir að áður stóð «mótsagnir». Bókin selst nú og með sama verði og hún áður var.

Vjer viljum setja hjer orð höfundarins, þar sem hann talar um tilgang sinn með bókina, svo að landar

vorir geti hugfest sjer þau: «Jeg hef leitazt við að selja góðfúsum lesendum í hendur guðræknisbók, sem sje svo löguð, að hugleiðingar þær, sem hún hefir að geyma, ljái ekki að eins vitinu nokkuð að starfa, heldur fái á gjörvallan hugann, og hrífi svo á tilfinningu og vilja. En hins vegar var það ekki ásetningur minn, að gjöra að eins sjerstakar guðrækilegar hugmyndir skýrar og lifandi, eins og menn verða að gjöra í hinum almennu ræðusöfnum og mörgum öðrum guðræknisbókum, heldur vildi jeg skýra frá höfuðatriðum kristinnar trúar í samfellu, svo allar þessar sjerstöku hugleiðingar væru jafnframt ein samstæð eining, og það hefir verið vilji minn og viðleitni, að bók þessi skuli að nokkru leyti stuðla til, að afla og auka fulla og fasta og ávaxtarsama þekkingu á sannindum kristinnar trúar.» Eins viljum vjer prenta hjer orð höfundarins um lestur bókarinnar til leiðbeiningar og íhugunar: «Í bókum, sem ætlaðar eru almenningi, verður höfundinum optlega erfitt, að fara svo með efnið, sem bezt ætti við, þar sem hann vill bæði nokkurn veginn fullnægja þeim, sem vanir eru vísindalegri niðurskipun hugmyndanna, og jafnframt rita svo, að þeir, sem miður eru að sjer, skilji orð hans. Jeg get ekki talið mjer annað til gildis, enn að jeg hefi leitazt við að ráða sem bezt úr þessum erfiðleika; en jeg vænti mjer þess, að fari svo, einhver lesenda minna felli sig ekki við einhverja grein, hvað sem til

þess kemur, þá láti hann það samt ekki fæla sig frá, að halda á fram lestrinum. Mörg hugleiðing, sem ekki kynni að falla einhverjum í fyrstu, annaðhvort vegna efnisins eða meðferðarinnar, ávinnur sjer, ef til vill, sje hún optar lesin, hylli slíkra lesenda, sem jeg gjöri hjer alstaðar ráð fyrir, en það eru sanngjarnir og kristilegir lesendur».

Vjer verðum að biðja góðfúsa lesendur að fyrirgefa oss þær prentvillur, sem finnast kunna í bókinni, en sem vjer vonum að ekki sjeu margar, og er það tímaleysinu að kenna, að vjer höfum ekki getað tínt þær saman, eins nokkrar ritvillur í nokkrum fyrstu örkunum, t. a. m. «eylífur» fyrir «eilífur», «skír» sumstaðar fyrir «skýr», «fylgskni» fyrir «fylgsni»; en «kyrkja» er með vilja ritað fyrir «kirkja».

Jeg óska og vona þess, að þessi útgáfa verði löndum mínum eins geðfelld og hin fyrri, og þá hef jeg náð tilgangi mínum, ef mjer hefur heppnazt að bæta svo úr skorti þeim, sem nú er á bókinni, að löndum mínum líki vel í alla staði.

Kaupmannahöfn, sumarið 1853.

**Egill Jónsson.**

## FYRIRSAGNIR HUGLEIÐINGANNA.

Blaðs.

---

# 1.

## TRÚ. KRISTINDÓMUR.

Önd mín er þreytt — hvar má hún finna hvíld? ætti jeg að lýsa ástandi hennar, yrði jeg að segja, hún væri eins og fuglinn, sem ofviðrið hrekur út á hið auða haf: hann stefnir til himins, en vængir hans þreytast þegar, hann líður niður á leið til hins bárótta hafs, en finnur engan fótastað; hann líður og lýist — yfir og undir er ómælanda djúp. Á sálin alla jafna að líða milli himins og hafs, og finna aldrei hvíld? Eða á jeg að snúa aptur, þaðan sem jeg kom, til hinnar lágu strandar? Á jeg að lama vængi sálarinnar, svo að stormurinn beri hana ekki optar á burt, þegar henni verður að breiða þá út? Á jeg að slökkva eldlegan áhuga sálarinnar — á jeg að seðja mig ávöxtum jarðarinnar, og síðan, þegar líkaminn er mettur, og sálin mædd og þjáð í þrældómi líkamans — til líkamans nauðsynja, gefa þau á vald svefninum og aðgjörðaleysinu, og aldrei framar spyrja dagsbirtuna og einveru næturinnar, hvað sje í himnunum eða í undirdjúpinu? Á jeg að telja mjer trú um — og leiða mjer í hug upp og aptur, til að kúga viðleitni sálarinnar, að allt það, sem öll hjörtu og allar tungur kalla fagurt, háleitt og gott, sje tómar sjónhverfingar, tómir draumórar; en það, sem öll hjörtu og allar tungur kalla lágt og lítilfjörlegt, að það eitt sje verulegt og áreiðanlegt og það, sem maðurinn, með alla viðleitni sína og framfaralöngun, eigi að halda sjer við. Er þá ekki neitt, sem er satt, nema þetta eitt, að enginn sannleikur sje finnanlegur? Eða er sannleikurinn — takist einhverjum ofurhuga að draga af honum skýluna — er hann slík óttaleg ófreskja,

að hjartað verði að steini við sjón hennar, og lífið visni af hennar eitruðum áblæstri.

Hjarta mitt er órótt — hvar má það finna frið? Mjer liggur við að skelfast, þegar jeg hugleiði, hvað brotizt hafi í gegnum það, allt frá þeim degi, er það tók að bærast; allar girndir hafa logað í því, það hefir titrað af von og ótta, það bráðnaði opt af hita ástarinnar, það kólnaði opt af frosti dauðans. Jeg kenni í brjósti um mig sjálfan, þegar jeg hugsa um allt, sem jeg hefi þolað — einnig þegar veröldin kallaði mig sælan. Opt fyllist auga mitt tárum, þegar jeg lít barn mitt í vöggu sinni; átt þú einnig að þola slíkt sem jeg hefi þolað? á einnig þín sála að verða lögð sverði í gegnum? — Enn er jeg á bezta skeiði; mjer hefir í mörg ár þótt minnkun að þróttleysi og hugleysi, jeg hefi áminnt sjálfan mig, — þegar morgungeislarnir runnu upp, þegar nóttin breiddi myrkur yfir jörðina, hefi jeg áminnt sjálfan mig svo segjandi: vertu hraustur! Og þó þarf jeg stólpa að styðjast við, eða rjettara að segja: jeg þarf að finna þann, sem er vísari og betri enn jeg, jeg þarfnast lifanda brjósts, til að halla upp að því mínu þreytta höfði.

En er það einungis í mæðu, neyð og sorg, að jeg finn til þessarar þarfar? Uppsprettur gleðinnar eru og í mínu hjarta, brjóst mitt getur gripið himinsins sælu. Getur gripið? Nei! Brjóstið rúmar hana ekki; hjarta mitt þrútnar og langar til að úthella nægð sinni, svo það skuli ekki springa. Jeg safna vinum mínum umhverfis mig, og tala um þá sælu, er streymir í gegnum mig; opt finn jeg engvan, er skilji mig, engvan, er taka vilji þátt í sælu minni; og þó allir samgleðjist mjer, langar mig samt úr faðmi vina minna; jeg leita einverunnar; og það sem þá logar í auga mínu, það sem titrar á vörum mjer — hvað er það annað enn þakkir? Og þessar þakkir, sem brjótast upp úr djúpi sálar minnar, þær vilja ekki streyma út í bláinn, þær leita að eyra, sem heyri, í þeim leitar tilfinning mín hinnar rjettu uppsprettu sinnar, þeirrar uppsprettu, sem hvorttveggja er frákomið: gæði lífsins og tilfinning vor, er hefir þeirra not.

Jeg finn krapt í mjer til að starfa, undarlegan krapt, sem aldrei hvílist; umhugsun nýrra fyrirtækja lifnar sífelldlega í sálu

minni, og jeg tel mjer það mestu unun að framkvæma þau. En á eða má þessi kraptur í mjer vera blindur og stjórnlaus? Má hann æða áfram í blindni, brjótandi og eyðandi? það verður þó að stýra honum að einhverju miði, setja hönum takmörk, binda hann við reglu, sem hann má ekki brjóta. Og hvað er þessi regla — er það hagur mín sjálfs? Hvers vegna þori jeg þá ekki að óhlýðnast henni? því sje hún ekki annað, enn hagur mín sjálfs, hvers vegna þori jeg þá ekki að yfirgefa hana, og enda spotta hana og fyrirlíta, og gleyma ókomnum ávinningi, til að geta átt gott, eða þurfa ekki að leggja hart á mig, eða geta látið að vilja mínum í því vetfangi, sem er að líða? það er furðu margt, sem mennirnir geta kallað sinn hag; það eru óteljandi hlutir, sem þóknast mjer, sinn á hvern hátt: hver kennir mjer, hvað jeg á að kjósa? hvað skyldar mig til að meta einn ávinninginn meir enn annan? Get jeg lært áðurnefnda reglu af mannanna dómi, sem aldrei er eins, ætíð er óstöðugur, ætíð umbreytanlegur, einnig í munni eins og sama manns? Og sje það ekki annað enn regla, sem menn hafa samið, hvers vegna má jeg þá ekki óhlýðnast henni? hvers vegna má jeg ekki hikunarlaust kasta allri siðvenju, og gjöra sjálfum mjer nýja reglu? því það finn jeg, að sje til það lögmál, sem mjer ber að hlýða, þá hlýtur því að fylgja meira vald, enn nokkurri mannlegri setningu, þá hlýtur það að vera skrifað með því letri, sem menn megna ekki að breyta eður afmá.

En hvort sem jeg viðurkenni, aðhyllist, ræki nokkurt lögmál, eða ekki, hvort sem jeg sækist eptir miklum framkvæmdum, eða ekki, og hvert nafn sem framkvæmdir mínar fá eða verðskulda: þá er samt einn tími, sem er mjer óumflýanlegur, og öllum sem hafa andað, og enn anda á jörðunni, það er sá tími, þegar jeg er hættur að anda. þar bera heimskingjarnir sigur af öllum þeim, sem hafa afneitað jarðneskum gæðum, sem hafa barizt hinni þungu baráttu við heiminn og sjálfa sig; þeir standa millum leiðanna, og spyrja oss, hvort vjer sjáum nokkurn mun á þeim, er vjer kölluðum heiðurlega, og þeim, er vjer kölluðum fyrirlitlega; hvort oss gruni, það sje nokkur munur á að liggja undir hinu niðurfallna leiðinu, sem ekki er prýtt fátæklegum krossi eða litlu blómi, því síður öðru

meira, eða undir hinum dýrðlega minnisvarða, er menn flykkjast um af forvitni; og þó það kæmi til af þakklæti, þá er sá munur einungis í tilfinningu hinna lifenda, en ekki þeirra, sem eru að verða dupt niðri í hinni dymmu jörð. — Það er til ógurlegt veldi; óvinur lífsins, og lífinu yfirsterkari; hversu opt hefir hann burt svipt einnig þeim, er mjer voru nákomnir; einnig þeim vini, er mjer var beztur og kærstur, svipti hann úr faðmi mínum, burt frá hjarta mínu; og jeg stöðvaði tárið í auga mjer, jeg starði, og leit ekki undan, jeg horfði eins langt og augað eygði, og sá hin óumflýanlegu endalok vinar míns, þau sem jeg á sjálfur í vændum, jeg sá rotnunina og því næst eyðilegginguna, sem ekkert skilur eptir; lengra sá ekki líkamans auga; er ekkert í mjer, sem lengra sjái? er ekkert ljós í myrkri næturinnar? heyrist engin rödd frá himninum, þegar jörðin þegir?

Allar þessar hugleiðingar leiða mig til trúarinnar; þó segi jeg ekki, að þetta hafi leitt mig til hennar í fyrstu; í stuttu máli: jeg hefi ekki leitað trúarinnar í fyrstu, en hún hefir leitað mín. Þetta orð trú er harla fagurrar þýðingar. Orðið er innlenzkt; en trúin sjálf er í öndverðu útlenzk. Engin þjóð, sem hefir nokkra aðkenning af hinni háleitu menntun, eignar sjer uppsprettu trúarinnar; heldur ganga sögur af þeim — sumar greinilegar, sumar ógreinilegar — er hana hafi þangað flutt af fjarlægum löndum, og vísa oss frá einni þjóðinni til annarar, og benda til um síðir, að hið rjetta heimili trúarinnar sje ekki hjer á jörðu. Trúarbrögð hinna heiðnu forfeðra vorra voru ekki sprottin upp á Norðurlöndum; heldur vísa þau á fjarlæga uppsprettu og óglöggva, og hafa að líkindum upptök sín í hinum sameiginlega brunni, er allar hinar æðri hugmyndir eru frá komnar. En nú tölum vjer um kristindóm. Það orð kunnum vjer allir, eins hinir fáfróðustu; það orð heyrum vjer snemmindis á tungum barnanna, og þó er það útlenzkt orð, eins og líka kristindómurinn er ekki sprottinn upp í vorum átthögum; hann er til vor kominn af fjarlægum löndum, vjer vitum hve langt er síðan og hvernig hann kom, vjer kunnum að tilgreina þann stað, er hann hófst á í öndverðu, en sjálfur uppruni hans er þó hulinn mannlegum augum. Hann er nefndur eptir höfundi

sínum, Kristi, hinum smurða; en ekki var hann smurður nje til konungs tekinn af mönnum, því krossinn var sú upphefð, er menn höfðu búið honum; þó var hann kallaður þessu nafni áður enn hann kom, og boðaður með þessu nafni um hina víðlendu veröld. Undarleg og leyndarfull er fæðing hans — hver getur lýst henni? segja hinir fornu sjáendur; hann er til frá því snemma, frá upphafi, frá eylífð; hann er útlendur á jörðunni, og þó hefir hann fengið þar svo mikla staðfestu, að heimurinn virðist ekki geta verið án hans, og kristindómurinn er orðinn oss svo tamur, svo eðlilegur, svo mjög samtvinnaður öllum hag vorum, sem væri hann öndverðlega vor eign.

Jeg er fæddur í skauti kristindómsins; þegar jeg var skírður, var jeg tekinn í tölu kristinna manna; mjer voru síðan kennd fræði þeirra; og þó jeg hefði í barnæsku misst bæði föður og móður, mundi jeg þó ekki hafa farið á mis við kristilega uppfræðingu, því eins og hverju barni veitist hlutdeild í öðrum tilskipunum, lögum og siðvenjum þjóðar vorrar, þannig verður það og þegar hluttakandi kristinnar trúar. Jeg veit, að jeg get ekki trúað, og á ekki að trúa, öllu sem mjer var kennt; þó hefi jeg ætíð virðingu á því, er á þann hátt hefir ílenzt á landi feðra minna; og jeg er ekki sá sjálfbyrgingur, að jeg vísi burt frá mjer umhugsunarlaust því sem hefir vitnisburð svo margra, að þeir hafi fundið í því þá hvíld sálu sinni, þann frið, þá óbifandi lífernisreglu, þá hina traustu von fram yfir dauðann, sem mig vantar, og jeg leita að. Jeg hefi einsett mjer, að láta ekki leiðast í blindni; nei, þjer skuluð ekki tæla mig, hræða mig, kúga mig, um eitt fet, þjer hinir blindu vandlætingamenn! og ekki heldur þjer, sem afneitið í blindni! Jeg ætla sjálfur að velja, sjálfum mjer til nota, og ábyrgjast sjálfur.

Ef það, sem jeg kalla skynsemi mína, væri mjer einhlítt, þá þyrfti jeg enga tilsögn; en eigi jeg að hafa tilsögn, eigi hún að koma mjer að haldi, eigi hún að kveikja í mjer sannfæringu, með hverju á jeg þá að skilja hana, öðru enn skynseminni? Hinir óskynsömu hafa ekki not tilsagnarinnar, og ef jeg hefi hennar not, þá kemur það til af því, að jeg finn afl hennar, og skil það sem mjer er kennt, og af því að í mjer er það, sem orðið getur að

birtu, þegar birtan skín á það. Þó get jeg að minnsta kosti ekki byrjað á, að farà með kristindóminn eins og vísindi. Jeg lofa ljós vísindalegrar meðferðar, svo að enginn getur lofað það meir. Þeir eru til þúsundum saman, er vita meira, enn jeg, og skilja það betur, og hve gjarna vilda jeg vita allt sem þeir vita! En vísindin eru, og munu ætíð verða, fárra meðfæri; en það, sem á að vera til eptirbreytni og huggunar, verður að vera hverjum manni bert. Jeg ætla að litast um með þeim augum, sem mjer eru gefin, á þeim stað, sem jeg er á settur; og verði sannleikurinn fundinn, og eigi sannleikur að vera ljós hvers manns, þá hlýt jeg einnig að geta komizt í skilning um sannleikann.

En hvað er kristindómur? Þar um þræta menn, ekki að eins í skólum hinna lærðu, heldur á strætum og torgum, á mannamótum og í heimahúsum. Ætti jeg að óska, það væri öðru vísi? Ætti jeg að óska, að kristindómurinn væri orðinn dauð eign, og gengi hönd úr hendi, og munn úr munni, án prófs og án umhugsunar? að hann væri ekki svo lifandi vor á meðal, að hann gæti ollað nokkru stríði? að hann þætti ekki þess verður, ellegar að menn hefðu þegar búið svo um allt, bæði fyrir sjálfa sig og börn sín og allar ókomnar kynkvíslir, að ekki yrði lengra komizt í þekkingu trúarinnar? Eður ætti jeg að óska, að þetta stríð væri einungis meðal hinna lærðu, og að það yrði dulið fyrir alþýðu eins og eitthvert leyndarmál? Jeg skil ekki, hvernig þeir vilja fara að, er þetta vilja; því ef kristindómurinn á að verða boðaður um alla veröld, jafnt smælingjunum og hinum einföldu, sem hinum vitru og spekingunum, og eigi ekki að boða hann með fláráðum orðum, heldur eins og þeim, er hann boða, kennist hann í huga sínum, og finnst hann í hjarta sínu: þá mun og þrætan komast til almennings eyrna, hver varðhöld sem á eru höfð, og það sem talað er í hljóði í húsum inni, mun verða kunngjört á þekjum uppi. Sælir eru mennirnir, að því er svo varið, og verður svo varið! Því ekki eru það einungis einstöku lærðir menn og spekingar, sem eiga að komast í himnaríki, heldur ríður á friði og frelsi handa sálu hvers manns, og fyrir því á sjerhver að vita, hvar hann á að leita, og hvernig hann á að finna. Kvíði þjer hneixlun? Aumur er sá, er hneixlinu

veldur! En það hneixlar mig ekki, að menn keppa um hina helgustu gersemi — hvernig ætti það öðru vísi að vera, eins og ástatt er hjer í heimi? — en á því hneixlast jeg, að sjá menn láta leiða sig fram og aptur í blindni; og enn fremur á hinu, að þeir skuli vera til, er vilja leiða menn þannig. Og ef þeir eru til, sem falla frá vegna þess sumt er svo vandskilið, að menn leysa úr því á ýmsa vegu, vegna þess allir menn eru ekki búnir að ná einingu trúarinnar, vegna þess gárungarnir spotta, og hræsnararnir vilja kveikja óvild og ofsóknir — þá falli þeir frá! þeir hefðu aldrei orðið hollir kristindóminum, ef hann er eins og jeg ímynda mjer hann; þeim hefir aldrei verið innan brjósts eins og mjer er. þeir vilja hafa að láni, en jeg vil hafa það, er jeg geti eignað mjer; þeir leita samlyndis við heiminn, en jeg leita sálu minni friðar; þeim þykir ekki fyrir að láta af hinni heilögu viðleitni, þeir geta verið án sannleikans — jeg get ekki verið án hans, og þess vegna hefi jeg leitað, og þess vegna mun jeg leita, til þess jeg finn.

---

## 2.

### STEFNA HUGLEIÐINGANNA.

þegar maðurinn vill öðlast þekkingu á sannindum trúarinnar, eins fullkomna og èins vel á rökum byggða og orðið getur, hvaðan á hann þá að litast um? á hverju á hann að byrja? Andi mannsins er djarfur, og optsinnis langar hann til að spenna út vængina, og reyna, hvort þeir geti ekki borið hann upp í hinn efsta himin, svo hann gæti sjálfur komizt að raun um, hvernig háttað er í himnunum, og gæti litið inn í hið hulda djúp guðlegrar veru, svo hann gæti sjeð, hvernig straumar tímanna og tilburðanna renna fram, og lesið í hinni myrku bók Guðs ráðstafana, og komizt að öllum leyndardómum; þaðan mundi hann horfa niður á jörðina og komast fram

úr öllum flækjum, og ráða allar ráðgátur á jörðunni. En bráðum verða allir þess varir, að það eru til torfærur, sem hugurinn kemst ekki yfir, og bönd sem aptra fuglinum á flugi hans; það vill opt til, að þegar sálina langar sem mest til, himnunum væri lokið upp, og hún mætti komast inn, og skoða augliti til auglitis, þá er eins og himnarnir lykist því fastar aptur, þá þolir hún ekki að líta í ljósið, snýr aptur, og hefir fremur fundið rugling enn röð, fremur efa enn vissu. Margir verða fegnir þessari reynslu, og hafa hana til átyllu fyrir, að hætta allri eptirsókn eptir hinu háleita, og kalla hverja hugrenning, sem hættir sjer út yfir hið sýnilega, eintóma draumóra; þeir segja, mennirnir geti ekki náð sannindunum, og þykjast þá rjettlættir, ef þeir að eins gefa gætur að hinum hverfulu myndum þessa lífs, og það er eins og þeir hugsi, að leynist nokkuð á bak við þær, muni það nógu snemma koma í ljós, þegar myndir þessa heims hverfa af sjálfum sjer. Víst hverfa myndir þessa heims, þær hverfa allar saman hver eptir aðra, um síðir verður skýlunni burtu svipt — en verður þú þar eintómur áhorfandi annarlegra hluta? Maður! maður! snertir ekki þetta allt sjálfan þig?

Enn eru þeir, sem því nær örvinglast, þegar þeir kenna vanmáttar síns að lypta sjer svo hátt, að þeir geti litið yfir jörðina, og horft í gegnum himnana; þeir heyra getið viturra manna og spekinga, sem eiga að hafa fundið lykil vizkunnar, þeir sjá að áhangendur safnast að þeim, og lokið er upp fyrir mörgum, en marga sjá þeir í burt rekna, af því þeir sjeu hvorki nógu þroskaðir nje hæfilega undirbúnir; þeir finna, að þeir eru sjálfir í þessara tölu, og muni aldrei komast að þessum hinum huldu fjársjóðum vísindanna; samt er í þeim brennandi þorsti og óslökkvanlegur, og það er þeim eitt hið bitrasta böl, að vera ekki gæddir því hyggjuviti, að þeir geti komizt í tölu spekinganna, sem menn halda ljós æðri sanninda skíni yfir. Að vísu eru ekki allir menn jafnt viti bornir, og það má enginn hugsa, að þangað, sem hann nær ekki, geti enginn annar komizt. En hversu undarleg og huggunarrík eru hin gömlu orð, að Drottinn himins og jarðar hafi birt smælingjum það, sem hann hefir hulið fyrir hinum vitru og spekingunum (Matth. 11, 25). Sje þetta svo — og hver er sá, er ekki sjái, að ef

Drottinn himins og jarðar vill, að einnig smælingjarnir og hinir fáfróðu óttist hann og fremji rjettlæti, þá muni hann einnig hafa ljeð þeim svo mikið ljós, að þeir geti gengið? Hver er sá er ekki minnist, hvað marga menn hann hefir þekkt, sem hann gat ekki talið með vitringum og spekingum þessa heims, og vildi þó með engu móti telja með fávísum mönnum, þeim er hvorki þekkja huggun nje skyldu þessa lífs? hver minnist ekki tilfinninga sinna, þegar hann var barn og falinn öðrum á vald, og aðrir þurftu að leiða hann, meðan engin þekking hafði náð fullum þroska í sálu hans, en hann fann þó innst í hjarta sínu, glaður og fullur trúnaðartrausts, að Guð er til, og að hann muni launa þeim, er leita hans? En sje þetta svo, hlýtur að vera til annar vegur til Guðs, enn sá, sem þeir einir geta fetað, er skara fram úr öðrum að hyggjuviti. Hversu margir af þeim, er lengst hafa komizt í vísindum og þekkingu, hafa ekki viðurkennt, að ekki sje til nema einn vegur, sem leiði til þekkingar á Guði; á þeim vegi komast að sönnu sumir lengra enn sumir, en þó er hann opinn smælingjunum og hinum fáfróðu.

Hversu huggunarrík, sagði jeg áðan, eru hin gömlu orð; því þegar sála mín flækir sig í þungar efasemdir, þegar hún kennir vanmáttar síns, að lypta sjer upp til ljóssins, sem Guð býr í, þá þori jeg að stöðva flug hennar, jeg þori að segja við sjálfan mig: að sje það ekki gefið alþýðu manna, eða *sje sjálfum mjer ekki gefið, að horfa ofan að niður eptir, þá sje mjer þó gefið, að horfa neðan að upp eptir.* Þangað er mjer vísað, til að byrja þaðan hugleiðingar mínar; jeg vil þá lítast vel um hið næsta mjer, og taka svo eptir, hvort ljósið af hæðum lýsi ekki niður þangað, án þess jeg þurfi að fara upp á fjallatind, til að eygja það. Þó maðurinn hljóti að vera kyrr á jörðunni, meðan hann er jarðarbúi, getur hann þó sjeð þaðan himininn.

Hvað biturlega sem menn hæðast að spillingu mannkynsins, og hvað maklega sem menn kvarta yfir henni og heimskunni og rangsleitninni, sem alstaðar kemur í ljós, og öllu hinu illa, sem fram fer undir sólunni, þá hefi jeg sjeð marga menn, sem fylltu mig lotningar með framferði sínu, og hefi hitt þá í öllum stjettum;

þeir skinu stundum eins og stjörnur óteljandi mönnum til eptirdæmis, en stundum urðu ekki aðrir varir við þá, enn þeir, sem þeim voru næstir. En það, sem ætíð kveikti lotninguna í mjer, voru ekki framúrskarandi gáfur, nje miklar framkvændir, nje djúpsæ þekking, heldur það, sem postulinn kallar hinn hulda mann hjartans, er sýnir sig í ófölnanlegu skarti hógværs og kyrrláts anda (1. Pjet. 3, 4).

þegar jeg sá þessa menn sýna, hvað lítið þarf til að gleðja hinn lítilþæga, þar sem óseðjandi girndir slíta sundur hjörtu svo margra manna; þegar jeg sá, þeir unnu án afláts hvern daginn eptir annan, hvort sem það voru ljósir eða dymmir dagar, og lögðu stein á stein ofan í hið mikla musteri, er allir menn eiga að reisa í sameiningu, og hættu aldrei við starf sitt, af því það væri of ervitt, eða of lítilfjörlegt, ef það á annað borð var þeim á hendur falið; þegar jeg sá, þeir voru ráðvandir í allri hegðun sinni, og breyttu við aðra, eins og þeir vildu láta breyta við sig, eins og það gæti ekki öðru vísi verið; þegar jeg sá, þeir voru góðgjörðasamir, og að hin vinstri höndin vissi þó ekki hvað hin hægri gjörði, og sá þeir voru tryggvir og viðkvæmir, og breiddu út inndæli og ánægju allt í kringum sig, styrktu hina vanmáttku, en hugguðu hina hrelldu, en sóttust þó aldrei eptir heiðri nje launum — því það leit næstum svo út, þeir hefðu þegið, en ekki veitt —; þegar jeg sá þetta allt, þá fann jeg, að maðurinn, þótt veikur sje, getur hegðað sjer svo hjer á jörðu, að Guði þóknist hegðun hans, og sjerhverjum manni, sem ekki er búinn að missa alla tilfinning á því, sem veglegt er og lotningarvert. En þessir menn, sem kveiktu í mjer hina fögru tilfinning lotningarinnar, og gengu í guðlegum sannleika, hvernig fundu þeir götuna, sem þeir áttu að þræða? Byrjuðu þeir á því, að lypta sjer svo hátt, að þeir gætu sjeð út yfir öll kjör mannlegrar æfi, og talið allar mannlegar skyldur, og skipað þeim í eitt kerfi, sem þeir gætu haft fyrir augum, og rakið út í allar æsar, og metið hverja skyldu mót annari, til að gera ekki of mikið úr sumum, en of lítið úr sumum, heldur geta undir eins skorið úr hverri þrætu eptir skírum reglum? Fjarri fer því! þeir sáu glöggt, hvað fyrir þeim var, þeir tóku eptir kröfum lífsins, eins og þær komu fyrir sjónir á ýmsum tímum; þeir aðgættu það sem næst þeim var, hina

óspilltu tilfinning, og rödd samvizkunnar í brjósti sínu, og á þenna hátt fundu þeir, hvað satt er og fagurt og gott í líferni manna. Þess vegna gat og hinn mikli löggjafi Gyðingaþjóðar með sanni sagt: „Það boð, er jeg býð þjer á þessum degi, er þjer ekki myrkt, nje heldur langt í burtu; það er ekki á himnum uppi, svo þú þurfir að segja: hver vill fara fyrir oss upp til himna, og sækja það, og láta oss heyra það, svo vjer getum gjört það? Ekki er það heldur hinu megin hafsins, svo þú þurfir að segja: hver vill fara fyrir oss yfir hafið, og sækja það, og láta oss heyra það, svo vjer getum gjört það. Því það orð er harla nærri þjer, í munni þínum, í hjarta þínu, svo að þú gjörir það" (5. Mós. b. 30, 11—14). Þó kristileg fræði sjeu komin til vor langt að, þá á þó boð Guðs, sem á að stjórna lífi voru, ekki þannig heima í fjarlægum löndum, að menn þurfi að sækja það yfir hafið, eins og hina fágætu dýrgripi jarðarinnar. Það er oss harla nærri, og er það, sem allar tungur kalla hið góða, og öll hjörtu finna er gott; þess vegna er hægra að finna það með góðum vilja, enn djúpsæum skarpleika. Það verður að vera til í líferni manna, fyrr enn vjer getum farið að hugsa út í það, og koma því fyrir í hið margbrotna kerfi siðfræði vorrar. Og þess vegna þurfum vjer ekki í þessu efni, að fara fyrst svo sem upp til himna, til þess að líta þaðan yfir lífið á jörðunni, heldur byrjum vjer á því, sem oss er næst, og hver getur komizt að, og finnum þá, að það boð, sem býður oss, sem letur og hvetur, launar og hirtir, með þvílíku valdi, er ekki mannlegs uppruna, heldur guðlegs; og er vjer heyrum það og könnumst við það hjer á jörðunni, þá knýr það oss til, að líta neðan að og upp eptir.

Upp eptir — til hvers, nema til hans, sem heilagur er, sem margar tungur hafa afneitað, en öll hjörtu hafa fundið nálægan — til hins almáttka Guðs? Enda á þessum tímum truflsins og efasemdanna, þegar öll undirstaða skalf, og hver villa rak aðra, hefi jeg þó vitað menn, sem hjeldu sjer við hinn ósýnilega, eins og þeir sæu hann. Jeg hefi ætíð hlotið að virða það, þegar jeg hefi sjeð meðvitundina um Guð fylgja einhverjum, hvar sem hann fór — þegar hann hagaði sjer eptir ráði Guðs, þó það væri honum myrkt

og ervitt, þegar hjarta hans var harmþrungið, og hann sagði samt: Drottinn gaf, Drottinn tók, lofað veri nafnið Drottins! — þegar hann, eins og sagt er um þann mann, sem kallaður er faðir hinna trúuðu, trúði með von, þar sem einskis var að vona (Rómv. 4, 18), og möglaði ekki, heldur beið frelsunar frá Drottni! Hver, sem nokkurn tíma hefir haft þetta hugarfar, mun hafa fundið, að það er gott og sælufullt; og hver, sem ekki hefir haft það, mun þó hafa öfundað þá af hvíldinni, sem skynja og finna, að vjer lifum, hrærumst og erum í Guði, og finna það eins gjörla, og brjóstið finnur andann, sem það dregur að sjer. En þessir menn, er höfðu áunnið sjer sannfæring, sem ekki bifaðist í stormum lífsins og straumi tímanna, hvernig áunnu þeir sjer hana? Byrjuðu þeir á, að ætla sjer að komast upp á hæsta tind vizkunnar? reyndu þeir fyrst, að lypta sjer í hinar hæstu hæðir, líta Guð augliti til auglitis, og læra að tala um eylífa vegsemd hans, með orðum, sem eru henni algjörlega samboðin? Enginn finnur trúna, sem ætlar sjer undir eins að byrja á því, að sækja hana til himins upp; hafi hann hana ekki til að bera áður, þá flækist hann þar í þungar hugsanir, og traust og fullnægja hverfa burt úr sálu hans. Hversu feginn vildi jeg kalla til sjerhvers, sem svimi er kominn yfir á þessum hæðum, og skyggnist um kvíðafullur, hvar hann megi sjá jörðina undir fótum sjer, en kemst þó bráðum þangað, er hann ekkert sjer, því birta himinsins blindar hann, og jörðin hjúpar sig þoku, og hylst augum hans — hversu gjarna vildi jeg kalla til sjerhvers þvílíks villuráfanda manns: Snú þú aptur til jarðarinnar, því á hana setti Guð þig, og þú ert ekki enn nógu vanur og öflugur, til að hætta þjer á slíkt flug; en þarna á jörðunni, bústað þínum, skaltu opna augu þín, og skyggnast um eins langt og eins vel og þú getur. Og þá, þegar þú sjer jörðina allt um kring, með öllum saman auðæfum sínum, og þegar þú sjer hinn sýnilega himin uppi yfir þjer, með öllum saman hersveitum sínum, og lítur alstaðar hinar ótæmandi nægtir, er guðleg fyrirhyggja lætur í tje sjerhverri skepnu eptir þörfum hennar; þegar þú athugar þann mátt, er leiðir mennina gegnum lífið, hinn undarlega ósigranda mátt, er setur ofurhuganum skorður, og segir: Hingað skaltu komast, en ekki lengra, hjer skulu

háöldur þínar brotna! sem veitir hinum auðmjúka líkn, sem hirtir oss, og lítur aptur til vor miskunaraugum, sem gefur oss krapta til að bera, þegar oss liggur við að hníga undir byrðinni, sem lætur hjálpina vera næsta, þegar neyðin er stærst — Ó! jeg nefni nú að eins fátt eitt af því, sem eylífur Guð lætur vera umhverfis oss á jörðunni, til vitnisburðar um sig; en þetta hið fáa er þó nóg til að fylla sálina með tilbeiðslu, og til að kenna tungunni að segja: Drottinn! og hjartanu að segja: Faðir! og þetta hið fáa er nóg til, að sýna oss þá stefnu, er vjer eigum að taka í hugleiðingu vorri; og til að kenna oss, hvernig það geti verið smælingjum bert, sem hinir vitru og spekingarnir fundu ekki á háflugi hugar síns.

Eitt nafn er til, sem æðra er öllum nöfnum, göfgað og vegsamað hverju nafni meir, einnig hatað, ofsótt og smáð, en á því hefir tign þess í engu minnkað; það hljómar um alla veröld, það hljómar í höllum hinna voldugu og hreysi hins vesæla, í harki og háreysti lífsins og í þögn og einveru dauðans, í eyrum hins vitra og hins fákæna; það hljómaði mjer í eyra nærri því nafna fyrst, og komst inn í hugskot mitt með sætleik sínum, og nam þar staðar; veraldarglaumur og veraldarspott hafa ekki megnað að slíta nafnið Jesú Krists út úr hjarta mínu. En nú veit jeg, að trú mín á að vera öflug, hrein og skír, og að jeg á að gjöra grein fyrir þeirri trú, og þeirri von, sem í mjer er; og hvernig á jeg þá að búa mig undir það? hvernig á jeg að rekja hugmyndir kristinnar trúar í rjettu sambandi? hvernig skal jeg veita þeim afl til að sannfæra mig og aðra? Á jeg að byrja á hinu efsta, og sökkva mjer í djúp guðlegrar veru, til að geta skilið, hvernig hann var í upphafi; og var hjá Guði, og var Guð, og til að geta skilið hina huldu eining Föður og Sonar? Hann sýnist sjálfur vísa mjer þar frá, er hann segir: Enginn þekkir Soninn, nema Faðirinn, og enginn þekkir Föðurinn, nema Sonurinn, og sá, er Sonurinn vill birta það (Matth. 11, 27); og þó hann vilji, vjer þekkjum og trúum, að hann sje í Föðurnum, og Faðirinn í honum (Jóh. 10, 38), þá vill hann ekki leiða oss til sín um hina dymmu leið grufls og efasemda. Komið hingað — segir hann — þjer, sem erviðið og þjáizt! jeg vil veita yður hvíld (Matth. 11, 28). Með því vísar hann oss fyrst á það,

sem næst er, og að gefa gætur að ástandi voru hjer á jörðunni. Ef þú hefir byrði að bera í veröldunni, ef dagurinn er heitur og erviður, ef mæða og synd og sorg eru til í veröldunni, ef þar eru sjúkleikar, sem mannleg kunnátta megnar ekki að græða — og þú finnur til þessa, finnur til baráttu þinnar í efasemi, í ótta, í hryggð; þá muntu einnig finna, að það orðið, er talar um hvíld handa sálum vorum, er rödd hjer að ofan, sem talar til vor í eymd vorri; þá mun hugur þinn aðhyllast hann, er nefnist fræðari og meistari þeirra, sem vilja nema, hirðir þeirra, sem villast, græðari þeirra, sem enginn, utan hann, megnar að græða, hjálpari þeirra, sem ekki mega sjálfir hjálpast, er færir þeim líf og eylífa fullsælu, sem sitja í myrkri dauðans. Þegar þú hyggur í kringum þig hjer á jörðu, þá muntu finna hann; leitaðu hans fyrst, eins og hann var á jörðunni; gakktu til Bethlehems; sjáðu þar í jötunni sveininn, sem öll fyrirheitin fylgja, sem á að verða mikill, og nefnast sonur hins hæsta; fylgdu honum á lífsferli hans hjer á jörðu, þegar hann gekk um kring og gjörði gott; sjáðu hvernig veikindin flýðu, augu blindra lukust upp, grafirnar opnuðust að boði hans; fylgdu honum á píslargöngu hans, allt þangað til, er hinn nýi sáttmáli var stofnaður á hinni miklu stund, er hann gat með sanni sagt: það er fullkomnað; nemdu staðar við gröfina, þar sem þeir hafa lagt þann, sem einn er rjettlátur af öllum mannanna sonum, þann, sem er hógvær og af hjarta lítillátur; bíddu þar, til þess að gröfin opnast, til þess hinn mikli sigurvegari gengur fram; láttu hann birta sig þjer, dýrðlegan og alskæran orðinn, til þess hann líður burt um vegu ljósanna! Þessir hlutir eru orðnir á jörðunni: þú yfirgefur ekki það svið, sem þjer er til vísað, og hættir þjer ekki of hátt, þótt þú íhugir þetta. Eigi að síður lyptir það máttuglega sjón þinni hjeðan og upp til hæða; horfðu eins langt og þú megnar; en þegar þú sjer ekki lengra, þá snú þú aptur, og setztu undir kross Krists, eða hvar þar, sem hugur þinn býður þjer að dveljast með honum; því hann er í heiminn kominn, til að sameina hið guðlega hinu mannlega, og birta smælingjum það, sem mannlegt vit aldrei fullskilur af sjálfsdáðum, og fyrir þá skuld optlega neitar af drambsemi sinni. Þetta á að vera stefna vor: ekki ofan að og

niður eptir, heldur neðan að og upp eptir; þó vjer megnum ekki að grannskoða allt, skal þó sála vor ná svo langt, að hún geti hvílt í faðmi hins eylífa kærleika.

---

# 3.

## MEÐVITUNDIN UM GUÐ.

Víst er þessi veröld auðug að margbreyttum og mikilvægum hlutum; þótt augu vor þreytist aldrei að horfa, fá þau samt aldrei fullskoðað þá alla saman, og þótt eyru vor þreytist aldrei að heyra, fá þau aldrei fullheyrt um eðli þeirra — og samt sem áður er enginn sá maður til, sem ánægður sje með þekkinguna á eintómum hlutum hins sýnilega heims. Þó vjer gjörþekktum allar þjóðir og allar tungur; þó dýrin hefðu mætt frammi fyrir oss — sjerhver hinna þúsund sinnum þúsund tegunda — eins og þau forðum mættu fyrir augliti hins fyrsta höfðingja jarðarinnar, þó vjer hefðum litið niður í undirdjúpin, og vissum, hvað þar er geymt, og hefðum talið stjörnur himinsins: þá mundum vjer samt sem áður girnast að þekkja enn þá meira, og að þekkja eitthvað öllu þessu háleitara; því sálin nær ekki að hvílast í hinum sýnilega heimi, heldur einungis í hinu ósýnilega.

Er það ekki undarleg löngun, sem leitar þannig á burt frá auðæfum veraldarinnar og til þess, sem mannleg augu aldrei hafa sjeð og aldrei geta sjeð, sem girnist upp til þeirrar veru, er engin orð geta lýst og enginn hugur numið! Samt finn jeg, að þessi löngun ríkir í djúpi sálar minnar; snemma bauð hún mjer að leita þekkingar á Guði, ekki einungis með því að hlýða á aðra, og læra orð og nöfn, heldur hvatti hún mig að leita Guðs sjálfur, þangað til jeg fann hann.

Og þegar jeg leitaði þannig, hversu berlega kannaðist jeg þá

optsinnis við sannindi hinna gömlu orða: Guðs ósýnilega vera, hans eylífi máttur og guðdómleiki, er sjén frá upphafi veraldarinnar, og sýnir sig í verkum hans (Rómv. 1, 20). Því allir hlutir, sem Guð hefir skapað, vitna um hann; þó þeir fari þegjandi leiðar sinnar, þó þeir sjálfir finni hvorki nje skilji guðlega dýrð skapara síns, lýsa þeir henni samt berlega fyrir þeim, er megnar að skilja, því Drottinn setti merki sitt á þá alla saman. Þegar jeg með þessu móti kannast við tilveru Guðs, er það þá eptir skynsamlegri ályktun, eður veldur því einber upprunaleg tilfinning? Jeg veit það ekki. En blómið í dalnum, sem hvorki hefir ofið nje spunnið, það segir: Guð skrýðir mig; og fuglinn í loptinu, sem ekki sáir og ekki safnar í hlöðu, segir berlega: Guð elur önn fyrir mjer; og hnettirnir uppi yfir oss, sem velta fram um himinleiðirnar, kyrrir og staðfastir yfir öllum ókyrrleika jarðarinnar — ekkert nema daufur geisli af ljósi þeirra getur náð til auga míns; en í næturþögninni segja þeir við mig berlega: Almáttugur Guð stjórnar oss. Um fögur kvöld, um stjörnubjartar nætur, í forsælu skógarins, eður á ströndinni við hið ómælanda haf, er guðsafneitun varla möguleg; og það sem vjer þá finnum til, getum vjer gjört að ljósum hugmyndum, og raðað því niður í ályktanir, sem hver er byggð á annari, og skilningurinn varla fær í móti mælt. En á þessari örðugu leið, gegnum langar raðir hugsana og ályktana, verða fyrir oss margs konar efasemdir, sem ekki er svo hægt að hrinda; sálunni fatast smátt og smátt að sjá yfir það allt saman, og þegar hún að lokunum hefir brotizt fram úr hverjum einstökum lið í þessu kerfi hugmyndanna, og þegar hún að lokunum hlýtur jafnvel að fallast á þá sönnun, er þykir fullnægja skilninginum, þá getur samt verið, að hún fallist á hana með leynilegum ótta fyrir, að skilningurinn sje afvega leiddur, og að eitthvað rangt hafi læðzt inn í þann hinn langa reikning orða og hugmynda, svo að hún, ef til vill, samsinni ekki með fullkominni sannfæringu; því sannfæringin heimtar skíra og staðfasta meðvitund um, að þannig sje því varið, og það geti ekki öðru vísi verið. Það er líka alkunnugt, hversu hæglega sannleikurinn truflast á þenna hátt. Vjer sjáum það optlega um þessar mundir, hversu hæglega það fer svo, einmitt fyrir þeim hinum skarpvitrustu, að hinn lifandi

Guð ummyndast og verður að náttúrunni, að alheimi, að óendanlegum krapti, að einhverju guðdómlegu, er streymir í gegnum allt sem til er, eður að einhverri af hinum öðrum hugmyndum, sem þeir búa sjer til, er kalla skuggann veruna, og geislann, er skín yfir hinu skapaða, ljóssins eylífu uppsprettu.

Þannig er því varið: hversu inndæl og affaragóð sem skoðun hins sýnilega heims er huga mínum, hversu nálæga sem jeg þar fæ optsinnis að líta dýrð Guðs á verkum hans, hversu opt og hversu feginn sem jeg vík aptur til þeirrar hinnar sömu skoðunar, getur hún þó samt sem áður ekki veitt mjer óræka fullvissu. Sú sannfæringin, sem mjer er mest áríðandi, gagntekur mig ekki eins kröptuglega af þessari skoðun, eins og af tveimur tilfinningum, sem jeg ber í brjósti mjer. Láti jeg þær ná að þróast fyllilega, boða þær mjer tilveru Guðs með svo miklum styrkleika sannfæringarinnar, að ætti jeg að afneita Guði, yrði jeg jafnframt að afneita sjálfum mjer. Þessar tilfinningar heita ótti og elska.

Þegar jeg nefni óttann á þessum stað, gjöri jeg það engan veginn í sama skilningi og þeir, er halda að jarðneskur ótti sje uppspretta allra mannkynsins hugmynda um Guð og allrar guðlegrar tilbeiðslu. Því fer svo fjarri, að hefðum vjer ekki öðlazt þekkinguna á Guði með öðru móti, þá hefði þessi ótti aldrei getað veitt oss hana. — Sá hinn jarðneski ótti gjörir helzt til snemma vart við sig í oss. Vjer finnum ekki einungis til bágindanna, þrautanna og hættunnar, sem komin er að höndum, en vjer erum einnig fúsir á að ímynda oss allt hið illa, sem enn þá geti verið ókomið; vjer sjáum það er ekki framkomið, en vjer finnum þó þegar til þess. Vjer óttumst öfl náttúrunnar, vjer skiljum að þau eru oss yfirsterkari, og vjer höfum reynt, að þau geta risið upp og eytt og brotið; vjer óttumst bruna sólarinnar og kulda vetrarins; vjer óttumst að loptið, sem vjer öndum, sem breiðir sig svo blíðlega umhverfis oss, og myndar himinblámann uppi yfir oss — að það muni æsast af ofviðrum, eður að það muni eitrast og olla banvænum sóttum; vjer óttumst dropa hins frjófsama regns, að þeir muni frjósa og verða að hrynjanda hagli; vjer óttumst hinar straumhörðu ár; vjer óttumst hafsins blíðlegu öldur, að þær muni æsast og brjóta

allar stíflur og flóa yfir hin blómguðu lönd; vjer óttumst jörðina, sem vjer göngum á — vjer óttumst, segi jeg, hina kyrrlátu, óbifanlegu, dauðu jörð, að hún muni skjálfa undir fótum oss og umturna verkum vorum. Þar á ofan óttumst vjer aðra viðburði, sem náttúran er ekki að völd, þeir er ýmist steypa löndum og þjóðum, eður farsæld einstakra manna. Vjer óttumst mennina umhverfis oss; vjer vitum, að það sem vjer köllum illt leynist einnig í þeim og getur brotizt fram með mörgu móti, og að vjer sjálfir erum að miklu leyti á valdi þeirra. Vjer óttumst endalok allra mannlegra hluta — vjer óttumst dauðann, því hann er oss máttkari og vjer vitum ekki, hve nær hann muni koma og hrífa frá oss þá, er vjer elskuðum, eður hrífa oss sjálfa burt frá þeim og öllu því, sem oss er dýrmætast. Samt sem áður er ekkert það í öllum þessum margháttaða ótta, er leiði oss beint til Guðs, því jeg hlýt að þekkja Guð, áður enn mjer geti hugkvæmzt, að þetta sje allt saman á hans valdi, að hann ráði öflum náttúrunnar og stjórni gjörðum mannanna, og áður enn jeg geti ímyndað mjer, að dauðinn sje af Drottni sendur. Þegar mennirnir annarstaðar að eru búnir að fá hugmynd um Guð, þá getur mjer skilizt, að þeir eigni Guði allt það sem við ber, og að hugmyndin um Guð aflagist smátt og smátt í huga þeirra, svo þeir fari að reyna til að ávinna sjer hylli Guðs með ýmsum hjátrúarbrögðum, til að fá umflúið tímanlega ógæfu. En það getur mjer ekki skilizt, hvernig voðalegir atburðir náttúrunnar geti komið mönnunum til að eigna þá af sjálfsdáðum reiði guðlegrar veru, og hvernig einber skoðun sólarinnar komi þeim til að segja: þú ert guðleg vera, þú lifir og veizt til þín og vilt mjer ýmist vel eður illa; eður hvernig eintómur ótti fyrir veldi annara manna, er rísa í móti þeim, geti skotið þeim í hug að leita sjer verndar af guðlegu veldi og ósýnilegu, er þeir á einhvern hátt geti komizt í samband við og komið því til að veita sjer sigur og hefnd. Að minnsta kosti er þetta samband svo óljóst, og mótsagnir og efasemdir horfa svo beint við, að vjer með engu móti getum byggt á þessum hlutum neina játningu, er kalla megi trú, eður neina sannfæringu, er geti verið oss til leiðbeiningar eða til friðunar sálum vorum.

En það er allur annar ótti, sem býr í brjóstum mannanna, er vjer rjettilega megum kalla helgan ótta. Þú veizt með sjálfum þjer, dýpst í fylgsknum meðvitundar þinnar, að munur er á rjettu og röngu, og að þessi munur er ekki hið sama, sem munurinn á því sem þægilegt er og óþægilegt. Ávinningur stóð þjer til boða; þú girntist að ná honum og gazt náð honum; hann hefði getað ljett þjer lífskjör þín og gjört þjer æfi þína unaðarmeiri; en undarlegt lögmál er einnig til, er þannig hljóðar: Þú mátt ekki taka þessi gæði, er bjóðast þjer; þú átt ekki að girnast neitt af því, sem náungi þinn á; þú átt ekki að stela og ekki að svíkja, og þú átt ekki að halda því fje, sem þjer er fyrir trúað. Löngun bjó í brjósti þjer, sem þú gazt fullnægt og girntist að fullnægja öllu fremur, en engill lögmálsins stendur fyrir dyrum sælu þinnar og sveiflar leyptranda sverði og bægir þjer á burt og sýnir þjer lögmálstöflurnar, þar er skrifað stendur: Þú mátt ekki. Ef þú nú samt sem áður fremur hið illa, metur nautnina meira enn rjettindin, og farsæld þína, sem þú kallar, fremur skyldunni; hvers konar undarlegur ótti er það, sem vaknar þá í sálu þinni? Afbrot þín eru, ef til vill, dulin mannlegum augum; mennirnir hafa, ef til vill, ekki gefið gaum að þeim, eður fyrirgefið þau, eður gleymt þeim, eður jafnvel lofað þau og goldið þjer laun fyrir illgjörðir þínar — hvað er það þá, sem þú óttast? Ó! þessi ótti, þessi skelfing í brjósti syndarans, þegar samvizkan vaknar — hvað er sú tilfinning annað, en boðun nálægðar hins eylífa Guðs? Sje enginn heilagur Guð, sem hafi gefið lögmálið, er þú brauzt, sje þetta lögmál gjört af sjálfum þjer, eður einber mannlegur vani: hvers vegna óttastu þá lögmálið svo mikillega? Sje enginn rjettur Guð, er heimti að lögmáli hans sje hlýtt, sje ekki allur friður falinn og öll sæla búin í samvistinni við hann, og öll eymd í missi hans miskunar: hvers vegna skelfur þú þá og titrar?

Jeg kallaði þenna ótta helgan ótta; og sjerhver mun sannlega finna, að hann má ekki missa sín úr mannlegu brjósti. Bezt mundi fara, að mennirnir fyndu ekki til annars ótta. Ef vjer sjáum þann mann, sem ekkert hirðir um, hvað sjer muni mæta í veröldinni, þá þykir oss að vísu geðslag hans ekki með öllu virðingarvert;

en ekki getum vjer borið á móti, að það sje lán hans, og ekki getum vjer vandað um það við slíkan mann, láti hann það ekki ginna sig til að gjöra neitt það sem illt er. Og ef vjer sjáum þann mann, sem hefir kannazt við skelfingarnar á lífsins leið og sigrazt á þeim með hugprýði sinni, þann mann, sem á nógan styrkleika, til að sjá eyðinguna geysa fram umhverfis sig og hreggviðri forlaganna að ganga upp yfir höfði sjer, og ekki lítur undan, en þrjózkast gegn mætti mannanna og einskisvirðir reiði þeirra — þá getur verið, að oss virðist sem eitthvað sje að geðslagi hans, en varla munum vjer geta synjað honum virðingar vorrar. En mundum vjer þá einnig virða þann mann, sem hefði byggt ótta Drottins út úr hjarta sjer og svifist ekki við að þrjózkast gegn hinum eylífa og hinum rjettláta Guði?

Þessi ótti, sem mennirnir geta þaggað niður, en aldrei rekið með öllu á burt, sem þeir geta hæðzt að með vörunum, en aldrei með öllu afneitað í hjartanu, þessi ótti er ein þeirra tilfinninga, sem tengja mennina við Guð og lífga trúna í hjörtum þeirra. Því ef vjer ímyndum oss mann, sem freistingar vantrúarinnar ásækja, ef það liggur við, að hæðni veraldarinnar, eður glaumur hennar, eður hryggð — að óvinur Guðs og manna — ætli að geta talið honum trú um, að enginn Guð sje til, reyni þá sá hinn sami að segja við sjálfan sig, í samvizku sinni: Fyrst að enginn Guð er til, þá má jeg gjöra allt, sem jeg vil, og allt, sem jeg get, í veröldinni; geti jeg dulið það fyrir mönnum, þá er enginn til, sem viti það, því Guð hinn alvísi er ekki til; geti jeg umflúið veraldlega hegningu, þá er enginn sá er hegni, því enginn almáttugur og enginn rjettlátur Guð er á himnum; jeg vil veita sjálfum mjer og öllum mönnum fullt frelsi, vjer skulum afla oss veraldlegrar sælu og veraldlegs hagnaðar; því ef vjer hljótum ekki hagnað og sælu í þessu lífi, hljótum vjer það aldrei þaðan í frá. Þetta væri rjettilega hugsað, ef vantrúin hefði satt að mæla, en enginn maður þolir að hugsa slíkar hugsanir á enda; því óttinn fer á undan því illa, eður hann verður því samfara, og þessum ótta verður ekki á burtu rýmt. Eðli sálar vorrar neyðir oss til að játa því lögmáli, sem ekki verður umbreytt nje afmáð; en þegar vjer könnumst við þetta lögmal, þá könnumst

vjer einnig við þann, er lögmálið setti, þá játum vjer að Guð sje til, og að hann sje Drottinn og dómari allra vor. Og þessi sannfæring verður ljós og vakandi í huga vorum, hvert sinn er vjer látum ótta Drottins aptra oss frá að fremja það, sem illt er, því eins og þekkingin á Guði vekur oss og eflir til að lifa ráðvöndu lífi, þannig eykur á hinn bóginn þvílíkt líferni þekkinguna á Guði og eflir hana.

Satt er það að vísu í allan máta, að kærleikur er betri, enn ótti, svo að ef vjer alla daga værum algjörðir í kærleikanum, þá þyrftum vjer ekki óttans við, til að reka eptir oss. En æ því miður! harla mikið er á vant, að vjer sjeum svo gagnteknir af elskunni á Guði og náunga vorum, að vjer þurfum aldrei aðra hvöt. Taktu á burt ótta Drottins, og þá munt þú um leið taka á burt einhverja traustustu stíflu fyrir syndum og vonzku þín og annara. Þar á ofan er þetta hin tiltekna röð: fyrst kemur lögmálið og síðan boðun fagnaðarins; svo er það fyrir öllu mannkyninu og fyrir sjerhverjum einstökum manni. Þú munt ekki leita lækningarinnar á Golgata, nema ógnanirnar frá Sínaí sjeu búnar að duna í eyrum þínum; þú verður ekki hluttakandi hins nýja sáttmála, nema því að eins, að þú hafir áður verið hluttakandi þess hins gamla; þú leitar ekki Guðs svo sem frelsara, nema þú hafir áður þekkt hann svo sem löggjafa, og óttast hann svo sem dómara.

En hversu helgur, hversu nytsamur og affarasæll, sem þessi ótti er, eigum vjer þó engan veginn að staðnæmast í óttanum, því elskan er háleitari og æðra eðlis. Því segir postulinn til hinna kristnu: þjer hafið ekki þegið þrældómsanda, svo þjer skylduð aptur verða hræddir, heldur hafið þjer þegið anda kosinna sona, og samkvæmt honum kallið þjer Guð yðvarn föður (Róm. 8, 15). Því segir einnig annar postuli, að full elska reki óttann út, því kvöl sje óttanum samfara, og sá sem óttast sje ekki algjör í elskunni (1. Jóh. 4, 18). Af þessu leiðir, að elskan er sú tilfinning, er sameinar mennina Guði með fegurra móti, enn óttinn getur gjört.

Elskunni á Guði er og þannig varið, að hún er eins eðlileg mannlegu brjósti, eins og óttinn fyrir Guði. Og velgjörðir Guðs við mennina, sem eru svo miklar og margar, vekja þessa elsku

og glæða hana. Þegar Guð lýkur upp fjársjóðum himins og jarðar, þegar hann kallar á oss svo segandi: Njótið og sjáið, að Guð er góður! Þegar lífið er fagurt og líkami vor heilbrigður og hjarta vort glatt, — þá taka að vísu margir við gjöfinni, og gleyma þeim er gaf, en margir eru einnig, er segja: Látum oss elska hann, því hann elskaði oss að fyrra bragði. En á þá elskan til Guðs að slokkna, þó Guði þyki ekki ráð, að veita oss veraldleg gæði eins og vjer beiðumst? Vjer heyrum óteljandi raddir umhverfis oss í heiminum, er segja: Hefði Guð veitt oss þær velgjörðir, þá gæfu, það inndæli, þann auð, þann heiður, þann styrkleika, er vjer girntumst, þá mundum vjer einnig hafa þakkað honum og elskað hann, en vjer játum, að fyrst hann hefir svo optlega synjað oss þess, er vjer beiddumst, og tekið svo optlega aptur það er hann gaf, er hjarta vort farið að kólna, og oss langar ekki eins mikið til hans, og vjer finnum, að vjer erum honum ekki eins nátengdir og vjer áður vorum, meðan vonin á miskunsemi hans var óröskuð. Það lítur þá út, eins og þeir, sem þetta mæla, vilji ekki leita Guðs, nema til að fá það, sem þeir girnast, og ekki endrarnær. Þeir hirða ekki um gjafarann, en heimta gjöfina; þessir menn gætu verið án Guðs, ef þeir væntu sjer ekki velgjörða af honum.

Þetta er allt saman eintóm sjerplægni, þetta er ekki elska; því sá sem leitar annarar veru vegna einhvers annars, enn sjálfrar hennar, og vill ekki lifa í henni, heldur einungis í sjálfum sjer, hann elskar hana ekki. En ef vjer íhugum sanna elsku á Guði og gefum henni mál, getum vjer ekki látið hana mæla, utan á þessa leið: Jeg girnist þig ekki, Guð minn! og leita þín ekki, að þú skulir fullnægja óskum mínum og efla hamingju mína, en jeg leita þín — vegna þín sjálfs; þó að þú ekki hefðir vald á öllum hinum stundlegu gjöfum, er þú útbýtir svo ríkulega um alla jörð — og hefir einnig gefið mjer slíkan skerf, sem speki þinni þótti bezt henta — þá mundi jeg samt sem áður leita þín, af því þú ert sjálfur hið æðsta hnoss, af því þú ert alfullkominn, af því enginn getur elskað eins og þú — þú sem ert faðir allra! — og af því að jeg get engan elskað eins og þig. Eður elskum vjer hjer á jörðu feður vora og bræður og vini, fyrir þá aðstoð eður

þann hagnað, er þeir veita oss, eður fyrir sakir gjafa þeirra? Ef þeir hefðu ekkert að gefa oss, mundum vjer elska þá minna fyrir það? Eður á elska vor á þeim, sem oss eru nánir hjer á jörðu, að vera hreinni og viðkvæmari og ósjerdrægari, enn ástin á þeirri veru, sem allar verur eru af sprottnar, og vjer lifum, hrærumst og erum í? þó að vjer ættum öll önnur gæði, en værum sviptir föðurnum á himnum, þá hefðum vjer sannlega misst það sem bezt var. Ef ekkert væri til, utan náttúra meðvitundarlaus, og þó henni væri svo fyrirkomið, að allt skyldi þróast og dafna öllum til góðs og til góðs handa sjerhverri einstakri veru; þó henni væri svo fyrirkomið, að sála vor gæti lifað í dauðanum, en engin lifandi Guð væri til, er vjer gætum nálægt oss á tíma bænarinnar, og á dauðastundu vorri, — ó! hver sem nokkru sinni hefir fundið til elskunnar á Guði í brjósti sjer, hann mun einnig finna, að væri þetta þannig, þá væri það horfið, sem eitt saman megnar að fullnægja sálu vorri og að gjöra hana sæla.

þessi sífellda löngun guðrækinna manna eptir Guði, þessi furðulega, rótgróna fýsn, er sífelldlega snýr huga þeirra og löngun og allri ástundun til Guðs, hún hefir einnig í sjer fullvissuna um að Guð er til. því sjerhver löngun, sem lifandi skepnum er meðsköpuð, leitar örugg að takmarki sínu og verður að geta fundið það. Væri það ekki til, sem fullnægir fýsninni, þá væri fýsnin til einskis. þegar hunangsflugan flýgur í fyrsta sinn úr búi sínu, þar sem hún lifnaði, á hverju veit hún að grös sjeu til, sem geymi í sjer vax og hið ilmanda hunang, af hverju veit hún það, utan af fýsninni, sem gerir hana að þeirri veru, sem hún er, og kemur henni í samband við tilveruna kringum sig — fýsninni, sem knýr hana til að leita? og sjá, hún finnur! Á hverju veit fuglinn, sem flýr undan vetrarkuldanum, að heitari lönd sjeu til, er geti veitt honum fæðslu, af hverju ratar hann leiðar sinnar yfir fjöll og dali og ólgusjó, utan af fýsninni, er leiðir hann óyggjanlega að því takmarki, sem hann stefnir að? Sjerhver skepna, sem hungruð er, finnur á jörðunni, í loptinu, í sjáfardjúpinu, fæðslu til að fullnægja þörfum sínum; hún hefir ekki látið hana þar sjálf, ekki sáð og ekkert í haginn búið. Samt sem áður leitar hún örugglega, hún

leitar og finnur. Og þú hin rótgróna, helga, óuppprætanlega löngun í mannlegu brjósti, sem leitar hins eylífa kærleika, mundir þú ein saman leita til ónýtis? Ó! eins og sú tilfinning í brjósti mjer, er titrar af meðvitund um synd og spillingu, hefir í sjer sannfæringuna um tilveru hins rjettláta dómara, þannig kannast sú tilfinning elskunnar í brjósti mínu, sem ekkert á jörðu getur fullnægt, með fullri vissu og trúnaðartrausti við föðurinn á himnum. Guð hefir gjört oss handa sjer, og sú löngun, er leitar upp til hans af dauðlegleikans landi, og ekki er fundin með hugviti, og ekki verður með hugviti ónýtt, hún er sá vitnisburður, sem Drottinn ber sjálfum sjer í hjörtum allra þeirra, sem tilfinningu hafa. Það er Guð sjálfur, sem kallar oss til sín með þessu móti; og sá sem kallar, hann er til, og mun leyfa þeim að finna sig, er leita hans, og mun svara oss aptur, þegar vjer áköllum hann.

---

## 4.

### GUÐLEG OPINBERUN.

Jeg hefi nefnt þær tvær tilfinningar hjarta míns, er tengja mig fastast við Guð, óttann og elskuna. Hvernig sem hugur minn villist á stundum og hverjar efasemdir sem leitast við að smegja sjer inn í hugskot mitt, get jeg samt á augabragði sefað þær allar saman, ef jeg að eins spyr sjálfan mig: Þorir þú nokkurn tíma að afneita Guði. Hefir þú lifað nokkra þá stund, að meðvitund hjarta þíns hafi leyft þjer að segja: það er enginn Drottinn yfir þjer, gjör þú hvað þjer líkar í veröldinni — og þessu næst: geturðu afneitað Guði; geturðu látið hjarta þitt verða munninum samdóma, ef hann segði: vjer eigum engan föður á himnum, og elskan, sem leitar upp til hans og nær ekki að hvílast utan í honum einum, hún er ekkert annað, enn eintóm svikul og ástæðulaus

tilfinning, risin af ólgu blóðsins í æðum þínum, eður af hjegómlegum hugsunum?

En það sem jeg finn til, hlýt jeg eptir eðli mínu að leitast við að skilja, að svo miklu leyti, sem mjer er það auðið. Því optar, og með því meira afli, sem hin sama tilfinning kemur aptur í mannlegt hjarta, þess betur greiðist úr henni í huga skynsamra manna, svo hún verður að ljósum hugsunum, og þær gjöra aptur tilfinninguna styrkvari og staðfastari. Þannig leitar hin öndverðlega og eðlilega meðvitund um Guð, að verða að þekkingu á Guði. En hvernig get jeg öðlast þessa þekkingu?

Jeg þekki að vísu þær mótbárur, er menn eru vanir að beita, eins og vildu þeir bægja oss frá þeim hugarburði, að vjer getum öðlast nokkra þekkingu á Guði; og þessar mótbárur líta út, eins og eitthvað sje satt í þeim. Óendanlegur Guð, sem ekkert auga hefir sjeð nje megnar að sjá, sem býr í því ljósi, er enginn fær tilkomizt, sem er ekki takmarkaður á nokkrum stað, að vjer getum sagt: þar ríkir hann, þar er bústaður dýrðar hans! og ekki undirorpinn lögmáli tímans, að vjer getum sagt: þá varð hann til, þá kom vera hans í ljós, ófæddur, óskapaður, samur frá eilífð til eilífðar! við hvað eigum vjer að líkja honum? allar myndir hjaðna fyrir dýrð hans, eins og vaxið hjaðnar fyrir eldinum. Með hverju eigum vjer að lýsa honum? öll orð, sem til eru, missa þýðingu sína, þegar á að hafa þau um guðlega veru; gagnsjenn og skoðaður af sjálfum sjer einum, órannsakanlegur mönnum og allri endanlegri skynsemi, hulinn Guð — hvernig á að þekkja þennan Guð hjer á jörðu? hvernig eiga jafnvel smælingjarnir og fáfræðingarnir að geta fengið þekkingu á þessum Guði? og hennar þurfa þeir þó við, ekki síður, enn hinir vitru og spekingarnir.

Mikið er of hermt í þessum mótbárum, því er ekki fyllilega svo varið, að mannlegt vit sje svo veikt, að það geti ekki hugsað sjer Guð, mannlegt mál svo fátækt, að það hafi engin orð, til að lýsa með guðlegum hlutum. En fyrst um sinn viljum vjer leiða þetta hjá oss, og svörum nú einungis á þessa lund: ef að mennirnir geta ekki hafið sig til Guðs, þá verður þekkingin á Guði ekki fengin með öðru móti, en Guð komi niður til mannanna og birtist þeim,

að sá Guð, sem hulinn er mannlegri sjón og skilningi, opinberi sig. það er upphaf allrar þekkingar, að það sem á að verða þekkt, komi fram fyrir hinn skoðanda og að hann ljúki upp skilningarvitum sínum til að verða var við, og hugskoti sínu til að nema. Upphafi þekkingarinnar á Guði er eins varið, það er að skilja, að Guð kemur fram fyrir oss, að vjer sjáum hann í verkum hans, og að vjer finnum í sálu vorri: Hjer er Guð. Öll þekking á Guði er þannig byggð á opinberun, og sjer í lagi er kristindómurinn byggður á einni einstakri tegund opinberunar; eigi því hugleiðingar mínar um kristindóminn ekki að verða hverful hugsun og reikandi ræða, hlýt jeg að halda mjer fastlega við þessa hugmynd.

Og þá kannast jeg í fyrsta lagi við það, að Guð opinberar sig í náttúrunni, í tilveru og niðurröðun sýnilegra hluta. þess vegna getur postulinn með sanni sagt, jafnvel um heiðingjana: það sem mennirnir geta vitað um Guð er opinberað þeim, því Guð hefir þeim það opinberað (Rómv. 1, 19). Bæði himin og jörð boða sannlega lofdýrð Guðs. Hver hefir litið yfir jörðina, þegar vorið fyllti hana grösum og blómum, eður þegar sumarið fyllti hana ávöxtum, hver hefir hvílzt undir skugga trjánna, hver hefir staðið á sjáfarströndunni, þegar hafsdjúpið tók að hrærast og bylgjurnar að geysa, hver hefir litið upp til hinna ómælandi hæða, sem hvelfast yfir öll lönd og öll höf, yfir allar athafnir mannanna, yfir allar hallir og öll hreysi, yfir allan grúa hinna lifendu og yfir allar grafir hinna dauðu, hver hefir gengið út í hið mikla musterið, sem ekkert annað musteri kemst í neina samlíking við — hver hefir gert þetta, án þess að heyra þúsund sinnum þúsund raddir boða lof og dýrð hins eylífa, og án þess að geta í blómum jarðarinnar og í stjörnum himinsins lesið nafn skaparans? þegar jeg fer að hugsa um það, sem jeg hefi þannig sjeð um ljósa daga og þögular nætur, þá hefi jeg að sönnu reynt, að jeg get smátt og smátt flækt mig í neti ruglaðra hugsana, svo mjer veitir örðugt, að geta litið í einu yfir þær allar, og greint hið rjetta frá hinu ranga; en þó koma jafnan hinar einföldu spurningar aptur að nýju og meðvitundin í brjósti mjer játar, að þeim verði ekki svarað nema á einn hátt: Er enginn höfundur

allra þessara furðuverka, sem vjer sjáum? er einungis veldi til, en enginn voldugur? er einungis speki til, en enginn spakur? Þar sem afleiðingar eru á alla vegu, er þá engin orsökin, engin upphafleg orsök? þar sem straumar lífsins renna á alla vegu, er þá engin uppspretta, þaðan er þeir komi? Í hinu breytanlega hlýtur þó eitthvað að vera, sem ekki breytist, eylíf vera, upphaf allra hluta. Og þessi vera — lýstu henni fyrir sjálfum þjer, eins og þú hlýtur að ímynda þjer hana. Er hún ekki annað, enn það sem vjer köllum náttúrukrapt? Er hún dauð? hún er þó uppspretta lífsins. Er hún blind? hún lýkur þó upp allra augum. Sá sem myndaði augað, mundi hann ekki sjá? Sá sem gróðursetti eyrað, mundi hann ekki heyra (Sálm. 94, 9)? Sá sem gjörði mannlegar sálir, svo að þær geti vitað af sjer og hugsað ljósum hugsunum, mundi hann ekki sjálfur skynja og ekki vita til sín og til vor? Sá sem kenndi veiku hjarta mannsins að farsælast af nægð ástarinnar, mundi hann ekki sjálfur vera ást? Ó! sannlega birtist ósýnileg vera Guðs, eylífur máttur hans og guðdómseðli, allt í frá sköpun veraldarinnar og verður skilin af verkum hans, svo vjer höfum enga afsökun (Rómv. 1, 20), ef vjer neitum.

Í öðru lagi opinberar Guð sig í þeim hlutum, er verða á jörðunni; hann opinberar sig sjerhverjum manni, allt frá hinni fyrstu stund, er barnið finnur sjer fæðslu tilbúna í brjóstum móðurinnar, sem það ljet þar ekki sjálft, og sem enginn maður ljet þar handa því — og þaðan í frá, allar þær stundir, er Guð seður munninn á fæðslu og hjartað á gleði (Post. g. b. 17, 27). Hann opinberast öllum kynkvíslum mannanna, er hann sýnir svo þráfaldlega, að yfir öllum breytingum hlutanna og ráðum og viðleitni mannanna sje Guð til á himnum, sem gjöri það, er honum vel þokknast (Sálm. 115, 3); því vor himneskur Faðir erviðar allt til þessa (Jóh. 5, 17). Hann þandi ekki að eins út himnana forðum daga og myndaði jörðina af mætti sínum, en það, sem enn þá verður á hverjum degi, leiðir ekki eingöngu af hinni fyrstu niðurröðun hlutanna, heldur sýnir það oss, að Guð heldur á fram að stjórna. Að vísu ber það optlega við, að vjer fáum ekki skilið ráðstafanir Guðs, meðan vjer stöndum í hinum geysandi stormum og sjáum

einungis, hversu stjórnlaust þeir æða hver á móti öðrum, og hvernig þeir vaða á fram eyðandi og brjótandi, en sjáum ekki enn þá hvert þeir fara, nje því þeir sjeu útsendir. Hvernig megum vjer og búast við, að geta með skamsýni vorri litið yfir, og með hinum takmarkaða skilningi vorum fá skilið, þá ráðstöfun, sem nær yfir alla mannanna löngu leið, gegnum torfærur þessa lífs, og í gegnum hið ókomna lífið, — þá ráðstöfun, sem nær yfir alla tíma og alla kynþætti. Hver mundi undrast það, þótt ormurinn í duptinu viti ekki, hvað uppi skín á fjallatindum? eður þótt hið fyrsta orð sje ekki ljóst, fyrr enn búið er að segja hið síðasta? Ó! sannlega ber oss að lúta þeim, sem einn er vís, að þegja og tilbiðja, að trúa, þó vjer sjáum ekki. En svo að trú vor skuli ekki slokkna, lætur Guð oss einnig optsinnis sjá; því hversu opt höfum vjer orðið að segja: þetta kom frá Drottni, það var Guðs ráðstöfun! þegar hinar kænlegustu ráðagjörðir mannanna og traustustu verk fuku svo optlega á burt eins og fis, en sáðkorn það, sem enginn gaf gaum að þróaðist bæði fljótt og vel; þegar vjer optlega fundum veg þann lokaðan, sem vjer höfðum ætlað oss að ganga, svo vjer gátum ekki opnað hann, þó vjer reyndum það á allar lundir, en ósýnileg hönd leiddi oss aptur á móti um annan veg í gegn vilja vorum; þegar vjer á stundum urðum þakklátlega að kannast við, hversu hollt það var oss, að oss var synjað jafnvel þeirra hluta, sem vjer girntumst öllu fremur, hversu mikið vjer lærðum í hinum harða, en þó nytsama skóla mótlætinganna; þegar vjer einnig komumst að raun um, að freistingin var oss ekki um megn fram, að hjálpin var nálæg, þegar neyðin var mest, huggunin nálæg í hinni beiskustu sorg, þegar afdrifin urðu miklu öðru vísi og miklu betri, enn vjer höfðum búizt við í kvíða vorum og efasemi; þegar það leit optlega út, eins og hinn seki mundi ætla að fá umflúið hegninguna, en hinar huldu, gömlu, gleymdu misgjörðir komu þá undarlega í ljós, og hinn saklausi varð hins vegar eins undarlega frelstur úr snöru þess, er ofsótti hann; þegar vjer sáum, að hin tóma krúsin var fyllt, sáum hina dásamlegu blessun yfir litlum efnum; þegar vjer heyrðum menn vitna: vjer höfum verið ungir og erum orðnir gamlir, en vjer höfum ekki sjeð hinn rjettláta

yfirgefinn, eður börn hans brauðþurfa (Sálm. 37, 25) — þá urðum vjer að boða verkin Guðs og skilja, að það voru hans verk (Sálm. 64, 10).

Enn fremur opinberar Guð sig í brjóstum manna, og þaðan upp koma þær tilfinningar, ótti og elska, sem geta ekki orðið skiljanlegar með öðru móti, enn að þær rísi af meðvitundinni um þann, sem meiri er, enn hjarta vort (1. Jóh. 3, 20). Sannlega er lögmál ritað í hjörtum vorum, og rödd er til, sem talar um rjett og rangt með svo miklu valdi, að vjer þorum ekki að mæla henni á móti. Jeg get ekki kallað lygar og svik, eða ofbeldi og undirokun, rjetta hluti og góða; jeg get ekki kallað verndun hins þjakaða, eða miskun við hinn nauðstadda, eða fölskvalausa uppfylling skyldunnar, eða móðurást og vinatryggð, ranga hluti og illa. Og engu hægra er mjer að segja: Jeg geng undan allri hlýðni við það lögmál, sem þannig talar í brjósti mjer, jeg vil vera öldungis óbundinn, öldungis samvizkulaus. En jeg á sannlega rjett á, að heimta það að sjerhverjum, sem finnur þetta ásamt mjer, að hann svari sjer greinilega í huga sínum, þá er hann spyr sig: Hver hefir ritað þetta lögmál, sem mannleg kjör og venja og ljettúð og ósvífni megna ekki að afmá? Ef lögmál er til, þá hlýtur einhver að hafa sett það. Hvernig verður sá dómur háður, er samvizkan boðar háum og lágum, þeim sem heimurinn lofar og þeim sem hann hefir útskúfað? Ef dómur er til, þá hlýtur einnig sá að vera til, er dæmi. Þessar hugsanir kveikja ýmist ótta eður trúartraust, eptir því sem þær heita oss hegningu eður umbun; en í báðum þessum tilfinningun opinberar Guð sig meðvitund sálar vorrar. Hversu opt hefir Guð talað þannig í brjósti mjer, sem Drottinn og dómari, og hversu optlega, sem faðir! Því fagurt ástarsamband er til beinlínis á milli Guðs og manna. Heimurinn kalli það hvað sem hann vill, en svo sannlega sem jeg hefi með skilningarvitunum orðið var hlutanna í kringum mig, svo hefi jeg reynt í hjarta mínu, að Guð er ekki langt frá neinum af oss, að í honum lifum, hrærumst og erum vjer; hann hefir sjálfur vitnað um sig, ekki einungis þá, er hann ljet veraldleg gæði falla mjer í skaut, er hann rjetti munni mínum fæðu, heldur einnig þá, er hann svalaði brennandi löngun sálar minnar, er hann fyllti

sál mína anda sínum, er hann í tilfinningu hjarta míns birti mjer veru sína, að hann sje kærleikurinn.

Þetta hafa menn kallað hina almennu opinberun, af því hún veitist jafnt öllum mönnum. Aptur á móti segjast kristnir menn þekkja aðra sjerlega opinberun, sem takmörkuð er innan viss tíma og vissra staða, og er að sönnu ákvörðuð til að verða birt öllum mönnum, en getur samt ekki orðið það, nema smátt og smátt.. Það er fyllilega ljóst, að þegar kristinn maður nefnir guðlega opinberun, sem undirstöðu kristilegra fræða, þá hugsar hann sjer eitthvað annað, enn opinberunina í sköpunarverkinu, eður í hjartanu, eður í hlutanna eðlilegu rás; svo ef vjer færum að tala við hann um opinberunina og ættum einungis við hina síðar nefndu, þar sem hann á við allt annað, þá mundum vjer rugla með því ræðuna, svo enginn sannleikur yrði eptir í henni.

Það er furðanlegt, að þar sem nú svo margir eru búnir að koma sjer saman um að gjöra æ minna úr mannlegri þekkingu á ósýnilegum hlutum, er þeir ætíð meir og meir frásnúast alls konar djúpri rannsókn, af því þeir eru einu sinni búnir að segja, að mennirnir geti ekki gagnskoðað samband hlutanna og geti ekkert vitað um Guð og eylíf efni — halda þeir samt hins vegar, að þeir sjeu sjálfir svo fyllilega búnir að gagnskoða djúp guðdómsins og veraldarinnar, að þeir geti fullyrt, Guð hafi með engu móti getað opinberað sig á annan hátt, en hinn venjulega og náttúrlega! Þessu getum vjer hvorki játað, nje eigum að játa, svona undir eins. Miklu fremur hlýtur sjerhver rjettsýnn maður, sem ann sannleikanum, að kannast við, að þegar hann kastar burt öllu því drambi, er hann ætlaði að hefja sig með yfir hinn fákæna lýð, sem trúir táknum og stórmerkjum, girnist hann samt í raun og veru, að opinberun væri til, svo Guð gæti birt sig oss með því móti ljósar, enn í hinum almennu opinberunum. Því hversu margt og mikið sem vitnar um Guð í hinu ómælanda ríki skapaðra hluta og í viðburðanna undrunarverðu rás, eður í innstu fylgsknum sálarinnar, þá er samt ekki í öllu þessu það orð, sem eyrað girnist að heyra, er segi berlega, að Guð sje til, og hvílíkur Guð sje, og hvernig Guð hafi sjeð fyrir ráði mannkynsins. Á þá maðurinn einn samann og

af sjálfsdáðum að bæta þessu orði við? Er hann sá hinn eini, sem talar á himni og jörðu, en skaparinn þögull, eins og hin ómálga skepna? Á maðurinn sjálfur, einungis af vizku sinni, að þýða hin leyndarfullu táknin, ráða hinar torskildu gáturnar, fullvissa sjálfan sig um, að hann sje búinn að finna og framsegja hið rjetta, leiða sig sjálfur á hinn rjetta veg, kalla sjálfur á sig aptur af afgötunum? Ó! að orð væru til, er eylífur Guð birti sjálfan sig í fyrir mönnunum, ljósari enn hinar myrku raddir, sem vjer svo optlega gefum ekki gaum að og heyrum svo optlega á ýmsa vegu, hversu einlægur sem viljinn er. Ó! að ljósari orð væru til, er gætu vísað mjer á þann veg, sem jeg á að ganga, og leitt mig á honum — er gætu sannfært mig með meira afli, enn jeg sjálfur get og spekingar jarðarinnar, um það, hvort þeir hlutir, er jeg hefi sjeð, sjeu sannleikur eður sjónhverfingar; ó! að kennsla væri til, sem gæti leitt mig lengra, enn jeg get komizt með hugsunum sjálfs míns, og opinberað mjer það, sem jeg leita að með eldheitri löngun, eins og hinn þyrsti á eyðimörku leitar að uppsprettu lifanda vatns — það sem hvorki dagur nje nótt, hvorki blóm jarðarinnar nje stjörnur himinsins geta frá sagt, það sem jeg get ekki lesið á töflum lögmálsins í brjósti mjer, Guðs ráð til frelsunar glötuðu mannkyni, til endurlausnar þeim, sem ásamt mjer eru bundnir í þungri ánauð.

Hvar sem jeg sje mannlegar framfarir og mannlega þekkingu, sje jeg líka jafnan, að þær hafa byrjað á tilsögn og kennslu. Það sem jeg veit um jarðneska hluti, er ekki þaðan komið, að jeg hafi þreifað í blindni innan um margbreytni hlutanna og fundið þannig sjálfur það, sem mjer bar að afla þekkingar á, heldur voru það aðrir er vöktu þekkingarfýsnina í sálu minni, aðrir stýrðu hreifingum hennar, aðrir ljettu mjer leitina og röðuðu öllu niður fyrir mig, eins og aldri mínum og framförum var haganlegast. Hversu langt mundi jeg vera kominn, ef jeg hefði sjálfur átt að sjá fyrir mjer eingöngu? Það sem jeg veit um himneska hluti, byrjaði ekki á því, að jeg uppgötvaði sjálfur þá nauðsyn, sem er á að tengja saman hið jarðneska og hið himneska, að jeg gæti mjer sjálfur til hins ósýnilega af hinu sýnilega, eður til hins eylífa af hinu endanlega; heldur nefndu aðrir Guð fyrir mjer, hinn eylífa Föðurinn, og

þá samþykktist hjarta mitt máli þeirra og fann, að Guð er til. Aðrir skírðu mjer frá veru Guðs, og þá fann jeg í brjósti mjer, að Guð er almáttugur og alstaðar nálægur, alvitur og algóður, heilagur og rjettlátur, miskunsamur og líknsamur. Þannig hófst þekkingin í sálu minni og í sálum allra manna; hvernig mætti þá upphaf allrar guðlegrar þekkingar á jörðunni hafa getað verið slíkt, að mennirnir öfluðu þekkingarinnar án allrar tilsagnar? Hver er sá faðir, er sendi barn sitt út í veröldina, utan hann sje áður búinn að tendra ljós þekkingarinnar í sálu þess, að festa í huga þess og hjarta reglur þær, er það á síðan að fylgja? Hver er sá faðir, er horfi á barn sitt fara afvega, og kalli ekki á það? horfi á það ganga beinlínis fram í glötunina, og láti það sjá fyrir því sjálft, hvort það af sjálfsdáðum geti nógu snemma sjeð djúpið, sem það stefnir að? Og þú, sem allt faðerni er frákomið á himni og jörðu, mundir þú hafa látið börn þín án uppeldis og tilsagnar? mundir þú hafa ætlað mennina til að eflast og dafna til æðri tilveru, með rjettlæti og elsku í ótta þínum og þekkingunni á þjer, og svo að því búnu látið mennina sjá sjálfa fyrir því, hvort að þeir af sjálfsdáðum gætu þekkt ákvörðun sína og náð henni? mundir þú hafa sleppt þeim út á lífsins villugjarna ólgusjó, án þess nokkur stöðug stjarna skini þeim til leiðarvísis! Mundir þú hafa sjeð mennina í allri villu sinni, og kallað ekki á þá, sjeð þá á bakka glötunarinnar, og rjett ekki út hönd þína til að frelsa þá! Þú hinn eylífi kærleikur! mundir þú ekki hafa virt þess manninn, sem þú elskar, og einungis getur fundið frið í því að elska þig, — mundir þú ekki hafa virt hann þess, að birta þig honum á annan hátt, enn með myrkum ráðgátum í verkum þínum og óljósum grun í brjósti hans! Hvað mundi vera orðið úr manninum, hefði hann, þá er hann vaknaði til lífsins upphaflega, sjeð sig einan, hjálparminni enn dýrin í kringum hann, en engan sjeð, er vildi leiðbeina honum, engan, er vildi segja honum til?

Allir menn í öllum heimi, eins heiðingjarnir, sem minnst vita, tala um guðlega opinberun; það eru skröksögur og sumar af þeim sviksamlegar og svívirðilegar. En hvernig gat mönnunum komið til hugar, að Guð opinberaði sig á slíkan hátt? Mundi ekki und-

irrót alls þessa vera upphaflegur sannleiki, sem ruglazt hafi og aflagazt? Mundi það ekki vera frásaga, er öndverðlega hafi skírt frá sönnum viðburðum og gengið svo frá kynslóð til kynslóðar, og komizt um síðir á vald lýginnar?

Hinn kristilegi fagnaðarboðskapur er opinberun, og algjörlega byggður á fornum opinberunum. Hann lýsir því yfir, að hinn lifandi Guð hafi gengið fram fyrir mennina úr djúpi veru sinnar, að hann í öndverðu hafi boðað þeim, hver hafi sett þá í heiminn og kennt þeim snemma að nefna nafn hans og kveikt snemma í brjóstum þeirra lotningarinnar fögru og farsællegu tilfinning og kennt þeim að hefja hugann til hæða í tilbeiðslunni. Hann lýsir því yfir, að Guð hafi ekki yfirgefið hina úrættuðu kynslóð, að hann hafi viðhaldið á jörðu þeim neista þekkingarinnar, sem í fyllingu tímans átti að verða að ljósum loga, að hann hafi optsinnis og með mörgu móti talað til feðranna fyrir spámennina (Hebr. 1, 1), fyrir þá menn, sem knúðir voru af anda Guðs, og fóru ekki að eyrindum sjálfra sín, heldur að eyrindum hins eylífa og háleita, og voru færir um að sýna bæði í orðum og gjörðum, að þeir væru af honum sendir. En að síðustu talaði Guð til allra manna fyrir Soninn, að síðustu opinberaði Guð sig í hinum eingetna, því þetta er fagnaðarboðskapur kristinnar trúar, að Guð sætti veröldina við sjálfan sig í Kristi (2. Kor. 5, 19).

Ef vjer athugum þessa opinberun, — hver fær þá neitað, að hún sje komin í ljós á annan hátt, enn eptir hlutanna og viðburðanna venjulegu rás, er vjer köllum náttúrlega? að nokkru leyti geta menn sagt og eiga að segja, að Guð opinberi sig í orðum og gjörðum viturra, guðrækinna og rjettlátra manna; því allt, sem er viturt og háleitt og gott, kemur frá Guði og stuðlar til að gjöra Guð dýrðlegan á jörðunni. En hversu ólík er koma Krists, og koma þeirra, sem á undan honum voru, og allra, sem komið hafa eptir hann! Líf hans hjer á jörðu er tákn og stórmerki, það verður ekki skilið og á ekki að skiljast samkvæmt lögum náttúrunnar.

Látum oss snúa huga vorum til hins fyrsta kraptaverks, sem Jesús gjörði, þegar hann var að brúðkaupinu í Kana í Galíleu og vínskorturinn varð (Jóh. 2, 1, o. m. vv.). Það sem Jesús gjörði

þá, þykir oss, ef til vill, lítilvægt, og lítið var það að vísu, að bætt var úr svo ljettvægum skorti. Þó kannast postuli hans við þetta tákn hafi verið svo mikið, að hann lýkur frásögunni um það með þessum orðum: Þannig auglýsti Jesús dýrð sína og lærisveinar hans trúðu á hann. Ó! — hversu berlega veit jeg, að þegar þeir, sem frá upphafi voru vitni hans, sögðu að þeir sæu dýrð hans, svo sem hins eingetna Sonar Föðursins, þá áttu þeir einkum við það, að þeir sáu hann fullan náðar og sannleika (Jóh. 1, 14), og þegar þeir sögðu, að þeir þekktu engan annan, er þeir gætu leitað til, kom það til af því, að hann hafði hið eilífa orð lífsins (Jóh. 6, 68). En til að vekja menniua, svo þeir gæfu gætur að þessum orðum, til að styrkja orðin á móti þeim efasemdum, sem ætíð eru viðbúnar að mæla í móti, til þess þurftu tákn og stórmerki. Ef vjer þá hugleiðum hið fyrsta kraptaverk Krists, hvernig lítur það út? Sannlega! annaðhvort eru þetta töfrar og sjerhvað annað, sem oss hryllir við að nefna, þegar vjer tölum um slíkt efni; annaðhvort hljótum vjer að bera kinnroða fyrir að segja frá þessu um þann, sem vjer köllum Drottin vorn og Meistara, eður vjer höfum að öðrum kosti ekki nema eitt orð, til að lýsa ásigkomulagi þessa verks: það er k r a p t a v e r k. Að vísu er það einnig dásemdarverk Guðs, þegar vökvi jarðarinnar breytist og batnar í vínviðinum, og verður að lífganda og styrkjanda hressingar-drykk; en dásemdin er fólgin í tilbúningi náttúrunnar, og frá því að hann var upphaflega til orðinn, fer það allt að sköpum. Aptur á mót, þegar Jesús gjörði kraptaverkið í Kana, þá breyttist ekki vatnið eptir lögum náttúrunnar, heldur var sú dýrð, sem þá átti að birtast, dýrð þess, sem er herra náttúrunnar, er skilur allt og megnar allt, er segir, og þá verður það, er býður, og þá stendur það þar (Sálm. 33, 9). Ef vjer hugleiðum hvert um sig af kraptaverkum þeim, er Jesús síðan gjörði, og rituð eru til þess vjer skulum trúa því að Jesús sje Kristur, Sonur Guðs (Jóh. 20, 31) — þegar kraptur Jesú flaug í gegnum visnandi limu hinna veiku og þeir urðu aptur hraustir og heilbrigðir, þegar hann lauk upp augum hinna blindu og eyrum hinna heyrnarlausu, þegar hann blessaði hin fáu brauð, svo þau urðu nóg handa mörgum þúsundum, þegar hann lægði hinn stjórn-

lausa ofsa vindanna, þegar rödd hans hljómaði niður í grafirnar og kallaði aptur íbúa þeirra upp í ljósið -- þá er öllum þessum verkum varið á hinn sama hátt. Því öll opinberun Krists er kraptaverk, og hefði ekki náð tilgangi sínum, nema með því móti að birtast á þenna hátt. Því Guð, sem átti að verða kunngjörður, og opinberaði sig í Kristi, á að þekkjast þannig, að mennirnir sjái hann sje æðri náttúrunni. Hversu mikil og hversu auðug sem náttúran er — allt sem lifir, verður til og breytist og líður undir lok í henni, en hún heldur á fram að vera til; lög hennar ná yfir stjörnurnar á himninum og yfir allt sem bærist í sjáfardjúpinu, og konungar jarðarinnar í hásætunum verða að hlýðnast bendingu hennar, allt eins og hinir vesælustu þrælar þeirra — samt sem áður er hún einungis eins og andi hins almáttka, ef hann dregur hann að sjer, eyðist hann og hjaðnar, ef hann bendir, stöðvast hann og hlýðir boðum hans, því Guð er herra náttúrunnar. Hvað sem vjer mennirnir höfum fyrir stafni, getum vjer aldrei komizt út fyrir takmörk náttúrunnar, og aldrei fundið þann stað, er hinn forni spekingur leitaði að fyrir utan heiminn, þaðan sem hann ætlaði sjer að breyta niðurröðun náttúrunnar; því Guð hefir lagt oss undir lög hennar, og náttúra þessa heims er einnig vor náttúra. Sjálfur Guð fer ekki út fyrir eðli sitt, hann breytist ekki og skiptir ekki veru sinni, en náttúra þessa heims er ekki náttúra Guðs; hún er verk hans, og hann breytir rás hennar, þegar hann vill opinbera dýrð sína, fremur enn á venjulegan hátt, svo mannkynið undrist og sjái að hann er Drottinn, Guð almáttugur.

Jeg sagða, að vjer mennirnir gætum ekki komizt út fyrir takmörk náttúrunnar, vjer hljótum í öllum gjörðum vorum að haga oss eptir rás náttúrunnar og getum einungis búizt við uppfyllingu óska vorra, samkvæmt lögum hennar. Því Guð gjörir ekki á hverjum degi kraptaverk umhverfis oss, svo að vjer þyrftum fyrir þá sök að vera í efa um, undir hvílíkum lögum vjer lifum, og hvílík að sje sú niðurskipun hlutanna, sem oss beri að leitast við að fá skilið og færa oss til nota. Vesæll væri sá guðleysingi, sem af fíflslegu drambi ljeti sjer koma til hugar, að hann gæti gjört hin sömu verk og Guð almáttugur; og vesæll er heimskinginn, sem

langar til at sjá hjegómleg furðuverk, og lætur villiljósið teygja sig út í dymmar ófærur, þar er það hverfur; og vesæll væri letinginn, sem færi að halda að sjer höndum, og bíða svo aðgjörðalaus eptir kraptaverki. Vort líf á jörðunni byrjaði undir lögum náttúrunnar og á að líða og enda undir þeim. En þegar sá, sem er geisli Guðs dýrðar og eptirmynd veru hans, átti að gjöra Guð kunnan á jörðunni, þá gjörði hann slík verk, sem hinn almáttki gjörir; og þannig opinberaði hann dýrð sína og lærisveinar hans trúðu á hann.

---

## 5.

### SKYNSEMI OG OPINBERUN.

Þegar vjer íhugum, hvað til þess komi, að mörgum, enda þó vel sjeu viti bornir, er svo óljúft að ímynda sjer nokkra opinberun, þá getur vel verið, mannlegu viti út af fyrir sig fylgi eitthvað það, sem standi í mót opinberuninni. Vitið vill sjá allt út, það vill grípa og skilja, og þess vegna fellur því ekki það, sem annaðhvort er í sjálfu sjer óskiljanlegt, eða í fyrsta áliti virðist ekki geta staðið heima við það, sem vitið er búið að skilja, svo að vitinu veitir örðugt að koma því heim. Fyrir því er það ætíð gjarnt á að bera á móti öllu, sem fágætt er og undarlegt, og ekki eptir venjulegum hætti. En það væri þó fullkomin heimska, ef vjer ætluðum oss að fækka sjálfir gripum vorum, svo það yrði hægra að telja þá, eða kasta burt auði þekkingarinnar, svo það yrði hægra að afla þekkingar. Vitið er því að eins góð eign, að það beri ekki á móti því, sem er, heldur kannist við það; að það rýri ekki sannleikann, svo hann skuli standa heima við tilbúnar ætlanir þess og verða auðveldari meðferðar, heldur leiti að aukast og þróast, til að geta gripið sannleikann eins og hann er.

Margir eru og vegna þess ófúsir að trúa opinberuninni, að

þeir óttast vanbrúkun hennar. Því er og miður, að vjer getum ekki í móti mælt, að margir hafi haft sannar eða lognar opinberanir til að kefja með þeim skynsemi og vit, til þess að láta menn hlýðnast í blindni boðorðum annara, en ekki trúnni og sannfæringunni í brjóstum sjer. Þeir hafa verið, og eru enn margir, sem ekki vilja, að mennirnir verði frjálsir og skynugir; þeir vilja leiða þá í blindni og halda þeim í vankunnáttu, til að geta því betur haft þá sjer til nota eptir jarðneskum tilgangi sínum; þess vegna hafa þeir annan lærdóm handa sjer og vinum sínum, en handa lýðnum, og segja, að hann þoli ekki ljósið, en eigi að trúa lygum og skröki, og vera svo og verða þræll annara.

Vjer megum ekki í móti mæla, að slíkt hugarfar hefir opt verið ríkt meðal Faríseanna í kristinni kyrkju. En hversu ólíkir því voru hinir fyrstu boðendur trúarinnar! „Vjer höfum afsagt alla leynilega svívirðing“, segir Páll postuli, „og förum ekki með vjelar, fölsum og ekki guðsorð, heldur mælum vjer fram með oss við samvizku hvers manns, með auglýsingu sannleikans, fyrir augliti Guðs. Sje nú,“ segir hann, „kenning vor nokkrum hulin, þá er það þeim einum, er glatast munu, sem höfðingi þessarar aldar hefir blindað á hugskotum, svo þeir sjái ekki birtu kenningarinnar um dýrð Krists, sem er Guðs ímynd“ (2. Kor. 4, 2—4). Sami postuli segir í brjefi til annara safnaða: „Jeg hefi ekki látið af að biðja, að Faðir Drottins vors, Jesú Krists, Guð dýrðarinnar virðist að gefa yður anda vísdóms og opinberunar í þekkingu sinni, og skíri augu skilnings yðvars, svo að þjer skynjið, hvílík að sje von sú, er hann hefir yður til kallað“ (Ef. 1, 17. 18).

Slík ræða geðjast efalaust samvizkum allra manna; sjerhver finnur þegar, að þannig á kristinn kennari að hegða sjer fyrir augliti Guðs, er sannleikann elskar. Og virðum vjer orðin betur fyrir oss, þá sjáum vjer, að postulinn lofar uppfræðinguna, sem margir þó ímynda sjer, að tálmi og útrými kristilegum sannleika; og þessa opinberun, sem hann prjedikar, boðar hann skynseminni og vitinu, sem margir þó ímynda sjer að sjeu gagnstæðileg kristilegri opinberun, svo að maðurinn, eptir þeirra ætlun, verður að afneita skynseminni, ef ljós trúarinnar á að skína í sálu hans, eður

afneita trúnni, ef hann ætlar sjer að gánga í ljósi skynseminnar. Nú til að geta orðið samþykkir sjálfum oss og öðrum í þessu efni, þá verðum vjer að íhuga þessi tvö merkilegu orð, er svo mikið hefir verið um þrætt: skynsemi og opinberun, og leitast við að sjá greinilega þýðingu þeirra; því ekki stendur það á sama, hvernig svo þýðingarfull orð eru skilin, og hið skilmerkilega eflir ætíð sannleikann, en hið óskilmerkilega veldur misskilningi og þrætu.

„Opinberun sannleikans“ segir postulinn vera það, er hann hafi helgað líf sitt. Eigi sannleikurinn að verða þekktur af mönnum, þá hlýtur hann fyrst að verða þeim opinber. Þessi tvö orð (skynsemi og opinberun) eru ekki öldungis samrar þýðingar; því að þekkingin er greinilegri og fullkomnari, enn vitneskja sú, er fæst af hinum fyrstu áhrifum, en um það, sem á engan hátt hefir birzt oss, getum vjer enga þekkingu öðlazt. Þess vegna höfum vjer sagt, að öll hin kristilega þekking sje byggð á opinberun. Enginn getur þekkt Guð af sjálfsdáðum nema sjálfur hann, og eigi mennirnir að þekkja hann, þá hlýtur hann að verða þeim opinber. Hinir fyrstu boðendur kristinnar trúar vísuðu til hinnar almennu opinberunar, sem einnig er hlutskipti heiðingjanna — en það er sú opinberun, sem er í náttúrunni, er með sinni margbreytni, reglu og fegurð birtir lof skapara síns, sú opinberun, sem er í undarlegum viðburðum, er mennirnir geta hvorki eignað neinni hendingu, nje heldur vizku eða hreysti sjálfra sín, heldur einhverri æðri stjórn; og sú opinberun, sem er í hjarta mannsins, þar sem Guð hefir skrifað lögmál sitt og birtir dóm sinn. En þar á ofan höfðu þeir einnig aðra sjerlega opinberun að boða, það er: boðskapinn um dýrð Krists, sem er Guðs ímynd. Ef vjer sleppum þessari opinberun, þá er enginn kristindómur til, því kristindómurinn er ekki sama, og þetta, sem flestar þjóðir vita, að það sje Guð til, sá er sje herra, löggjafi og dómari — kristindómsins geta ekki hluttakandi orðið aðrir enn þeir, sem Kristur hefir opinberazt.

Nú þó að þessar opinberanir sjeu til, þá er það alls ekki manninum að þakka, þó hann hafi mikla skynsemi og mikið vit; hann hefir ekki fundið þær, heldur eru þær gefnar honum.

En hvernig fer hann að geta numið, gripið og kannazt við guðlegar opinberanir? Dýrið hefir augu og eyru, eins og maðurinn, dýrð Guðs ber fyrir eyru þess, lindin svalar því og ávextir jarðarinnar ala það; hvað vantar það þá, til að geta þekkt Guð, sem opinberar sig í öllu þessu? þegar vjer spyrjum þannig, þá þykir öllum það nærri því undarlega spurt, og þá svara allir einum munni: hvernig ætti dýrið að þekkja Guð, þar sem það vantar skynsemina? Því það er ágæti og yfirburðir mannsins, að hann er einn skynsamur meðal dýranna, sem eru skynlaus; þess vegna þekkir hann hlutina í kringum sig öðru vísi, enn þau geta þekkt — þess vegna þekkir hann sjálfan sig og það sem æðra er enn sjálfur hann. Fyrir því segjum vjer, að guðleg opinberun, hversu dýrðleg og hversu ljós sem hún er, kæmi oss að engu haldi, nema Guð hefði gefið oss skynsemi til að grípa hana með. Því skynsemin hefir nafn sitt af að skynja, og með því skynsemin er æðri enn skilningarvitin, þá skynjar hún það, sem þau geta ekki skynjað — hún skynjar raddir og krapta hins ósýnilega heims. Í náttúrunni og veröldinni og samvizkunni er Guð því opinber hinum skynsömu einum saman.

Ef vjer athugum hina kristilegu opinberun, þá sjáum vjer guðlega náð opinberaða öllum mönnum (Tít. 2, 11): kristin trú er boðuð í borgum og á eyðimörkum, rödd hennar hefir heyrzt um gjörvalla veröldu, og engin sú tunga og ekkert það mál er til, að rödd trúarinnar hafi þar ekki í hljómað. Þó segir postulinn, að þeir sjeu til, sem hún sje hulin, þó þeir hafi heyrt hana; þessir hljóta nú að vera hinir sömu, og þeir, sem Drottinn vor segir um, að sjáandi sjái þeir ekki (Matth. 13, 13). Hvað er nú það, sem því veldur, að þeir heyra ekki það, er þeir heyra, eður nema ekki afl þeirra sanninda, er hljóma í eyrum þeim? Mundi nokkur láta sjer í alvöru um munn fara, að þetta komi til af því, að þeir neyti skynseminnar, og ef þeir væru miður skynsamir, þá mundu kristileg sannindi verða þeim auðskildari og hafa meiri áhrif á þá? Nei! þannig mun enginn, sem kristinn er, tala um þá trú, sem allir fjársjóðir vizkunnar og þekkingarinnar eru í geymdir — sem von er á ljósinu frá — sem á að kenna oss veg vorn á jörðunni.

þeir sjá með augunum — segir Drottinn vor — og þekkja ekki, þeir heyra með eyrunum, og fá ekki skilið (Mark. 4, 12). Svo að þá vantar greind og vit; en hvar eiga þau heima? Vjer tölum allir um skynsemina svo sem um þá gáfu sálarinnar, er ræður og dómar manna verði rjettir af — er lýgin og villan leggist á flótta fyrir, eins og líka girndirnar í brjósti mannsins þaggast niður við rödd skynseminnar, af því skynsemin lætur ekki leiðast af hverju áhrifi, eins og hið holdlega, heldur sjer lengra fram. Það er sjálfsagt, að þeim, sem við leitar að ná skynsamlegri þekkingu, er hættara við að rata í efasemdir, enn þeim, er fellst á í blindni; en hvernig verður með sanni sagt, að sá þekki sannleikann, sem ekki hefir prófað hann? En með hverju getur maðurinn prófað, og með hverju getur hann hrakið ástæðulausar efasemdir, öðru enn því að neyta skynsemi sinnar? Því það er eins óskynsamlegt að neita í blindni, eins og að fallast á í blindni. Sá er vill gjöra mun á hinu sanna og hinu ósanna, hann verður að hafa vit sitt við sjerhvað einstakt, en skynsemi sína við það sem stórt er og yfirgripsmikið; því hverjar aðrar gáfur hefir Guð gefið oss til þess? Vilji nokkur svara: samvizkuna, vegna þess postulinn segir, að hann mæli fram með sjer við samvizku hvers manns, með auglýsingu sannleikans, þá er það að vísu satt, að í hverju óspilltu hjarta er skír meðvitund hins sanna og góða, og vjer getum með sanni sagt, að vjer finnum það í samvizku vorri. En getur þá samvizka verið þar, sem ekki er skynsemi? Getur það í nokkru verið hvað öðru gagnstæðilegt, sem rjett skynsemi og árvökur og ótæld samvizka fallast á? Um þá, sem kasta því er samvizkunni geðjast, segir postulinn, að höfðingi þessarar aldar hafi blindað hugskot þeirra; en þar sem hugskotið er blindað og rangsnúið, þar er óskynsemi. Augað er ljós líkamans, segir Drottinn vor; og ef auga þitt er heilbrigt, þá er bjart í öllum líkama þínum, en ef auga þitt er sjúkt, þá er myrkt í öllum líkama þínum (Matth. 6, 22. 23). Þetta á og við um skynsemina, sem er auga sálarinnar. Í heilagri ritningu finnum vjer þráfaldlega áminningar, sem miða til að ávíta hin spilltu hjörtu, og sjervizku þeirra, er veita mótstöðu sannleiknum; en vjer finnum ekki eitt orð, sem vari við

skynseminni — heldur heimtar postulinn skynsamlega guðsdýrkun (Rómv. 12, 1).

þess vegna gæti guðleg opinberun ekki komið oss að haldi, ef vjer hefðum ekki skynsemi til að veita henni móttöku; en hins vegar yrði skynsemin oss að jafnlitlu liði til þekkingar á guðlegum hlutum, nema Guð og sannleiki hans væri oss opinberaður. Hversu mikið mundirðu sjá, þó auga þitt væri ósjúkt og heilt, en þú stæðir uppi á eyðifjöllum í dymmviðri? Legðist náttmyrkur öllu megin yfir þig niður, þá sæir þú ekkert, og þó þú tendraðir loganda blys, þá sæir þú að eins, og þó óskírt, grilla fyrir því er næst þjer væri, en fegurð sveitarinnar sæir þú ekki — og óvíst að þú rataðir á þann veg, sem þú vildir feginn finna, við það hið dapra ljós. þannig er í skynseminni útaf fyrir sig ekkert gleðilegt og huggunarríkt, og ekkert, er styrki og endurnæri sálina, væri ekki fylling guðlegrar opinberunar. Nú er að vísu í hinni sjáanlegu veröldu mikil nægð opinberunar, en tákn hennar þurfa þó útþýðingar; til þess að vjer í henni getum fyllilega sjeð Guð. Viðburðirnir í heiminum opinbera Guð einnig; en i mörgum þeirra sjáum vjer hann ekki sakir skamsýni vorrar, og af öllu, sem til hefir borið frá upphafi veraldar, opinberar enginn hlutur oss eins berlega Guð, og kenningin um dýrð Krists, sem er ímynd Guðs. Takir þú þessa kenning í burt, þá væri það eins og að vilja slökkva sólina til að geta brugðið upp skriðljósi, hvað sem þú settir í stað hennar. Sama er um mannlegt hjarta, spillt og aflagað eins og það er, að það boðar ekki Guð, nema dauft og skakkt og óskilmerkilega. Nú er vjer sjáum, að skynsemin fellur í dá, svo að hún vill ekki leita — að hún leitar, og getur ekki fundið — að hún kemst á villistigu, er tæla hana burt frá uppsprettum lífsins og sannleikans, þá hljótum vjer að játa, að skynsemin er ekki sjálfri sjer einhlít, og að henni er ekki einhlítt það, sem oss er vant að birtast í heiminum. þess vegna mænum vjer upp til hæða, og andvörpum eptir nægari og söðugari þekkingu, og eptir óhultari handleiðslu, enn sjálfra vor og vorra líka. þetta er nú hinn kristilegi náðarboðskapur, að Guð hefir látið ljósið skína í dymmunni — að sá er í heim-

inum opinberaður, sem er vegurinn, sannleikinn og lífið (Jóh. 14, 16). Hann kom í heiminn, hin sýnilega mynd hans hvarf, er hann hafði af lokið sínu mikla ætlunarverki; en orð hans urðu eptir. Þau fjekk hann trúum vottum, til að boða þau um heiminn; en svo að þau skyldu ekki glatast nje aflagast þegar stundir liðu, þá voru þau í rit sett, er allar aldir síðan eru heilög haldin; og þetta safn heilagra bóka, sem allar saman, bæði hinar eldri og yngri, miða til að skíra þekkinguna á Guðs dýrð í Jesú Kristi (Kor. 4, 6), köllum vjer einkanlega opinberun. Sje hún gefin mönnunum af Guði, handa öllum kynkvíslum mannanna á sjerhverri tíð, þeim til leiðbeiningar í allri eptirgrennslun þeirra, og til eptirbreytni í allri hegðun þeirra og til huggunar í allri eymd þeirra, þá verður inntak hennar að vera guðlegur sannleiki, þá verður hún að vera einhlít, það er, allt sem maðurinn þarf að vita sjer til sálubótar verður að vera í henni fólgið, og hún má ekki hafa í sjer eintóma hulda speki, og fáskilda, heldur verður hún að vera svo greinileg, að sá sem hefir einlægan vilja geti gripið það, sem hverjum er þörf að vita, og er jafnáríðandi háum og lágum, vitrum og fákænum.

En þegur vjer skoðum hin helgu rit vor, finnum vjer samt sem áður í þeim ekki að eins ýmislegt miður áríðandi, sem er ógreinilegt, heldur og margt, er hverjum kristnum manni ríður á að vita, og svo er flókið, að ekki verður úr því greitt, utan með rannsókn og umhugsun; vjer sjáum á stundum fremur vera til þess bent, enn að það sje berlega sagt. Hvers vegna var oss það eigi öðru vísi opinberað? hvers vegna virti hin eylífa spekin oss ekki skírrar og greinilegrar frásagnar um öll sannindi kristinnar trúar, í því sambandi sem þau eru í hver við önnur, svo að öllum deilum hefði verið lokið með þeim öllum, er trúa opinberuninni? Það er vegna þess, vjer eigum að leita áður enn vjer finnum — vegna þess kraptar vorir, skynsemi og vit, áttu að þróast af áreynslu umhugsunarinnar — vegna þess það eitt verður vor eiginleg eign og sameinast sálu vorri, er oss hefir vantað og vjer höfum að leitað, er vjer höfum barizt fyrir og armæðu þolað og sálin hefir fundið hvíld í, að aflokinni baráttu sinni.

Allar góðar gjafir koma að ofan, — maðurinn getur ekki gefið sjer þær sjálfur, en Guð gefur honum þær; þó gefur Guð þær ekki á þann hátt, að þær fáist fyrirhafnarlaust. Maðurinn þarfnast brauðsins til að nærast og seðjast af; en þó hann þarfnist, gæti hann samt ekki skapað eina sáðteguud, til að fullnægja þörfum sínum. En Guð lætur sáðið vaxa í öllum tegundum þess; þó ekki nema á dreif, stöng og stöng; það sprettur ekki sjálfkrafa á heilum ekrum, eins og þistlar og illgresi. Hvers vegna er því svo fyrir komið að hið ónýta kemur af sjálfu sjer, en hið nytsama einungis við iðjusemi og kunnáttu? Ekki vegna neins annars enn þess, að Guð hefir viljað vekja manninn til þessa hvorstveggja: iðjusemi og kunnáttu — að hann hefir viljað maðurinn skyldi eta brauð sitt í sveita andlitis síns, og venjast á að verða til margs hæfur. Málminn, sem er mönnunum svo ómissandi, hvað sem þeir eiga að gjöra, geta þeir ekki búið til sjálfir, heldur verður að undirbúa hann handa þeim í hinum stórkostlegu smiðjum, er handaverk mannanna kómast í engan samjöfnuð við. En til hvers lagði Guð ekki málminu á yfirborð jarðarinnar, heldur fól hann djúpt í skauti fjallanna, nema til þess manninum skyldi lærast að opna hamrana, gjöra sjer veg inn í jörðina, leiða burt vatnið úr hinum djúpu gjám, og afla sjer þannig kunnáttu og þekkingar, um leið og hann flytti fjársjóðu jarðarinnar upp undir beran himin? Fuglinum hefir Guð gefið í öndverðu nokkurs konar fýsn, eða enn heldur dásamlegt vit, sem fuglinn veit ekki sjálfur af; fyrir því kann hann að búa sjer til hreiður, án þess neinn hafi kennt honum það; en þess vegna býr hann það til enn, eins og hann hefir gjört frá upphafi veraldar. Maðurinn þar á móti, þótt hann sje fuglinum æðri, þá er hann ekki fæddur með neinni þess konar íþrótt; hann verður að nema af öðrum með fyrirhöfn og kenna sjálfum sjer; en vegna þess að hann, í stað hinna gáfnanna, öðlaðist skynsemina, er sífelldlega getur dafnað og fullkomnazt, þess vegna hefir hann og not áreynslu sinnar, og honum lærist að auka smá saman hreysi sitt þangað til það verður að höll. Eins er um hið andlega — eins er um hið helgasta; maðurinn átti þar einnig að finna því meira, sem hann verður að leita betur. Guð ljet opinberun sína í

forn rit og dauðar tungur, og huldi hana fyrir oss svo sem í blæju liðinna tíma. En með því auðæfi þau, sem þar í eru geymd, eru manninum eins ómissandi, og fjársjóðir fjallanna, eða dýrmætir ávextir jarðarinnar — með því þau fullnægja sárasta hungri mannlegrar veru: þess vegna leitar hann þeirrar þekkingar, er megi leiða hann inn í þessa helgidóma; og hver fær mælt eða talið, hversu mjög sú rannsókn og umhugsun, er hjer við þarf að hafa, hefir eflt allar þær vísindagreinir, sem mannlegu lífi eru til ágætis og prýði. Þó snertir þetta einkum hina fróðu og lærðu, jafnvel þótt afleiðingar þess nái og til leikmanna. En hitt snertir allar, að þó hinar helgu bækur liggi nú sjerhverjum opnar á hans tungu, verða þó sannindi trúarinnar fundin af þeim einum, er þeirra leita, og að þekking þeirra náir ekki að þróast nema í þeim einum, er rannsaka þau með hógværð og kostgæfni, og brúka skynsemina og vitið, er sálin hefir þegið af Guði. Þannig samsvara hjer einnig hinar ytri gjafir hinum innri; hinni innilegu þekkingarfýsn, sem maðurinn megnar ekki sjálfur að fullnægja, samsvarar opinberun guðlegra sanninda; himneskri rödd og háleitri fegurð opinberunarinnar samsvara hin næma heyrn skynseminnar og hin hvassa sjón vitsins. Hver sem vill vera kristinn, hann fyrirlíti enga af Guðs gjöfum, og vanbrúki þær ekki, því allar stuðla þær til þess, að skíra þekkinguna á Guðs dýrð í Jesú Kristi.

---

## 6.

## GUÐ ER ALSTAÐAR NÁLÆGUR, ALMÁTTUGUR.

Guð minn! þegar jeg hefi reynt af öllu hjarta að hefja huga minn til þín, þegar jeg hefi reynt af öllu hjarta að grannskoða veru þína, hversu optlega hefi jeg þá fundið, að þú ert hinn órannsakanlegi, hinn óskiljanlegi, og hversu fjarri því fer, að andi mannsins,

sem ekki megnar að skilja sjálfan sig, muni fá skilið djúp veru þinnar, þú sem ert faðir andanna! þá snjeri hugur minn aptur örmagna, og tunga mín kenndi vanmáttar síns, hún vildi ekki tala um dýrð þína, því hún gat ekki talað um hana tilhlýðilega. En svo sagði jeg við sjálfan mig: Laukstu þá upp munni mannanna, gafstu þeim hið furðulega vald ræðunnar, einungis til þess, að þeir skyldu tala um það, sem jarðneskt er og lítilmótlegt, það sem hverfur á meðan vjer tölum um það, það sem hefði engan mátt og enga veru, ef það væri ekki til og hjeldist við af þínum mætti, þú sem fyllir upp alla hluti, þú hinn fyrsti og hinn síðasti, þú hinn almáttugi? Jeg finn þó orð á vörum mínum, sem vitna ekki, þegar þau eru rjett skilin, um neitt sem augað hefir sjeð, eða jeg hefi fundið á jörðunni, hvað víða sem jeg hefi leitað. Jeg kalla hlutina góða, þegar jeg hefi not af þeim, jeg kalla mennina góða, þegar þeir líkjast honum, sem er uppspretta veru þeirra; sumir eru betri enn sumir, en þó veit jeg í hjarta mínu, að orðið góður, í æðstu merkingu þess, á ekki við neitt það, sem ófullkomið er, að enginn er góður nema Guð einn (Matth. 19, 17). Jeg kalla mennina vitra, jeg kalla þá volduga og drottna jarðarinnar; jeg kalla þann sælan, sem hefir fundið spretta upp í sjer þá tilfinning yndis og ánægju, sem hold og blóð og dýrð þessa heims geta ekki veitt; en í hjarta mínu veit jeg þó, hver að er einn saman vitur og sæll og einn saman voldugur (Tím. 1, 17; 6, 15). Jeg skal því ekki hafa þessi orð einungis um hið ófullkomna og lítilfjörlega, heldur ætla jeg að bera þau fram með öllu afli þýðingar þeirra, jeg ætla að reyna til að nefna með þeim, hvað það er, sem hreifir sig í innstu fylgsknum hjarta míns, hvers jeg er mjer meðvitandi, hvað jeg veit um lífið í mjer sjálfum og andann, sem jeg dreg að mjer; jeg ætla að reyna til, að tala um dýrð þína, eylífi Guð! til þess jeg geti fyllt sálu mína af tilbeiðslu á þjer, og, ef verða mætti, vakið tilbeiðslu í annara sálum. En opinbera þig kröptuglega í mjer á guðræknisstundum mínum, svo hugurinn fyllist og jeg finni þau orð, sem rjett eru og hæfileg, þegar maðurinn talar um þig!

Opt segja menn, að vjer getum ekki öðlast neina þekking á

Guði, heldur sje hann oss hulinn, eða vjer að eins getum gripið hann í óljósum hugarburði; en hvað er það annað, enn eintóm undanfærsla, eintóm löngun til að hliðra sjer hjá kostgæfilegum og helgum hugleiðingum, eða til þess að hylja sig heldur í þoku, enn hugsa skírt og greinilega? Verkið lofar meistarann! hversu opt hafa menn ekki getað sjeð það á mannlegum handaverkum, hvað búið hafi í sálu meistarans sem bjó þau til, og gerði leynilegar hugrenningar sínar og háleitar tilfinningar hjarta síns sýnilegar í handaverkum sínum; og hversu gjörla hafa menn ekki getað þekkt innstu fylgskni sálar hans, þó þeir hvorki hafi heyrt hann nje sjeð. Og þjer himnar! og þú jörð! munduð þjer ekki eins berlega segja frá meistara yðrum! Og þú mannlegur andi! sem finnur, að þú ert af háum stigum, þótt þú sjert hjer á jörð dupti klæddur, þú ert líka eitt af handaverkum hans, sem hann setti merki dýrðar sinnar á, því þig skóp hann eptir mynd sinni. Nú ef nokkuð er til í oss, sem líkist Guði, ef vjer erum hans ættar (Post. 17, 28), mundi þá ekki þekking vor á Guði vera rjett, og ræða vor um hann vera hæfileg, þótt vjer sjáum hvorki nje skiljum alla veru hans? Enginn maður hefir nokkru sinni sjeð Guð, en hinn eingetni Sonur, sem er í skauti Föðursins, hann hefir sagt oss af honum (Jóh. 1, 18); og þau orð, er hann birti dýrð Föðursins með, og endurhljóma í hjörtum vorum, af því vjer líka köllum Guð föður vorn, og erum hans ættar, þau orð geta ekki villt oss, heldur gefa þau oss rjetta þekking á því, hvílíkur Guð sje.

Guðs nafn er mikið og heilagt. Vei þeim manni, sem leggur það við hjegóma og leikur sjer að því með vörunum, án þess það veki nokkra tilfinningu í hjarta hans! Þetta orð: „Guð“ er svo þýðingarmikið, og innibindur í sjer svo margar hugmyndir, að það nálega ber oss ofurliði. Þess vegna verður meira fjör í tilfinningu vorri, þegar vjer nefnum Guð eptir því, er vjer köllum náttúrur hans, það er: með einu af nöfnum þeim, sem að sönnu merkja alla guðlega veru, en benda þó til, að vjer einungis skoðum hana á einn veg, og vekja eina hugmynd um hana öðrum fremur í sálu vorri. Þegar jeg segi: hinn eylífi, hinn almáttki, hinn rjettláti, hinn algóði, þá nefni jeg þar æ hinn sama, og Guð er allt þetta

í einu, en hjarta mitt kemst þó ekki við á einn veg af sjerhverju þessara orða. Jeg nefni eitthvert af þeim, sem mjer kemur fyrst í hug, eða hjarta mitt hefir mesta þörf á að heyra; en þegar jeg er að hugsa um Guð, og ætla að safna nöfnum hans saman, til að geta skilið, á hvern hátt jeg er mjer þess meðvitandi, að Guð er til, hvert þeirra á jeg þá að nefna fyrst?

Þegar Páll stóð í Aþenuborg innan um heiðinn lýð, sem ekki þekkti hinn sanna Guð, hugsuðust honum þó orð til að tala með um guðlega veru; hann fann slík orð, er ætíð hafa síðan verið talin meðal hinna háleitustu orða; því hver hefir ekki opt og tíðum, þegar hann ætlaði sjer að tala um Guð, tekið undir með hinum mikla postula: Guð er ekki fjarlægur neinum af oss, því í honum lifum, hrærumst og erum vjer. Það er hið fyrsta, er jeg verð var við, að hvert sem jeg lít, þar er guðlegur kraptur, sem er umhverfis mig, og í mjer og fyllir upp alla hluti; að hvar sem jeg er, þar er og sá, sem meiri er enn jeg, og þekkir alla hluti. Alstaðar nálægur — Vera má, að takmarkaður skilningur eigi einna bágast með að grípa þýðingu þessa orðs, um það er allra torveldast að gera sjer nokkra hugmynd eptir því, sem í oss býr, eða kringum oss er. Að vísu get jeg með sanni sagt, að hugur minn sje ekki bundinn við staðinn, sem jeg stend á, nje þá hluti eina, sem jeg næ til með höndunum, því hann flýgur út um hin víðlendu veldi jarðarinnar, og fer gegnum himnana á vængjum vindanna; að vísu get jeg með sanni sagt, að ást mín sje ekki bundin við stað nje tíma, hún fylgir þeim í fjarlægð, er jeg ann, og flytur þá til mín úr gröfunum, sem fyrir löngu eru látnir, því þeir sem unnast hugástum, þeir eru ætíð hver öðrum nálægir. En allt þetta má ekki kalla skugga af nærveru hins óendanlega Guðs um allan hinn ómælanlega geym og tímann, sem aldrei stöðvast. En þó að vjer í þessu tilliti allra sízt getum skilið hann, sem er ekki fjarlægur neinum af oss, sem vjer lifum, hrærumst og erum í, þá er þó enginn sá, er ekki viti, með hinni háleitustu og helgustu vissu, að Guð er ætíð og alstaðar nálægur. Hefir nokkur verið þar staddur, er hann gæti sagt; hjer er Guð ekki, hjer sje jeg ekki mátt hans aðhafast neitt, skapa, niður raða, viðhalda. Hefir

nokkurn tíma verið nokkur sá, er mennirnir höfðu gjört ósanngjarnar gersakir, ákært og sakfellt, að hann hafi getað efazt um í hugskoti sínu, þegar sjerhverju hjarta og sjerhverju eyra var lokað fyrir honum, að einn sje til, sem þekkir góða viðleitni hans, að einn sje viðstaddur, sem ekki dæmir eptir mannlegum hætti. Hefir nokkurn tíma nokkur unnið illvirki, og reynt til að skýla því, og tekizt að skýla því fyrir sjerhverju dæmandi auga, og sjerhverri hegnandi hendi hjer á jörðu, en vitað þó ekki í hugskoti sínu, að sá var viðstaddur, sem sjer það sem í leyndum er, og endurgeldur opinberlega. Hefir nokkurn tíma nokkur beðið með lotningu og hógværum anda, og óttast þó, að bæn sín mundi hverfa út í bláinn, og komast ekki til eyrna þeirra, er hún girnist að ná? eða ímyndað sjer, að Drottinn himins og jarðar hafi tjaldbúð sína á hæðum uppi, hinu megin við stjörnurnar, fjarri þeim, er kalla á hann í þrautum sínum? Himininn og himnar himnanna geta ekki rúmað hann (Konung. 8, 27), hann býr í hæðum og helgidómi, en hann býr líka hjá þeim sem auðmjúkur er og volaður í anda (Es. 57, 15). Þessi rödd hljómar til vor úr helgidóminum, og upp úr innstu fylgsknum hjarta vors: Drottinn! hvert skal jeg fara frá anda þínum? hvert skal jeg flýja frá augliti þínu? þó jeg fari upp í himininn, þá ertu þar; þó jeg búi mjer legurúm í undirdjúpunum, þá ertu þar; þó jeg tæki vængi morgunroðans, og þó jeg gjörði mjer bústað yzt við heimsskautið, mundi þar einnig hönd þín leiða mig, og hægri hönd þín halda mjer (Sálm. 139, 7—10). Og því vil jeg helga mig fyrir augliti þínu, svo jeg kjósi ekki að flýja frá þjer, heldur kjósi jeg að flýja til þín, og að hvílast undir vernd þinni, og í faðmi kærleika þíns, þú, sem ekki ert fjarlægur neinum af oss, sem vjer lifum, hrærumst og erum í!

Þegar vjer fyllum sál vora af hugmyndinni um alstaðarnálægð Guðs, munum vjer skjótt finna, að hún verður ekki slitin frá hugmyndinni um almætti Guðs, því hinn eilífi Guð fyllir ekki upp himna og jörð aðgjörðalaus, heldur gefur hann öllum líf og andardrátt og sjerhvað annað (Post. 17, 25). „Guð almáttugur!“ Hversu ósjálfrátt brjótast ekki orð þessi fram af munni sjerhvers manns! þau verða hinum glaða af munni og hinum þakkláta,

hinum hrygga og hinum hrædda. „Guð almáttugur!“ Hversu opt hefi jeg ekki sjálfur nefnt þessi orð, þó ýmislega stæði á fyrir mjer! Og að jeg nú nefni þau aptur á þessari hugleiðingastund, kemur ekki til af því, að jeg ætti að safna ástæðum saman frá dölum og fjöllum, hafi og hauðri, undirdjúpunum og stjörnuhvolfinu, til að sanna með fyrir sjálfum mjer almætti Guðs; því undir eins og jeg lýk upp augunum, þá sje jeg, að yfir öllu veldi drottnar eitt veldi, sem heldur öllu saman; undir eins og nokkur íhugun vaknar í sálu minni, þá veit jeg, að orðið „Guð“ merkir: hinn almáttuga. En jeg nefni þau, til að minna mig á, að þó Guð gerði manninn að herra jarðarinnar, og gæfi mönnunum vald og sumum þeirra yfir öðrum mönnum, og leyfði að þeir kölluðust máttugir á jörðunni, þá er þó allt veldi þeirra hans eign, og honum verða þeir að vinna, Konungi konunganna og Drottni drottnanna, hvort sem þeim er það ljúft eða leitt. Hann gefur öllum líf og andardrátt og sjerhvað annað — að jeg anda að mjer og frá mjer, að hjarta mitt bærðist hið fyrsta sinn, og mun bærast hið síðasta sinn, að jeg bergði stundum á bikar gleðinnar, en stundum á bikar mótlætinganna, það er allt af þínum mætti orðið, Drottinn minn og Guð minn! Jeg þarf ekki að sanna þetta fyrir mjer, því mjer væri næstum óhætt að segja, að jeg sje fæddur með þessari meðvitund; jeg veit ekki nær hún hefir vaknað í sálu minni, eða nær hún, sem er almáttug sjálf og enginn má í móti standa, hefir brotizt inn í hana, og stígið yfir sjerhverja efasemd; en jeg vil halda mjer fast við hana og láta hana leiðbeina mjer á hinni villugjörnu lífsleið. Fari hjarta mitt að stæra sig heimskulega; fari óstýrilátar ímyndanir að telja mjer trú um, að jeg megi óhræddur bruna á fram; fari jeg að vanbrúka vald það, er þú trúðir mjer fyrir, Guð minn! þó ekki væri nema vald mitt yfir hinum lítilmótlegasta — lát mig þá minnast þess, hversu opt þú hefir sagt við mennina, eins og þú sagðir við hafið: Hingað skaltu komast, en ekki lengra! hjer skulu háöldur þínar brotna (Job. 38, 11)! Fari mjer að sortna fyrir augum, fari mjer að fallast hugur, og fari jeg að örvinglast, eins og enginn væri til að hjálpa, eins og ekki að eins hið nálæga heldur og hið ókomna væri hulið sorgarblæju, og

vonin sjálf væri undir lok liðin, ó! minntu mig þá á, að þú ert sá, sem lífgar hið dauða, og kallar á það sem ekki er, svo sem væri það (Rómv. 4, 17).

Almáttugur Guð, sem allt gjörir, er honum þóknast, sem ekkert miklast, svo að honum sýnist það undarlegt, og ekki þykir neitt lítið, svo að hann fyrirlíti það, sem leiðir missirin á fram, og gefur hverju þeirra gleði eða mæðu, sem leiðir mennina á fram og gefur hverjum þeirra krapt og tóm og tækifæri, sem beygir jafnvel hjörtu mannanna — getur það verið, að einnig þessa hugsun megi rangfæra, að eitrið geti læðzt einnig inn í það, sem á að vera lækning sálum vorum. Þó er til ein hugmynd, sem hjarta mitt titrar af ótta fyrir, þó hún látist vera byggð á þekkingunni á almætti Guðs. Eptir þessari hugmynd, er heimurinn í rauninni sama og Guð; hann er einungis mynd guðlegrar veru, og allt sem við ber í heiminum er einungis Guðs verk. Hví óttast jeg þessa hugmynd? Menn hrósa henni þó vegna þess, að hún eignar Guði einum allan mátt; verði nokkuð, segja þeir, í alheimi, með öndunum eður hinu andalausa, verði hið minnsta, sem Guð hefir ekki gjört, þá er veldi hans takmarkað, og þá er hann ekki almáttugur. Þjer gjörið lítið úr Guði, segja þeir sem ímynda sjer þetta, þegar þjer þykizt hafa vald á, að takast eitthvað á hendur, annaðhvort illt eða gott; þjer viljið sjálfir vera guðir, og viljið komast undan valdi hans, og sjáið ekki, að þjer eruð einungis verkfæri í hendi þess, sem einn á ríkið og máttinn og dýrðina að eilífu.

En hversu haglagar sem ályktanir þær eru, sem þessi hugmynd er á byggð, og hversu vegleg sem orðin eru, er menn prýða hana með, þá er hún þó jafnhuggunarlaus fyrir mig. Ætti jeg að fallast á hana, yrði mjer að sýnast allt líf mannanna óttaleg lygi þeirra við sjálfa sig, eða þó heldur lygi þess, er skapaði í oss alla aðra meðvitund, enn meðvitund sannleikans — það er að skilja, ef þessi hugmynd væri sönn. Því vjer erum oss þess meðvitandi, að vjer erum frjálsræði gæddir, að vjer í hugskoti voru getum hallað oss til hverrar hliðar sem vjer viljum, hvaða skorður sem reistar eru krapti líkama vors. Nú leitast menn við að koma oss í skilning um, að oss missýnist í þessu efni; vjer þykjumst,

segia þeir, hafast- að sjálfir, en það er þó reyndar hinn mikli veraldarandi, sem einn gjörir allt, og gjörir sjálfur í oss, það sem vjer gjörum. Vjer elskum Guð, og höldum hann elski oss, en elskan sjálf er ekki annað enn eintómur hugarburður; því sjeum vjer ekki annað, enn partar eða geislar af anda Guðs, hugsanir í sálu hans, eða limir á líkama hans, eða hvað annað sem menn kalla það: þá er hitt reyndar, að Guð elskar sjálfan sig, þar sem vjer þykjumst elska hann. En allra óttalegast finnst mjer það, að þá er enginn mismunur ills og góðs, þá er allt Guðs opinberun og Guðs verk. Hvers vegna kvelur þú þig, vesæll maður! á umhugsun synda þinna? þú varst ekki annað enn verkfæri í hendi hins almáttuga, þú hlauzt, eins og von var, að fara það sem hann leiddi þig, og framkvæma það, er hann hafði fyrirhugað. Það var hann, sem lagði vopnið í hönd morðingjans, og beitti því móti bróðurbrjóstinu; það var hann, sem leiddi svikarann lengra og lengra, án þess hann fengi móti staðið, allt til þess, er hann seldi saklaust blóð. Hvað viltu þá bitra og kvalafulla tilfinning í brjósti mínu, er jeg kalla iðrun og samvizkubit? Hvað viljið þjer hugrenningar, sem ásakið hinn brotlega og leiptrið með ógurlegum eldingum niður í djúp það, sem hann er í hrapaður, og sýnið honum alla hans óumræðanlegu eymd, svo hann örvinglast út af tímanum, sem liðinn er, og út af tímanum, sem koma mun; þjer kvalarar, er segið við hinn ófarsæla: það er allt saman sjálfum þjer að kenna — hvað viljið þjer, heimskulegar hugrenningar? Þjer eruð þó að eins sprottnar af illum vessum í líkamanum og afvega leiddu ímyndunarafli, en eruð ekki ógnanir hins eilífa Dómara; því hvernig gæti hann ásakað þann, sem ekki gekk annað enn hann var neyddur að ganga, og ekki framkvæmdi annað enn vilja þess, er enginn fær í móti staðið?

Jeg veit það, og sje það berlega, að ali jeg þessa ímyndun í mjer, muni jeg geta slitið mig frá öllum samvizkupíslum, afmáð allar syndir mínar, skopast að allri skuld minni, einskis virt hverja ásökun frá himni og jörðu; og samt sem áður, þó jeg gæti rekið burt allan ótta, og gæti með þessu móti gjört enda á allri baráttu milli syndar og rjettlætis í brjósti mínu — þar sem jeg þá yrði

að álíta hvorttveggja jafnsamfara Guðs veru, og jafnóumflýjanlegt fyrir þann, sem ætlaður væri til annarshvors þessa: samt sem áður yrði þó þessi hugmynd mjer óttalegust allra hugmynda. Því geti mjer lærzt, að halda synd og viðurstyggð og smán og spilling og afbrot sjeu ekki annað enn eintóm nöfn, þá lærist mjer undir eins, að halda sannleikur og rjettlæti og sakleysi sjeu það líka. Við iðrunina missi jeg einungis sjálfs mín, lofs míns og rjettlætis — en við þessa upphafning yfir iðrunina, missti jeg Guðs; hann væri þá ekki framar minn Guð, ekki sú vera, er jeg gæti orðið frá mjer numinn af að undrast og tigna; hann væri faðir lyginnar ekki síður enn sannleikans; hann kveldi skepnur sínar á iðrun þeirra athafna, er hann sjálfur neyddi þær til að áforma og framkvæma, og píndi þær á kröfum, er hann sjálfur lofaði þeim ekki að geta fullnægt. Þó sú hugmynd um Guð, að hann sje sá eini, er aðhefst í hinu ómælanda ríki andanna, gæti leyst allar efasemdir, og gæti gjört allar aðrar hugmyndir skírar: þá mundi þó sú hugmynd, er allra er helgust, verða við það myrk — en það er hugmyndin um alfullkomlegleika Guðs; og hin öruggasta vissa í sálu minni mundi þá haggast, — en það er vissan um, að hið illa er ekki gott, og að jeg syndga, ef jeg gjöri það sem illt er.

En þrátt fyrir allt þetta nefni jeg þó orðin G u ð a l m á t t u g u r! og nefni þau með fullkominni sannfæring, veit það og finn og trúi því í djúpi sálar minnar, að Guð er almáttugur. Jeg trúi því, að ekkert vald sje til, hvorki á himni nje jörðu, nema það, sem Guð hefir gefið, og ef Guð tæki krapt sinn burt, þá drægi þegar líf og mátt úr öllu, og allt yrði að engu. Jeg trúi því, að þegar Guð kveikti ljós skynseminnar í brjósti skapaðrar veru, og gaf henni um leið frjálsræði og t a k m a r k a ð i við það að nokkru leyti s j á l f a n s i g — að því orðatiltæki geta þeir einir hæðzt, sem vilja útrýma öllu frelsi úr guðsríki — er hann lagði á vald skynsamrar skepnu, að hallast að sjerhverri hvöt, að kjósa og áforma eptir geðþekkni: þá hafi hann og um leið takmarkað sjerhverja skepnu; hún megnar alls ekkert, nema það er Guð gaf henni krapta og tækifæri til, alls ekkert, nema á því sviði, er Guð setti hana á, og ekkert er henni unnt að gera, nema það, sem eflt

getur ráð hins almáttka. Jeg trúi því, að hvað sem vjer gjörum af því, sem vjer megnum að gjöra, þá muni þó sjerhver athöfn vor koma undir stjórn hins almáttuga Guðs. Vjer gróðursetjum og vökvum, en Guð einn gefur frjófgunina (1. Kor. 3, 6), og gefur hana opt undarlega, stundum þeim vísinum, sem enginn gaf gaum að, og því fræinu, sem enginn vissi hvað úr mundi verða; þar á mót setur Guð skorður fjær eða nær, en þær skorður eru óbifanlegar; hann setur skorður hafrótinu, vindunum og gjörðum manna.

Í þessari trú er hin dýpsta auðmýkt; maðurinn getur ekkert tekið, nema honum sje gefið það af himni (Jóh. 3, 27); sjerhver gáfa, sjerhver hvöt til hins góða, sjerhver hentugur tími, sjerhver framför og blessun, — allt kemur það frá Guði; en engin tálmun kemur heldur án vilja Guðs og stjórnunar, hvort heldur sem hún er eintómt próf, til að auka afl vort og reyna trúnað vorn og stöðuglyndi, eða hún er send til að kollvarpa mikilvægustu ráðagjörðum vorum. En í þessari trú er líka hið öflugasta og sigursælasta trúnaðartraust. Ef vilji minn er góður og rjettlátur og elskufullur og stöðugur, þá mun jeg aðhyllast það veldið, sem stjórnar öllum hlutum, en enginn getur aptrað. Hið góða á ekki, ef til vill, að koma í ljós í þeirri mynd, er jeg hafði ímyndað mjer, — en það mun þó koma í ljós í öðrum, veglegri myndum; hinn hentugi tími er, ef til vill, ekki kominn, — en hann kemur sá hinn góði tími, er Guð hefir blessað, hann kemur annaðhvort fyrir mig eða annan, er vill hið sama og jeg, og verk mitt hefir þá ekki verið árangurslaust; steinninn, er jeg lagði, stendur og í hinu mikla musteri. Rísið upp stormar! þjer munuð ekki kollvarpa því. Rísið upp synir mannanna! þjer munuð ekki tálma byggingu þess. Það hljómar rödd frá himnum og undirdjúpunum, og hljómar í eyrum hinna guðhræddu í armæðu þeirra og þrautum, svo látandi: Drottinn er með yður, af því þjer eruð með honum, og ef þeir leitið hans, þá mun hann láta yður finna sig (2. Kron. b. 15, 2). Og þá svarar trúin í hjarta hins guðhrædda, í allri armæðu hans og þrautum: Drottinn er með mjer, jeg vil ekki óttast; hvað geta mennirnir gjört mjer (Sálm. 118, 6)? Hvað getur lífið gjört mjer eða dauðinn, eða englar,

eða konungar eða voldugir menn, hið nálæga eður hið ókomna; hvað getur allt hið skapaða gjört mjer, þegar Guð almáttugur er með mjer?

---

## 7.

## GUÐ ER EILÍFUR, EINN, SANNUR, ÓUMBREYTANLEGUR.

Hversu farsællegt er vit mannsins! það kemst æ lengra og lengra í skilningi hlutanna; það sem er í þoku og óreglu fyrir augum annara liggur hinum vitra í augum uppi; hver partur þess birtir sig honum í sínu sambandi við alla hina; hluturinn allur er einnig samtengdur öðrum hlutum, og þá samtenging er vitinu gefið að skilja, — það skilur orsök og afleiðingu; því ekkert í heiminum er aleitt sjer — en það, sem nú er, hefir rætur sínar í því, sem áður var, og getur af sjer hið ókomna; þannig liggur aptur og fram endalaus röð orsaka og afleiðinga, og hvetur sífelldlega vit mannsins til þess að herða sig, og veitir því sífelldlega meiri og meiri ánægju. þannig gleðst vitið af verkum sínum, meðan það litast um að eins á litlu sviði. En öðru vísi fer, þegar það flækir sig í hinar þungu hugsanir um upphaf og enda alls. Eður mundi hin mikla röð undirróta og afsprettna, orsaka og afleiðinga, keðjan öll, sem hver hlekkurinn í er svo nákvæmlega samtengdur hinum — mundi hún hanga í hinum auða geymi, og hvergi vera fest, og enginn hlekkurinn efstur? Er eintómt áframhald, en ekkert upphaf — er eintómur straumur, en engin upptök?

Af öllu, sem augað sjer og hugurinn hugsar, hefir ekkert fullnóga ástæðu í sjálfu sjer, en vísar æ til annars, er áður var. En þegar hugurinn eins og hrekst þannig frá hverjum hlutnum til annars, og nær hvergi að hvílast, þá verður honum öldungis ósjálfrátt að veita móttöku hugmyndinni um hinn eilífa, sem hefir upptök sín í sjer sjálfum, og ekki er orðinn til af neinu

öðru, en gefur öllu líf og anda og sjerhvað annað, þann, sem ekki að eins var, áður enn heimurinn varð, var og er og verður alla tíma, heldur er upp hafinn yfir vora hugmynd um tímann, og er órannsakanlegur mannlegu viti, þar sem þó mannlegt vit finnur ekkert ljós án hans, hvað víða sem það leitar.

Jeg ætla ekki að reyna, að skýra með orðum frá því, sem tungan og hugurinn megna ekki að ná; það er einmitt ljósið, sem Guð býr í, og hið skapaða fær ekki að komizt (1. Tím. 6, 16). En hversu merkilega, hversu háleitlega kemur þessi hugmynd um eilífð Guðs hvarvetna fram í heilagri ritningu frá hinum fremstu bókum til hinna öptustu! Þegar Móses hafði á hendur tekizt hið mikla erindi til Gyðingaþjóðar, þá er skrifað, hann hafi mælt til Guðs: „Þegar jeg kem til Ísraelsbarna og segi við þau: Guð feðra yðvarra sendi mig til yðar; og þau segja við mig: hvað heitir hann? hvað á jeg þá að segja? Þá svaraði Guð Mósesi: Jeg er sá, sem er; og hann sagði: tak svo til orða við Ísraelsbörn: Jeg, er hefir sent mig til yðar. Og enn fremur mælti Guð til Mósesar: tak svo til orða við Ísraelsbörn: Jehóva, Guð feðra yðvarra, sendi mig til yðar; það er nafn mitt að eilífu, með því nafni skulu allar kynkvíslir minnast mín“ (2. Mós. 3, 13). Jehóva, það er, hinn verandi, það er sá, er í æðstum skilningi segir við sjálfan sig, og um sjálfan sig: Jeg er; því þar sem hver önnur vera, hversu fræg sem hún er í tölu skapaðra hluta, er skepna eigi að síður, og verður að kannast við, að hún hefir upptök, og hefir þau ekki í sjálfri sjer, og helzt ekki við af sínum krapti, og að hún er til, einungis af því að Guð er: þar hefir hinn eilífi lífið í sjálfum sjer (Jóh. 5, 26). Þvílíka hugmynd um Guð finnum vjer í hverri bók heilagrar ritningar og með þessum hugmyndum minnist hans enn í dag hver kynslóðin eptir aðra.

Þar í liggur og önnur hugmynd, er svo optlega og svo kostgæfilega er vakin og glædd; það er sú hugmynd, að Guð sje einn. „Heyr það, Ísrael — segir í guðsorði seint og snemma — Jehóva, vor Guð, Jehóva er einn (3. Mós. 6, 4). „Jeg em Jehóva, það er mitt nafn, og tign mína veiti jeg engum

öðrum (Es. 42, 8). Svo segir Jehóva, konungur Ísraels og lausnari hans, Jehóva Zebaot: jeg er hinn fyrsti og hinn síðasti, og enginn er Guð nema jeg (Es. 44, 6). Þó sumt sjeu guðir kallaðir, hvort sem er á himni eður jörðu, þá höfum sjer þó einungis einn Guð, Alföður, sem allt er frá komið (1. Kor. 8, 5. 6)". Að vísu eru margir kraptar alla vega umhverfis oss, og eru sumir oss yfirsterkari og oss á margar lundir ofvaxnir við að eiga; en sameign þeirra er ekki sem stjórnlaus leikur milli margra drottna, nje heldur eilíf, árangurslaus óslítandi barátta tveggja höfuðkrapta, hins illa og hins góða; heldur er einungis eitt vald á himni og jörðu, og einn sem ríkið á og máttinn og dýrðina um alla eilífð.

Af þessu skiljum vjer, hvað til þess kemur, að Drottinn himins og jarðar er hvað eptir annað nefndur hinn sanni Guð. Að vísu er hann kallaður svo til aðgreiningar frá falsguðunum, sem mennirnir hafa búið sjer til, og fæddust í huga þeim, og gjörðir eru af höndum þeirra; en hann er einnig kallaður svo sakir náttúru sinnar. Því Guð Jehóva er sannleikur, hann er lifandi Guð og eilífur Konungur (Jer. 10, 10). Í öllu hinu endanlega er æ einhver missýning, svo að það sýnist vera annað, enn það í raun og veru er; þar er æ eitthvað óáreiðanlegt svo að vjer getum ekki öldungis átt undir því — svo að það reynist allt annan veg, enn vjer hugðum — svo að það hverfur oss, þegar vjer ætlum að ná því: en Guðs vera er sannleikur, Guð er eins og hann verður, hann breytist ekki þó hlutirnir breytist, og það traust, sem á honum er haft, er á óbifanlegum grundvelli byggt; enn fremur: allt mundi hverfa og verða eins og reykur, staðlaust, verulaust og síbreytanlegt, nema Guð gæfi því líf og fylling og stað. Þess vegna sjá þeir, sem ekki nema staðar við yfirborð hlutanna, heldur rannsaka eðli þeirra — þess vegna sjá þeir, að allt er dautt og tómt, fánýtt og eyðanlegt, nema Guð sje; og sjerhver, sem er kostgæfinn og rjetthugaður í rannsókn hlutanna, finnur, að þessi orð eru sönn: það er hið eilífa lífið, að þeir þekki þig, hinn eina sanna Guð (Jóh. 17, 3).

Þessi orð: hinn eilífi og hinn eini, sanni Guð, eru þá samrar

þýðingar; svo er og, þegar vjer köllum Guð óumbreytanlegan, nema hvað vjer höfum þá fremur í huga mismun guðlegrar veru og hlutanna óstöðugleiks. Og þess vegna skulum vjer halda fast þessu nafni, og hafa það til að gjöra skírri hugmynd vora um Guð.

Öll góð gjöf — segir Jakob postuli — og öll fullkomin gjöf er ofan að, niður komandi frá Föður ljósanna, þar sem hvorki er umbreyting nje umskiptingar skuggi (Jak. 1, 17). Þar sem postulinn kallar Guð Föður ljósanna, þá hefir hann eflaust í huga þau ljós, sem Guð hefir tendrað á himninum, til að ráða fyrir degi og nóttu, og vjer svo optlega horfum upp til, leitandi hjarta voru rósemi í órósemi lífsins. Því hversu mjög sem flestir menn æskja sjer umbreytingar, hversu frásnúnir sem þeir sýnast vera því, að geta unað við, enda það sem gott er og gleðilegt, og hversu mjög sem þeir fýkjast í nýtt, svo sem væri það allt inndælt — ó! þá fær þó öll þessi umbreyting optlega sárt á oss; enginn er svo ljettúðugur, að hann verði ekki hryggur í huga, um leið og hann finnur, hvernig umskiptingin verpur skugga sínum yfir alla jarðneska dýrð, og að ekkert er hjer á jörðu, er með sanni verði um sagt: þetta er stöðugt og breytist ekki. Mitt í þessari jarðnesku umbreytingu, er mæðir oss og gjörir oss hryggva, hefjum vjer optlega, svo sem af náttúrlegri fýsn, augu vor til himins, og sú tilfinning, er gagntekur oss, annaðhvort þegar vjer sjáum hina miklu dagstjörnu líða fram himinbrautirnar, og senda ljóma sinn út um hinn ómælanda geym, eða þó einkanlega þegar vjer sjáum stjörnur næturinnar skína niður á lög og láð — sú tilfinning er ekki einungis í því fólgin, að vjer dáumst að fegurð þeirri, er augu vor líta, heldur finnum vjer þá til þess, sem er fast og stöðugt og óbreytanlegt, og sú tilfinning fyllir þá hjarta vort, og gefur brjósti voru rósemi í stað órósemi. Því að þjer ljós himinsins! þjer skínið enn, eins og þjer skinuð í öndverðu, þjer lýsið enn yfir oss og yfir vorum fánýtum athöfnum, eins og þjer lýstuð yfir feðrum vorum. Ótal kynkvíslir hafa komið hver eptir aðra; ótal þjóðir hafa risið upp, og eru undir lok liðnar; allt útlit jarðarinnar hefir umbreytzt, — en yður sjáum vjer enn á yðrum ljósu leiðum

eins útlítandi og þegar hinn fyrsti maður sá yður, þá er Guð opnaði augu hans til að sjá það, sem honum var fyrirbúið; og jafnvel þegar ský og þokur fela yður sýn vorri, þá er það jörðin ein, er sig hjúpar skýum og þoku, en yðvart ljós brennur jafnskært hinu megin skýatjaldsins, og mun senda geisla sinn í gegnum það, þegar er það rifnar. En þó að tilfinning umbreytingarinnar mýkist á því að hefja augu sín upp til hins sýnilega himins þó að vjer lítum þar, það sem er stöðugt, þó tímarnir beytist: þá vitum vjer samt, að þetta allt er kallað stöðugt, einungis af því að það á lengra aldur enn vjer, sem eigum fá ár fyrir hendi. En þó verða umbreytingar á hinu víða himinhvolfi — stjörnurnar koma og fara, sólin sendir geisla sína lengra eða skemra að, umskiptingin verpur skugga sínum einnig yfir hana, og undarleg umskipti verða á hennar skínandi ásjónu; himinhnettirnir reika af leið sinni, og stjörnur hafa birzt og orðið æ skærri og skærri, en horfið síðan; og meira að segja: hver getur hjá komizt að hugsa, að þessi ljós hafi einhvern tíma byrjað ferð sína, og einhver dagur hafi verið þeirra fyrstur? hver getur hjá komizt að hugsa, hvort einhver dagur muni ekki einnig verða þeirra síðastur? Allt endanlegt, sem er, hefir enda; og menn þykjast geta reiknað, að hnettirnir hljóti að rekast á, þó ekki verði fyrr enn um óteljandi þúsundir alda; og því er fastlega spáð í guðsorði, að sól þessa heims muni missa birtu sína, og stjörnur þessa himins muni slökkna.

Látum það verða oss sem berast, að allt hið stundlega sje breytingum undirorpið — látum þá tilfinningu gagntaka oss, að eyðingin grafi burt rætur fjallana og hlífi ekki himinbirtunni: því meir hefst hugurinn, og sálinn öll, upp til Föður ljósanna, því meir verðum vjer oss meðvitandi þeirrar veru, sem ekki breytist, þó allt annað ummyndist; hann eldist ekki, og enginn umskiptingar skuggi dregur neinn myrkva á ljóma hans guðlegrar dýrðar. Eilífur Guð og óumbreytanlegur — óstöðugleiki stundlegra hluta kennir oss að nefna þessi orð með guðrækni og lotningu. Í Guði einum finnur sálin hvíld, enda finnur hún þar fullkomna hvíld.

Óbreytanlegur, æ hinn sami — þessi orð þýða allt annað

þegar vjer segjum þau um Guð, enn ef vjer kæmumst svo að orði um harðan klett í hafinu, eður um einhvern hnöttinn, sem þar skín uppi yfir; því þá töluðum vjer um dauða hluti, sem ekki geta bifast, eða um þá líkami, sem halda á fram að feta þær brautir, sem þeim eru markaðar, og vita ekki til sín; en nú tölum vjer um hinn lifanda Guð, um þá veru, sem ekki að eins er, heldur hefir lífið í sjálfri sjer. Vjer getum ekki gjört oss neina þá hugmynd um Guð, að um hana verði með sanni sagt: nú er hún fullkomin, nú er hún Guði samboðin; en ef vjer girnumst að nálægja oss rjettri þekkingu á Guðs óumbreytanlegleika, þá leitum heldur líkingar í ríki andanna, enn í ríki líkamanna, og hugsum, hver að sje sá óumbreytanlegleiki, sem vjer mundum ætlast til af þeim manni, sem væri vitur og rjettlátur. Sannlega ætlumst vjer ekki til, að hann sje stirðnaður steingjörvingur — að lífsins auðæfi líði fyrir augu hans, og fái ekkert á hann — að hann hafi engin afskipti af því, sem við ber í veröldinni umhverfis hann; en vjer ætlumst til þess óumbreytanlegleika, að hann meti og dæmi sjerhvað sem fyrir hann ber æ eptir sömu reglum — að hann hafi stöðugan vilja, og breyti ekki teknu ráði jafnótt og eitthvað breytist — að straumur athafna hans komi æ af sömu upptökum; það á reyndar að vera allt ein athöfn, þó hún komi fram í mörgum myndum. Ró og hreifing eru þar í einu lagi; lifnaður hins vitra er stöðugasta ró í ávaxtarsömustu og öflugustu hreifingu. En í því vjer segjum þessi orð, þá finnum vjer um leið, hver að sje einn vitur, því þessi lýsing á ekki við um neinn mann, heldur einmitt um guðlega veru. Guðs ró er margfaldlegasta fylling kraptarins, straumar lífsins streyma út frá honum án afláts, kraptur hans er í öllum, og er æ hinn sami: myndir alsherjarlífsins renna án afláts upp fyrir augum hans, samt kviknar ekki í honum nein ný hugmynd, því allt sem verða mætti og verða mundi var honum löngu bert, það hverfur aptur, en þó hverfur ekkert úr huga Guðs, því þar er engin gleymska, að skyggja á það sem við hefir borið. Hjer á jörðu er hið andlega ásamt hinu líkamlega á sífelldri hreifingu og breytingu. Eins og hafsins öldur æða allt í kringum löndin, eins æða öldur meininganna yfir þau. Hvernig hafa ekki

meiningarnar breytzt hjer á jörðu! Einn tíma hafa mennirnir boðað það svo sem heilsusamleg og ómótmælanleg sannindi, er þeir annan tíma hafa útskúfað svo sem villu; einn tíma hafa þeir kallað það rjett, er þeir annan tíma hafa haft andstyggð á svo sem röngu. En því betur sem vjer sjáum þetta, því leiðari og viðbjóðslegri sem þessi umbreyting verður oss, því skírri verður sú sannfæring, að yfir öllum þessum ókyrrleik meiningannna sje einn staðfastur hugur, sem, án yfirsjónar, greini sannleikann frá hinu ranga og kalli hann æ hinu sama nafni; að yfir öllum þessum óstöðuga vilja, sem kýs í dag það sem hann kastar á morgun, sje einn vilji heilagur og óbifanlegur, samur í dag og í gær og samur til eilífðar; að á himnum sje það kallað rjett, sem er kallað svo frá upphafi veraldar, og verður kallað svo til veraldar enda. Þessi sannfæring er hyrningarsteinn sjerhverrar háleitrar viðleitni og rannsóknar. Hvað dygði það, þó jeg leitaði sannleikans, væri ekki til óbifandi sannleikur, byggður á óumbreytanlegri veru hins eina og eilífa Guðs? Hvað dygði það, þó jeg kostaði kapps um að laga athafnir mínar eptir þess konar reglu, er jeg gæti sí og æ haft fyrir augum, væri ekki til stöðug regla og óbifandi lögmál, byggt á óumbreytanlegri veru hins eina, sanna, eilífa Guðs?

Af því Guð er einn og sannur, eilífur og óumbreytanlegur þess vegna er sannleikinn — sem þeir finna, er leita hans kostgæfilega — þess vegna er hann ekki sviksamlegt tál, breytanlegt á hverri stundu nje heldur óumflýjanleg missýning til þess ætluð, að hún villi sjónir fyrir manninum á hjervistardögum hans, og hverfi síðan; heldur er hitt, að hverjar þokur sem tálma sjón vorri hjer á jörðu, þá standa þó gegnum þær geislar þess sannleika, er Guð sjer frá eilífð sjálfan sig í og þekkir frá eilífð öll verk sín í (Post. 15, 18). Fyrir því er það lögmál, er hinn ráðvandi leitar að breyta eptir — fyrir því er það ekki sett honum að eins um stundarsakir meðan hann sje á ferð um tálgötur þessa lífs, svo að annað lögmál eigi síðan að koma í stað þess, — heldur er það byggt á eðli og náttúru Guðs; það er sama lögmálið, sem drottnar í verkum hans, því þó að hvert boðorð tali til mannanna

á mannlegan hátt, þá er þó hvert þeirra byggt á því lögmáli rjettlætis og kærleika, er sjálfur Guð drottnar og stjórnar eptir.

Guð umbreytist ekki af neinu, sem kemur af náttúru sjálfs hans, — því hún er æ hin sama, nje heldur af annarlegum mætti — því hann megnar ekkert í móti Guði; þó er stjórn hans ekki sem stjórn hinna ósveigjanlegu forlaga, er heiðingjarnir sögðu drottna yfir guðum og mönnum. Þessi forlög, ímynduðu þeir sjer, að hefðu ákveðið óbifanlega, hvað hver maður væri eður ætti að verða, og alla sælu þeirra og eymd; þau hirða ekki um synd nje rjettlæti og ekki um tár nje bænir, heldur halda þau leið sína og troða allt undir fótum sjer miskunarlaust. En vor Guð metur athafnir mannanna; hann launar og hegnir af rjettlæti sínu, og leitar hins glataða af kærleika sínum, til að bjóða því frelsi; vor Guð heyrir óp vort, þó vjer sjeum dupt og aska og eyru hans nema æ bænir þeirra, sem eru auðmjúkir og treysta honum. Þó breytist ekki Guð vor; því það er vilji hans frá eilífð, að hinir syndugu hjálpist — það er vilji hans frá eilífð, að sá finni, sem leitar, að sá öðlist, sem biður. Hefir þú nokkru sinni ásakað sjálfan þig um óstöðugleika, þó þú hafir miskunað þig yfir hinn auma, eður látið að auðmjúklegri beiðni hins iðrunarfulla? Það, sem kom fram í þjer í það skipti, það var hið bezta, og hið óbreytanlegasta, sem þú hefir til — það var sá vilji, sem kann og á að standa stöðugur um allar aldir: þú vildir vera sannleiknum og rjettlætinu trúr í kærleika. Þannig er Guð æfinlega óumbreyttur, hans vilji er æ hinn sami, hvort sem hinir þungu dómar rjettlætis hans steypa hinum drambláta, eður hin blíða rödd miskunar hans segir til hins iðrunarfulla: syndir þínar eru þjer fyrirgefnar. Hjá Föður ljósanna er engin umbreyting nje umskiptingar skuggi.

# 8.

## GUÐ ER LIFANDI, ALLSVITANDI, ALVITUR.

Hvernig getum vjer bezt gjört hugann á Guði öflugan og ávaxtarsaman í sálu vorri? Vjer vitum að Guð er til; þegar vjer sjáum tímans straum fram hjá fljóta, og því fremur sem vjer sjáum, að hann breytir öllu við bakka sína, að sjerhver bylgja sem rís, fellur aptur, og sjerhvert blóm, sem breiðist í sundur, fölnar aptur, og ekkert er til í öllu hinu mikla ógrynni sýnilegra hluta, sem vjer getum með sanni um sagt: það var og er og mun vera; því fremur hlýtur að vakna í oss hugmyndin um hinn eilífa, sem varir, þótt allt annað breytist, ætíð hinn sami. Himin og jörð boða hinn almáttuga, sem eilíflega skapar, viðheldur og stjórnar; og hvert sem vjer horfum sjáum vjer vott hans, sjáum vjer hann sjálfan, hinn alstaðar nálæga, sem fyllir alla hluti, þann er vjer lifum, hrærumst og erum í. Og samt sem áður, þótt vjer játum þetta svo berlega, hvers vegna lifum vjer þó svo optlega án Guðs í heiminum? Jeg kemst ekki þannig að orði, til að telja mig á meðal þeirra, er kastað hafa að öllu leyti oki guðlegra yfirráða; hversu mjög sem jeg hefi villzt og hversu harðúðugt og tilfinningarlaust sem hjarta mitt hefir verið, hefi jeg þó aldrei sagt, að enginn Drottinn væri yfir mjer, og aldrei hugsað, mjer leyfðist að gjöra allt það er jeg vildi og gæti. En þú hjarta í brjósti mjer, breytilegt eins og hlutirnir í kringum mig! hversu optlega hefir þú fyllzt nægð sælu og fagnaðar, hversu optlega hefir þú andað í hinum tæra himinbláma, en allar hinar þungu þokur jarðinnar voru sígnar og sokknar langt niður fyrir þær himnahæðir, sem þú varst uppnumið í; og hversu optlega hefir þú hins vegar verið bæði dautt og tómt, — trú og von og kærleikur voru þjer þá slík orð, sem hefðirðu gleymt þýðingu þeirra, og þjer fannst, sem væri þú einmana og allsþurfi í veröldinni, sem enginn væri í himninum, er þekkti eymd þína, enginn er gæti huggað þig nje vildi það! Hvernig get jeg lífgað hjartað aptur, þegar það er dautt, hvernig get jeg fyllt það aptur tilbeiðslu,

þegar enginn háleit tilfinning drottnar í því, þegar yllausar hugsanir einar saman koma og fara, eður eintóm órósemi og áhyggja eiga þar bústað sinn?

Jeg ætla að halda á fram að nefna nöfn Guðs, því öll eru þau mikillar þýðingar, hvert þeirra bætir nokkru við hugmynd mína, hvert þeirra hefir sinn krapt; og hvert þeirra snertir sálu mína í sitt skipti, á þann hátt að jeg uni þá bezt við þá hugleiðing, er það vekur.

Ef jeg nú girnist að hjarta mitt lifni, þá skal jeg temja mjer að tala við það um hinn lifanda Guð; því eins og hann lífgar alla hluti (1. Tím. 6, 13) og er uppspretta alls lífs, er hrærist í veröldinni, þannig lifnar hjartað af tilhugsun hans. Lifandi Guð — þessi orð hljóma eins opt og eins kröptuglega í allri heilagri ritningu, eins og nafnið eilífur Guð. „Jeg lifi eilíflega“ segir Drottinn himins og jarðar (5. Mós. 32, 40). „Svo sannlega sem Jehóva lifir“, segja hinir guðræknu menn, er halda sjer við hann (Dóm. 8, 14, og víða annarst.). „Guð vor Guð er sannleikur, hann er lifandi Guð og eilífur konungur“, segja spámenn hans (Jer. 10, 10); og þá er postular Krists hófu upp raddir sínar meðal heiðinna þjóða, þá kenndu þeir fyrst af öllu, að þær skyldu snúa sjer frá fánýtum átrúnaði til hins lifanda Guðs (Post. 14, 15). Allur lærdómur heilagrar ritningar, bæði lögmálið og náðarboðskapurinn, er byggður á hugmyndinni um hinn lifanda Guð. Að vísu er hugmynd þessari fastast fram haldið í móti þeim, er gjörðu sjer guði úr silfri eður gulli, eður tignuðu hersveitir himinsins; en þótt oss sje nú svo farið fram, að vjer sjeum hættir að búa oss til bílæti, þau er vjer tignum og dýrkum, af því vjer höldum að í þeim búi guðlegur máttur, þá látum oss samt ekki halda, nú sje orðinn óþarfi að boða hinn lifanda Guð; því fer svo fjarri, að guðsafneitun vorra tíma er einmitt fólgin í því að margir trúa að sönnu einhverju guðlegu, eður þá, ef til vill, einhvers konar guðlegri veru, en hinum lifanda Guði trúa þeir ekki, að minnsta kosti ekki lifanda á slíkan hátt, sem kristin trú boðar. Getum vjer borið á móti, að hugsanir manna og einkum þeirra, sem vitrir eru og hyggnir haldnir, hafi meir og meir náð þeirri stefnu, að þeir

ímyndi sjer hið guðlega, er þeir nefna, eins og einhvern krapt í allri náttúrunni, er ekki viti til sín, og ímyndi sjer lífið í Guði þeirra, álíka og lífið í trjánum, er flytur vökvana gegnum bol og greinar, breiðir sundur blöð og blóm og ávexti, og lætur síðan blöð og blóm og ávexti fölna og falla til að framleiða aðra nýja, en veit ekkert til þeirra, sem eru nje hafa verið? Hvernig á jeg þá að ímynda mjer þig, þú falsguð! er mennirnir hafa sett á veldisstól Skaparans? Þú gefur öllu líf og anda og sjerhvað annað, þú gefur mjer huga og meðvitund, opnar í mjer uppsprettur tilfinninganna, kennir mjer að elska þá, sem aðhyllast mig; og sjálfur veiztu ekkert til auðæfa þeirra, er þú leiðir í ljós, og gleðst ekki við dýrð þína; þú elskar ekki börn þín, heldur fleygir þú þeim frá þjer í tilfinningarleysi, eins og trje fellir lauf á hausti; þú ert kaldlyndur og grimmur, og skapar einungis til að eyða. Nei! þig get jeg ekki tignað, þú ert dauðinn, en ekki lífið, og sálu mína þyrstir eptir Guði, eptir hinum lifanda Guði (Sálm. 42, 3), þeim Guði, er bæði veit til sín og til mín.

Hversu nálægur er sannleikurinn, hvert sinn er vjer að eins viljum gefa gætur að röddu hans! Jeg hverf aptur til þeirrar hugleiðingar, er jeg finn í ritum geymda frá fornöld: Mundi sá, sem gróðursetti eyrað, ekki heyra, mundi sá, sem tilbjó augað, ekki sjá (Sálm. 94, 3)? Eins segi jeg: mundi sá, sem gefur líf öllu lifanda, ekki lifa sjálfur? Hversu bert er það, að fyrst að maðurinn þekkir hlutina í kringum sig og þekkir sig sjálfan, þá geti sá — sem opnaði í oss uppsprettur þekkingarinnar, og kveikti ljós hugsana og meðvitundar í sálum vorum, og leysti oss undan áþján náttúrunnar, svo vjer göngum frjálsir í heiminum, — ekki verið eintómur kraptur, er lífgi náttúruna, án þess að vita til sjálfs sín. Hugsunarafl og meðvitund eru þeir yfirburðir, er lypta mjer yfir allar aðrar skepnur þessarar jarðar; ætti jeg þá að synja hinum hæsta, Föður andanna, þeirra yfirburða, sem gjöra andann að anda? Eður þarf jeg að vera hræddur um, að jeg lítillækki guðlega veru, og minnist hennar með of mannlegum orðum, er jeg eigna henni þann yfirburð, sem jeg finn ágætastan á sjálfum mjer? Ó hvaðan ætti jeg að taka orð, til að tala um þann, sem er

eilíflega, eður hugmyndir til að hugsa um hann, utan af því sem er. Og það var maðurinn, en hvorki dýrið, nje jurtin, nje hin meðvitundarlausa náttúra, er Guð skóp eptir mynd sinni, svo það sem lyptir manninum yfir aðrar skepnur nálægir hann Guði. Guð er andi (Jóh. 4, 24), og þeir lítillækka guðlega veru, er taka hugmyndirnar um hana af öllu öðru enn af anda mannsins; því hann einan skóp Guð svo hjer á jörðu, að hann skyldi vera honum líkur.

Hinn eilífi Faðirinn hefir lífið í sjálfum sjer (Jóh. 5, 26). Allt sem lifir í veröldinni hefir lífið í einhverju öðru, sem máttugra er og yfirgripsmeira; þannig lifir maðurinn sumpart í náttúru þessa heims, og sumpart í hinu mikla allsherjarlífi mannkynsins; og að síðustu lifa allir hlutir í Guði. Samt hefir maðurinn þar á ofan veru sjálfs sín, er hann greinir skírlega frá og setur gegnt öllu því, er hefir áhrif á hann, og birtir mátt sinn í honum; slíka meðvitund sjálfs sín, eignar maðurinn ekki öðrum skepnum, er hann kemst svo að orði, að ein saman nátturan reki þær og þær geti ekki slitið sig af henni. Þá er maðurinn segir: „jeg,“ setur hann sig sjálfan, sem þann, er gjöri af sjálfsdáðum það er hann gjörir, og kannist við sig sjálfan, og veröldina í kringum sig. Þá er hinn eilífi segir: „jeg lifi“, þá hlýtur allt, sem til er í mannlegri meðvitund, að vera fólgið í þessu „jeg“, nema hvað það er allt óumræðanlega miklum mun öflugra og dýpra og ljósara. Því eins og Guð er ljós, og alls ekkert myrkur er í honum (1. Jóh. 1, 5), eins er Guð líf, og alls enginn dauði nje fyrirstaða nje takmörkun er til í honum. Og undir eins og þetta hið eilífa og alfullkomna líf þekkir sjálft sig, gagnskoðar það djúp veru sinnar til fullnustu og gagnskoðar um leið allt hið skapaða, himnana og jörðina og allt, sem orðið er, og allt, sem óorðið er, því það er allt af Guði og fyrir Guð, og samt greinir hann það allt að frá sjálfum sjer.

Þegar vjer segjum: hinn lifandi Guð, þá ímyndum vjer oss hann svo sem framkvæmandi og gjörandi, en jafnframt svo sem vitandi veru; hann er sá hinn almáttugi, því máttur hans er í öllu, og sá hinn allsvitandi, því þekking hans nær yfir a l l t. Þannig er alvizkan í hinni nánustu sameining við hið hæsta og

endalausa líf; og hjer sjáum vjer aptur hugmynd, sem bæði er háleit og huggunarík, er bæði vekur anda vorn og lyptir honum til hæða. Hún er þess verð, að vjer staðnæmumst við hana og reynum til að skilja til hlítar, hvað það sje, sem vjer segjum, er vjer svo optlega áköllum hinn allsvitanda Guð.

Guð gjörði einnig manninn vitandi, og færi jeg að minnast á yfirburði mannsins, hlyti jeg einnig af þessu að kannast við, að Guð hefir krýnt hann vegsemd og sóma. Þá kæmist jeg rjettilega svo að orði: sála mannsins er auðug, hún safnar í sig fjársjóðum liðinna tíma; tímarnir, sem fóru fram hjá mjer, skildu eptir merki sitt í sálu minni, í kyrrðinni og einverunni eys jeg úr brunni endurminninganna, og það sem horfið er hverfur aptur í huga mjer; fornar aldir hafa eptir skilið merki sín á jörðunni, hver kynslóðin segir það annari, sögurnar kenna oss að lifa í samfjelagi við hina ágætu menn, er uppi voru í fornöld; vjer sjáum afreksverk þeirra og hlýðum enn á speki þeirra. Maðurinn lýkur augum sínum upp, og lítur hlutina umhverfis sig; hann lítur þá ekki að eins í óreglu, eins og skilningarvitin sýna honum þá, heldur lýkur hann upp augum sálar sinnar og sjer þá í sameiningu þeirra, hvers við annan, hann eyðir missýningum, hann kemst að brögðum svikarans, hann rífur grímuna af hræsnaranum, og í orðum og gjörðum annara manna, jafnvel í augum og andlitum þeirra, les hann það, sem í brjóstum þeirra býr. Maðurinn gengur ekki að öllu leyti blindur í móti hinum ókomnu tímunum, heldur getur hann sjer til hins ókomna af því, sem liðið er, og alltaf kennir reynslan honum betur, að hið sama sem var, muni verða, svo að ekkert sje nýtt undir sólinni (Prjed. 1, 9). Hann hertygjar sig vizku og hyggindum, og gengur þannig fram á hina ókunnu stigu, og reiðir sig á, að þær hinar sömu stjörnur, sem áður hafa leitt hann á rjettum vegi, muni nú og eptirleiðis ráða stefnu hans.

Þetta hól er ekki með öllu ástæðulaust, því Guð kennir mönnunum hyggindi (Sálm. 94, 10). En satt er það, að þótt jeg nú beri þetta hól fram, freistar það mín engan veginn til að gjörast drambsamur af hlutskipti mín sjálfs, eður annara manna. Miklu fremur finn jeg til vanmáttar míns og því ákafar, sem sálin

girnist að aukast að þekkingu og skilningi, því sárlegar finnur hún til takmörkunar sinnar. Þú hin hryggilega óminnisá! seint en jafnt, ber þú fram þær hinar dymmu bárur, og breiðir þær eins yfir fagra völlu og eyðisanda, og smátt og smátt breiðir þú þær yfir hina víðlendu veröld og yfir alla dýrð hennar. Það er ekki, eins og fornskáldin sögðu að maðurinn bergi þá fyrst á vatni þínu, er hann nálgast hinar dymmu strendur, þar er draumar hins jarðneska lífs hverfa; heldur hefir mjer optlega verið borið það, bæði þá jeg vildi og ekki vildi. Hversu margt hefir verið mjer ljóst, sem nú er hulið fjarlægri þoku; hversu margt hefi jeg þótzt vera búinn að rita svo skírt í sálu mína, að þeir stafir mundu aldrei geta óskírzt, og samt eru þeir afmáðir; hversu margt hefir hrært innstu rætur hjarta míns; hversu optlega sagði jeg við gleðistundina: þjer skal jeg aldrei gleyma að eilífu — og þó er hún gleymd, allt eins og sorgin, er jeg sagði aldrei mundi fyrnast. Að vísu er því svo varið, og Guði sje lof því er svo varið, að það, sem fyrnzt hefir yfir, er þó ekki orðið að engu: það sefur enn þá dýpst í fylgsknum sálarinnar, og undarlega vaknar það aptur, kallað og ókallað, og kennir manninum, að hið umliðna sje enn þá nálægt, og að á hinni síðustu stundu æfi hans, verði honum einmitt rjettur minnisbikarinn, en ekki bikar óminnisins, því þá er búið að taka á burt skorðurnar, er öptruðu sálinni að líta aptur. En á meðan sálin truflast og glepst hjer á jörðu, leitar hún optlega árangurslaust að hinu umliðna, og sjaldan og dauflega kallar hún það fram fyrir sig; svo er það fyrir hverjum einstökum manni, og svo fyrir öllu mannlegu kyni. Öll jörðin er eins og leiksvið, og í stað þeirra, sem ljeku þar um stundarsakir, eru nú komnir aðrir; hálfhrundir minnisvarðar frá liðnum tímum standa enn á stangli, en sú hin lifandi kynslóð hefir gleymt hinni dauðu, og er á ferðinni hugsunarlaus, þangað til einnig er búið að gleyma henni. Mikil afreksverk hafa verið framin, og allur lýður hefir horft á þau, hetjurnar hafa sett sigurhringa á höfuð sjer, og fólkið leitt þá fagnandi heim aptur; spekingarnir hafa talað og skáldin kveðið, og lýðurinn hefir undrazt og hlustað á sjerhvert orð, sem gekk fram af vörum þeirra; og nú eru þessar

varir þagnaðar, og hetjan er setzt um kyrrt, myndin er orðinn að dupti og leiðið sígið, og minnisvarðinn geymir ekki nafn hans framar meir. Þeir hafa flýtt sjer á fram á hinum fjölförnu götum, háfaði lífsins hefir geysað í kringum þá, og ástríðurnar hafa geysað í brjóstum þeirra, margt eitt hjarta hefir brostið, er það var fullt vonar og fagnaði lífinu, og margt eitt hjarta hefir brostið í hryggð og einveru — og það er allt saman gleymt. Gleymt hjer á jörðu — en þú, Guð allsvitandi! gleymir engu; það er veikleiki að gleyma, og þú ert ekki veikur; engin skepna er orðin ósýnileg fyrir augliti þínu, heldur eru allir hlutir berir og breiddir sundur fyrir augum þjer (Hebr. 4, 13). Minni þitt, ef jeg mætti svo að orði komast, og skoðun þín, sem nær yfir alla hluti, lítur yfir alla þá, sem dánir eru, hvort heldur sem margar þúsundir grjetu burtför þeirra, eður enginn hirti um dauðastríð þeirra; og sjerhver fölskvalaus og háleit viðleitni, og sjerhver synd, hulin og augljós, það er allt saman skrifað fyrir augliti þínu, og skrifað í þær bækur, sem tíminn fær ekki afmáð af, jafnvel hinn minnsta staf.

Vjer þekkjum hið nálæga — jafnvel eins langt, og auga vort fær sjeð, um hitt, sem firr er, hlustum vjer til hinnar seinfæru boðunar; en auga þitt, Guð allsvitandi! sjer yfir öll ríki veraldarinnar, það fylgir ástvinum vorum á hinum fjarlægu og villigjörnu vegum þeirra; vjer vitum ekki hvað þeim líður, en þú veizt það. Vjer þekkjum hið nálæga — yfirborð þess þekkjum vjer, en það tælir oss optlega. Að vísu hefi jeg mörgum sinnum þótzt sjá djúpt í hjörtu mannanna, og þá hefi jeg sjeð þar ýmist rjettlæti eður synd, ýmist tómar blíðar ósjerplægnar tilfinningar, eður þá tóm svik og hjegómagirnd; en þegar hið hulda varð augljóst, þá hefi jeg optlega orðið að bera kinnroða fyrir virðingu mína á þeim, sem ekki áttu hana skilið, og hryggjast af mínu órjettvísa og meiðanda vandlæti. Hverig ætti jeg og að geta sjeð með nokkurri vissu inn í hjörtu annara, þar sem jeg svo optlega hefi sjeð rangt í hjarta sjálfs míns? Jeg hefi ekki einungis mörgum sinnum gálauslega skotið á frest að hirða um, hvað í sjálfum mjer byggi, ekki einungis mörgum sinnum látið sjálfselskuna draga

mig á tálar, svo mjer hefir þótt jeg öðru vísi og betur á mig kominn, enn einlægleg rannsókn mundi hafa komizt að raun um; heldur einnig, þegar jeg í fullri alvöru hefi reynt til að sjá mig allan, eins og jeg er, þegar jeg með kostgæfni og einlægni hefi leitað í fylgsknum hjarta míns, að hvötum þeim, er ráðið hafa gjörðum mínum og hugrenningum, og að uppsprettum þeim, sem allt í mjer er fram komið af; hversu optlega kom þá þoka fyrir augu mjer, svo jeg komst að raun um, að mannlegur andi skilur ekki einu sinni það til fullnustu, sem er í honum sjálfum. En, Drottinn minn! þú rannsakar og þekkir mig; eins og ekkert orð er á tungu minni, utan þú vitir það allt saman, eins og þú gjörþekkir alla vegu mína, þannig skilur þú og hugsanir mínar álengdar (Sálm. 139, 1. o. nn. vv.), jafnvel fyrr enn þær hafi íklæðzt orðum eður gjörðum, og fyrr enn jeg geti gjört grein á, hvort þær sjeu vondar eður góðar.

Maðurinn snýr einnig huga sínum til hins ókomna, vjer höldum optlega að oss geti grillt til þess, sem hulið er þoku ókominna tíma, og stundum bendir vonin oss til þeirra daga, sem ekki eru upprunnir, og kvartar yfir, að morgunroði þeirra seinki um of komu sinnni; en stundum skelfist óttinn fyrir hinum komanda morgni, og pínist samt þegar af þjáningu, sem ekki er fram komin. Þú veizt það þó síðan fyrir löngu, mannlegt hjarta! sem lætur svo hæglega á tálar dragast, hversu tíðum hin jarðneska von lætur til skammar verða, og eins optlega hefir þú aptur hins vegar hæðzt að ástæðulausum ótta og órósemi þinni. Því engin dauðleg hönd lyptir fortjaldi ókominna tíma, hinu megin við það raða dagarnir niður gjöfum sínum, og koma svo í ljós hver eptir annan, og færa með sjer annað, enn dauðlegir menn hafa við buizt. Jeg sagða, að dagarnir raði niður gjöfum sínum, því hver er sá, er haldi í hjarta sjer, að þeir brjótist fram í stjórnlausri óreglu, og grípi svo af hendingu, í gamanleik, það er þeir vilji, til að blessa með því eður skelfa, eptir því sem verkast vill? hver er sá, er ekki sje óbifanlega sannfærður um, að ákvörðun sje til, er raði niður hlutunum fyrir fram, og hulin regla, einnig í því, sem fremur öðru þykir vera undirorpið eintómum leik tilviljunarinnar? Það vald, sem

ræður hinu óorðna, kalla heiðingjarnir forlög, er í öndverðu hafi ákveðið sjerhverjum, er í heiminn fæðist, hlutskipti sitt, og fyrir fram ritað hið óorðna í stjörnurnar, eins óbreytanlegt og gangur þeirra er. Vjer, sem trúum á lifanda Guð, köllum það guðlega stjórn, vjer segjum og trúum, að þú, Guð allsvitandi! vitir það fyrir fram, sem enn þá er óþekkt á jörðunni, og kallir á þá hluti, sem ekki eru, svo sem væru þeir (Rómv. 4, 16). Að vísu höldum vjer ekki, þú ákvarðir fyrir fram gjörðir sjerhvers manns, að þú neyðir suma til að hlýðnast, en suma til að þrjózkast, að þú lítir ekki á það, sem þú hefir gefið sjerhverjum á vald, heldur ætlir suma fyrir fram til sóma, og vegsemdar, en suma til smánar og glötunar. En því trúum vjer, að þú reisir þær skorður, sem enginn fær yfir stígið, að þú sjáir fyrir fram allt hvað orðið getur, og allar afleiðingar, og að þú lofir ekki manninum að framkvæma annað, enn það er hann má efla með áform þín, hvort sem honum er það heldur ljúft eða leitt, svo hann verður að verkfæri í hendi þinni, annaðhvort til hegningar eða blessunar. Þess vegna berum vjer traust til, að leggja út á ókunna vegu; vjer reiðum oss ekki á framsýni vora, því hún þekkir optsinnis ekki hræfareldinn frá rjettu ljósi; en vjer reiðum oss á þig, sem sást oss áður enn vjer vorum skapaðir, og ákvarðaðir daga vora, áður enn nokkur af þeim var til (Sálm. 139, 16).

Því hugmyndinni um þekkingu Guðs er ætíð samfara önnur hugmynd, sem nauðsynleg er til þekkingarinnar á hinum lifanda Guði, en það er hugmyndin um Guðs heilaga og rjettláta og miskunsama vilja, og báðar hugmyndirnar til samans, eru guðleg speki. Hinn spaki sjer ætíð takmarkið er hann stefnir að, hann veit hvað hann vill, og það er ætíð rjett og gott, og farsællegt og ávaxtarsamt. Hinn spaki sjer ætíð veginn, sem leiðir að takmarkinu, ekkert ráð er honum hulið, og hann er öruggur í, að taka það ráðið, er bezt á við allar kringumstæður, og framkvæmir ásetning hans á fljótasta og bezta hátt; hinn spaki fyrirlítur ekki hið smáa, því án þess getur hið mikla ekki orðið, og hið stærsta er honum ekki of stórt, til þess safnar hann saman öllum ráðstöfunum sínum, eins og steini er bætt á stein ofan, þangað til musterið er risið í

dýrð sinni. Maðurinn sækist eptir speki, en því er miður, að jafnvel þeir sem beztan hafa viljann, takast svo optlega á hendur ranga fyrirætlun, og jafnvel þeir, sem vitrastir eru, hafa svo optlega ranga aðferð, til að ná henni. Og þannig leiðumst vjer einnig með þessu móti til Guðs, af tilfinningu vanmáttar vors og veikleika; viðleitni vor verður að bæn til hans, sem hefir spekina og máttinn og ráð og hyggindi; og hvort sem raðagjörðir mannanna verða ónýttar, eður oss auðnast að framkvæma hið fagra og góða, þá segir samt ætíð hinn guðhræddi: Guði, sem einn er vitur, sje heiður og vegsemd að eilífu (1. Tím. 1, 17).

---

## 9.

### GUÐ ER ALGÓÐUR, FAÐIR ALLRAR MISKUNAR.

Allir munnar játa, að Guð sje algóður og allrar miskunar Faðir; en mundum vjer þora að segja: öll hjörtu trúa því? Satt er það, á stundum sjáum vjer miskun Guðs almáttugs svo bersýnilega umhverfis oss, að allir smakka og sjá, að Guð er góður (Sálm. 24, 9); á stundum tekur Guð þungann af brjóstum hinna mæddu, og guðlegt frelsi mætir oss svo berlega, að vjer hljótum að kannast við verndarhönd hins hæsta, og segja af öllu hjarta: Lofaður sje Guð, Faðir allrar miskunar og Guð allrar huggunar, er huggar oss í sjerhverri þjáningu vorri (2. Kor. 1, 3. 4)! En sumar stundir æfi vorrar eru á annan hátt.

O! hver er sá, sem ekki hafi þekkt þær, stundir líkamlegra báginda, langar stundir og þungar, svo mennirnir verða að segja: Jeg girnist þær ekki (Prjed. 12, 1). Og hver er sá, sem ekki hafi reynt, hvernig sú hin innri neyð leitar þá við að auka hina ytri, hvernig hryggð og ótti sálarinnar og trúarskortur og vonarleysi ætlar þá að bætast ofan á mótlætið, sem oss er á herðar lagt? Því

þegar vjer sem mest við þurfum hugrekkis og vonar og trúartrausts, þá er freistarinn ákafastur að reyna til að svipta oss því og þá ertu, ó! þú veika hjarta í brjósti voru! þá ertu fúsast á að sleppa því. En vel sje þeim, sem á hinum vondu dögunum varðveitir trúna og þolinmæðina! Og vel sje þeim, sem á góðu dögunum hertígjar sig í gegn hinum vondu dögum og reynir til að afla sjer slíkrar trúar, sem ekki er eintómur leikur óskírra tilfinninga, heldur skír og staðföst sannfæring, er byltingar hlutanna fá ekki haggað, og ekki styðst við það, sem augað sjer, heldur við hitt, er samvizkan þekkir og kannast við. Með slíkri trú — en styrk þú, ó Guð! veikleika hennar — vil jeg reyna að mæla þessi orð: Guð er algóður, Faðir allrar miskunar.

Enginn er góður nema Guð einn (Matth. 19, 17). Mennina köllum vjer betri eður lakari, eptir því sem vera hins eilífa speglar sig í eðli þeirra, skírt eður óskírt; en þessi spegill er aldrei fullskær, svo orðið góður á í raun og veru einungis við hinn alfullkomna, því hin rjetta þýðing þessa orðs felur í sjer allan fullkomleik. Gæðska Guðs felur í sjer allan fullkomleik hans, og svo einnig þá náttúru, sem orðið gæðska jafnaðarlegast á að þýða: miskunsemi Guðs.

Sumum Guðs náttúrum er þannig varið, að bæði himin og jörð birta þær. Vjer þurfum ekki utan að litast um, til að verða varir við þær öllu megin. Sama er um miskunsemi Guðs. Hver fær talið þær verur — hver getur talið í huga sjer ein saman kynferði þeirra — sem Guð telur allar, sem hann nefnir allar á nafn (ef jeg á að dirfast að tala eptir mannlegum hætti), sem lifa í hans ómælanlegu ríki, frá orminum í duptinu, til höfuðengilsins, frammi fyrir hásæti hans? Og yfir þeim öllum lýkur hann upp sinni hendi, seður þær allar með blessun sinni, gefur þeim öllum — sjerhverri skepnu eptir þörfum hennar og samkvæmt eðli hennar. Jeg sje þær umhverfis mig, skepnurnar, sem öðluðust líf og tilfinning, eins og jeg og allra augu vona til Drottins og sjerhver þeirra þiggur þæga gjöf úr Drottins hendi. Hver elur önn fyrir fuglinum í loptinu, sem sáir ekki og safnar ekki í hlöðu? Hver elur önn fyrir mönnunum, sem gróðursetja og vökva, en geta ekki sjálfir

látið spretta? Og þú hið mannlega hjarta, með öllum þínum löngunum og öllum þínum þörfum: hver elur önn fyrir þjer? Hversu opt sem þú verður að berjast í þungleika og hryggð, þú hefir þá einnig barizt í unaðsemd og fagnaði, stundum vesælla orminum, er veltist í duptinu meðvitundarlaus, en stundum sælt sem englarnir á himnum. Jeg hefi heyrt kveinstafi sorgarinnar, en jeg hefi einnig heyrt fagnaðarlæti gleðinnar; ekkert það brjóst er til, að þau hafi ekki þaðan hljómað; og allt hið góða, hverju nafni sem það heitir, allt í frá þeirri uppsprettu, er svalar hinum örmagnaða ferðamanni og til þeirrar uppsprettu, er slökkur hinn brennanda þorsta sálarinnar, uppsprettunnar er streymir fram til eilífs lífs — ó! manna hendur hafa ekki snortið klettana, að þaðan streymi lækir niður í dalina, og mannleg speki getur að eins fundið, en ekki skapað, það sem í raun rjettri er fylling lífsins; en frá þjer, almáttugur Guð! er öll sú gnægð miskunseminnar, sem streymir í gegnum hinn sýnilega og hinn ósýnilega heim. Sannlega hefir Guð ekki látið sjálfan sig án vitnisburðar, er hann gjörði oss gott og gaf oss regn af himni og frjófsamar árstíðir, er hann saddi oss á fæðu og fyllti hjörtu vor af gleði (Post. 14, 17); og vjer köllum hann hinn algóða, af því frá honum kemur allt gott og af því hann er öllum góður og miskunsemi hans nær til alls sem hann hefir gjört (Sálm. 145, 9); allt fær sinn deildan verð, mikinn eður lítinn. Hann setur ekki takmörk miskun sinni: hann lætur sólina renna upp yfir vondum og góðum og hann lætur rigna yfir rjettláta og rangláta (Matth. 5, 45), hann kallar synduga menn til apturhvarfs, og hefir optlega fyrirbúið sjer lofgjörð af vörum þeirra, sem áður löstuðu nafn hans.

Hversu berlega, hversu áþreifanlega sjáum vjer þetta og viðurkennum, í hvert skipti sem guðleg miskun birtist á sjálfum oss, eður vjer samfygnum öðrum, sakir guðlegra velgjörða, er þeir hafa þegið. En breytum vjer þá rjettilega, þegar vjer aptur á stundum gleymum því, sem vjer áður fundum svo berlega í sálu vorri. Það er að vísu gott og vel til fallið að ein glaðvær stund getur tekið á burt hryggð margra þungbærra daga, svo að öll eymd og bágindi eru gleymd, eins og vjer hefðum aldrei syrgt og

mundum aldrei framar syrgja. En er það einnig gott, þegar hinir dymmu dagarnir taka á burt endurminning hinna björtu, þegar vjer gleymum öllum velgjörðum Guðs, eins og vjer hefðum aldrei verið glaðir, og ættum aldrei framar meir að verða það.

Satt er það að vísu! eins og gleðistundir mannlegrar æfi eru óteljandi, þannig fær enginn talið allar sorgarstundir hennar; hvers vegna er hersveitum mótlætinganna sleppt yfir þessa jörð? Enginn sá maður, sem hefir nokkrar leifar af guðrækni eptir í hjarta sínu, svarar þessu öðru vísi enn svo: af því þær eru ómissandi til framfara mönnunum, til að búa þá undir fullkomnara líf, er þeir hafa ekki enn þá náð, nema einungis með þessu móti. Ráðningu þessarar gátu er ekki að finna í hinu sýnilega; því væri það einungis augnamið tilveru vorrar, að vjer skyldum njóta veraldlegrar sælu, þá gæti hver heimskinginn siðað hina eilífu spekina, og kennt henni, hvernig þessu takmarki yrði náð með miklu hægra móti; en ráðningin er í hinu andlega, hin fulla ráðning er ekki í tímanum heldur í eilífðinni. Enginn er sá kristinn maður, að hann ekki svari, að hefði syndin ekki komið í veröldina, þá hefði einnig uppeldi mannkynsins bæði mátt vera vægra, og líka verið það. Hið illa kom fyrst í ljós í mönnunum sjálfum, og því næst í veröldinni fyrir utan þá. Og hvernig sem mannlegum þjáningum er varið, hvort sem þær eru sendar oss til hegningar, eður til eintómrar reynslu, þá reiðist Guð samt ekki, eins og mennirnir reiðast, hann hefnir ekki til að tortýna, því jafnvel þegar hann refsar, gjörir hann það oss til frelsis. Guð er góður, einnig þá, þegar hann lætur oss það að höndum bera, sem vjer köllum illt; hann er góður, og hann lætur oss reyna það, og líknsemi Guðs, þegar hún birtist oss í lífsins þjáningum, og föðurgæðsku Guðs, þegar hann lítur til vor í eymdum vorum, — það köllum vjer miskunsemi hans.

Jeg hefi sagt að sumum náttúrum guðlegrar veru sje svo háttað, að vjer verðum þeirra jafnskjótt varir, þegar vjer litumst um. Að veldi sje til, sem tengir saman alheim, og heldur honum í skorðum, sem er æðra öllu mannlegu valdi, sem opt gjörir að engu hinar mikilvægustu fyrirætlanir, og lætur optlega þróast þann

vísir, sem enginn gaf gaum að; að þetta veldi sje oss alstaðar nálægt og sýni sig í öllum hlutum, smáum og stórum — hver er sá er játi ekki þetta, játi ekki almætti Guðs og alstaðarnálægð, þegar hann með nokkurri gaumgæfni horfir upp til himnanna, eður rennir augum sínum yfir jörðina? Drottinn! hversu mörg eru verk þín, þú gjörðir þau öll með speki (Sálm. 104, 24). Hver er sá er sjái þetta ekki, þegar hann að eins lýkur upp augunum? Og að miskunsemi sje til, sem elur önn fyrir öllu sem lifir, hver hefir andað undir þessum himni og ekki fundið það? En — þorum vjer einnig að segja, að vjer í þjáningum lífsins viðurkennum ætíð nálægð guðlegrar miskunar? að vjer þurfum einungis að ljúka upp augunum, til að verða varir við, að sá er nálægur í allri vorri eymd, sem aðstoðar oss og frelsar? Sannlega, þegar vjer með guðrækilegu hugarfari hyggjum að vegum Guðs, og vonum og bíðum kyrrlátir frelsis hans (Harmagr. 3, 26), þá munum vjer efalaust sjá það. En einmitt þetta, að vjer hljótum svo opt að bíða og vera kyrrlátir, að vjer ekki sjáum frelsi Guðs á þeirri stundu og með þeim hætti, sem vjer höfðum búizt við, þetta reynir á styrkleika trúarinnar. Það, sem guðleg forsjón lætur oss að höndum bera, virðist optsinnis að vera svo hart, svo óföðurlegt; hjarta vort klökknar af meðaumkun, ef vjer að eins hefðum máttinn, hversu skjótt mundum vjer þá koma til aðstoðar, hversu skjótt mundum vjer þá snúa burt hættunni, eður snúa hryggð í kæti. Og hann, sem hefir máttinn, hann bíður; hann sem sjer alla eymd vora, hann kemst ekki við, hann sendir ekki engla sína, að varðveita fót vorn frá hrösun, og dreypa svölun í hinn beiska bikarinn. Hvernig eigum vjer að friða hjarta vort, þegar það býr yfir svo myrkum hugsunum, þegar það tekur að efast, hvort því sje óhætt að kalla Guð líknsaman.

Eins og meistarinn þekkist af verki sínu, eins þekkjast einnig Guðs náttúrur af verkum hans, en verk Guðs eru ekki að eins himin og jörð, ekki einungis það sem augað sjer, ekki einungis dásamlegur líkami vor. En andinn, sem lífgar þetta dupt, er einnig Guðs verk, Guð skóp hann eptir sinni mynd, og sjerhver góð og háleit tilfinning í brjósti voru er sáðkorn af himni og geisli guð-

legrar veru. Ef að nú jeg, hin veika og óhreina skepna, sem einátt er svo sjergóður, einatt svo kaldlyndur og harðbrjósta, og ófús á að samgleðjast hinum glöðu og samhryggjast hinum hryggu, ef að jeg nú samt sem áður finn til þess, að jeg hefi eyra til að heyra kveinstafina og hjarta til að kenna í brjósti um þá hina aumstöddu, ef jeg játa að þessi tilfinning sje einhver hin fegursta tilfinning mannlegs eðlis, þá er það að vísu Guð, sem rætti hana svo djúpt í fylgskni sálar minnar, að enginn hlutur fær henni þaðan algjörlega á burt rýmt. Þess vegna, þegar efasemdirnar, taka að hreifa á sjer í sálu minni, þá skal jeg mæla það með berum orðum sem vantrúin hugsar; því ljósara verður það, hversu ástæðulaus hún er, hversu fánýt og heimskuleg; mundi jeg þá vera betri enn Guð minn? Sá sem gaf mjer eyrað, sem heyrir, mundi hann ekki heyra? sá sem myndaði hjartað, mundi hann vera án tilfinningar? — Postulinn kallar hinn eilífa, Föður allrar miskunar, það er að skilja: uppsprettu allrar líknsemdar, er þaðan streymir gegnum öll hjörtu, er tilfinningu hafa; og hann mundi ekki sjálfur líkna! Hann gaf oss föðurhjartað og móðurhjartað, sem aldrei slítur sig frá barninu, aldrei lykur sjer aptur, aldrei synjar því góðra gjafa; og hann, sem allt faðerni er frá komið á himni og á jörðu (Ef. 3, 15), mundum vjer kalla hann Föður árangurslaust. Ó hversu djúpt, hversu snjallt hljóma þessi hin gömlu orð í fylgsknum hjarta vors: Eins og faðir miskunar sig yfir börn sín, þannig miskunar Drottinn sig yfir þá, sem óttast hann (Sálm. 103, 3).

„Eins og faðir miskunar sig" — en einnig á meðal mannanna, miskunar vitur faðir sig ekki ætíð þannig, á þeim tíma og með því móti, sem barnið girnist og vonar. Það er hart og óföðurlegt, segir barnið optsinnis í hjarta sínu við föður sinn, að þú veitir mjer ekki lausn frá þessu erfiði, að þú annt mjer ekki þessa fagnaðar, að þú gefir mjer ekki upp þessa refsingu, þjer væri það svo hægt og mjer væri það svo ljúft; en þú þegir og heyrir ekki bæn mína; þú ert ekki framar sami faðir, sem þú áður varst, og þegar þú unnir mjer og varst mjer góður. Og faðirinn veit það í huga sínum, hvernig barnið efast, samt breytir hann ekki ákvörðun sinni, samt leiðir hann barnið, með eður á móti vilja þess, eins og hann

veit því bezt hentar; hann segir; það væri miskunarleysi, ef jeg vildi hlífa þjer við stuttrar stundar böli, við þessum fáu tárum, og hlytir þú svo eptir á, að fara á mis við hinn fagra ávöxt vizkunnar og þolgæðisins. Og barninu eykst aldur, það fer að skilja tilgang föður síns, það verður vart við afleiðingarnar, og þá segir barnið: þú hafðir vit á því, faðir minn! en jeg ekki; og nú þakka jeg þjer fyrir það sem þú synjaðir mjer, eins og fyrir það sem þú gafst mjer; nú viðurkenni jeg, að þú varst mjer aldrei betri, enn þegar mjer fannst þú ekki vera mjer góður.

Hversu opt hefir þessi hin sama rödd heyrzt í bænum guðhræddra manna? Og þegar vjer erum búnir að læra að trúa, þó vjer sjáum ekki, að trúa á miskun Guðs, þótt hún birtist ekki á þeirri stundu og með þeim hætti, sem vjer æsktum, hversu optlega munum vjer þá verða hennar varir, einnig í lífsins þyngstu raunum. Því jafnvel þegar þeir hlutir verða, sem oss þykja þungbærastir og skelfilegastir, þar sem vjer í fyrsta áliti þykjumst sízt geta orðið varir við frelsishönd hins miskunsama Guðs, þá er samt optast nær í þessari eymd, eitthvert teikn frá Guði, eitthvert atvik — það þykir optlega svo lítilvægt, heimurinn kallar það hendingu, en guðhræddir menn kalla það stjórn guðlegrar forsjónar: og það er svo í raun og veru, því þetta hið lítilvæga atvik er nóg til þess, að Guð geti látið frelsið af því leiða. Það er gamalt máltæki, er gengið hefir munn frá munni, frá einni kynslóð til annarar, að þegar neyðin er hæst, þá sje hjálpin næst. Þetta hljóta mennirnir að hafa sanmreynt á þúsund vegu, áður enn það yrði að svo almennu máltæki; reynslan hefir aptur og aptur orðið að sanna það, fyrst það helzt við og fyrst vjer heyrum það á allra vörum, og eins á þeim vörum, er ekki eiga vanda til að lofa Guð. Er þetta þá tóm tilviljun? ber það við af eintómri hendingu, að margopt, þegar neyðin er hæst, þá kemur einnig hjálpin? Nei, engan veginn; heldur er það hið sýnilega teikn miskunar þinnar, Faðir vor á himnum! Þú sjer oss í eymd vorri, þú þekkir alla beiskju hennar, og þegar þú sjer oss liggur við að hníga undir byrðinni, þá hrærist þú miskunar og lætur vor ekki verða freistað um megn fram, miklu fremur gjörir þú freistinguna og endalok hennar þannig,

að vjer fáum staðizt. Sjerhver, sem reynt hefir til að varðveita þolgæðið og trúna og ótta Drottins, einnig á hinum vondu dögunum, hann hefir og jafnan reynt, hvernig guðleg mildi er sameinuð guðlegri vandlætingu, því Guð hefir vísað honum á úrræði, þar sem hann sá enginn úrræði sjálfur, Guð hefir gefið honum krapta til að bera, Guð hefir grætt, eins og hann særði, Guð hefir aptur litið til hans í mikilli miskun.

Þannig standa teikn á móti teiknum, og velur maðurinn af þeim eptir því sem hjarta hans er háttað, það sem honum þykir sjer haga. Sá sem vill brjóta af sjer ok Guðs ótta, eður heimtar, að vilja sjálfs sín verði í öllu framgengt á jörðunni, og leitar sjer — þegar þetta ferst fyrir — hryggilegrar fullnægju í að örvinglast eður þrjózkast — hann safnar sjer af því sem hann hefir sjeð eður heyrt, grátlegum fjölda eymdar og ógæfuviðburða, sem engin frelsun á að hafa stöðvað, engin huggun hafa mýkt; sá þar á móti, sem getur ekki verið án Guðs og miskunar hans, hann sjer hann nær og fjær að birtast sjer, hann hlýðir á huggunarsögur þær, er lýsa því yfir, að Guð hafi ekki látið sig án vitnisburðar, hann sjer alstaðar vott Guðs frelsishandar og elskunnar eilífu, sem miskunar sig yfir alla skepnu. Hvað sannast sje í þessu efni, getum vjer ekki komizt að raun um með eintómri upptalningu viðburðanna, því það er eins og jeg hefi áður sagt: teikn standa á móti teiknum, og vjer göngum hjer í trúnni, en ekki í skoðuninni (2. Kor. 5, 7), hjer eru Guðs ráð oss svo optlega órannsakanleg og vegir hans órekjanlegir (Róm. 11, 33) og hljóta að vera það. En meðvitund sú, sem býr oss í brjósti um guðlega veru, er gróðursetti í hjörtum vorum allar góðar tilfinningar, sem vjer verðum varir við að í oss búi — þessi meðvitund sameinar sig þeim vitnisburði, er hvað eptir annað stendur í heilagri ritningu, og boðar oss, að Drottinn sje líknsamur Guð og náðugur, þolinmóður og mikillar miskunar (2. Mós. 34, 6); og hún hvetur oss jafnan, að grennslast eptir þeim merkjum, er sá einn finnur sem leitar. En sá sem þannig leitar eptir opinberun miskunar Guðs í heiminum, ætti hann ekki að nema staðar við hinn mikla boðskap fagnaðarins: Svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf Son

sinn eingetinn til þess, að sjerhver, sem á hann trúir, glatist ekki, heldur öðlist eilíft líf (Jóh. 3. 16)? Hjer er vottur miskunar Guðs, mikill og augljós eins og sólin á himninum, er lýsir frá austri til vesturs; hann skín niður yfir allan óróleik mannanna, yfir allan leynilegan ótta hinna voldugu, yfir alla eymd hinna fátæku, býður sig spekingunum og hinum fáráðu, vitjar syndaranna í hryggð þeirra og hugarvíli, þegar þrumurödd lögmálsins er búin að vekja samvizkur þeirra, og þeir þora ekki að lypta upp augum sínum til Guðs nje manna. Hver sem þessu trúir, hann hefir sannlega slíkan vott þess, að Guð hafi miskunað sig yfir heiminn, að engin sjón stríðs nje drepsótta, nje annara eymda, og engir hegningadómar, er ganga yfir jörðina, megna að ónýta þenna vott; og þessi orð: „hver sem trúir á hann“ flytja huggunina inn í brjóst allra manna. Guð sendi Son sinn eingetinn, til að birta miskun sína, ekki að eins við hina miklu og víðlendu veröld, ekki að eins við fáeina útvalda, heldur einnig við þig, sem ert þjáður og hryggur, hver sem þú ert, og einnig við mig.

„Glataður“ er skelfilegt orð, og þýðir óumræðanlega eymd; þess óttaleg þýðing á heima hjá þeim, sem alls ekkert frelsi fær eygt, hvorki hjer nje síðar, sem engrar miskunar væntir sjer á jörðu nje á himni. Þess vegna segir hin eilífa miskun við hvern sem trúir: þú skalt ekki glatast, heldur eignast eilíft líf.

---

## 10.

## GUÐ ER HEILAGUR OG RJETTLÁTUR.

Mikils er um vert, hvernig röddin, er Móses heyrði í hinum háleitu opinberunum á Sínaífjalli, þegar Jehóva gekk fram hjá andliti hans, eins og ritningin að orði kemst, röddin, er sagði: Jehóva, miskunsamur og líknsamur Guð, þolinmóður og mikillar

miskunsemi og trúfesti (2. Mós. 34, 6) — mikils er um vert, hvernig þessi rödd heldur á fram að hljóma gegnum allt gamla testamentið, frá ýmsum vörum og á ýmsum tímum (4. Mós. 14, 18; Neh. 9, 17; Sálm. 86, 15. 103, 8. 145, 8; Jóel 2, 13; Jón. 4, 2). Í þessum orðum er fólgin játningin um Guð, sem mannkynið getur ekki án verið, sem sjerhver sá, er girnist hvíld sálu sinni, verður að halda sjer við, sem getur þess vegna aldrei aptur gleymst, þegar búið er að heyra hana einu sinni. Þar sem heyra má þessa rödd þegar í hinu gamla testamenti, þá er nýja testamentið að öllu leyti opinberun náðar Guðs og miskunandi kærleika, og það nafn Guðs, sem hljómar í því og þaðan er komið á varir allra guðhræddra manna, og í hjörtu allra sem trúa, þetta nafn: Faðirinn á himnum — það felur í sjer allar hugmyndir um náð og miskunsemi.

Þorum vjer að segja, að mikil og affarasæl sannindi geti orðið heyrð of optlega — að mennirnir geti haldið sjer of fastlega við þau? Fjarri fer því, ef mennirnir nema þau svo, að öll þýðing þeirra verði skilin og þau verði sjen í sambandi sínu við allan annan sannleika, svo að hvað styðji annað og hvað verði ljósara af öðru. En hversu mjög hættir ekki mannlegu hjarta til að rjúfa þetta samband! því er svo tamt að svíkja sjálft sig, og þess vegna slítur það einhver ein sannindi, eður einhvern einstakan lærdóm út úr keðju allra sanninda, skoðar hann einungis á einn veg, ruglar honum óafvitandi og hefir það sjer til skemda, sem ætlað var til blessunar. Þannig sjáum vjer optlega að hugmyndin um miskunsemi Guðs og langlundargeð er borin aflaga; flestir menn á vorum dögum halda í raun og veru, að sje á annað borð nokkur Guð til á himnum, þurfi þeir við engu að búast af honum, nema friði og fögnuði; því þótt þeir geti ekki að öllu leyti mælt í móti, að gáleysi þeirra sje mikið og brotin mörg, að þeir hirði lítið um að eflast að vizku og siðgæðum, að trú þeirra sje veik og ást þeirra köld á Guði og mönnum, halda þeir samt að reikningur þeirra sje kvittaður með þessum orðum: Guð er líknsamur og miskunsamur. Þess vegna eru rituð í heilagri ritningu, ásamt hinu huggunarríka fyrirheiti, að Guð fyrirgefi misgjörðir og afbrot og

synd, þessi hin þungvægu orð: Guð mun á engan hátt telja þann, sem sekur er, síknan saka (Mós. 34, 7), og röddin, sem hljómar gegnum himnana skal einnig fylla jörðina: heilagur, heilagur, heilagur er Jehóva Zebaot (Es. 6, 1).

Orðið „heilagt“ merkir það sem fráskilið er venjulegum hlutum og hafið yfir þá, og einkum yfir það, sem er auðvirðilegt og svívirðilegt og illt. Þannig á Guðs nafn að vera heilagt á jörðunni, og þannig er guðleg vera að öllu leyti heilög í sjálfri sjer; óhreinleiki jarðarinnar flekkar hana ekki; eptir eilífri veru sinni og guðlegu eðli hefir Guð einungis þóknun á hinu góða, og hvar og í hvers kyns mynd, sem hið illa dirfist að koma fram fyrir auglit hans, mislíkar honum það jafnan. Guð einn saman er heilagur, í æðsta skilningi; því þannig á það ekki heima hjá nokkurri veru, sem getur fallið, og sízt hjá manninum, sem er fallinn, og fæddur er í synd og hjarta hans hneigist snemma til þess, sem ósæmilegt er og illt. Og þó sýnir það sig einnig á þessu, að Guð skapaði manninn eptir sinni mynd; óafmáanleg tilfinning býr í oss, sem gerir mun á illu og góðu, sem lítur hið góða með velþóknun og hið illa með misþóknun. Hversu spilltur sem maðurinn er orðinn, hefir hann þó eptir menjar upphaflegrar líkingar sinnar við Guð; svo illir hlutir eru til, að þeir kveikja viðbjóð í slíkum manni, og svo góðir, að hann hlýtur að virða þá, enda þótt hann kefji þessar tilfinningar jafnskjótt, sem þær lifna í brjósti hans. En því skírra og því nákvæmar og af því meira fjöri sem maðurinn gjörir greinarmun þessara hluta, því fyrr og því hjartanlegar, sem hann sameinast hinu góða, og fær viðbjóð á hinu illa — því fremur endurnýjast hann eptir Guðs mynd. Þessi tilfinning er í raun og veru hinn heilagi eldur; þegar hann logar hægt og skært, er hjartað Guðs musteri, þegar hann slokknar, fara andar myrkranna inn í hjartað og ásamt þeim alls konar andstyggð.

„Þjer eigið að vera heilagir, því jeg Drottinn, Guð yðar, er heilagur“ (3. Mós. 19, 2), — þannig hljóðar röddin, sem aldrei eldist, og halda mun á fram að tala, með öllu fjöri sínu og afli, á meðan menn byggja jarðríki. En býður Guð þá einungis, og heimtar ekki hlýðni við boðorð sín? Sjer hann úr ró síns háva

himins, hvernig mennirnir ganga á vegum guðhræðslu eður syndar, og sendir hvorki blessun nje bölvun út frá veldisstóli sínum. Ó! Drottinn Guð vor er vandlátur Guð (2. Mós. 20, 5), því heilagleiki Guðs vandlætir jafnan, og þegar þessi vandlætandi heilagleiki Guðs lætur í ljósi velþóknun sína eður misþóknun, köllum vjer hann guðlegt rjettlæti. Það launar eður hegnir, því Guð mun endurgjalda sjerhverjum eptir verkum hans (Rómv. 2, 6); það lætur til sín heyra í öllu hirðuleysi mannanna og í allri þrjózku þeirra: villizt ekki, Guð lætur ekki að sjer hæða; því það, sem maðurinn sáir, það mun hann og upp skera.(Gal. 6, 7).

Það sem maðurinn sáir, það mun hann og upp skera — þetta eru mikil og þýðingarfull orð. Í þeim eru fólgnar allar hótanir, er eiga að vekja hinn hirðulausa og skelfa hinn óguðlega, og í því eru öll þau fyrirheit, er eiga að hugga og styrkja hinn trúlynda þjón í allri armæðu þessa lífs. En eru einnig þessi orð sönn? Að vísu veit jeg, hversu djarfleg, hversu ofdirfskufull þessi spurning er, því sannlega ofdirfist hún gegn Guði og ætlar sjer að kollvarpa öllum sannleika og rjettlæti á himni og jörðu; en einmitt svona spyr samt öll vantrú í mannlegu hjarta, og þess vegna hljótum vjer að vera viðbúnir að svara henni.

Ef vjer skoðum rit þau, er vjer köllum heilög, af því vjer eigum að heiðra þau og hlýða rödd þeirra og læra af þeim og trúa því, er þau kenna oss, þá heimta þau jafnan rjettlæti og bindindi, og tala um leið um hinn komanda dóm, þar er maðurinn á að gjöra þess reikningsskap, hvort hann hafi hlýtt lögmálinu og breytt eptir því eður ekki. Sjerhver opna, er vjer flettum upp í ritum þessum, segir oss berlega, að Guð vitji alls konar illgjörða og auðsýni þeim miskunsemi, er óttast og elska hann; þetta er ritað í harla þungvægum aðvörunum og huggunarríkum fyrirheitum; það er ritað í frásögunum af því, sem Guð hefir látið verða á jörðunni allt í frá sköpun mannkynsins, að Guð hafi ekki velþóknun á guðleysi og að hinn trúlyndi öðlist margs konar blessun. Það kemur samt að litlu liði, þótt þetta sje ritað með bókstöfum, hversu helgir sem þeir eru, utan þessir bókstafir vakni og verði að lifandi rödd, er tali til hjartna vorra. En þegar vjer hlýðum gaumgæfi-

lega á áminningar guðsorða, finnum vjer einnig, að vjer vitum það allir fyrir fram í samvizkum vorum, er þau segja oss um þetta efni. það, sem maðurinn sáir, mun hann og upp skera; þessa krefjumst vjer af mannlegu rjettlæti, og þó vjer á engan hátt viljum synja veikum og iðrandi mönnum fyrirgefningar, þá heimtum vjer samt að hegningin skuli vekja hinn hirðulausa, skuli neyða hinn samvizkulausa og þverbrotna, en aptur skuli hins vegar frelsi og friður og sómi og umbun verða hlutskipti þess, sem gott gjörir. þessa hins sama krefjumst vjer — nei! vjer væntum þess með fullu trúnaðartrausti af hinum eilífa, að þó jafnvel ekkert rjettlæti sje til á jörðu, hljóti það þó að vera til á himnum. Sá sem dæmir jarðríki, mundi hann ekki dæma rjettlátlega (1. Mós. 18, 25). Sá sem innrætti hjörtum vorum þá hina öflugu og óafmáanlegu tilfinning, er gjörir mun á illu og góðu, mundi hann ekki sjálfur gjöra mun á því? Ef vjer vildum þræta þess, að sá, sem stjórnar veröldinni, muni að lokum auglýsa þenna mismun, þá væri þessi mismunur í sama bili horfinn úr mannlegu lífi, þá stæði það á sama, hvort mennirnir brúkuðu rjettilega tíma þann og krapta sem þeim eru gefnir, eður þeir sóuðu því hvorutveggja, hvort þeir verðu lífi sínu til uppfyllingar skyldunni, til eflingar sannleikanum og rjettlætinu og velferð manna, til eflingar guðsríki, eður til eflingar alls hins, sem því er gagnstæðilegt, því til hvers er að sá, ef uppskeran á aldrei að launa erfiði sáandans? En þetta finnum vjer miklu betur innst í hjarta voru, þar sem tilfinning sannleikans býr; vjer búumst jafnan við að sjá uppskeru þess, er mennirnir hafa sáð; komi hún ekki skjótt, búumst vjer samt við henni eptir á; ef vjer sjáum hana ekki í lifanda lífi, fáum vjer ókominni kynslóð í hendur eptirbið vora; komi ekki tími uppskerunnar fyrir hina góðu og fyrir hina vondu á jörðunni, snúum vjer huga vorum til annars lífs. Um þetta getum vjer tekið undir með spámanninum, er hann segir: Ef sáttmáli Drottins við dag og nótt verður rofinn, svo dagur og nótt koma ekki á tilteknum tíma, ef að lög himins og jarðar breytast, þá mun og einnig það lögmal breytast, að Guð vilji endurgjalda sjerhverjum eptir verkum hans. Ljós þessa heims slokknar að lokunum einhvern tíma, og regla sú, er hlutirnir nú

hrærast eptir, mun hætta; en þó himin og jörð líði undir lok, mun samt þetta lögmál stöðugt standa, að það, sem maðurinn sáir, það mun hann og upp skera.

Þó — svarar hið vantrúaða hjarta mannsins — þó vitnar reynslan í móti þessu. Hversu optlega höfum vjer sjeð, að mönnum var úthlutað allt annað, enn þeir höfðu tilunnið, hversu optlega höfum vjer sjeð gæfu og ógæfu, lof og last, frið og ófrið sendan maklegum og ómaklegum. Hyggið að þessum guðleysingjum! þeir lifa rósömu lífi í heiminum og auka auð sinn, en aðrir, er hreinsað hafa hjörtu sín og þvegið hendur sínar í sakleysi, þjást hvern dag, og hegning þeirra kemur hvern morgun (Sálm. 73, 12 o. n. v.); ekki er öllum goldið eptir verkum þeirra, því rjettlátir menn eru til, er líður eptir verkum óguðlegra, og guðleysingjar, er líður eptir verkum rjettlátra (Prjed. 8, 14). En höfum vjer þá í rauninni búizt við þessu og æskt þessa, að uppskeran komi tafarlaust á eptir sáningunni? að laun og hegning sjeu viðstödd hverja athöfn og fljóti beinlínis af henni? Ó! væri því svo varið, að engill hegningarinnar veifaði þegar leiptranda sverði yfir hinum forboðna ávexti, hver mundi þá vilja snerta hann? Ef ljósið skini þegar niður í hið dymma bæli lyginnar og svikanna, hver mundi þá vilja ljúga og svíkja? Ef svipunni væri þegar veifað yfir höfði hins lata daglaunamanns, mundi hann þá afrækja vinnu sína? En mundu þá mennirnir verða betri fyrir það? mundi fyrir það bindindi og ráðvendni og góður vilji og ákafi hafa tekið sjer bústað í hjörtum þeirra? Og hins vegar, ef það, sem þú gefur hinum fátæka, gildist þjer þegar tífalt aptur, ef allt, sem lagt er í sölurnar, fengi þegar verðskuldaðan heiður, og sjerhver fyrirhöfn fengi þegar endurgjald sitt, þá mundi sjerplægni og hjegómagirnd setjast í sæti allra dygða. Mótlæti og vanþakklæti eru reynsluskóli allra sannra dygða, og sá einn vill hið góða af alhuga, er vill það einnig þá, er það fær ekkert lof af mönnum, einnig þá, er honum sýnist það sje ólaunað; sá einn forðast hið illa af alhuga, er þorir að forsmá það, jafnvel þótt allt skraut og öll sæla þessa heims sje í fylgd með því.

Þess vegna fylgir uppskeran sáningunni, hvorki undir eins,

nje með því móti, sem skammsýn löngun mannanna heimtar það. En hver hefir lokið augum sínum upp, utan hann sæi, hversu optlega mennirnir upp skáru það er þeir sáðu, sæi, hversu optlega afleiðingarnar á undarlegan hátt urðu gjörðunum samfara, hvort sem þær voru vondar eður góðar. Og hve miklu meira mundum vjer sjá, ef vjer ekki að eins gæfum gætur að hinu ytra ástandi. Að vísu heyrum vjer optlega um það kvartað, að sá og sá hafi sáð því sæði, er sagt er um, að það beri skaðsaman ávöxt, og hafi samt upp skorið vegsemd og gæfu, en aptur hafi annar stundað allt gott og upp skorið hvorki þakkir nje endurgjald. En ef vjer athugum það betur, ó! hversu marga sjáum vjer þá, sem í allri vegsemd þeirra, er vjer svo köllum, upp skáru einmitt það, er þeir sáðu, þar sem þeir hlutu að lifa gleðilausu lífi, með gjörspilltu hjarta af óseðjandi girndum og sívakandi áhyggjum, og sundurslitnu af hatri og öfund og reiði og öllum illum öndum, og hversu optlega sjáum vjer að sá, sem þessir menn aumka og fyrirlíta, hinn yðjusami og nægjusami og ráðvandi, upp sker það er hann sáði, er hann lifir ánægðu lífi, styrkur í anda, staðfastur og rósamur. Því margopt eru þjáningar, þar sem enginn bjóst við neyð, og margopt ótti, þar sem enginn ofsækir; sá friður er og til, sem heimurinn hvorki veitir nje fær í burt tekið, og trúartraust og von, reist á þeim stólpum, er ekki standa á þessari jörð.

Þessar hinar eðlilegu afleiðingar verkanna bæði í hinu innra og ytra lífi, votta þegar á nálægum tíma, eður eptir skamma bið, þráfaldlega um guðlegt rjettlæti, því rjettlát vera Guðs birtist einnig í hinni eðlilegu niðurröðun hlutanna, í afleiðingum þeim, er samkvæmt helgu lögmáli Guðs eru samfara mannlegum gjörðum. En þó að jafnvel allt endurgjald illra og vondra gjörða vanti í þessu lífi, er rjettlæti Guðs samt ekki afmáð, því samvizkan og meðvitundin í brjósti voru um sjálfa oss og um Guð, bendir þá til hins ókomna. Dagur kemur eptir þenna dag! hversu optlega höfum vjer sagt þetta, bæði þegar óskammfeilni og drambsemi þrjózkuðust gegn Guði og mönnum, og eins þegar hinn saklausi var rangdæmdur, og máli hins rjettláta þótti komið í ónýtt efni;

því hver dagur, sem líður, bendir til annars dags, er koma mun. Sá dagur, er bræður Jóseps sáu hræðslu og og kvíða sálar hans, þegar hann bað þá, og þeir vildu ekki heyra bæn hans, hann benti til þess dags, er þeir áttu að standa yfirgefnir í ókunnu landi, án allrar bænheyrslu í neyð þeirra (1. Mós. 42, 21); sá dagur, er Davíð ritaði: látið Úría fremstan, þar sem bardaginn er harðastur og yfirgefið hann síðan, svo hann falli þar og látist (2. Sam. 11, 15), benti til þess dags, er hann átti að flýja með öllum áhangendum sínum fyrir augliti sonar síns, svo hann særði þá ekki með hvössum sverðum (2. Sam. 15, 14). En þannig benti einnig hver sá dagur, er Jósep var þræll í húsi lávarðar síns, og var trúr og rjettlátur, hvílíkt órjettlæti sem hann mátti þola, til þess dags, er Faraó átti að segja: þegar jeg er í hásæti mínu, þá að eins vil jeg vera þjer meiri (1. Mós. 41, 40); þannig benti einnig sá dagur, er Jakob í æsku sinni fór einmana og landflótta, með stafinn einan í hendi sjer, og sagði: Jehóva skal vera minn Guð, til þess dags í elli hans, er hann gat með sanni sagt: Drottinn! jeg er minni allri miskunsemi og trúfesti þinni, er þú hefir auðsýnt þjóni þínum (1. Mós. 33, 10).

Að vísu vitum vjer með sannindum, að hvorki hótanir rjettlætisins, nje fyrirheit þess. rætast öll eður að öllu leyti hjer á jörðu; en þessi orð: Dagur kemur eptir þenna dag, benda einnig lengra fram, benda til þess dags, er kemur á eptir öllum dögum jarðarinnar, á eptir öllum fagnaðarlátum og öllum gráti undir sólunni, kemur handa þeim, er hafa leitað sjer vegsemdar og sóma og ódauðleika, með stöðugleik í góðum verkum, og handa þeim, sem þverbrotnir eru og þekkjast ekki sannleikann, heldur hlýðnast órjettlætinu: það er Guðs rjettláta dóms opinberunardagur, þá er hann mun gjalda sjerhverjum eptir verkum hans (Rómv. 2, 5 o. n. v.). Hvert sinn, er vjer sjáum, að hinn trúlyndi verkamaður fer á mis við laun sín á jörðunni, hverfur hugur vor í guðrækni til þess dags, er sagt mun verða: Vel hefir þú gjört, þú góði þjónn! þú varst trúr í litlu, jeg mun setja þig yfir mikið, gakk inn í fögnuð Herra þíns (Matth. 25, 21); hvert sinn, er vjer sjáum mann, sem í kyrrð og undirgefni tekur kross sinn, og

fylgir Drottni sínum, hverfur hugur vor til þess dags, þá Drottinn sá, sem hann hefir fylgt, skal til fullnustu efna þetta sitt fyrirheit: sælir eru sorgbitnir, því þeir munu huggun hljóta (Matth. 5, 4); hvert sinn, er vjer sjáum eitthvert góðverk miskunarinnar, er hún þekkir ekki lof sitt og heimtar ekki umbun sína, minnumst vjer þess dags, er Dómarinn mun segja: það sem þjer hafið gjört við einn af þessum minnstu bræðrum mínum, það hafið þjer gjört við mig (Matth. 25, 40). En sömuleiðis, hvert sinn er vjer sjáum andstyggð órjettvísinnar, og sjáum að henni verður ekki hegnt hjer á jörðu, minnumst vjer þessara spádómsorða: Hinn rangláti haldi á fram að gjöra rangt; en sjá! jeg kem skjótt og hefi með mjer endurgjaldið handa sjerhverjum, eptir því sem verk hans verða (Opinb. 22, 11 og 12); hvert sinn, er vjer sjáum þá, er ekki að eins fremja hið illa, heldur og hafa þóknun á þeim er það gjöra (Rómv. 1, 32), er furða sig á og hæðast að þeim, er vilja ekki hlaupa með þeim út í hið sama ósvífnis foræði og sjálfir þeir, þá samsinnir meðvitund hjarta vors af alhuga guðsorði, er það segir, þeir eiga að gjöra honum reikningsskap, sem viðbúinn er að dæma lifendur og dauða (1. Pjet. 4, 4 og 5).

Það sem maðurinn sáir, það mun hann og uppskera: Hversu vekjandi, hversu viðvarandi talar þessi rödd til hins mikla fjölda mannanna, er þrjózkast og skeytir engu! Að vísu er ótti ekki hin rjetta hvöt til að forðast hið illa, en þó greiðir ótti Drottins veginn fyrir anda kærleikans, og aldrei má sú rödd missa sín á jörðunni, er líka sameinar sig fagnaðarboðskapi Krists; farið ekki villir vega, Guð lætur ekki að sjer hæða! þjer börn mannanna! þjer njótið frelsis á jörðunni, þjer getið fyrirlitið og þrjózkast, verk yðar fara fram hjá og þjer eruð, ef til vill, búin að gleyma þeim fyrir löngu eður þjer gleymið þeim bráðum; verið getur það líti svo út enn þá, sem afleiðingar þeirra sjeu að eins hryggilegar öðrum mönnum, en ekki sjálfum yður; girndum yðar hefir verið fullnægt, ef til vill, og dramb yðvart hefir ekki verið lækkað; órjettlæti yðvart hefir, ef til vill, komið öllu því fram, er þjer girntust: en villizt ekki, Guð lætur ekki að sjer hæða! þótt órjettlæti yðvart hafi þótt vera gleymt og afmáð og hulið, sem það er

jörðin hylur, þá hyggið að því, að fræið, sem jörðin skýlir, er einmitt það, sem upp kemur, og það sem maðurinn sáir, það mun hann og upp skera. Þetta er atkvæði rjettlætisins; samt lætur Guð það ekki hljóma til að skelfa mennina, svo þeir örvinglist, heldur til að hryggja þá, svo þeir snúi sjer; því það er sameinað hinni blíðu rödd náðarinnar og líknseminnar, er talar um þann, sem afmáð getur sektina, svo hún verður með öllu afmáð, þann, er hinn sjúki getur fundið lækning hjá, og hinn glataði fundið frelsi hjá. En enginn hefir til fullnustu skilið að Guð er líknsamur, utan sá, sem áður hefir skilið, að Guð er rjettlátur; enginn hefir fundið sætleika þeirra orða, að Guð hafi friðþægt oss við sig fyrir Krist, utan sá, sem áður hefir fundið þunga þeirra orða, að Guð láti ekki að sjer hæða.

En samt á fullvissa þess, að það sem maðurinn sáir, það skuli hann og upp skera, ekki einungis að hóta, til viðvörunar, heldur og að friða, til uppörfunar og huggunar. Sá sem vill hið góða og gjörir það, á einnig að upp skera á sínum tíma, það er að skilja, ef hann gefst ekki upp, því sá sem örvæntir og hættir iðju sinni, hvernig ætti hann að fá upp skorið. Hirðuleysi annara manna, og mótstaða þeirra, og illkvittni, og óþakklæti, og hinn mikli máttur tímans, er sýnist að brjóta það allt og dreifa því og eyða, er straumur hans snertir við, allt þetta ætlar optsinnis að draga úr oss allan hug. Þá sjáum vjer ekki nema eina hlið hlutanna og dæmum eptir tilfinning nálægrar stundar, en gleymum, hversu mikið nú er oss hulið, sem á að birtast á sínum tíma. Á slíkum stundum hugleysisins ríður oss hálfu meir enn endrar nær á að heyra guðlegt ávarp, er geti hughreyst og huggað oss, þá þörfnumst vjer einmitt þess ávarps, er vjer og fáum að heyra: Látum oss ekki þreytast að gjöra hið góða, því á sínum tíma munum vjer upp skera, ef vjer letjumst ekki (Gal. 6, 9). Það er krafan, að vjer skulum gjöra hið góða, ekki að eins endur og sinnum, heldur með staðföstum vilja, að vjer skulum ekki þreytast, þótt oss veiti örðugt, og gefast ekki upp, þótt uppskerunnar sje langt að bíða. En það er fyrirheitið, að þá skulum vjer upp skera á sínum tíma, á þeim tíma, er speki Guðs og miskunsemi ákveður,

en ekki vort hið skammsýna vit. Og þetta fyrirheit mun rætast, svo sannlega, sem samvizkan er ekki eintóm hjegómleg rödd, svo sannlega, sem himin og jörð eru samtengd með andlegum lögum, en ekki líkamlegum, svo sannlega, sem guðsorð er já og amen. Sjá, bóndinn væntir jarðarinnar dýrmæta ávaxtar, en þreyir þó, þar til hann fær morgun- og kvölddöggina. Þreyið og þjer og styrkið hjörtu yðar (Jak. 5, 7)!

---

# 11.

## GUÐ ER TRÚR.

Einn víðfrægur heimsspekingur hefir sagt, að upphaf allrar vizku sje, að efa allt. Jeg veit ekki, hvort það er svo nauðsynlegt, að rífa niður fyrr enn byggt er, eða hvort enginn getur haft unaðsemd af hinni lifandi uppsprettu, án þess að leita fyrst á brennheita eyðimörku til að pínast af þorsta. En þó vjer hefðum ásett oss að efa allt, þá er þó allt að einu sum sannfæring þess eðlis, að vjer getum aldrei afneitað henni, því vjer gætum ekki ímyndað oss það, sem henni er gagnstætt. Svo er og þeirri grein varið, að Guð sje trúr; seinna orðið er svo nákvæmlega sameinað hinu fyrra, að vjer getum ekki skilið þau að: Guð er trúr eins sannarlega og hann er til. Vjer finnum, að Guð er hinn fasti grundvöllur alls sem til er, og að sálin, mædd af svo mörgum stormi, getur hvergi fundið sjer staðfestu og hvíld, nema í honum einum; vjer finnum, að það er óyggjanlegt, sem postulinn segir: Þó vjer sjeum ótrúir, þá er hann trúr, hann getur ekki afneitað sjálfum sjer (2. Tím. 2, 13)! Þegar jeg því segi, að jeg trúi á Guð, þá segi jeg um leið, að jeg þekki hann, sem að sje trúr í æðstum skilningi. Eður gæti mjer komið

til hugar, að Guð sje breytanlegur og ótrúr? Sá einn er trúr, sem er sannorður; þar í mót er sá falskur og ótrúr; sem villir á missýningum, og tælir á ósönnum hugmyndum, og segir annað enn hann hugsar. Hið illa er sviksamlegt og óstöðugt, í eðli þess er æ lygi; hið góða er ekki síður hreint enn stöðugt.

Fyrir því sjáum vjer, að í heilagri ritningu er hugmyndin um sannsögli og trúfesti ætíð samfara hugmyndinni um guðlega veru. Vit fyrir víst — segir Móses — að Drottinn Guð þinn er trúfastur Guð, og heldur sáttmála sinn og miskunsemi við þá, sem elska hann og geyma boðorð hans, og endurgeldur berlega hverjum, er hatar hann (5. Mós. 7, 9. 10). Orð Drottins eru sönn, segir Davíð, og hverju sem hann lofar, það efnir hann sannarlega (Sálm. 33, 4). Þegar hinir helgu menn sáu himnana upp ljúkast, heyrðu þeir ætíð þann, sem þar lifir og ríkir, vera kallaðan sannorðan og trúan (Opinb. 19, 11); og þessi orð, er hljóma um himnana, geymdu þeir jafnan í jarðneskri baráttu sinni. Þegar Páll postuli hugsar um það, sem honum var hið sárasta hryggðarefni — þegar hann hafði tilefni til að óttast, að erfiði hans mundi verða árangurslaust, og illgresið mundi spretta upp yfir hveitið, og spillingin komast inn í söfnuðina, afbaka sannindi trúarinnar og ónýta ávexti hennar, hversu optlega kemst hann þá svo að orði: Guð er trúr, sá er yður hefir kallað til samfjelags við Son sinn, Drottinn vorn Jesúm Krist (1. Kor. 1, 9); Guð er trúr, hann mun ekki láta yður rata í meiri freistni, enn þjer fáið staðizt (1. Kor. 10, 13); Drottinn er trúr, hann mun styrkja yður og vernda við illu (2. Tess. 3, 3). Og þegar hann vill styrkja það traust í sjálfum sjer og öðrum, að hann sje ekki á tálar dreginn með sannfæringu sinni, og að hann dragi ekki aðra á tálar með kenningu sinni, þá segir hann: eins sannarlega og Guð er trúr, hefir ræða vor til yðar ekki verið já og nei (2. Kor. 1, 18), það er: efablandin og hvikul, eður slík. að hún verði ónýtt eða henni verði breytt. Slíkar hugsanir eru eins og fornvinir postulans: þær vitja hans, þegar hann er í þungu skapi, og hugga og lífga sál hans, þegar honum liggur við að láta hugfallast.

En eigum vjer ekki einnig að reyna að verða svo innlífaðir þessum hálçitu og huggunarfullu hugleiðingum, að þær renni upp í sálu vorri, þegar vjer þurfum á þeim að halda? Með því Guðs heilagt nafn felur í sjer allan fullkomleika, svo það er eins og oss verði of bjart fyrir augum, þegar vjer ætlum að ímynda oss í einu lagi alla saman þýðingu þess: þá nefnum vjer hann ýmsum nöfnum, og hvert þeirra kveikir í oss eina hugmynd um eðli Guðs. Guð er einn, en fullkomleiki hans er margfaldur eins og geisli sólarinnar. Eins og jeg því optlega kalla Guð almáttkan, og optlega rjettlátan, og optlega líknsaman, eins skal jeg optlega segja við sjálfan mig: G u ð e r s a n n o r ð u r og t r ú r; jeg skal tala við hjarta mitt um það, ekki til að safna mjer ástæðum fyrir því — því það h l ý t u r að vera eptir eðli Guðs — heldur til að minna mig á, hvað af því leiðir, mjer til huggunar í efasemdum og kvíða.

Af mótlæti því, sem maðurinn verður að þola hjer í heimi, eru hinar sárbeittu efasemdir, sem pína sálina, ekki hvað ljettbærastar, og vitja einkum þeirra, sem ráðvandir eru, og leiða þá ekki að eins í efa um einstöku hluti, heldur ætla opt að hagga öllum grundvelli þeim, sem traust þeirra er á byggt, og von þeirra og viðleitni er af sprottinn — og ætla með því að láta þá hafna öllum sannleika. Hversu eymdarfullt er ástand vort, þegar augu vor myrkvast, og himin og jörð hjúpa sig þoku, og maðurinn tekur að efast um, hvort hann sje ekki á tálar dreginn af þeirri þekkingu, sem hann var áður algjörlega sannfærður um, og veitt hafði sálunni hvíld og ró! Að sönnu eigum vjer ekki að láta undan þvílíkum efasemdum, heldur eigum vjer að hertygjast öllum styrkleika sálarinnar til að vísa þeim burt, þegar þær ætla að brjótast inn á oss og tálma viðleitni vorri og mæða oss í baráttunni; en ráðvandur maður þorir samt ekki að vísa þeim burt, nema hann sje áður orðinn sannfærður um, að þær hafi ekkert við að styðjast. Leyfum því, að efasemdirnar sjeu berorðar á stundum; því ef vjer þöggum þær niður, þá er hætt við það líti svo út, sem langt um meira mundi reynast í þær varið, ef vjer vildum taka vel eptir ræðu þeirra; vjer hefðum þá að eins flúið

þær, þá væri eins og vjer þyrðum ekki að ganga fram úr fylgskninu, er vjer hefðum hopað inn í fyrir áhlaupi þeirra, og þá segir vantrúin í hjarta voru, að efasemdirnar mundu sigrast á oss, ef vjer dirfðumst að ganga í berhögg við þær. En þær eru ekki svo óttalegar, ef vjer höfum þor til að virða þær fyrir oss; þeim er eins varið og líkneskinu forðum, sem konungurinn sá í undarlegum draumi: það var skrautlegt og ljómandi, það var ógurlegt álits, það glóði við gull og silfur, það leit svo út, sem það væri stöðugt á járnfótunum, en fæturnir, sem öll sú hin voðalega mynd stóð á, voru þó sumpart úr leiri, þess vegna gat hún ekki staðizt eitt högg, svo að hún fjell þegar mikið fall og kraptur hennar lamaðist allur (Dan. 2, 31 o. nn. vv.). það er að skilja: allar efasemdir þær, er oss virðast svo hræðilegar og illar viðureignar, eyðast og verða að heimsku og hjegóma, ef menn hafa stilling og stöðugleik til þess að íhuga þær.

Jeg segi ekki, að öllum efasemdum eigi þannig að eyða; það eru til efasemdir, sem koma frá sannleikanum sjálfum, og eru ætlaðar til að vekja oss af svefni vorum, og eyða hleypidómunum, og sýna oss, í hverju oss hafi yfirsjezt, og leiða oss þannig á fram í þekkingu: í slíkum efasemdum liggur frækorn sannleika þess, er síðar á að verða oss kunnur; opt pína þær sálina lengi, en veita henni síðan því meiri sælu nýrrar og efalausrar þekkingar. Enda eru og til aðrar efasemdir, þær er koma frá anda lyginnar og spillingarinnar, og ætla að leiða mennina burt frá fyllingu þekkingarinnar á þurrar og veglausar eyðimerkur; slíkum efasemdum verður að vera menn geti eytt, nema svo sje, að myrkrinu sje ætlað að sigrast á ljósinu; og ef slíkar efasemdir hefðu nokkuð við að styðjast, þá hefði ekki maðurinn dregið sjálfan sig á tálar, heldur segjum það berlega — svo að vjer skiljum því betur, hversu fávíslegar og syndsamlegar slíkar efasemdir eru — að þá hefði Guð dregið oss á tálar, og birt oss slíka þekkingu, sem vjer gætum ekki annað enn álitið sanna í huga vorum, og þó drægi oss á tálar; og þá væri það orðið, sem ekki getur verið: þá hefði Guð afneitað sjálfum sjer — þá væri Guð ekki sannorður og trúr.

Maðurinn getur ekki lifað án sannleika. Því hann hefir ekki að eins eina fýsn, þá er hvetur hann til að leita sannleikans fyrir sakir hans sjálfs, heldur þarf hann ávallt, í hverju spori sem hann gengur og hverri athöfn sem hann áformar, að halda á einhverju, sem víst er og áreiðanlegt, til að geta fylgt því, og vitað, hvað hann á af að ráða. Nú eru að sönnu skilningarvitin honum til leiðbeiningar, og í sumu er honum óhætt að fara eptir því, sem þau segja fyrir; því í þeim efnum, sem koma til skilningarvitanna, þá er bæði, að missýningarnar eru ekki miklar, enda er þar hægt við þeim að gjöra. En þar í mót mundu skilningarvitin draga hann á tálar, eða rjettara að segja: hann drægi sig sjálfur á tálar, ef hann hjeldi, að þau gætu birt honum allan sannleika; því þó að skilningarvitin sjeu aldrei svo næm og hvöss, þá sýna þau oss ekki annað enn yfirborð hlutanna, og kenna oss aldrei annað enn, hvernig þeir komi fyrir á líkamlegan hátt, en ekki, hvert að sje eðli þeirra; og það er harla margt, sem oss ríður á að vita, og skilningarvitin geta ekki frætt oss hót um. Fyrir því segir og hver maður, að það sjeu ekki skilningarvitin, heldur skynsemin, sem grípi sannleikann, og að það sje hún — sú er og veitir manninum yfirburði yfir dýrin — er aðgreini það sem rjett er og víst frá því, sem blekkir og tælir. Þó menn aldrei nema gjöri lítið úr hinni spilltu skynsemi — þó það sje aldrei nema víst, að hún villist þráfaldlega, ef hún er tilsagnarlaus: þá er hitt jafnvíst, að sumt skilur hún svo, að hún getur ekki efazt um það nje borið á móti því. En ef einhver þorir ekki að reiða sig á skynsemina, vegna þess menn hafa svo margt fávíslegt um hana talað, þá höfum vjer þó allir samvizku, og hennar samþykki er hið nákvæmasta og innilegasta; vjer getum ekki borið á móti því, sem vjer vitum fyrir samvizku vorri. Jeg finn ritað í hugskoti mínu lögmál, sem ekki er til búið af sjálfum mjer, og ýmist hvetur mig til að gjöra eitthvað, sem mjer er óljúft, eða aptrar mjer frá því, sem mjer er ljúfast. Þetta lögmál býður öldungis fortakslaust það sem það býður; það getur verið jeg efist um, hvað rjett sje í einhverju vafasömu málefni, en jeg efast ekki um, að jeg á aldrei að vinna rangan eið nje bera falsvitni — að jeg á aldrei að halda

því fje, sem mjer er fyrir trúað — að jeg á ekki að svíkja vin minn. Ef jeg gjöri það sem rangt er, áfellir samvizkan mig og ógnar mjer; en ef jeg gjöri það sem rjett er og gott, þá hefi jeg djörfung, og sje jeg áfelldur og lastaður að orsakalausu, þá er meðvitund mín örugg og frjáls og skýtur máli sínu undir hinn æðsta dóm. Þegar þessi meðvitund þróast í mjer, sprettur af henni öll hin æðsta og ágætasta þekking, með því sannfæringin um Guð og um samband vort við hann er sannlega í henni fólgin; en nú hugsa jeg einungis um, með hvað mikilli vissu jeg viti það er samvizkan segir mjer. Og jeg verð við að kannast, að jeg veit það með heilagri vissu, og veit það eins fyllilega og jeg veit til sjálfs mín; eðli sálar minnar yrði að umbreytast, og jeg yrði að verða að annari veru enn jeg er, ef jeg ætti að hafna þeirri þekkingu. Þó að nú efasemdin gjörði sig eigi að síður svo djarfa, að rengja einnig þessa vissu, og hún spyrði mig, á hverju jeg viti allt saman þetta svo fullkomlega, og hvort jeg kunni ekki að vera á tálar dreginn, þar sem jeg segi, það sje óbreytanlegur mismunur á rjettu og röngu, eða þegar jeg segi um eitthvað, að það sje rjett: þá liggur í augum uppi, að jeg hefi ekki sjálfur dregið mig á tálar í þessu efni — því ekki er sem jeg hafi innrætt sálu minni þessa höfuðtilfinningu; jeg hlyti því að vera dreginn á tálar af þeim, er skapaði mig, og gaf mjer ekki að eins augu og eyru til að sjá og heyra líkamlega hluti, heldur og samvizku til að heyra hina andlegu rödd, er hann talar til mín með. Og væri jeg þannig á tálar dreginn, þá hefði Guð afneitað sjálfum sjer, með því hann hefði þá gjört mig svo, að jeg yrði að álíta það rjett, sem rangt er; hann væri þá ekki sannorður og trúr.

Þegar jeg leita að sannleikanum — þegar jeg reyni að komast í skilning um eðli Guðs og samband mitt við hann, þá finn jeg mjer vera þörf á himneskri leiðsögu; þegar jeg leita að nálægjast Guð, og finn til aðskilnaðar þess, er fyrirmunar syndaranum samfjelag við þann, sem eilíflega er rjettlátur — þegar jeg finn til hapta þeirra allra, sem aptra mjer frá að komast að því ljósi, sem Guð býr í: þá finn jeg mjer þörf á frekari opinberun guð-

legrar veru til friðþægingar. Þessi þörf leiðir manninn til trúar þeirrar, sem boðar, að Guð hafi sætt heiminn við sig fyrir Krist (2. Kor. 5, 18). Ef nokkur er kominn svo langt, að hann kalli sig kristinn af sannfæringu, þá hefir hann fundið einkum og umfram allt, að Drottinn hans hefir orð hins eilífa lífs, að Drottinn leiðir hann að þeim lindum, er upp spretta til eilífs lífs — og að vjer höfum fyrir Krist djörfung og leyfi til að nálægjast Guð; hann hefir öðlazt þekkingu um elsku Krists, sem æðri er öllum skilningi (Ef. 3, 19), og hefir greinilega sett sjer fyrir sjónir, að hann þekki engan annan, er hann gæti farið til; hann hefir þar á ofan íhugað tákn þau, er Guð hefir gjört Krist dýrðlegan með fyrir heiminum, hann er orðinn sannfærður um, að enginn geti gjört þau verk, sem Kristur gjörði, nema Guð sje með honum (Jóh. 3, 2); hann er kominn í skilning um, að Guð hefir borið honum vitni fyrir öllum, með því að reisa hann frá dauðum (Post. 17, 31); hann hefir hlýtt til hinna spámannlegu radda, sem allt í frá fyrstu öldum vísuðu æ skilmerkilegar til þ e s s, er koma átti, og gefið gaum að táknum þeim, er um allar hinar seinni aldir hafa viðhaldizt, og Guð sýnir með, að s á sje kominn í veröldina, sem allar kynkvíslir eigi að hljóta blessun af: ef nokkur — sagða jeg — hefir öðlazt sannfæringu þessa, á hann þá aptur að fara að efast um, hvort það kunni ekki að vera, hann sje á tálar dreginn í þessu öllu? Já, að vísu! s j e á tálar dreginn; því hann hefði ekki sjálfur dregið sig á tálar, hann hefði trúað þeim táknum, sem hann getur ekki í móti mælt, hann hefði trúað hinni innstu og beztu tilfinningu hjarta síns, er hann hefði viðurkennt, að þessi kenning væri ekki frá mönnum, heldur frá Guði. En af hverjum væri hann þá dreginn á tálar? Af þeim, sem maðurinn fær ekki í móti staðið, og maðurinn á að þegja fyrir — af þ e i m, sem bæði hefir lagt hina djúpu þörf í hjörtu vor, og fullnægju þarfarinnar í Krists fagnaðarboðskap — það er: hinum sannorða og trúa Guði! — Ó hversu nauðsynlegt er — eins og jeg áður sagða — að láta efasemdirnar tala berlega, því ef þær eru sannleikans áminningar, að vjer höfum enn ekki fundið það sem rjett sje, og veiti sálunni hvíld, þá hvetja þær oss til að halda á fram leitinni, og sá finnur,

sem leitar (Matth. 7, 8); en sjeu þær sendar af lyginni, til þess að útrýma sannleika, krapti og von úr sálum vorum, þá munu þær bráðum verða tvísaga, og þá mun koma í ljós, af hverjum anda þær eru sendar, og broddurinn hverfa, sá er þær ætluðu að pína hugann með.

Guð er trúr! Hvaða traust höfum vjer annað í mót hinum margvíslegu og stopulu æfikjörum? hvað höfum vjer annað til að friða með kvíða vorn? Mjer er alls ókunnugt, hvað veröldin muni gefa mjer; og þó hún jafnvel gæfi mjer þær gjafir, sem mjer virðist góðar í bráð, en jeg tæki við þeim eins og jeg þiggi þær af veröldinni einni saman, þá er óvíst, hvort þær muni verða mjer til blessunar; og taki hún aptur það sem hún gaf, þá get jeg ekki haft neitt traust á, að hún gefi mjer annað í staðinn, sem betra sje. Það er eðli veraldarinnar að vera táldræg: henni er tamt að kveikja fyrst von, og bregðast síðan, hún rjettir oss ávexti, sem eru fýsilegir á að sjá og sýnast lostætir, en innan eru þeir holir og tómir, eða ormur leynist í kjarnanum; hún vísar manninum þann veg, er honum sýnist rjettur að vera, en sá vegur leiðir að síðustu í dauðann, og hryggð kemur eptir hlátur og harmur kemur eptir fögnuð (Orðskv. 14, 12. 13). Það getur ekki hjá því farið, að sá, sem ætlar að halda sjer við heiminn, verði á tálar dreginn, því heimurinn steypist og fýsn hans (1. Jóh. 2, 17). En hvernig gæti sá orðið á tálar dreginn, er heldur sjer við Guð? því Guð er trúr. Ef vjer biðjum Guð góðra gjafa rjettilega og ráðvandlega og án þess að letjast, og köllum ekki gott það sem veröldin kallar gott, sem er saðning hjegómlegrar löngunar, heldur það sem gott er í raun og veru — frækorn hins rjetta og eilífa lífs: mundi þá Guð gefa oss kaldan stein eða eitraðan orm í stað rjettrar, hollrar og endurnærandi fæðu? (Matth. 7, 9 o. nn. vv.). Ó nei! allt gott, sem þú þiggur með auðmjúku hjarta af hendi hins trúa Guðs, og nýtur í sakleysi og með þakklæti, það er allt sannarlega gott; í Guðs paradís leynist enginn höggormur undir rósunum. Þó að Guð leiði þig aptur út úr paradís þinni hjer á jörðu, svo þú verðir að ráfa um eyðimerkur, þá mun Guð heyra rödd þína, með því hann er trúr, og engill hans mun leiða þig til einhverra uppsprettulinda, svo þú örmagnist

ekki; og þó þú verðir einnig að reyna freistingar, þá er Guð trúr, og mun ekki láta þig rata í freistni yfir megn fram, heldur láta þau endalok á henni verða, að þú getir staðizt hana (1. Kor. 10, 13). Því sje Guð trúr, þá getur ekki verið, hann slái hendinni af þeim, er reiða sig á hann af öllu hjarta sínu; því það hlýtur að vera, að allir hlutir snúist þeim til góðs, er elska hann (Rómv. 8, 28).

Ó! hversu mjög fær það á hjörtu vor, sem postulinn segir: Fyrir því skulu og þeir, sem þola hart eptir Guðs vilja, fela honum svo sem trúföstum Skapara, sálir sínar á hendur, með góðum verkum (1. Pjet. 4, 19). Menn geta þolað hart að vilja sjálfra sín, af því menn hirði ekki um að eiga betra; menn geta og þolað hart að Guðs vilja, af því hann vilji eða leyfi, að það komi yfir oss, þó að vjer tölum satt og breytum rjett. En ef oss fýsir að eiga hæli hjá Guði í mótlæti lífsins, þá er ekki nóg, að hafa ekki syndgað á undan, heldur verðum vjer að halda á fram í því að breyta vel, þó vjer þolum illt; en ef vjer breytum vel, þá megum og eigum vjer að fela Guði sálir vorar með fullu og óbifanlegu trúartrausti. Hann er Skapari vor, af honum þiggjum vjer líf og anda og alla hluti, og þegar hann gaf oss lífið, ætlaði hann oss ekki til hegningar, heldur til að öðlast sáluhjálp fyrir Drottin vorn Jesúm Krist (1. Þess. 5, 9). Og hann er trúr, öll fyrirheit hans eru já og amen, hann getur ekki afneitað sjálfum sjer. Allt stundlegt getur brugðizt, ekki að eins heimurinn, heldur og auga sjálfs mín, hyggjuvit mitt, líkleg ágizkun mín um ókominn tíma, von mín og kvíði minn; en Guð er sannorður og trúr.

---

# 12.

## GUÐLEGIR HLUTIR ERU ÓSKILJANLEGIR.

Fagnaðarboðskapur Krists boðar sig ætíð, svo sem opinberaðan leyndardóm. Inntak hans, eða það, sem hann boðar, var frá eilífð hulið í ráðsályktunum Guðs, en kom smátt og smátt í ljós, eins og þegar morgunroðinn er að smáaukast, þangað til um síðir að sólin kemur upp yfir sjóndeildarhringinn; hann var fólginn í helgum bókum, sem eru kallaðar spádómsbækur, vegna þess, þær benda til ókominna tíma og ókominna atburða; en þegar þeir komu í ljós, lagði birtuna af þeim yfir hina undanförnu tímana, svo bert varð, hvað undirbúið var. þannig lýsir nýgræðingurinn því undir eins, að þar á að verða jurt, en það sjest fyrst berlega, þegar jurtin er fullskrýdd prýði sinni, hvað dulizt hefir í hinu leyndardómsfulla frækorni. Vjer getum og sagt, að inntak kristilegrar trúar sje falið í hjarta mannsins, ekki að sönnu eins og þekking, heldur eins og grunur eða löngun, því sjerhver söknuður innibindur í sjer það er menn sakna, og sjerhver löngun það er menn langar til; söknuður og sorg hins einmana hjarta innibindur þegar í sjer vonina um trúan vin, sem loksins muni koma og hugga hinn þreyanda; og brennandi löngun hverrar skapaðrar skepnu, og andvörpin, sem hvert armætt brjóst sendir upp eptir lausn, sýna þegar, að lausn hljóti að vera til. það er til leynilegt samband milli allra hluta, sem til eru, svo að hver þeirra vísar til annars, neyð hins hungraða vísar til kornsins, sem vex upp af jörðunni, og þorstinn vísar til linda þeirra, er sjálfur hann hefir ekki til búið, en þó eru ætlaðar honum til svölunar; þannig vísar og neyð sálarinnar hjarta mínu, sem þyrstir af elsku upp til þín, Lausnari mannanna!

það sem hulið var í Guði, það sem í hjarta mannsins var ekki annað enn grunur, sem hann varla vissi af, það sem í spádómsbókunum var harla óljós bending, það er opinberað í fagnaðarboðskapnum. Er opinberað — það er: er orðið ljóst og skiljanlegt; því fagnaðarboðskapur Krists er ekki hulinn, og felst ekki í óljósum

tilfinningum, þar sem ljós skilningsins þorir ekki að koma, heldur mælir hann fram með sjálfum sjer við samvizku mannsins með opinberun sannleikans (2. Kor. 4, 4), og þannig er Guðs sáluhjálpleg náð kunn orðin öllum mönnum (Tít. 2, 11). Opinberunin er ætluð öllum þjóðum á öllum tímum, því svo er til ætlað, að hún skíni jafnt inn í hreysi sem hallir, og að jafnvel smælingjarnir hafi hennar not

En þó að inntak kristilegrar trúar sje þannig opinbert orðið, þá er það samt enn leyndardómur, ekki að eins hinum fáfróðu, heldur og hinum vitru og spekingunum; það er eitthvað hulið í henni, sem vitið getur ekki skilið; og vjer sjáum, að mennirnir bera annaðhvort lotningu fyrir þessu hinu óskiljanlega, eða þeir hneixlast á því, og hæðast að því. Hvort er nú rjettara? Er það tilhlýðilegt, er það skynsamlegt, að neita hinu óskiljanlega, einungis vegna þess, að skilningarvit vor geta ekki skynjað það, og hugur vor ekki gripið það? Það er þó öldungis auðsætt, að hið himneska, hið guðlega, verður að vera æðra enn vjer, en vjer ekki æðri enn það, og vjer getum því ekki skilið það á þann hátt, er vjer skiljum venjulega hluti; það er öldungis auðsætt, að Drottinn himins og jarðar, sem er Faðir andanna, og allir munnar kalla hinn óendanlega, hann verður einnig að vera oss í mörgum greinum óskiljanlegur — bæði óskiljanlegur í veru sinni, og óskiljanlegur í ráðsályktunum sínum og verkum. En af því það er eins og mannlegu viti sje gjarnt, að þykkjast leyndardómum þessum, sem það fær ekki skilið, þá eigum vjer að venja hið drambsama vit á, að kannast við takmörk sín, og synja því þó ekki neins af rjettindum sínum, vjer eigum — ef jeg má svo að orði komast — að reyna til að gera oss það skiljanlegt, að hið guðlega hljóti að vera oss óskiljanlegt, og á hvern hátt það hljóti að vera það.

Af hverjum getum vjer lært betur í þessu efni, en af honum sjálfum, er kom í heiminn, til að opinbera oss leyndardóma Guðs. Það er einnig í því tilliti, að svo mikið má læra af tali Jesú við Gyðingahöfðingjann, er kom til hans á næturþeli (Jóh. 3). Eptir því er vjer vitum, var það hinn fyrsti af höfðingjum jarðarinnar, er gekk á hönd honum, er svo margir, háir og lágir, síðan hafa

gengið til handa. Vjer vitum og viðurkennum, hvað lastvert var í aðferð þessa manns; hann kom á laun til Jesú, og þorði ekki að kannast við hann opinberlega; þó var óumræðilega miklum mun meira varið í handgöngu hans, enn í handgöngu margra höfðingja, er síðan hafa lifað. Það hefir ekki vantað á, þeir hafi aðhyllzt Jesúm opinberlega, og kannazt við hann fyrir allri alþýðu; en þá var öðru vísi orðið ástatt á jörðunni, sumir þorðu ekki annað vegna alþýðunnar, sem aðhylltist hann, sumum var líka alvara að stuðla til þess með áliti sínu, að kristin trú fengi vald yfir almúganum, en þó ekki vegna annars, enn að þeir vildu nota hana, til að koma fram áformum sínum, og að þeir álitu hana hentuga til að hafa tauma og bönd á alþýðunni, til að beygja hana undir það ok, er þeir sjálfir opt og tíðum vildu ekki snerta með einum fingri; en í leyni, þar sem þeir tálmunarlaust gátu verið eins og þeir vildu, þar lögðu þeir af sjer alla lotninguna, ásamt hátíðaklæðunum, er þeir höfðu borið á samkomunum. Allt öðru vísi var Gyðingahöfðingjanum varið; hann þorði ekki að gjöra játningu sína alþýðu kunna; en í leyni, í þögn næturinnar, þegar hann þorði að vera það, sem hann var í raun rjettri, þá leiddi hjartað hann til Drottins. Hvað seinna meir varð úr manni þessum, og hvernig hann síðar tók að sjer hinn ofsótta og hinn krossfesta, á sjer ekki stað í þessari hugleiðingu; var ekki trúin orðin enn staðföst í hjarta hans, og spyrjum vjer að ástæðum fyrir efasemdum hans, eru líkur til, að fagnaðarboðskapurinn um Krist hafi reyndar fundizt honum háleitari, leyndardómsfyllri og óskiljanlegri enn svo, að hann hafi fullkomlega þorað að þýðast hann.

Til þess að leiðbeina huga hans, bendir Drottinn honum fyrst til hins sýnilega, og spyr hann, hvort vjer neitum hinu verulega í náttúrunni, þótt vjer getum ekki skilið það: „Vindurinn blæs, hvar sem hann vill, og þú heyrir þyt hans, en þú veizt ekki, hvaðan hann kemur, nje hvert hann fer.“ En þótt þú þekkir ekki, hvernig stormunum er sleppt, eða hvernig þeir verða bundnir aptur í fangelsum sínum, heyrirðu samt þyt þeirra, og neitar ekki tilveru þeirra og afli. Hve fagurt kveður hið ágæta fornskáld um þetta, er hann lætur hina eilífu vizku ávíta þann, er dró myrkva á ráð

Guðs með heimskulegum ræðum! „Hvar varst þú, þá er jeg grundvallaði jörðina? hver hefir takmarkað hana? á hverju eru stólpar hennar skorðaðir? hver setti hurðir fyrir hafið, þegar það brauzt fram? hver hefir girt um það? hver hefir sagt: hingað skaltu komast, en ekki lengra, hjer skulu háöldur þínar brotna? Hefir þú farið niður á hafsbotninn? hefir þú ferðast innan um undirdjúpin? Hvar er vegurinn til híbýla ljóssins? og hvar eru heimkynni myrkursins? Hefirðu komið í nægtabúr snjóarins? og hefirðu sjeð geymslustaði haglsins? Hefir þú tengt sjöstjörnurnar saman? eða geturðu sprett belti Óríons? Lætur þú stjörnurnar koma í ljós á rjettum tíma? eða leiðir þú björninn á himnum uppi með húnum sínum? (Job. 38, 2 o. nn. vv.). Að sönnu er margt uppgötvað og fundið við rannsókn síðan þetta fornskáld var uppi, því mannleg skynsemi brýzt æ lengra og lengra á fram; lyptu þjer í hæðirnar, ágæti hugur mannsins! og forðastu hvorki birtu himinsins nje myrkur undirdjúpanna! En hvað langt sem þú færir út merki þín, þá er samt yfir þjer og undir þjer og umhverfis þig órannsakanlegt djúp, og hver ný eign, er þú nemur, lætur þig sjá takmarkalaust land, sem þú ert ekki búinn að eignast. Enn eru eins og áður margir leyndardómar huldir mannlegu viti, enn má eins og áður með sanni segja: Vindurinn blæs og þú heyrir þyt hans, en þú veizt ekki, hvaðan hann kemur, nje hvert hann fer.

„Eins er því varið með hvern, sem af andanum er fæddur,“ segir Drottinn, og minnir þar á aðra leyndardóma; því veröld sú, er Guð skóp í hjarta mannanna, er engu síður leyndardómsfull og óskiljanleg, enn sú, er hann breiddi sundur fyrir augum þeirra. Þú ert ekki búinn að komast fyrir uppsprettur ljóss þess, er ljómar yfir jarðneskum hlutum, og skilur ekki á hvern hátt blys himnanna voru tendruð í öndverðu; en ertu þá búinn að komast að uppruna hugrenninganna? veiztu hvernig þær vöknuðu í sálu þinni? Þú finnur, að tilfinningarnar streyma í gegnum þig; en hvar er hin djúpa uppspretta þeirra? Samvizkan talar í brjósti þínu, hún kennir þjer, hvað rjett sje eða rangt, hún dæmir um gjörðir þínar, hugsanir og áform; þú heyrir glöggt raust hennar, en hvaðan kemur sú raust? Þú hefir ekki gefið himninum lög hans og missirunum

röð þeirra, og ekki fremur samvizkunni lögmál það, er hún dæmir eptir; það er byggt á hinu eilífa rjettlætinu, en hvernig er það orðið þjer kunnugt innst í hugskoti þínu? „Enginn getur sjeð guðsríki, nema hann endurfæðist að nýju.“ það eru undarleg orð! enda skildi Gyðingahöfðinginn þau ekki, þótt hann væri kennifaðir. En enginn, sem hefir reynt í hjarta sínu, það sem fólgið er í þessum orðum, getur rætt um það á annan hátt. Hafirðu nokkurn tíma, eptir margar baráttur og mikil pínandi sárindi, slitið þig frá þrælkun veraldarinnar, og gengið á vald Guði, með fullkominni hlýðni og ótakmarkaðri undirgefni undir vilja hans: var þá ekki umbreyting sú, er á þjer varð, friðurinn, sem spratt upp í hjarta þínu, hinir nýju kraptar, sem tóku að þróast í sálu þinni, var ekki allt það endurfæðing? byrjaði ekki nýtt líf í brjósti þjer? En eins og þú getur ekki látið skipanir þínar ná skýjunum, svo að mergð vatnsins hylji þig; eins og þú getur ekki hleypt á stað eldingunum, svo þær komi og segi við þig: hjer erum vjer (Job. 38, 34. 35): eins getur þú ekki skipað áminningunum af hæðum ofan að leiptra í brjósti þjer, eins getur þú ekki látið friðinn úr hinum sælla heimi gagntaka þig allan.

„Ef þjer trúið mjer ekki, þegar jeg segi yður jarðneska hluti, hvernig megið þjer þá trúa mjer, ef jeg segði yður himneska hluti?“ það sem hjer til hafði verið um rætt kallar Drottinn jarðneska hluti, í þeirri þýðing, að þeir verða á jörðunni, að þeir koma manninum mest við, og að sjerhver getur haft raunina fyrir sjer um þá. En sje því svo varið, að mannlegt vit geti ekki gripið jafnvel þessa hluti, finnist margir, sem jafnvel sýnist þessi orð heimska: hvernig eiga þeir þá að geta skilið himneska hluti og guðlega? Hvað stoðar, að tala við þá um guðlega hluti, sem ekki álíta neitt satt, nema það, sem þeir geta þreifað á, meta hvern hlut einungis eptir verði hans manna á milli, og telja ekki það, sem andanum birtist, með því sem til er í raun og veru. En sá, sem hefir litið inn í sálu sína, og fundið veru sína svo leyndardómsfulla og óskiljanlega sjálfum sjer, hvernig á hann að halda hann geti skilið hinn óendanlega, og kannað djúp guðlegrar veru?

Veru Guðs getur enginn grannskoðað, nema sjálfur hann; dauð-

legir menn geta ekki skilið dýrð hans, því þeir eru bundnir við líkama sinn, og við hugmyndirnar um stað og tíma, sem eiga við jarðneska hluti en ekki við himneska hluti og eilífa; og þess vegna getur sú fræði um guðlega veru verið rjett, sem endanlegur skilningur verður að segja um: jeg skil hana ekki. Og jafnóskiljanlegur hlýtur Guð að vera oss í athöfnum sínum, ráðsályktunum og gjörðum, og öllu sambandi við heiminn. Heimur þessi er til, og er orðinn til af almætti Guðs; en hvaða skarpleiki hefir haft því að hrósa, að hann hafi fundið leyndardóm sköpunarinnar, að hann hafi skilið, hvernig sýnilegir hlutir eru orðnir til af hinum ósýnilegu? Heimurinn stendur, af því máttur Guðs viðheldur honum; en hver hefir þótzt geta skilið, hvernig eilífur Guð aðhefst í hinu tímanlega? Fyrst að jeg skil ekki, hvernig sála mín aðhefst í þessum líkama mínum, og hvernig breytingar líkamans aptur vekja hugmyndir í sálunni: hvernin á mjer þá að detta í hug, jeg geti skilið samband það, er veröldin er í við Guð, og svo er náið, að Guð fyllir allt, að vjer lifum, hrærumst og erum í honum, og Guð er þó ekki sama og veröldin? því veröldin er sköpuð, og breytist eins og fat, en Guð er eilífur og óumbreytanlegur. Bending Guðs stjórnar veröldunni; en hver hefir setið í ráðaneyti Guðs, og hver getur þekkt ætlanir hans? Vjer sjáum einungis hið nálæga, og þekkjum það þó ekki til fulls, fáum aldrei fullskoðað eðli hlutanna, og getum aldrei sjeð út yfir samband þeirra og allar afleiðingar. Hversu undra ólíkir því, er þeir eru í ráðstöfunum hins alvitra og alskyggna Guðs, hljóta því ekki þeir hlutir, er verða á jörðunni, að sýnast mönnunum, er á svo margan hátt eru takmarkaðir í skoðun sinni! Hversu heimskur, hversu ofdirfskufullur er því sá, sem þorir að lasta ráðstafanir Guðs, af því þær eru ólíkar ráðstöfunum hans — sem þorir að segja: hjer er ekki alvizka Guðs í, af því hans sljóu augu sjá hana ekki! Sá sem guðhræddur er, og sannarlega vitur, beygir sig með lotningu og kannast við, að ráðstafanir Guðs hljóta opt að vera órannsakanlegar og vegir hans órekjanlegir (Rómv. 11, 33), að eins og himininn er hærri enn jörðin, þannig hljóta vegir Guðs að vera hærri enn vorir vegir, og hugsanir Guðs háleitari enn vorar hugsanir (Es. 55, 9).

Nú fyrst eðli heims þessa er oss mönnum á margan hátt órannsakanlegt og óskiljanlegt, þó að vjer stöndum mitt í honum, og þó að eðli hans einnig sje eðli vort, þá hlýtur miklu fremur eðli Guðs að vera hafið yfir takmarkaðan skilning vorn. Hvert sem vjer snúum oss, sjáum vjer leyndardóma, er vjer getum ekki dregið af skýluna. Hversu ónýt og grunnskyggn, ósönn og ástæðulaus mundi ekki rannsókn náttúrunnar og eðlis hennar verða oss, ef vjer dirfðumst að afneita öllu því, er vjer skiljum ekki! Og hversu ónýt og ófullkomin og röng mundi ekki fræði vor um Guð og guðlega hluti verða, ef vjer ætluðum að laga hana eptir takmörkuðum skilningi vorum, ef vjer vildum kasta öllu því, sem honum er of hátt, og ætluðum að láta engan leyndardóm verða eptir.

En er vjer þannig einarðlega játum, að vjer viljum ekki laga ræðu vora um veru Guðs og ráðsályktanir eptir ásigkomulagi mannlegs skilnings og viljum ekki láta hann, sem ætíð er ófullkominn og misjafnt þroskaður, setja oss takmörk þau, er vjer ekki þorum yfir að stíga; er vjer þannig játum, að vjer viljum mæla, ekki speki þessa heims, heldur speki Guðs hina leyndardómsfullu, sem hulin var (1. Kor. 2, 6. 7), og dulin frá eilífð, en nú er opinberuð, og eptir ritningum spámannanna og skipun eilífs Guðs er kunn orðin öllum þjóðum til hlýðnis við trúna (Rómv. 16, 25. 26): þá heyrum vjer margar raddir, er mæla oss í móti, segjandi, að með þessu tökum vjer allar skorður frá trúarvinglinu, að við það muni heimska og ruglingur riðlast inn viðstöðulaust, og mennirnir muni, leystir undan lögum skynseminnar, sleppa sjer út í óstýrilátar ímyndanir um það, sem æðra er öllum skilningi.

Vjer getum nú aptur á móti spurt, hvort betur muni fara, þegar skilningurinn kannast við ekkert, sem er æðra enn hann, þegar hann ýmist fellst á, eða ber í móti, eptir því sem honum er hægast í hvert skiptið, og flöktir stundum einungis á yfirborðinu, en leitast stundum við með eintómum orðaleik að ráða einstakar gátur, og þegar öll hin mikla fylling lífsins hverfur við þetta. Því maðurinn á ekki að beita einni gáfu sinni eingöngu, heldur á

hann með öllum kröptum, er Guð hefir gefið sálu hans, að leitast við að ná sannindunum; því að eins getur hann eignazt þau. En fjarri fer, það sje meining vor, að mennirnir sjeu þar án leiðsagnar, sem skilningurinn getur ekki leitt þá. Þegar þú vilt þekkja hluti, sem til eru í náttúrunni fyrir utan þig, og samband þeirra, þá gerir þú þjer óteljandi getgátur, því alltaf er eitthvað í þjer, sem vill leita út yfir það, sem þú ert búinn að þekkja, og finnur þú þá stundum hið rjetta en stundum hið ranga. En náttúran sýnir þjer sjálf, hvort þú sjert á rjettum vegi, því hún er fengin þjer, þú getur ekki breytt henni, og það er ekki leikur hugsana þinna, er þú átt að reyna til að skilja, heldur náttúran. Þegar þú ert búinn að gera þjer hugmynd um lög þau, er himintunglin ganga eptir, þá lítur þú upp á himinhvolfið, og hugmynd þín er ekki rjett, nema þú sjáir að vegir þeirra á himnum uppi sjeu hinir sömu og þú varst búinn að finna með reikningum þínum; en fari þau aðrar leiðir, verður þú að leita betur, því þá ert þú ekki búinn að finna. Þannig verður þú á öllum hlutum að reyna ágizkun þína á því, sem í raun og veru er til, á því í náttúrunni, sem þjer er fengið, og ágizkun þín verður ekki að þekkingu, nema hún standist próf þetta; annars kostar mátt þú ekki fallast á það, sem náttúran vill ekki samsinna, og ekki bera í móti því, sem hún leiðir þjer fyrir sjónir, hvort sem það er þjer skiljanlegt, eða það er þjer enn leyndardómur. Viljir þú þekkja veru sjálfs þín — ó! hversu margar tilraunir gerir þú þá ekki, til að komast inn í djúp hennar, en sjerhverja tilraun verður þú að prófa á því, sem er, á því, sem í raun rjettri fram fer í sálu þinni. Þjer stoðar ekki að bera í móti afli holdlegra áhrifa, því hungur og þorsti munu sýna þjer, að þú sjert bundinn við jörðina; þjer stoðar ekki, að reyna til að sanna, að samvizka sje ekki til, því hún gerir vart við sig í þjer ýmist með greinilegum dómi, eða óskírri áminningu; og vera þín verður eins og hún er, hvort sem þjer heldur sýnist það óskiljanlegt, að hinn háleiti andi er fjötraður hlekkjum líkamans, eða þú þykist ekki geta gripið hvernig það má vera, að þú, sem ert jarðarbúi, sprottinn upp mitt í hinu líkamlega, skulir geta átt samneyti við Guð. Vilji hugur þinn hefja sig yfir allt það, sem er hjer á jörðu,

viljirðu þekkja Guð og veru hans og ráðsályktanir hans yfir mönnunum, þá eru til alstaðar í kringum þig, og í þjer, ótal bendingar, sem leiða þig á þau spor, er þú átt að rekja. En þegar þau hverfa, eða verða óljós og ruglast fyrir augum þjer, þá hefir þú opinberunina, er þjer, sem kristnum manni, er vísað til. Hafir þú viðurkennt, að Guð hafi sent þjer hana, þá veiztu jafnframt, hverju þú átt að fylgja í rannsókn þinni; allt það, sem ekki er byggt á opinberuninni, og ekki er henni samhljóða, það eru hugmyndir, sem hafa slitið sig frá undirstöðunni, og fara villar vega milli himins og jarðar, og trufla ekki að eins hugann, heldur og lífið; en allt það, sem auðsjáanlega er falið í henni, það er satt, hvort sem þú ert búinn að fá skilning á því eða ekki.

Það er nú títt, að sækjast mest eptir lofi fyrir hinar æðri andlegu gáfur: fróðleik, menntun og fyndni og hyggjuvit, og ekkert þykir mönnum jafnillt, sem ef þeim er borið á brýn, að þeir sjeu fátækir í anda. En nær er andinn fátækari í þessum skilningi, enn þegar hann sjer ekkert æðra, og hefir ekkert háleitara að huggast og gleðjast við, enn það, sem takmarkað vit mannsins skilur, þegar það spottar öll furðuverk og rengir alla leyndardóma? En hversu mikill andlegur auður fylgir þeirri auðmýkt, er þykist ekki geta fyrir fram ákveðið takmörk þekkingarinnar, og viðurkennir, að allt í kring liggi mikil auðæfi, þó hún sje ekki búin að eignast þau fyllilega, og lýkur fyrst augunum upp, til að sjá hvað um sje að vera, en kappkostar síðan að skilja, það sem skilningarvitin eða hugurinn hefir numið, og leitar ætíð og finnur því ætíð! Því sagði Drottinn vor: Sælir eru hinir fátæku í anda, því að þeir geta öðlazt himnaríki (Matth. 5, 3)! Sannarlega eru þeir sælir, sem því trúa, að á himni og jörðu sje eitthvað æðra til, enn það, sem hver heimskinginn getur skilið, og veraldleg hyggja gripið af sjálfsdáðum; að það sje til helgidómur, sem lykst aptur fyrir þeim, er vill troða sjer inn í hann með drambi, til að drottna þar, og laga sannleikann að sínu skapi, en lykst upp fyrir þeim, er þangað leitar með lotning og tilbeiðslu, og þegar hann er inn kominn, birtir æ meir og meir fyrir augum hans; en dauðlegir

menn sjá ekki helgidóminn; nema eins og í gegnum óskírt gler, því jafnvel englarnir fá hann ekki fullskoðað (1. Pjet. 1, 12).

Hversu dýrmæt gjöf er vitið! — án þess væri hvorki hugsun nje mál, án þess væri maðurinn ekki maður, og væri alls ekki í ætt við hina eilífu vizku. En hið endanlega vit getur ekki aðhafst, áður því sje eitthvað fengið, er það geti leitazt við að skilja; það getur ekkert til búið, það megnar ekki annað, enn skoða. Það sem þú átt að fá skilið af jarðneskum hlutum, verða skilningarvitin áður að færa þjer; það sem þú átt að skilja af himneskum hlutum — Ó! það auga, er sjer hið háleita og eilífa, kallaðu það hjarta, eður hugskot, eður skynsemi, kallaðu það hvað sem þú vilt; en eitthvert afl sálarinnar hlýtur að vera til, er skynjar guðlega hluti, áður enn vitið geti farið að hugleiða þá. En hvað sem þú sjer á þenna hátt, hvað sem þjer verður ljóst í tilfinning og meðvitund hjarta þíns, þá hugsa þú um það, því opinberun guðlegra hluta tálmar því á engan hátt, að vjer neytum vitsins; miklu fremur hvetur hún það til að reyna alla orku sína. Sjerhver kristinn maður á að vita, hvers vegna hann trúi, og hverjar ástæður hann hafi fyrir trú sinni, hann á að vita, á hvern hann trúi og hverju hann trúi, og ekkert af þessu gæti hann vitað, ef sjónum vitsins væri aptur lokað. Samt þekkjum vjer að eins á ófullkominn hátt og tölum um hið helga á ófullkominn hátt, og því meira sem vjer skiljum, því fremur langar oss eptir fullkomnari þekkingu, þá er sú þekking, sem ófullkomin er, á að hætta, og vjer eigum að sjá augliti til auglitis (1. Kor. 13, 9. 10. 12.).

Hversu huldir leyndardómar dyljast í öllu, sem er umhverfis oss, og í sálum sjálfra vor! — Þú, sem allir leita og allir horfa upp til, eilífur og almáttugur Guð! manna hendur fá ekki reist það musteri, er þig geti inni byrgt, því himnar himnanna fá ekki rúmað þig (1. Kong. 8, 27,), þó er ekkert það musteri og enginn sá afkimi til, að þú sjert þar ekki og hjarta mitt, svo veikt sem það er, getur einnig gripið þig; þú býr í hæðunum og helgidóminum, en þú býr einnig hjá þeim, sem volaður er og auðmjúkur í anda, til að lífga anda hinna auðmjúku, og til að lífga hjarta hinna voluðu (Es. 57, 15). Ó! laga þú hjarta mitt, svo það fái æ betur

og betur fundið til þín í sjer, og ljúk upp augum vitsins, svo jeg megi þekkja þig og tala um þig, eins og hæfilegt er; leið þú mig frá fullvissu til fullvissu, en varðveittu auðmýkt og fúsan vilja í sálu minni, svo himnaríki lokist ekki fyrir mjer, þá er jeg leita þess, og svo það ljós, er jeg geng í, og sje og tala í, megi vera þín vizka, en ekki sjálfs mín.

---

## 13.

### GUÐ ER ÞRÍEINN.

Þó að Páll postuli komist þannig að orði í brjefinu til hinna hebresku: vjer munum leiða hjá oss að útlista fyrsta grundvöll kristinnar trúar, og halda á fram til þess, sem fullkomnara er, að ekki förum vjer aptur að leggja grundvöllinn til lærdómsins um apturhvarf frá dauðum verkum og um trúna á Guð, og lærdóm skírnarinnar, og handanna uppáleggingu, og upprisu hinna dauðu, og hinn eilífa dóm (Hebr. 6, 1. 2.): þá veit postulinn gjörla, eins og hann hefir sagt rjett á undan, að mönnunum sje þörf á, að þeim sje kennd æ af nýju fyrsta stöfun Guðs orða; að vísu er öllum oss sífelldlega þörf á, að áminna oss á apturhvarf frá dauðum verkum, það er: þeim verkum, er Guðs líf og Guðsandi eru ekki í, til sannrar og lifandi trúar á Guði, er bæði hefir í sjer hlýðni og traust; að minna oss á, að vjer erum kristnir, og hverjar skyldur og hver fyrirheit vjer hlutum í skírninni; og minna oss á, að þessir hinir jarðnesku hlutir, er fram hjá fara, hverfa ekki með öllu niður í eilíft óminnisdjúp, heldur er í vændum upprisa hinna dauðu, bæði hinna rjettlátu og hinna ranglátu. En hversu nauðsynleg sem þessi áminning er, segir postulinn samt, að menn eigi ekki að staðnæmast í sjálfri stöfuninni, heldur sje til í

hinum kristnu fræðum annað fullkomnara, æðra og dýpra, og það beri játendum Krists einnig að nema. Að sönnu eigum vjer ekki að vera skriptlærðir allir saman, og það er ekki gott, að margir gjöri sig að kennendum; en samt á hver kristinn maður að stunda, eptir mætti, rjetta skilningu kristinna fræða. Hversu mjög stunda menn nú að skreyta sig margháttuðum fróðleik — hversu mjög lofa menn sjerhvern, að því skapi, sem honum tekst að kynna sjer fjársjóðu náttúrunnar, listanna, sagnafræðinnar, eður annara veraldlegra vísinda; en guðlegur fróðleikur er þó öllum oss fullt eins náinn; mundi það þá ekki vera loflegt, að staðnæmast eigi við yfirborð hans, heldur leita að ná rjettri og fullkominni þekkingu á honum? Að sönnu veit jeg, og viðurkenni fullkomlega, að líf kristinnar trúar er ekki fólgið í einni saman hugsuninni, heldur verður það að gagntaka manninn allan; að fagnaðarboðskapur Krists fær fyrst á innstu meðvitund vora, og mælir fram með sjer fyrir samvizku vorri; að vjer eigum að geyma leyndardóm trúarinnar í hreinni samvizku (1. Tím. 3, 8.), og þegar einhver týnir hreinleika samvizkunnar, þolir hann skipbrot á trú sinni, eptir því sem postulinn að orði kemst (1. Tím. 1, 19.). En hvernig fá hinar máttugu og heilsusamlegu tilfinningar upp komið, nema ljós þekkingarinn ljómi inn í sálu vora? Og reiðum oss aldrei á einar saman tilfinningarnar; þær líða burt sem reykur, þegar þær vantar skíra og stöðuga og grundvallaða þekkingu að halda sjer við. Jeg veit, að þeir tímar hafa verið, er menn afbökuðu kristilegan sannleika með eintómum orðaleik, og andi hans hvarf, því menn ætluðu sjer að meta smásmuglega hvern staf; enda veit jeg og þá tíma, að bæði stafnum og andanum liggur við að hverfa sakir almennrar fákunnáttu. Fyrst að sá, sem til guðsríkis er menntaður, á að vera líkur þeim húsbónda, er framreiðir úr forðabúri sínu bæði nýtt og gamalt (Matth. 13, 52), þá skulum vjer og hvorki kasta því að óreyndu, sem nýtt er, nje heldur fyrirlíta það, sem gamalt er; því ekki er það lakara, þó það hafi verið til á þeim öldum, sem fyrir löngu eru liðnar, og verið huggun og speki margra framliðinna kynkvísla; vjer skulum ekki hliðra oss hjá þeirri rannsókn, er hlýtur að koma fyrir oss, hvort sem

hugurinn sökkur sjer í djúpið eða hefur sig í hæðirnar; og yfir allt fram skulum vjer ekki fyrirverða oss fyrir fagnaðarboðskapinn Krists.

þegar jeg íhuga með slíku hugarfari hina kristnu kenningu um veru Guðs, þá vakna þær hugmyndir í sálu minni, sem mörgum munu vera ókunnar orðnar; allt í frá barnæsku hljómar þríhljómur í sálu minni, hvert sinn er jeg nálgast hinn æðsta helgidóm með einlægri umhugsun; nú ef það reynist, að þessi þríhljómur hljómi einnig í öllum Krists fagnaðarboðskap, ætti jeg þá að fyrirverða mig fyrir nafn þitt, þríeini Guð! ætti jeg að hræðast skammsýni hinna þóttafullu, og spott heimskingjanna, sem er sjálfum þeim til niðurdreps, en alls ekki hinu heilaga, sem þeir vilja saurga með því; ætti jeg ekki að þora að játa nafn þitt, fyrst fyrir sjálfum mjer, og svo fyrir mönnum? Eður ætti jeg að sneiða mig hjá öllu þessu efni, eins og menn gjöra, þegar spurt er af einberri forvitni? Ó Guð! þú hefir ekki að eins gefið oss vitsmuni til að skoða og íhuga, reyna og prófa með þeim jarðneska hluti, heldur gjörðir þú og sálina svo, að hún skyldi lypta sjer til uppsprettu sinnar, og nálgast guðdóm þinn og eilífa veru þína, slíkt er hún mætti. En huganum er svo hætt við að villast á hinu háa flugi upp til ljóma helgidómsins; leiddu hann þess vegna með opinberun þinni, svo að hann finni þar það sem hann á að þekkja; leiddu hann með Anda þínum, svo að hann skilji það sem þú opinberar, og taki ekki neitt upp hjá sjálfum sjer það er sannleikurinn rangfærist af, nje heldur afneiti því, eður niðurlægi það, sem þú hefir gefið honum að þekkja. Og alla þekkingu, er þú veitir oss, þá lát hana efla oss í guðhræðslu og í sannri og lifandi trú, er veiti krapt til góðra verka, og gefi huggun og von! —

Orðið „þríeinn“ er ekki til í heilagri ritningu, þó hugmyndin sje þar; og fyrir því væri oss óskylt að hafa þetta orð, ef vjer ættum völ á öðru hentugra. En með því vjer eigum ekki völ á öðru jafnstuttu til að nafngreina þenna höfuðlærdóm, er kristindómurinn er á byggður, þá væri ofdirfska, að kasta því orði, sem tíðkað hefir verið í kyrkju vorri upp í svo margar aldir, og sjerhverjum kristnum manni er kunnugt. þegar vjer athugum, hver

að sje sá boðskapur, er allar opinberanir hins gamla testamentis sjeu á byggðar, hver að sje sá höfuðlærdómur, er án hans mundi allt annað, það sem þar er kennt, vera að engu hafanda: þá sjáum vjer skjótt, að það er hinn háleiti lærdómur um einan, sannan, lifanda Guð. Hversu kröptuglega hljómar þar sú kenning í frá hinum fyrstu bókum til hinna síðustu: heyr það, Ísrael! Drottinn vor Guð, Drottinn er einn (5. Mós. 6, 4): jeg er Jehóva, það er mitt nafn, og tign mína vil jeg ekki gefa neinum öðrum (Es. 42, 8); svo segir Jehóva, Konungur Ísraels og Lausnari hans, Jehóva Zebaot: jeg er hinn fyrsti og hinn síðasti, og enginn er Guð nema jeg (Es. 45, 6). Þannig opinberaði hinn eilífi sig frá fyrsta upphafi fyrir þeim skepnum, er hann setti á jörðina til að vera drottnar hennar, og jafnframt að þekkja, óttast og tigna hann, sem er Drottinn allra drottna. Þannig sendi hann spámenn sína að vitna gegn villum Ísraels, svo að einn staður væri til á jörðunni, er sönn guðsþekking yrði geymd, og fengi dreifzt þaðan út á hentugum tíma til allra heiðinna þjóða, hverja tungu sem töluðu. Og er þessi hentugi tími kom, þá tók ljósið að lýsa yfir stærra svið, þá tók þekkingin á hinum eina, sanna Guði, að renna þær brautir, er áður voru dásamlega lagðar af guðlegri fyrirhyggju, og ryðja sjer til rúms í myrkri heiðinnar trúar, allt til þess er ljómaði bjartur dagur hins sigurauðuga fagnaðareyrindis, er Kristur boðaði. Því þó að hann hafnaði þeim lögum og siðvenjum, er einni saman Gyðingaþjóð var boðið að halda, þar til er annað betra fengi upp runnið; þá hafnaði hann engan veginn þeirri kenningu, er aldrei getur breytzt nje ónýtzt, að Guð sje einn, sá er allir hlutir sjeu frá komnir og allir hlutir þiggi viðurhald af.

En þessi hin eilífa og heilaga kenning kemur þó öðru vísi fyrir í Krists fagnaðarboðskap. Því ef vjer leitum þar að því, hver að sje sá höfuðlærdómur, er hann ætlaðist til, að öllum þjóðum skyldi verða boðaður, og hver önnur kristileg kenning er við tengd, svo að án hans væru þær allar saman fánýtar; þá heyrum vjer Drottinn sjálfan segja til votta sinna, þar sem hann boðar sig, svo sem þann, er allt vald sje gefið á himni og á jörðu: Farið því og kennið öllum þjóðum, og skírið þær í nafni Föðurs og

Sonar og heilags Anda (Matth. 28, 19). þetta nafn, er nefna skal yfir sjerhverjum, sem í skírninni er tekinn í Krists söfnuð, hlýtur að vera það helgunar, huggunar og frelsis nafn, er hver kristinn maður á að játa, og allar skyldur og öll fyrirheit fylgja, svo að vjer megum ekki skipta því við neitt annað; og vegna þess hjer eru ekki boðaðir þrír guðir, með því og að lægri verur geta ekki á þann hátt samtengzt hinum eilífa Föður, þá eigum vjer sem kristnir menn að trúa á einn sannan Guð, sem Föður, Son og helgan Anda.

En hitt er örðugra rannsóknar, hvernig til þessarar kenningar, að Guð sje þríeinn, sje þegar bent í bókum gamla testamentisins; enda sakar minna, þó að það dyljist í skólum hinna skriptlærðu; en kenningin sjálf á að hljóma í eyrum allra kristinna manna — eins sannarlega og Krists verðskuldun og áhrif Andans eru ekki guðlegar gjafir, nema hinn eingetni Sonur og hinn heilagi Andi sjeu sameinaðir Föðurnum í einni sannri guðlegri veru; og eins sannarlega og sjerhver kristileg áminning er innilukt í þeirri postullegri blessun, að náð Drottins vors Jesú Krists og kærleiki Guðs og hluttekning heilags Anda skuli vera með öllum oss (2. Kor. 13, 13); og eins sannarlega og vjer, eptir því sem annar postuli að orði kemst, eptir Guðs Föðurs fyrirhyggju erum fyrir helgun Andans kjörnir til að vera hlýðnir Jesú Kristi og hreinsaðir með blóði hans (1. Pjet. 1, 2). Af þessu orsakast, að kyrkjubænir þær, sem allt í frá fornöld og enn í dag eru tíðkaðar á samkomum vorum, enda flestallar á því, að tigna og vegsama hinn eingetna elskulega Son Guðs, sem lifi og ríki með Föðurnum í einingu heilags Anda, einn sannur Guð frá eilífð til eilífðar.

Vjer eigum að tala um þetta, og vjer skulum gjöra það, ekki samt af því, að vjer þykjumst geta rannsakað djúp guðlegrar veru eða náð guðlegum hlutum með mannlegum orðum. Við hvern vilji þjer líkja mjer? segir Drottinn; hverjum vilji þjer samjafna við mig, svo sem væri hann jafningi minn (Es. 46, 52)? Menn hafa reynt að líkja þrenningunni í óskiptilegri veru Guðs við þann hljóm, er verður af þrem röddum; eða við þrjár línur, þær er hver þeirra girðir um alls ekkert, en er þær koma saman, gjörist

af því mynd með föstu eðli og óbreytanlegu, sú er gjöreyðist, ef einhver línan er fránumin; eður við rúmið, er það hefir þrefalda náttúru, breidd, lengd og hæð, og væri þá alls ekkert, ef þetta þrennt færi ekki æ saman, en það getur aldrei orðið viðskila hvað við annað, enda hverfur aldrei saman í eitt. Hjer er Guði líkt við líkamlega hluti og getur það verið til skilningsauka því er vjer hugsum; en þó eru þessir hlutir dauðir, þar sem hinn þríeini Guð er lifandi Guð. Menn hafa og reynt að líkja Guði við sálu vora, sem að sönnu er ein, en kemur ýmislega fyrir sjónir, með því að hugur, tilfinning og vilji spretta upp úr djúpi hennar og eru ætíð samfara, og verða þó vel aðgreind. En hvílíkur munur er þó á sambandi sálaraflanna og því sambandi guðlegrar veru, er þetta er um sagt: að eins og Faðirinn hafi lífið í sjálfum sjer, eins hafi hann og veitt Syninum, að hann hefði lífið í sjálfum sjer (Jóh. 5, 29).

Nú fyrst að samlíkingar vorar geta aldrei náð því, er vjer ætluðumst til, þá tengjum heldur kenninguna við hina upphaflegu og ósjálfráðu hugmynd vora um Guð. Vjer köllum Guð Föður, og þann, er allt faðerni á himni og jörðu sje eptir nefnt (Ef. 3, 15), þann, er föðurnafnið eigi heima hjá sem framast að verða megi, sem er Faðir, Skapari, Veitandi, eins sannarlega og hann er Guð. En hvort var Guð ekki Faðir, eða var hann einn í dýrð sinni, áður enn heimurinn varð? Er hann einungis Faðir hinna endanlegu, er horfa upp til hans úr fjarska og þola ekki sjón dýrðar hans; svo að enginn þeirra fær sjeð hann augliti til auglitis, og enginn kannað djúp veru hans, og enginn skilið óumræðilega ráðstöfun hans? — Í hinni kristilegu trú er sá boðaður, sem nefndur er hinn eingetni, af því hann er sameinaður Guði á æðra hátt, enn nokkur þeirra, sem kallaðir eru guðsbörn, og er sameinaður honum frá eilífð, og er hluttakandi alls veldis hans og allrar vizku hans og dýrðar, svo að þar er oss kennt, að Guð sje Faðir frá eilífð, að, áður enn veröldin var grundvölluð, hafi sá til verið, er nefndur er Frumgetningur allrar skepnu (Kól. 1, 15), af því hann hafi verið til, áður enn farið var að skapa; og að Guð sje frá eilífð opinberaður í þeim, er sje geisli dýrðar hans og ímynd veru

hans, þeim er hann hafi settan erfingja alls, og skapað heiminn fyrir hann, þann er öllu stjórni með sínu kröptuga orði (Hebr. 1, 2. 3); þar er hinum eingetna lýst þannig fyrir oss, að hann sje almáttugt orð Guðs, er Guð hafi eins og birt veru sína með, og unnið með því verk sín öll, og það hafi verið í upphafi, og verið hjá Guði, og verið Guð, og allir hlutir sjeu fyrir það gjörðir, og án þess væri ekkert til orðið, sem til er (Jóh. 1, 1. 3); og hið eilífa ljós hafi í honum skinið, og þess vegna sje hann hið sanna ljós, er upplýsi alla menn (Jóh. 1, 9). Sömuleiðis er í hinni kristilegu trú talað um helgan Anda. Hann kemur frá Föðurnum og Syninum, og í upphafi sköpunarinnar sveimaði hann yfir vötnin, þau er huldu hina auðu og tómu jörð (1. Mós. 1, 2); Guð sendir hann, og þá skapast, og mynd jarðarinnar endurnýjast (Sálm. 104, 30); — hann rannsakar allt, og svo Guðs leyndarráð (1. Kor. 2, 10); hann var í spámönnunum, og vísaði þeim á hina ókomnu tíma, þegar eilífu ráði Guðs ætti að verða framgengt (1. Pjet. 1, 11); hann býr enn í oss (1. Kor. 3, 16), gefur oss alls konar ástgjafir, og úthlutar hverjum einum eptir sinni vild (1. Kor. 12, 4. 11).

Vjer tölum hjer ekki um veru hins þríeina Guðs með orðum sjálfra vor, heldur þeim orðum, sem fyrir löngu eru rituð í þá ritning, er vjer köllum helga, af því vjer eigum að lúta henni, með því hún er yfir oss, en vjer ekki yfir henni. Og það sem ritningin kennir, megum vjer aldreigi dirfast að kalla ónýtt og einskisvert, því það á og hjer við, að opinberun Andans er æ gefin oss til nota (1. Kor. 12, 7). En sjerhverja kenning ritningarinnar, svo og einnig þessa, hversu leyndardómsfull og órannsakanleg sem hún er, þá eigum vjer að leiða hana inn í hugskot vort, inn í samvizku vora, inn í hjarta vort, og athuga síðan, hvort henni sje þar ofaukið, hvort hún megi missa sig, hvort vjer getum sleppt henni, og þó allt að einu kallað oss kristna.

Kristna köllum vjer oss, af því vjer álítum Jesúm Krist vera þann aðalhyrningarstein, er öll trú vor sje á byggð, af því vjer viðurkennum, að af engum öðrum sje hjálpræðis að vænta, því ekkert annað nafn sje mönnunum gefið, undir himninum, er oss megi frelsa (Post. 4, 11. 12) — af því vjer viðurkennum, að Guð

hefir gefið honum það nafn, sem æðra er öllum nöfnum, svo að fyrir Jesú nafni skulu allir beygja knje sín, hvort sem eru á himni eða jörðu eða undir jörðunni (Filipp. 2, 9. 10). En hvað hefðum vjer fyrir oss í því, að auðsýna honum þessa lotningu — hvað hefðum vjer fyrir oss í því, að heiðra Soninn eins og Föðurinn (Jóh. 5, 23), ef hann væri vor jafningi, guðsbarn á sama hátt, og sjerhver af oss á að vera, og enda þó hann væri langt fyrir ofan oss mennina, en væri þó sköpuð skepna, og væri hann ekki æðri öllum hlutum og fyrri öllum hlutum og viðurhaldari allra hluta, og væri það ekki vilji Föðursins, að öll fylling skyldi í honum búa (Kól. 1, 17. 19), og væri hann ekki kraptur Guðs og speki (1. Kor. 1, 24), og ætti hann ekki allt, sem Faðirinn á (Jóh. 16, 15)? þá fremdum vjer að vísu afguðadýrkun, er vjer beygjum knje vor fyrir Jesú, því vjer eigum að tigna Guð, Drottinn vorn, og dýrka hann einan (Matth. 4, 10).

Sje þjer, maður! alvara að kalla þig kristinn, og hafirðu satt að mæla, er þú kallar þig svo, þá kemur það til af því, að þú þekkir engan, er þú getir aðhyllzt, nema Jesúm Krist, því hann hefir orð hins eilífa lífs (Jóh. 6, 68); þú kallar hann því Meistara og Fræðara, og kannast við, að Kristur einn sje leiðtogi vor, en vjer allir sjeum bræður (Matth. 23, 8). En hvað hefirðu fyrir þjer í því, að meta hann einan meir enn alla aðra, láta leiðast af orðum hans eins og af Guðs orðum, láta hann aptra þínum hverfulu hugrenningum, og þora ekki að brjóta þau lög, er hann hefir sett þjer — hvað hefirðu fyrir þjer í þessu, nema ef hann er þannig sameinaður Föðurnum, að hann er jafnfrjáls af alls konar villu, sem af alls konar synd, og nema þau orð, er vjer heyrum, sjeu ekki hans orð, sem manns heldur Föðursins, er sendi hann (Jóh. 14, 24)? Hvaðan hefir þú fengið þá sannfæringu, að hann sje vegurinn, sannleikinn og lífið (Jóh. 14, 16), ef þú trúir ekki, að enginn þekki Föðurinn nema Sonurinn, og sá, er Sonurinn vill opinbera það (Matth. 11, 27)? — þú kallar Jesúm Frelsara, og því var hann og svo kallaður, að hann átti að frelsa lýð sinn af syndum hans (Matth. 1, 21); þú segir, svo framarlega sem þú ert kristinn, að hann sje friðþæging synda vorra, og þó ekki að eins vorra synda,

heldur allrar veraldarinnar (1. Jóh. 2, 2); þú nefnir nafn hans fyrir hinum iðrunarfulla, fyrir þeim er andvarpar: Guð, vertu mjer syndugum líknsamur! og enga fórn hefir að færa Guði, nema sundurkramið hjarta. En hefði Jesús verið fæddur í syndinni, hefði hann ekki vald til að dæma lifendur og dauða, hvernig mátti hann þá segja til hins auma: vertu hughraustur, syndir þínar eru þjer fyrirgefnar? þá hafa þeir haft rjett að mæla, er sögðu: því talar hann þvílíka guðlöstun? hver kann að fyrirgefa syndirnar, nema Guð einn (Mark. 2, 7)? — þú kallar Jesúm Frelsara, af því þú trúir einnig, að hann bæði vilji og megi leysa oss frá öllu illu, frelsa oss frá öllum vorum óvinum, og sigra hinn síðasta óvin, sem er dauðinn, svo að hver sem trúir á Krist lifi þó hann deyi (Jóh. 11, 25). Hvernig mátti hann koma því til vegar, að frelsa oss, ef honum væri ekki gefið allt vald á himni og jörðu (Matth. 28, 18), ef hann hefði ekki þann krapt, er hann leggur allt undir sig með (Filipp. 3, 21)? Hvernig gat hann með sanni sagt um þá, er hlýða röddu hans og fylgja honum, að hann gefi þeim eilíft líf, og að þeir skuli ekki glatast, og að enginn skuli slíta þá úr hendi honum, nema hann gæti einnig með sanni sagt: Jeg og Faðirinn, við erum eitt (Jóh. 10, 28. 30)?

En sú lausn, er Kristur afrekaði oss, er ekki að eins þar í fólgin, að hann ljetti af oss hegningu syndarinnar, heldur ljettir hann af oss syndinni sjálfri, leysir oss af alls konar órjettlæti, og hreinsaði sjer sjálfum fólk til eignar, það er kostgæfið væri til góðra verka (Tít. 2, 14). Ef jeg kalla Krist Drottin og Frelsara minn, þá á jeg að láta af alls konar órjettlæti (2. Tím. 2, 19), þá á jeg að glæða sjerhverja ástgjöf, sem í mjer er, og ganga fram í krapti og kærleika og stillingu, en ekki í ómennsku. Get jeg það af sjálfsdáðum? Viljann til hins góða hefi jeg að sönnu, en ekki krapt til að framkvæma það (Rómv. 7, 18); jeg ræð ekki einn saman athöfnum mínum, það eru til máttugir andar, sem reka mig, og vilja ná valdi yfir mjer eins og öðrum, — andi villunnar og lyginnar, andi órjettvísinnar og ágirndarinnar og hjegómagirndarinnar og annara vondra girnda, andi vantrúarinnar og blindleikans og örvæntingarinnar — er jeg styrkari, enn þeir, er fallið hafa?

Ó! því að eins öðlumst vjer mátt til að stríða, ekki einungis við hold og blóð, heldur við alla vonda anda undir himninum, að til er heilagur Andi sannleiks og huggunar, sem gengur út af Föðurnum og vitjar þeirra, er þess beiðast — bæði þegar Guð sendir í hjörtu vor síns Sonar anda, sem kennir oss að kalla Guð rjettilega Föður (Gal. 4, 6), og gjörir Krist dýrðlegan í oss, með því hann ber honum vitni, og tekur af hans eign til að auglýsa oss (Jóh. 16, 14); svo og þegar Guð lífgar einnig dauðlega líkami vora fyrir Anda sinn, er í oss býr (Rómv. 8, 11). Hver hefir fundið í sjer hið æðra, hið eilífa líf, og fundið sálu sína fyllast af háleitri tilhugsun þess, er þróast meðan tímarnir líða, og stendur stöðugt, þó annað eyðist, tilhugsun þeirrar stjórnar, er nær yfir himin og jörð, og hamingju og óhamingju allra manna, eins hinna lítilmótlegustu; hver hefir fundið hjarta sitt fyllast af hreinu og öflugu áformi, annaðhvort að hirða ekki um sinn hag, eður vera stöðugur í einhverju góðu verki; hver hefir fundið hjarta sitt vera sælt í elsku Guðs og manna, og þó ekki jafnframt fundið og viðurkennt í huga sínum, að öll þessi fylling er ekki sprottin af holdi og blóði — að áhugi og viðleitni sjálfs hans megna í mesta lagi að búa henni stað, en að allt þetta gefur oss Guðsandi, hinn eini sami Andi, er úthlutar hverjum einum eptir vild sinni (1. Kor. 12, 11), og gefur mönnunum alla góða tíma og allar góðar gjafir, og safnar þeim með því í einn söfnuð, þann er tekur guðlegan þroska (Kól. 2, 19), þrátt fyrir alla tálmun og truflun.

Munur er á ástgjöfum, en Andinn er samur; munur er á embættum, en Herrann er samur; munur er á framkvæmdum, en Guð er samur, sá er framkvæmir allt í öllum (1. Kor. 12, 4. 5. 6). Og svo er um það, að þó vjer sjáum þann mun á lífi guðlegrar veru, að Sonurinn er getinn af Föðurnum frá eilífð, og helgur Andi gengur út frá Föður og Syni, þá eru þeir samt ekki aðgreindir; Guð er samt hinn eini og sami, Höfundur allra hluta, Skapari vor, Lausnari vor, Helgari vor. Víst getur ekki mannlegur hugur skilið dýrð hins þríeina Guðs, og mannleg ræða fær ekki lýst henni; þó getum vjer hjer í duptinu, ef vjer hlýðum guðrækilega til, heyrt hið þrefalda, helga orð, er spámaðurinn, þá er hann var frá sjer num-

inn, heyrði forðum hljóma gegnum himnana: Heilagur, heilagur, heilagur er Drottinn Zebaot; öll jörðin er full af hans dýrð (Es. 6, 3)!

---

# 14.

## SKÖPUN HEIMSINS.

Þegar vjer grandgæfilega skoðum veröldu þessa, bæði hina ytri, sem er umhverfis oss, og hina innri, það er þá veröldu, sem Guð hefir lagt í hjarta mannsins (Prjed. 3, 11., eptir því sem sumir þýða það), þá verðum vjer þess varir, að hún er öll tvöfaldrar náttúru. Alstaðar sjáum vjer dýrð, óskiljanlega og guðlega, því Guð setti merki sitt á allt sem til er, hann ljet bæði alheim og einstaka hluti bera sjer vitni, og allt gerði hann viturlega. En vjer sjáum og að dýrð þessi er alstaðar dofnuð, vjer sjáum og harla margt í veröldinni, sem vjer hljótum að kalla illt, og af því fær hver skepna sinn hluta, eins og af gæðum lífsins. Guð skapaði manninn eptir sinni mynd, og gjörði hann líkan sjer; hver getur til fullnustu lofað tign mannsins, er Guð setti hann að eins skör lægra enn englana, og krýndi hann sóma og vegsemd (Sálm. 8, 6)? En hver getur og til fullnustu skýrt frá eymd mannsins? því þótt hann sje herra jarðarinnar, undra fagur að ásýndum líkamans, og gæddur háleitum sálargáfum, þá er hann þó háður hjegómanum, og haldinn í ánauð veikleikans, og ber byrði sína — margar byrðir, sem líkaminn þjáist undir, og sálin andvarpar undir, þreyjandi eptir lausninni. Lítum vjer í kringum oss, sjáum vjer alstaðar hluttakendur í þjáningum vorum, því öll skepna andvarpar í sameiningu og þjáist saman í þungri eymd allt til þessa dags, eins og postulinn að orði kemst (Rómv. 8, 22).

S k e p n a er orð, sem vjer nefnum opt; vjer nefnum það

jafnvel svo opt, að vjer optast nær hugsum lítið, þá er vjer nefnum það, og er það þó harla mikillar þýðingar og einkar merkilegt orð. það innibindur í sjer allar verur, eins hinar æðstu og hinar lægstu, nema eina, veruna yfir öllum verum, hina ósköpuðu; og lýsir því, að ekkert, sem það er um haft, hafi upptök sín í sjálfu sjer, eða sje, slíkt sem það er, af sjálfu sjer. Sjerhver skepna á tilveru sína að þakka Skapara sínum, sjerhver hefir af honum þegið öll öfl líkama og sálar — þess vegna köllum vjer það allt af Guði gefið. Og þó að þær skepnur, sem fengu frjálsræði, ynni sjálfar til þess, er leiðir af gjörðum þeirra, kemur það þó fram við þær eptir Guðs ráðstöfun, en ekki sjálfra þeirra.

Hugmyndir þessar eru svo mikilvægar, að oss ríður á, að halda oss fast við þær. Frá hinu nálæga viljum vjer hefja huga vorn til hins undanfarna, og til upphafs allra hluta; vjer nálgumst þar mikla leyndardóma, er vjer búumst ekki við að geta ráðið, en höfum þó nokkra vitneskju um, með því opinberunin leysir þar úr margri spurning, er fram er borin af mannlegu viti. Hvað kennir þá kristin trú oss um sköpun heimsins?

Hið nálæga getur ekki fullnægt manninum; hann leitar frjetta af ókomna tímanum, og spyr hvað í vændum sje; en kristin trú stjórnar þá huga hans, og varar hann við, að hafa óttann í ferð með sjer, svo hann kenni honum ekki, að pína sig með áhyggju fyrir armæðu þeirri, er morgundagurinn eður aðrir ókomnir ókunnir dagar muni færa honum, en ræður honum að glæða hjá sjer vonina, og halda sjer fast við hana: einnig þá hina blíðu og saklausu von, er með ótal smáloforðum huggar oss í þrautunum; en um fram allt þá hina miklu von, sem væntir útvalningarinnar, væntir lausnar, til Guðs barna dýrðlega frelsis, og heitir því, að allar þjáningar þessara tíma sjeu ekkert í samanburði við dýrð þá, er við oss mun opinber verða (Rómv. 8, 18. 23); maðurinn spyr og hinn liðna tímann, hann girnist að heyra sögur af því, er fyrrum hefir gjörzt í veröldinni — og þegar hann hefir engar sögur fyrir sjer, les hann sig á fram með ályktunum, frá hinu nálæga og fram eptir öldum, alltaf lengra og lengra, þangað til hann er kominn að upp-

hafinu, og þar truflast að sönnu hugmyndir hans, en þó getur hann ekki látið af að spyrja.

Oss er ekki unnt, að komast hjá að hugsa um upphaf, hvað torvelt sem oss veitir að öðlast skírar hugmyndir um það; röð viðburðanna, sem liðin er, getur ekki verið án upphafs, heldur hlýtur einhver af þeim að hafa verið fyrstur. Enda þeir menn, sem eins og af ásettu ráði halda sjer við almennar hugmyndir, og þykjast hvergi sjá annað enn það, er menn kalla eðlilega rás hlutanna, þegar þeir segja, að öld eptir öld gangi allt eptir lögum náttúrunnar, verða þeir þó að bæta þessu við: „eins og frá upphafi veraldar“ (2. Pjet. 3, 4); þeir þoka alltaf upphafinu lengra og lengra fram, en það stoðar þá ekkert, því hugurinn leitar samt að upphafi. Allt sem nú er til, hefir að sönnu orðið til á eðlilegan hátt. Það korn, er menn sá nú, er komið af korninu, sem sáð var í fyrra, og það korn aptur af korninu, sem sáð var í hitt hið fyrra, og svo framvegis. Það trje, sem nú er í blóma, hefir einu sinni sprottið upp af dálitlu frækorni, er stormur sleit á hausttíma af gömlu trje af samri tegund, sem nú er horfið; og svo fram eptir öllum öldum. En einu sinni hefir þó verið það ár, þá engu sáðkorni frá fyrra árinu hefir verið sáð yfir akrana. Hvernin fjekk jörðin, á þessu fyrsta ári hennar, ávöxtu sína? Einu sinni hefir hið fyrsta trje vaxið, sem engin mannahönd hafði gróðursett, og ekki var sprottið af neinu frækorni sinnar tegundar, því ekkert trje var til áður, að bera fræ. Hvernin varð það trje til? Þær kynkvíslir hinna lifendu, sem nú fylla upp jörðina, hafa fengið líf sitt af kynkvíslum, sem áður voru til, og þannig rekur hugurinn á fram hina afar löngu ætt, en verður þó að hætta um síðir. Einu sinni hefir hinn fyrsti fugl sungið undir himninum, og einu sinni hefir hið fyrsta stórhveli kafað í öldunum, einu sinni hefir hinn fyrsti maður birzt, sem átti að drottna yfir öllum villidýrunum á jörðunni og öllum fuglum undir himninum, og öllum fjölda sjódýranna. Þessi hinn fyrsti maður átti sjer hvorki föður nje móður; hann var ekki gjörður í smiðjum náttúrunnar — en með hverjum hætti varð hann þá til? Það getur ekki hafa verið með nokkrum þeim hætti, er vjer nú köllum eðlilegan, því þá

byrjaði fyrst eðlileg rás hlutanna, og vjer finnum, að hjer erum vjer að minnsta kosti komnir að takmörkum náttúrunnar, og að því sem henni er æðra.

Mannlegt vit finnur nú líka svar upp á þessa rannsókn sína í guðlegri opinberun. Fyrir trúna skiljum vjer, að veröldin er orðin til af orði Guðs, á þann hátt, að þeir hlutir sem sjást eru orðnir til af þeim, sem ekki sáust (Hebr. 11, 3). Um þetta segir heilög ritning oss í fyrstu línu: Í upphafi skapaði Guð himin og jörð (1. Mós. 1, 1). Öll kristileg þekking byrjar líka á því, að kannast við, að allir hlutir hafi upptök sín frá Guði, að þeir sjeu skapaðir af orði hans og almætti. Því er eins og áður er sagt, orðið „skepna“ svo yfirgripsmikið. Lítum vjer yfir hersveitir himnanna, ímyndum vjer oss alla hnetti, sem snúast ásamt þeim hnetti, er vjer búum á, kringum vora sól, og alla hnetti, er snúast í kringum aðrar sólir, og allar sólir, er snúast í kringum sól allra sóla, þá er það allt saman skepna. Og rennum vjer augum til einstakra hluta, til ormanna í duptinu, til blómanna á jörðunni, til gimsteinanna í fylgsknum klettanna, þá er það allt saman skepna; þannig kallar maðurinn sjálfan sig, og þannig mun og höfuðengillinn frammi fyrir hásæti Drottins kalla sig; því vjer eigum allir að minnast þess, að allt líf og öll tilvera er sprottin af Guði, að Skaparinn er einn, og allt annað, að engu fráteknu, er skapað af honum.

Hjer nefnum vjer að eins hinar háleitu hugmyndir um þann, sem er getinn af Föðurnum frá eilífð, en er þó ekki skapaður, sem kallaður er það orð, er var í upphafi hjá Guði og var Guð, og allir hlutir eru af orðnir (Jóh. 1, 1); þann er Guð hefir settan erfingja alls og skapað heiminn fyrir hann (Hebr. 1, 2), þann er líka hefir endurleyst heiminn. Vjer nefnum að eins hinar háleitu hugmyndir um Anda Guðs, sem sveimaði yfir vötnunum, meðan jörðin var auð og tóm, og myrkur var yfir djúpunum (1. Mós. 1, 2), hinn sama, er enn í dag sveimar yfir ókyrrleik tímanna og fullkomnar hina nýju sköpun. Ritningin eignar hinum þríeina Guði sköpun veraldarinnar. En vjer viljum ekki hjer leitast við að útlista þessar háleitu hugmyndir. Ekki ætlum vjer heldur að skýra

frá, hvernig Guð ljet himinn og jörð og allar hersveitir þeirra smám saman myndast úr hinu óskipulega frumefni. Á sex dögum skapaði Guð himininn og jörðina og hafið og allt það sem í þeim er (2. Mós. 20, 11). Þú getur mælt þessa daga, eins og þú vilt, á stuttan eða langan mælikvarða. Eitt augabragð er ekki of stutt handa þeim, sem í upphafi skóp alla hluti með eintómu boði sínu, og eflaust hefir á elztu tímum heimsins gjört marga ummyndun í einu vetfangi, eins og hann optlega hefir síðan gjört, og eins og hann á hinum síðustu tímum mun gjöra hina miklu ummyndun (1. Kor. 15, 52). En þykist þú í lögun jarðarinnar, þeirri sem nú er, finna merki langvinnra umbyltinga, þá láttu það ekki vera þjer til ásteytingar, því orðið „dagur“ getur líka merkt langt tímabil; einn dagur er hjá Drottni sem þúsund ár, og þúsund ár sem einn dagur (2. Pjet. 3, 8). Hvernig ættum vjer að geta mælt dagana, meðan ljósin voru ekki til á himinhvolfinu, til að gera mun á deginum og nóttinni, meðan sólin stóð ekki þar, sem hún stendur nú, til að drottna yfir dögum jarðarinnar (1. Mós. 1, 14. 16)? Fjöll hrærðust ákaflega og hófust upp, en dalir sigu niður, jörðin bærðist í innýflum sínum, hafið gekk upp á löndin, og fjell út aptur, þoka og myrkvi hjúpuðu jörðina og dreifðust aptur, þangað til hinn sjöundi dagur rann, hið sjöunda af hinum sjö ákvörðuðu tímabilum, þá var regla komin á rás hlutanna, þá varð ró og kyrrð; „Guð hvíldist eptir verk sín.“

Um þetta efni látum vjer þá segja meira, sem rannsaka lögun náttúrunnar, en það, sem einkum og sjer í lagi verðskuldar vora eptirtekt, eru þessi hin mikilvægu orð, sem frásagan um sköpunina endar með: „Guð leit allt er hann hafði gjört, og sjá, það var harla gott“ (1. Mós. 1, 14, 16). Og hvernig gat það öðru vísi verið, þar sem það kom frá hinum almáttuga, alvitra og algóða Skapara? Og samt sem áður, þegar vjer nú lítum yfir jörðina, og dæmum um hana, jafnvel eptir þeirri hugmynd um hið góða, sem vor takmarkaði hugur getur gjört sjer um það, hvernin getum vjer þá sagt, að allt sje nú harla gott? Æ! það er ekki gott, að öll skepnan andvarpar í sameiningu, og þjáist saman í þungri eymd; það er ekki gott, að jafnvel þeir, sem hafa

frumgróða andans, andvarpa hljóðlega undir ánauð dauðlegleikans. Jeg vil ekki leitast við, að telja upp allan þann eymdafjölda, sem mætir börnum mannanna á hinum erfiða vegi frá vöggunni til grafarinnar; en þegar verkið, er þeir með glöðu geði áttu að vinna opt og tíðum er fyrir þá þung og árangurslaus armæða, sem eyðir andanum, í stað þess að auka hann og hressa; þegar þessi andi mannsins — hinn háleiti ódauðlegi andi — verður að þrælka einungis fyrir nauðsynjum líkamans, verður að berjast við hungur og sjúkleik; þegar dauðinn, með langvinnum pínandi þjáningum eyðir afli líkama og sálar, eða þegar hann kemur snögglega, og slítur með grimmd þá sem elskast hvern frá öðrum — það hlýtur allt að vera gott, eins og hegningar Drottins ætíð eru fyrir þá, sem auðmýkja sig undir hans volduga hönd, og láta sjer snúa frá villunni; og hver maður, sem verður fyrir þessu, hann lúti Guði, en þrjózkist hvorki nje láti hugfallast, því hvern sem Drottinn elskar, þann tiptar hann (Hebr., 12, 6); en jeg get ekki trúað því, að kjör mannsins hafi verið þannig, þegar Guð skapaði hann eptir mynd sinni, jeg get ekki trúað því, að þetta hefði verið mönnunum ætlað, hefðu þeir haldið á fram að vera börn Guðs. En haldi nokkur, að allt þetta sje gott, þegar litið er á samband þess við alla aðra hluti, og afleiðingar þess á endanum, að mannkynið geti einungis við þjáningar þessar undirbúizt til dýrðar þeirrar, sem við það mun opinber verða: þá aðgæti hann, að sú ánauð dauðlegleikans, sem andi mannsins andvarpar í, er ekki barátta við eintóma líkamlega eymd. Nei! það eru til hörmungar, sárri og þyngri, sem niðurlækka meir og eyða meir, enn hungur og sjúkleiki og líkamlegur dauði. Því það, að andinn hefir háð sig holdlegleikanum, og gjört veröldina og girndir hennar að hinu æðsta, en fyrirlitið ríki Guðs og rjettlæti, að þessi hin rangsnúna og spillta tilhneiging nú finnst hjá manninum, undir eins og eðli hans gjörir vart við sig; að sjálfur andi mannsins er eins og hann væri fæddur í synd og getinn í ranglæti, að hann hefir beitt drambi gegn Guði og mönnum, að hann hefir gjörzt þóttafullur, að hann öfundar og hatar, að hans sanna líf og ljós er þannig slokknað, eður að minnsta kosti dapurt orðið: það er það sem í raun og veru er illt, og hið

illa er aldrei gott. Og þess vegna — Nei! þannig er maðurinn ekki kominn frá hendi Skapara síns.

Að vísu eru nokkrir til, sem líta til þjóða þeirra, er vjer með öllum rjetti köllum villiþjóðir — því sannarlega hafa þær villzt af götu sannleikans og rjettindanna — og þegar þeir þá líta þar manninn í sinni mestu niðurlæging, svo fátt er mannlegt eptir á honum, nema myndin og málið, þá segja þeir: þarna má sjá manninn eins og honum er eðlilegt að vera, og eins og hann var í öndverðu! af slíkum rótum er öll dýrð hins mannlega lífs sprottin! En ætti jeg að trúa því, að þetta, sem einmitt er úrættað, sje hið upprunalega, þá yrði jeg líka að trúa því, að lífið geti sprottið upp af dauðanum og hið illa sje rót hins góða. Ef þetta niðurdrep í alls konar smán væri hið upphaflega ástand mannkynsins, þá gæti jeg ekki trúað því, að veröldin sje orðin til af völdum hins heilaga og rjettláta; þá gæti jeg aldrei framar rennt augum mínum til himins og sagt: hjer að ofan koma góðar og fullkomnar gjafir.

Bera ekki allar sögur vitni um annað betra sakleysisástand, sem hafi verið hið upphaflega ástand mannkynsins? Finnast ekki snemma á öldum merki máttar og þekkingar, er margsinnis hafa skarað fram úr mætti og þekking langt um seinni alda. Ber ekki allt ástand þess mannkyns, sem nú er uppi, vitni um glataða dýrð, sem það er að berjast við að ná aptur? Engin þjóð er svo fáráð, að hún ekki hafi einhverjar menjar þess, er ekki geti verið fundið upp af svo spilltri og úrættaðri kynslóð. Því ef þessir menn, sem niðurlægðir eru móts við dýrin, eða niður fyrir þau, hafa búið til handa sjer í slíku ástandi mannlegt mál, þá er það óskiljanlegt, hvers vegna þeir hafi numið staðar við þessa hina miklu og örðugu uppgötvun og ekki tekið miklu meiri framförum. Ef þeir af sjálfsdáðum hafa búið sjer til hugmyndina um guðlega stjórnendur, hafa numið af sjálfum sjer að reisa ölturu, og að færa guðunum fórnir, þá skil jeg ekki, hvers vegna þeir hafa allir logið upp falsguðum, og búið sjer til ranga og grimmdarfulla guðsþjónustu, úr því hin sanna hlaut að liggja öllu beinna við fyrir þá. En allt eðli þeirra ber vitni um eitthvað gott, er búið hafi í þeim í öndverðu, en nú

er orðið skemmt og aflagað við langvinna spillingu. Þeir snjeru, segir postulinn, dýrð hins ódauðlega Guðs í líkneski dauðlegra hluta, og göfguðu og dýrkuðu skepnuna meir enn Skaparann, þess vegna hefir Guð ofurselt þá ónýtum hug, og svívirðlegum girndum, svo að þeir slepptu allri eðlilegri hegðun (Rómv. 1, 23. 25. 26. 28).

En í öndverðu var það ekki þannig (Matth. 19, 8). Að sönnu var ekki hið upphaflega ástand mannsins fullkomið, því hinn endanlegi er ekki hinn óendanlegi, en því var greidd gata, til að geta orðið það. Maðurinn bjó í aldingarðinum Eden, en það þurfti þó að yrkja hann og verja, ef ávaxtarsemi hans ætti sífellt að aukast. Sál mannsins gat tekið móti alls konar þekking, en það varð samt að útvega, auka og efla þekkinguna. Hjarta mannsins gat tekið mót öllum góðum tilfinningum, þó var það ekki orðið svo stöðugt, að ekki mætti tæla það og skemma. Maðurinn var, enn sem komið var, frjáls, eins og engillin yfir honum; báðir höfðu um tvær leiðir að velja; önnur lá upp eptir, til samvistar við eilífan Guð, önnur lá niður í ánauð veikleikans, langt niður í djúp spillingarinnar. En þá var ekki spillingin komin enn; hver vera var góð eptir sinni tegund. „Guð leit allt er hann hafði gjört, og sjá; það var harla gott.“

Sjerhver kristileg trúarfræði, sem vítar syndina og sýnir, að hún leiði mennina til glötunar, segir frá, hvernig síðan hafi farið. En sjerhver þess háttar trúarfræði kallar líka til mannanna, að þeir snúi aptur og endurnýist eptir mynd hans, sem skapaði þá; sjerhver þess háttar trúarfræði boðar líka endurlausn þá, er Guð bjó þeim, er þjáðust í ánauð veikleikans. Því hversu mjög, sem spillingin er orðin skepnum Guðs innrætt, þá er samt ekki tilgangur sköpunarinnar orðinn að engu. Öll skepna er orðin til af guðlegum kærleika. Af því Guð er kærleikur, og hefir án afláts góðar gjafir að gefa, skapaði hann veröldina, og fyllti hana lifandi verum, sem geta fundið til miskunar hans. Hann skóp manninn til meiri sælu enn þeirrar, er dýrin taka þátt í með honum; hann skóp hann til þeirrar sælu, að geta með frjálsræði viðurkennt Guð, og gefizt á vald hans og orðið æ fullkomnari undir föðurlegri vegleiðslu hans, í rjettlæti og kærleika. Frjálsræði mannsins leitaði sjer annars

takmarks, og aflagaði það, er Guð hafði skapað, en gat samt ekki breytt vilja Guðs, nje ónýtt elsku hans. Þó að skepnan sje hjegómanum háð, hljóta samt enn allir kraptar að efla ráð Guðs, hvort sem þeim er ljúft eða leitt; enn þá snýr Andi Guðs hinum villta aptur, leiðir hinn hrösula, styrkir hinn veika, safnar öllum Guðs börnum betur og betur saman í einn söfnuð, sveimar yfir ókyrrleik tímans, skipar og lagar. Og þannig á úr þessari hinni fjötruðu og þjáðu skepnu að verða önnur ný í fyllingu tímans; nýir himnar eiga að koma og ný jörð, þar rjettlætið býr (2. Pjet. 3, 13), og Guð er allt í öllu (1. Kor. 15, 28). Til þessa skapaði Guð heiminn.

---

## 15.

### GUÐLEG STJÓRN OG VIÐURHALD.

Hver er meining vor, er vjer segjumst trúa? Í daglegu máli er þetta orð optast nær viðhaft, þá er menn vilja lýsa því yfir, að þeir haldi eitthvað sje, en hafi ónógar sönnur fyrir því, svo þeir áræði ekki, að segjast vita það. Sjerhver maður finnur samt, að hann raunar fer ranglega með orðið, að trúa, er hann lætur það merkja þetta; því ef vjer spyrjum einhvern, hvort hann trúi því þá í raun og veru, er hann segist trúa á þenna hátt, mun hann án efa ekki bera á móti því, að hann vanti hið fullkomna samþykki sálar sinnar og hina staðföstu hvíld í viðurkenndum sannindum, er hann finnur berlega að viðþarf, þar sem orðið trú á að geta orðið viðhaft, með öllu afli þýðingar sinnar. Þetta þýðir það alstaðar í heilagri ritningu, þar er það hvergi sama sem ástæðulítill grunur eður efasemi og reikun, heldur er trúin þar ætíð örugg eptirvænting þess er menn vona, og óbifanleg sannfæring um það, sem þeir sjá ekki (Hebr. 11, 1). Því ekki er kallað menn trúi þeim hlutum, er þeir sjá. Þú sjer, að sólin gengur á himn-

inum í fegurð sinni, þú verður þess var með skilningarvitunum, að ylur hennar leiðir fram grös og blóm úr skauti jarðarinnar: en þú trúir því, er þú fær ekki sjeð, að það sje máttur Guðs, er kveikt hafi loga sólarinnar og leiði hana á hinum bjarta himinvegi, að miskunsemi Guðs hafi hana sem verkfæri í hendi sjer, til að skrýða jörðina fögrum skrúða og fylla hana ávöxtum. Þú sjer hvað þjer mætir í heiminum og kallar það sumt blítt og sumt strítt, eptir því sem skilningarvitum þínum finnst það vera; en þú trúir, að ósýnileg hönd sje til, er leiði alla þræði æfi þinnar, hversu undarlega sem þeir liggja, þú trúir því, þó ekki fáir þú það ætíð sjeð, að allt verði þeim til góðs, sem elska Guð (Rómv. 8, 28). Einmitt af því trúin snertir ósýnilega og himneska hluti, er hún að eins tómur grunur og efasöm hugsun öllum hinum mikla fjölda, er lyptir ekki huga sínum yfir hið jarðneska; og einmitt af því þær einar sálir, sem batnað hafa og tekið framförum, geta hafið sig upp til trúarinnar, til hinnar óbifanlegu sannfæringar um það, sem ekki verður sjeð, einmitt af því heimtar Kristur trúna, til þess hann skuli birta oss dýrð sína.

Án trúar getur enginn verið Guði þægur; því sá sem vill koma fram fyrir Guð, verður að trúa því, að Guð sje til og umbuni þeim, er leita hans (Hebr. 11, 6). Þá trú, sem lýst er í þessum orðum, mættum vjer kalla hina almennari trú, til aðgreiningar frá þeirri trú, er einkalærdómar hins kristilega fagnaðarboðskaps tendra og heimta; það er þá trú, að syndugir menn vænta sjer náðar Guðs og líknsemi fyrir Krist. Þessi einkatrú kristinna manna er þar að eins, sem hin almennari trú er fyrir, hún styðst við hana og gjörir hana fullkomnari; því opinberun Guðs í Kristi er það, sem styrkir til hlítar sannfæring vora um að Guð sje til og taki að sjer mennina; og enginn sá maður, er þekkir sjálfan sig rjettilega, dirfist að vænta umbunar af Guði, nema því að eins, hann kannist við miskun hans. En látum oss nú staðnæmast við sannindi hinnar almennu trúar, og spyrja sjálfa oss: hvað vjer getum vitað um afskipti Guðs af veröldinni og þeim hlutum, sem eru og framfara í henni. Vjer ætlum ekki í þessum vorum hugleiðingum að fara út fyrir takmörk þau, sem

manninum eru sett, vjer ætlumst ekki til, að geta gagnskoðað alla leyndardóma, heldur ætlum vjer að minnast á það, er snertir sjerhvern mann, er sjerhvert hjarta getur fundið til og sjerhvert vit fær íhugað; vjer ætlum að minnast á þá þekkingu, er vjer megum ekki án vera, eigi líf vort ekki að vera án staðfestu og reglu, og vonar og huggunar.

Hið fyrsta orð, er sýnir oss afskipti Guðs af veröldinni, er orðið sköpun. Þetta orð bendir oss til, að meðal allra endanlegra hluta, hafi ekkert þegið tilveru sína, nje líf sitt, nje krapt sinn, af sjálfu sjer, heldur hafi allir hlutir, andlegir og líkamlegir, á himni og jörðu, upptök sín frá Guði. En er vjer segjum, að Guð hafi skapað og gjört alla hluti, þá verður oss ósjálfrátt að bæta þessu við: „og hann viðheldur öllum hlutum“ (Kól. 1, 16 og 17); og þetta höfum vjer í huga, er vjer nefnum guðlegt viðurhald.

Jeg gjöri ráð fyrir enginn muni ímynda sjer Skapara heimsins, eins og mannlegan smið, er lýkur smíði sinni og fer á burt og veit ekki hvort um hana fari vel eður illa. Smiðurinn setur frá sjer sigurverkið, og hjól þess snúast eins og þeim var ákveðið; en ef regla þeirra breytist, verður smiðurinn ekki var við það, fyrr enn hann kemur einhvern tíma aptur, til að vita, hvort vísirinn snúist leið sína. Smiðurinn setur smíði sína frá sjer, en hún verður æ eins og hún var, þangað til hún gengur úr lagi; hún breytir sjer ekki sjálf, og verður ekki fegri, því ekkert lífsafl er í henni. En þú hið mikla meistaraverk almáttugs Guðs, þú hin dásamlega náttúra! allt, sem í þjer er, lifir, og allt er það á hvíldarlausri hreifingu, allt, sem í þjer er, þróast og verður fullvaxta, og nýjar myndir koma jafnan í stað hinna fyrri, því andi hins almáttuga lífgar þig. Því segir postulinn, er hann minnist á afskipti Guðs af heiminum, að Guð gefi öllum líf og anda og alla hluti og að hann sje ekki fjarlægur neinum af oss, því í honum lifum, hrærumst og sjeum vjer (Post. 17, 25 og 27—28). Því segir og hið helga skáld: Drottinn! hversu mörg og mikil eru verk þín, öll hefir þú þau með speki gjört, og jörðin er full af góðgirni þinni. Allar skepnur vona á þig, að þú gefir þeim

fæðslu á hæfilegum tíma. þegar þú gefur þeim, þá safna þær, þegar þú upplýkur þinni hendi, þá verða þær saddar. Ef þú hylur andlit þitt, þá skelfast þær; ef þú tekur á burt andardrátt þeirra, þá deyja þær og verða aptur að dupti. þegar þú útsendir Anda þinn, þá verða þær skapaðar, og þú endurnýjar ásýnd jarðarinnar (S. 104, 24 o. nn. vv). Allar góðar gjafir í hinu víðlenda ríki náttúrunnar koma frá honum, er viðheldur öllum hlutum með almætti sínu. Far þú, ef þjer lízt, eptir því sem skilningarvitin segja þjer, og segðu að jörðin veiti oss brauð og skýin sendi oss regn, og náttúrunni sje svo háttað, að hún annist allt hið lifanda; en jeg ætla að lypta augum sálar minnar til hans, er safnar skýjunum og frjófgar jörðina, jeg ætla að eigna alla hluti almætti hans, svo segjandi: Hann vökvar fjöllin úr hásölum sínum, hann lætur gras spretta handa fjenaðinum og ávexti mönnunum til nota, er hann framleiðir brauð af jörðunni (Sálm. 13, 14).

En guðlegt viðurhald er einnig s t j ó r n u n, er leitar ætíð að ná föstum tilgangi og nær yfir alla hluti, smáa og stóra, því það er ekki blindur kraptur og meðvitundarlaus, er sýnir sig í öllum hlutum, heldur er það kraptur lifanda Guðs. þá er vjer heyrum alvörugefnar samræður um mannleg kjör, verðum vjer þess að vísu varir, að annars vegar gjöra menn ráð fyrir guðlegri stjórn, en aptur heyrum vjer hins vegar þráfaldlega orð, sem eru þessari trú með öllu gagnstæðileg; það eru orðin, h e n d i n g og t i l v i l j u n. Og orð, sem til eru í málinu, láta ætíð í ljósi hugsanir, sem til eru í sálunni; sjerhver hugmynd hefir verið til í huga þjer, og sjerhver tilfinning í hjarta þjer, áður enn þú færir að leita að orði handa henni. Sú hugmynd er því einnig almenn, að allt, eður að minnsta kosti mikið af því, sem viðber í heiminum, vilji til af hendingu; það vill svo til, að hið góða eður hið illa kemur í ljós, að fyrirtæki vor heppnast eður ónýtast, að vjer verðum yfirbugaðir eður að vjer sigrum. Og þessi hugmynd virðist og vera rjett, þegar vjer skoðum viðburðina á jarðneskan hátt; hversu marga merkisatburði hefir ekki leitt af því sumu, sem leit út til að vera allra hluta ómerkast! Hefðir þú farið nokkurn annan veg, enn þú fórst, hefðir þú komið svipstundu fyrr eða síðar, þá hefði

margt farið öðru vísi; hefði sá eða sá gjört eitthvað annað, enn einmitt það, sem hann gjörði í hugsunarleysi og tilgangslaust, þá hefði sú og sú ógæfa orðið umflúin, eða sú og sú gæfa ekki komið fram. Þessa aðferð, að staðnæmast svona við yfirborð viðburðanna og það sem skilningarvitin skynja, kallar ritningin: skoðunaraðferð hins náttúrulega manns; en hvernig á þekking vor að aukast, er vjer staðnæmumst þannig við yfirborðið, og leitum ekki annars sambands millum hlutanna, enn þess, er vjer verðum varir með skilningarvitunum? Einmitt af því þessi hin ómerku tilefni, er vjer köllum svo, koma af stað hinum mikilvægustu umbreytingum, hljóta þau og að vera á valdi guðlegrar stjórnar, ella væri engin röð nje regla í heiminum. Og enginn heldur þó að svo sje; jafnvel hjátrúin, hversu heimskuleg og fávís, sem hún er, leitar að öðru sambandi, enn því sem augað getur sjeð; allt hið mikla umtal, er vjer heyrum dags daglega um þá gæfu eður ógæfu, er fylgi sumum mönnum og fyrirtækjum, eður loði við einhvern tiltekinn stað, og um þá heppni eður óheppni, er jafnvel á að stjórna teningunum: hvað er það annað, enn óskýr meðvitund um einhverja hulda reglu, er jafnvel það, sem mest þykir hendingunni undirorpið, stjórnist af ei að síður. Þannig verður jafnvel hjátrú heimskingjans að vitna í móti honum, að hann viti betur og hugsi ekki það er hann segir, þegar hann gjörir gabb að guðlegri stjórnan og dirfist að kalla nokkuð hending í ríki hins almáttka. Því þessi hugmynd er hin verulega vantrú, sem afneitar Guði. Uppspretta allrar guðrækni er sú meðvitund, er vjer lifum, hrærumst og sjeum í Guði, að máttur hans og vizka og heilagleiki og rjettlæti og kærleiki, opinberi sig alstaðar í oss og umhverfis oss. Aptur á mót ef hendingin fremur sinn skelfilegan leik hjer á jörðu, þá er annaðhvort enginn Guð til á himnum, eður hann hirðir ekkert um þá hluti, sem fram fara á jörðunni, eður hann er ekki almáttugur; eitthvað er þá til, sem ekki hlýðnast valdi hans. Sinn skelfilegan leik, sagða jeg; því með hversu mikilli ljettúð, sem mennirnir leika sjer að þessari hugmynd, hefðum vjer þó full rök til að skelfast, hvert sinn er vjer með alvörugefni íhugum ástand vort á jörðunni, ef hugurinn segði oss, að það sje allt saman einungis komið undir

tilviljun, og kringumstæðum, er allt að einu vel hefðu getað verið öðru vísi, hvort mennirnir hreppi hamingju eða óhamingju, hvort hinu góða verði framgengt eður ekki, hvort leiðin liggi til lífs eður dauða; ef hugurinn segði oss, að allir hinir smágjörfu þræðir, er stjórna kjörum vorum, flæktust í stjórnleysu hver innan um annan, og enginn hönd væri til, er hjeldi þeim eður stjórnaði þeim. En sá sem þetta segir, verður þá líklega jafnframt að halda það sje tilviljun, að heimurinn hafi öðlazt þá mynd, sem nú hefir hann, að missirin skiptist á eptir föstum reglum, eður að augað hafi lokizt upp til að sjá, og eyrað til að heyra. Því sje þetta ekki tilviljun, beri himin og jörð, beri fuglar himinsins og blóm jarðarinnar berlega með sjer vott máttar og guðdómleika hins eilífa, þá getur það ekki verið, að Guð hafi myndað allt þetta, og látið það síðan eiga sig sjálft, hafi látið lífið kvikna og gefið það svo á vald ráðlausum kröptum tilviljunarinnar. Ó! sjerhver hugsun, er fæðist af skynsemi vorri, sjerhver hreifing samvizku vorrar, sjerhver góð tilfinning í hjarta voru, sameinar sig öllu hinu undrunarlega og umhugsunarverða, sem vjer höfum reynt til að kenna oss, að vjer sjeum ekki gefnir á vald hendingunni, að hönd sje til, er stjórni og ráði niður, og vizka, er veiti einnig þeim hlutum reglu og tilgang, sem kallaðir eru tilviljun á jörðunni. Þegar bræður Jósefs ætluðu að gjöra honum illt, þegar þeir voru búnir að ráða honum dauða, þá litu þeir upp, og sjá! flokkur Ismaelíta fór fram hjá þeim (1. Mós. 37, 25); það leit út eins og tilviljun, að þeir komu einmitt þangað og um þetta leyti; þeir fóru sinna ferða að kaupa og selja, en hinn almáttki ljet þá fara ferðina fyrir sig, svo þeir væru verkfæri í hendi hans, til framkvæmdar því, er seinna varð mörgum manni til líknar og frelsis. Þegar dóttir Faraós gekk til árinnar, vissi hún ekki betur, enn hún gengi eins og vant var æskuleið sína, til að kæla sjer í ánni Níl, en þenna dag flutti Guð barn í hendur henni, er hún átti að frelsa úr opinni kverk dauðans (2. Mós. 2, 5). Og sá, er hún frelsti, varð mikill og ávann sjer ódauðlegt nafn, hann frelsti þjóð sína undan ánauðaroki, hann varð löggjafi hennar, og hinir vitrustu löggjafar hafa síðan af honum lært, og hinir merkustu atburðir fjarlægra tíma voru látnir fylgja

því lífi, er dóttir Faraós frelsti á þeirri göngu, er hún vissi á engan hátt með hvílíkum eyrindum hún var send.

„Mínar hugsanir eru ekki yðar hugsanir, og yðar vegir eru ekki mínir vegir“ (Es. 55, 8); hversu optlega segir hinn almáttki oss þetta, er hann ónýtir hinar kænlegustu ráðagjörðir vorar, er vjer förum veg vorn sjáandi, með skýrum og staðföstum vilja, að ná tilteknu takmarki, og verðum þó að lokunum varir við, að vjer erum komnir í alla aðra átt, enn vjer höfðum ásett oss að stefna. Hversu optlega veitir hann einnig tilganginn, er vjer höfðum engan tilgang, og hann, er að vitni hins helga skálds veitir loptsjónunum vit (Job. 38, 36), hann gjörir einnig vit úr hinum hugsunarlausu athöfnum mannanna. Því hvort sem maðurinn veit af því eður ekki, gengur hann á vegum Guðs, hann er fús eður ófús þjónn, en ætíð er hann verkfæri í hendi Guðs. Helgar bækur hins gamla testamentis kalla hinn almáttuga hvað eptir annað Jehóva Zebaot, það er: Drottinn hersveitanna, því allir kraptar á himni og jörðu þjóna honum, bæði þeir sem meðvitund hafa og þeir sem ekki hafa meðvitund. Hann gjörir vindana að eyrindrekum sínum og eldslogana að þjónum sínum; en hann leiðir og mennina þangað sem hann vill nota þá, og kveikir hugsanir og ályktanir í hjörtum þeirra. Til hins rænta og særða sendir hann hinn samverska mann, til að hella viðsmjöri í sár hans, til hinnar einmana og hrelldu móður sendir hann Jóhannes, að vera henni í sonar stað; þess vegna átt þú að þakka Guði allt það, er þú þakkar mönnum, því Guð sendir þá á hentugum tíma og leggur hjálpina í hönd þeirra. Einn gengur út til að vera vöndur Guðs hegningar og leiptrandi sverð, til að hegna hinum drambsömu, að eyða hinu ónýta, að vekja þjóðirnar af svefni þeirra og kenna þeim að auðmýkja sig undir Guðs volduga hönd; annar er sendur að temja hina óstjórnlegu kraptana, að koma reglu á hið truflaða líf, að gróðursetja og vernda hina fögru rót vísindanna, að færa þjóðunum blessun friðarins, og reisa musteri hinum hæsta. Guð hefir enn þá máttkari þjóna, er standa nær augliti hans, heyra rödd orða hans og fremja það er hann býður þeim (Sálm. 103, 20). Englarnir eru einnig þjónustubundnir andar, sendir þeim til aðstoðar, er öðlast eiga

sáluhjálpina (Hebr. 1, 14). Hvernig þessar verur sjeu, og hvernig þær láti krapt sinn í ljósi, það er oss ekki fremur birt, enn hvað vjer eigum sjálfir að verða á síðan. En hver mundi efast um, að verur sjeu til mönnunum æðri, allar skapaðar, eins og þeir, allar þjónustubundnir andar, er hlýðnast verði guðlegum vilja, en sjeu samt líkari Guði, en vjer erum, að vizku og heilagleik og mætti, því þær sjeu slíkar sem vjer eigum að verða, og sjeu gæddar mynd Guðs á fullkomnara hátt, en vjer getum orðið hjer í veikleika vorum, þar sem vjer erum bundnir hlekkjum syndar og vanvizku. Vjer eigum — eins og postulinn segir, er hann varar við engladýrkun — ekki að dæma um þá hluti, er vjer þekkjum ekki, og ekki reyna til að fá vitneskju um það, sem á að vera oss hulið í þessu lífi, um eðlisfar og veru englanna, eður með hverjum hætti athafnir þeirra sjeu og vernd sú, er þeir veita oss; því ef vjer á slíkan hátt viljum komast að meiru, enn oss er opinberað, flækjum vjer oss í efnislausan og sjálfráðan og reikulan leik hugmyndanna, er spillir sannri guðhræðslu, í stað þess að efla hana. Stjarnan skín niður til vor af himninum með jöfnu og ókvikulu ljósi, er leiðir oss úr efa um, að hún sje til, og kveikir í oss grun um hina björtu bústaði í húsi Föður vors, er vjer eigum að fá að þekkja í öðru betra lífi; en hvernig þeim sje háttað í raun og veru, getum vjer ekki sjeð hjeðan af jörðu. Þannig er og því ljósi varið, er vjer grillum æðri verur í með aðstoð opinberunarinnar. Ósýnilegar og máttugar verur umkringja oss á alla vegu, ekki til þess vjer skulum óttast, heldur til þess vjer skulum gleðjast af því. Það er sagt í einni af hinum helgu fornbókum, að þegar Elisa spámaður sendi svein sinn út úr borginni, og hann sá að borgin var umkringd af hermanna liði, með hestum og vögnum, þá hafi sveinninn orðið hræddur og sagt: hvað er nú til ráða? Þá svaraði spámaðurinn honum: óttast þú ekki, því við höfum meira lið, enn þeir. Og Elisa bað og sagði: Drottinn! ljúk þú upp augum hans, svo hann megi sjá! Þá lauk Drottinn upp augum sveinsins og hann sá; og sjá, þá var fjallið alþakið glóandi hestum og vögnum allt í kringum Elisa (2. Kong. 6. 15 o. nn. vv). Að vísu veit jeg að þessi fyrirburður birtist í slíkum myndum, er jarðneskur maður

mætti fá gripið; en hversu optlega verður oss að koma til hugar, hvað vjer mundum sjá, ef brestur skilningarvita vorra væri bættur! því í hinni víðlendu veröld, í himnunum og á jörðunni hrærist hvarvetna ótölulegur fjöldi andlegra og líkamlegra krapta, og þeir æða ekki hverjir innan um aðra í stjórnleysu og ruglingi, því augað, sem lítur yfir alheiminn, sjer hvernig þeir safnast allir saman til reglu og fegurðar, eins og hinir smágjörfu þræðir í haglega ofnu tjaldi, eður hinar mörgu raddir í hljómfögrum samsöng. því öll veldi og allir kraptar þjóna Guði..

Til að geta skoðað heiminn guðrækilega, þurfum vjer fyrst af öllu, að hafna þeirri hinni huggunarlausu og skaðsamlegu hugmynd um hending og tilviljun, er trufli rás hlutanna í veröldinni og ráði breytingum þeirra og gæfu og ógæfu mannanna. Svo sannarlega sem jeg veit að Guð er til, svo veit jeg og, að auga Guðs vakir og hönd hans stjórnar; og svo sannarlega sem Guð stjórnar, getur ekkert í hans ómælanlega ríki gengið undan valdi hans, er þar engu gleymt og ekkert vanrækt, því eins og Guð er fullkominn, svo er og stjórn hans fullkomin. Með skilningarvitum mínum verð jeg optlega var við eintómt regluleysið, og með vitinu get jeg optlega ekki gripið einstaka viðburði á annan hátt, enn að þeir sjeu komnir til að trufla; en jeg á það sem er áreiðanlegra, enn skilningarvitin og vitið, er kemst ekki út fyrir hið sýnilega, og það er hin rótgróna meðvitund, er ekki verður slitin frá veru minni og boðar mjer hinn almáttuga og alstaðarnálæga Guð.

En jafnframt og sumir samþykkjast oss í öllu þessu, jafnframt og þeir kannast við, að atburðir jarðarinnar geti ekki verið seldir á vald blindum og sjálfráðum leik tilviljunarinnar, leiða þeir fram á hinn mikla leikvöll veraldarinnar forlög, eður eilífa, fyrir fram setta ákvörðun, sem allir hlutir renna eptir afmarkaða leið sína, eins og hnettirnir renna um himinhvolfið, samkvæmt hinu óbreytanlega lögmáli. það sem framfer í veröldinni, segja þeir, og það sem mætir oss mönnunum, það er allt saman ákvarðað fyrir fram, vjer göngum þá leið, sem oss er ávísað, vjer gjörum og þolum það, sem sjerhverjum af oss er úthlutað, og ekkert vald og engir kveinstafir megna að breyta hinu óbeygjanlega ráði forlaganna.

þessi ræða lætur í eyrum vorum sem rödd vizkunnar, það er ekki hið ljettúðarfulla og ósvífna álit, að vjer getum aðhafzt allt það er vjer viljum, eður að aðrir geti farið með oss, eins og þeir vilja; það virðist vera hjartaprýði, að taka við forlögum sínum, án kveins og umkvörtunar; það virðist vera göfuglyndi, að ásaka ekki mennina um hið illa, er þeir fremja gegn oss, heldur að álíta þá sem verkfæri æðri stjórnar; það virðist sem það auki dýrð guðlegs almættis, er vjer eignum Guði alla viðburði, er vjer segjum að hinar frjálsu gjörðir mannanna, er menn kalla, hlýði að öllu leyti bendingu hans, eins og hin líkamlega náttúran.

En ef vjer íhugum gjörr þessa speki, hvað er það þá, sem hún kennir oss? Allir hlutir fara fram fyrir augum forlagaspekingsins, eins og fyrir augum annara manna; mannkynið velkist í hryggð og kæti, sumir láta girndir sínar ráða, og sumir reyna hina örðugu baráttu við tilhneigingar hjarta síns, sumir leggja alla stund á þá breytni, sem kölluð er heiðurleg og nytsöm, en sumir saurga hendur sínar á illgjörðum, sumir stæra sig af góðverkum sínum og sumir ásaka sig vegna synda sinna, sumir lifa hugsunarlausir dag frá degi og sumir biðja án afláts, og fela sig og allt sem þeim er kært á hendur þeim, er öllum líknar. En í öllu þessu þykist spekingurinn sjá, að sjerhver fremur það, sem honum er fyrirhugað, og getur ekki breytt því á nokkurn hátt; sá sem lofar sjálfan sig, getur ekki látið það vera, því hann er ætlaður til þeirrar heimsku að vera hjegómlegur, en í raun rjettri á hann ekkert lof skilið, því hann hefir einungis aðhafzt það, sem óviðráðanlegur máttur rak hann til; sá sem ásakar sjálfan sig, getur ekki að því gjört, en í raun rjettri hefir hann ekki unnið til neinnar ávítu, því hann hefir að eins aðhafzt það, sem hann var ætlaður til; þessi synd og svívirðing og illvirki mátti ekki missast úr keðju viðburðanna, og er hann framdi þetta hefir hann einungis framkvæmt vilja hins almáttuga. Spekingurinn lofar hlutskipti sjálfs sín, af því fjársjóðum þekkingarinnar hefir verið lokið upp fyrir honum, af því honum hefir verið ætlað að sjá, að allt er gott á sínum stað, af því hann er frelstur af sárum sviða iðrunarinnar, svo að hann, í öllum athöfnum sjálfs sín og öllum athöfnum annara

manna, í sjerhverri dygð og sjerhverjum lesti, sjer að eins ósjálfráð forlög heimsins, eins og þau hafa verið fyrirhuguð frá eilífð, en koma nú í ljós fyrir mannlegum augum.

Óttaleg skelfing fyllir hjarta mitt, jafnskjótt sem jeg reyni, að telja mjer trú um sannindi þessarar speki; það er eins og allar góðar og guðrækilegar og helgar tilfinningar ætli þá að heimsækja mig í síðasta sinni til sorglegs viðskilnáðar um aldur og æfi. Það liggur í augum uppi, hvað leiða mundi af þessari kenningu, ef hún næði að öðlast fullt vald yfir hugskoti og gjörðum manna, ef mennirnir færu fyrir alvöru að meta sig lausa við frjálsræði viljans, og jafnframt við allan reikningsskap og ábyrgð, ef mennirnir gætu kastað byrði synda sinna á Guð og ásakað Guð í stað sjalfra sín. En láti jeg þessa kenningu tala til hjarta míns, vaknar samvizkan með öllu afli sínu, og hennar helgri rödd dirfist jeg aldrei að afneita, og get jeg aldrei afneitað, og vil jeg aldrei afneita. Jeg ríf í sundur net allra þeirra efasemda, er hinn logni skarpleikur ætlaði sjer að flækja mig í, jeg lypti höndum mínum til himins, svo mælandi: Allur vísdómur haglegra ályktana er ekkert að meta á móti þeirri sannfæring, er segir mjer, ó þú rjettláti Guð! að jeg eigi að gjöra þjer reikningsskap fyrir sjálfan mig. Og þess vegna veit jeg og, að stjórn þín er ekki þar í fólgin, að þú hafir fyrir fram ákvarðað það allt, hvernig jeg ætti að verða og hvað jeg skyldi aðhafast. Þá er þú skópst mig, þá er þú gafst mjer það náttúrufar og þær kringumstæður, er gjöra mig slíkan sem jeg er, hefir þú og afmarkað mjer svið kjósanlegra athafna, er jeg get ekki út úr komizt. Vilji jeg nú af þessum athöfnum kjósa mjer einhverja, er trufla mundi rjetta framrás veraldar atburðanna, ef henni yrði framgengt, þá tekur stjórn þín í taumana, og eyðir fyrirætlunum mínum og feykir á burt eins og fisi ráðagjörðum mínum, hversu viturlegar og öruggar sem þær virtust vera. En verði athöfn minni framgengt, hnígur hún og undir þína stjórn; því, er jeg gjörði í illum hug, snýr þú til góðs, en jeg á að standa þjer reikningsskap af vilja mínum; og það er jeg gjörði í góðum hug — því er miður! jeg veit ekki, hvort það muni heppnast, eins vel og vonglaðar ímyndanir hafa heitið mjer,

en það veit jeg, að þú fyrirlítur ekki minn góðan vilja. Jeg er því ekki svo frjáls, að jeg geti gjört það jeg vilji, og gengið að heyja baráttu við þig; en jeg er ekki heldur svo bundinn, að vilji minn sje háður ósigranda valdi. Jeg er frjáls að viðleitni vilja míns, en jafnframt er jeg að öllu leyti á valdi þeirrar stjórnar, er birt hefir lögmál sitt í þessum orðum: Guð mun endurgjalda sjerhverjum eptir verkum hans; þeim sem með stöðugleika í góðum verkum leita sjer vegsemdar og heiðurs og ódauðleika; mun hann veita eilíft líf; en þeim, er mótþróanlegir eru og ekki hlýðnast sannleikanum, heldur hlýðnast órjettlætinu, mun hann gjalda bræði og reiði (Róm. 2, 6 o. n. v.). Því það sem maðurinn sáir, það mun hann og uppskera (Gal. 6, 7).

---

# 16.

## FORSJÓNIN.

Hverjum tíma fylgir sín alvara, en sumir tímar eru öðrum tímum alvörumeiri og þungbærari; það er eins og hörmungar þær, sem vanar eru að vitja manns og manns á stangli, flykkist þá saman í hersveitir, til að ganga yfir lönd og lýði; þá eru hrellingar og harmkvæli á nálægum tíma, og hið ókomna þykir vofa yfir með skelfingar. Sá tími, sem vjer erum settir að lifa á, hefir og haft sína þjáning, sú kynslóð, sem nú lifir á jörðunni, er alin upp og orðin gömul í styrjöld og uppreistum og alls konar hörmungum, og þótt vjer segðum á stundum: nú er komin helgihvíld, nú getur friðurinn reist aptur sitt hið gullna veldi, þá var ekki rónni að treysta. Vjer ætlum ekki að fara að telja harmkvælin; allir vita hvað fram er komið, og enginn veit hvað í vændum er.

En hvílíkir eru mennirnir á jörðunni, þegar alvara tímans hittir þá? Marga fyrirhittir hún svo stadda, að þeir sóa lífinu

í ljettúð og galsa og gjálífi, eins og ekkert illt væri til á jörðunni; ógæfan er ekki enn þá búin að vitja þeirra, sjúkleiki og sorg hefir ekki enn þá brotið sjer veg inn í hús þeirra, og þá hirða þeir ekki um, þótt aðrir fyrirfarist í eymd sinni, þeir hraða sjer sem skjótast frá hinum hryggilegu hugleiðingum, og huggast við, að eymdin muni líklega sneiða fram hjá sjálfum þeim. Eður hins vegar ógæfan sjálf, eymd og volæði þjóðanna og skelfingar þær, er samfara verða drepsóttum og styrjöld og upphlaupum, verða eins og sjónarleikur handa hinum nýjungagjarna skríl, og svala að nokkru leyti óslökkvanlegum þorsta hans eptir nýlundum; slíkum mönnum finnst að lífið eins og það er hversdagslega, sje leiðinlegt og þýðingarlaust, og þeim hlýtur að finnast það svo, því þeir nota ekki lífið til trúlyndrar iðjusemi, til háleitrar viðleitni að afla sjer þekkingar, eður til rósamra unaðsemda kærleikans; ekkert í heiminum er þeim kært í raun og veru, bikar munaðarins hafa þeir fyrir löngu í botn drukkið, og af því hann var sú hin eina nautn þeirra, leita þeir sjer nú að öðrum áhrifameiri leik, þeir leika sjer að ógæfunni, þangað til hún fer að fremja sinn skelfilegan leik á sjálfum þeim. Alvara tímans hittir marga fyrir, sem vondir eru og samvizkulausir, þeir hirða ekki hót um aðferðina, ef þeir að eins geta fram komið ásetningi sínum, og ásetningur þeirra er illur og skaðvænn; þess vegna verða þeir glaðir við óróann, því þeir vona hann geti orðið verkfæri í hendi ranglætisins; hinn voldugi vonar, að geta hrundið öllum skorðum; sá sem ekkert á, er hann geti misst, vonar hann geti unnið það, sem aðrir missa; og þannig leiða kúganin og uppreistin hvor aðra, og troða undir fótum sjer hin ágætustu blóm og gera hinar fegurstu vonir að engu. Alvara tímans hittir marga fyrir í þögn og örvinglun, vjer getum ekki ásakað þá um, að þeir, sakir ljettúðar, gefi ekki gaum að ógæfunni, því þeir gjöra hana of ógurlega í augum sjer og gremjast of sáran, og sjerhver von er flúin úr þeirra huglausu hjörtum.

Þeir sem betri eru flýja í alvöru tímans undir vernd guðlegrar forsjónar, og sæll er sá, sem búið getur í skjóli hennar! Hvaða huggun, hvaða von væri hjer á jörðunni, ef vjer værum

án þeirrar trúar, að á himnum uppi sje vakandi auga, er lítur yfir ókominn tíma, sem hulinn er fyrir vorum augum, og sjer í einu hið ókomna og hið nálæga; að almáttug hönd sje til, er hafi vald yfir sjerherri athöfn og sjerhverri ráðagjörð, er segi til atburðanna: kom! og þá koma þeir, far! og þá fara þeir? Guðleg forsjón er öll vor huggun og öll vor von — en segir þessi kenning oss þá ekkert, utan oss beri að vera áhyggjulausum og ókvíðnum? Megum vjer lifa og láta í heiminum eins og vjer viljum, vera eins og vjer viljum, og svo rjett sem benda guðlegri forsjón, að hún skuli vera þjónn heimsku vorrar og synda, svo allir hlutir skuli samt sem áður verða oss að góðu?' Jeg finn í orði Guðs míns huggunaríkustu fyrirheit um vernd, hinn himneski Faðirinn býður oss sjálfur að felast sjer á vald; en jeg finn þar einnig ritað, að enginn geti þjónað tveimur herrum, svo viljir þú kalla hinn almáttuga herra þinn, þegar þú þarft verndar við, þá áttu áður að kalla hann herra, þegar þjer ber að hlýða. Jeg finn ritað guðlegt loforð, að allar vorar nauðsynjar skuli veitast oss; en jeg finn og ritað þetta guðlega boðorð: leitið fyrst Guðs ríkis og hans rjettlætis (Matth. 6, 24. 33.).

Þetta eru mikilvægar hugleiðingar, látum oss því ekki hrinda þeim úr huga vorum, heldur íhuga vandlega með alvörugefni og guðrækni, hvílík að sje hin kristilega kenning um forsjónina, og þá munum vjer fá að sjá alla þýðingu þessara hinna fögru orða postulans: Vjer vitum að allir hlutir snúast þeim til góðs, er elska Guð (Rómv. 8, 28.).

Þessar hugmyndir: guðleg stjórn og guðleg forsjón, eru ekki samrar þýðingar. Guð stjórnar öllu, stjórn hans nær yfir vonda og góða, yfir rjettláta og rangláta, yfir þá, sem við hana kannast, og þá, sem ekki gjöra það. Þú dylur hugsun þína í brjósti þjer, en hinn alsjáandi vakir einnig yfir henni, og þjer er ekki leyft að framkvæma sjerhverja hugsun, og orðið sem flogið er yfir varir þjer, og verkið, sem hönd þín hefir framið, er ekki framar á þínu valdi, hvorttvegga hnígur það undir stjórn hins hæsta, og hann lætur optsinnis allt annað af því leiða, enn þú hafðir tilætlað, hann kallar það fram, sem enginn gaf gaum

að, og blæs því á burt, sem beðið var eptir með undrandi eptirvænting. Enginn maður getur komizt undan stjórnarhönd Guðs; en dirfumst vjer að segja, að guðleg forsjón sje eins yfirgripsmikil? Með orðinu forsjón meinum vjer þau afskipti Guðs af mönnunum, að hann ber umhyggju fyrir þeim, og stjórnar öllum hlutum, svo að þeir hljóti að verða þeim til góðs. Dirfumst vjer nú einnig að segja, að guðleg stjórn annist sjerhvern mann á þenna hátt? Þá stæði oss á sama, hvað vjer aðhefðumst í veröldinni; hvort sem það væri viturlegt eða fávíslegt, hvort sem það væri gott eður illt, þá snjeri guðleg forsjón því öllu saman oss til blessunar.

Í fyrsta lagi á guðleg forsjón ekki að leysa oss undan þeirri skyldu, að neyta þeirra vitsmuna, sem Guð hefir gefið oss til að hugleiða hlutina og það sem líklegt er að af þeim rísi. Kastaðu þjer hjer ofan fyrir, sagði freistarinn forðum daga, því ritað er: Guð mun bjóða englum sínum að sjá þjer borgið, og þeir munu bera þig á höndum sjer, að ekki steytir þú fót þinn við steini (Matth. 4, 6). En þannig talar einn saman freistarinn, hinn illi og rangsnúni andi, er vill leiða oss til fávizku og síðan til falls. Það er svo handhægt, að hafast að í veröldinni hvað sem menn vilja, að steypa sjer gálauslega í hvert vandræðið, rjett eins og blindar fýsnir hjartans hvetja til, og treysta svo hinni miskunarríku forsjón í öllum þeim kröggum, sem hljóta að verða ávöxtur slíkrar breytni. En hinn góði andi, sem í oss býr, svarar freistaranum á þessa leið: Það er og ritað: Þú átt ekki að freista Drottins Guðs þíns; því þá að eins getum vjer óhultir falið málefni vort Guði á hendur, er vjer höfum farið skynsamlega að ráði voru; þá að eins megum vjer óhultir treysta því, að hvort sem það kemur fram eður ekki, er vjer höfum gjört ráð fyrir, muni samt speki hins hæsta láta málefni vort fá hin æskilegustu afdrif.

Samt er ekki fyrirhyggja og vit einhlítt til þess vjer megum fela vegu vora Guði á vald, því þá að eins megum vjer vænta oss heilla og blessunar, er vjer leggjum stund á Guðs rjettlæti. Að vísu er einnig öll andstyggð órjett-

lætisins á valdi guðlegrar stjórnar, hinn órjettvísi á alls ekkert vald á jörðunni, utan honum sje veitt það að ofan (Jóh. 19, 11), og Guð veiti honum það, af því hann ætlar að láta einnig það þjóna sjer. En þótt Guði sýnist að snúa því til góðs, sem mennirnir gjöra í illum tilgangi (1. Mós. 50, 20), mundum vjer fyrir þá skuld dirfast að ætla það muni verða til góðs sjálfum þeim, er hugsa og vilja og fremja hið illa? þá væri Guð þjónn syndarinnar? En því er engan veginn svo varið, guðleg stjórn er rjettlát, hún miðar til að endurgjalda sjerhverjum eptir verkum hans, og svo sannarlega, sem hver sá, er gjörir hið góða, skal öðlast vegsemd og heiður og frið, svo skal og þjáning og ótti koma yfir sálu sjerhvers manns, er illsku drýgir (Rómv. 2, 9. 10). Og sá, er hin rjettláta hegning mætir, hlýtur að vísu að kannast við, að hann sje á valdi guðlegra yfirráða, en því að eins getur hann orðið var guðlegrar forsjónar í slíkum atburðum, að hegningin snúi honum á rjettan veg; en sá sem herðir hjarta sitt og stendur í gegn Guði, hann fær að reyna, að Guð stendur einnig í gegn honum.

„Allir hlutir verða að snúast þeim til góðs, er elska Guð“. En þeim er ekki elska Guð, hvernig ætti nokkur hlutur að geta orðið þeim til góðs, til sannrar hamingju og blessunar? það sem kallað er hamingja þeirra, er í raun og veru engin hamingja, vesælli sálu þeirra verður það að engri nautn, og óstjórnlegar girndir þeirra spilla fyrir þeim hverri stund, er hefði mátt vera góð og skemmtileg; því enginn friður fylgir ágirnd og hjegómagirni og drambsemi og reiði og hatri og öfund, eður öðrum illum girndum. Allt það, er guðrækinn maður má rjettilega kalla blessun, verður slíkum mönnum að snöru og til falls, og gefur þeim nýtt tilefni til að selja sig á vald bersýnilegum eður huldum syndum. En ef Guð leiðir þá um reynsluveg mótlætinganna, og þeir vilja ekki auðmýkja sig undir hans volduga hönd, og elska ekki að síður eintóma veröldina og sjálfa sig, þá illskast þeirra óstýrilátt geð, og vantrú og guðlast festa rætur í því, eður þeir kasta sjer í fang svívirðingarinnar, og gleyma Guði og

veröldinni og sjálfum sjer. Þannig snúast allir hlutir þeim til spillingar.

Þeir einir, sem elska Guð, geta því fundið, að vernd líknsamrar og miskunsamrar forsjónar gæti þeirra; en þeim ber og að trúa því, að allir hlutir snúist þeim til góðs, og þessa skyldu, að treysta Guði, eiga þeir að rækja, ekki síður enn hverja aðra skyldu.

Þegar menn á fyrri dögum nefndu hið heilaga nafn guðlegrar forsjónar, þá viðurkenndi hver kristinn maður, að oss beri að lúta þeim, sem einn saman er vitur, þá trúði hann, þótt hann sæi ekki, og þó að vegir forsjónarinnar væru honum myrkir og órannsakanlegir, vissi hann, að þetta hlýtur svo að vera, meðan vjer göngum hjer í fjötrum líkamans, meðan vjer þekkjum að eins hina nálægu stund, en þekkjum ekki ókominn tíma, er þaðan á að spretta. Þá var enn lotning til í sálum mannanna, þeir stefndu ekki Guði fram fyrir dóm sinn, og hjeldu ekki sjer væri óhætt að þræta við hann, miklu heldur, ef óguðlegar hugsanir vantrúarinnar tóku að hreifa sjer í sálu þeirra, reyndu þeir að kefja þær, svo sem það er illt væri, og dirfðust ekki að ljá hinni vondu hugsun vond orð, því þeir fundu í hjörtum sínum, að maðurinn á að þegja fyrir Guði. Það er oss kunnugt, og vjer heyrum það dögum optar, að þetta er orðið öðru vísi; nú heyrast ekki hinar lágu andvarpanir hræddrar sálar, er svo segir: Drottinn! hversu lengi ætlar þú að dvelja? heldur er það hið drambsama vit, er vjer heyrum djarflega spyrja og segja: hvað kemur til? því það þykist eiga fullan rjett á að neita, þegar það skilur ekki, — að neita því sem enginn maður dirfist að neita, nje getur neitað í hjarta sjer, að alvitur og föðurleg forsjón Guðs leiði hvern, er á Drottin vonar, að hans rjettu takmarki.

Að vísu ber þjer og að íhuga vegu Guðs, og dásamlega handleiðslu hans á þjer, allt frá þeim tíma, er þú í barnæsku þinni leitaðir hans ofar stjörnunum, og síðan á hverjum degi, er þú hefir fundið, að Guð er ekki fjarlægur neinum af oss. En hugur þinn á að vera auðmjúkur; þegar þú skilur, áttu að gleðjast af því ljósi, er Guð lætur renna upp fyrir augum þjer; þegar þú

skilur ekki, áttu að lúta og gleðjast af að sá er til, er sjer af vizku sinni, það sem hulið er þínu viti. En hve miklu meira mundu mennirnir skilja af handleiðslu Guðs, ef þeir vildu kannast við, til hvers hún miðar. því eins og vjer verðum þess optlega varir, þegar hjörtu mannanna ljúkast upp fyrir oss, að stundleg gæfa og gæði þessa heims eru þeim fyrir öllu, en Guðs ríki og rjettlæti sem alls ekkert, eður þá að minnsta kosti miklu ljettvægari, og næstum því eins og eintómt verkfæri til að geta náð áður sögðum gæðum: svo heimta þeir og, að guðleg forsjón skuli stjórna öllum hlutum svo, að þeir geti náð þeirri gæfu, sem allar óskir þeirra hníga að. þess vegna heyrum vjer svo optlega, að þegar þeir íhuga þá vegu, er þeir hafa verið leiddir á gegnum lífið, þá þykjast þeir skilja þá og dást að þeim, þegar þeir sjá að þeir hafa verið leiddir til stundlegrar hamingju á annan hátt, enn þeir höfðu sjálfir girnzt og til ætlazt, að missir einnar óskar, varð þeim vegur til að öðlast aðra mikilvægri, að óvina ofsóknir urðu að gjöra frægð þeirra að meiri, og margt annað þess háttar. En sjái þeir ekki neinn slíkan tilgang í handleiðslu Guðs, kalla þeir hana myrka og órannsakanlega — eins og hún gæti ekki miðað til neinna annara gæða. Að sönnu viðurkennir hver guðrækinn maður þakklátlega, hvernig Guð hefir einnig á þenna hátt margopt borið sjer sjálfum vitni fyrir honum; en þegar hann er að íhuga handleiðslu guðlegrar forsjónar, spyr samt hugur hans um langt um mikilvægri hluti, hann spyr: hvernig hefir Guð leitt mig til sín? Með hverjum velgjörðum, með hverjum mótlætingum hefir Guð komið mjer til að viðurkenna, að finna, að öðlast þau auðæfi, er þjófar geta ekki stolið á burt og mölur og ryð fær ekki grandað, komið mjer til að girnast og geta smakkað þá sælu, sem heimurinn fær ekki veitt og ekki heldur á burt tekið? hvernig hefir sál mín orðið hreinsuð af óhreinum girndum? hvernig hefir hið veika orðið styrkt í mjer, og hið of sterka orðið auðmýkt? í stuttu máli: hvernig hefir Guð leitt mig til síns ríkis og rjettlætis? því er miður! þetta hefir allt saman ekki verið nema byrjun hingað til; en þótt guðsríki sje ekki í oss, nema eins og veikur vísir, þá höfum vjer ekki unnið til ónýtis og ekki mæðzt

til ónýtis, ef þessi vísir dafnar meir og meir, heldur hefir guðleg forsjón náðarsamlega annazt oss.

Ef vjer enn rækjum þá kristilegu skyldu vora, að biðja með þessum orðum: Faðir vor á himnum, frelsa oss frá illu! getum vjer þá ætlað, að vjer höfum tæmt þýðingu þessarar bænar, er vjer biðjum Guð, að vernda líkama vorn fyrir ólifjan sjúkleikans, og eignir vorar fyrir höndum þjófa og svikara, og mannorð vort fyrir tungu hins bakmálga? þekkjum vjer þá ekkert annað, er vjer getum kallað illt? Ó! samvizka sjerhvers manns hlýtur að samþykkjast máli voru, er vjer segjum, að þessi bæn hafi miklu hjartnæmari þýðingu, að í henni ákalli hver guðrækinn maður sinn himneskan Föður, og biðji hann fyrst og framast, að frelsa sig af valdi villunnar og fávizkunnar, að vernda sig fyrir freistni og falli og leysa sig úr ánauð syndarinnar. Vjer þykjumst nokkurn veginn vita, hvað horfa mundi til stundlegrar hamingju vorrar — þótt það fari margsinnis fjarri vjer vitum það — og þess vegna dirfumst vjer einatt að lasta vegu forsjónarinnar í þessu efni. En mundi nokkur þykjast þekkja hið hulda djúp hjarta síns, og vita af hverjum brestum hann þurfi enn að verða hreinsaður, og í hverjum dygðum hann þurfi enn að styrkjast? mundi nokkur ætla hann geti sjálfur ákveðið, hversu mikið gott hann geti þolað, og hversu mikið illt hann verði að þola, til að ná því, sem er lífsins æðsta ákvörðun, það er Guðs ríki og hans rjettlæti?

Nei! þetta vitum vjer ekki, en vjer vitum einungis hitt, því svo segir guðsorð oss, að sá, sem leitar, muni finna (Matth. 7, 8). Leitið fyrst, leitið seint og snemma, leitið í kæti og í hryggð að Guðs ríki og hans rjettlæti, þá munuð þjer og reyna, að dásamlegir vegir guðlegrar forsjónar leiða yður þangað. Og þá bætir hinn himneski Líknarinn þessu við: þá munuð þjer og fá í viðbót allt hitt, sem heiðingjarnir sækjast eptir. Verið því ekki hugsjúkir um líf yðvart, hvað þjer skuluð eta og drekka, eður hverju þjer skuluð klæðast. Vor himneskur Faðir veit, að vjer höfum alls þessa þörf (Matth. 6, 31—32), og þegar vjer gjörum það, sem í voru valdi stendur, mun hann ekki sleppa af

oss sinni örlætishendi. Hann, sem fæðir fuglana undir himninum, hann, sem skrýðir liljurnar á vellinum, mun ekki láta þann örmagnast í stundlegum skorti, er hefir af alhuga leitað hans ríkis og rjettlætis. Og hvað sem vjer að öðru leyti ávinnum eður missum í þessum heimi, hvað sem vjer að öðru leyti sjáum koma eður fara, þá kemur þó jafnan guðsríki nær og nær, því til þess miðar stjórn hins almáttuga á veröldinni; og guðsríki kemur til sjerhvers manns, er leitar þess, því það hefir guðleg forsjón fyrirhugað hverjum þeim, er sækist eptir því fyrst og um fram alla hluti; honum verða allir hlutir að snúast til góðs. Við slíkan mátt guðlegrar forsjónar kannaðist postulinn, er hann sagði: Vjer hrósum oss jafnvel af hörmungum vorum, því vjer vitum, að hörmungin aflar stöðuglyndis, en stöðuglyndið aflar reynslu, en reynslan aflar vonar, og vonin bregzt ekki (Rómv. 5, 3—4). Nei! hverning ætti og vonin að bregðast þeim, er veit, eins og postulinn, að hvorki líf, nje dauði, nje höfðingjadæmi, nje völd, hvorki hið nálæga, nje hið ókomna, hvorki hæð, nje dýpt, nje nokkur önnur skepna, muni geta skilið oss við Guðs kærleika í Kristi Jesú, Drottni vorum (Rómv. 8, 38. 39).

---

# 17.

## MAÐURINN.

### Fyrri hugleiðingin.

Einn maður, einn einstakur maður — hversu lítið fer ekki fyrir honum innan um allt mannkynið, innan um hinn ógurlega óumræðilega grúa af mönnum, sem ganga, gengið hafa og að líkindum ganga munu yfir hina víðlendu veröld! Það er eins og einn dropi móti öllu veraldarhafinu; þó hann sje tekinn burt,

þá saknar hans enginn, og þó honum sje við bætt, þá sjer enginn mun á hafinu. Hversu miklir sem vjer þykjumst, hversu opt sem vjer viljum gjöra vorar athafnir, vora gleði og vora hryggð eins og að miðpunkti veraldarinnar, þá verður samt þóttinn að hverfa, undir eins og vjer rennum huga vorum til alheimsins. Einstöku mönnum hefir að sönnu tekizt að gjöra líf sitt merkilegt, að rita nafn sitt í bækur ókominna alda, og láta athafnir sínar ná út yfir æfiskeið það, er þeim var ákveðið. Þó var það langt um minna undir sjálfum þeim komið, enn ásigkomulagi þeirra tíma er þeir voru á settir, en einkum undir hinni æðri stjórn, sem er yfir hverjum manni; margir sáðu hinu sama fræi, og sáðu með jafnri kunnáttu og jöfnu kappi, en fáeinir hittu góða jörð, og þeirra fræ fjekk af himninum hentuga tíma. En þeir, sem mörgum mönnum, og næstum allri veröldinni, hefir orðið starsýnt á um stundarsakir, þeir hafa horfið eins og aðrir, og optast nær hafa verk þeirra að litlum tíma liðnum að engu orðið, að minnsta kosti sáu þeir sjaldan sjálfir ávexti erfiðis síns; þeir voru, eins og aðrir, líkir blómi jurtarinnar; sólin rann upp með brennandi hita, og jurtin skrælnaði, og blómið datt af, og hin fagra mynd, er á því var, skemmdist (Jak. 1, 11). Hinn stríði straumur lífsins rennur yfir manninn og allt hvað hann á, og grefur sig undir varða þann, er hann hugði geyma skyldi nafn sitt um allar aldir; allur sá fögnuður, er mennirnir hafa sagt um í fyrndinni: komið, og sjáið hann, og lofið gæfu vora! honum hafa menn fyrir löngu gleymt; og öll sú hryggð, er mennirnir hafa sagt um í fyrndinni: komið, og hryggizt með oss! henni hafa menn fyrir löngu gleymt.

En hvað satt sem þetta er, og hvað vel sem slíkar hugsanir eru lagaðar til að lækka í oss drambsemi þá, er á svo auðvelt inngöngu í hjörtu vor, þá ber oss vel að gæta þess, að þær gjöri oss ekki hirðulausa um annara manna hagi. „Einn einstakur maður, einn vesæll maður“, hversu opt heyrum vjer ekki þessi orð sögð með slíkri fyrirlitning, eins og litlu varðaði um eins manns líf eða dauða, heill eða óhamingju, hversu óttaleg getur hún ekki orðið mörgum sinnum, þessi fyrirlitning á mönnum,

þegar þeir, sem trúað er fyrir öðrum mönnum, hafa þá fyrir verkfæri til að ná tilgangi sínum, þegar þeir umhugsunarlaust selja líf margra þúsunda og heill margra þúsunda, af drottnunargirni sinni eða hefndargirni, eða öðrum illum girndum, og álíta allt mannlegt kringum sig, eins og leiktafl, sem þeir megi fara með eins og þeim ræður við að horfa. Og þeir, sem mest fyrirlíta mennina kringum sig, eru optast úr þeirra flokki, sem mest líta á sig; rangsnúinn hugur þeirra ímyndar sjer, að hinir aðrir sjeu skapaðir þeirra vegna. En ert þú þá í rauninni meiri enn hinir? ert þú betri tegundar enn þeir? Guð ljet allra mannanna kynþætti kvíslast út af einum ættstofni, um alla jarðarkringluna (Post. 17, 26); hversu alvarlega er oss ekki sagt þetta með þeirri rödd, sem vjer megum ekki dirfast að fyrirlíta; það er Faðir allra er segir oss: þjer eruð allir bræður.

Að vísu byggir þessi eina kynkvísl jörðina, aðgreind eptir löndum, tungum, háttum og hegðun, lit og öðru útliti; jeg sje mismuninn, sem tíð og tímar, himinbelti og margar aðrar orsakir hafa til vegar komið, og forfeður þjóðanna, ef til vill, hafa verið fæddir með, af því Guð vildi, að margbreytnin á hinu tilveranda væri sem mest; en jeg sje einnig líkingu, sem mismunurinn aldrei fær afmáð; í rauninni lítum vjer hið sama mannlega andlit, þó myndirnar sjeu ólíkar, og heyrum hina sömu rödd, þó tungurnar sjeu ólíkar, ekki dýrslega rödd, heldur mannlega, sem lætur í ljósi greinilegar hugsanir, og skýrir frá tilfinningum, sem eru náskyldar tilfinningum sjálfra vor. Að sönnu er öll sú þekking, er menn hingað til eru búnir að afla sjer, ónóg til að sýna, hvernig hinir tvístruðu, og svo mjög úrættuðu og villtu kynþættir manna hafi dreifzt út um löndin; en þar sem vjer höfum sögur af, sjáum vjer þó, hvernig ættir þeirra koma saman — opt á undarlegan hátt. Og getur nokkur í alvöru trúað því, að mennirnir hafi sprottið eða komið upp úr jörðinni í ýmsum löndum, eða að ýms dýrakyn hafi hjer og hvar smátt og smátt öðlazt mannlega náttúru? Getur nokkur trúað því, að sjerhver þessara kynþátta hafi búið sjer til sjálfur, tilsagnarlaust og án þess þeir hefði afskipti hver af öðrum, allt það, er vjer hvarvetna verðum varir við, að líkt er með þeim?

Vjer vitum enga þjóð, sem ekki eigi sjer mál, til að skýra með því frá hugsunum sínum; en margar þjóðir yrðu þó að vera til, sem væru ekki búnar að búa sjer til mál, ef það væri ekki arfleifð, sem gengið hefði mann frá manni, sem vel mátti breyta og snúa, en aldrei gleyma, úr því einu sinni var búið að læra málið. Vjer vitum enga þjóð, sem ekki kveikir sjer eld til hita og birtu, en ef sú þekking væri ekki að erfðum fengin, þá mundu margar þjóðir eiga eptir að öðlast hana. Vjer vitum margar og ýmislegar þjóðir, sem allar færa guðum sínum fórnir, jafnvel friðþægingar fórnir — hvernig eigum vjer að ímynda oss, að þær hafi allar búið sjer til einmitt slíka guðsdýrkun af sjálfum sjer? Leiðumst vjer ekki ósjálfrátt á þá hugmynd, að mannkynið hafi snemma á öldum reist ölturu handa guðlegri veru, og kennt börnum sínum að bera fram á þau ósaknæmar fórnir, og er sú guðsdýrkun barnalegum mönnum einkar eðlileg, en síðan hafi spillingin gjört þennan guðrækilega sið andstyggilegan? Ó! hvert sem vjer lítum, og því betur sem vjer rannsökum, þess auðsærra verður það, að rótin er ein, sem allur stofninn hefir af sprottið, og kvíslast svo í hinar mörgu greinar; að allir kynþættir mannanna hafa kvíslazt út af einum ættstofni um alla jarðarkringluna. Mannkynið er ekki mörg kynferði, og ólíks uppruna, ætluð til að herja hvert á annað og eyða hvert öðru, heldur er það að eins einn líkami með mörgum limum, sem hver á að hjálpa öðrum og þjóna. Mannkynið er ekki margir ættstofnar, og sumum þeirra ætlað ljós og frelsi og yfirdrottnun, en hinum fávizka og ánauð; en hversu ýmislega ástatt sem orðið er fyrir þjóðunum, og hversu langan veg sem sumar þeirra eiga eptir, áður þær nái aptur rjettu manneðli, þá mega og eiga þær allar að ganga þann veg, og sjerhverjum skynsemigæddum jarðarbúa er ætluð þekking og andleg gæði, eins og honum eru ætluð rjettindi og lögleg eign stundlegra hluta. Hvaða maður sem mætir þjer, og sýnist þjer hann ókunnuglegur í hegðun, og skilur þú ekki þá tungu, er hann mælir, og biður hann þig ljetta hörmum sínum og hjálpa sjer, þá er það ekki vandalaus maður, heldur bróðir þinn, og þú átt eptir mætti að hjálpa honum og liðsinna, eins og þú vilt að þjer sje gjört, þegar þú leitar annara manna.

En þó að mjer sje bæði ljúft og skylt, að hjálpa einstökum mönnum, sem þurfa aðstoðar minnar við; þó að eintóm vitneskjan um annars manns bágindi geti komið mjer til að kenna í brjósti um hann, þótt vandalaus sje: þá get jeg samt ekki borið á móti því, að til eru margar þúsundir manna umhverfis mig, sem jeg hirði lítið um, hvort vel líður eða illa; þeir líða fram hjá mjer næstum eins og skuggar, þeir hverfa, og jeg spyr ekki að þeim. Ekki að eins vantar mína hönd mátt til að hjálpa, heldur vantar og hjarta mitt viðkvæmni; jeg reyni til að auka hana, en það verða þó að eins fáir af fjöldanum er hún nær til. Þannig hirða flestir menn lítið hver um annan, og margir bera byrði sína, og berjast baráttu sinni, og andvarpa síðasta sinni, nærri því án þess nokkur gefi gætur að því. Hversu mikilvæg, hversu huggunarfull eru því þessi orð, sem hljóma hjer að ofan: Selja menn ekki fimm titlinga fyrir tvo smápeninga, og þó gleymir Guð engum þeirra (Lúk. 12, 6). Þessi orð eru ekki komin frá oss, heldur frá h o n u m, sem Guð helgaði og sendi í heiminn til að opinbera Guð; það er frá h o n u m, sem einnig hefir sagt: þjer eruð meira verðir, enn margir titlingar. Ó! að jeg gæti lýst þeirri tilfinning, sem gagntekur hjarta mitt, þegar jeg reyni til að ímynda mjer allan grúa mannanna, bæði þá, sem nú byggja hana, og þá, sem áður hafa byggt hana, og hnígið síðan til moldar, en leiði þeirra eru fyrir löngu horfin, og nöfn þeirra hafa óminnisöldur fyrir löngu í burt borið; þegar hugur minn truflast af hinni ógurlegu mergð, en jeg segi við sjálfan mig: e n g u m a f þ e i m h e f i r G u ð g l e y m t. Þessi orð gjöra mennina svo mikils verða í augum mjer; þó jeg megni ekki að taka þátt í kjörum allra þeirra, má jeg samt ekki fyrirlíta neinn af þeim, ekki hinn lítilmótlegasta. Þessi orð gjöra og sjálfan mig nokkurs verðan í tölu annara manna; þó mjer sýnist sjálfur jeg svo lítilmótlegur, þó mjer sýnist stundum sjálfur jeg og allt mitt athæfi svo einskisvert: ó! þá er samt eitt auga til, sem ekki hleypur yfir mig, sem gáir að mjer mitt í grúanum, sem sjer mig þegar jeg aðhefst gott, og þegar jeg aðhefst illt; þó mjer finnist jeg vera einmana og yfirgefinn, og allir hafi gleymt mjer, og enginn sje til,

sem jeg geti leitað til, og hallað að þreyttu höfði mínu, ó! þá hefir Guð samt ekki gleymt mjer.

„Þjer eruð meira verðir enn margir titlingar“. Vjer eignum oss ekki sjálfir af stærilæti tign þessa, en sá sem skapaði jörðina gjörði líka manninn að herra jarðarinnar. Dýrin gaf Guð oss á vald, þau eiga öll að þjóna oss, og þola yfirráð vor, bæði villudýrin á eyðimörkum og stórhvelin í hafinu, og fuglar himinsins, og hver ormur sem skríður á jörðunni (1. Mós. 1, 28). Vjer megum ekki dirfast, að hafa yfirráð vor til að kvelja dýrin; Faðir allra elur einnig önn fyrir þeim, og þegar hann setti hvíldardaginn, mundi hann líka eptir dýrunum, sem þjóna oss, og vildi veita þeim hvíld. En sje líf einhvers þeirra oss til skaða, en dauði þess oss til ábata, þá mun enginn heimta blóð þess af oss. Aptur á mót er ritað: „Hver sem úthellir annars manns blóði, hans blóði skal verða úthellt af mönnum, því Guð gjörði manninn eptir sinni mynd“ (1. Mós. 9, 6). Þessi orð, sem öll heilög ritning boðar: „Guð skapaði manninn eptir sinni mynd“ (1. Mós. 1, 27), þau gefa manninum þá hina miklu tign hans. Þó jeg sje kallaður jarðarinnar sonur, þá er jeg þó einnig af ætt Guðs (Post. 17, 28); Drottinn jarðarinnar og Skapari hennar hefir þó sett mynd sína á manninn, og gefið manninum yfirráð yfir jörðunni, og gefið honum þær náttúrur, sem þar til þurftu.

Að sönnu er í rauninni valdið í sálunni, en hún gæti engu til leiðar komið í veröldinni, ef líkaminn væri ekki gjörður til að sýna hvað í sálunni býr, og til að vera verkfæri hennar. Augu vor lukust upp til að sjá hlutina umhverfis oss; þeim var ekki snúið niður til jarðar, eins og augum dýranna, heldur gengur maðurinn upprjettur og lítur yfir yfirborð jarðar, og rennir augum frá jörð til himins. Augað er spegill, er dýrð himins og jarðar speglar sig í, einnig kemur í því hinn innri heimur í ljós, það breytir útliti sínu eptir huldustu tilfinningum hjarta þíns, og hugrenningar þínar les jeg í augum þínum. Og uppsprettu táranna setti Guð í auga þitt, ekki til þess að þau streymi beisklega, sjálfum þjer til óprýðis og öðrum til kvalar, heldur til þess, að tárin í auga þínu fegri gleði þína, og mýki hryggð þína; og varirnar lagaði

Guð til gleði, og ástar, og blíðubrosa. Samt er það ekki andlitssvipurinn einn, og bros varanna og tár augnanna, er sýna hvað með þjer býr, því fram af vörunum kemur einnig hin skiljanlega rödd, sem opinberar hugrenningar sálarinnar, skýrir frá gleði þinni og hryggð, og boðar vilja þinn. Og eyra mitt heyrir ekki röddina á sama hátt og eyra dýrsins, sem ekki heyrir annað enn óljósan hljóm, heldur verð jeg var við hina minnstu breyting raddar þinnar; og Guð hefir gjört mannseyrað svo næmt, að það getur metið mismun og gildi raddanna, og heyrt hinn sæla samhljóm margra radda hljóðfæralistarinnar og náttúrunnar. Enn er og hin myndandi mannshönd, og má hana telja haglegasta líkamasmíði Guðs; því þegar vjer skoðum náttúruna eina saman, söknum vjer ætíð mannlegra handaverka. Jafnvel aldingarðinn Eden átti maðurinn að rækta og verja, hvað fagur sem hann var, og hvað góðir sem ávextir hans voru (1. Mós. 2, 15). Ef þú skoðar það, er menn kalla óbyggðir, ógurleg fjöll og hátignarleg, dynjandi fossa og þykka skóga; þar sem eikurnar með óteljandi greinum flækjast hver í aðra, en dýrahjarðirnar brjótast í gegnum þá, og fuglagrúinn verpir í eikunum: þá saknar þú ætíð einhvers, þangað til þú sjer nokkurn vott mannlegrar starfsemi, annaðhvort hús, er mennirnir hafi byggt sjer til skjóls móti óveðrum, eða smíði, er mennirnir hafi þröngvað með hinum stranga straumi, til að flýta fyrir verkum þeirra, og til að bera byrðir þeirra, eða braut, er mennirnir hafi gjört í gegnum hina þykku skóga, eða grafir, sem þeir hafi grafið niður í fylgskni fjallanna — þangað til þú finnur eitthvað, er ber vitni þess, að þar hafi maðurinn unnið eptir ákvörðun sinni, þar hafi jörðin þjónað herra sínum. Og allt þetta er einungis af því komið, að Guð setti öll hin haglegu liðamót á mannshöndina.

Hversu fagur og hátignarlegur er líkami mannsins í blóma sínum! En þessi hinn sami líkami bindur einnig manninn við jörðina, og gjörir hann jarðneskum áhrifum undirorpinn. Þú þarfnast margs konar jarðneskra nauðsynja; þarfirnar vekja krapta þína og styrkja þá; þú þröngvar jörðinni til að bæta úr þeim, og verður því fegnari bótinni, er þú hlauzt að erfiða, og hafa sjálfur fyrir að ná henni. Þar á ofan eru til kraptar, sem eru sterkari enn kraptar

líkamans, og ekki að eins fella hann á endanum og leysa hann í sundur, heldur raska löngu áður dýrð hans, og þegar á unga aldri tálma honum í að ná slíkri fegurð og afli, er honum var ætlað, en síðan banna þeir honum optsinnis að vinna. Þú leitar þjer lækninga, og finnur þær á stundum, en mörg eru meinin, sem engin mannleg kunnátta getur grætt. Hversu opt sjáum vjer ekki, að blómið skemmist áður enn það lýkst upp! sjáum augu, sem ekki sjá, eyru, sem ekki heyra, og tungu, sem ekki talar skilmerkilega — var þá allt þetta skapað til einskis? náði Skaparinn þar ekki tilgangi sínum? Hver máttur, er honum er aptrað, bendir til frelsis, og allir fjötrar mannanna benda til lausnar. Ef þú skoðar manninn í því ástandi, er vjer nú verðum að kalla eðlilegt ástand hans, þá sjerðu ekki annað enn nokkurs konar leifar, skemmda mynd, fjötraðan höfðingja. En þetta ástand, sem nú er manninum eðlilegt, er honum þó í rauninni ekki eðlilegt; í því er haggað upprunalegu eðli hans, og það getur ekki verið æðsta ákvörðun mannsins að sitja í slíkum fjötrum. Hver tálmun og hver mæða á jörðunni kveikir í oss grun um, að Drottinn muni senda oss Frelsara, til að boða herteknum lausn, blindum, að þeir fái sjóuina aptur, og þjáðum frelsi (Lúk. 4, 18).

En það sem í hjörtum allra armæddra manna er grunur, það er í hjörtum kristinna manna stöðug trú; þeir vita að sá hefir verið í veröldinni, sem leysir alla fjötra af þeim, er á hann trúa, og á síðan mun gefa þeim fullt frelsi, fyrst andlegt, en síðan og hið líkamlega frelsið. Einnig í þessu tilliti eru kraptaverk Krists mjög merkileg, því þau sýna öll mátt hans og vilja til að frelsa. Þegar þeir forðum fóru til hans með heyrnarlausan mann og málhaltan, þá snerti hann manninn og sagði: opna þig! og jafnskjótt opnuðust hlustir hans, og hapt tungu hans losnaði, og hann talaði skýrt (Mark. 7, 32). Þetta var, og átti að vera, góðverk við einstakan mann; Drottinn ljet sjer annt um hinn ófarsæla mann; þó hann væri lítilmótlegur, var hann þó einn af bræðrum hans; en kraptaverk þetta var líka bending frá þeim, er á síðan mun leysa alla fjötraða limi. Við sjerhvert blindað auga, og sjerhvert lokað eyra, og sjerhverja fjötraða tungu mun á síðan hljóma *Ephphata!*

(opna þig!), því líkami mannsins mun einnig dýrðlegur verða, og sjerhver mannleg mynd öðlast til fullnustu þá dýrð, er henni var ætluð. Að vísu getur ekki hold og blóð öðlazt guðsríki, nje hið dauðlega ódauðleikann (1. Kor. 15, 50). Þó trúum vjer upprisu líkamans, og væntum Lausnarans, Drottins vors, Jesú Krists, er mun ummynda niðurlægingar líkami vora og gjöra þá líka dýrðar líkama sínum, með hinum sama krapti, er hann leggur alla hluti undir sig með (Fil. 3, 20. 21).

---

# 18.

## MAÐURINN.

### Síðari hugleiðingin.

Það er harla margt, er vjer höfum um að biðja — heilsa og friður og frjófsemi og gæfa; vjer vitum ekki, hvernig oss ber að biðja um neitt af þessu; vjer segjum: ef verða má, þá komi það, er vjer köllum blessun, þá líði frá oss hinn beiski kaleikur; en bætum þessu við: verði samt ekki vor vilji, heldur þinn, himneski Faðir! Ó! að vjer sæum, að til er annað æðra og mikilvægara að biðja um, enn allt saman þetta. Já, látum oss segja það hátt og djarflega og finna til þess í hjarta voru: að til er það, sem betra er, enn ríkulegustu gjafir jarðarinnar og stundlegur friður og frelsun líkamans af skorti, sjúkdómi, dauða; en það er frelsun sálarinnar. Um hana skulum vjer fyrst biðja og um fram alla hluti; þar biðjum vjer án hikunar og efa, og mun Guð veita oss áheyrn, ef vjer biðjum með trúnaðartrausti.

„Þó vor ytri maður spillist, endurnýjast samt vor innri maður dag frá degi“ (2. Kor. 4, 16). Sannlega var sá maður sæll, er þessi orð ritaði. Að vísu kallaði heimurinn hann ekki sælan, og

skömmu framar hefir Páll sjálfur sagzt vera þjakaður í öllu ofsóttur, berandi deyðingu Jesú á líkamanum; en með öllu því, sem hann hafði reynt hryggilegt í veröldinni, hafði hann reynt það, sem er gleðilegast af öllu: að í oss býr nokkuð það, er sjálfrátt er fyrir hinu ytra, og getur endurnýjazt, eflzt, aukizt, meðan hið ytra eyðist.

Mannlegur líkami er dásamlegur, vjer hljótum að finna í oss nokkurs konar lotningu, þegar vjer sjáum krapt hans og fegurð, því Guð hefir einnig sett merki sitt á hann. En fyrir þenna líkama erum vjer þó bendlaðir við jörðina, og henni háðir; líkaminn breytist og hrörnar, eptir óbreytanlegu lögmáli, jafnvel án vorra valda. En til er og annað í oss, sem einnig getur breyzt og spillzt, þó ekki sje eptir hinu sama lögmáli; það getur spillzt, þó líkamanum líði vel, enda getur það og endurnýjazt, þó að líkamanum líði illa. Þegar vjer því snúum huganum til sjálfra vor, þá megum vjer ekki nema staðar við hinn ytra mann, heldur skulum vjer prófa að komast inn að hinum innra manni, og horfa niður í djúp sálarinnar.

Í djúp sálarinnar, segi jeg, því að vísu er sálin djúp og órannsakanleg; náttúran í kringum oss er ekki ein saman marga vega leyndardómsfull — því maðurinn skilur ekki náttúru sjálfs sín, og eðli hans ber upp fyrir honum marga þá ráðgátu, er hann fær aldreigi úr leyst hjer á jörðu. En eins og vjer heyrum glöggt þyt vindanna, þótt vjer höfum ekki rannsakað híbýli þeirra, og vitum ekki, hvaðan þeir komi og hvert þeir fari: eins verðum vjer og varir við hin styrku öfl sálarinnar, þótt oss sje ókunnugt, með hverjum hætti hún er fram runnin af hinni myrku uppsprettu sinni.

Skilningarvitin, til að verða var við hlutina, sem manninum bera fyrir augu og eyru, hver eptir annan — þau hefir hann ekki fram yfir dýrin. Að sönnu grípur hann í huga sinn rjettari myndir hlutanna, heldur enn dýrin, að öllu saman lögðu, en þó hefir margt dýr hvassari skilningarvit enn maðurinn. Eins hafa dýrin nokkurs konar minni, svo að hundurinn þekkir húsbónda sinn, og fuglinn hreiður sitt, og flest dýr að minnsta kosti þekkja aptur næsta dag það, sem þau hafa sjeð daginn áður; en hvað er þetta samt í

samanburði við auðæfi minnisins í mannlegri sálu? því sálin er ekki eins og alda sjáfarins, þar sem hver stafur hverfur jafnskjótt og hann er á ölduna ristur; því þá yrði enginn fróðleikur numinn, og engu mannlegu lífi lifað. Guð gaf sálu mannsins afl til að halda föstum hugmyndum þeim, er þar vakna, og geyma þær þar, er ekkert líkamlegt ofríki fær þeim í burtu náð; það sem þjer er utan sálar, það er ekki í þínu valdi, svo þjer sje óhætt að segja; þessu skal jeg halda svo fast, að enginn slíti það frá mjer; en það sem þú varðveitir í sálu þinni, það er í þínu valdi, þú heldur minningunni, þó að sjálfur hluturinn sje fyrir löngu liðinn frá augum þjer, og af minningaforðanum, er þú hefir saman dregið, heimtir þú ýmist fram fornt eða nýtt, eptir því sem þú vilt. það er sjálfsagt, að hinar fornu minningar fjarlægjast sálina smátt og smátt, og að einhver þoka smábreiðist út yfir þær, eins og yfir land, sem er að hverfa, svo að vjer margopt verðum að leita að því, er vjer höfum fólgið í sálunni, og finnum það ekki að heldur; en opt finnum vjer samt um síðir, það er vjer leituðum að, svo að það hefir ekki verið horfið, en verið í sálunni, þó hún gæti ekki komið því fyrir sig um stundarsakir. Hversu dásamlega renna opt fornar minningar upp af djúpi því, er þær hafa langa hríð í dulizt! hversu vakandi verður opt fyrir gamalmenninu það, sem hann sá í æsku! því þegar hið nálæga dofnar, þá vaknar hið umliðna úr dáinu. Og oss mundi vera óhætt að segja, að það sem á annað borð er skrifað í sálina fullskýrt, það verður þar um aldur og æfi. Að sönnu geta komið döpur elliár, þá er hið umliðna og hið nálæga sveipar sig myrkri, svo hugurinn megnar ekki að heimta neitt fram af auðæfum sínum. En þannig fer oss hvert kvöld; meðan að blundurinn er að breiða á oss skuggablæju sína, hjúpast öll auðæfi sálarinnar smátt og smátt dymmri þoku, nema þær óglöggar myndir, er vakna upp í draumunum. En á morgnana, þegar vjer slítum oss úr faðmlagi svefnsins, þá hefir sálin engu týnt, allar hugmyndir verða henni jafnskýrar og áður, og það ber við á stundum, að mönnum hugsast í svefni það, sem þeir mundu ekki áður enn þeir sofnuðu, er hugurinn var daufur og tvístraður af háfaða dagsins. Eins mun fara eptir kvöld þessa lífs, þegar

hinn síðasti blundur svæfir öfl sálarinnar, hvert eptir annað, en slökkur ekki neitt af þeim, að þá mun ljóma endurnýjandi morgun; þá vaknar sálin að nýju, og hefir þá engu týnt af öllu því, er hún hafði fullaflað hjer á jörðu, og fólgið var í því djúpi, er ellin og dauðinn fá ekki að komizt.

Auk þess sem maðurinn getur munað það, sem hann hefir áður þekkt eða ritað, getur hann og, með háleitri og ágætri aðstoð ímyndunaraflsins, lifað upp aptur það sem hann hefir lifað. Víst veit jeg, hversu skaðsamur eldur getur orðið af krapti þessum, þegar hann gjörir sig að þræli holdlegra fýsna, eða þegar honum er ekki stjórnað, og hann brýzt út yfir takmörk hins tilveranda, til þess að svala sjer á draumum og vitfirrast æ því meir, og þegar hann lætur mönnum leiðast hið nálæga, þar sem þeir hafa þó hvern dag og hverja stund skylduverk að vinna. En mundi jeg ekki kannast við upphaflegt ágæti sjerhverrar gáfu, er Guð hefir sálunni veitta — mundi jeg ekki lofa þann krapt, er sálin gæti alls engar nytjar haft, hvorki hins umliðna, nje hins nálæga, nje hins ókomna, ef hann vantaði? því hvaða líf og hvaða not er í hinu nálæga, þegar það ber oss fyrir augu bert og dauft og á stangli, en ekki í einu lagi og í fullu sambandi hvað við annað? Hvað er í það varið, að muna nöfn og tölur og staði, þegar það sem nafninu er nefnt, og tölunni er talið, verður ekki vakandi fyrir oss? það er ímyndunaraflinu að þakka, að liðin æfi er sem óliðin, og að gömlum mönnum eru enn ljósar í huga æskuvonir þeirra og framkvæmdir fullorðinsáranna. það er ímyndunaraflinu að þakka, að vjer eigum enn fjarlæga ástvini vora, sem eru hinu megin hafs og hárra fjalla, eða byrgðir í gröfunum. það er ímyndunaraflinu að þakka, að vjer getum enn vitjað hinna ágætu manna, er uppi voru í fornöld, og að það er enn eins og hvert ágætisverk, er í fyrndinni var unnið, fari fram fyrir augum oss. Kristinn maður! það er ímyndunaraflinu að þakka, að þú getur enn vitjað þeirra staða, er Drottinn þinn hefir dvalizt á; að þú ekki að eins veizt, að einu sinni hefir verið mikill spámaður, sá er menn kalla Krist, heldur heyrir þú lofsöng englanna, eins og hjarðsveinarnir í Betlehem; þú sjerð í jötunni sveininn, sem á að verða mikill og heita

Sonur hins hæsta; þú verður Drottni þínum samferða ýmist í fólksþyrpingarnar, eður í einveru á fjöll og eyðimerkur; þú fylgir honum á píslargöngu hans og setzt undir krossinn, og heyrir þau hin háleitu orð, er hann mælti í andláti sínu; þú gengur því næst til grafarinnar, er hann var í lagður, og sjerð gröfina upp ljúkast, og hinn framliðna meðal hinna lifendu, og heyrir hann enn þýða ritningarnar, allt þar til er ský himinsins nemur hann á burt, og hann snýr aptur þangað, sem hann kom.

En allur þessi auður, sem gripinn er af skilningarvitunum, varðveittur af minninu, og eins og dreginn upp af ímyndunaraflinu og sýndur sálunni í mörgum myndum og ýmislegum — allt þetta, segi jeg, er undir yfirráðum vitsins, þess hins sama vits, sem fær hlutunum allt annað skipulag, enn það er þeir sýna sig í af sjálfsdáðum; og skipar líkum hlutum saman í huganum, hversu langt sem á milli þeirra er annarstaðar, og aðgreinir ólíka hluti, hversu skammt sem á milli þeirra er þar sem þeir standa, og leitar þannig að öðru sambandi hlutanna enn því, er vjer sjáum með augunum og finnum með höndunum. Dýrið gengur meðal hinna líkamlegu hluta, og velur úr þeim eins og maðurinn, en velur það eitt, sem er skilningarvitunum þægilegt, og að því búnu, hirðir dýrið ekki um meira, því þá er líkamanum fullnægt. En undir eins og maðurinn er kominn upp fyrir dýrið, hlítir hann ekki þessari fullnægju, heldur leitar hann að sjá í gegnum yfirborð hlutanna, og skilja eðli þeirra, og vill ekki að eins aðgreina hið viðkunnanlega frá hinu óviðkunnanlega, heldur hið sanna frá hinu ranga, því sálin öðlast ekki hvíld nema í einni saman þekkingu sannleikans.

Eins og auganu leiðist ekki að sjá, eins leiðist ekki vitinu að rannsaka, það vill skilja hið hulda ekki síður enn hið opinbera, það vill þekkja þau lög, er stjórna hræringum allra hluta, það vill gagnskoða himnana og öll undirdjúp, að því leyti sem það getur. En á þessu háa flugi heyrir maðurinn undarlegar raddir og leyndardómsfullar, er svo mæla: þá hluti, er sjást, fær enginn skilið, utan af þeim hlutum, er ekki sjást. Og þegar hann gengur á raddirnar, og snýr huganum úr hinum líkamlega heimi inn í hinn

andlega, þá er honum það ekki einhlítt að álykta af viti sínu, heldur kemur hið háleita og ósýnilega beint í móti honum, og hann öðlast um það hina sömu, eða þó enn fremur langt um innilegri og helgari sannfæring, enn um líkamlega hluti. Þessa gáfu, þenna skilning, er skynjar hið ósýnilega, guðlega, eilífa, köllum vjer skynsemi. Það er hún, er vjer höfum fram yfir dýrin; því nokkurs konar vit verðum vjer og að eigna hinum skynlausu dýrum, það er vit í vef ormsins og í vinnu hunangsflugunnar; þetta vit tilheyrir að sönnu ekki dýrinu sjálfu, það upphugsar ekki neitt af sjálfsdáðum og breytir ekki til, en vinnur alla hluti eins og frá upphafi veraldar; en þó kemur mikið vit fram í dýrinu, og vinnur það sem dýrið vinnur. En skynsemin er gefin manninum einum, og ef hún heyrði ekki og sæi, þá kæmi fyrir ekki hljómur hinna andlegu radda — þá kæmi það fyrir ekki, að Guð opinberaði dýrð sína í hinum sýnilega heimi — þá kæmi það fyrir ekki, að oss er boðað Krists fagnaðareyrindi; því allt er þetta einungis ætlað hinum skynsömu verum.

Samvizkan er hin innsta meðvitund vor um sjálfa oss og hinn æðra heim, og er sameinuð skynseminni. Í samvizku vorri vitum vjer um sjálfa oss, ekki einungis að vjer erum, heldur og, hvernig vjer erum; hún sjer yfir hvorttveggja — hið umliðna og hið nálæga; hún þekkir verk mín öll, hún veit einnig af leynilegum ráðum mínum, og tilgangi mínum, og af hverju því, er kom mjer til að áforma eitthvað, og stjórnaði hegðun minni. Þar að auk dæmir samvizkan um verk og hugrenningar og geðslag, og það nemur hún ekki af skilningarvitunum, nje heldur af heiminum: jeg kalla ekki neitt gott, þó það fullnægi holdlegum fýsnum, eða þó heimurinn hæli því; það er til í mjer sá dómur, er optlega hefir staðið í mót áköfustu fýsnum holdsins, og opt hefir dirfzt að fyrirlíta heimsins dóm, og fundið um leið, að hann tók það ekki upp hjá sjálfum sjer, nje heldur gjörði það af einþykkni og þrái. Því mjer hefir aldrei verið eins ósjálfrátt um dómana, og þegar jeg hefi alls ekki hirt um hvað heimurinn segði: jeg hefi ekki getað dæmt öðru vísi enn jeg hefi gjört; jeg hefi optlega áfellt sjálfan mig, fyrirdæmt verk mín og girndir mínar, og gjört lítið úr því

hrósi, er jeg hafði þegið af heiminum. Á því er auðsjeð, að samvizka mín finnur í sjer það lögmál, er jeg hefi ekki sett, og enginn maður annar, heldur hefir Guð, Skapari hjartna vorra, skrifað það á þau, eins og á hin heilögu spjöld á Síonsfjalli — það lögmál, er þiggur krapt sinn af meðvitundinni um Guð, er setti það. það er því allt eitt dómur Guðs og samvizkunnar, þegar hún er vakandi og óspillt; og hvert sinn er hún dæmir mig sýknan eða áfellir mig, þá er það eins og hljóð hins mikla lúðurs, er hljóma mun yfir öll ríki veraldarinnar, yfir alla dýrð og alla eymd, yfir lifendur og dauða.

En hversu ósjálfrátt sem mjer er að kannast við skyldu mína, þá finn jeg þó einnig í mjer frjálsan vilja, sem getur látið bugast; og þó með frjálsræði, enda brotizt undan annarlegum yfirráðum, og hlýtt öðru lögmáli, enn því, er jeg finn að jeg á að hlýða. þó að vit mitt, þegar jeg hugsa um þetta, geti flækt sig í margs konar vandræði, finn jeg þó, að jeg áforma sjálfur, og finn það með svo fullri sannfæringu, að svo framarlega jeg hafnaði henni, þá hlyti jeg að afneita öllu því, er mjer finnst vera áreiðanlegast. Jeg þarf áminninga og viðvarana Guðs og manna; jeg þarf, að jeg sje á marga vega borinn, leiddur og tiptaður, jeg þarf vernd guðlegrar forsjónar í hinu ytra, svo að jeg verði ekki leiddur í freistni, og hjálp Guðsanda í hinu innra, svo að áform mín skeiki ekki nje fyrir farist: en samt er nokkuð það til í mjer, sem er mín eign og engis annars. þó að einhver elskaði mig svo mjög, að hann vildi selja fram aleigu sína fyrir mína skuld, eður láta brenna sig lifanda, þá gæti hann samt ekki gengið í minn stað, nje áformað það, er jeg einn get áformað, og meira að segja: almættið sjálft hefir ávallt látið mig sjálfráðan allt í frá þeirri stundu, er Guð skóp mig í sinni mynd, og leysti mig af valdi ósjálfræðisins. þegar jeg frem hið illa, þá get jeg að sönnu safnað mjer afbötunum — þá get jeg reynt að eigna verkið einhverri orsök fyrir utan mig; en eigi að síður veit jeg í hjarta mínu, og hver maður veit það með mjer, að jeg hefi afbrotið; það var sjálfur jeg, er áformaði — mjer var það ekki ósjálfrátt. þegar jeg vil hið góða með föstum og einlægum vilja, þá finn jeg það

vera til í mjer, er jeg get sett til mótstöðu við gjörvalla veröldina; rænið mig gózi mínu, fjötrið hendur mínar og fætur, píníð líkama minn, ofsækið mig allt að grafarbakkanum, þar sem hverri ofsókn er lokið — og vilji minn verður þó frjáls.

Jeg vil nú ekki reyna að telja hinar mörgu fýsnir, girndir og tilfinningar í oss, er ekki eru sprottnar af holdlegri náttúru vorri. En allt það saman lagt er hinn innri maður, sá er að sönnu er sameinaður hinum ytra, en þó ekki hinn sami. Nei! það af veru minni, sem hungrar og þyrstir, og kallar auðæfi jarðarinnar sín gæði, og felur sig í faðmlagi svefnsins, þegar það er satt af jarðneskri nautn, eða þreytt af jarðneskri mæðu — það er ekki sama og hitt, er svo opt vekur líkamann af svefni hans, og svo opt stendur í mót girndum hans, og sækist eptir sannleika og rjettlæti, og elskar Guð og menn, og mænir til guðsríkis. það er jeg kalla mig, og ætíð er hið sama í öllum breytingum lífsins, í öllum vexti þess og allri hnignun — það er ekki allt eitt og líkaminn, er partar hans skiptast til án afláts, svo þegar stundir líða verður varla neitt eptir af hinu jarðneska efni, er nú er saman komið í honum. þessi líkami, sem hefir hvern partinn utan við annan, og fyllir rúm, og verður mældur að stærð, er ekki sama og það í mjer, sem er þess eðlis, að engin hugmynd um líkamlega stærð getur þar við átt; hann er ekki sama, og hugsanir þær og tilfinningar, eða meðvitund sú, er aldrei verður mæld á líkan hátt, og hæð eða breidd jarðneskra hluta. Vegna þess líkaminn er settur saman úr þessum pörtum, þess vegna bíta hann vopn, og jarðneskir kraptar geta leyst hann í sundur, svo hann verði að dupti, eins og hann áður var. En hvar er það vopn, að gangi inn í sálina? hvar er sá kraptur, að sundur fái leyst það, er jeg kalla „mig sjálfan“? Er það af moldu, svo það geti að moldu orðið? Er það af lopti, svo það geti að lopti orðið? — Óttist ekki þá, er líkamann deyða, en geta ekki líflátið sálina (Matth. 10, 28).

Og þessi hinn ómeiðanlegi, ódauðlegi andi mannsins, þessi sál, sem komin er af hinu háleita og eilífa, og sköpuð er af Guði eptir mynd sjálfs hans, getur þó spillzt, og spillist einmitt af samvist

sinni við hinn jarðneska líkama. Hann var gefinn sálunni til verkfæris, og til þess að þjóna henni og hlýða; en þó að sálin sje frjáls, þá getur hún gjört sig að ambátt líkamans, og gjört þá hluti sjer að guðum, sem ekki eru annað enn líkamleg gæði, og af þeirri afguðadýrkun slokkna eður aflagast öfl sálarinnar meir og meir; þá láta þau af völdunum, og verða tóm verkfæri þess sem illt er og óvirðulegt. Og holdið ber sigur af andanum, ekki að eins þegar menn drýgja viðbjóðslega lesti, ofát og ofdrykkju, lauslæti og illlifnað; því þegar þú, maður! metur mest af öllu aðbúð og hægindi líkamans, þá týnir sálin tign sinni og spillist af kveifarskap; og þegar þú leitar áhyggjusamlega að hverri tilfinning í líkamanum — þegar þú hefir allan hugann á að verja og varðveita þenna hinn ytra mann — þegar þú gjörir hið innra, æðra og ágætara í þjer, honum svo háð, að hvað lítið sem að líkamanum gengur, kallar þú sálunni óskylt að reyna á sig eður veita mótstöðu: þá er sálin og yfirbuguð af líkamanum. Víst er andi mannsins hjer á jörðu bendlaður við hinn jarðneska líkama, og jafnvel hinar styrku sálir þola mikla raun af þörfum og veikleika líkamans; en Guði sje lof, að þó getur hver og einn reynt, eins og postulinn, að þó hinn ytri maður spillist, getur samt hinn innri maður endurnýjast dag frá degi. En þetta reynum vjer þá að eins, er vjer lítum ekki til hinna sýnilegu hluta, heldur hinna ósýnilegu (2. Kor. 4, 18), það er: höldum oss fast við trúna. Hinn trúaði verður fyrir líkamlegri raun og líkamlegri þjáningu, eins og hver annar; en hann ber þó úr býtum laun trúarinnar, það er sáluhjálpina (1. Pjet. 1, 9).

---

# 19.

## FRÁHVARFIÐ FRÁ GUÐI.

Þegar vjer skoðum heim þenna, er vjer lifum í, þá sjáum vjer svo ómræðanlega margt gott og fagurt og háleitt, að augu vor fá það aldrei fullskoðað, og hjörtu vor fá þess aldrei fullnotið. Uppi yfir oss er hið háa, ómælilega himinhvolf, og sól dagsins og stjörnu-hersveitir næturinnar horfa niður á jörðina, er þakin er dásemdarverkum hins almáttka. Drottinn! hversu mörg eru verk þín, og öll eru þau gjörð af mikilli miskun. Hver fær talið allar þær verur, sem þú gafst líf og tilfinningu, og þar með sælu nautnarinnar? Og hver fær talið allar þær sælur, er Faðir lífsins hefir fyrirbúið hinum lifendu á jörðunni, eður öll auðæfi þau, er fylla fjöll og dali og djúp sjáfarins? Margt af þessum auðæfum er að vísu fólgið; það verður að leita þeirra og vinna að þeim, áður enn þau verði að gagni; en Guð gjörði manninn að drottni jarðarinnar, svo að hann legði hana undir sig; Guð gaf honum hina haglegu hönd til að vinna; hann gaf honum skýrleika sálarinnar til að stjórna erfiði handanna; hann gaf honum allar hinar djúpu og ágætu gáfur, ekki að eins til að rata veg sinn á jörðunni, heldur og til að rata upp til heimkynna ljóssins, þangað er sálin þráir; hann gaf honum þær tilfinningar, að hann ekki að eins finnur í sjer fullnægju eins og dýrin fyrir neðan hann, heldur og sælu eins og englarnir fyrir ofan hann. Sjá! Guð seður ekki að eins munna vora á fæðslu, heldur og hjörtu vor á gleði.

Er þá lífið á jörðunni, einkum líf mannanna, fagurt og auðugt og farsælt? — Ó! — Brjóst vort andvarpar af miklum þunga, þegar svara á þessari spurningu. Víst veit jeg, að þetta andvarp er optlega synd, er það sprettur af ónærgætni og trúleysi, en þorir samt nokkur að fullyrða, að hinir óvitru menn hafi einir þjáning að þola, og hinir duglausu hafi einir byrðar að bera? Hvert sem vjer lítum í veröldinni, þá sjáum vjer að sönnu Guð í furðuverkum máttar hans og vizku og miskunar; enda sjáum vjer og, að

skepna Guðs er komin úr lagi, svo að það, sem gott er, nær ekki að vaxa og þróast og verða til blessunar. Brjóst hins vitra andvarpar af miklum þunga, ekki síður enn hins óvitra, þegar lífgeislar sólarinnar breyta sjer í brennanda eld, þegar frjódropar regnsins renna saman í eyðandi vatnsföll, eður verða að hrynjanda hagli, þegar stormunum er hleypt út úr fangelsi þeirra, þegar hafið gengur á löndin, þegar iður jarðarinnar blása upp ógurlegum eldi, og þegar hræðilegar hersveitir drepsóttanna fara yfir löndin, til að eyða kröptum líkamanna og slökkva þau, hin logandi líf. Og það verður ekki varið, að hún er ill hin líkamlega þjáning, sú er öll skepnan stynur undir, jafnvel þeir, er hafa frumgróða andans, sú er og optlega breytir dýrð lífsins í þunga byrði. En ætlar nokkur, að öll þessi mæða sje að eins til vakningar, og að þessi barátta sje ekki til annars, enn til að styrkja öfl sálarinnar, svo hún vinni því ágætari sigur: þá líti sá í hug sjer, og í hug öllum oss, og mun hann þá reyna, að hið illa er ekki síður í oss, enn í kringum oss. Því að í manninum sjálfum er einnig spilling, er deyfir og aflagar hina dýrustu krapta; og þó þess sjái enn nokkrar menjar, að maðurinn hafi verið skapaður eptir Guðs mynd, þá er þó mynd hans saurguð og skemmd, svo ekki eru eptir nema leifar af henni. Hið illa í kringum oss er kallað þrautir og andstreymi, hið illa í oss er kallað synd, og syndin er spilling mannsins, og er öldungis gagnstæðileg hinu góða, og því er vera átti. Hvaðan kom syndin í veröldina, og með hverjum hætti? Er hún eins og annað skipuð af Guði manninum til góðs? Er það föst og óumflýjanleg tilskipun, að maðurinn falli í synd, og þar með í alla þá vesæld, er af syndinni fæðist? Og á maðurinn, þegar hann er þjáður af eymd, að ásaka þann, er skapaði hann, en ekki sjálfan sig?

Hjer erum vjer komnir að því hinu mikilvæga efni, hvernig hið illa sje til komið. En þó að oss sje mikil forvitni á þessu máli, og enginn fái hugsað um lífið án þess að koma þar iðulega að, þá verðum vjer þó við að kannast, að vjer getum ekki greitt úr því svo, að þá ljetti burt allri dymmunni, er á því liggur. Uppruni allra hluta er næsta myrkur og órannsakanlegur mannlegu viti, og slíkt hið sama upptök hins illa. En þó eigum

vjer ekki að segja, enda getum vjer og ekki með sanni sagt, að oss sje það öldungis ókunnugt, svo að vjer vitum ekki það sem oss er nauðsyn á, til að geta varizt hinu illa. Ef að sjómaðurinn, þegar hann er úti í reginhafi, og finnur að stormurinn tekur að þeyta ógurlega vængi yfir hinar rísandi bárur, tæki svo til orða við sjálfan sig: fyrst jeg veit ekki, stormur! hvaðan þú blæs, eða hvert þú stefnir, þá ætla jeg nú að komast fyrir það, og vita hvernig á þjer stendur, áður enn jeg legg til orustu við þig -- þá mundi stormurinn hvolfa um skipi hans og lemja það niður í hyldýpi sjáfarins, eður mölva það á hinum hörðu skerjum, meðan skipsráðandinn væri að hugsa. þess vegna fer hann öðru vísi að ráði sínu; því hann tekur eptir hvaða stefnu stormurinn hafi; hann athugar, hvort þar sjeu hvergi blindsker og voðalegir klettar, svo að skipinu sje af þeim hætta búin; hann leitar leiðbeiningar af stjörnunum; síðan setzt hann við stýri, og reynir til að forða sjer og þeim, sem á skipi eru með honum. Eins eigum vjer og ekki, í óeyrðum þessa lífs, að skjóta á frest baráttunni við hið illa, þangað til vjer finnum uppruna þess og getum leyst úr sjerhverju efamáli, er upp fyrir oss yrði borið. Hafi Guð gefið þjer marghæfar, stöðugar og skýrar gáfur, þá leitaðu svo djúpt, og farðu svo hátt, sem þú kemst, og auktu fróðleik þinn og annara manna; því Guð hefir ekki sett huga vorn mannanna á lítið svið, og bannað honum að bæra sig þaðan. En er hugur þinn tekur að fljúga sem hæst, og honum fer að verða sem villugjarnast: þá er mest nauðsyn á, að þú aðhyllist heilsusamlega kenningu Drottins vors, Jesú Krists, þá er leiðir til guðhræðslu (1. Tím. 6, 3). það er til regla í trú vorri, er kristnum manni dugir ekki að yfirgefa; og þegar vjer látum leiðast af henni, þá reynum vjer, að hún leiðir oss til þeirrar þekkingar, sem ómissandi er til þess að vekja oss og styrkja undir baráttuna við hið vonda.

þessi regla trúarinnar kennir oss í fyrsta lagi, að syndin sje fyrir einn mann inn komin í veröldinni (Rómv. 5, 12); því það er ein höfuðkenning kristinnar trúar, að syndin sje frá manninum, en ekki frá Guði. Öll góð og öll fullkomin gjöf er ofan að; fyrir því skal enginn, sá er fyrir freistingu verður, kenna

Guði um, því ekkert illt getur freistað Guðs, enda freistar hann og engis (Jak. 1, 17. 18). Eins sannarlega og Guð er ljós og ekkert myrkur er í honum (1. Jóh. 1, 5), og eins sannarlega og Guð er algóður: eins sannarlega getur hið vonda ekki haft upptök sín frá honum; og það er ekki forn samsetningur, heldur hlýtur það að vera satt, að þá er Guð hafði lokið hinu mikla verki sköpunarinnar, þá leit hann yfir allt er hann hafði gjört, og sjá, það var harla gott (1. Mós. 1, 31). það var að sönnu ekki fullkomið, því hið endanlega hefir takmörk, og leitar að nálægjast smátt og smátt fullkomleikanum. Paradís, er Guð setti manninn í, aldingarðinn, þann er Guð hafði gróðursett, átti að yrkja og verja, svo hann bæri ávöxt og yrði æ fegri; og maðurinn, þótt hann væri skapaður eptir Guðs mynd, þá skyldi hann fræðast og taka framförum, áður honum lærðist að leggja jörðina undir sig. En þá var jörðin ekki komin á vald illfúsra krapta, þá var hið vonda ekki runnið inn í hjarta mannsins, illar ástríður og óstýrilæti voru ekki búnar að æsa það, heldur var maðurinn í fullri vináttu við Guð, og stefndi öllum kröptum sínum, sjerhverjum þeirra eptir sínu eðli, stöðugt á fram til fullkomlegleikans í sannleika og rjettlæti, kærleika og friði; og þegar Guð leit á það, er hann hafði skapað, þá var maðurinn að sönnu saklaus á barnslegan hátt, og honum var ófarið fram, en þó gat Guð horft á hann með velþóknun.

Nú þar í móti — ó! þegar að eins vjer, ekki skyggnari enn vjer erum, og ekki sýnna enn oss er um hið góða, skoðum það, sem fram fer í kringum oss, og það sem fram fer í sjálfum oss, hvort getum vjer þá látið oss um munn fara, að það sje allt saman harla gott? Á þessari jörð byggir allt ranglæti; allar vondar girndir veita henni yfirgang; öll eymd sækir hana þess vegna heim;. kveinstafir undirokaðra og blóð hinna saklausu æpa þaðan allt til himins; og þegar hinn alrjettláti lítur niður á allt saman þetta — þegar hann lítur inn í hjarta mannsins, að hugur hans er vondur allt í frá barnæsku (1. Mós. 8, 24): þá ljáum vjer hinum eilífa vort mál, og vorar tilfinningar, og segjum, að Drottni liggi við að iðrast þess, er hann sköp manninn á jörð-

unni, og að honum liggi við að vera hugsjúkur út af því (1. Mós. 6, 6). Mikil og hryggileg umbreyting er orðin á jörðunni, og það getur ekki verið, að Skaparinn hafi aflagað og skemmt verk sitt, heldur hlýtur hin frjálsa skepna að hafa sjálf slitið sig úr sambandi við Guð, og viljað brjóta af sjer hið heilsusamlega ok og hin blíðu yfirráð, og gefið hinum vondu kröptum færi á sjer, og selt sig við aumu verði í smán og vesæld. Hin langa raunasaga mannkynsins byrjar á því, að maðurinn hverfur frá Guði.

Enn fremur kennir ritningin oss, að aðrir hafi horfið frá Guði fyrr enn maðurinn. Til er sá, er syndgar frá upphafi (1. Jóh. 3, 8) — það er að skilja, frá upphafi syndarinnar, en ekki frá eilífð. Því enginn er eilífur nema einn, það er, hinn almáttki, er öllu viðheldur og allt er upp runnið af, andlegt og líkamlegt, á himni og á jörðu; og hann er algóður, og allt er hann skapaði var gott í uppruna sínum, og ætlað til framfara og sælu. Er hin fyrsta óhlýðni við það er tilskipað var, hin fyrsta uppreisn, er orsakaðist af því, að sköpuð vera vildi ekki njóta gæða sinna í fjelagi við Guð og hinar sköpuðu verur, en vildi stofna ríki handa sjer einni saman — þessi upptök hins illa urðu á undan upphafi mannkynsins. Eins og lífið á jörðinni er allt saman hvað öðru æðra, í frá hinu neðsta og allt upp til mannsins, er hefir frjálsræði, meðvitund og skynsemi: eins grunar oss, og ritningin kennir oss með fullum vísdómi, að fyrir ofan mennina, þá sjeu andlegar verur, er í uppruna sínum hafi verið líkari Guði og gæddar meiri kröptum til að þjóna og framkvæma boð hans (Sálm. 103, 8). En þær voru einnig frjálsar og endanlegar verur, og tveir vegir lágu fyrir þeim: annar til uppsprettu ljóssins og æ sælla samfjelags við Guð, en annar á burt frá Guði og ljósinu og sælunni, til þrjózku og uppreistar út í myrkur glötunarinnar. Þeir gátu fallið, og fjellu sumir, og Guð þyrmdi ekki þeim englum, er syndguðu, heldur steypti þeim niður í helvíti, og setti þá í fjötur myrkranna, svo að þeir geymist til dómsins (2. Pjet. 2, 4). Víst eru þeir fjötraðir, og á valdi hins almáttka, og fá ekki komizt út af því sviði, er hann hefir markað athöfnum

þeirra, og megna alls ekkert án hans leyfis — alls ekkert, nema það sem Guði þóknast að láta snúast til góðs þeim, er óttast hann. En Guð stjórnar jörðinni á þann hátt, að hann lýstur ekki þegar hina vondu með eldingum sínum, heldur lofar hann þeim að freista hinna guðhræddu, þeim til eflingar, og lofar þeim að magnast í vonzkunni, svo hið vonda hrapi því dýpra niður, en hið góða öðlist því dýrðlegri sigur; og á sama hátt stjórnar Guð alheimi og hinum andlegu hlutum, er ekki að eins fylla upp þenna heim, heldur og aðra heima. Það er til illskufullt andlegt vald, það er freistar og spillir — það er: vald myrkranna, sem á sjer aðsetur í undirdjúpinu, og viðbúið er að svelgja hvern er á jörðunni lifir.

Höggormurinn var þegar í Paradís, enda felst hann og alla æfi síðan í sjerhverri Paradís sakleysisins. Hvort getur nokkur, sá er les hina helgu frásögu, haft sjer í huga einungis óbreyttan höggorm, og gjört sjer í hugarlund, annaðhvort að eintómur höggormur hafi risið upp og farið að tala, eður að eins etið af ávexti trjesins, en konan sjálf talað þessi orð, er höggorminum eru eignuð? Frásagan öll er að vísu langt um dýpri þýðingar, svo sem Kristur sjálfur sýnist að vísa til, þegar hann segir: Djöfullinn var morðingi frá upphafi, og var ekki stöðugur í sannleikanum, því sannleiki er ekki í honum; þegar hann fer með lygi, þá talar hann eins og honum er eðlilegast, því hann er lygari og faðir lyginnar (Jóh. 8, 44). Á flestar tungur merkir höggormurinn hið illa; það skríður og læðist, eins og höggormur, innan um blómin í aldingörðunum, og fer aldrei beint, heldur í einlæga króka; það hefir breytilega fegurð, eins og höggormurinn, og er skreytt margháttuðum litum, og þó ískyggilega; það ræður helzt á þá, sem ekki eru varir um sig eður sofa, enda reynir mátt sinn á hinum, er þekkja hættuna og hræðast hana, eins og sagt er um suma höggorma, að þeir stari á vesælar skepnur og seiði þær að sjer, svo þær komist ekki út yfir seiðhringina, og renni um síðir í gin óvinarins; sárin eptir hið illa sýnast opt næsta lítil, eins og bit höggormanna, en banvænt eitur rennur samt þaðan út í hverja æð. Og hvernig sem vjer eigum að skilja þessa myrku fornsögu

í fyrstu bók ritningarinnar að hverju atviki til, þá dettur oss sjálfkrafa sá í hug, er í hinni síðustu bók ritningarinnar heitir hinn mikli dreki, hinn forni ormur, sá er kallaður sje djöfull og andskoti, og villi gjörvalla heimsbyggðina (Opinb. 12, 9). Veit jeg víst, að nú kalla menn þetta úrelta hjátrú, enda ber jeg ekki á móti því, að mjög mikil hjátrú hafi sig þar við festa, og því er miður, að hjátrúin ekki að eins fyllir sálina með eintóman hugarburð og heimskulegar ímyndanir, heldur og einnig afbakar sannindi þau, er verða á vegi hennar, og fyrirmunar þeim, að geðjast hinum skynsamari mönnum. það er sjálfsagt, að illur andi kemur hvergi í ljós, eins og honum er lýst, til að hræða þá sem einfaldir eru; það væri betur, hann sýndi sig í slíkri mynd, öllum til skelfingar! en það er eins og postulinn fagurlega að orði kemst, oss til viðvörunar: djöfullinn sjálfur snýr sjer í ljóssengil (2. Kor. 11, 14). það verður ekki bent á, undir hvaða blómum höggormurinn hafi legið; freistarinn smeygir sjer að vísu opt og einatt inn í dýrð og kæti veraldarinnar, enda læðist hann og opt inn í fátæklegan kofa einsetumannsins, og kveikir í brjósti hans illsku og hatur og andlegan þótta. Hann er þjer nærstaddur, þegar þú ætlar þig sem óhultastan; hann er þjer nærstaddur á hverri stund ljettúðarinnar; hann er þjer nærstaddur hvert sinn er hugur þinn villist; hann er þjer nærstaddur hvert sinn er tilfinning þín slokknar; meira að segja: hann hefir optsinnis, þá er þú hafðir lypt sem hæst huga þínum, smeygt sjer inn í hjarta þitt, og hellt í það eitri hjegómagirndarinnar, svo að það hefir þótzt af lognum tilfinningum og uppgerðartárum.

Freistarinn vitjaði hinna fyrstu manna í aldingarðinum og tældi þau á ávexti þeim, er var girnilegur á að sjá, og líklegur til, að vera mundi lostætur (1. Mós. 3, 6); en það var fyrirboðinn ávöxtur. Virðist þjer hún of lítil, til svo hryggilegra afleiðinga, þessi raun, sem fyrir manninn var sett? En á það ber þjer að líta, að maðurinn var þá enn í barnæsku sinni, og það sem illt er í gjörðum manna, og hegningar er fyrir vert, er ekki komið undir hinu ytra ásigkomulagi verkanna, heldur huganum, er þau eru af sprottin. Gjörðu úr ávextinum hvað sem þjer lízt,

en athugaðu, að hann var fyrirboðinn; og fall skepnunnar var í því fólgið, að hún óhlýðnaðist Skapara sínum, og undi ekki við það, er hann hafði henni nógsamlega veitt, heldur fýktist í það, er henni var bannað, og slökkti í hjarta sínu þakklætið og lotninguna, og vildi sjálf vera löggjafi sinn og herra sinn og guð sinn.

Af þessu falli var nú að sönnu brunnur Guðs miskunar og Guðs langlundargeðs ekki apturbyrgður, en þó var nú haggað vinfenginu við hann, og sakleysinu útrýmt, og Paradís lokað, er maðurinn hafði selt sig undir yfirráð syndarinnar, og vígt sjálfan sig til mæðu hins fallna lífs og til hinna óteljandi eymda þess, og til beiskju hins líkamlega og andlega dauða. Því jafnskjótt sem hinu innra lífi var haggað, raskaðist og hið ytra; það var ekki til vonar, og gat ekki verið, að hinir föllnu menn ættu sama fyrir höndum, og mannkyninu hafði verið fyrirhugað, ef það stæði af sjer freistingarnar. Blessanin dró sig í hlje, en bölvan kom yfir jörðina.

Undarlegt samband er á milli foreldra og barna — djúp og órannsakanleg venzl sameina mannkynið allt; þú ert fæddur í líkingu feðra þinna, þú hefir slíka mynd sem hinn fyrsti forfaðir þinn, faðir allra mannlegra kynkvísla (1. Kor. 15, 49), og því er miður, að þú ert og hluttakandi hvorstveggja — glæps hans og hegningarinnar. Nú fæðist maðurinn ekki í Paradís, heldur til mæðu og áþjánar og alls kyns eymda; nú fæðist hann ekki í sakleysi — hugur hans og vilji og tilfinning eru öðruvís enn vera bæri allt í frá barnæsku. Horfðu á barn þitt, þegar er hið innra líf þess fer að láta á sjer bera, og taktu eptir, hvað það hefir af þjer erft; en þú erfðir af þínu foreldri. Þegar á barnsaldri kviknar í afkvæmi þínu illskufullur eldur eigingirninnar, órjettvísinnar, reiðinnar, hefnigirninnar og óstýrilætisins. Vera má þú brosir að látæði barnsins, því er þú sjerð af, hvað í barninu búi; en ef því er ekki stjórnað, þá er ekki örvænt, að þetta hið sama hryggi þig til dauða, og leggi þínar gráu hærur í gröfina. Þegar barnið reiðist ákaflega, og vill sjálft skera úr deilu sinni, þá er reiði þessi sprottin af öfund og þótta, og er sömu tegundar,

og sú, er því olli, að Kaín drap bróður sinn; sú fýsn í barninu, að það laumast til að gjöra það, sem því er bannað, er sömu tegundar, og sú, er því veldur, að þjófurinn seilist eptir annarlegu gózi, og sá sem ágjarn er til ríkis og yfirráða seilist eptir konunglegri kórónu, og eys niður blóði margra þúsunda, þegar er færi gefst, og kveikir upp þann eld, er eyðir þjóðum og ríkjum; vanmáttug þrjózka barnsins, þegar það vill ekki gegna, er sama þrjózkan, sem verður ofboðsleg, þegar hún magnast, og brýtur af sjer lög Guðs og allra manna.

Vjer sjáum enn í eðli mannsins hinn fegursta vott þess, að Guð hafi skapað hann eptir sinni mynd; enda finnum vjer og hins vegar, að þetta hið sama eðli er aflagað og spillt, og sú spilling er ekki að kenna hverjum einstökum manni, heldur eru allir menn í henni fæddir, með því þeir eru komnir frá Adam, þeim er fyrstur fjell. Það fæðist með oss fúsleikur til hins illa, og þegar er hjarta vort tekur að berjast, hneigist það til hins illa, og sú tilhneiging er synd, því hún hlýðir ekki lögmáli Guðs, en það er synd, sem er í gegn lögmálinu; en þótt vjer erfum tilhneiginguna, þá drýgjum vjer þó synd í hverju lögbroti. Því þó að freistarinn breiði út faðminn í móti mjer, og þó syndin sje fyrir dyrunum og stríði á mig, þá ætti jeg allt að einu að bera hana ofurliði (1. Mós. 4, 7). Gjöri jeg það ekki -- láti jeg hana bera mig ofurliði, þá er ekki Adam þar um að kenna, heldur sjálfum mjer; og með þeim hætti endurnýjar hver maður Adams fall. Því þó að til sje illskufull vera, sú er oss tæli, þá megnar hún ekki að kúga oss, og hins vegar eru til góðir andar, þeir er á oss kalla; það er undir sjálfum þjer komið, hverjum þú gegnir. Höggormurinn læðist í kringum þig; ráðist þú í mót honum, þá mun hann flýja fyrir þjer (Jak. 4, 7), en gefist þú upp, þá vefur hann sig utan um þig með þröngum bugðum, og blæs í brjóst þitt banvænu eitri og langvinnum dauða. Vaktu og biddu, gakktu á hólm, ekki að eins við spillingu veraldarinnar í kringum þig, heldur um allt fram spillinguna í sjálfum þjer; því að sönnu veitir freistarinn þjer árásir að utan, er hann er hálfu verri viðureignar, af því hann á sjer vin í hjarta þínu.

Hver einn freistast dreginn og tældur af sjálfs síns girnd; síðan, þá er girndin hefir fengið getnað, fæðir hún syndina, en, þá er syndin er fullkomnuð, fæðir hún dauða (Jak. 1, 14. 15).

---

## 20.

### SYNDIN.

Synd — það orð heyrist nú sjaldan í veröldinni; það er eins og menn haldi, að svo hart orð eigi sjaldan við um gjörðir vorar, eins og þeim virðist það ósanngjarnt, bæði við sjálfa sig og aðra, að nefna svo hörðu nafni það sem menn eru vanir að kalla mannlegar yfirsjónir, mannlegan breiskleika og mannlega bresti. En, þú hið þunga orð! þig skal hver ráðvandur maður heyra í einveru sinni, svo að þú getir sagt honum, hvað það er, sem eyðir friðnum í hjarta hans, og hvaða sjúkleiki það er, sem öll hin mörgu sárindi sálar hans eru af sprottin. Synd er lögbrot (1. Jóh. 3, 4), hún er brot hinna helgu laga, sem mennirnir hafa ekki sett, og geta því ekki heldur afmáð þau nje ónýtt þau, nje umbreytt þeim; synd er því afhvarf af þeim hinum helga vegi, þar manninum er sagt að finna framfarir og frið, afhvarf til þeirra staða, er honum hefir verið bannað að koma, þar eru lindir lífsins horfnar, en ruglingur er þar og ósemi, og þar lýkst á endanum djúp glötunarinnar upp undir fótum hins villuráfanda manns. Allar syndir hrópa ekki jafnhátt til himins, og það eru til syndir, sem ekki eru banvænar, það er að skilja ekki eru orðnar það, svo að menn eiga frá þeim apturkvæmt til hins rjetta vegar, og eiga að leita á þeim fyrirgefningar, og þurfa ekki að örvænta hennar hjá hinni eilífu líknsemi; en allt ranglæti er synd (1. Jóh. 5, 16. 17). Ætti jeg heldur að nefna það vægara nafni, ætti jeg að draga sjálfan mig á tálar og hylja hin hryggilegu sannindi

með afsökunarorðum, og draga þoku milli sjálfs mín og meðvitundar minnar? Nei! jeg skal ekki hlífa sjálfum mjer, jeg skal leitast við æ kostgæfilegar og einlæglegar að sjá sjálfan mig, eins og jeg er; jeg skal ekki reyna til að gjöra mjer hið illa geðfellt, með því að fegra nöfn þess, heldur skal jeg nefna það rjettu nafni, og segja við sjálfan mig, að í hvert skipti er jeg gjöri það, sem jeg ekki má gjöra, eður gjöri það ekki, er jeg á að gjöra, þá drýgi jeg synd; hvort sem jeg geri það óvitandi, í fásinnu af breiskleika, eða vísvitandi og af ásettu ráði, þá er það allt synd.

Það er mannlegur breiskleiki, segja menn, þess háttar brestir og breiskleikar, er loða við alla menn; og sama segi jeg, því þegar meðvitundin um syndina vaknar í brjósti mjer, hryggist jeg ekki að eins mín vegna, heldur og allra manna. Jeg kannast við, hversu mikið veldi syndarinnar er, ekki samt mjer til afbötunar, og ekki af þótta, og ekki til þess að geta gerzt dómari annara, og ekki til þess að svala öfund minni, á því að lasta það sem aðrir lofa; heldur til að brýna fyrir mjer, hversu fjarri það fer, að vjer mennirnir getum orðið slíkir sem vjer eigum að verða, ef vjer látum eðli vort eitt saman ráða. Guði sje lof! jeg hefi einnig sjeð hið góða og hið ágæta á jörðunni; jeg hefi sjeð athafnir, sem efalaust þóknuðust Guði og mönnum, jeg hefi litið inn í mörg hjörtu, þar sem byggði elska á Guði og mönnum. Þó er hryggilegt til þess að vita, að hver mannleg sál er á valdi syndarinnar; syndin hellir eitri sínu í hjarta hvers manns, fylgir honum út í skarkala veraldarinnar og aptur í kyrrð og einveru. Allar tungur segja mannlegt eðli sje veikt, að það sje flekkað og spillt, hlýtur hver að segja, sem sjer hvernig maðurinn nú er, og ímyndar sjer, hvernig hann hljóti að hafa verið, þá er hann kom frá höndum Skapara síns. Því, er það hreinleiki og sakleysi, er það meinleysi, rjettvísi og elska, sem þegar í æsku hreifir sjer í hjarta mannsins, og er til í honum, áður enn hann getur nefnt það, er lýsir sjer í orðum hans og gjörðum, og áður enn hann getur gjört greinarmun góðs og ills? Æ! það er hryggileg arfleifð, sem vjer öðlumst undir eins og vjer fæðumst, áður enn meðvitundin vaknar, og áður enn vjer erum búnir að rjetta út hendina eptir hinum

forboðna ávexti; það er barátta í oss, áður enn vjer erum búnir að ganga á vald annarshvors af herrum þeim, sem vjer höfum um að velja.

Að vísu er engin fýsn til í manninum, sú er ekki væri góð í öndverðu, því ekki eru þær gróðursettar af vanhelgum höndum, heldur af honum, er lífið skóp og gaf því lifanda anda. En eðli syndarinnar er einmitt aflögun, að maðurinn hefir aflagað það, sem gott var í öndverðu, og gjört úr því illt, til ógæfu sjálfum sjer og öðrum. Það er ekki illt, að þig hungrar og þyrstir, að þig langar til að eiga óhultan bústað, að þig langar til að gleðja þig og hressa. En það lögmál, er öll fyrirheitin fylgja, bæði þessa lífs og annars, það lögmál, er eitt saman kann og á að leiða mennina að ákvörðun sinni, það hljóðar þannig: Leitið fyrst Guðs ríkis og hans rjettlætis, þá munuð þjer fá allt þetta í viðhót (Matth. 6, 33). Ef þessi löngun til Guðs ríkis og hans rjettlætis er allra fýsna efst og æðst í hjarta þínu, þá munu þær allar gangast henni á vald, og aldrei koma þjer til þess, sem ekki á að vera. En eðli mannsins er orðið aflagað, svo að hann metur hið háleita lítils, og hið lítilvæga mikils; svo að andinn er í ánauð, þar sem hann átti að drottna. Er þetta ekki arfleifð? Þjer segið þó, að það sje eðli yðvart. Eða er það ekki synd? Hvað er þá synd, ef afhvarf af rjettum vegi og þeirri tilskipun, sem Guð hefir sett, er ekki synd, ef það er ekki synd, að sækjast fyrst eptir heiminum, og hans unaðsemdum og hans dýrð, og láta síðan Guðs ríki og hans rjettlæti koma, ef það getur rutt sjer til rúms milli alls þessa? En slíkt er hjarta mannsins, allt í frá barnæsku hans.

Að vísu gat jeg ekki að gjört, hvað mjer var úthlutað, áður enn jeg hafði vit á að kjósa; jeg veit mig ekki sekan í hinu órannsakanlega sambandi milli spillingar fyrri alda, og spillingarinnar í fyrstu tilfinningum hjarta míns. En barnið vex, og lærir að gjöra greinarmun góðs og ills, og spillingin er ekki svo rík, að lögmál Guðs finnist ekki enn ritað í hugskot vor, eins og á hin helgu spjöld, sem hver maður nemur í æsku, og týnir aldrei niður; spillingin er ekki svo rík, að maðurinn viti ekki, að hann á að óttast Guð, og halda boðorð hans. Hefir þú þá haldið þau?

Og þegar þú hjelzt þau ekki, þegar þú gjörðir ekki það, sem þú vissir var gott, og hinn betri vilji þinn vildi gjöra, eða gjörðir það, sem þú vissir var illt; varstu þá með öllu háður annarlegu valdi, er stjórnaði þjer, svo þú máttir ekki í móti standa? eða hneigstu ekki fremur af sjálfsdáðum til hins illa, sem að sönnu bjó í þjer, og ætlaði sjer að spilla þjer, en þú hefðir þó átt að drottna yfir, og það ekki yfir þjer.

Til eru syndir, sem öðrum syndum fremur eru kallaðar afbrot, og eru öldungis gagnstæðar því, sem gjöra átti. Hver getur talið mergð afbrotanna? Hver mundi geta þolað, að heyra sagt frá öllum þeim illverkum, sem framin hafa verið undir sólunni? það hrópar til himins allt hið saklausa blóð, sem úthellt hefir verið á jörðunni, það hrópar á öllum öldum úr gröf Abels og gröfum allra þeirra, sem fallið hafa fyrir bræðrum sínum, það hrópar úr gröfum spámanna, postula og píslarvotta, en seinni alda menn prýddu grafirnar, og frömdu þó sjálfir hið sama (Matth. 23, 29); það hrópar frá hverjum orustuvelli, er drottnunargirnin hefir hulið líkum, og hverjum stað, er rán og ofbeldi og illska hafa yfir gengið; þau hrópa til himins, launin, sem dregin voru af verkamönnunum, þeim er slóu lönd húsbænda sinna, sveittir og lúnir, meðan húsbændurnir ólu líkami sína eins og á skurðardegi (Jak 5, 4. 5). Ó! þú hið bjarta auga dagsins! hvað hefir þú sjeð allar þær aldir, er þú hefir gengið veg þinn frá austri til vesturs yfir hin víðlendu ríki jarðarinnar, yfir veizlurnar í höllunum, og bágindin í kotunum, yfir hina skuggalegu klefa í klaustrunum, og hin viðbjóðslegu musteri munaðarins! Og þú hið þögula myrkur næturinnar! þegar ljósið á síðan ljómar í gegnum þig, og þú átt að skýra frá því, er fram fór í dymmu þinni, og frá öllum þeim óhæfum og illvirkjum, er vængir þínir hafa orðið að skýla, þá munu mennirnir vanmegnast af hræðslu og eptirbið þeirra hluta, er hið eilífa rjettlæti, sem dvelur, en gleymir aldrei, muni senda yfir jörðina.

Til eru syndir, er menn kalla hirðuleysi — og þess vegna eru þær ekki syndir? þú ætlar þjer að rjettlæta þig, og segist ekkert illt hugsa vilja eða gjöra; en þegar þú hvorki hugsar eða vilt eða gjörir hið góða, þegar þú vanrækir skyldu þína, vanrækir

það, sem Guð og menn hafa boðið þjer, og þú hefir á hendur tekizt, þegar þú þegir, er þú átt að tala, heldur að þjer höndum, þegar þú átt að starfa, þegar þú eyðir æsku þinni, og heldur að þú eigir fyrst að fara að vinna, þegar þú ert orðinn fullvaxta, þegar þú á fullorðins aldri sofnar á miðri leið, og ætlar að láta unglingana vaka, þegar þú ber hærur þínar án sóma, og enginn sjest árangur æfi þeirrar, er þú hefir lifað, og ekkert verk, er þú hefir unnið að, og hvorki er komin speki í sálu þína, eða ráð á varir þínar: er það ekki synd? Ó! þegar, eins og opt ber við, ógirnilegt verður að búa á jörðunni, þá veldur opt það, að illar athafnir spilla henni, en líka opt það, að mennirnir af deyfð og drunga nenna ekki að rísa í móti hinu illa, og aðstoða hið góða.

Til eru syndir, er menn kalla vitanlegar; þegar einhver hefir vit á að gjöra gott, en gjörir það ekki, annaðhvort af ósvífni, eða dáðleysi, þá er það synd (Jak. 4, 17). Til eru syndir, er menn kalla óvitanlegar. Þú veizt ekki, að þú syndgar; en þegar þú loksins verður þess var, að þú hefðir getað sjeð, ef þú hefðir viljað sjá — að þú hjelzt aptur augunum, af því þú leynilega í hjarta þínu vildir ekki sjá, þegar þú verður þess var, að óvizka þín var ekki annað enn bragð óráðvendni þinnar, er þú fyrst laugst að sjálfum þjer, til þess að geta síðan logið að Guði og mönnum: dirfistu þá að segja, þú hafir ekki syndgað? Þegar Gyðingar krossfestu hinn heilaga og hinn rjettláta, er var sendur þeim til frelsis og friðþægingar, þá vissu þeir ekki hvað þeir gjörðu. Þeir hefðu getað vitað það, og áttu að vita það, og þess vegna kom blóð hans yfir þá og börn þeirra. Til eru syndir, er hver maður verður að kalla ásetningssyndir, og augljóslega þrjózkast gegn öllu, sem heilagt er; til eru líka syndir, er menn kalla breiskleika — en er það ekki synd, að þú ert breiskur, og beygist eins og reyrinn, sem vindurinn sveigir í allar áttir, ert duglaus til allrar áreynslu, og máttlausari enn hver af girndum þínum.

Til eru syndir í orðum, því mennirnir eiga á dómsdegi að lúka reikningsskap fyrir hvert illyrði, er þeir hafa mælt, því af orðum þínum muntu sýkn eða sakfelldur verða (Matth. 12, 36. 37). Það erum ekki vjer, er þannig mælum, til að refsa hver öðrum,

heldur er það hann, er Guð hefir gefið alla dóma. Og þegar kallað verður á mennina, til að lúka reikningsskap fyrir hvert orð, er þeir hafa mælt — Ó! þú hið undarlega hljóð, er myndast á vörum mannsins! þú ert að sönnu eins og vindblær, sem kemur snögglega og hverfur snögglega, þó hefir þú það til að bera, er sýnir, að maðurinn er skapaður eptir mynd hans, er talar þau orð, sem eru lifandi og öflug og beittari enn nokkurt tvíeggjað sverð (Hebr. 4, 12). Sjá! orð mannsins getur uppfrætt, hvatt, aðvarað, það getur útvegað hinu heilaga dýrð sína, getur hafið þann er viðþarf upp úr duptinu, getur satt, huggað, læknað, getur glatt hjartanlega. Orð mannsins getur líka þrjózkast og spottað, getur spillt og á tálar dregið, getur sært, hryggt, ollað óvináttu, getur læst sig inn í hjörtu annara manna, eins og með broddum, og rifið þau og slitið í sundur, getur upp æst og komið óeyrðum til leiðar í allri veröldunni. Eigi mennirnir að lúka nokkurn reikningsskap, eigi þeir að lúka reikningsskap hins góða og hins illa, er þeir hafa gjört, eiga þeir þá ekki einnig að lúka reikningsskap þeirra orða, er þeir hafa talað? Og þegar þau þá safnast saman móti oss á dómsdegi, öll illyrði, er vjer höfum mælt, öll háðungarorð, öll rógsyrði, allir órjettlátir dómar, er vjer höfum dæmt um aðra, öll fyrirlitningarorð og öll meiðandi orð, er vjer höfum sært aðra með, öll hræsnisorð, sem vjer höfum talað þvert um huga vorn, er vjer stundum höfum látið sem vjer fjellumst á hið góða, sem vjer ætluðum oss ekki að gjöra, en stundum á hið illa, sem vjer dirfðumst ekki að rísa í móti, öll falsyrði, er vjer höfum reynt til að komast frá skyldu vorri með, öll loforð, sem vjer höfum ekki ent: rjettláti Guð! láttu náð þína hylja mergð syndanna, vertu ekki harður í dómum við oss, heldur líknsamur og miskunsamur, og fyrirgef, svo sem vjer og fyrirgefum!

En vera má, að einhver segi: Lífið kallar að oss án afláts úr öllum áttum, og krefur oss tafarlaust orða og athafna; hvernig á jeg því ætíð að geta fengið tóm og tækifæri til að íhuga, hvort það og það sje með öllu leyfilegt, sje einmitt það er skyldan heimtar? hvernig á jeg að geta tekið metaskálarnar, og vegið hvert orð, áður enn jeg fel það vörunum á vald? hvernig á jeg sam-

stundis að geta hrundið efa samvizkunnar, áður enn jeg segi og gjöri það, er ekki verður aptur tekið? Ó! hin rjetta uppspretta syndarinnar er í hjartanu, því eptir eðli eikarinnar fara ávextirnir; menn geta ekki lesið vínber af þyrnum nje fíkjur af þistlum (Matth. 7, 16). það er tungunni tamast, sem hjartanu er kærast; góður maður framber gott úr góðum sjóði hjarta síns, en vondur maður framber illt úr vondum sjóði (Matth. 12, 34. 35). Ef hjartað væri hreint og gott, leitaði fyrst og um allt fram Guðs ríkis og hans rjettlætis, elskaði Guð af öllum mætti sínum, og náungann eins og sjálft sig, þá þyrftum vjer ekki með slíkri áhyggju að meta allt er oss dettur í hug, áður enn vjer látum það koma fram í orðum og gjörðum, þá mundi allt gott renna fram úr hinni góðu uppsprettu, allt það sem hreint er og sómasamlegt, og elskulegt, og loflegt; enda er ekkert sannarlega gott, nema það sem kemur frá góðu hjarta.

Innan að úr hjörtum mannanna kemur og allt illt: hórdómur og manndráp, svik og rógur, rán og gripdeildir, guðlast og drambsemi og hirðuleysi (Mark. 7, 21 nn. vv.); illur ásetningur er ætíð til í hjartanu, áður enn munnurinn mælir ill orð og áður enn höndin fremur ill verk. Í hjartanu er hin rjetta synd, sú er rís gegn Guði, sú er hæðist að lögum og reglu, sú er afneitar elsku og rjettlæti. Og þegar ótti og ógnun hamla henni frá, að koma fram í orði og verki, ertu þá rjettlátur, þó þú getir sagt: líferni mitt var hið ytra óaðfinnanlegt eptir öllum boðum lögmálsins, ef þú þarft að bæta þessu við: en í hjarta mínu bjó þó öfund og ágirnd og drambsemi og illar girndir? Nema ráðvendni yðar taki fram ráðvendni Faríseanna og hinna löglærðu, munuð þjer ekki koma í himnaríki (Matth. 5, 20).

Æ! rjettláti Guð! þegar vjer í huga vorum vekjum ímyndina um allar þær syndir, er liggja á öllu mannkyni, svo sem arfleifð frá öllum undanförnum öldum, um allar þær syndir, er hver einstakur maður hefir aukið með hina ógurlegu skuld, um allar opinberar og allar huldar syndir, um öll afbrot og allt hirðuleysi, um öll ill orð og allar illar hugrenningar, um alla spillinguna í hjörtum mannanna og allt hennar afkvæmi: þá finnum vjer, hver

að sje hin beiska uppspretta, er fljót ógæfunnar renna úr yfir jörðina. Og syndir þurfa friðþægingar við.

---

# 21.

## EYMD MANNSINS.

Vjer getum litið svo á manninn, á gáfur hans og ástand í veröldinni, að vjer gleðjumst af tilveru vorri, að vjer lofum Guð fyrir hina háleitu tign, er hann hefir veitt manninum, og tökum undir með Davíð, er hann segir: þú hefir sett manninn að eins skör lægra, enn englana; þú hefir krýnt hann vegsemd og sóma, þú hefir gjört hann að höfðingja yfir verkum handa þinna, alla hluti hefir þú lagt undir fætur honum (Sálm. 8, 6. 7). En vjer finnum einnig og hljótum optlega að finna til tilveru vorrar á þann hátt, að vjer skiljum andvarp postulans, og tökum undir með honum, er hann segir: jeg aumur maður, hver mun frelsa mig frá þessum dauðlegum líkama (Rómv. 6, 24)? því þar sem því er eins varið og postulinn segir rjett á eptir, að öll skepnan andvarpar hver með annari og þjáist hver með annari, allt til þessa dags (Rómv. 8, 22), þar sem vjer sjáum, að líf er til alstaðar í hinu skapaða, sem brjótast vill í ljós, og neyta síns hins mikla máttar og bera fram óþrjótanleg auðæfi sín, en sjáum og, að alstaðar eru skorður, er veita fyrirstöðu, og ánauð, er þjáir lífið, svo það getur ekki komið í ljós, nema dræmt og á ófullkominn hátt, einatt lemstrað og æfinlega skammvinnt, þar sem vjer á alla vegu heyrum, að kalla má, kveinstafi hins fjötraða lífs, er hryggja raddir sjálfrar gleðinnar: þá á þetta einnig heima hjá manninum, þótt hann sje höfðingi jarðarinnar og skapaður eptir Guðs mynd; fram af mannsins brjósti brjótast einnig andvarpanir, og þær eru því þyngri, því

ríkara líf það er, sem hreifir sjer í manninum, og þessar andvarpanir rísa ekki af neinu einstöku mótlæti, heldur er það hinn fjötraði andi, er kveinar af sinni mikilli eymd; sálin girnist að breiða út vængi sína, en hún er kreppt í böndum líkamans og getur ekki flogið til hæða.

Og af hverju kveinið þjer þá, börn mannanna? því gangið þjer svo örmædd leiðar yðrar? — Ef áður nefndum andvörpunum væru ljeð orð, ef mennirnir ættu að kvarta hátt yfir volæði sínu, þá mundu sumir kvarta yfir örbyrgð og hungri og veikindum, og sumir yfir kúgun og röngum dómum, eður sárum söknuði einhverra jarðneskra gæða. Ó! vjer þekkjum allir þá hersveit hörmunganna, er geysar yfir þessa jörð; en sú hin rjetta uppspretta eymdarinnar, er samt ekki í neinni þessara líkamlegra og stundlegra þjáninga; hverja byrði, er þú tækir af herðum vesælum manni, mundi samt brjóst hans þjást og stynja að nýju, þegar hin fyrsta tilfinning ljettirsins væri yfir liðin, og hann mundi þá opt og tíðum varla vita sjálfur, fyrir hverja skuld hann kveinaði. Það eru alvarleg orð og merkileg, er spámaðurinn hefir ritað: Hví stynur maðurinn alla þá stund er hann lifir? hver og einn stynur vegna synda sinna (Harmagr. 3, 39)! Syndin er hin fyrsta uppspretta allrar eymdar, og þessi hin beiska móða flóir enn yfir völlu mannlegrar æfi, svo fegurstu blóm hennar fölna.

Því laun syndarinnar eru dauðinn (Rómv. 6, 23), segir Páll postuli, og hann er þar á undan búinn að segja, að syndin hafi komið í heiminn fyrir eins manns sakir, og dauðinn vegna syndarinnar, og að dauðinn hafi runnið inn til allra manna, af því allir hafi syndgað (Rómv. 5, 12). En þegar heilög ritning nefnir dauðann í þessari grein, meinar hún og að vísu til þess dauða, sem gjörir enda á þessu voru lífi í líkamanum, því skelfing sú og sárindi, sem honum fylgja, eru sprottin af syndinni; en þar á ofan merkir það annars konar dauða, þegar talað er um að vera dauður í afbrotum og syndum (Ef. 2, 1). Það merkir slokknun hins andlega lífs, sem er í ætt við Guð og Guð hefir glætt, hins sæla lífs í Guði, þegar talað er um þá, er sitja í myrkri og í dauðans skugga (Lúk. 1, 79). Þar skín ekki ljós sannleikans, þar

heldur ekki rjettlætið mönnunum í nytsamri hlýðni, þar fyllir ekki og sameinar ekki kærleikurinn hjörtu þeirra, þar er ekki styrkleikur trúarinnar og ekki blítt ávarp vonarinnar, sem ætlað var til að leiða manninn ástúðlega frá stund til stundar, og frá stundlegum tíma til eilífðar. Samt eru ekki kraptarnir að öllu leyti dánir, þeir brjótast einatt um, heldur óstýrilátlega, og eru rangsnúnir, og einmitt af þessu sprettur eymdin öll. Ef líkaminn væri að öllu leyti dauður, þá væru engin veikindi í honum, því það er barátta lífsins gegn fyrirstöðunum, sem veldur harmkvælum veikindanna. Svo er og um hið andlega lífið, að ef það væri að öllu leyti slokknað í spilltum manni, þá væri ormurinn, sem bítur hann, einnig dáinn og eldurinn kulnaður; en einmitt af því hinir rótgrónu kraptarnir hreifa sjer enn án afláts, þó ekki samkvæmt eðli þeirra, ekki í sátt og sameiningu, ekki til æ fjálsari og æ farsælli eflingar lífinu; einmitt af því fylgir hegningin syndinni.

Þess vegna snúum vjer fyrst hugleiðingum vorum til hins innra lífsins, þegar vjer viljum hugleiða eymd mannsins, og gefum gætur að, hvers vjer verðum þar varir.

Og þá hittum vjer fyrst fyrir vanþekkinguna með öllum afleiðingum sínum. Vjer miðum ekki á þessum stað til skammsýni þeirrar, er hlýtur að vera samfara eðli og ástandi endanlegrar veru, því þar sem svo mikil þekking er til, að hún getur leitt manninn í eptirgrennslun hans og athöfnum, hversu mikið sem hann vantar á algjörða þekkingu, þar sem fyrirstöðurnar fjarlægast æ meir og meir, þar sem að er sívaxandi nálægð ljóss og birtu: þar köllum vjer ekki að sje vanþekking. Þegar vjer nefnum þetta hryggilega nafn, koma oss, ef til vill, fyrst í huga þær þjóðir, er segja má um með fullum sanni, að þær sitji í myrkri og dauðans skugga, þar sem allt það er horfið, sem manninn prýðir, þar sem allt hið æðra ljós er svo gjörsamlega slokknað, að berlega má sjá hinn helgi eldur geti ekki kviknað aptur af sjálfsdáðum, heldur verði neistinn að koma úr annari átt. En þurfum vjer að fara svo langt, til að finna vanþekkinguna og þá eymd, sem henni fylgir? Æ, því miður! einnig í grennd við oss, einnig meðal þeirra þjóða, er ala og annast hinn fagra vísi uppfræðingarinnar í skauti sínu, sjáum

vjer nógsamlega, hversu seint myrkrið þokast á burt, og hversu dapra dymmu það sendir enn allajafna inn á ljósið, sem farið er að renna upp. Einnig hjá þeim, sem orðnir eru kænir í þeirri mennt, að meta stundlegan ágóða og stundlegan halla, að gjöra sjer lífið æ hægra og viðunanlegra, og eru dugnaðarmenn í alls konar jarðneskum athöfnum; einnig hjá þeim hittum vjer þrásækilega hina grátlegustu vanþekking á aðalákvörðun lífsins, á skyldum þess og styrkleika og huggun og von; og það lítur út eins og öll löngun og allur kraptur til að afla nokkurrar háleitrar þekkingar sje gjörsamlega horfinn. Meira að segja, enda þar sem sálin er vöknuð, þar sem hún leitar af alhuga eptir sannleikanum, þar sem hún grennslast eptir uppruna hlutanna og hinu hulda sambandi þeirra, og leitar við að rannsaka alla leyndardóma, þar heyrum vjer og tíðum þá hina gömlu umkvörtun, að þar sem mikil vizka sje, þar sje og mikil hugsýki, og að hver, sem eykur þekkingu sína, hann auki einnig harmkvæli sín (Prjed. 1, 18). Því þar sem sálin er ekki leidd af neinu æðra valdi, og ekki styrkt og studd af neinum æðra krapti, þar kemst hún optlega á afvegu og verður leidd á eyðimörk, í stað þess hún átti að verða leidd að uppsprettum lífsins, þar truflast hugsanir hennar, og efasemdir þreyta hana og særa. Þetta er annars konar eymd, enn eymd þeirra, sem eyða æfi sinni í andlegri deyfð og ómennsku, það er eymd hinna vitru og spekinganna, þegar rangsnúinn hugur þeirra vill ekki nema sannindin í fyrstu, á sama hátt og fáfræðingarnir í hreinskilni hjartna þeirra; sá einn þekkir þessa eymd, sem hefir lifað þær stundir, er líkaminn þjáist á engan hátt, en sálin stynur í hljóði svo segjandi: jeg er sjúk og fátæk og blind, og án athvarfs á himni og á jörðu.

Því næst verður syndin fyrir oss, og er hún bæði orsök og afleiðing vanþekkingarinnar. Það mætti virðast undarlegt, að vjer nefnum syndina sjálfa á þessum stað, er vjer ætluðum að tala um þá eymd, sem er hegning syndarinnar; en til að geta kannast við þá eymd, er syndin leiðir yfir mennina, þurfum vjer ekki að líta á hinar aðrar þjáningar, sem henni fylgja; hún er nógu mikil þjáning sjálf, og hinir fornu spekingar hafa með sannindum sagt,

að Guð hegni syndum með syndum, því maðurinn eykur yfirráð syndarinnar yfir sjer með sjerhverri nýrri synd, er hann drýgir. Og það eru sannindi, að ok syndarinnar er ekki farsællegt, og byrði hennar er ekki ljett. Ef vjer athugum þá, sem postulinn hefir um sagt, að þeir sjeu blygðunarlausir og fremji alls konar andstyggð (Ef. 4, 19), þá eru þeir að vísu búnir að snara af sjer byrði samvizkunnar, að svo miklu leyti sem hinar helgu raddir skyldunnar og guðhræðslunnar ásaka þá ekki berlega, en samt geta þeir ekki að öllu leyti varizt leynilegu biti samvizku sinnar; hvar sem þeir fara, bera þeir með sjer þungbæra tilfinning illsku sinnar og einkisvirðis; þeir æskja opt og einatt, þótt ekki sje nema vegna stundlegrar velferðar þeirra, að þeir gætu risið á fætur úr því djúpi háðungarinnar, sem þeir eru sokknir ofan í; en þeir segjast ekki geta það. Að vísu er það ekki satt, er þeir segja, þeir ljúga einnig í þessari grein gegn samvizku sinni; en satt er það raunar, að því lengur sem maðurinn hefir verið þræll syndarinnar, því örðugra veitir honum að brjótast undan oki hennar, og með hverri nýrri synd snýr maðurinn nýtt hapt á hendur sjer. Og enda þeir, sem annaðhvort af ótta fyrir stundlegu tjóni, eður af von um stundlegan hagnað, forðast opinbera lesti, er heiminn sjálfan stuggar við, hvílíkri eymd hlaða þeir á hjarta sitt, er þeir gjöra það að bæli syndarinnar, og ala þar illar girndir, er þeir dirfast ekki að sleppa lausum. Því hvernig sem varið er hinu ytra ástandi þeirra, bera þeir jafnan helvíti í hjarta sjer, þar sem ágirnd, eða drambsemi, eða öfund, eða reiði og hatur og hefndargirni, eða losti, eða allur þessi vargasægur rífur og slítur hjartað í brjóstum þeirra. Spillingin er ekki jafnmögnuð í öllum mönnum, en þar sem syndin er ei að síður runnin inn til allra þeirra, býr einnig eymd hennar í allra manna hjörtum, og eins þeirra, sem af alhuga hafa leitað Guðs ríkis og hans rjettlætis. Hver er sá, er ekki hafi fundið sárt til þess að hinn góði vilji sje orðinn svo veikur í honum, að hann verði optlega að bugast fyrir illum girndum, að tælingar hrífi hann með sjer, að ósæmilegur ótti eða leti aptri honum. Hver er sá, er ekki hafi orðið að kveina, eins og postulinn, er hann kemst svo að orði: Viljann hefi jeg að sönnu, en jeg megna ekki að fram-

kvæma hið góða, því hið góða, sem jeg vil, það gjöri jeg ekki, en hið vonda, sem jeg vil ekki, það gjöri jeg (Rómv. 7, 18. 19). Postulinn segir ekki, að sig hafi hent þetta í hvert skipti, heldur segist hann optlega hafa fundið að hann væri svo ásigkominn; og hver er sá, er verði ekki að játa þetta ásamt honum? hver er sá, er ekki hafi orðið að reyna, sjer til angurs, að þótt ásetningur hans hafi verið hreinskilinn, og þótt hann jafnvel hafi virzt að vera styrkur og staðfastur, þá hafi hann samt þráfaldlega sjeð sig hrifinn þangað, næstum því óafvitandi, er hann vildi ekki vera kominn? það er grátlegt, að vjer skulum ekki vera styrkari og betri; en vesælir erum vjer, ef vjer látum þetta liggja oss í ljettu rúmi, ef vjer finnum ekki, að þessi veikleiki er eymd, ef vjer skiljum ekki andvarp postulans, þar sem hann kveður svo að orði, einmitt við þetta tækifæri: Jeg aumur maður! hver mun frelsa mig frá þessum dauða?

Hið rjetta eðli syndarinnar er fólgið í því, að maðurinn vill slíta sig lausan frá Guði og mönnum, og vera einn útaf fyrir sig, og hafa ekki samfjelag við neinn. En einmitt af þessu hefir syndin þunga hegningu í för með sjer, og það eru hinar miklu mætur á sjálfum sjer, og kærleiksleysið, er ríkir í spilltum hjörtum. Að vísu er sá, sem hirðir að eins um sjálfan sig, laus við allar hinar mörgu og þungu áhyggjur kærleikans, og verið getur honum þyki um stundar sakir, sem líf hans sje honum ljettbærara enn öðrum, af því hann þarf ekki að hryggjast með hinum hryggu, nje gefa neinn gaum að högum þeirra, af því hann getur látið sjer nægja, ef honum líður ekki sjálfum illa. En sá tími líður skjótt, er maðurinn þykist betur farinn á því, að hraða sjer gegnum lífið, án þess að taka viðkvæman og hreinskilinn þátt í kjörum annarra manna, og án þess að tengja hjarta sitt við nokkurn hlut; og þegar það að lokunum heppnast honum, að slíta sundur öll bönd kærleikans, að elska engan og vera af engum elskaður, þá er veröldin orðin honum auð og tóm, eins og hjartað er í brjósti hans, hann finnur ekki til neins af hryggð þeirri, er kærleikanum fylgir, en ekki heldur til neins af inndæli hans; og þótt að slíkur maður safni að sjer leigðum þjónum, þótt hann steypi sjer í alls konar soll, og leitist

við að svæfa meðvitund sína í óminnisvímu glaums og glaðværða, segir þó án afláts röddin í brjósti hans: þú ert einmana og yfirgefinn! hann á ekkert, af því hann vildi eiga allt einn. Það er að sönnu eitt í handleiðslu Guðs, að hann lætur einnig á stundum hið ástríka hjarta verða einmana statt í veröldinni; en einmitt þessi einstæðingsskapur nálægir það Guði enn þá meir, það leitar í eymd sinni til hins himneska Föður, og hann rekur það ekki burt frá sjer, hann lætur það finna til sín í honum og til hans í sjer, og veitir því á þenna hátt þau auðæfi, það missir ekki aptur, þegar það öðlast í viðbót kærleika mannanna. En að því skapi, sem syndin losar manninn við Guð, veikist og traustið og kærleikurinn, og sá sem að eins vill gefa sjálfum sjer holl ráð, og líta ekki nema á sinn hag, hann hefir að lokunum ekkert athvarf á himni nje jörðu. Þá ásakar hann, ef til vill, bæði himin og jörð, en athugar ekki, að hann hefði átt að ásaka sjálfan sig og synd sína.

Hingað til höfum vjer lýst hinni innri eymd í hjarta mannsins; hvar ættum vjer að hætta, ef vjer færum að telja fram hina ytri eymd, allar þær hörmungar, er þjaka mannkyninu? En þær eru einnig laun syndarinnar; ó maður! þessu verði hefir þú selt tign sálar þinnar, og selt Guð þinn og ríki hans. Ef vjer ímyndum oss, að syndin hefði ekki komið í heiminn, hvílík eymdafjöld væri þá afmáð! því stríð og upphlaup, og alls konar kúgun, og afleiðingar þeirra á heilum kynslóðum, og svik og rán og gripdeildir, og rógur og ofsóknir — allt þetta væri þá ókunnugt á jörðunni. Þá mundi enginn stynja í örbyrgð og sjúkleika af sjálfs síns völdum, og í allri þeirri eymd, er samfara verður rofi þeirrar reglu, sem Guð hefir setta. Og sú neyð, er þá yrði eptir, hve miklu vægari mundi hún þykja, þar sem tryggð og viðkvæmni kærleikans, og hin mjúka hönd miskunarinnar mýktu hana, og hjarta hins nauðstadda væri öruggt fyrir tilstyrk góðrar samvizku og trúar og þolinmæði! Ef mennirnir hefðu varðveitt samfjelag sitt við Guð og rofið það ekki, þá mundi ekki heldur mönnunum hafa verið ætlað að bera það, sem nú er lagt á herðar hinni föllnu kynslóð.

Allur þessi margháttaði dauði, þessi aflögun hins ytra og innra lífs, er kominn í heiminn ásamt með syndinni; og sjálfur

dauðinn, er vjer köllum svo í rjettustum skilningi, hann er einnig laun syndarinnar. Að sönnu höldum vjer ekki, að hefði syndin ekki komið í heiminn, þá mundi maðurinn hafa orðið kyrr á jörðunni um aldur og æfi. Sá hnöttur, er vjer nú byggjum, er að líkindum ekki hinn fegursti og ágætasti allra hnatta; meðal hinna mörgu híbýla í húsi vors himneska Föður, eru þau að líkindum sum, er dýrð hans birtist enn fremur í, og íbúar þeirra finna betur til nálægðar hans. Og þessum æðri bústöðum hefir syndinni ekki verið ætlað að ljúka upp fyrir mönnunum, miklu fremur mundu þeir hafa orðið því verðari að sjá hið fullkomnara, að liðnum uppeldistíma þeirra hjer á jörðu, ef þeir hefðu varðveitt það samfjelag við Guð, er þeir voru skapaðir í fyrir öndverðu. En blíð og hæg burtför í stöðugri trú og sælli von, til bjartari og dýrðlegri heimkynna, þegar þeir, sem eptir bíða, líta á bak hinum framliðna með sömu tilfinningum og postularnir, er þeir sáu skýið taka Drottin vorn burt frá augum þeirra — það heitir ekki dauði; það er ekki dauðinn, eins og vjer þekkjum til hans, sem verið er að lýsa, þá er ritningin segir um Enok: Hann var Guði hlýðinn og hann sást ekki framar, því Guð nam hann á burt (1. Mós. 5, 24). En það eru laun syndarinnar, að dauðinn hefir nú brodd sinn og skelfingar í fylgd með sjer, að hann kemur nú með öllum harmkvælum sínum og hylur hina síðustu göngu mannsins í dymmu myrkri. Og dauðinn er runninn inn til allra manna, af því allir hafa syndgað; eins og allir menn eiga hlutskipti í brotum alls mannkynsins, svo eru þeir og hluttakandi mannlegra afdrifa. Það er ekki heldur að eins ein döpur stund, er einu sinni að lokunum liggur fyrir hverjum manni, sem í heiminn er borinn til að líta ljós sólarinnar, því dauðinn leynist hvarvetna í aldingarði lífsins, og löngu fyrr, enn hann ætlar sjer að hæfa, dregur hann dapran skugga yfir öll þess blóm; hvað eptir annað minnir hann þig á nálægð sína, og þú veizt ekki nema hann muni þá og þá slíta ástvin þinn úr faðmi þjer, og ekki veiztu hve nær hann mun snerta þig sjálfan kaldri hendi, og vígja þig svo til myrkra sinna. Í þessari óvissu og þó svo vissu eptirbið, eyðir maðurinn dögum sínum, og meðan dauðinn verður ekki sviptur broddi sínum, ná

þessi orð postulans til allra manna, að þeir lifa allan aldur sinn undir ánauðaroki af ótta fyrir dauðanum (Hebr. 2, 16).

Mönnunum er ætlað einu sinni að deyja, en síðan kemur dómurinn (Hebr. 9, 27). það eru nú fæstir, ef til vill, er hugsa greinilega um þenna dóm, óðar enn á dynur; mörgum virðist það, ef til vill, annað eins lítilræði, að lúka reikningsskap sínum við hinn heilaga og rjettláta Guð, eins og að lúka honum við sjálfa sig. En hræðslan býr samt leynilega í brjóstum þeirra, og er þeir á stundum reyna til að hugga sig fyrir skelfingum dauðans með von ókomins lífs, skelfast þeir af þrumuröddum dómsins, er duna úr fjarska í eyru þeim. því hversu lengi sem þeir hafa tamið sjer þá mennt, að afneita og þrjózkast, þá er samt ætíð eitthvað í þeim, er veit, að þeir eiga að gjöra honum reikningsskap, sem viðbúinn er að dæma lifendur og dauða (1. Pjet. 4, 5). Og þess vegna eru þeir einatt svo aumlega staddir, að þeir eru þreyttir og saddir af þessu lífi, og skjálfa þó og titra fyrir þeirri stund, sem á að ljúka öllum þeim hörmungum, er kvelja þá.

En því höfum vjer talið fram alla þá eymd, sem komin er saman í því andvarpi, er brýzt fram af mannsins þjáðu brjósti? Vjer höfum gjört það vegna þess, að tilfinning eymdar vorrar kveikir löngunina til endurlausnar, og gruninn og vonina um hana. því þegar maðurinn andvarpar þannig, hlýtur hann annaðhvort að gefast á vald huggunarsnauðri örvinglun, eður hann hlýtur að þrá endurlausn. Heilbrigðir þurfa ekki læknis við, heldur þeir sem vanheilir eru (Matth. 9, 12), og þessi tilfinning mannlegrar eymdar er einmitt það, sem leiðir oss til Krists.

---

# 22.

## FAGNAÐARBOÐSKAPUR KRISTS.

Páll postuli byrjar brjef sitt til Kólossuborgarmanna á því, að þakka Guði fyrir; að sannleiksorð kristinnar trúar sjeu til þeirra komin, eins og um alla veröld, og fyrir það, að þau sjeu ávaxtarsöm hjá þeim, eins og alstaðar. Postular Krists höfðu sannarlega mikið tilefni til að þakka Guði, þegar þeir á efra aldri litu á umliðin ár. Að sönnu áttu þeir mikillar armæðu að minnast, mikilla báginda og mikilla ofsókna, þegar þeir renndu huga sínum yfir liðna æfi; og andstreymið var enn ekki á enda kljáð, því þeir komust aldrei í það ástand, að þeir gætu horft út á hið ólgufulla haf úr óhultri höfn, þeir áunnu sjer aldrei rósemi nje heldur von um hana hjer á jörðu. Þannig reit Páll brjef þetta í fangelsi, og þó hann vonaðist eptir, að hann mundi leysast einnig úr því fangelsi, þá ætlaði hann sjer ekki fyrir það, að setjast að í næði og makindum, heldur átti hann í vændum hið sama andstreymi og hina sömu mæðu og áður. En hinn rjettláti hryggist ekki af því, að minnast mæðu þeirrar og rauna, er fyrir hann hafa komið, þegar hann getur einnig minnzt þess, að hann hafi sjeð árangur þess, Og þenna árangur höfðu postularnir sjeð, mikinn og undarlegan. Heiðni drottnaði í veröldinni, svartmyrkur grúfði yfir öllum löndum, og sýndist mundi eyða öllum sannindum, rjettlæti og kærleika, en á þeim hinum dymmu og döpru tímum var sú hrísla gróðursett, er auðsjáanlega þroskaðist guðlegum þroska; postularnir gátu, hvert sem þeir litu, þakkað Guði marga, sem hæfir voru orðnir til að öðlast hlutskipti heilagra í ljósinu, sem frelsaðir voru úr ánauð myrkursins, og fluttir inn í ríki hins elskulega Sonar Guðs, og um þá voru postularnir sannfærðir, að þeir væru endurleystir fyrir hann. Þess vegna gladdist Páll í þjáningum sínum fyrir söfnuðinn, er hann hafði tekizt á hendur að þjóna, eptir þeirri sýslu, sem Guð hafði honum á hendur falið (Kól. 1, 3. og s. frv.).

Þau umskipti, sem urðu við fagnaðarboðskap Krists, eru hin merkilegustu og undarlegustu, sem nokkurn tíma hafa orðið í

veröldunni. Þeir sem brotið hafa undir sig lönd og ríki, hafa að sönnu á stundum breytt högum þeirra, en það hafa þeir gjört með ófriði og ofbeldi. Að sönnu hefir það tekizt einstöku löggjafa, að ummynda þjóð sína öldungis, en þá hefir það komið til af því, að þjóðin hefir fengið honum völd á hendur, til þess hann gæti komið á breytingunum, af því, að þjóðin hefir undir gengizt að hlýða boði hans og banni, og gefið honum sverð laganna, til að kúga hina óhlýðnu með. En í þetta skipti voru það fáir menn og umkomulitlir; þeir komu úr landi, sem fyrirlitið var, frá þjóð, sem hötuð var, þeir komu frá krossi, er Drottinn þeirra og Meistari hafði verið negldur á, svo sem óbótamaður; þeir áttu hvorki gull nje silfur, til að kaupa sjer áhangendur, þeir höfðu engin veraldleg metorð, til að krefjast athyglis og hlýðni, þeir hófu ekki stríð, til að stofna ríki eða eyða þeim, þeir höfðu ekki það, er þeir kalla sjálfir fortölur málsnildarinnar (1. Kor. 2, 4), það er: þó ræða þeirra væri full af anda Guðs og krapti, og hin háleita himneska speki væri í henni fólgin, var hún samt ekki löguð eptir þeim fegurðarreglum, er á þeim öldum voru í áliti, og ekki löguð til að ávinna hylli þeirra vitringa, er þá voru uppi og kenndu; alstaðar urðu þeir fyrir spotti eða hatri, og voru Gyðingum til hneixlis en Grikkjum að athlægi (1. Kor. 1, 23). Samt sem áður fjekk kenning þeirra viðtökur og viðgang, samt sem áður blómgaðist iðn þeirra, og afleiðing starfa þeirra breiddist æ meir út, og hefir staðið stöðug, hvernig sem annað hefir breytzt allar aldir síðan, og er enn þá auðsæ bæði í oss og umhverfis oss. Hvernig er það komið til? *Hvernig hefir kristin trú fengið svo dásamlegan viðgang?*

Vjer leysum úr þessari spurning með annari spurningu: hvernig kemur það til, að jörðin ber ávexti? Jörðin ber ekki korn, nema korni sje sáð í hana, og kornið sprettur ekki, nema það sje látið í jörðina, og þróast þó ekki mönnum til blessunar, nema himininn veiti hagstæða veðráttu; en verði allt þetta samfara, þá er það eðli hlutanna, eptir því sem Guð hefir gjört þá, að gnægð kornsins tekur að hylja akrana. Svo er og sú þekking á Guði og vilja hans og ráðstöfunum mönnunum til frelsis, er gleður oss

kristna menn, að hún hefði ekki getað breiðzt út um jörðina, hefði ekki fagnaðareyrindi Krists verið boðað; en ekki hefði fagnaðareyrindið fengið framgang, nema eitthvað sje til í hjarta mannsins, er þarfnist þess, sem Kristur færir því, og fái af því fullnægju. Ofbeldi og illyrði geta ekki áunnið fagnaðarboðskapnum Krists viðtökur í hjarta mannsins; skynsamlegar röksemdir geta að sönnu greitt götu hans; og verið honum til verndar, en menn gefa þeim samt ekki fullan gaum, og meta þær ekki rjettilega, og íhuga þær ekki nógu nákvæmlega, nema þeir finni til dýrðar og sanninda fagnaðarboðskaparins. Og þessi tilfinning, sú hin sæla ró, sú huggun, sú gleði, er hjartað finnur til, þegar ljós Krists fer að skína inn í það, ber vitni þess, að til er í manninum þörf sú, er enginn hlutur annar fær úr bætt, og að eðli mannsins er þannig háttað, að hann getur hvergi öðlazt fullnægju, nema í Kristi.

Eðli hvers hlutar þýðir ásigkomulag hans, eins og það er upphaflega. Eðli mannsins þýðir því það ásigkomulag hans, sem hvorki áhrif annarra hluta nje frjálsræði sjálfs hans hafa breytt. Eins og maðurinn er nú, þegar hann fer að vita til sín, þá er eðli hans spillt, og þess vegna hefir það verið sagt, að maðurinn skilji ekki eptir eðli sínu það sem andlegt er (1. Kor. 2, 4), og að vjer sjeum allir eptir eðli voru börn reiðinnar (Ef. 2, 3). En þetta hið spillta eðli var ekki eðli mannsins í öndverðu, því Guð hefir ekki gjört manninn slíkan; ekki hefir heldur spillingin eytt öllum leifum hins upphaflega ásigkomulags mannanna, og aldrei getur hún orðið svo mögnuð, að illskan verði hið rjetta eðli þeirra; því fer svo fjarri, að í rauninni er illskan aflögun, sem er gagnstæð eðli mannsins, og því óstýrilátari og ósvífnari sem hún er, þess auðsæara verður það, að hún er gagnstæð eðli hans, og því segir postulinn, að heiðingjarnir gjöri eptir eðli sínu það sem lögmálið býður (Rómv. 2, 14).

Allt eins og mannlegu eðli er nú þannig varið, að það lögmál, sem hann optlega brýtur, og lætur sjer úr minni líða, og fyrirlítur, það er ritað í hjarta hans, eins er því og þannig varið, að sú löngun til hins guðlega og eilífa, til lausnar og hjálpar,

frelsis og friðar, er hann optlega eyðir og útrýmir, býr þó ávallt í brjósti hans. Og úr því það er Guðs eilífa ráðstöfun, að mennirnir skuli öðlast lausn og frið og frelsi fyrir Jesúm Krist, þá dirfumst vjer að segja, að það sje mönnunum eðlilegt að þrá Krist, og að sú þörf búi í brjóstum þeirra, er hann einn getur úr bætt. Þessi löngun býr í manninum, einnig áður enn hann þekkir Krist, en hún er þá eins og óljós-grunur, og leitar alstaðar, en finnur hvergi hvíld, fyrr enn hún finnur hann; en þegar hún er búin að finna hann, þá kviknar í manninum elska, er hrópar úr djúpi veru hans: Drottinn! til hvers ætti jeg að leita, ef jeg yfirgæfi þig? þetta er meining postulans, er hann segir um Drottin sinn, að allir hlutir sjeu „skapaðir handa honum“ (Kól. 1, 16); allir hlutir eru svo gjörðir, að þeir ná ekki fullkomnun sinni, nema í sambandi og sameining við Krist; þó er andi mannsins einkanlega svo lagaður, að hann getur ekki náð fullkomnun og friði og sælu, nema í samveru við Krist; hann leitar Krists eptir upprunalegu eðli sínu, og er skapaður „handa honum“. Af þessu kemur það, að fagnaðarboðskapur Krists hefir tekið slíkan viðgang í veröldunni. Eins og kornið hefir breitt sig út um veröldina úr því fjarlæga landi, er Guð gróðursetti það fyrir öndverðu, vegna þess það bætir svo einkarvel úr líkamlegum þörfum mannanna, þannig hefir og fagnaðarboðskapur Krists breitt sig ut um ríki veraldarinnar, af því hann bætir úr hinum andlegu þörfum, og fullnægir hinni miklu, brennandi löngun í andlegu eðli mannanna.

Hver mundi bera móti því, að það sje samkvæmt mannlegu eðli að trúa á Guð, eða að maðurinn sje í öndverðu til þess skapaður. Að sönnu er það ekki fortakanda, að einstöku þjóð geti verið orðin svo dýrsleg, að hún hafi næstum alls engan grun af því, að Guð sje til; verið getur og, að stöku maður meðal vor villist svo ofboðslega, að um hann megi með sanni segja, að hanni sje án Guðs í heiminum, að honum sje gagnstæðilegt að hugsa eða heyra talað um Guð, og allt gott sje frá honum vikið, þegar hann er búinn í mörg ár að herða hjarta sitt, og hefir synjað hinu góða og háleita um alla hlýðni, en velt sjer í munaðarlífi, eða ágirnd, eða ómennsku. En þetta ástand er full-

komin spilling. Því meðan þú ert ekki búinn að herða hjarta þitt, þá veit jeg fyrir víst, að þegar jeg tala við þig um Guð, hinn eilífa, sem allir hlutir eru byggðir á, og stendur stöðugur, hvernig sem veröldin breytist um aldur og æfi, og vilji hans bifast ekki, hvernig sem mannlegur vilji fer á reik; um Guð hinn almáttka, er sólir skína og sólir myrkvast að boði hans, ríki hefjast, og ríki eyðast, en ekki fellur einn titlingur á jörð án hans vilja; um Guð hinn heilaga og rjettláta, er gjalda mun sjerhverjum eptir því sem hann hefir til unnið, og hið illa mun ekki fá í móti staðið — þegar jeg tala við þig um þetta, þá veit jeg fyrir víst, að ræða mín fær á þig, og sannfærir þig, ekki með því að færa til djúpsæar ástæður, nje heldur með haglegum ályktunum, heldur vegna þess hún verður að geðjast hjarta þínu, og koma saman við það, sem óspillt er í eðli þínu, svo að þú *finnir* að hún er sönn.

En það er líka samkvæmt mannlegu eðli, að trúa *guðlegri opinberun*. Þó Guð sje ekki fjarlægur neinum af oss, og vjer sjáum alstaðar merki Guðs, hryggir það oss þó optsinnis, að vjer finnum, að hann býr í því ljósi, er hugur vor fær ekki að komizt; og þegar vjer lítum upp til himna hans, er vjer fáum ekki upp í komizt, þá liggur það beint við, og er oss eðlilegt, að óska Guð komi niður til vor, og birti sig, og gefi oss svo mikla þekking á sjer, að hinn reikandi hugur geti staðnæmzt, og hið skelfða hjarta fengið hvíld. Um allan jarðarhnöttinn og um allar aldir hefir verið talað um guðlega opinberun, það er optast nær samsetningur og skröksögur, en einnig þær bera þess vitni, hversu eðlilegt manninum sje, að ímynda sjer, að Guð, sem hlýtur að vilja, mennirnir öðlist þekking á sannleikanum, hafi ekki látið þá öldungis tilsagnarlausa. Eða voru það að eins fávísar þjóðir í fornöld, er fundu að þær þörfnuðust guðlegrar opinberunar? Er mannkyninu nú farið svo fram, að það þurfi engrar opinberunar við, og vilji við enga opinberun kannast? Lítið í kringum yður, þegar einhver kèmur, og segist vera spámaður, og þykist hafa fengið háleitar opinberanir, geta gjört tákn og stórmerki, og hafa æðra ljós enn aðrir menn í sálu sinni, og gáið að, hvernig menn flykkjast utan um

hann, ekki að eins hinn fávísi múgur, heldur og þeir, er vilja láta telja sig í tölu þeirra, sem vitrir eru og vel að sjer. Slíkt er svívirðileg hjátrú, dramb og hjegómagirni, vitanleg eða óvitanleg svik af beggja hálfu; en einnig lygin á að bera vitni sannleikanum, og sýna, að það er sterklega innrætt mannlegu eðli, að maðurinn leiti þangað til hann finnur Guð, nær og skýrar, enn í einum saman viðburðum náttúrunnar. En því leitið þjer þess hjá lyginni, er sannleikurinn býður yður? Hvers vegna leitið þjer þess í leynum og myrkri, sem liggur bert í dagsljósinu? Fagnaðarboðskapur Krists læðist ekki um kring í ískyggilegu rökkri, heldur er hann opinber öllum kynslóðum; hann er ekki grundvallaður á flugufregnum og tortryggilegum frásögum, heldur hefir hann greinilegar ástæður við að styðjast; hann boðar ekki heimskulegan samsetning, heldur það, er hver hreinskilinn hugur verður að gleðjast við að heyra: að Guð hefir opinberazt í þeim, sem æðstur er allra manna, og hin rjetta króna og prýði kynslóðar vorrar, sem gjörðist maður og bróðir vor, en er þó mynd hins ósýnilega Guðs, og frumgetningur allrar skepnu, og fyrir hann eru allir hlutir skapaðir, bæði á himni og jörðu, sýnilegir og ósýnilegir; sá hinn sami var áður enn allt annað, og allt viðhelzt fyrir hann (Kól. 1, 15. 16. 17). Þetta einkaágæti opinberunarinnar, er hun hefir svo mjög um fram allt annað, sem kallað er guðleg opinberun, eða er það í raun og veru, er hún fullnægir sálunni með, sem þráir þekkinguna á Guði, og nánara samfjelag við hann — þetta ágæti er það, sem um fram allt hefir veitt og enn veitir fagnaðarboðskapnum Krists svo aðdáanlegar viðtökur meðal mannanna.

Enn fremur er það manninum eðlilegt, að trúa á guðlega forsjón, og vilja gjarnan heyra talað um hana. Undir eins þegar talað er um forlög, háleit og óbifanleg og óviðráðanleg forlög, er stjórna allri rás viðburðanna á jörðunni, en mannleg vizka og mannlegur máttur megna ekki að kollvarpa ráðsályktunum þeirra, þá fær slík ræða á menn, og kveikir lotningu í hjörtum þeirra, af því hún mótmælir því, sem gagnstæðilegast er hinni meðfæddu tilfinning í mannlegu hjarta, en það er hin eyðilega

hugmynd, sem brýtur niður allt það sem heilagt er, um hið stjórnlausa vald hendingarinnar og tilviljunarinnar. En ef vjer íhugum þessi forlög nokkuð gjörr, sjáum vjer skjótt, hversu sá hugur er huggun horfinn, sem finnur ekkert (þegar hann vill lypta sjer yfir rugl og reik vanalegra hugsana) nema ósveigjanlega ákvörðun, er allir hlutir verða að hlýða. Því sje allt fyrir fram ritað í hina myrku bók, er straumur tímans gjörir ekki annað enn fletta upp, jafnótt og hann líður fram hjá, þá er sjerhver athöfn ákvörðuð fyrir fram, og sá sem syndgar, hefir fyrir fram verið ætlaður til syndar og háðungar, og sá, sem hið góða og háleita þroskast í, hefir ekki aðhyllzt það með frjálsum vilja, heldur hefir nauðsynin knúið hann. Hve miklu betur geðjast hjarta voru kenningin um hina guðlegu forsjón. Samkvæmt þessari kenningu er ekki heldur neitt til í öllum hinum víðlenda heimi, er kallað verði hending; og þó er ekki óbreytanlega ákvarðað, hvað mikið gott eða illt hver frjáls vera skuli aðhafast. Guð hefir úthlutað sjerhverri veru það svið, sem hún á að vinna á, og hefir sett henni takmörk, er hún fær ekki yfirstigið; en á þessu sviði, getur hin frjálsa vera hnigið að hvötum hins góða, eður látið tælingar hins illa hrífa sig með sjer; hvað sem hún kýs, kýs hún það sjálf, og sú kosning ræður því, hvort hún verður sýkn eður sek. En hvað sem þú kýs, fær þú ekki vald til að koma því einu fram, sem þjer sýnist gott; ráðagjörðum þínum verður hrundið, eður þær fá framgang, af valdi, sem ekki er þitt vald, og sjerhvert orð, sem varir þínar mæla, sjerhver athöfn, sem hönd þín fremur, fer fram undir almáttugri stjórn, er leiðir allt á sínum vegum, og þeim, sem kappkosta að gjöra hið góða staðfastlega og einlæglega, og biðja með auðmýkt og trúrækni, er hún miskunarrík og líknsöm forsjón, og lætur alla hluti snúast þeim til góðs. Þetta er sú hin eina kenning, er getur veitt hjartanu hvíld; en einmitt af því hjartað tekur svo fúslega á móti henni, leitar það og á alla vegu að jarteiknum því til staðfestingar, að Guð annist mennina á þenna hátt. Því sje guðleg forsjón til, þá skiljum vjer að vísu, að ráðsályktanir hennar hljóta optlega að vera órannsakanlegar, og vegir hennar órekjanlegir, takmörkuðum skilningi vorum, en það hlýtur samt einnig að

geta sjezt á jörðunni, að Guð er til, sá er stjórnar. Hversu fúslega leitum vjer því bæði á vorum og annara manna lífsferli, sem lítið ber á, sem og í hinum mikilvægu viðburðum, er koma jörðunni í hreifingu, að sjerhverju jarteikni, er vitnað geti um stjórnandi hönd, og sjerhverjum votti, er vjer getum um sagt: þetta er ekki tilviljun, og ekki að eins mannleg athöfn, heldur er það Guðs ráðstöfun; og sjerhvert þess háttar jarteikn geymum vjer í brjósti voru til styrkingar oss í trú vorri. En þar sem vjer nú stundum finnum slík jarteikn, og stundum ekki, þar sem vjer svo optlega verðum að trúa, þó vjer sjáum ekki, svo að vor hin veika sál verður optlega kvalin af efasemdum, þá spyrjum vjer, hvort að um allar þær þúsundir ára, sem liðnar eru yfir jörðina, sje ekkert jarteikn komið frá Guði, er berlega hafi opinberað miskun hans öllum þjóðum, og staðfest loforð forsjónar hans, svo augljóslega, að það færi sálunni birtu, þótt hún á hræðslustundum sínum sjái jafnvel ekkert utan myrkur umhverfis sig. þetta jarteikn er það, sem hinn kristilegi fagnaðarboðskapur boðar oss með þessum orðum: Svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf Son sinn eingetinn, til þess að hver, sem á hann trúir, glatist ekki, heldur hafi eilíft líf (Jóh. 3, 16). Hver sem trúir þessum boðskap, hefir fundið jarteikn það frá Guði, sem hann áður leitaði alstaðar að með svo mikilli órósemi; og dýrð þessa vitnisburðar, og ljós það og huggun, sem í honum er fólgin, er það, sem hefir útvegað og útvegar enn þá fagnaðareyrindi Krists viðtökur á jörðunni.

Einnig á vorum rósömu æfistundum geðjast þetta fagnaðareyrindi vorum innstu og beztu tilfinningum, en vjer getum ekki í móti mælt, að þegar allt er kyrrt í oss og kringum oss, eða sje það eintóm gleði, sem hrærir hjarta vort, þá finnum vjer miður til þess, hver þörf oss er á því; því það er að vísu satt, að heilbrigðir þurfa ekki læknis, heldur þeir sem vanheilir eru (Matth. 9, 12). Vjer skulum ekki ávíta sjálfa oss, þó vjer sjeum ekki ætíð jafnsjúkir, þó vjer dirfumst annan tíma meir enn annan, að nálgast hinn eilífa Föður, þó vjer finnum þá betur enn endrarnær að Guðs náð er yfir oss, að vjer erum í samfjelagi við hann, og höfum hans frið. þar mun koma, að hinir hreinskilnu og auð-

mjúku munu aptur finna til sjúkdómsins, og eins og rödd læknisins er hinum sjúku kær og huggunarfull, eins munu þá Krists huggunarorð fá að nyju viðtökur í hinu skelfda og sundur kramda hjarta. Meðan dagsverk vort veitir oss ljett, og vjer höfum upphvatningu til þess, og laun fyrir það, og ávextir þess þróast fyrir augum oss, og mennirnir þakka oss fyrirhöfn vora, þá eigum vjer að vísu bæði að þakka og biðja, en þó er þá hjarta vort heilbrigt og staðfast. Aptur á móti þegar erfiðið fer að verða þungt, þegar vjer reynum mótstöðu, vanþakklæti, bakmælgi, þegar vjer verðum að leggja mikið í sölurnar og höfum ekkert að reiða oss á, nema rödd skyldunnar í samvizku vorri, þá skiljum vjer hvað það þýðir, að öll verk vor eigi að fara fram í Jesú nafni, í hans nafni, er sjálfur lagði mest í sölurnar, og hefir sagt, að lærisveinninn sje ekki fyrir meistara sínum, og að hver, sem ekki taki kross sinn og fylgi honum, sje hans ekki verður (Matth. 10, 24. 38), en segir og á öðrum stað: Sælir eruð þjer, þegar menn atyrða yður og ofsækja og tala gegn yður alls konar illyrði mín vegna, þó ljúgandi (Matth. 5, 11). Þegar samvizka vor er í friði, og vjer finnum að oss fer fram í því, sem gott er, þá skulum vjer að sönnu ekki draga sjálfa oss á tálar og segja oss syndlausa, því það er oss fullkunnugt, að vjer verðum rjettlættir af Guðs miskun en ekki fyrir vor verk; en það er þó beiskja iðrunarinnar, er lætur oss finna allan sætleik Krists huggunar; þegar einhver yfirsjón, annaðhvort afbrot eða hirðuleysi, kvelur oss, þegar vjer finnum til alls hins illa, sem í oss býr, og koma vill í ljós, og kemur opt í ljós í orði eða verki, í smáu eða stóru, þegar vjer lítum hyldýpi spillingarinnar í oss, þá, og ekki fyrr, skiljum vjer fullkomlega, hvað til þess kom, að hinir syndugu aðhylltust Jesúm (Lúk. 15, 1), þá finnum vjer, hvað varið er í það fagnaðareyrindi, sem boðar oss hann, er hafði vald á að fyrirgefa syndirnar (Matth. 9, 6). Þegar kærleikinn er allt í kringum oss á vegferð vorri, og vjer eigum viðkvæma, hugula og trúa vini, þá vitum vjer að sönnu, hver hafi glætt og helgað kærleikann á jörðunni; en sá, sem er einmana og munaðarlaus, finnur þó bezt, hvað vjer eigum, þar sem er hinn himneski vinur, sem

elskaði oss og gaf sjálfan sig út fyrir oss (Ef. 5, 2), og hefir sagt: þann, sem til mín kemur, mun jeg ekki frá mjer reka (Jóh. 6, 37). Og þegar dauðinn kemur og gjörir oss einmana, þegar vjer stöndum við gröfina, og engin rödd þaðan svarar harmatölum vorum, þá svarar hann oss enn, er hefir með fagnaðarboðskapnum leitt í ljós lífið og ódauðleikann (2. Tím. 1, 10); og þegar skelfingar dauðans heimsækja hjörtu vor sjálfra, og dymmu hans dregur fyrir augu vor og öll auðæfi veraldarinnar koma oss að engu haldi, og sorg vina vorra verður oss ekki til annars enn ama, og sála vor hættir að geta fundið sjer neina huggun í brunnum spekinnar, þá getur samt hjarta vort gripið Jesú nafn, og þessi huggunarorð hans hljóma þá í því: Jeg er farinn á undan, að tilreiða yður stað, svo að þjer sjeuð þar sem jeg er (Jóh. 14, 2. 3).

Er nokkuð annað nafn, er verði sett í stað þessa? eða annar fagnaðarboðskapur, er fullnægi svo hinum dýpstu tilfinningum vorum? Og af þessu orsakaðist, að svo margir tóku fyrir öndverðu feginsamlega við kristinni trú; af þessu orsakast, að hún hefir getað komizt svo víða og hefir viðhaldizt allar þessar aldir; af þessu orsakast, að vjer erum algjörlega sannfærðir um, að hverjar breytingar sem hjer eptir verða í veröldinni, og hvort sem straumurinn ber heldur frá eða að Krists kyrkju um stundar sakir, þá mun þessi trú aldrei úr gildi ganga; það getur aldrei komið önnur í stað hennar, svo framarlega sem hún verður ætíð söm, og svo framarlega sem mannleg náttúra verður ætíð söm. þess vegna heyrum vjer, að þeir, sem leita sálu sinni hvíldar, án þess að vitja Krists, viðurkenna ávallt, að þeir hafi ekki fundið það, er þeir leituðu að; þess vegna heyrum vjer, að þeir, sem finna hann, segja ávallt: þetta var það, er jeg hafði svo víðs vegar að leitað, og af svo innilegri og sárri löngun, en hvergi getað fundið, þangað til jeg fann hann.

---

# 23.

## ÍSRAELSLÝÐUR VÆNTI KRISTS.

Hátíðir kristinna manna eru fagrir dagar og fagnaðarríkir. Guði sje lof! að þeir dagar eru til, er verkamaðurinn getur lagt niður byrði sína, er gleðin sækir híbýli vor heim, fer að leika við börnin í húsunum, og segir við hina fullorðnu: Skammizt yðar ekki að gleðjast með hinum glöðu, því nema þjer verðið börn í annað sinn, getið þjer ekki komizt í himnaríki. Guð gæfi að vjer á slíkum hátíðardögum gætum ljett á sjerhverju örmæddu hjarta, og leitt gleðina þangað, sem hún er ekki vön að koma! En kristilegar hátíðir eru og slíkir dagar, sem ætlaðir eru til alvarlegra hugleiðinga; og hvers vegna ættu slíkar hugleiðingar ekki að geta verið glaðrar náttúru? Meira að segja: Hvaða gleði er hreinnar og háleitrar náttúru utan henni fylgi alvara? Látum mennina leita þess, er þeir vilja í veröldinni, en jeg ætla á hátíðardögunum ekki síður enn á hryggðardögunum að leita þess, er ekki má án vera, eigi hryggðin ekki að verða huggunarsnauð og gleðin með öllu ótilhlýðileg, jeg ætla að leita Guðs og hans frelsis. Og sjerhver kristileg hátíð minnir á þetta öðrum dögum fremur. Klukkurnar kalla alla menn með hátíðlegum hljómi til kyrknanna, og þeir safnast að úr öllum áttum til helgidóma sinna. Það er undarleg löngun, er hvetur þá til að yfirgefa skemmtun sína heima eður utan húss og vitja hinna alvarlegu staða, er líta út eins og þeir sjeu vígðir handa annari veröld, enn hinni sýnilegu. Og undarlegt nafn er það, sem hljómar þar í móti oss, það er nafnið: Jesús Kristur — þessu nafni lúta öll knje, það krefst lotningar af hinum drambsama, það veitir hinum auðmjúka trúnaðartraust, það vekur hinn ljettúðuga til umhugsunar, það huggar hjarta hins hrellda, og hvar sem guðræknir menn heyra þetta nafn nefnt, fylgja því hinar helgustu endurminningar og merkustu kenningar og sælustu vonir.

Slíkar kristilegar hátíðir eru nú á dögum haldnar um allan

heim, og sjerhver sunnudagur er slík hátíð; hvernig hefir þessi siður hafizt? Því verður ekki í móti mælt, að kristin trú sýnir mátt sinn á þessum tímum, orð hennar og jarteikn og áhrif birtast á meðal vor, mikið eður lítið, í hverju hjeraði og á hverjum bæ, og í hvers manns hjarta. En allt það, sem til er á jörðunni, á sjer eitthvert upphaf; hvar hefir þá hin kristna trú hafið skeið sitt á jörðunni? Jeg leita land úr landi, og langt fram eptir öldum; en upphafið, er jeg leita að, hverfur samt ekki í skugga svo fjarlægra tíma, að ekki sjeu til nema óáreiðanlegar frásögur að skýra mjer frá því; kristin trúa er komin í ljós á slíku tímabili, að þaðan í frá höfum vjer sannar sögur af atburðum þeim, er hafa orðið henni samfara, hver fram af öðrum. Og er jeg nú leita að upphafi hennar, þá er eins og geislar leiðbeinandi stjörnu leiði mig æ lengra og lengra, þangað til stjarnan staðnæmist yfir fjarlægu landi, yfir litlu þorpi, yfir fátæklegu herbergi, og þar finn jeg í jötu einni það barn, sem er höfundur hins kristilega lífs, þess er nú er svo margbreytt orðið, og hefir svo víða um lönd flogið.

Guð minn! ó hversu lætur þú mikilvæga hluti rísa af því, er þykir vera svo lítilsvert fyrir mannlegum augum! Var nokkur sá meðal allra þeirra, er um þær mundir rjeðu ráð sín eður voru þegar farnir að fremja þau stórvirki, er þeir ætluðu að breyta með ástandi mannkynsins; var nokkur sá meðal allra þeirra, er óttuðust þá eyðing, er þeir hjeldu væri að búa um sig undir skýlu svipullar rósemdar; var nokkur sá meðal allra þeirra vitringa, er leituðu frjetta af nálægum og ókomnum tíma — var nokkur sá meðal allra þessara manna, er snjeri augum sínum til Betlehems? var nokkur sá, er gæfi gaum að spásögunni um það, er fram hafði farið á einni nóttu, móður ókominna stórtíðinda? Óvörum og skyndilega hljómaði fagnaðarboðskapurinn um það barn, sem þá var í heiminn borið, um þann frelsara og höfðingja heimsins, er þaðan var út genginn; þessi boðskapur branzt fyrst í gegnum vanvirðing og því næst gegnum ofsóknir og alls konar fjandsamlegt ofríki, hann hljómaði frá fjalli til fjalls og af strönd til strandar, svo bergmálið kveður enn við í öllum endimörkum hinnar víðlendu veraldar.

Óvörum — já út í löndum, í hinum mörgu ríkjum heimsbyggðarinnar, í hinni miklu höfuðborg, er skelfdi konunga jarðarinnar með nafni sínu, og dró að sjer æ meir og meir af auðæfum allra ríkja, og listum og vísindum þeirra: þar voru öllum mönnum þessir atburðir ókunnir. En í Jerúsalem væntu margir endurlausnarinnar, huggunar Ísraels, þeir höfðu heyrt forfeður sína tala um hana, þá er sjeð höfðu fyrirheitin álengdar og breitt faðminn móti þeim, og voru dánir í trúnni (Hebr. 11, 13), og höfðu fengið trú sína og von í hendur ókomnum kynslóðum. Hversu merkileg er þessi eptirvænting! — Þú hin undarlega og ókyrrláta, ætíð framgjarna og ætíð kúgaða þjóð út á hinu vanvirta landi! hvernig komu þær upp hjá þjer, hinar stórhuguðu ímyndanir um tignarvald, er rísa mundi úr skauti þínu? hvernig urðu þær allar að hugmyndinni um höfðingja, frelsara og endurlausnara af ætt Davíðs og úr Davíðsborg? Hvernig fór þessi hugmynd að verða svo rík, að hún kæmist til annara landa, svo allur austurheimur var, eptir sögusögn sjálfra heiðingjanna, fullur af eptirvæntingu um heimshöfðingja þann, er koma mundi af Gyðingalandi? Þjer hjarðsveinar Betlehems! af hverju vissuð þjer, að Drottinn Kristur, Guðs smurði, ætti að koma, svo yður var það að eins nýlunda, að hann væri kominn, og að þjer skylduð leita hans sem barns í jötu einni? Ó! saga kristindómsins nær fram fyrir daga Krists; forn fyrirheit eru til, og þau eru ekki draumórar nje tælandi myndir sjúks ímyndunarafls, heldur eru þau óhvikul og áreiðanleg, eins og stöðugt skin einhverrar stjörnu; fornar spár eru til, ritaðar með myrku, en ómáanlegu letri, löngu fyrr enn uppfyllingin sendi ljóma sinn yfir þær, svo það letur varð læsilegt öllum kynþáttum jarðarinnar.

Jeg vil ekki keppa um það, hvar vjer eigum að byrja, en víst er það fögur tilhugsun, hafi hugboðið um endurlausnina vaknað, þegar er andi mannsins var lagður í ánauðar fjötur, hafi hin sæla rödd fyrirheitanna hljómað frá vörum hinnar eilífu miskunar, þegar er hið eilífa rjettlæti boðaði vorum fyrstu foreldrum skelfilegar hótanir hins fyrsta dóms. Í hinni elztu bók ritningarinnar finn jeg ritaða formæling yfir því dýri, er öll börn mannanna hafa viðbjóð

á, yfir hinum ískyggilega, fláráða, eitraða höggormi: „Jeg mun setja fjandskap milli þín og konunnar, og á milli þíns afkvæmis og hennar afkvæmis; það skal mola sundur höfuð þitt, og þú skalt bíta það í hælinn“ (1. Mós. 3, 15) — Hvað þýða þessi orð? á allar tungur og í allra manna hugskotum, merkir höggormurinn líking hins illa. Þegar feður vorir voru að skálda um hið skaðsamlega vald, er heldur gjörvallri jörðinni í fjötrum, og þrýstir að brjósti sjerhvers manns og hótar að fyrirfara lífinu og voninni og allri dýrð himins og jarðar: þá lýstu þeir því eins og ógurlegum ormi, er hringi sig utan um alla heimskringluna og liggi þar með hræðilegu og gínanda gini og kreysti og kremji í bugðum sínúm allt það sem lifir á jörðunni. Þegar vjer viljum lýsa hinu illa og skýra frá hinu sviksamlega afli tælingarinnar, hvernig það læðist að herfangi sínu, innan um saklaus og brosandi blóm, og ræðst svo skyndilega á þann, er ekki uggir að sjer: þá fer oss eins, að vjer höfum ekkert að líkja því við, utan þann hinn skríðanda höggorm, er fer í krókum og felur hina ískyggilegu fegurð litar síns, innan um skraut marglitra blóma, og situr um þá, er ganga um í grandleysi eður sofa ugglausir, og er svo skaðvænlegur, að sagt er hann seiði jafnvel að sjer með augunum þann, er hættuna sjer, svo hann fær ekki umflúið óvin sinn, heldur verður dreginn æ því nær af huldum krapti ormsaugnanna. Þegar vjer tölum um hið sára samvizkubit, og hinn leynilega ótta, er kvelur hjarta hins seka, köllum vjer það orm, er aldrei deyi. Vjer verðum þess varir, að eitur, áþekkt því úr höggormstönninni, er runnið inn í manninn og út í allar æðar hans, og nú eru, eins og áður í Paradís, englar hegningarinnar settir að gæta vegarins að lífsinstrje (1. Mós. 3, 24). Eður svo jeg tali án samlíkingar, þá er illt og táldrægt og skaðsamlegt vald til, er lætur oss verða vara við afl sitt, ekki að eins alstaðar umhverfis oss, heldur og í brjósti sjálfra vor; það tælir manninn til syndar og vígir hann svo til eymdarinnar. En hversu rík sem yfirráð hins illa eru, þá er maðurinn samt ekki að öllu leyti yfirbugaður, hið illa og maðurinn eiga í stríði saman, það ber sig að svíkjast að honum og bíta hann

í hælinn, og maðurinn ræðst á móti því til að mola sundur höfuð þess. Hverjum þeirra mun verða sigurs auðið?

Hverjum þeirra mun verða sigurs auðið? — Er það auðvelt að svara þessari spurningu? Værir þú búinn að svara henni með fullkominni samfæringu, þá mundi öll órósemi þín hverfa, þá mundi ekki framar vera dugleysi í hjarta þínu, heldur styrkleiki, og ekki kvíði, heldur von. Allt traust til framkvæmdar góðum gjörðum, allt hugrekki, er hrindir burt áhyggjunum, er vissulega byggt á þeirri sannfæring, að hið illa muni að lokunum ekki fá sigur, að maðurinn muni fá yfirstigið það, að afkvæmi konunnar muni hæfa og mola í sundur höfuð höggormsins. En getur hann áorkað þetta af sjálfsdáðum? Munu mennirnir nokkru sinni sjálfkrafa taka sig saman um, að brjóta hið illa undir fætur sjer? Eður á einn að rísa upp til þess, er veki og efli hina sofandi krapta og safni þeim undir eitt merki? Á einn að rísa upp af afkvæmi konunnar, af hinu máttvana, fallna, spillta mannkyni, er nógu sterkur sje til að drepa hvern þann orm, er bítur mannleg hjörtu, til að drepa hinn ógurlega orm, er vefur sig utan um alla hina jarðnesku tilveru? — Já! sannarlega, vjer þekkjum allir einn, sem er ætlaður til þess, og hann er talinn á meðal sona Evu; en þá er og einkanlega um hann skráð í því fyrirheiti, er forfeðurnir hafa fyrir þá sök rjettilega kallað hinn fyrsta fagnaðarboðskap.

En þetta fyrirheit, þessi spádómur stendur ekki einn sjer, hann er alltaf ítrekaður hvað eptir annað og staðfestur og fastsettur með æ nákvæmari ávísunum. Abraham fór um kring í landinu, og reisti tjöld sín, og hagarnir voru fullir af hjörðum hans, en hann stóð einn uppi meðal auðæfa sinna, og þjónar hans áttu að erfa hann. Þá sagði Drottinn til hans: líttu á himininn og tel stjörnurnar, ef þú getur: þannig skal afkvæmi þitt verða; Abraham skal sannarlega verða mikil og máttug þjóð, og allar þjóðir jarðarinnar skulu blessun hljóta fyrir hann (1. Mós. 15, 3 og f.). Þetta fyrirheit var ítrekað við Ísaak (1. Mós. 26, 4) og við Jakob: afkvæmi þitt skal verða eins og dupt á jörðunni, og þú skalt út breiðast til vesturs og austurs og suðurs og norðurs, og

fyrir þig og afkvæmi þitt; skulu allar þjóðir á jörðunni blessun hljóta (1. Mós. 28, 14). það eru mikil orð: blessun handa öllum kynkvíslum, öllum þjóðum á jörðunni. Hver þekkir nokkra uppfylling, er geti samsvarað þessu loforði? Spyrjið þá tíma, sem liðnir eru, spyrjið um öll lönd, nær og fjær, spyrjið í höllum og hreysum, spyrjið barnið, sem heyrt hefir hinar fyrstu frásögur um Guðs vegu á jörðunni af vörum móður sinnar, spyrjið gamalmennið, sem hefir heyrt og sjeð svo margt og mikið í veröldinni, spyrjið þá, sem leitað hafa hvíldar sálum sínum, þá sem haft hafa sundurkramið hjarta, og þjer heyrið hvergi nefnt neitt, er verði kallað blessun handa öllum kynkvíslum, utan einungis Krist og h a n s fagnaðarboðskap. Hann hefir látið ljós sannleikans skína meðal þeirra, er sátu í dauðans skugga, hann hefir látið hina miklu rödd rjettlætisins hljóma frá suðri til norðurs, hann hefir boðað þeim frið, sem fjarlægir voru og þeim sem nærstaddir voru, svo allir hafa aðgang til Föðursins, í einum anda (Ef. 2, 17. 18), hann hefir leitt í ljós lífið og ódauðleikann; og líkamlegt frelsi og jarðnesk sæla hafa einnig verið í för með fagnaðarboðskapnum, þar sem hann hefir verið boðaður óbrjálaður og eins og tign hans var samboðið. þetta er ekki enn þá allt saman fullkomnað, en þó tekur það guðlegum þroska (Kól. 2, 19). — En hver leit nú frá tjöldum Abrahams yfir landið, er afkvæmi hans átti að fylla, yfir fjarlægustu ríki og lönd, langt gegnum ókomnar aldir? hver vissi, að eitt sinn skyldi renna upp blessun handa öllum þjóðum? hver tengdi þessa blessun við afkvæmi Abrahams? Sannarlega! þó að vjer hefðum jafnvel engin önnur fyrirheit enn þetta, gætum vjer samt ekki verið í efa um, að það er komið frá h o n u m, sem kallar þá hluti er ekki eru, eins og væru þeir (Rómv. 4, 17), og hefir fyrir fram ráðið með sjálfum sjer, að búa til einn söfnuð í fyllingu tímans, til að safna öllu undir eitt höfuð, sem er Kristur (Ef. 1, 9. 10).

Afkvæmi Abrahams færðist út um landið, og var þeirri þjóð svo farið, að allur fjöldi hennar var hvorki betri nje sælli, enn aðrar þjóðir; en samt var henni trúað fyrir orðunum Guðs (Rómv. 3, 2), og hinn spámannlegi andi var máttugur í henni, og boðaði

stundum myrkt og stundum berlega leyndardóm þann, er átti að verða opinberaður á sínum tíma. Vjer getum ekki í þetta sinn skoðað hin merkilegu afdrif þessarar þjóðar, nje hvernig Guð um margar aldir talaði til feðranna fyrir spámennina; en hvernig og hversu optlega sem þjóðin reyndi á þolinmæði Guðs, voru samt allt af nokkrir eptir, sem ekki lutu skurðgoðunum, og spámenn og vitringar og löglærðir risu upp meðal þjóðarinnar; og jafnvel þó að Jerúsalem grýtti spámenn sína, og lífljeti þá, sem henni voru sendir, hjelt samt rödd þeirra á fram að hrópa, og kveikti þá eptirvænting, er varð æ styrkvari og staðfastari.

Þessi eptirvænting var tengd við Davíðs ætt, því Drottinn hafði sagt við hann fyrir munn spámannanna: ætt þín og ríkistign skal eilíflega vera staðföst fyrir augliti mínu, og veldisstóll þinn skal standa stöðugur að eilífu (2. Sam. 7, 16); og fyrirheit Drottins hjeldu sífellt á fram að hljóma í hinum helgu söngvum þjóðarinnar: „Jeg hefi fundið Davíð, þjón minn, jeg hefi smurt hann með heilögu viðsmjöri mínu. Hönd mín skal jafnan veita honum fulltingi, og hönd mín skal aðstoða hann. Og jeg vil gjöra hann að frumgetnum syni, allra hæstan meðal konunga jarðarinnar. Jeg skal geyma miskunsemi minnar við hann eilíflega, og halda trúlega við hann sáttmála minn. Eilíflega skal jeg honum afkvæmi gefa, og styðja veldisstól hans æ meðan himininn er til. Ef að börn hans yfirgefa lögmál mitt og ganga ekki fram í rjettindum mínum, þá skal jeg vitja synda þeirra með hirtingarvendi og misgjörða þeirra með refsingum; en miskun minni skal jeg ekki frá þeim snúa og ekki skeika í sannsögli minni, jeg skal ekki vanhelga sáttmála minn, og ekki breyta því, sem gengið er fram af vörum mínum. Eitt sinn hefi jeg svarið við sannsögli mína, jeg skal ekki ljúga að Davíð: afkvæmi hans skal vera til að eilífu, og veldisstóll hans, eins og sólin fyrir augliti mínu“ (Sálm. 89, 21 og nn. vv.). Og þó leit það út eins og Drottinn útskúfaði honum, og ónýtti sáttmálann við þjón sinn; ætt Davíðs varð að spotti í augum allra nábúa sinna, og kórónu hans var kastað til jarðar; þá efuðust konungarnir og öll þjóðin í landinu efaðist; spámenn Drottins einir saman efuðust ekki; þeir boðuðu enn, sem fyrr, að

af stofni Ísaí mundi hrísla upprenna, og kvistur einn af rót hans ávöxt færa (Es. 11, 1); þeir boðuðu enn, sem fyrr, í nafni hins hæsta: sjá þú! þeir dagar koma, þá er jeg vil staðfesta það náðarorð, er jeg hefi talað til ættar Ísraels og til ættar Júda. Á þeim dögum og þeim tíma skal jeg láta upprenna af Davíðs stofni rjettborinn kvist, sá er stofna skal rjettindi og rjettlæti á jörðunni (Jer. 33, 14. 15).

Samt sem áður er nú hinn jarðneski veldisstóll Davíðs hruninn með öllu fyrir löngu síðan, veldissprotinn er vikinn frá Júda og löggjafinn frá fótum hans, ósiðaðar þjóðir troða niður landið, og ekkert er eptir af allri dýrð Ísraels, ekkert nema sundruð þjóð, sem býr undir dómum Drottins. Hefði henni ekki verið heitið, utan jarðneskum konungi, hefði það að eins verið veraldlegt ríki, sem átti að verða stofnað, þá væri nú sáttmálinn rofinn fyrir löngu síðan og fyrirheitin orðin að engu. En hver, sem les orð spámannanna, kannast skjótt við, að eins og þeir skrýða smurða Drottins með alls konar vegsemd og ljóma, og kalla sjerhvern ágætan konung og allt hið fegursta og vegsamlegasta, er prýðir allt mannkynið, skugga hans: þannig verður optlega lýsing þeirra á dýrð hans svo háleit, að enginn maður fær hana borið og enginn maður stofnsett það ríki, er þeir tala um. Þannig boðaði spámaðurinn um Betlehem, er var svo lítil á meðal þúsunda Júda: af þjer skal einn fram ganga handa mjer, til að vera Drottinn yfir Ísrael, uppruni hans er frá því fyrir löngu, frá dögum eilífðarinnar (Mikk. 5, 1). Þannig boðaði annar spámaður það, er hann sá í helgum sjónum: barn mun fæðast oss, og sonur mun verða oss gefinn; drottinstignin liggur á herðum hans, og nafn hans er: hinn undarlegi, ráðgjafinn, hinn máttki Guð, faðir eilífðarinnar, friðarhöfðingi; mikilleikur tignar hans og friðar mun vera án enda á veldisstóli Davíðs og í ríki hans, er hann mun staðfesta og halda við með rjettindum og rjettlæti, hjeðan í frá og að eilífu (Es. 9, 6. 7).

Hversu opt sem aðrar þjóðir hafa talað um gullaldir, er upp mundu koma, hversu opt sem smjaðurtungurnar hafa fagnað komu þess og þess af höfðingjum jarðarinnar, sem væri hann sá, er

gullöldina hefði í för með sjer, sjáum vjer samt ekki neinstaðar neitt, er jafnast geti við eptirvænting Gyðingaþjóðar; og þessi eptirvænting hafði gagntekið alla þjóðina; þegar Jesús fæddist, var hún svo rík, að menn ávallt rjett eins og biðu þess, að stjarna hans rynni upp, og spurðu hinn stranga spámann, er kominn var upp á eyðimörkum Júdeu: ert þú sá, sem koma á? og þjóðin hneig hæglega að hverjum, sem vildi draga hana á tálar. Eptirvænting flestra þeirra var að vísu fávísleg; þeir girntust að fá jarðneskan konung, og sigur og stundlega sælu ásamt honum. En þeir menn voru og til í Jerúsalem og alstaðar meðal þjóðarinnar, er væntu lausnarinnar og huggunar Ísraels af einlægu og guðhræddu hjarta (Lúk. 2, 25. 38). Óglöggar eptirvæntingar sveimuðu fyrir augum sálna þeirra, þeir biðu einnig, eptir þeirri dýrð er opinberast mundi, en þeir vissu og, að þjáningar mundu á undan koma, og Símeon kannaðist þegar við, er hann sá það barn, er Guð fyrirbjó frelsi með handa öllum þjóðum, er átti að verða ljós að lýsa fyrir heiðingjum og vegsemd Ísraelsþjóðar, „að sverð mundi nísta sálu móður hans“ (Lúk. 2, 31. 32. 35). Hversu berlega benti og hinn forni spámaður til þessa, er hann vottaði fyrir fram um píslir þær, sem liggja mundu fyrir Kristi, og þá vegsemd, er honum væri síðan ætluð (1. Pjet. 1, 11)! Því þegar hann talar um Drottins þjón, þeim er allt muni heppnast, er muni verða mikill og dýrðlegur og hátt upp hafinn, er þjóðirnar muni veita lotningu og konungarnir þagna fyrir (Es. 52, 13. 15), þá verða orð hans miklu háleitari og dýpri þýðingar, enn að þau geti átt annaðhvort við spámanninn sjálfan, eður við hans spámannlegt embætti eður Ísraelslýð, þá er hann kemst svo að orði: „Hann er særður fyrir sakir afbrota vorra og fyrir vorra synda sakir er hann lemstraður; hegningin hefir á honum legið, svo vjer fengjum friðinn, og fyrir benjar hans erum vjer heilbrigðir orðnir. En hann er numinn burt úr hryggð og dómi. Þegar hann er búinn að gefa líf sitt til syndafórnar, mun hann sjá ávöxt og auka daga sína, og vilja Drottins mun verða framgengt fyrir hönd hans. Fyrir mæðu sálar sinnar mun hann sjá ávöxt og saddur verða. Og er hann verður þekktur, mun þjónn

minn, sá hinn rjettláti, rjettlæta marga, því hann ber syndir þeirra; því mun jeg gefa honum marga menn til hlutskiptis, og hann mun skipta hinum öflugu, eins og herfangi, af því hann gaf líf sitt í dauðann, og var talinn á meðal spillvirkja, af því hann bar syndir margra og bað fyrir afbrotamönnum“ (Es. 53).

Vjer getum ekki talið fram öll auðæfi hinna fornu spádóma, það er margt í þeim, sem myrkt er, en þar eru og óbifanleg spádómsorð, og sæll er sá, sem veitir þeim eptirtekt, eins og ljósi, því er skín á dymmum stað, þangað til dagur ljómar og morgunstjarnan rennur upp í hjarta hans (2. Pjet. 1, 19).

Í sandhafi eyðimarkanna er stundum eins og ey, blíður blettur og grasi gróinn við svalar lindir; hver sem þar kemur, segir að líkindum: Hjer hefir þú, Guð minn! fyrirbúið hvíldarstað handa hinum mædda vegferðarmanni. Svo er og, að þegar sálin er orðin mædd og þreytt af að ganga gegnum skoðun mannlegrar syndar og mannlegrar eymdar, og hún finnur staðinn, þar sem að er líkn og frelsi og friður, þá er líklegt hún verði að segja: Hjer hefir þú, Guð minn! fyrirbúið sálunni hvíld, eptir baráttu hennar og mæðu. Slík er tilfinning Krists játenda, er þeir segja: Vjer höfum fundið þann, sem spámennirnir hafa ritað um (Jóh. 1, 46).

---

# 24.

## VERK KRISTS VOTTA AÐ HANN ER SENDUR AF GUÐI.

Þegar raddir spámannanna voru fyrir löngu þagnaðar á Gyðingalandi, þá reis þar upp sá maður, er öllum þótti mikils um vert — Jóhannes skírari. Hann hafnaði allri jarðneskri sælu og öllum jarðneskum hag, gjörðist vandur að lifnaði sínum og fram-

ferði, svo sem verið höfðu hinir fyrri spámenn, og líktist Elíasi að anda og krapti (Lúk. 1, 17); hann talaði á eyðimörku, og æðri menn og lægri drifu út þangað til hans. Hann ávítaði fólkið með spámannlegu valdi og horfði með spámannlegri glöggsýni fram á hinn ókomna tímann, þó ekki langt fram, eins og spámennirnir, heldur á það er næst var; hann var ekki sá, er fólkið átti von á, hann var ekki Kristur, enda ljezt ekki vera það, heldur boðaði þann, er eptir hann ætti að koma, og vera honum miklu meiri, og sagði svo: Hann er þegar á meðal yðar (Jóh. 1, 26).

Vandlæting Jóhannesar í ræðum og ávítum bakaði honum óvild höfðingjanna; hann var settur í fangelsi, og er hann heyrði sagt af verkum Jesú, sendi hann til hans tvo lærisveina sína og bað þá spyrja: Hvort hann væri sá, er koma ætti, eður væri von á öðrum (Lúk. 7, 18)? „Sá er koma ætti“, það er að skilja: til að frelsa mannkynið úr villu, vesæld og synd, að sigra völd myrkranna, að færa mönnunum guðsríki — hversu undarleg er slík von! en eigi að síður er hún svo eðlileg mönnunum, og þeim svo rótgróin, að um alla jörðina, jafnvel þar sem fagnaðareyrindi Krists hafði ekki komið, hafa verið sögur um gullnar aldir, þær er upp mundu renna; þjóðirnar hafa haft von sína stundum á einhverjum spekingi, stundum á einhverjum löggjafa, stundum á einhverri hetju, sem þeir hjeldu ætlaða til þess að hugga mannkynið eptir langa þjáningu þess, og flytja því frið og krapt, rjettlæti og farsæld á jörðina. En er þeir sáu það ekki rætast, slepptu þeir voninni, og hjeldu á fram sitt hryggilegt æfiskeið, en biðu ekki eptir frelsinu og ríki Guðs. En á einu saman Gyðingalandi höfðu menn ekki að eins von, heldur og trú; von annara þjóða var á reiki og svo sem í þoku, en Gyðingar vissu betur, hvers þeir vonuðu; margir af þeim slepptu að sönnu voninni, og vera kann að margir hafi fyrirlitið hana, en hinar fornu helgu spár sjáendanna hljómuðu ávallt framan úr öldum, ræður þeirra voru styrkar svo sem guðlegar raddir, þær höfðu gjört fólkið að því, sem það var, og allir trúræknir Gyðingar vonuðu eptir lausn. Fyrir því efuðu ekki Jóhannes skírari og lærisveinar hans, að

einhver ætti að koma, en fóru til Jesú, er hann gjörðist frægur um allt landið, og sögðu: Ert þú sá, er koma á, eður ertu einnig fyrirrennari til að greiða veg þeim hinum mikla, er vjer væntum, að koma muni?

Hverju svaraði nú Jesús þeim, er spurðu hann þess? Hann vísaði þeim til verka sinna: Farið og segið Jóhannesi það, er þjer hafið heyrt og sjeð: blindir sjá, haltir ganga, líkþráir hreinsast, daufir heyra og dauðir rísa upp. Hann nefndi fyrst tákn og stórmerki þau er hann gjörði, til merkis um, að hann væri sendur af Guði, að hann væri sá, er koma ætti. Að sönnu veit jeg, að sum þessi orðatiltæki eru stundum höfð í óeiginlegri merkingu, og Jesús er kallaður læknir, af því hann kom að lækna sár og sjúk hjörtu, og að sagt er, hann ljúki upp augum hinna blindu og eyrum hinna heyrnarlausu, af því hann glæðir eptirtekt sálarinnar á hinum háleitu himnesku röddum, og dregur burt skýluna, er fyrir henni glepur, svo hún sjer ekki sannleikann, og að sagt er, hann lífgi dauða, af því hann kallar þá frá dauðum verkum syndar og andaleysis til hins rjetta, sanna, eilífa lífs. En hvernig verða orðin hjer í þessari grein skilin öðru vísi enn í eiginlegri þýðingu þeirra? Rjett þar á undan er sagt frá hundraðshöfðingja, er ekki taldi sig þess maklegan, að Drottinn kæmi inn í hús hans, heldur gjörði honum boð í því trausti, að öfl náttúrunnar yrðu að hlýða Jesú boði, eins og liðsmennirnir, er hann hafði sjálfur yfir að ráða, gegndu hverri bendingu hans, og bað hann þess vegna skipa sjúkdóminum að láta lausan þjónustumann hans; en er þeir komu heim aptur, er sendir voru, fundu þeir heilan heilsu þann er sjúkur hafði verið; því næst er sagt, að Jesús fór til Naín, og sá þar dauðan mann út borinn, og kallaði hann frá dauða, og að það varð frægt um allar nálægar landsálfur. Og því sendi Jóhannes lærisveina sína, að hann hafði heyrt getið þessara stórmerkja; en svo stóð á, þegar þeir komu, að þar voru margir, sem Jesús var að lækna af sóttum og þjáningum. Til þessa, er þeir höfðu heyrt og sjálfir sjeð, vísaði Jesús þeim, er hann skyldi segja þeim, hver hann væri.

Eru ekki þessi verk sannir viðburðir? Íhugið afleiðingar þeirra í því landi, er þau voru framin, og um öll lönd; því eitthvað harla merkilegt verður að hafa við borið, áður enn þvílíkar afleiðingar gætu komið í ljós, og áður hinn holdlegi og daufi lýður gæfi gaum að fagnaðareyrindinu, er slíkir viðburðir áttu að efla. En lesið um allt fram sagnir guðspjallamannanna með rjettri skipun. Sannleikinn greinir sig frá lyginni á einu marki, sem auðskilið er sjerhverjum manni, þó hvorki sje lærður nje djúpsær. Guðspjallamennirnir vottuðu það, er þeir höfðu sjálfir sjeð, og sjálfir skoðað, og þreifað á með höndum sínum (1. Jóh. 1, 1), eður látið þá segja sjer nákvæmlega, er frá upphafi höfðu verið sjónarvottar (Lúk. 1, 2. 3); og dirfist nokkur, sá er les sögu þeirra, að segja fyrir samvizku sinni, að þeir hafi verið þjónar lyginnar? Voru þeir sjálfir á tálar dregnir? Voru þessi hin mörgu, miklu, augljósu verk eintómar missýningar? Gat það verið, þeir vissu ekki sjálfir, hvort þeir hefðu sjeð það er þeir skýra frá? Eða var það ásetningur þeirra, að draga á tálar? Höfðu þeir gjört með sjer leynilegt samfjelag til að fylla heiminn af skröksögum, og leggja í sölurnar fyrir þær farsæld og ró og allt er menn girnast á jörðunni, og halda þeim fram allt í sjálfan dauðann, og játa þær í andarslitrunum? Hvaðan kom lyginni sá kraptur, að halda þannig saman þjónum sínum, svo að alls enginn brygðist, alls enginn ljeti tælast af vjelum veraldarinnar, alls enginn ljeti hugfallast af hótunum hennar, alls enginn ljeti sjer í augum vaxa harmkvæli píslarfulls dauðdaga? Ef þeir hefðu verið svikarar — mundi þá ljóssins engill hafa stigið niður á samkomu þeirra, til að kenna þeim hið einfalda og einlæga orðalag, er mælir fram með sjer fyrir samvizkum allra manna? Eru verk þessi ekki sönn kraptaverk? það er: voru þau gjörð með eintómum náttúrukröptum, þeim er Kristur hafi fært sjer leynilega í nyt, en l á t i z t gjöra kraptaverk; eða v o r u það himneskir kraptar, er þar komu í ljós — v a r það herra náttúrunnar, er talaði, svo það varð, er hann bauð, svo það stóð þar? Jeg þekki enga fávíslegri og svívirðilegri viðleitni, enn að vilja svipta hinum guðlega ljóma af kraptaverkum Krists, að vilja rengja hið auðsjáanlega, og hafna

viti voru, þó vjer neytum þess endrarnær við það sem vjer heyrum og lesum, og sannfæringu vorri, en fara með þetta eins og önnur mannleg verk, og eigna þau samkomu náttúrlegra viðburða, heppilegri meðferð á læknisdómum, dunum sviplegrar skruggu, hugarburði þess er gjörði eður þeirra, sem við voru staddir, í stuttu máli: hverju, sem fánýtur skarpleiki getur látið mönnum til hugar koma. Jeg veit eins vel og hver annar, hversu margt hinir hjátrúarfullu hafa dásamað eins og kraptaverk, þó verið hafi eintómar sjónhverfingar, orðnar af ásetningi eður af hendingu; og þó mjer væri sagt frá kraptaverkum, sem ættu að hafa orðið í leyni á einhverjum stað, þá tryði jeg því ekki, og þó vottar væru til leiddir, að eitthvert kraptaverk hefði orðið í fjölmenni, þá yrði jeg samt efablandinn; náttúrleg tilfinning mín fellst ekki á neitt kraptaverk, nema jeg geti sagt af fullri sannfæringu: þetta er Guðs verk. En þegar jeg íhuga verk Drottins míns, þá skil jeg glögglega, að þar sem allt það, er vjer mennirnir megnum að gjöra, er mitt í náttúrunni og undir lögmáli hennar, þá var hann yfir náttúrunni. Fyrst að Drottinn vor, þá er hann var úti á hinum ólgufulla sjó, hefir risið á fætur, þegar stormar himinsins tóku að æða, og öldurnar bjuggust að gleypa það er fyrir varð, og hastað á stormana, svo að þeir þögnuðu, og skipað öldunum, svo að þær gegndu og sefuðust þegar; fyrst að Drottinn vor, þá er hann sá son ekkjunnar út borinn, hefir boðið dauðum að rísa á fætur, svo að dymma dauðans leið burt af augum hans, og sá, er dauður hafði legið, reis upp og tók að mæla; fyrst að Drottinn vor, þá er hann kom að gröf Lazarusar, hefir látið opna hinn dymma helli, og kallað á íbúa grafarinnar, eins og kallað er á lifandi menn, svo dauðinn varð að láta að orðum hans og skila aptur herfangi sínu, þó hann hefði grúft sig niður yfir það: þá þarf jeg ekki að láta segja mjer nákvæmlega, hvað kraptaverk sjeu, jeg þarf ekki að vera mjög kunnugur leyndardómum náttúrunnar til að verða sjálfum mjer samþykkur í þessu efni; því það vita bæði fróðir og ófróðir, að slík verk verða ekki af mannavöldum.

Nú ef einhver tæki svo til orða: þó það sje gefið eptir, að

tákn og stórmerki hafi orðið, og andlegir kraptar hafi stýrt viðburðunum, þá er ekki að vita, hvort þeir hafi komið úr vondri eða góðri átt; því hið illa getur einnig sýnt af sjer þvílíkan mátt, og vottar Krists segja sjálfir, að hinn rangláti, óvinur Guðs og manna, ópinberi sig með öllu afli og táknum og stórmerkjum lyginnar (2. Thess. 2, 9), og Kristur segir, að margir falskristar og falskennendur muni upp koma, og gjöra tákn mikil og stórmerki (Matth. 24, 24), svo vjer sjáum ekki á kraptaverkunum, hvort sá, er þau gerði, hafi verið kominn af himnum ofan eða úr undirdjúpunum — tæki nokkur svo til orða, sem nú sögðum vjer, þá er vonanda, að sá viti ekki, hvað hann mælir. Því þó hin blíða rödd miskunarinnar lýsi því yfir, að hvers kyns synd og guðlöstun skuli verða mönnunum fyrirgefin, þá er samt þessu við bætt: en löstun Andans verður ekki fyrirgefin (Matth. 12, 31), og það var tilefnið, að óvinir Krists eignuðu verk hans samfjelagi við hinn vonda, og sögðu, hann ræki út djöfla með liðsinni Belzebúls, djöfla höfðingja. — það var, segi jeg, tilefnið til þess, að Drottinn minntist á þá synd, sem ekki yrði fyrirgefin, hvorki hjer nje annars heims. Því þegar einhver hættir að geta gjört mun á sönnu og lognu, og góðu og illu, þegar einhver herðir svo hjarta sitt, að hann getur haft fyrir augum sjer líferni Krists, þegar hann ferðaðist um til þess að líkna, að hann getur haft fyrir augum sjer verk Krists í sambandi þeirra við kenningu hans, og þó sagt: „hann er sendur að villa, svíkja og tæla mennina, og ginna þá í glötunina með táknum og stórmerkjum; þau hafa orðið af völdum andskotans, en ekki Guðs“: hvað verður þá eptir í brjósti þessa manns, það er hæfilegt sje fyrir sannleikann og guðlega miskun, svo að hún geti leitt hann til sáluhjálpar?

Eins og kraptaverkin styðja kenningu Krists, eins verpur hún og birtu sinni á þau, svo það sameinast hvorttveggja, og verður að einni dýrð. Þegar Jóhannes gjörði frá sjer lærisveina sína til að spyrja Krist, hvort hann væri sá, er koma ætti: þá vísaði Kristur á kraptaverk sín: blindir sjá, haltir ganga, líkþráir hreinsast, og daufir heyra, og dauðir rísa upp; en hann bætti

þessu við: og fagnaðareyrindið er boðað hinum fátæku. Þetta hið síðast nefnda var einnig ætlunarverk hans, og að vísu hinn mikilvægari partur þess, og vegna þess var hann einkanlega sendur. Því Sonur Guðs eingetinn kom ekki í veröldina einungis til þess að lækna fáeina sjúka menn, til þess að gefa sýn fáeinum blindum mönnum, til þess að kalla fáeina dauða menn til þessa skammvinna lífs; heldur átti hann að glæða með þessum táknum og stórmerkjum eptirtektina á fagnaðareyrindi því, er hann var sendur að boða — hann átti að staðfesta það fyrir þeim er efast, svo að vjer einnig, þegar hinir æðri kraptar í oss eru daufir og sljófir, og vjer finnum ekki fullglöggt sannleika sjálfrar kenningarinnar — að vjer getum þá haft oss fyrir augum þessa ytri staðfestingu, og sagt: Guð var með honum (Post. 10, 38). En fagnaðareyrindið sjálft var og er aðaleyrindið. Fagnaðareyrindið, það er: hinn gleðilegi boðskapur, hið helga ljós í myrkri veraldarinnar, hin himneska huggun í jarðneskum raunum, boðskapur frá Guði til að lækna þá sem hafa sundur kramin hjörtu, til að boða herteknum lausn og ánauðugum frelsi (Lúk. 4, 18). Það var aðaleyrindið. Og þetta fagnaðareyrindi hefir fært sönnur á sig, og færir enn sönnur á sig, fyrir samvizkum mannanna. Jeg veit það fyrir víst — hver sem þú ert, er þetta lest eður heyrir, að þú hefir þungar byrðar að bera, og að þjer finnast þær svo þungar opt og einatt, að þú þykist ekki fá undir þeim risið; þú kvartar ekki einungis um líkamlegt mótlæti, heldur og um andlegar raunir: hið innra líf þitt er teppt og bundið, hjarta þitt er snautt eða titrar af sárum kvíða, myrkur dauðans dregur upp yfir höfði þjer, og þig óar við gini grafarinnar, jafnvel áður enn þig ber þar að, þú leitar að fróun, lækning og hjálp — þú leitar, en þú veizt ekki, hvar þú átt að finna. En það er þó til eitt fagnaðareyrindi — boðskapur lífsins og miskunarinnar; og þú getur undir eins markað þar á, hvílíkt það muni vera, að það er prjedikað, og prjedikað eins og gjört er, um alla jörðina, í margar aldir. Allt annað, sem upp hefst á jörðunni, hefir sinn tiltekinn aldur, og fellur síðan; svo er um veldi og ríki, svo er um öll mannanna fjelög, svo er um meiningar og kenningar. En fyrst að kristin

kyrkja stendur enn meðal svo margra hrynjandi rústa, fyrst að Krists fagnaðareyrindi heyrist enn meðal svo margra hverfandi radda, fyrst að ofsóknunum hefir ekki tekizt að fyrirkoma því, nje ljettúðinni að drepa því á dreif — þá minnir sigursæld hennar oss á hin merkilegu orð, er sá hinn skynsami maður sagði á ráðssamkomu Gyðinga, þegar hin helga trú tók að hefjast, og höfðingjar á Gyðingalandi bjuggust að kúga hana með öllum ráðum, þeim er þeir áttu vald á: sje þetta fyrirtæki af mönnum, sagði hann, þá verður því eytt, en sje það af Guði, þá megnið þjer ekki að kefja það (Post. 5, 38. 39); það verður að vera, menn hafi fundið með sjálfum sjer um allar þessar löngu og margbreyttu aldir, að Krists fagnaðareyrindi er kraptur Guðs til sáluhjálpar hverjum er trúir (Rómv. 1, 16), fyrst þeir hafa ekki hafnað því. Já, sannlega hefir það reynzt svo um allar aldir, að þegar þessi heimur hefir tælt mennina eða fullnægt óskum þeirra, þá hafa þeir fyrirlitið fagnaðarboðskapinn, og þegar hugur þeirra hefir gjörzt fullur þrjózku og yfirgangs, þá hafa þeir hatað hann og ofsótt; en þegar Guð hefir lítillækkað þá, þegar hin dýpri öfl sálarinnar hafa farið að bæra á sjer aptur, og hin æðri löngun hennar hefir vaknað, hafa þeir ekki átt neitt hæli, nema þann hinn sama fagnaðarboðskap, er svo optlega hefir verið smáður og ofsóttur. Enn í dag er hann mönnunum jafnnálægur, enn er hann óafbakaður á meðal vor, og þeir sem af heilum hug hafa við honum tekið, þó þeir hafi í fyrstu gjört það fyrir fortölur annarra, munu enn geta með sanni sagt, eins og hinir samversku forðum: vjer trúum nú ekki framar fyrir fortölur annarra, því vjer höfum sjálfir heyrt og vitum, að hann er sannarlega frelsari veraldarinnar (Jóh. 4, 42). það er til ástæða fyrir sannleika fagnaðarboðskaparins í honum sjálfum, sú er full anda og máttar, og hugnast samvizku hvers manns, það er: hinni innstu tilfinning vorri, sem aðgreinir rjett og rangt. þessi ástæða fullkomnar algjörlega hinar ytri ástæðurnar. Hana þekkja þeir, sem tekið hafa Krists ok sjer á herðar með hógværð og auðmýkt, og lært af honum, og fundið, að hann gefur þeim, sem erfiða og þunga eru þjáðir, hvíld handa sálum þeirra (Matth. 11, 28. 29); hana þekkja þeir, er sjálfir hafa reynt þýðing þessara

Krists orða: hver sem vill gjöra vilja þess, er mig sendi, hann mun komast að raun um, hvort kenningin er frá Guði, eður jeg tek hana upp hjá sjálfum mjer (Jóh. 7, 17); hana þekkja þeir, sem freistarinn hefir spurt, annaðhvort fyrir munn annarra, ellegar í hjörtum sjálfra þeirra, er svo hæglega efast og hneixlast — hvort þeir vildu ekki yfirgefa Drottin sinn, eins og margir hafa gjört? þeir þekkja hana, segi jeg, ef þeir hafa þá fundið til þess er postulinn sagði: Drottinn! hvert eigum vjer að fara? þú hefir orð hins eilífa lífs (Jóh. 6, 68).

Fagnaðareyrindið er boðað hinum fátæku. Hversu margir vísindaskólar hafa verið í heiminum, þar sem spekin hefir ekki að eins verið seld við auðæfum, heldur hefir jafnvel bæði verið og orðið að vera öllum ófáanleg, nema einstöku afbragðsmönnum, þeim er sakir frábærra vitsmuna, rækilegs undirbúnings og menntunar voru færir um, að ráða í hinar vandskildu greinir, sem vizkan var hjúpuð í. En þegar Kristur stofnaði sinn skóla, það er: sína heilögu kyrkju, þá bauð hann til ríkum og óríkum, því hann vildi, að sannleikurinn yrði ber öllum mönnum. Enginn maður er svo lítils verður, að ekki þarfnist hann guðlegra sanninda sjer til huggunar og leiðbeiningar; og því er nauðsyn á, að hinar háleitu kenningar, er veita sálunni frið og frelsi, sjeu finnanlegar hverjum, er þeirra leitar af einlægum hug, þó þær sjeu slíkar, að enginn fái lengra komizt, hversu djúphygginn sem er, og þroskaður að vitsmunum; og hversu opt hefir Kristur sýnt, að það, sem hulið er hinum vitru og spekingunum, getur orðið bert fyrir smælingjunum (Matth. 11, 25). Hann sneiddi sig ekki hjá hinum voldugu eða lærðu, heldur veitti þeim áheyrn, hvort sem þeir komu til hans á næturþeli, eða ávörpuðu hann í viðurvist fólksins; en hinir fyrstu játendur hans voru þó lítilla manna; þá gjörði hann að þjónum síns ríkis, og sendi þá frá sjer til að boða hinum fátæku fagnaðareyrindið. Að sönnu voru þeir kallaðir fram fyrir konunga og höfðingja fyrir hans sakir, og mörgum, er höfðu veraldlegar virðingar, komu þeir til að láta sjer ekki þykja minnkun að krossi Krists; en enginn var svo umkomulítill, að þeir ræki frá sjer eða fyrirliti, hvort sem var snauður eða ánauðugur, ef þeir væntu, að

hann mundi þekkjast orð Drottins þeirra. Og það hefir viðhaldizt æ síðan. Í hvað mörgu tilliti sem kyrkja Krists hefir opt úrætzt og spillzt, þá hefir hún ætíð borið umhyggju fyrir hinum fátæku; þegar Drottinn kemur, þá mun hann sjá hneixlanir og saurganir fleiri enn tölu verði á komið, en þó mun hann sjá, að játendur hans hafa í hans nafni mettað hina hungruðu, klætt hina nöktu, tekið að sjer hina munaðarlausu, og að þjónustumenn hans hafa talað máli hinna umkomulitlu, og þráfaldlega sagt herrum jarðarinnar, að veita þjónum þeirra það sem rjett er og sanngjarnlegt, og muna til þess, að þeir eigi sjálfir herra á himni (Kól. 4, 1) — svo að hlekkir ánauðarinnar eru víða með öllu brotnir, en sumstaðar eru þeir að losna. Samt eru ekki að eins stundlegar gjafir veittar hinum fátæku í nafni Drottins vors; heldur eru í sjerhverju kristnu landi, þó það sje afskekkt, og þar sjáist engin höll, heldur mest kot og hreysi, og fáir láti sjer annt um, hvort að íbúum þess líði í öðru vel eður illa — þá eru þar þó kyrkjur byggðar, svo konur og karlar geti leitað þangað, eptir hita og þunga rúmhelgu daganna, til að heyra áminning og huggun Guðs orða, og til þess að börnin geti snemmindis kynnt sjer hinn eina og sanna Guð, og þann er hann sendi, Jesúm Krist. Þannig er fagnaðareyrindið enn í dag boðað hinum fátæku.

Hinum fátæku, sagða jeg; en þurfa hinir auðugu ekki að halda á neinum fagnaðarboðskap, eður hafa þeir annan? Ó! meðan maðurinn kallar sig auðugan og þykist hafa alls nægtir og skort á engu, hefir hann ekki not af Krists fagnaðarboðskap. En það er til þorsti, sem jarðneskar uppsprettur fá ekki slökkt; það er til þörf, sem öll dýrð veraldarinnar fær ekki fullnægt. Hver sem til þessa finnur, hvort sem hann er voldugur konungur eða fátækur förumaður, þá leitar hann Jesú; því heilbrigðir þurfa ekki læknis við, heldur þeir sem vanheilir eru (Matth. 9, 12). Sælir eru volaðir í anda, því þeir munu eignast himnaríki (Matth. 5, 3).

---

# 25.

## LÍF KRISTS Á JÖRÐUNNI.

Hið daglega líf mannanna er að vísu harla virðingarvert, þegar þeir leitast við með trúleik og skynsemi að gjöra þær skyldur, sem hver dagur leggur á þá, þegar þeir bera hita og þunga dagsins, og taka með þolinmæði kross sinn á herðar sjer, en eru líka nægjusamir, og taka þakklátlega á móti þeim gæðum, er Guð dag hvern gefur þeim. Ekki megum vjer heldur fyrirlíta hinar daglegu hugsanir, sem vakna í sálunni, um það sem hverjum degi viðvíkur, því vjer eigum að hafa hugann við starf vort, hvort það er heldur mikið starf eða lítið, sem oss er á hendur falið í lífinu. En hversu voluð er sú sál, sem ekkert þekkir, nema þessar daglegu hugsanir! Menn fá jafnvel ekki þekkt það lögmál, sem á að prýða alla hegðun vora, það er: hið heilaga lögmál ráðvendninnar, af eintómri skoðun stundlegra hluta og daglegra, því þetta lögmál er nokkurs konar æðra ljós, sem skín inn í sálina; og ekkert af því, er sýnir oss, að hið daglega líf sje í raun og veru mikið og merkilegt, ekkert af því, er veitir hjartanu hinn æðra og sælla fögnuð, ekkert af því, sem í raun rjettri huggar oss í hinum marghátluðu þjáningum lífsins, ekkert af því, er lætur oss eygja morgunroða vonarinnar, í staðinn fyrir myrkur hins dymma dauða, í gegnum breytingar þessa hins dauðlega lífs: ekkert af öllu því geta daglegar og venjulegar hugsanir veitt oss.

Þess vegna á hver maður, sem girnist að hafa sönn not lífs síns hjer á jörðunni, að auka sál sína meiri og háleitari hugmyndum, enn þær eru, sem hver dagur færir honum sjálfkrafa. Vjer sjáum einnig, að þeir, sem hafa aflað sjer vizku og menntunar, eru vanir að taka sjer, utan við þann veg, er þeir verða að renna ásamt hinum háværa lýð, svo sem nokkurs konar næðissaman hól, til að geta á stundum farið þangað úr skarkalanum og náð þar meiru víðsýni, og hvílzt við skemmtilegri hugleiðingar, og safnað nýju fjöri og nýjum hug, til að halda á fram vegferðinni. Og vjer ættum sannarlega að gleðjast, þegar vjer lítum einhvern ráðvandan mann,

er á sjer athvarf í vísindum og menntum, eða einhverju öðru sæmilegu starfi, sem honum þykir skemmtilegt, og hann getur varið til þeim stundum, sem honum eru gefnar til hressingar, og sleppt svo daglegu umstangi endur og sinnum, svo hugrenningar hans verði ekki smám saman eins og hjólin í sigurverki, sem snúast allt af eins.

En hvort sem þú finnur nokkurt slíkt hæli eður ekkert, hvort sem þú hefir lært mikið eða lítið þjer til umhugsunar, þá áttu samt eitt hæli, sem Guð hefir búið hverjum manni, er vill leita þess í mannraunum sínum og hvers kyns armæðu, en það eru kristilegar hugleiðingar. Hver sem vill eiga kristið nafn skilið, á ekki að láta þau kristin fræði, er hann hefir numið, liggja arðlaus í sálu sinni, heldur á hann optsinnis að renna huganum til þeirra, ekki að eins til trúaratriðanna, heldur og til hinna heilögu frásagna, sem þeim eru samfara, og þau eru byggð á, og hljóða um. Hvílík auðæfi bera þá fyrir augu guðrækins manns! Fæstir vita mikið um það, sem við hefir borið í heiminum utan við þá hina mjóu götu, sem liggur frá vöggu þeirra til grafarinnar; vjer getum ekki heldur flett upp veraldarsögunni, og látið þá, sem fávísir eru, virða fyrir sjer hetjur og spekinga fornaldarinnar. En heilagri ritningu vildum vjer geta komið inn í hvert hreysi, því hún hefir að geyma mikla mergð af hinum fegurstu og fróðlegustu frásögum, er gjörzt hafa í fornöld. Þar sem eptir er nokkurt skynbragð á jarðneskum og himneskum hlutum, þar þykir bæði ungum og gömlum ánægjulegt að lesa af viðburðunum í tjöldum forfeðranna, af hinum mikla löggjafa, er dóttir Faraós var send til að frelsa, til þess hann gæti frelsað þjóð sína úr ánauð, og gjört hana með helgum lögum hæfilega til mikilla hluta, af hinni undarlegu leið Davíðs frá hjörðunum til veldisstóls Ísraels; af Salómoni í allri dýrð hans, af konungum Ísraels, þeim er lutu Guði, og þeim er þrjózkuðust gegn honum, af spámönnunum, er spáðu í nafni Drottins; en þar er rituð ein frásaga, sem tekur öllum fram, það er hin einfalda og þó háleita frásaga guðspjallamannanna um líf Krists á jörðunni.

Hvers vegna ber nú á dögum miklu minna á þessari helgu

frásögu enn áður, og hvers vegna þykir hún nú fæstum eins fýsileg að heyra, og áður þótti hún? Vera má það komi nokkurn part til af því, að menn reyna nú miklu framar til að komast í skilning á einni og einni grein, enn að láta háleitar hugmyndir gagntaka allan huga sinn með fjöri og afli; en einkum kemur það til af því, að menn leita nú ekki að öðru enn eðlilegri rás hlutanna, og skoða ekki stórmerki Guðs með lotningu, heldur með efasemi. Því undursamleg er frásaga þessi; ef vjer sviptum hana stórmerkjunum, fer af henni blærinn og úr henni krapturinn, og hún verður að tómum samsetningi, eða hjegóma, eða öðru, sem er enn fyrirlitlegra. Það eru einmitt stórmerki Guðs, sem gjöra þessa frásögu dýrðlega. Vjer menn erum allir háðir eðli veraldar þessarar, verðum að hlýða lögum þess, getum ekki án þess aðstoðar gengið eitt fótmál, eða gjört eitt hár svart eða hvítt á höfði voru. En þar segir frá þeim, sem átti að bæta hið spillta eðli, leysa h ð fjötraða eðli, og reisa á fætur hina föllnu kynslóð; þess vegna hlaut hann að vera æðri eðli því, er hann átti að leysa; þess vegna hlaut hann að vera sameinaður guðlegu eðli, sem á sjer vegu og ráð, sem eru oss mönnunum hulin; þess vegna ljet Guð táknin fylgja Kristi, honum til dýrðar, og þess vegna gjörði Kristur guðleg stórmerki.

Hversu fullar sælu og huggunar finnast ekki kristnum manni frásögurnar um Drottin vorn, þegar hann les þær með slíkri trú! Hann nefnir sig kristinn, af því hann trúir að einu sinni hafi runnið upp frelsi handa hinum glötuðu kynþáttum, sem hafi breiðzt út, og breiðist enn út æ víðar. Hvar ljómaði morgunroði frelsunarinnar? Hin helga frásaga vísar oss til Betlehems, lítillar borgar í afskekktu og fyrirlitnu landi; þar vísar hún oss til gestaherbergis, og í því herbergi til jötu einnar, sem barn liggur í. Er það þetta barn sem á að verða stórt, og eignast nafn, sem æðra er öllum nöfnum? Er það móðir þessa barns, sem allar þjóðir skulu sæla kalla? — Mörg börn hafa fæðzt í dýrðlegum höllum, og óteljandi gleðiraddir hafa þá látið til sín heyra, en smjaðurtungurnar þá þegar lofað hin miklu afreksverk, er þau mundu vinna, og samt hefir líf þeirra horfið burt af jörðunni, án þess menn sæu nokkrar

menjar þess. En úr jötunni í Betlehem kom sá, er átti að láta orðstýr sinn og afleiðingar lífs síns ná til endimarka jarðar og til allra ókominna alda. Hinn háværi lýður hirti lítið um barn það, sem borið var í hinni mestu niðurlæging, þó urðu tákn og stórmerki, er sýndu hver fæddur væri. Hjarðsveinarnir út í haganum sáu guðlega birtu ljóma í kringum sig, og heyrðu himneskar raddir, er boðuðu þeim og þjóð þeirra og öllum heimi mikinn fögnuð. Í dag, sögðu þær, er yður frelsari fæddur, hinn fyrirheitni, drottinn Kristur; þjer munuð finna hann í borg Davíðs, svo sem ungbarn, er liggur í jötu einni. Og hjarðsveinarnir fóru inn í Betlehem, og sögðu frá því, er þeir höfðu heyrt og sjeð; og móðir hans, sem tortryggð var og fyrirlitin, varðveitti hvert orð þeirra í hjarta sínu. Síðan er barnið fært í musterið, spámannlegar raddir heilsa því, og orðrómurinn um það berst út um Jerúsalem, meðal allra sem væntu endurlausnar. Á austurlöndum eru vitringar nokkrir úti á næturþeli að athuga rás himintunglanna, og sjá undarleg tákn, er þeir ætla boða muni, að höfðingi sá sje fæddur, er heiðingjarnir í löndum þeirra hugðu að koma mundi af Gyðingalandi, og þeir fara þegar að veita honum lotningu. Þá óttast konungurinn fregn þá, er hann fær, hann óttast að barn það, er borið var, muni á síðan reyna til að steypa honum úr völdum, og lætur því drepa öll ungbörn í Betlehem. En engill Drottins frelsaði barnið, og var búinn að koma því undan valdi óvina þess, og skýla því í fjarlægum löndum. Að sönnu kom það skjótt aptur, en fæddist þó upp á laun; að sönnu spurðist það eitt sinn, að barn eitt hefði setið í musterinu meðal kennendanna, og að allir hefðu undrazt andsvör þess og vitsmuni, en að öðru leyti var allt kyrrt. Menn höfðu nú gleymt boðskap þeim, er orðið hafði, eða hjeldu hann mundi ekki koma fram, þangað til hinn merkilegi spámaður, Jóhannes skírari, hóf að kenna á eyðimörku. Þar kom Jesús til hans að láta skírast, og þá urðu enn tákn og stórmerki, er sýndu Jóhannesi þann, er honum var meiri, og hvöttu hann til að bera þann vitnisburð, sem kom því til leiðar, að hinir fyrstu af lærisveinum Jesú aðhylltust hann. Síðan fór Jesús út á eyðimörk, til þess að búa sig í næði undir starf það, er hann ætlaði að byrja á, þar átti hann barátu

í undarlegum og tælandi vitrunum, þar fyrirleit hann ánauð líkamlegra nauðsynja, þar hafnaði hann ginningum til flaslegra fyrirtækja, er heimskingjar einir freista með Drottins Guðs síns, þar virti hann að vettugi ríki veraldarinnar og dýrð þeirra, og er hann var þannig undirbúinn, stefndi hann öruggt að takmarki sínu, og hóf að kenna.

Nú eru kristin fræði kennd um allan heim, og afleiðingar þeirra ná einnig þangað, er menn þekkja ekki nafn Krists, eða hata það og fyrirlíta. Hvaðan eru fræði þessi komin, sem eru heiðninni svo gagnstæð með öllu? Hvaðan hafa þau breiðzt út um jörðina? Hin helga frásaga vísar oss til bakkanna á Genesarets vatni. Þar er hið fegursta hjerað á Gyðingalandi, og byggir þar fjöldi fólks, og borgir eru þar skrautlegar; þar ferðaðist Jesús um, og gjörði gott, læknaði sjúka, gaf blindum sýn, ljet halta ganga, og vakti upp dauða, því Guð var með honum. Þar sýndi hann, að hann væri sendur af Guði, er hann ljet í ljósi mátt sinn; þar sýndi hann vottum sínum, er dýrkuðu hann, geisla dýrðar þeirrar, er síðan kom í ljós, þá er hann ummyndaðist í augsjón þeirra. Þar kenndi hann líka þjóðinni þá kenningu, er síðan átti að heyrast gegnum allan skarkala lífsins, betra siðina, snúa mönnunum til rjettlætis, þýða lögmál Guðs, og kenna foreldrunum að hafa það yfir, svo börnin gætu snemma lært það, og helga lífið á jörðunni. Þar kenndi hann fagnaðareyrindi guðsríkis — boðskap þann frá Guði um náð og frelsi, er síðan átti að hljóma í höllum og hreysum, og vera um allar aldir hæli hinna aumu, færa þeim frið, sem erfiða og þjáðir eru, og lækna sundur kramin hjörtu. Þar sýndi hann hið heilaga eptirdæmi, er ætíð átti að skína þeim til eptirbreytnis, er með sannri kostgæfni leggja stund á hið góða; þar sameinaði hann máttinn og hógværðina á hinn fegursta hátt, í óslökkvanlegri ást á Guði og mönnum; þar tók hann á sig syndir veraldarinnar, þótt sjálfur væri hann syndlaus; þar lypti hann opt í einveru sál sinni á vængjum bænar og guðrækni til himna, þangað er hið sanna heimkynni hans var; en síðan stje hann niður þaðan aptur, til að vera hjá þeim, er hann nefndi bræður sína, til að leita að því, sem glatað var og frelsa það, til að drekka af bikar þeim, er

hans himneskur Faðir ljet bera honum, til að framkvæma það, er Guð hafði honum á hendur falið. Sjaldan yfirgaf hann hjerുð þessi, til þess einnig í Jerúsalem að greiða götu sína, til að vekja þá, er hæfir voru til trúarinnar, þangað til hann undir endalok æfi sinnar, bjó þar hið fyrsta aðsetur safnaðar síns:

Nú er fyrirgefning syndanna boðuð um allan heim; rödd heyrist, er segir við þann, sem iðrast og búinn er til betrunar: synd þín er afmáð. Hvaðan kemur þessi rödd? Hin helga frásaga vísar oss til næturmyrkranna í Getsemane, þar sem Frelsari veraldarinnar átti hina örðugu baráttu, þar sem sál hans var hrygg til dauða, og sveiti hans fjell til jarðar sem blóðdropar, þangað til stund myrkranna var komin, þegar svikarinn brauzt inn til hans, til að selja hann í dauða, er saklaus var og heilagur, þegar allir yfirgáfu hann, og menn fluttu hann til hinna órjettlátu og grimmu dómenda. Þar sjáum vjer hann færðan úr einum stað í annan, húðstrýktan, skrýddan búnaði þeim, er menn höfðu til smánar yfir hann kastað, með þyrnikórónu á hinu mædda höfði, leiddan út, til þess fólkið skyldi aumkast yfir hann, en kynslóð sú, er hann þoldi allt þetta fyrir, gjörði það ekki. Vjer fylgjum honum á píslargöngu hans, er hann bar kross sinn, og hnje undir byrðinni, en sagði þó við dætur Jerúsalems: Grátið ekki mín vegna, heldur yðar vegna og barna yðvarra. Vjer lítum til Golgata-hæðar, og sjáum þar standa þrjá krossa; á tveimur þeirra hanga óbótamenn, sem deyja fyrir syndir sínar, en á miðkrossinn er s á negldur, sem kom til sinna, er vildu ekki við hann kannast, heldur spotta hann í sjálfu andlátinu; þar heyrum vjer kveðjur hans til vina og óvina, þar sjáum vjer píslir hans, allt til þess er hann gat með sanni sagt: það er fullkomnað! allt til þess er h a n n, sem bar syndir allrar veraldarinnar, er hann vígði sig til friðþægingardauða, gat með sanni sagt: það er fullkomnað!

Nú hafa menn um alla veröld von um ódauðleika, háir og lágir, vitringar og einfeldningar, líta nú yfir um takmörk þessa lífs, og búast við rjettlátum dómi í öðru lífi; hinir armæddu horfa úr raunum þessa lífs upp til himins, og vænta þess friðar á öðrum betri stað, er þeir hafa ekki öðlazt hjer á jörð; og þegar tár hinna

yfirgefnu falla niður á hina þöglu gröf, stendur við hana engill sá, er aptur mun sameina þá aðskildu, og snúa harmagrátnum í blíðan og stilltan trega, er felur Guði allt sitt ráð. Von mannanna um annað líf hefir ekki ætíð verið slík; hvernig er þá líf og ódauðleiki kominn í ljós? Hin heilaga frásaga vísar oss til grafar einnar við Jerúsalem, þar sem nokkrir trúfastir menn höfðu lagt lík vinar síns og meistara, og velt þar yfir hinum þunga steini, er um aldir átti að hlífa hinum dauða við skarkala hinna lifendu. Þangað gengu í morgunkyrrðinni fáeinar harmandi konur, og hryggir lærisveinar, og sjá! gröfin var opin, og sjá! hinn krossfesti var upprisinn, og birtist þeim optsinnis, og með skýrum jarteiknum. Er þetta ekki sönn saga? Enginn hefir sá atburður orðið í fornöld, er eins margir eða eins ráðvandir og sannsöglir vottar sjeu að. Þeir vörðu lífi sínu til að votta þetta, þeir fóru með vitnisburð sinn borg úr borg og land úr landi, og engin er sú mæða til eða ofsókn, er þeir væru ekki fúsir að þola sakir Drottins þess, er þeir báru vitni um, sakir Drottins, er krossfestur var, og síðan uppreis; þeir sáu bræður sína falla við hlið sjer, þeir sáu, sverðin blika yfir höfðum sjer, en þó tók ekki einn af þeim vitnisburð sinn aptur; allt til elli, þegar þeir fundu, að dauðastund þeirra nálægðist, hjeldu þeir á fram að vitna um það, er þeir höfðu heyrt, það er þeir höfðu sjeð með augunum, það er þeir höfðu skoðað, og þreifað á með höndunum (1. Jóh. 1, 1), og eitt af því var, að Guð hefði vakið Jesúm frá dauðum. Og við upprisu Drottins bættu þeir ætíð dásamlegri uppstigning hans til himna. Með hverju öðru móti hefði líf Jesú á jörðunni átt að enda? Hefði hann átt að ganga í annað sinn fram fyrir óvini sína, og láta krossfesta sig í annað sinn? Eða hefðu lærisveinar hans átt að skýla honum, eða hann að skýla sjer sjálfur í einhverjum afkima? hefði hann átt að eyða þar æfi sinni í gleymsku, án þess að starfa að hinum háleita tilgangi lífs síns, þangað til hann hefði orðið sóttdauður? Hversu sundurlausar og ósæmilegar verða allar hugmyndir vorar, undir eins og vjer förum að snúa guðlegum viðburðum í náttúrlega, og yfirgefum það, er vjer höfum sögur af! Guðspjallamennirnir segja oss ekki, að Kristur hafi, eptir að hann var upprisinn, lifað á

jörðunni á sama hátt og aðrir, sem á henni búa, heldur að hann hafi opinberazt margsinnis og á margan hátt, og er hann opinberaðist í síðasta sinni og hafði safnað þeim saman, hafi hann blessað þá, og er hann blessaði þá hafi ský numið hann frá augum þeirra (Post. 1, 9). Þetta ský hylur enn síðustu daga Drottins vors á jörðunni og för hans til Föður síns, og eins og vjer vitum ekkert um, hvað vjer munum verða á hinni miklu stund hinnar síðustu ummyndunar, eins vitum vjer ekkert um það, hvernig það hafi horfið, er seinast var eptir dauðlegt í mannlegu eðli Jesú, og hvernig hið dauðlega hafi skrýðzt ódauðleikanum. En úr skýinu ljómar dýrð Guðs, því þetta er fullkomlega sannað: Drottinn er sannarlega upprisinn, og hinir trúföstu vottar hans hafa sjeð hann, og mörg hundruð játenda hans hafa sjeð hann í Galíleu (1. Kor. 15, 7), og loks er hann stiginn til himna í augsýn postula sinna.

Slíkt var líf Jesú á jörðunni. Og safni jeg nú öllum atriðum þess í eina mikla hugmynd, þá finn jeg, að líf hans var ekki eins og vorra líka, heldur bjó í því máttur hins almáttka, og stórmerki Guðs söfnuðust að því á alla vegu. Og þá segi jeg við sjálfan mig: Þessi æfisaga, er þú skoðar og dáist að, er ekki skröksaga, sem ímyndunaraflið hafi fegrað, heldur er hún eins sönn, og hvað annað, er satt er á jörðunni. Það er því satt, að þegar mannkynið átti að verða endurleyst, og fæðast að nýju, þá brauzt himneskt eðli gegnum hina algengu rás hlutanna, öll hinnar jarðnesku náttúru ljetu undan Drottni sínum, og sýndu oss þannig, að hann væri sá, er vjer eigum að hlýða og trúa, og öðlast líf í hans nafni. Á þenna hátt sameinast hinn jarðneski vitnisburður hinum himneska, er heyrðist hina miklu tíðindanótt, til að boða oss: Yður er Frelsari fæddur!

---

# 26.

## GUÐLEGT EÐLI KRISTS.

Spámaður mikill er kominn til vor, og Guð hefir litið í náð sinni til lýðs síns (Lúk. 7, 16), sagði fólkið forðum, er það sá eitt af kraptaverkum Krists. Spámaður mikill — já, í sannleika sá, sem meiri er enn nokkur spámaður (Matth. 11, 9): þessi orð Krists koma oss hjer í hug, þó hann segði þau ekki um sjálfan sig, heldur um Jóhannes skírara, er sendur var að greiða götu hans. En hver var hann þá sjálfur, er fyrirrennari hans, sá er skyldi greiða honum veg, var miklu meiri enn nokkur spámaður? Hver var hann, er verk hans skelfdu svo mjög hinn undrunarfulla lýð, er frægð hans barst yfir allar nálægar landsálfur, og yfir öll lönd, og um allar aldir? Hver var hann, og hver er hann?

Þessi spurning er ekki einskisverð, svo að hvort sem úr henni er leyst eður ekki, þá sje önnur kenning vor jafnáreiðanleg. Því það er ákvörðun kristinnar trúar, að Kristur búi fyrir trúna í hjörtum vorum (Ef. 3, 17); vald hans á að veita kenningunni rjetta stefnu, og áminningunni fullan krapt; kærleikur hans á að færa hrelldum hjörtum huggun, sjúkum hjörtum lækningu, snauðum hjörtum fyllingu; máttur hans á að eyða broddi dauðans og sigri helvítis. Í kyrkju Krists getur enginn lagt annan grundvöll, enn þann, sem lagður er, sem er Jesús Kristur (1. Kor. 3, 11); en hver er hann þá, sá er mennirnir útskúfuðu, og þó er orðinn að höfuðhyrningarsteini? Hver er hann, sá eð er undirstaða alls hins mikla musteris?

Hinar spámannlegu raddir, er hljóma frá hinum fremstu öldum, allt í frá þeirri stund, er mannkynið var fallið og tók að þarfnast lausnar og frelsunar, vísa oss til hans; og þau verk, er hann gjörði fyrir guðlegan tilstyrk, sýna oss, að hann er sá er koma átti. En ef hann hefir komið frá Guði, ef hann er gefinn oss af Guði til vizku og rjettlætis, helgunar og endurlausnar, þá hljóta orð hans að vera sönn, og þá hefir hann hvorki dregið sjálfan sig á tálar nje heldur oss, þá er hann talaði um sjálfan sig, eðli sitt

og tign sína. Fyrir því leitum vjer ekki til annara, heldur spyrjum vjer sjálfan hann: hver hann sje? og hvað hann segi um sjálfan sig?

Hann vísar oss þá fyrst til verka sinna. Þegar hann bar fyrir sig vitnisburð fyrirrennara síns, þess manns, er fólkið virti svo sem spámann, þá bætti hann þessu við: En jeg hefi vitnisburð meiri enn Jóhannesar, því þau verk, sem Faðir minn fjekk mjer að leysa af hendi, einmitt þau verk, sem jeg gjöri, vitna um mig, að Faðirinn hafi sent mig (Jóh. 5, 36). Þegar hann sagði: Trúið mjer, að jeg er í Föðurnum og Faðirinn í mjer, bætti hann þessu við: en ef þjer trúið ekki orðum mínum, þá trúið mjer sakir verkanna (Jóh. 14, 11). En þegar Kristur ber fyrir sig verk sín, þá er það ekki eins og þegar Páll postuli segir: postulateikn eru gjörð meðal yðar með táknum og stórmerkjum og kraptaverkum (2. Kor. 12, 12); því Drottinn vor fer um sín kraptaverk slíkum orðum, er enginn maður hefir sagt, og enginn engill gæti sagt og engin sköpuð vera: þá hluti sem Faðirinn gjörir — hinn eilífi Faðir, sá er allar tungur kalla hinn almáttka — þá gjörir og Sonurinn sömuleiðis. Og þessu er þar við bætt: eins og Faðirinn upp vekur dauða og lífgar, þannig lífgar og Sonurinn þá, er hann vill (Jóh. 5, 19. 21). Þetta er einkenni guðlegra verka; því mennirnir geta myndað úr dauðum hlutum, þeir geta búið til nýjar myndir og harla dásamlegar, fegri sjerhverju, er augu þeirra hafa sjeð hjer á jörðu, lagaðar eptir hinum háleitu hugmyndum, er Guð hefir veitt sálum listamannanna, en enginn listamaður getur að heldur blásið lífsanda í kaldan líkama myndar þeirrar, er hann hefir til búið, nje kennt henni að líða yfir jörðina, nje lokið upp augum hennar, svo að hún sjái, nje munni hennar, svo að hún tali; mannleg íþrótt getur með Guðs aðstoð viðhaldið ljósi lífsins, þó það logi dauft, en er það slokknar, þá kveikir enginn það aptur utan almættið sjálft, og það er engis, nema þess, er eilíflega lifir, að blása lífi í brjóst hinu dauða. En þetta voru orð hans, er svo segir: sauðir mínir þekkja rödd mína, og jeg þekki þá, og þeir fylgja mjer, og jeg gef þeim eilíft líf, og þeir skulu aldreigi týnast, og enginn skal slíta þá úr hendi minni (Jóh. 10, 27. 28);

og enn á öðrum stað: jeg em upprisan og lífið, hver sem á mig trúir, mun lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25). Og þegar Jesús sagði, að eins og Faðirinn upp vekti og lífgaði dauða, eins lífgaði Sonurinn þá er hann vildi, þá talaði hann ekki að eins um einstöku kraptaverk, heldur um hið mikla og almenna tákn, að þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra rödd Guðssonar, og þeir, sem heyra hana, munu lifa (Jóh. 5, 25); og svo að vjer tryðum og vonuðum á þetta hið mikla tákn, sýndi hann kraptaverkin, og í kraptaverkunum þann hinn guðlega mátt, er vjer eigum allir að tigna.

Fylg Drottni þínum á vegferð hans, þá er hann gekk um kring, gjörði gott og græddi alla, sem af djöflinum voru þjáðir, því Guð var með honum; bú þjer til greinilega hugmynd um hið mikla og dásamlega líf, er kom í ljós í hinum mörgu verkum hans, og tefðu í huganum við sum af þeim, svo þú megir glögglega skilja stærð þeirra og gildi. Gakk með honum að Naínsborgarhliði; þar muntu sjá einn hinna sorglegustu viðburða, sem fyrir menn geta komið (Lúk. 7, 11 o. nn. vv.); þú munt sjá sorgmædda ekkju á hinni þungbæru harmagöngu að fylgja líki sonar síns andvana, er hún átti einan barna, þangað, er hún átti aldrei að sjá hann framar. Ó! hversu margur, og hversu þungbær skilnaður verður í veröldu þessari! Hversu grimmlega eyðir hinn dymmi dauði hvarvetna ríkjum lífsins, og hlífir ekki blómum æskunnar sjálfrar, nje heldur einvalaliði spekinnar og rjettlætisins; hann verður ekki mýktur með harmatárum, og sjerhvað, er lífi lifir, tekur hann að herfangi seint eður snemma. En við Naín kemur maður einn á móti líkmönnunum, og stöðvar líkfylgdina, og gengur að börunum, og tekur til orða: „Ungmenni! þú sem liggur hjer í fasta svefni, þeim er menn fá ekki rofið, jeg býð þjer: rís þú upp!“ Heyrið það og skiljið! Hann ávarpar hinn dauða; hann skipar honum eins og jarðneskur herra skipar lifanda manni; hann segir við þann, sem firrtur er öllum mætti, og limir hans stirðnaðir af dauða; eins og sagt er við heilbrigða menn: stattu upp, rístu á fætur! Annaðhvort er sá, er slíkt mælir, vitfirringur, og veit ekki hvað hann talar, eða er hann lávarður lífs og dauða, og talar almáttug orð. Og sjá! sá, sem dauður var, rís á fætur og tekur að mæla. Von var, að þeir er

sáu slíkt, yrðu óttaslegnir, og hlytu að sjá, að þetta voru guðleg stórmerki.

Frá þeim stað, er þetta tákn varð, hverfur hugur vor sjálfkrafa til Bethaníu, og að hinni dymmu gröf, þar sem vinur Jesú hafði legið fjóra daga (Jóh. 11, 17 o. nn. vv.). Þar sjáum vjer aptur þann, er með orðum einum opnaði augu hins blinda, og fyllti af heilbrigði visnaða limu, en hafði samt ekki í þetta sinn viljað frelsa frá dauða þann er sjúkur var. Nú gengur hann að gröfinni; þar lá þegar sá hinn þungi steinn, til að hlífa ró grafarinnar, svo að birta veraldar þessarar skini ekki inn þangað, og skarkali hennar ónáðaði ekki hinn þögula grafarbúa. En Jesús bregður ró grafarinnar, lætur velta burt steininum, kallar inn í hana — Heyrið það! skiljið það! hann kallar inn í gröfina hárri röddu: Lazarus! kom þú út hingað! Sá, er slíkt mælir, er enn sem fyrr annaðhvort vitfirringur, og veit ekki hvað hann talar, eða er hann lávarður lífs og dauða, og talar almáttug orð. Og sjá! eitthvað tekur að bærast í hinum dymma helli, lífsaflið hverfur aptur í limu þess, er dauður var, hann kemur út, hjúpaður líkblæjum, sjer aptur ljós sólarinnar, og þá, er hann áður þóttist hafa kvatt fyrir fullt og allt, og þ a n n, er hann hafði trúað á, og nú sýndi honum guðlega dýrð; og nú vegsamar hann Guð enn af nýju með öðrum lifandi mönnum.

Þetta sama almætti sjáum vjer í öllum hlutum: vjer sjáum það, þegar Jesús býður hinum sjúka, er legið hafði rúmfastur í mörg ár og verið borinn af öðrum, hvert sinn er hann skyldi úr stað flytjast — þegar Jesús býður honum, að hann rísi á fætur, og taki upp rúmið, og hann verður heill, og tekur að ganga, svo að allir sjá; og þegar vjer sjáum Jesúm blessa hin fáu brauð, svo þau verða nóg saðning handa mörgum þúsundum; og þegar vjer heyrum hann úti á hinum ólgufulla sjó hasta á stormana og hinar æðandi öldur. Með slíku hugarfari eigum vjer að lesa frásagnir guðspjallamannanna: vjer eigum ekki að rýra þær slíkt er vjer megum, og ekki að breiða ofan yfir stórmerki Guðs, og nærri því fyrirverða oss þeirra vegna, heldur eigum vjer að fagna dýrð Frelsara vors, og styrkja trú vora á íhugun verka hans.

Hvert sinn er Jesús segir, hann megni ekkert af sjálfum sjer, það er að skilja: sem manni, heldur einungis fyrir samfjelag sitt við hinn himneska Föður, þá lýsir hann sannlega samfjelagi þessu á slíkan hátt, að það hefur hann hátt yfir alla skepnu, er hann gjörir fyrir það þá hina sömu hluti, sem hinn almáttki. Athugum það er hann sagði einn hinna síðustu daga hjervistar sinnar, þá er sá tími var liðinn, að hann væri í niðurlægingu sinni og ætlaður til dauða, og hann var búinn að drekka þann hinn beiskjufulla kaleik, er honum var rjettur, og þola píslir og dauða, svo sem honum var ætlað, og var upprisinn og dýrðlegur orðinn; hann var þá staddur á fjallinu í Galíleu, þeirri hinni sömu landsálfu, er hann hafði framið flest kraptaverk sín. Hann gekk til lærisveina sinna; en þeir veittu honum lotningu; hann mælti: mjer er gefið allt vald á himni og á jörðu (Matth. 28, 18). Heyr það, himin! heyr það, jörð! svo talar Drottinn þinn. Enginn dauðlegur maður, þó hann hefði öðlazt hina æðstu tign jarðneskra metorða, nje heldur neinn himneskur engill mundi dirfast að taka sjer slík orð í munn — því þó sá væri efstur og dýrstur allra engla, þá væri hann engu að síður skepna sem vjer; en hafi sá, er slík orð talaði, ekki verið fullur ósvífni og óstjórnar, og viljað frýja Guði hugar, og kalla af himni hegningareld, svo að sæist vanmáttur hans, þá hlýtur að vera, hann hafi vitað sig vera í því sambandi við hinn eilífa Föður, að hann hafi þorað að staðfesta þetta, er hann hafði sagt áður fyrr: allt er mjer í vald gefið af Föður mínum (Matth. 11, 27), Faðirinn elskar Soninn og hefir gefið alla hluti í hans hönd (Jóh. 3, 35). Síðan bauð Kristur, svo sem herra jarðarinnar, lærisveinum sínum að þeir færi út um allan heiminn, og kenndi öllum þjóðum — því allar voru þær hans eign — og að þeir skírðu þær, ekki að eins í nafni Föðursins, heldur og í sínu nafni og heilags Anda; því hann hafði sjálfur sagt berum orðum, að allir eigi að heiðra Soninn eins og Föðurinn (Jóh. 5, 23). Vjer höfum ekki talað þessi orð — vjer höfum ekki tekið upp hjá sjálfum oss, að veita guðlega lotningu þeim, er vjer köllum Drottin vorn og Meistara; heldur heimtar hann það sjálfur með fullum rjetti, þar sem hann er í samfjelagi við hinn eilífa Föður.

Og áður hann hvarf úr augsýn lærisveina sinna, komst hann fyrir því ekki eins að orði, og menn eru vanir, þegar þeir skilja: jeg verð að yfirgefa yður, og get ekki lengur orðið yður samferða um leið lífsins; heldur segir hann: sjá! jeg er með yður alla daga, allt til enda veraldarinnar.

Hugur vor stígur æ hærra, er vjer íhugum orð Drottins vors um sjálfan sig, og heyrum hann taka svo til orða: „sannlega, sannlega segi jeg yður: áður enn Abraham varð til, var jeg“ (Jóh. 8, 58) — líkt og spámaðurinn segir: „hann er upp runninn fyrir öndverðu og í frá eilífð“ (Mikk. 5, 1) —; sömuleiðis, er vjer heyrum hann segja svo: „eins og Faðirinn hefir lífið í sjálfum sjer, svo gaf hann og Syninum að hafa lífið í sjálfum sjer (Jóh. 5, 26); eður svo: sá sem hefir sjeð mig hefir sjeð Föðurinn“ (Jóh. 14, 9); því allar greinir þessar eru fólgnar í þeirri einni grein, er átrúendur hans hafa ætíð viðurkennt, en óvinir hans kallað guðlast: „jeg og Faðirinn — við erum eitt“ (Jóh. 10, 30).

Með slíkum orðum vottar Drottinn vor sama og postular hans, og postularnir sama og Drottinn vor, er þeir segja svo: „Soninn hefir Guð sett erfingja allra hluta, og skapað heiminn fyrir hann; Sonurinn er geisli Guðs dýrðar og ímynd veru hans, og stjórnar öllu með sínu kröptuga orði“ (Hebr. 1, 2. 3); eður er þeir segja svo: „Í upphafi var orðið — það er: hið lifandi orð, er merkir guðlega veru, og vilji Guðs framkvæmist fyrir það — og orðið var hjá Guði, og orðið var Guð; allir hlutir eru fyrir það gjörðir, og án þess er ekkert til orðið sem til er; og orðið varð maður, og tók sjer bólfestu meðal vor (Jóh. 1, 1. 3. 14); eður er þeir segja svo: Kristur er kominn af feðrunum eptir holdinu, sem er yfir öllum, Guð, blessaður að eilífu“ (Rómv. 9, 5). Þetta er undirstöðugrein kristinnar trúar — og sje henni haggað á nokkurn veg, þá bifast undirstaðan öll, og musteri trúarinnar liggur þegar við hruni — það er, sagða jeg, undirstöðugrein kristinnar trúar, að hann, sem er kallaður hinn eingetni, af því hans samfjelag við Guð er eilíft, og æðra og innilegra og öflugra, enn nokkurra annara, er guðsbörn eru kallaðir — að hann, sem er ímynd ósýnilegs Guðs, frumgetningur allrar skepnu, sá er allt er fyrir

skapað á himni og á jörðu, sýnilegt og ósýnilegt, og viðheldur öllu (Kól. 1, 15. 16. 17) — að hann stærði sig ekki af því, þó hann hefði Guðs mynd, heldur minnkaði sjálfan sig, gjörðist þjónn, varð mönnum líkur, lítillækaði sjálfan sig, og var hlýðinn allt fram í dauðann, já, fram í dauðann á krossinum (Filipp. 2, 6. 7. 8). En hvernig sem hann minnkaði sjálfan sig í þjónustu kærleikans, hversu mikið sem hann lagði niður af guðlegri dýrð sinni, er hann birti sig í mannlegri mynd, þá skein þar af eigi að síður guðlegur ljómi, og mannlegt eðli hans var gagntekið af hinu guðlega eðli; það er ekki maður slíkur sem vjer erum, er vjer köllum einan Meistara vorn og Lávarð — það er ekki maður slíkur sem vjer erum, er borið hefir synd allrar veraldarinnar — það er ekki maður slíkur sem vjer erum, er veita mun eilíft líf þeim, er á hann trúa.

Þetta kunnum og eigum vjer glögglega að skynja, svo framarlega sem vjer viljum eiga það skilið, að heita kristnir menn. En af því leiðir með engu móti, að vjer eigum að freista, að kanna djúp guðlegrar veru, og þýða alla hennar leyndardóma, eður skýra guðlega hluti með mannlegum orðum. Vjer vitum, hver sagt hefir: enginn þekkir Soninn nema Faðirinn (Matth. 11, 27); vjer vitum, að hjer á jörðu lifum vjer í von, en ekki í skoðun (2. Kor. 5, 7), og sjáum í gegnum gler, í þoku, en ekki augliti til auglitis (1. Kor. 13, 12). Reyni þeir, sem hafa þekking og gáfur, að komast svo hátt, sem þeir geta; hugur mannsins á þó aldrei langt þangað, er hann villist. En annars vegar skeytum vjer alls ekki þeirri mótbáru, að menn geti ekki trúað því, er þeir sjeu ekki komnir í skilning um. Þýddu fyrir mjer jarðneska hluti, þá skal jeg þýða fyrir þjer himneska hluti; þýddu fyrir mjer samband sálarinnar við þenna líkama þinn, þá skal jeg þýða fyrir þjer samband hins guðlega eðlis við hið mannlega í Jesú Kristi; þýddu fyrir mjer uppruna hugsana og tilfinninga í sálu vorri, þá skal jeg þýða fyrir þjer, hvernig hinn eingetni er upp runninn af Föðurnum. Og ef þú lyptir huganum til Guðs, þess er þú játar, þá muntu brátt verða að viðurkenna, að Guð, sá er þú segir þig á trúa, býr í því ljósi, er enginn fær að komizt; en þá viðurkennir þú um leið, að þú trúir því, er þú sjert ekki kominn í skilning um, svo að vitnisburðurinn

um Krist, Son Guðs eingetinn, fæddan af Föðurnum fyrir allar aldir, geti verið rjettur, þótt þú sjert ekki búinn að skilja hann til fulls.

Það er enn önnur mótbára, að þessi grein um eðli Krists sje huga vorum alls ónýt, og ekki til annars, enn íhugunar vísindamönnum, svo það sje ráðlegast, að láta þá skera úr því máli, en ræða ekki um það við almúga. Það er að skilja: undirstöðunni eigum vjer að sleppa, en byggja þó hærra og hærra — á tómum sandi! Ó, ef oss tækist til hlítar að leiða þenna vitnisburð um eðli Krists inn í hjarta hvers manns, þá mundi og hver maður finna, hvílík andleg auðlegð í honum er fólgin!

Þú, sem gengur þína erfiðu leið, tældur af jarðneskum munum, og aldrei ánægður — þú, sem fyllist hræðslu og efasemi, er þú lyptir huganum til hins andlega: finnur þú ekki, að þjer sje nauðsyn á þeim orðum, er þú getir stutt þig við, hvernig sem breytast bæði meiningar annara í kringum þig, og meiningar sjálfs þín, og geti staðfest það, er þú þykist vera búinn að skilja, og opnað fyrir huga þínum nýja brunna þekkingarinnar og leitt þig óhultan um hættulega stigu girnda og missýninga? Lofaðu Guð, að munnur Jesú talaði ekki af einni saman mannlegri speki og að orð hans voru Guðs orð og eilíf sannindi, og að hann talaði af því valdi, er efasemdir þínar verða að þagna fyrir. Þú, sem kannast við kröfu hins eilífa rjettlætis — þú, sem heyrt hefir Guðs lög, og veizt að þau ná til þín — þú, sem búinn ert að heyra fyrir fram með skelfdri samvizku hið alvörufulla atkvæði dómsins — þú, sem búinn ert að sjá, að þú hefir skuld að gjalda, þá er þú getur ekki goldið, enda ekki afmáð: vildir þú ekki, að einhver gæti komið og sagt við þig: syndir þínar eru þjer fyrirgefnar? En ef einhver maður segði þetta við þig af sinni hálfu, takandi það upp hjá sjálfum sjer, þá mundir þú virða svo, sem sá maður drægi að þjer spott: því hvernig má sjúkur maður ljá þjer styrk í sjúkdómi þínum? hvernig má syndugur maður ljetta af þjer syndabyrðinni? Lofaðu Guð, er hann hefir veitt þjer að þekkja þann, er fyrir sjálfan sig hafði engar syndir að bæta, og hafði vald á að gjöra það, sem Guð einn megnar, og svo að

fyrirgefa syndir á jörðunni. Þú, sem reynt hefir neyð lífsins og neyð dauðans, og ekki að eins horft á hana í kringum þig, heldur pínzt af henni í hjarta þínu, þú, sem lifað hefir þær stundir, að sála þín hefir verið einmana, yfirgefin, af sjer komin: þú hefir eflaust leitað þjer vinar á himni. Og jeg veit fyrir víst, að þar er Faðir allra vor, og að hann er ekki fjarlægur neinum af oss, heldur getum vjer fundið hann, þegar vjer leitum hans rækilega. Enda veit jeg og hins vegar, að þegar vjer erum í þungri baráttu, þá er oss þörf á, að sjá Guð sem næstan oss, og þá verður huganum það fyrr fyrir, að nálgast hinn opinberaða, enn hinn ósýnilega. Dauður maður var út bafinn, segir í frásögunni — Hefir þú, er þetta lest eður heyrir, nokkurn tíma fylgt líki til grafar? hefir þú sjeð nokkurn, er þú elskaðir, hjúpaðan og lagðan í gröfina, og dökkmóðu dauðans renna þar yfir hann? Hafirðu ekki sjeð slíkt, þá mun liggja fyrir þjer að sjá það; þú, sem átt vini eða vandamenn, taktu þá þessa hina helgu frásögn, og lestu hana með trúuðum hug. Að sönnu kemur ekki Líknarinn sýnilega til, og sviptir dauðann herfangi sínu; en guðlegt vald hans huggar þitt hið sorgmædda hjarta: hann segir þjer, að hann hafi varðveitt það sem þú misstir, því hann sje upprisan og lífið. Lofaðu Guð, er hann hefir látið þann birtast á meðal vor, er ekki var slíkur sem vjer erum, nje dauðanum undirorpinn, heldur hafði vald til að segja og efna þessi orð: Sá tími kemur, og er þegar kominn, að þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra rödd Guðssonar.

---

# 27.

## MANNLEGT EÐLI KRISTS.

Í einu játningarriti kyrkju vorrar er svo kveðið að orði: jeg trúi, að Jesús Kristur, sannur Guð, getinn af Föðurnum fyrir allar aldir, og jafnframt sannur maður, fæddur af Maríu mey, sje Drottinn minn, og hafi endurleyst mig, hvorki með gulli nje silfri, heldur með sínu heilaga, dýrmæta blóði, og með píslum sínum og dauða, er hann þoldi fyrir sakleysi. Öllum þessum orðum er fyrirkomið öldungis samkvæmt kenningu heilagrar ritningar. Ef vjer nú staðnæmumst við hinn fyrra hluta þessarar greinar, þá skiptast þessi orðatiltæki: Guðssonur og Mannsinssonur, þannig á í ritningunni, þegar talað er um veru Krists, að þau sameinast og verða að einni hugmynd um Guð og mann, um þann, sem hluttakandi er bæði guðlegs og mannlegs eðlis, og er einmitt fyrir þá sök hinn rjetti meðalgangari milli Guðs og manna. Vjer höfum áður til fært nokkura vitnisburði, er sýna guðlega hátign Krists, og boða hann, sem þann, er var frá upphafi, var hjá Guði og var Guð, þann, er allir hlutir eru gjörðir fyrir, allir hlutir viðhaldast fyrir, og allt vald er gefið á himni og á jörðu. En sá hinn sami, sem þessi orð hefja óumræðanlega hátt upp fyrir mennina og þess vegna er kallaður Guðs eingetinn Sonur, og sameinaður hinum eilífa Föður, fremur enn nokkur sköpuð vera getur verið það; sá hinn sami er einnig orðinn hluttakandi mannlegs eðlis, hann er, eins og postulinn að orði kemst, orðinn bræðrum sínum líkur um alla hluti, svo hann gæti orðið miskunsamur og trúlyndur höfuðprestur, til að friðþægja fyrir syndir fólksins (Hebr. 2, 17). Það er einmitt einkasætleiki hins kristilega fagnaðarboðskapar, það er hinn djúpi og sáluhjálplegi leyndardómur kærleikans, að sá, er var hjá Guði, og var Guð, gjörðist maður og dvaldi með oss (Jóh. 1, 1. 4), að þó Jesús Kristur væri ímynd Guðs, hafði hann ekki dýrð sína til að leita sjálfum sjer hagnaðar, heldur lítillækkaði sjálfan sig, er hann tók á sig þjóns mynd og varð mönnum líkur (Fil. 2, 6. 7).

þess vegna kemst og Páll postuli svo að orði, er hann ætlar að skýra frá, hvílík þau sannindi sjeu, er Guð vill að mennirnir komist til þekkingar á, svo þeir verði sáluhólpnir: Guð er einn, og einn er meðalgangarinn milli Guðs og manna, maðurinn Jesús Kristur, er gaf sig sjálfan til lausnargjalds öllum, til vitnisburðar á hentugum tíma (1. Tím. 2, 5. 6). Hvorki hjer nje annarstaðar segir postulinn, að sá, sem vera átti meðalgangarinn millum Guðs og manna, og átti að sætta mennina við Guð, hafi verið eintómur maður, því síður syndugur maður, eins og einhver af oss; samt sem áður boðar postulinn hann jafnan, svo sem sannan mann, fæddan af afkvæmi Davíðs (2. Tím. 2, 8), fæddan á rjettum og hentugum tíma, þá er frelsinu gat orðið og átti að verða framgengt fyrir hann.

þá er fylling tímans var komin, sendi Guð Son sinn, fæddan af konu (Gal. 4, 4). — Innst í hjarta mannsins, er óteljandi girndir og óteljandi kvalir slíta í sundur, hefir Guð fólgið von um lausn. Ef vjer hlýðum á raddir heiðingjanna, hvar sem hið andlega líf hafði tekið að hreifa sjer, þá heyrum vjer að vísu sífellda kveinstafi og huggunarlausa, eins og dauðinn mundi að síðustu svelgja lífið, og himin og jörð, og allir guðlegir og allir mannlegir hlutir tortýnast hver með öðrum. En samt heyrum vjer einnig vonglaðari raddir, sem búast við gullöldum, er þeir kalla svo, þá er baráttunni eigi að vera linnt og armæðu mannanna afljett, en alls konar blessun komi af himnum ofan og fyrir hitti jörðina hæfa að veita sjer viðtökur. En það sem meðal heiðingjanna voru óáreiðanleg munnmæli, er fremur voru ímyndunaraflinu til skemmtunar, enn að hjartað tryði þeim, það var meðal Ísraelsþjóðar staðfast loforð frá Guði. Upp frá þeim degi, er Abraham fjekk hið undursamlega fyrirheit í tjaldbúðum sínum: fyrir þitt afkvæmi skulu allar kynkvíslir jarðarinnar blessun hljóta, hætti aldrei eptirvæntingin, er beið þess, sem fram átti að koma í fyllingu tímans. Hversu seint sem aldirnar liðu; hversu optlega sem eintómar jarðneskar umsýslur og villur skurðgoðaþjónkunar ætluðu að ná yfirráðum yfir þjóðinni, þagnaði samt aldrei hin spámannlega rödd, er ítrekaði hið forna fyrirheit, og tengdi það við Davíðs ætt,

og við þann höfðingja, er koma mundi frá Betlehem, og verða harla mjög lítillækkaður og fórnfærður fyrir syndir þjóðarinnar, en eigi að síður mundi hann verða mikill og veldisstóll hans æðri öllum veldisstólum, og allir ganga til hlýðni við hann um gjörvallan jarðarhnöttinn. Þessi eptirvænting fylgdi þjóðinni í útlegð, og tók í mót henni, er hún kom heim aptur, hún fyllti hið nýja musteri, er þeir reistu, og þótt það væri fátæklegt í samanburði við hið fyrra musterið, er Salómon hafði prýtt með allri dýrð sinni, átti þó dýrð þess að verða miklu meiri. Fylling tímans kom nær og nær, margir menn voru í Jerúsalem og alstaðar á meðal sona Ísraels, bæði á Gyðingalandi, og á sjerhverju því landi, er Guð hafði dreift þeim út um, til þess að þeir greiddu veginn fyrir hinu ókomna, þeir voru margir, segi jeg, er biðu endurlausnarinnar og væntu hennar einmitt á þeim tíma, er fyrirheitin rættust. Vissi ekki Símeon fyrir víst, að hann mundi ekki fara til feðra sinna, fyrr enn hann væri búinn að líta huggun Ísraels (Lúk. 2, 25, 26)? Komu ekki vitringar úr austurheimi, er þeir sáu stjörnuteiknið á himninum, af því eptirvænting hins mikla konungs Gyðinganna var komin jafnvel til þessara hinna heiðnu landa (Matth. 2, 1 o. n. v.)? Barn átti að fæðast og drottinstignin að liggja á herðum þess (Ef. 9, 6), — hver átti að verða móðir að því barni?

Á þessum merkilega tíma bar svo við, að eyrindreki af himnum birtist mey einni í Nazaret, og kvaddi hana með þeim ummælum, að Guð hefði veitt henni náð sína og hún væri blessuð meðal allra kvenna; því næst boðaði hann henni, að hún mundi verða þunguð og fæða son, þann er verða mundi mikill og kallaður Sonur hins hæsta, og honum mundi Drottinn Guð gefa ríki Davíðs forföður síns (Lúk. 1, 26 o. n. v.). Að hún óttaðist þessi orð, kom ekki til af því þau boðuðu, að nú væri komin fylling tímans — því þessu trúði hún eins og allir guðhræddir menn þjóðarinnar — ekki heldur af því, að fæðing barns þessa átti að verða með dásamlegu móti — því líklegt var að tákn og stórmerki mundu fylgja því barni, er fæðast átti heiminum til frelsunar — heldur kom það til af því, að Guð hafði virzt að veita einmitt h e n n i náð sína, og að einmitt henni var hið heilaga á hendur

falið. Hversu margar tilfinningar hlutu og að vakna í sál Maríu, er hún heyrði þessa undarlegu kveðju! Hin auðmjúka mey varð gagntekin af hræðslu, er hún heyrði það eyrindi, er boðaði henni, til hvers hún væri ætluð, en hún aðhylltist einnig fyrirheitið með styrkleika trúarinnar, svo segjandi: sjá! jeg em ambátt Drottins, verði mjer að orðum þínum! og þannig var hún vígð til hinna mörgu þrauta og hinnar háleitu sælu æfi sinnar. Því víst var um það, marga mæðu varð hún að þola, svo hinni miklu ákvörðun æfi hennar gæti framgengt orðið. Hún var tortryggð og útskúfuð, þá er hún gekk þunguð að barninu, og í fátækt og harla lítilmótlegu herbergi ól hún son sinn frumgetinn. Skjótt varð hún að flýja með barn sitt á ókunnugt land, til að fela það fyrir óvinum þess, er ætluðu að taka það af lífi, og er hún var komin heim aptur og búin að ala son sinn upp, eins og hann væri af lágum stigum, þá sá hún að vísu, að hann gekk fram fyrir fólkið, og að margar þúsundir þyrptust að honum, en hún sá einnig, hvernig hann var hataður og ofsóttur, þar til sverðið að lokunum nísti sálu hennar, er hún stóð undir krossi hans, og heyrði hann kalla af miklum trega: Guð minn! Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig? Samt sem áður kannaðist hún jafnan við, að Drottinn hefði litið náðarsamlega til auðvirðilegrar ambáttar sinnar, og að hinn almáttki hefði breytt dásamlega við hana, svo að allar ókomnar kynslóðir mundu hana sæla kalla (Lúk. 1, 48. 49).

Sonur hennar varð mikill, og var hann kallaður Sonur hins hæsta, enn hann var og kallaður Mannsinssonur, því hann birtist á jörðunni eins og sannur maður, hluttakandi holds vors og blóðs, og afrekaði heiminum frelsi, og varð meðalgangari milli Guðs og manna. Nú á dögum þurfum vjer ekki að ganga í gegn þeirri villukenning, er snemma reyndi til að læðast inn í Krists kyrkju, og sagði svo, að Kristur hefði ekki borið mannlegan líkama utan til sýnis, og að öll opinberun Krists væri eintómar sjónhverfingar, er villt hefðu augu mannanna, þar sem hann væri sjálfur miklum mun meiri og heilagri, enn svo, að honum hæfði að bera þann hinn duptlega klæðnað. Nú efast líklega enginn um, að Kristur hafi sannlega borið hann, og sje mönnunum líkur og reyndur

á allan hátt rjett eins og vjer. Og hversu mikil huggun er til þess að vita, að Kristur hafi orðið hluttakandi í kjörum vorum, og tignað og helgað sjerhverja lítillækkun, er saklaus maður verður að þola í veröldinni! Sjertu borinn af lágum stigum, hefir samt vagga þín ekki staðið lægra, enn hin fyrsta hvíla Drottins þíns; hafirðu búið við örbyrgð, þá vantaði hann optlega það er hann gæti höfði sínu að hallað; hann hefir þolað hungur og þorsta, eins og þú; hann hefir grátið eins og þú; hafi mennirnir auðvirt þig og útskúfað þjer, þá kom hann og til sinna, og þeir þekktust hann ekki; þykist þú hafa orðið fyrir ósæmilegri meðferð, þá kom hann og ekki til að láta sjer þjóna, heldur til að þjóna öðrum; hafir þú orðið að þola ofsókn og háðung — ó! þá hefir þyrnikórónan ekki verið sett á þig með beiskara spotti, enn hún var sett á Drottin þinn og Meistara, og þinn kross hefir ekki verið þyngri enn hans; og þegar bikar dauðans verður eitt sinn borinn þjer, þá hefir og hann tæmt hinn sama bikar áður enn þú.

Hann var að allri mynd sinni eins og maður, og af því þeir, er hann átti að frelsa, hafa hold og blóð, þá er hann einnig orðinn þess hluttakandi (Hebr. 2, 14). En hann er og í tilliti til sálarinnar orðinn oss líkur; hversu nákvæmlega og hversu óaðgreinanlega sem sál hans var Guði sameinuð, var hún þó eigi að síður takmörkuð, eins og vor sál. Honum óx vizka með aldri (Lúk. 2, 52), eins og öðrum mönnum, og þótt hann hafi ekki tekið hlutdeild í ástríðum þeim, er annarlegt vald og skaðsamlegt hrífur oss svo optlega til sín með, voru honum samt kunnar allar mannlegar tilfinningar. Það er frá honum sagt, að þá er menn ætluðu að meina honum að lækna á hvíldardegi, hafi hann litazt um með reiðisvip og orðið hryggur af harðúð hjartna þeirra (Mark. 3, 5); það er og sagt, að þegar hann kom að gröf Lazarusar hafi hann orðið hryggur og komizt harla mjög við (Jóh. 11, 33); og þá er píslirnar nálguðust, var það ekki að eins líkaminn er þjáðist, heldur var og sál hans óttasleginn, og hann var hryggur allt til dauða (Matth. 26, 28).

Því segir postulinn: vjer höfum ekki þann höfuðprest, er ekki geti kennt í brjóst um veikleika vorn, heldur þann, sem freistingar

hefir þolað á allan hátt, eins og vjer (Hebr. 4, 15). En hann bætir einu orði við: þó syndlaus, segir hann, og þetta eina orð gjörir svo mikinn mun Krists og allra annara manna, að þeir eru hinir frelsuðu, og hann er Frelsarinn. Tökum þetta eina orð á burt, látum Jesúm líkjast oss einnig í þessari grein, þá getum vjer einnig tekið á burt nafnið Jesús, þá er það orðið þýðingarlaust, því þá megnar hann ekki framar að frelsa lýð sinn af syndum hans; þá getum vjer einnig tekið á burt nafnið Kristur, því þá verður hann ekki framar kallaður Sonur hins hæsta, þá getur hann ekki framar verið konungur að eilífu. Látum oss gjöra tilraun; segjum um einhvern syndugan mann: þessi maður er ljós heimsins, hann er vegurinn, sannleikurinn og lífið; og þá munum vjer þegar finna, að orð vor eru búin að missa þýðingu sína, því synd og villa eru æ samfara, og hvar sem syndin er búin að eitra mannlegt eðli, þar vitum vjer ekki framar hvar sannleikurinn þrýtur og villan tekur við, og þá er ekki annað orðið eptir í kenningu Krists, enn einhver speki á borð við svo marga aðra, en ekki eitt orð, er verið geti óbrigðult ljós fóta vorra. Látum oss gjöra tilraun; ímyndum oss að einhver maður, sem fæddur er í synd, eins og vjer, gengi fram og segði: jeg hefi vald til að fyrirgefa syndir á jörðunni, þá yrði hið sælasta fyrirheit að skelfilegri guðlöstun, og þótt hann byðist til að fórnfæra sjálfum sjer fyrir syndir vorar, mundum vjer finna að hann hefði enga borgun fram að selja, er hann gæti afmáð með jafnvel eintómar syndir sín sjálfs, heldur þyrfti hann miklu fremur friðþægingar við, eins og vjer. — Hversu miklu öðru vísi hljóðar hinn kristilegi fagnaðarboðskapur: þann sem ekki þekkti synd, hefir Guð gjört að syndafórn vor vegna, svo að vjer yrðum rjettlættir fyrir hann (2. Kor. 5, 21).

Þannig lýsir heilög ritning honum æfinlega; hún kallar hann Krist, hinn rjettláta (1. Jóh. 2, 1. Post. 22, 14), þann, er ekki hefir framið synd (1. Pjet. 2, 23), er píndur hefir verið fyrir vorar syndir, hinn rjettláti fyrir hina órjettlátu (1. Pjet. 3, 18). Því gat hann og ekki að eins sjálfur sagt: hver af yður getur sagt mig sannan að nokkurri synd (Jóh. 8, 46)? heldur var heilagleikur hans svo mikill, að þótt vjer að öðru leyti finnum allar

mannlegar tilfinningar, sem góðar eru, í hjarta hans, sjáum vjer samt alls engan iðrunarvott, hvorki í orðum hans nje athöfnum; en hefði nokkur villa eður synd verið til í fari hans, þá hefði iðrunin hlotið að verða þeim samfara. En hafi hann verið æðri öllu þessu, hafi hann í raun og veru ekki þekkt synd, þá hefir og uppruni hans verið á annan hátt, enn vor uppruni, því sá sem fæddur er í synd, og hefir að erfðum tekið spillt eðli, hann verður og óvörum flæktur í neti syndarinnar

Hver getur gjört grein fyrir hinu leynilega sambandi millum synda fyrri og seinni kynslóða? En hver getur borið á móti að slíkt hryggilegt samband sje til? Hver dirfist að bera á móti, að eðli vort sje spillt, og undir eins og vjer förum að vita af sjálfum oss, verðum vjer varir við fýsnir í oss, sem ekki eru frá Guði og leiða ekki til Guðs? Og jafnvel þó vjer vildum ekki kalla þessar fýsnir syndir, eður að minnsta kosti ekki v o r a r syndir, þó vjer segðum, að þá syndgi maðurinn fyrst, er hann hneigist til hinna vondu fýsna: höfum vjer þá ekki allir mátt reyna, að þetta hafi orðið snemma, svo að segja frá upphafi, jafnskjótt sem vjer vorum færir um að hafast að nokkuð það, er vjer gætum eignað sjálfum oss? Hver getur tilgreint takmörkin milli þess, er eðli vort einsaman knúði oss, og þá er vjer kusum sjálfir? en frá æskuárum vorum vjer þess varir, að vjer erum bendlaðir við hina almennu spillingu. Og gat þá s á, sem átti að kveikja hið nýja líf í mannkyninu, er átti að gjöra það Guði geðþekkt, gat s á, sem átti að ganga fram fyrir mannkynið, svo sem hinn rjetti höfuðprestur, hinn rjetti meðalgangari, friðþægjari, rjettlætari, er varð að vera heilagur, saklaus, óflekkaður, syndurum fráskilinn: gat h a n n verið einn af hinni spilltu kynslóð? Þegar hið óræktaða trje vex eptir eðli sínu, getur ekki hjá því farið, að það beri ramma ávexti, menn verða að græða á það annan ágætari kvist, þá breytir hann eðli trjesins og ávextirnir spretta, Guði til vegsemdar og mönnunum til yndis og nota.

Það er oss fullkunnugt, að dag frá degi er sú hugmynd um rás hlutanna að verða almennari, að allt í heiminum komi fram eins eðlilega og óumflýjanlega og viðurinn sprettur af frjóanga

þeim, sem hulinn liggur þegar í frækorninu; eptir þessari hngmynd, leiðir allt, er seinna kemur fram, beinlínis og skiljanlega af því, sem þegar er framkomið, eptir henni segja menn að öll vandræði hverfi; og víst er um það, að eptir henni hverfa allar hrellingar samvizkunnar og allar þær fyrirstöður, er beiskja iðrunarinnar og hið sára og leynilega samvizkubit reisa á götu mannlegrar farsældar. því þá sprettur hver vera upp eins og hún er, eðlilega og óviðráðanlega, eins og greinin af stofninum, og sjerhver athöfn eins eðlilega og ávöxturinn á greininni. Hvað getur greinin að því gjört, þótt vökvar hennar sjeu spilltir, þótt hún beri enga eður að eins ramma ávexti, ef sjálfur stofninn er ekki betri, enn hún? Hvað getur maðurinn að því gjört, þótt gjörðir hans sjeu vondar, fyrst það er allt saman að eins rás náttúrunnar? þá er hver vera það sem hún getur verið og á að vera, og framkvæmir óumflýjanlega það, sem hún getur ekki hjá komizt; þá er sjerhver synd og sjerhver saurgun og sjerhver illgjörð, þá er þetta allt til samans, ekkert utan hin eilífa regla, forlögin hafa ætlað það hinum ófarsæla manni, það er innrætt honum, þar sem hann var gjörður að þeirri veru, sem hann er, þar sem hann í upphafi var óumflýjanlega ætlaður til smánar og glötunar. En þá dunið þjer og til ónýtis, þrumur á Sínaífjalli! þjer eruð þá ekkert nema þýðingarlausar hótanir í eyrum þess, sem búinn er að komast að leyndardómum hlutanna. Getur h a n n, sem myndaði duptið, krafið það framar reikningsskapar fyrir það, hvernig hann hefir gjört það sjálfur? þarf syndugur maður framar að titra frammi fyrir dómara sínum? Hann hefir þó framið vilja dómarans ekki síður, enn hinn rjettláti. — En ef að þeir, sem skoða hlutina á þenna hátt, segja enn, að heimurinn sje sokkinn niður í illsku, og mannlegt eðli sje aflagað og spillt, ef þeir göfga Krist enn, svo sem þann, er kom til að reisa hið fallna og semja sáttargjörðina millum Guðs og manna, þá er og Kristur hreinn kvistur á óhreinum stofni: heilög vera, komin af vanheilagri ætt, eptir rás náttúrunnar. En þá hljóta menn og að geta lesið vínber af þyrnum og fíkjur af þistlum, þá hlýtur og hin sama lind að geta veitt sætt vatn og rammt.

Nei! vjer boðum ekki rás náttúrunnar, heldur boðum vjer stórmerki Guðs og dásamlega hluti, og á því er byggður allur boðskapurinn um Krist. Vjer boðum ekki Guð svo sem náttúruna, heldur svo sem herra náttúrunnar; vjer boðum, að þá er Guð vildi frelsa hina glötuðu og reisa hina föllnu kynslóð, þá breytti hann rás jarðneskra hluta, þá ljet hann aðra, það er sína náttúru ljóma yfir þessa veröld, og gróðursetti á hinum skemmda stofni ágætan kvist, þann er ekki var úr þessum heimi, heldur átti að verða heiminum til blessunar. Þannig er sá fagnaðarboðskapur Krists, er vjer höfum við tekið, og þannig ætlum vjer að varðveita hann; vjer fyrirverðum oss ekki fyrir hinar helgu hugmyndir hans, og þurfum ekki að forðast þær, nje aflaga, nje heldur að lítillækka hinn mikla boðskap, þangað til hann er orðinn einn í röð viðburða þessa heims; miklu fremur játum vjer Krist, eins og þeir hafa kennt oss, er frá öndverðu voru sjálfir sjónarvottar og flytjendur þessa lærdóms (Lúk. 1, 2); vjer könnumst við, að uppruni hans er hulinn í Guði og opinberun hans orðin fyrir guðlegt kraptaverk; vjer gleðjumst við þá trú, að sá, sem var ímynd Guðs, hafi gjörzt mönnum líkur, svo mennirnir gætu orðið honum líkir, og að hann hafi orðið hluttakandi í vorum kjörum, til þess vjer gætum orðið hluttakandi í hans dýrð.

---

# 28.

## VALD KRISTS ORÐA.

Þegar vjer íhugum vitnisburð heilagrar ritningar um sendingu Krists, þá sjáum vjer, að hann hefir þrefalt embætti, eða að Faðirinn hefir sent hann í þreföldum tilgangi. Sem spámaður átti hann að fræða mannkynið af guðlegu valdi; sem höfuðprestur átti hann að færa hina miklu fórn fyrir synd veraldar-

innar; sem konungur átti hann að stjórna öllum hlutum, svo að guðsríki gæti komið til vor. Látum oss nú staðnæmast við hið fyrsta embættið.

Spámenn köllum vjer ekki að eins þá, er boða fyrir óorðna hluti, heldur alla, sem birta mönnunum guðlega veru og þeim eru af Guði sendir. Svo var Móses forðum háleitur spámaður, sem gekk á milli Guðs og Ísraelsmanna; hann birti þeim þann, sem var og er og mun vera, það er hinn lifanda Guð, er skapað hefir himin og jörð, og allt sem í þeim er; hann talaði af Guðs hálfu til fólksins, lagaði hegðun þess með helgum lögum og sýndi því fram á ókomnu tímana, bæði með hótun og blessun. Það hófust margir spámenn á Gyðingalandi, og Guð talaði margsinnis og á marga vegu til feðranna fyrir munn spámannanna, bæði um hið nálæga og um hið ókomna; því þeir voru eins og rödd Guðs, og birtu guðlegan sannleika, ýmist til að fræða, eða til að áminna og vara við, eða til að ávíta, eða til að hugga þjóð þá, er kosin var til svo undarlegra hluta. Spámennirnir voru því kennendur þjóðarinnar, og tóku ekki upp hjá sjálfum sjer það er þeir töluðu, heldur vottuðu það sem Guð bljes þeim í brjóst, og gátu fært sönnur á guðlega sendingu sína með ástæðum anda og kraptar, og táknum og stórmerkjum, og boðun þeirra hluta, er fram áttu að koma. Og þó spámönnunum væri mikil mótstaða veitt, og þó veröldin sýndi það optsinnis, að þeir voru of góðir handa henni: þá var þó ætíð einhver þörf í hjörtum mannanna, svo að menn hlýddu til orða þeirra, og þóttu sig vanta eitthvað, þegar spámennirnir þögðu; því þó að maðurinn stæri sig af viti sínu, þykir honum þó ekki ávallt það vera sjer einhlítt; allir menn finna, glöggt eður óglöggt, að þeim er þörf spámannlegra orða, er töluð sjeu af guðlegu valdi og opinberað geti það sem hulið er, og styrkt efablandinn hug þeirra. Það voru yfirburðir Ísraelsmanna fram yfir aðrar þjóðir, að þeir höfðu meðal sín spámenn hins hæsta. En hversu marga spámenn sem þeir gátu talið, þá hafði samt enginn verið slíkur sem Móses hafði leift eptir sig þetta fyrirheit: slíkan spámann, sem jeg er, mun Guð senda þjer af bræðrum þínum (5. Mós. 18, 15), þá kallaði þjóðin það ekki hafa

rætzt á neinum hinna seinni spámanna. Þess vegna varð það fyrirheit að verða æ greinilegra, að spámaður skyldi koma, sá er það yrði of lítilfjörlegt að vera þjónn Guðs, til að rjetta við kynþáttu Jakobs — sá, er Guð mundi gjöra að ljósi heiðingjanna, svo að hann flytti hjálpræði hans allt að endamörkum jarðarinnar (Es. 49, 6) — sá, er konungarnir skyldu ganga í birtu hans (Es. 60, 3), og úteyjarnar bíða eptir lögum hans (Es. 42, 4). Þessa eptirbið gat ekkert afmáð úr hjarta þjóðarinnar, hvorki tímar nje forlög, ljettúð nje trúarskortur. Og þegar Jóhannes skírari kom, og hin spámannlega rödd hafði þagað áður margar aldir, þá spurðu þeir hann: Ert þú spámaðurinn (Jóh. 1, 21)? Þegar Jesús kom, og þeir heyrðu orð hans og sáu verk hans, þá sögðu þeir ekki að eins: spámaður mikill er kominn til vor, Guð hefir vitjað lýðs síns (Lúk. 7, 16), heldur sögðu þeir og: hann er sannlega spámaður sá, er í heiminn á að koma (Jóh. 6, 14), og Móses og spámennirnir hafa ritað um (Jóh. 1, 46). Þessi hin fornu spámæli greiddu götu Jesú; en þegar hann kom, greiddi hann sjer veg sjálfur með spámannlegum krapti sínum. Þann krapt sýndi hann ekki að eins í táknum og stórmerkjum, heldur — með því hið spámannlega embætti er einkum í því fólgið, að tala í nafni hins hæsta, þá sýndi Jesús einkanlega spámannlegan krapt sinn í orðum, og ávann sjer mest á þann hátt viðtökur í hjörtum hinna rjettsýnu. Því tákn og stórmerki leiða einnig hina forvitnu, holdlegu og hjátrúarfullu; þeir leita þess, er kraptaverkin vinnur, einungis af því að þeir girnast fullnægju einhverrar jarðneskrar þarfar, eða einhver jarðnesk gæði; múgurinn leitaði Jesú, af því hann læknaði sjúka menn, og gaf mönnum að eta á eyðimörku (Jóh. 6, 26); en þeir sem betri voru aðhylltust hann, af því þeir sáu að þessi tákn voru guðleg opinberun, og af því að þau staðfestu fyrir þá það, sem þeir einkanlega girntust hjá meistara sínum, sem var hið heilaga og sáluhjálplega sannleiksorð. Þegar Jesús spurði postula sína, hvort þeir mundu einnig yfirgefa hann, þá svaraði ekki Símón Pjetur á þessa leið: hvar munum vjer hitta þann, er gjöri slík nytsamleg tákn? heldur sagði hann: Herra! til hvers ættum vjer að fara? þú hefir orð hins eilífa lífs

(Jóh. 6, 68)? Og svo sjáum vjer hvarvetna vitnisburð um, hversu mikil áhrif orð Krists höfðu. Það er sagt af lýðnum í Sikkar, að margir trúðu sakir orða hans, og að þeir sögðu við konu þá, er í fyrstu hafði kallað þá til hans: vjer trúum nú ekki framar fyrir þín orð, því vjer höfum sjálfir heyrt (Jóh. 4, 41. 42); það er sagt um fólkið í Nazaret, að allir dáðust að honum og undruðust hin sáluhjálplegu orð, er komu af vörum hans (Lúk. 4, 22); og er hann lauk hinni dásamlegu ræðu á fjallinu, þá undraðist lýðurinn mjög kenningu hans, því hann kenndi svo sem sá, er hafði guðlegt vald til að kenna.

Það er harla merkilegt, að þrátt fyrir dramb og oftraust og sjálfræði mannanna, fýsir þá ætíð að heyra þau orð, er fá megi vald yfir þeim. Það verður að vera, þeir finni, hversu reikull og efablandinn hugur þeirra er, þegar hann er látinn vera sjálfráður; það verður að vera, þeir finni sjer þörf á slíkri hvíld handa sálum sínum, sem þeir geta ekki öðlazt af sjálfsdáðum; og þess vegna flykkjast þeir ekki að þeim, er kann að kveikja í þeim nýjar efasemdir, eða er sjálfur á reiki, og ber upp fyrir þeim þær spurningar, er hann getur ekki sjálfur úr leyst, heldur að þeim, er tala þau orð, er hafa vald yfir sálum þeirra.

Öll guðhræðsla, auðsveipni og hógværð er sprottin af þeirri tilfinningu, að það sje vald yfir oss, er vjer eigum að hlýðnast. Guðhræddan köllum vjer þann mann, er ekki þykist vera sjálfur bær og fær um að ráða sjer, leiða sig, hjálpa sjer, heldur viðurkennir, að það sje til eilíft vald, sem allir eigi að lúta. Auðsveipið köllum vjer það barn, er virðir föður sinn og móður, og hlýðnast valdi því, er Guð veitti þeim. Hógværan köllum vjer þann ungling, sem virðir orð hinna gömlu og vitru, og ímyndar sjer ekki, að hann sje hinn fyrsti, er eigi að finna hið sanna og rjetta, og að öll speki liðinna tíma hafi verið eins og fis, er fjúka muni fyrir hverjum vindblæ. Guðhræðsla, auðsveipni og hógværð eru því ávallt gagnstæðar þrjózku og sjálfræði.

En hvað er það, sem því veldur, að mennirnir leita Krists æ af nýju? Það vantar aldrei, að það sjeu til einstöku menn, er

hugsi með sjálfum sjer: jeg vil brjóta þau hin leiðinlegu yfirráð og hrinda af mjer sjerhverju oki; því maðurinn er ekki frjáls, nema ekkert leiði hann nje haldi honum — maðurinn finnur ekki sannleikann, nema hann sje settur mitt út á eyðimörk, þar sem engin stjarna væri til leiðbeiningar, og hann yrði að þreifast um í myrkri, þar til hann kæmi á hinn rjetta veg; og þeir tímar hafa verið, að þessi meining hefir verið almennari enn ella. En ætíð hafa menn þó komizt aptur í skilning um, að þrjózka er ekki sama og kraptur — að ósvífni er ekki sama og frelsi — að hin líkamlegu bönd rakna ekki ein saman, þegar sálin hrindir af sjer öllum guðlegum yfirráðum, heldur og þau bönd, er sálin má ekki án vera — og að það er til ok, sem er nytsamlegt, og byrði, sem er ljett.

Guð er ekki Drottinn óeirðanna, heldur friðarins (1. Kor. 14, 33), og vill, að það sje vald á jörðunni til að stjórna hinu óstýriláta, og kúga hið ósvífna, og til að vekja, leiða og styrkja. Það á að vera vald á jörðunni til að varðveita rjetta þjóðskipun, og stjórna gjörðum mannanna, en það á einnig að vera til annað vald til að stjórna hjörtum þeirra. Og með því að þetta er vilji Guðs, þá verður að vera, hann hafi látið guðlegan sannleika opinberast svo, að hann mætti fá vald yfir mönnunum, og þeir gætu sjeð, að hann er frá Guði kominn. Því það er ekki Guðs vilji, að vjer látum aðra leiða oss á þann hátt, að vjer fylgjum í blindni hverjum, er á oss kallar, og ætlar sjer að stjórna hjarta voru og hugrenningum. Hver, sem kallar Jesúm Drottin í alvöru og sannleika, á að vita, vegna hvers hann gjörir það; hann á að hafa safnað í huga sinn vitnisburðum þeim, bæði fyrir hjervistardaga Krists og á þeim og eptir þá, er sameinast svo sem í eina mynd honum til vegsemdar, er segir oss: að hann sje hinn eingetni og elskulegi, er vjer eigum að hlýða; hann á að hafa fundið orð eilífs lífs í kenningu Jesú, og krapt hans fagnaðareyrindis í hjarta sínu; samvizkan á að hafa sagt honum, að þar í sje — eins og postulinn að orði kemst — það vald, er miklu sje æðra öllum yfirráðum og höfðingjadómi, og valdi og ríki, og öllu, sem

nafn hefir, ekki að eins í þessum heimi, heldur og í öðrum (Ef. 1, 21).

Þegar vjer finnum og sjáum þetta, þá lútum vjer, fullir trúar og auðmýktar, valdi Krists orða; en fyrir það verðum vjer með engu móti að viljalausum verkfærum, þeim er gangi í blindni, án þess að hugsa og athafna af sjálfsdáðum. Fagnaðareyrindi Krists er ekki gefið oss til þess að útrýma skynsemi og viti, heldur til að vekja og leiðbeina. Með hverju finna menn krapt þess, öðru enn skynseminni, sem Guð gaf þeim? með hverju skilja menn það, öðru enn umhugsun þeirri, sem Guð lagaði sálina til? Orð Krists fá oss regluna, er vjer eigum að fylgja; en vjer eigum sjálfir að neyta hennar í vandræðum lífsins, í stríði, í friði, í erfiði, í hugleiðingu, og haga stefnu vorri eptir því ljósi, er hann hefir látið renna upp fyrir oss. Jafnvel meðan Kristur var sýnilegur hjer á jörðu, fór hann ekki með þeim, er beiddu hann að skipta arfi, hann ljet ekki taka sig til dómanda og skiptanda í stundlegum efnum (Lúk. 12, 13. 14), þó hann að vísu vildi, að það væri dæmt og skipt eptir því rjettlæti, er hann kallaði mennina til; hann leiddi ekki svo lærisveina sína, að hann segði þeim, hvernig þeir ættu að hegða sjer í hverju sem fyrir þá kæmi, hvað þeir ættu að dæma, tala, vinna, heldur gaf hann þeim orð sín og Anda sinn, og sendi þá svo út í baráttu lífsins til að bera sjálfir þunga þess, og þola sjálfir raunir og hættur, og þróast með því móti til ríkis hans. Óttizt því ekki það vald, er vjer biðjum yður að hlýðnast; vjer leitum ekki að kúga samvizkurnar, heldur að vekja þær; vjer girnumst að geta leitt hina blindu til Krists, svo þeir verði heilskyggnir, og hina höltu, svo þeir verði heilfættir; en þá eiga þeir sjálfir að sjá með þeim augum, er hann hefir opnað, og ganga með þeim mætti, sem hann hefir styrkt.

Þó er það að vísu meining vor, að þegar Kristur talar, þá eigi maðurinn að þegja, og að hann eigi að kefja efasemdir sínar með valdi Krists orða, og leggja — í þeim skilningi — hverja hugsun undir hlýðni við Krist (2. Kor. 10, 5). Því hafi sá komið á jörðina, er öll fylling guðlegrar veru bjó í, og kom

af himnum til að boða Guðs orð, þá boðar hann þau ekki til þess, að vjer förum með þau eins og manna orð, veljum úr og höfnum sumu, heldur til þess, að vjer trúum þeim, og ekki að eins þekkjum þau, heldur og sjeum þeim hlýðnir; ekki til þess, að vjer dæmum þau, heldur til þess, að þau dæmi oss; ekki til þess, að vjer leiðum þau um vora vegu, heldur til þess, að þau leiði oss um sína vegu.

Hversu hjálpsamlegt er þetta vald, sem Kristur hefir kennt með, og kennir enn með, á jörðunni! Tala þú æ til vor af öllu valdi þínu, þú hið kröptuga og sáluhjálplega orð Drottins vors! tala þú svo, að vjer heyrum það í háreysti girndanna og tælingum veraldarinnar; minn oss fyrst á skyldur vorar, en hugga oss síðan með guðlegum fyrirheitum. Þegar veröldin — þegar ágirni vor ætla að binda oss þungum gullfjötrum við ískyggileg auðæfi þessa heims, eða þegar hjarta vort þyngist af áhyggjum stundlegrar atvinnu, þá minn oss á þau auðæfi, er mölur og ryð geta ekki spillt, og þjófar geta ekki stolið, og seg oss af öllu valdi þínu: Leitið um fram allt Guðs ríkis og hans rjettlætis, þá munuð þjer fá allt þetta í viðbót (Matth. 6, 20. 33)! Þegar hugur vor er hjegómlegur, og sækist eptir ónýtu glisi og fávíslegu skrauti og lofi veraldar, þá seg oss án manngreinarálits, að hjegómagirni saurgi manninn (Mark. 7, 22. 23), en prýði ekki; láttu glisið fölna, og seg oss án afláts, að þeir, sem leiti sjer launa í hjegómlegri orðsæld, hafi úttekið laun sín (Matth. 6, 2). Þegar heimurinn og hugur vor telja oss trú um, að vjer getum ekki staðið í mót hinu illa utan með illu, og verðum að setja hart í mót hörðu og svik í mót svikum, þá tala þú hárri röddu, og þeg ekki, heldur seg oss óaflátanlega, að elska óvini vora, gjöra þeim gott, er oss hata, og biðja fyrir þeim, er oss gjöra illt (Matth. 5, 44); svo að oss lærist, að sigra illt með góðu (Rómv. 12, 21). Þegar vjer erum of glöggskyggnir um yfirsjónir annara, og harðir í dómum við þá, en linir við sjálfa oss, þá seg oss óaflátanlega, að áfella ekki, svo að vjer verðum ekki áfelldir; þjer ómildir dómendur! hví sjáið þjer flísina í auga bróður yðars, en gætið ekki bjálkans í yðrum augum (Matth. 7, 1. 3)? Þegar vjer förum að þykjast, og hirða

ekki um annað enn sjálfa oss — þegar vjer ætlumst til, að allir vægi fyrir oss, og þjóni oss og hlýði oss — þegar vjer svívirðum lítilmagnana, og lúkum aptur hjörtu vor fyrir aumingjunum: þá set oss óaflátanlega fyrir sjónir, að oss beri að breyta við aðra, eins og vjer mundum kjósa, að þeir breyttu við oss (Matth. 7, 12). Orð Drottins vors og Lausnara! sameina þig þannig eptirdæmi hans, svo oss lærist að verða hógværir og auðmjúkir í hjarta (Matth. 11, 29).

En þegar orð Krists með öllu valdi því, er þau tala með, og eiga rjett á að tala með — hafa vakið samvizku vora, og látið oss finna, að Guð er yfir oss, sá er vjer eigum að hlýðnast og gjöra reikningsskap, þá hugga þau einnig hjörtu vor, og gjöra það með hinu sama valdi; og vantrúin á að láta undan því, og hver ein efasemd að þagna fyrir því. Hvort sprettur hin helga lind huggunarinnar svo ríkulega og svo stöðugt upp í hjàrta voru, að vjer þurfum ekki annarlegra orða, til að sýna oss miskun Guðs, og láta oss bíða guðlegrar hjálpar með þögn og þolinmæði? Jeg veit gjörla, að Guðs rödd er einnig í hjarta voru, og að hjarta vort fyllist á stundum háleitrar sælu, svo að vjer lifum, hrærumst og erum í Guði. En reiðum oss ekki á eina saman tilfinninguna; því ekki er hún ætíð jafnstyrk og jafnfjörug, og margvíslegustu tilfinningar geta kviknað í brjósti voru. Þegar allt brosir í kringum þig, þegar blessunin drýpur niður á jörðina, þá finnur þú og smakkar og sjerð, að Drottinn er góður (Sálm. 34, 9). En þegar himninum er lokað uppi yfir þjer — þegar þú kveinar af sárri neyð, og það er eins og enginn gefi því gaum — í stuttu máli: þegar eldingunni lystur niður við hlið þjer, þá brennir hún ekki að eins það, sem í kringum þig vex, heldur og blóm trúar og vonar í hjarta þínu. Þau sannindi, að Guð stjórni öllu, sem fram fer á jörðunni, smáu og stóru, eru ekki svo vönd, að hver maður geti ekki skilið þau, og fundið til þeirra í hjarta sínu; eða hvort er sá nokkur, er ekki hafi fundið á gleðistundunum, að vjer göngum og hvílumst í verndarskjóli forsjónarinnar? En er þó nokkur sá, er þori að segja: þessa háleitu speki, eða enn heldur, þessa grein barnalærdómsins, hefi jeg ætíð haft mjer stöðugt í huga

hvað sem fyrir hefir komið; og þegar jeg hefi horft á með augunum það sem ekki leit neinn veginn út, nema eins og tóm hending og óttaleg tilviljun, þá hefi jeg aldrei nefnt þessi orð: hending og tilviljun, nje látið mjer þau í hug koma, án þess að mjer byði við þeim, og skynsemi mín hefir þá ætíð haft nógan styrk í sjer til að staðfesta trúna í hjarta mínu, svo að jeg sæi, það væri guðleg ráðstöfun? Hafi nokkur getað það, þá hefir sá verið öflgari mjer; því jeg hefi lifað þær stundir, að ekkert hefir getað veitt huga mínum frið, nema að jeg hefi sett mjer fyrir sjónir þessi hin fornu orð: enginn titlingur fellur á jörð án vilja Föður yðvars á himnum (Matth. 10, 29), og undir eins hitt, að þessi orð hefi jeg ekki komið upp með, og að þau eru ekki til mín komin fyrir mannlega íhugun, en að sá hefir sagt þau, sem kom í heiminn til að segja og sýna mönnunum það, sem augu þeirra fá ekki sjeð, og vit þeirra megnar ekki að geta sjer til af því, sem þeir sjá — það er: þann sannleika trúarinnar, er einn veitir sálunni hvíld. Þó vjer í fyrstu gjörum það af hlýðni að trúa, af því guðsorð á í hlut, þá glæðir það smátt og smátt tilfinningu vora, þar til er allar raddir hjarta vors viðurkenna af mikilli gleði, að trú vor sje rjett. — Þegar þú ert í góðum hug, og horfir á kvöldroðann, meðan hann hverfur, þá mun þjer koma til hugar, að slíkt sje hið blíða og fagra ljós, er skíni yfir hinum síðustu æfistundum gamalla manna, er þeir hafa varið vel æfi sinni; lítir þú síðan stjörnur himinsins blika skært fyrir augum þjer, þá vaknar von óðauðleikans í hjarta þínu, og þá kemur þjer til hugar: Í húsi Föður vors eru margir bústaðir, og það er engill hans, er að síðustu bendir oss blíðlega, að fylgja sjer til heimkynna friðarins. En öðru vísi liggur á oss hjá þeim sem er að deyja, þegar sá munnur þagnar, er oss þótti svo inndælt að heyra tala, eða það hjarta hættir að berjast, er vjer elskuðum. Þá kólnar einnig hjarta vor sjálfra og verður að steini í brjósti voru, svo að vjer þörfnumst almáttugs orðs, þess er bjóði klettinum að opnast, svo að lindir lífsins spretti upp að nýju. Þökk og lof og vegsemd sje því honum, er ávarpar oss þegar vjer syrgjum, og segir oss — ekki með brotnum og þungskildum

ályktunum, nje heldur mannlegum myndugleik, heldur af sínu háleita valdi: þeim, er fylgja mjer og þekkja rödd mína, þeim gef jeg eilífft líf, og þeir skulu aldreigi glatast, og enginn skal slíta þá úr hendi mjer (Jóh. 10, 28); jeg em upprisan og lífið, hver, sem á mig trúir, skal lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25). Þegar gott árferði er á jörðunni, þegar löndin eru óhult í fullum friði, þegar vizka og rjettlæti og sæla haldast í hendur, þá er hægt að sjá, að allt taki guðlegum þroska; en þegar hver þjóðin rís í mót annari, og hvert ríkið rís í mót öðru, og harðindi og drepsóttir haldast í hendur, þegar öfl himinsins rísa upp, þegar jörðin titrar, og öldur sjáfarins æða, þegar mennirnir örmagnast af skelfingu og af eptirbið þeirra hluta, er yfir jarðríki eiga að koma, þá er oss þörf á stöðugu spámannsorði, því er segi til vor: Þegar þetta tekur að verða, þá lítið upp og hefjið upp höfuð yðar, með því að lausn yðar fer þá í hönd; því þegar þjer sjáið þetta fram koma, þá vitið, að ríki Guðs er í nánd (Lúk. 21, 28. 31).

„Himin og jörð munu fyrirfarast, en mín orð megu með engu móti fyrirfarast“, segir Kristur (Matth. 24, 35). Og það var spámannlegt eyrindi hans hingað á jörð, að tala þessi orð, er aldreigi týnast. Og það eyrindi framkvæmir hann enn í dag, er hann dreifir orði sínu út yfir löndin, og inn í húsin, og inn í hjörtu mannanna. Sæll er sá, er heyrir þessi orð og breytir eptir þeim! Honum skal líkja við hinn forsjála mann, er byggði hús sitt á bjargi. Síðan kom steypiregn og flóð, og stormar æddu og buldu á því húsi; en það fjell ekki, því það var grundvallað á bjargi (Matth. 7, 24. 25).

---

# 29.

## KRISTUR ER FRAMSELDUR FYRIR AFBROT VOR.

### Fyrsta hugleiðing.

Boðið dauða Drottins, þangað til hann kemur (1. Kor. 11, 26)! segir postulinn. Margt er það, sem aldrei gleymist að öllu leyti á jörðunni; veraldarsagan ritar það með ómáanlegu letri á töflur þær, sem tíminn fær ekki eytt, og hver, sem gengið getur inn í musteri endurminninganna, má lesa þar enn í dag söguna um það, sem fram hefir farið meðal þeirra kynslóða, sem nú eru undir lok liðnar. Þú skalt ekki hugsa nje segja: þegar jeg er farinn, þá eyðist það og gleymist, hvað jeg hafi verið og hvað jeg hafi aðhafzt á jörðunni; því rjettlætið kemur því optlega í ljós þegar hjer á jörðu, og kemur því einatt undarlega í ljós, sem framast var dulið, og minnist þess yfir moldum þínum, til endurgjalds eður hegningar. En hver er sá, meðal hinna mörgu viðburða á jörðunni, er vjer getum um sagt: jafnan meðan heimurinn stendur, mun þessa viðburðar verða minnst svo glögglega, að hann verði ætíð nýr um allar aldir, svo að ekkert af öllu því, sem fram fer á hinni löngu leið alda og aldatuga, geti vaxið upp yfir hann, og sjerhver maður þekki hann, ekki síður fáfræðingurinn, enn hinir vitru og spekingarnir, og barnið heyri um hann talað undir eins og eyra þess tekur að nema nokkurt hljóð, og að gamalmennið, er hefir sjeð og heyrt svo marga hluti, tali enn um hann, þegar sígur að kvöldi og á daginn líður? Hver er sá meðal hinna mörgu viðburða, er vjer viljum um segja og getum um sagt fyrir öllum lýð, hið sama, sem Móses sagði forðum daga við Ísraelslýð: Þú skalt brýna það fyrir börnum þínum, og ræða um það, þegar þú situr í húsi þínu, og þegar þú fer um farinn veg, og þegar þú leggst til hvíldar, og þegar þú rís úr rekkju (5. Mós. 6, 7).

Þetta erum vjer kristnir menn þó vanir að segja um minningu Drottins vors og Frelsara; hún lifir frá einni kynslóð til

annarar hjá ungum og gömlum. En postulinn segir einkanlega: boðið dauða Drottins, þangað til hann kemur — boðið ekki að eins líf hans og ekki að eins kenningu hans, heldur og dauða hans. Með þessum orðum segir hann söfnuðunum, að þeir skuli játa Krist svo sem þann, er dáinn sje og upprisinn fyrir þeirra sakir (2. Kor. 8, 14); með þessum orðum segir hann kennendunum, að þeir skuli boða Jesúm Krist og hann krossfestan (1. Kor. 2, 2); með þessum orðum segir hann öllum játendum Krists, að þeir skuli minnast þess, að Kristur er framseldur fyrir afbrot vor, eins og hann er upprisinn oss til rjettlætingar (Rómv. 4, 25).

Það er hverjum manni ljóst, sem hugsar um það einlæglega, hvers vegna Kristur átti að opinberast og verða dýrðlegur og kunnur og boðaður á jörðunni; flestir menn munu þó kannast við, að ætti dymmu hins mikla myrkurs að verða eytt, hlaut harla bjart ljós að renna upp, og ætti hin takmarkaða og veika þekking mannanna að geta orðið aukin og staðfest, var þeim þörf á kennara af Guði sendum, og sá kennari varð að geta sýnt af hverjum hann væri sendur, og gjörast dýrðlegur fyrir augum mannanna. En hvers vegna átti hann hinn háleiti, hinn heilagi og hreini, að skelfast og titra, og sál hans að gjörast hrygg allt til dauða? Þegar vjer skelfumst og hryggir verðum í þjáningum lífs eður dauða, þá segjum vjer ekki að vjer þjáumst fyrir sakleysi, enda þótt vjer getum ekki sjeð, að vjer sjeum sekir í hinum nálægu þrautum vorum; og þótt oss hæfi ekki í hverju andstreymi, sem mætir oss, að kvelja sjálfa oss á þeirri hugmynd, að nú sjeum vjer að þola gjöld fyrir þá eða þá synd, þá ber oss samt að viðurkenna, að vjer sjeum jafnan flekkaðir af synd og óhreinleika, er oss þurfi af að hreinsa í eldi mótlætinganna. En Kristur hafði ekkert afbrotið, hann hafði ekki neina jarðneska eptirsókn, er hann þyrfti að læra að hafna, og enga synd, er hann þyrfti rjett eins og að brenna af sjer og þvo á burt, áður enn hann kæmi fram fyrir Guð. Þó sagði hann jafnan, að hann væri kominn á þeim tíma, er vald myrkranna ætti að drottna (Jóh. 12, 27. Lúk. 22, 53); og berlega sást það gat ekki orðið,

að hinn beiski kaleikur væri frá honum borinn, heldur átti hann fyrst að þola þetta, og síðan að ganga inn í dýrð sína (Lúk. 24, 26).

Það er og sagt með berum orðum, til hvers Kristur átti að þola píslir og verða fórnfærður. Því ef vjer spyrjum Drottin vorn sjálfan, hvers vegna hann sje í heiminn kominn, svarar hann oss: Mannsins Sonur er ekki kominn til að láta þjóna sjer, heldur til að þjóna öðrum, og láta líf sitt til lausnargjalds fyrir marga (Matth. 20, 28); ef vjer spyrjum hann á hinu síðasta kveldi æfi hans, þá er hann vissi að sá, er rjett á eptir sveik hann, var undir borðum með honum, ef vjer spyrjum hann þá: hvers vegna kemur þú þjer ekki undan? hvers vegna kallar þú ekki himnanna hersveitir að veita þjer þjónustu, en selur sjálfan þig varnarlausan í hendur syndurum? þá svarar hann oss: líkami minn verður framseldur fyrir yður, og blóði mínu verður úthellt til synda fyrirgefningar mörgum (Lúk. 22, 19. Matth. 26, 28). Þannig sagði og fyrirrennari hans, Jóhannes skírari, þá er hann sá Jesúm koma til sín, og sá í anda til hverra hluta hann var ætlaður: sjá það Guðs lamb, hina saklausu og þolinmóðu fórn, er Guð hefir kjörið, þá er burtu ber heimsins synd (Jóh. 1, 19)! Og ef vjer hlýðum orðum þeirra, er voru vottar að píslum Krists, er hann hafði sjálfur kennt, og leiddir voru af heilögum Anda, til að boða friðinn fyrir Jesúm Krist, þá sameinast allir hinir mörgu vitnisburðir þeirra í þessum eina vitnisburði: Kristur er dáinn vegna synda vorra samkvæmt ritningunum (1. Kor. 15, 3), samkvæmt hinum fornu ritum spámannanna, þar sem svo er sagt: sannlega bar hann sjúkleika vora og hryggðum vorum hefir hann á sig hlaðið; hann er særður vegna afbrota vorra, og fyrir synda vorra sakir er hann lemstraður, hegningin var á hann lögð, svo að vjer fengjum friðinn, og fyrir benjar hans erum vjer heilbrigðir orðnir (Es. 53, 4. 5).

Þetta er vitnisburður ritninganna, skýr eins og dagsljósið, og staðfastur eins og stólpar þeir, sem kyrkja Guðs er á reist; og þótt efasamar hugsanir mínar færu að tortryggja þetta, þótt mjer virtist, eins og mörgum hefir virzt, að hjer væri eitthvað það, sem Guði væri ósæmilegt, eður gagnslaust fyrir mennina, þá yrði jeg samt að segja: þessi vitnisburður er máttkari enn svo, að jeg geti

tekið hann á burt nje þýtt hann á annan hátt, hann er einnig partur af því guðsorði, er ekki mun líða undir lok, þó að jafnvel himin og jörð breytist; og jeg verð þess glögglega var, að hjer koma saman allir vegir opinberunarinnar, og að það var ekki fyrr enn á krossinum, að hin eilífa ráðsályktun Guðs, um frelsunina fyrir Krist, varð fullkomnuð, og að af krossinum ljómar boðun náðarinnar og lífsins. Og víst er um það, að jeg get ekki verið kristinn með því móti, að jeg semji sjálfum mjer einhverja speki og búi mjer sjálfur til nýjan lærdóm um ráðsályktanir Guðs og vegu hans, og setji svo merki Krists á þennan tilbúning; heldur með því móti, að hvar sem jeg finn merki Drottins míns, þess er jeg kalla einan Lávarð minn og Meistara, þá segi jeg: þetta eru guðleg sannindi; skilningur minn lýtur þeim, hugur minn lætur þau leiða sig, jeg leitast við að kannast við þau og trúa þeim, og finna til þeirra og hafa þeirra not.

En, Guði sje lof! hugur minn efast ekki þannig. Að vísu get jeg ekki stært mig af, að jeg sje fyllilega kominn í skilning um þessa leyndardómsfullu speki, og að nokkru leyti eru vegir Guðs í þessari frelsun veraldarinnar mjer eins huldir og upphaf Guðs vega, þá er hann skapaði veröldina. En jeg veit, hversu vesæll og hversu skammsýnn jeg er, og að jeg get ekki búizt við að fá rannsakað djúp guðlegrar speki, meðan jeg bý hjer í duptinu; jeg veit, að þegar rannsóknarauga sálarinnar snýr sjer að guðlegum hlutum, fær það ekki staðizt ljóma þeirra, og verður því optlega að horfa á þá gegnum myrkvað gler, eins og menn eru vanir að hafa, þegar horfa þarf í sólina, og þegar sálin flýgur í hæðir, heyrir hún að eins myrkar ræður, er hún verður langa stund að velta fyrir sjer, áður hún fái komizt í rjettan skilning um þær, og fær þó aldrei fullskilið þær hjer á jörðu. En þess vegna hefi jeg einnig leitt fagnaðarboðskap Krists inn í hjarta mitt, þar sem að búa hinar ríkustu tilfinningar þess og hinn leynilegi ótti, er gjöreyðir fegurð lífsins og gjörir dauðann og dóminn svo skelfilegan, en þar sem og hin hógláta von býr, er leitar sjer friðar og miskunar hjá Guði: og þar hefi jeg fundið, að rjettlæti Guðs og miskunsemi Guðs, sameinast hvergi nema í Jesú dauða og friðþæging,

á þann hátt, að samvizkan öðlist huggun, jafnframt og hún verður vakin, og hinum hörðu og heilögu kröfum lögmálsins verði fullnægt, þar sem hinn sæli boðskapur fagnaðarins hljómar svo skært inn í hið sundurkramda hjarta, að það dirfist að þekkjast hann, og fær öðlazt af honum slíka lækning, er svæfir það ekki skaðsamlegum svefni, heldur eflir það á allan hátt til að kappkosta það sem háleitt er og gott.

Sú meðvitund býr í hjarta sjerhvers manns, að Guð muni dæma lifendur og dauða. Glaumur veraldarinnar getur að vísu deyft þessa meðvitund, mennirnir geta af ásettu ráði barið hana niður, varirnar geta hæðst að henni, en sjerhver maður veit samt í samvizku sinni, þar sem að er hinn rjetti bústaður sannfæringarinnar, að það muni verða dæmt, sem mennirnir hafa aðhafzt, hvort sem það er illt eður gott. Og þessi dómur hlýtur að verða háður með rjettlæti, hvort sem hann kemur í ljós seint eða snemma. Vjer krefjumst þegar rjettlætis hjer á jörðunni, vjer krefjumst af þeim, er bræður þeirra hafa selt völd í hendur, að þeir dæmi án manngreinarálits, og sjeu þjónar Guðs, þeim til góðs, er fremja hið góða, en vjer krefjumst og, að þeir beri ekki sverðið til ónýtis, því hið jarðneska vald má og ekki heldur láta að sjer hæða. En ef vjer finnum ekki rjettlætið á jörðunni, lyptum vjer augum vorum til himins, og þá er vjer segjum; Guð er rjettlátur! látum vjer í ljósi sannfæring vora, að vald sje til, hverju valdi æðra, er leiða muni í ljós málefni hins saklausa, og láta hann ná rjetti sínum, og slíkt hið sama illgjörðir hins seka og senda þeim hegninguna. Og þess vegna segir meðvitundin í brjósti voru, að syndin geti ekki farið á mis við hegning sína; þar sem syndin er, kemur og hegningin, ekki að sönnu beinlínis, ekki svo þú vitir hvar, og hve nær og hvernig hún komi, en að hún komi seint eður snemma, opinberlega eður leynilega, annaðhvort á vanalegan hátt, eður með sjaldgæfu og undarlegu móti, það veiztu eins glögglega, eins og þú veizt, að það er ekki hinn sjálfráði leikur tilviljunarinnar, er heldur saman himni og jörðu, heldur heilög og óbifanleg lög.

Um þetta efast ekki heldur mennirnir svo mjög, eins og það lítur út sem allflestum virðist, að það snerti þá ekki, því nú er

það, eins og vjer vitum, að mennirnir þykjast sjaldan drýgja syndir; þetta nafn er of þungt og strangt handa breiskleika þeim og ávirðingum, er þeir að sönnu kannast við þeir hafi, en halda jafnframt hið eilífa rjettlæti muni umbera eins fúslega og sjálfir þeir. Og sæll ert þú, ef að þú í raun og veru þarft ekki að óttast dóminn! En settu þig þá í þeirra stað, er þú hlýtur að kalla syndara, og spyr svo sjálfan þig, hvort þú dirfist að halda og getir haldið, að syndin sje gleymd, af því hún er umliðin og fyrirgefin, af því þú hafir iðrast hennar. Þegar Kaín gekk burt að fela sig fyrir augliti Drottins, og vera skelfdur og landflótta á jörðunni, er drukkið hafði bróðurblóðið úr hendi hans, þá bjó sú tilfinning í brjósti hans, að hann sagði: glæpur minn er meiri en svo, að jeg fái borið hann (1. Mós. 4, 13); og hver er sá, er ekki finni, að svipur bróður þess, er hann hafði myrt, varð að fylgja honum, hvar sem hann fór og krefjast friðþægingar — slíkrar friðþægingar, er Kaín gat ekki í frammi látið. Ef þú segir, að glæpur Kaíns hafi verið meiri enn svo, að hann hafi orðið fyrirgefinn, og því hafi og það merki verið á hann sett, er mennirnir flýi fyrir, og það sjeu einungis fáir, og einungis hinir fullkomlega glötuðu, er geti framið slíkt illvirki; hugsaðu þá til Davíðs, hins mikla konungs Gyðingaþjóðar, þú veizt, að hann var guðhræddur allt í frá æsku, og hver sem heyrir sálma hans, verður að kannast við, enn í dag, að hann hafi haft hjarta til að elska Guð og menn heitt og einlæglega. Lestu þá hina hryggilegu frásögu um hrösun hans, er vildi svo náttúrlega til, sjáðu hvernig valdið og ástríðan leiddu hann af rjettum vegi, spor og spor, þangað til hann var þar að kominn, er hann gjörði sig blóðssekan, sekan að blóði síns hins trúa og ráðvanda þjóns, er hann seldi í dauðann til að geta dulið syndir sínar fyrir augum mannanna. Lestu þá og kveinstafi iðrunar hans, þá er skeyti Drottins nístu hann og hönd Drottins þjakaði honum harðlega, þá er enginn blettur var heilbrigður á líkama hans, fyrir sakir Guðs reiði, og enginn friður í limum hans fyrir hans synda sakir (Sálm. 38, 3. 4), þá er hann meðkenndi afbrot sín, og synd hans stóð honum jafnan fyrir hugskotssjónum (Sálm. 51, 5): og spyr svo sjálfan þig, hvort nokkurt mannlegt loforð mundi hafa

getað veitt honum huggun og frið með þessum orðum: það er fyrirgefið.

Sæll ert þú, sem hefir varðveitt hendur þínar hreinar af blóði og æfi þína óflekkaða af misgjörðum! og margfaldlega sæll ert þú, ef þú gætir sagt það með sanni um boðorð Guðs, sem hinn ungi maður sagði, þar sem hann skildi boðorðin einungis um hina ytri hegðun og hið ytra rjettlæti: Alls þessa hefi jeg gætt, í frá barnæsku (Matth. 19, 20). En látum oss fletta upp hinni helgu bók lögmálsins, því lögmáli, er menn hafa ekki sett, og geta því ekki heldur afmáð, nje breytt, nje nokkurt orð úr tekið, því lögmáli, er sá, sem eptir því ætlar að dæma, hefir ritað í hjörtu mannanna, og boðað í hinni æðri opinberun, er hann birti mönnunum vilja sinn með, og hann enn á hverjum degi leitast við að vekja með samvizkur vorar; þar má lesa hið fyrsta og hið æðsta boðorð: þú átt að elska Drottin, Guð þinn, af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum — hefir þú þá gætt jafnvel einungis þessa hins fyrsta og æðsta boðorðs, allt í frá barnæsku þinni? hefir þá ætíð verið í brjósti þjer sú ást á Guði, að hún væri styrkvari, enn fávizkan og hjegómagirndin og ástin á sjálfum þjer og veröldinni? Jeg ásaka þig ekki um þær glaðværðir, er þú gazt notið saklauslega, og ekki um það, að þú hefir starfað að jarðneskum hlutum; en hefir þú sífelldlega haft Guð fyrir augum þjer og í hjarta þjer, í sjerhverri athöfn og í sjerhverri skemmtun þinni? þegar Guð lauk upp fyrir þjer sinni örlætishendi og saddi þig á blessun sinni, hefir þú þá ætíð kannast við það, og þakkað það eins og þjer bar? þegar Guð reyndi þig, og svipti þig yndi augna þinna, og hellti beiskum drykk í bikar þann, er þjer var rjettur, hefirðu þá trúað, þótt þú sæir ekki, hefirðu tekið krossinn á herðar þjer, og sagt af einlægu hjarta: Verði Guðs vilji, hvað sem líður mínum vilja? — Nú komum vjer að hinu næsta boðorði: þú átt að elska náunga þinn eins og sjálfan þig — hefir þú haldið þetta boðorð, svo þú hafir aldrei breytt við mennina, aldrei breytt við neinn mann, öðru vísi, enn þú vildir mennirnir breyttu við þig, hefir þú ekkert illt gjört náunga þínum, heldur gjört honum allt gott, og gjört það af góðum og ástríkum hug? — Látum oss

fletta upp hinum heilögu bókum lögmálsins; þar má lesa tvö stóratriði, annað um afbrot, og annað um vanrækingar, því þótt einhver sá væri til, er ekkert illt aðhefðizt, en vanrækti hið góða, sem hann gæti gjört og ætti að gjöra, þá væri hann engan veginn rjettlátur. Þar má lesa um þær athafnir, er verða að sæta guðlegri reiði, en þar má og lesa um ósæmileg orð, er mennirnir eiga að gjöra reikningsskap fyrir á dómsdegi, þar má lesa, að innan að úr hugskoti mannanna komi illar hugrenningar og allt illt. Fyrir því ert þú ekki rjettlátur, þótt líferni þitt sje ekki hegningarvert fyrir mannlegum augum, nema því að eins, að hjarta þitt sje og hreint fyrir augliti Guðs.

Hversu ljettbært gjöra flestir menn sjer ok lögmálsins. Guð minn góður! þarf þá ekkert annað til að vera rjettlátur fyrir þínu augliti, enn að vera eins samvizkuljettur og flestir menn eru, og hafa gætt sín fyrir blóðugum syndum, og því, sem sjálfur heimurinn er vanur að kalla illgjörðir, og hafa lifað eins og flestir lifa, og gætt nokkurn veginn embættis síns og sjeð nokkurn veginn um börn sín og bú, og komizt nokkurn veginn af við þá menn, er vjer eigum sambúð við, og verið siðsamur í hegðun sinni, eins og hver er uppalinn til: — þá væri vegurinn að guðsríki orðinn breiður, og það væru margir sem fyndu hann. En hversu mikil sannindi eru það, er einn af hinum helgu skáldum hefir sagt: Jeg hefi sjeð enda á öllum hlutum, segir hann, en Guðs boðorð ná harla langt (Sálm. 119, 96). Og víst er um það, hið heilaga og stranga lögmál Guðs nær harla langt, það nær yfir allar athafnir, berar og huldar, og yfir öll orð á vörum vorum, og allar hugsanir huga vors, og allar hræringar í hjarta voru. Þess vegna heimtar og lögmálið ekki að eins það rjettlæti, sem mönnunum er svo gjarnt að láta sjer nægja með, svo sje nokkur sannleiki til í oss, og þyki oss það nokkurs vert, að vera slíkir í heiminum, sem Guð vill að vjer sjeum, þá ásökum vjer og sjálfa oss, af því hugur vor hefir svo optlega hnigið að jarðneskum hlutum og fest sig við stundlega muni og hjegómlega, og ekki sótzt kappsamlega eptir Guðs ríki og hans rjettlæti, og af því vjer svo optlega höfum látið girndir vorar blinda oss, svo vjer höfum ekki viljað kannast við

hið rjetta, og ástríður vorar yfirbuga oss, svo vjer höfum ekki gjört það sem rjett var, af því vjer höfum látið ákefðina koma oss til að tala og gjöra annað, enn það, sem vera átti, eður hugleysið koma oss til að þegja og halda að oss höndum, þar sem vjer áttum að láta til vor taka, og af því oss hefir svo optlega vantað auðmýkt og alvörugefni og hógværð í meðlætinu, og stöðuglyndi og þolinmæði í mótlætinu, og af því vjer höfum ekki treyst Guði og ekki vonað til Guðs, eins og vjer áttum að gjöra; í stuttu máli: af því sú rót, sem hugsanir vorar og tilfinningar og orð og gjörðir eru af sprottnar, er saurguð, og vjer höfum elskað sjálfa oss, en ekki Guð af öllu hjarta, nje náungann eins og sjálfa oss.

Þannig sýnir ritningin, að allir sjeu undir syndina seldir (Gal. 3, 22) og samvizkan ber henni vitni, því ef vjer segðumst vera syndlausir þá svíkjum vjer sjálfa oss og sannleikurinn væri ekki í oss (1. Jóh. 1, 8). En synd þarf friðþægingar við.

---

# 30.

## KRISTUR ER FRAMSELDUR FYRIR AFBROT VOR.

### Önnur hugleiðing.

Syndir þurfa friðþægingar við. Alstaðar á jörðunni finna menn það, og eru sjer þess meðvitandi. Þau hin fornu orð, er svo hljóða: hver, sem úthellir mannsblóði, hans blóði skal aptur af mönnum úthellt verða (1. Mós. 9, 6), hafa ætíð, þótt hörð sjeu, verið endurtekin í öllum löndum. Ekki bjarga menn að sönnu með því lífi þess, sem dauður er, og vera má tekizt gæti með öðru móti, að hamla morðingjanum frá að vinna aptur slík óbótaverk, en rjettlætið verður ekki verndað, nema hver maður sje helgur,

og það sjeu órjúfandi lög, að sá sem drepur saklausan mann af ásetningi skuli verða afmáður af jörðunni. Þess krefjumst vjer af mannlegu rjettlæti, að þeim sje hegnt, sem sekur er, og gjörum það ekki, af því oss þyki gaman að hefndinni, heldur af því vjer finnum, að rjettlætið á ekki að láta að sjer hæða, en það yrði, ef glæpaverkin bitnuðu ekki á hinum seku, og fyrirgefið væri, án þess búið væri að taka gjöld syndarinnar.

Syndir þurfa friðþægingar við — það er víst! það finna menn, ekki að eins í tilliti til þeirra synda, er í gegn þeim hafa verið drýgðar, heldur og í tilliti til synda sjálfra sín, ekki að eins í tilliti til hins mannlega rjettlætis, heldur og hins guðlega. Þó að mennirnir hefðu gleymt syndum þínum, eða látið sem þeir sæu þær ekki, eða fyrirgefið þær, mundir þú samt finna, að þú værir ekki fyrir það sáttur við Guð. Hversu römm sem hjátrúin er, vottar hún samt hvað algeng tilfinning þessi sje, því einnig það, sem afbakað er, bendir til upphaflegra sanninda. Ef vjer rennum huganum yfir jarðarhnöttinn, sjáum vjer, að þörfin á, að geta öðlazt friðþæging fyrir syndir sínar og fullnægt guðlegu rjettlæti, hefir alstaðar komið í ljós, þar sem mennirnir hafa gáð sín nokkuð fyrir ljettúð, eða verið ekki alsokknir niður í dýrslegt tilfinningarleysi. Þess vegna hafa þeir alstaðar fært guðunum fórnir í friðþægingar skini; tak eigur þínar, hafa menn sagt, tak allar hjarðir þínar, og fórnfærðu þeim fyrir synd sálar þinnar; hlíf ekki því, er þú annt mest, slít það, sem þjer þykir vænst um, úr faðmi þínum og frá hjarta þínu, svo þú megir sefa reiði guðanna! Vjer ætlum ekki að rekja alla afvegu villunnar, nje skýra frá allri andstyggð hennar; en hún er þó vottur þess, hvað fastlega sú sannfæring er innrætt hjarta mannsins, að syndir þurfi friðþægingar við. Til að halda við tilfinningu þessari var Gyðingum boðið, að færa Guði friðþægingarfórnir, því fórnirnar minna menn á syndirnar, segir postulinn (Hebr. 10, 3). En hins vegar segir hann, að þessar fórnir geti aldrei friðþægt til fullnustu fyrir þá, er færa þær (Hebr. 10, 1). Nei! það geta hvorki þessar fórnir, nje nokkuð annað, er menn hafa síðan sett í stað þeirra, hvorki pílagrímsferðir til heilagra staða, nje fjegjafir til kyrkna og klaustra, nje föstur og pintingar líkama síns. Með því

nú að allar aðrar friðþægingartilraunir eru ónógar, leiðumst vjer til hans, er áður nefndur postuli og gjörvöll guðleg opinberun vottar, að hafi með einni fórn algjörlega friðþægt fyrir þá að eilífu, sem helgaðir verða (Hebr. 10, 14).

Guð getur ekki afneitað sjálfum sjer, vera hans er óbreytanleg og eilífur sannleiki, og hvernig sem vjer aðgreinum náttúrur Guðs í huga vorum, til að geta talað greinlegar um veru hans, vitum vjer samt, að þær eru ekki aðgreindar í Guði svo að ein þeirra verði annari yfirsterkari, heldur eru þær sameinaðar á hinn fegursta hátt. Guð er kærleikurinn, hann er þolinmóður, mikillar miskunar og mikillar líknar, og þess vegna hljótum vjer að geta öðlazt fyrirgefning afbrota vorra. En Guð er einnig rjettlátur, og þess vegna verða syndir ekki fyrirgefnar, nema rjettlætinu sje fullnægt.

Hverjar bætur hefir þú að bjóða? Vera má þú teljir fyrst til iðrun þína, og jeg veit fyrir víst, að syndin verður ekki fyrirgefin, nema menn iðrist hennar; jeg veit fyrir víst, að sönn og fölskvalaus iðrun þóknast bæði Guði og mönnum. það fann Davíð, er hann sagði: þú girnist ekki fórnir, ella mundi jeg færa þjer þær, og brennifórnir þóknast þjer ekki; sú fórn, er Guði þóknast, er harmþrunginn andi; harmþrungið og sundurkramið hjarta muntu, Guð! ekki fyrirlíta (Sálm. 51, 18. 19). Nei! þá fórn mun Guð ekki fyrirlíta. En þó að einhver iðraðist, sem sárast og beiskast mætti hann, og vætti sæng sína í tárum, og synd hans stæði honum ætíð fyrir hugskotssjónum, mundi hann nokkuð fyrir það dirfast að segja, hann hefði fullnægt með því hinu eilífa rjettlæti. Hvort geta nokkuð iðrunartárin þvegið blóðblettina af höndum þínum? geta þau komið svip hins myrta til að hopa? getur iðrun þín látið liðinn tíma líða yfir að nýju, þó ekki væri nema eina stund æfi þinnar, svo að þú gætir tekið það verk aptur, er þú ásakar þig fyrir, eða bætt því verki við, er þjer svíður að hafa látið ógjört? Ó! þegar þú minnist berlega afbrota þinna og hirðuleysis, og þú sjer synd þína, eins og hún er, þá segir samvizkan við þig: þetta kunnir og áttir þú að sjá og vita, meðan tími var til, en nú er það orðið um seinan.

Um seinan? Já! það sem orðið er, getur enginn máttur

aptur tekið; en dagur kemur eptir þennan dag, enn hefi jeg tíma fyrir mjer, og meðan mjer er þess unnt, þá kann jeg, og á jeg, að verða betri enn jeg hefi verið. Betrun, apturhvarf, umbreyting og endurnýjung hugarfarsins — það er fullkunnugt hverjum kristnum manni, að án þessara hluta er engrar fyrirgefningar von, að Kristur á ekki að vera þjónn syndarinnar, og að, ef kristilegt líf lifnar ekki í hjarta mannsins, þá heldur syndin á fram að lifa þar, og fær enga fyrirgefning. Nú ef umbreyting þessi verður í sálu þinni, hvort muntu þá öðlast fyrir hana þá bót fyrir undanfarin afbrot, er þú leitar að? Víst er um það, að vísirinn til betra lífernis getur af miskun Guðs sprottið í hjarta mannsins, og náð með aðstoð heilags Anda æ meiri fegurð og þroska; en ástand vort hjer á jörðu er ástand helgunar en ekki heilagleika, og aldrei kemur maðurinn hjer á jörðu svo hreinn og fullkominn fram fyrir Guð, að hann hafi ekki fulla þörf á að andvarpa og segja: Guð! vertu mjer syndugum líknsamur! En ef apturhvarf þitt og betrun eru aldrei slík, að ekki loði við þig synd og saurgun, þá þarft þú hvern dag að fá fyrirgefning synda þinna, og hvað er það í hegðun þinni eður í hjarta þínu, er þú eigir svo sem afgangs, til að fullnægja með kröfum lögmálsins fyrir þá dagana, er þú þegar hefir illa nýtt eða ekki nýtt? Enda þótt betrun þín væri fullgjör, og þjer farið svo fram, að þú gætir með sanni sagt, þú syndgaðir ekki framar, væru samt ekki þær syndir liðinnar æfi, sem bera vitni móti þjer, burt numdar fyrir það. Hvort ætlar þú, að sá, sem blóðsekur er, gæti gengið óttalaust til grafar þess, er hann myrti, og sagt: Jeg hefi viðbjóð á illgjörð minni, og finn glöggt, að jeg skal aldrei framar saurga hendur mínar á blóði, þess vegna er sekt mín afmáð? Hvort ætlar þú, að sá, sem konu hefir tælt, og sökt henni niður í lesti og smán, geti huggað sig við að segja: Jeg hefi betrað líferni mitt, þess vegna eru mjer afbrot mín fyrirgefin og synd mín horfin? Hvort ætlar þú, að sá, sem svarið hefir rangan eið við nafn Drottins, gæti sagt: Síðan hefi jeg ekki lagt nafn Drottins, Guðs míns, við hjegóma, líka skal jeg eptirleiðis halda Drottni eiða mína, og ekki svíkja, eður bera ljúgvitni, þess vegna er sekt mín burt numin? Fjarri fer því! þegar samvizkan

er vöknuð, lætur hún ekki huggast við orðin ein; að sönnu veit hún, að enginn öðlast fyrirgefning, nema sá, sem lætur af að syndga, en hún veit og hins vegar, að betrunin eintóm, svo að vjer fremjum ekki framar það hið illa, er samvizkan ákærir oss fyrir, færir engum fyrirgefning.

Þetta hafa margir fundið, og reynt að bæta yfir illgjörðir sínar með góðum verkum, og haldið að þeir gætu með þeim verkum afmáð þær úr endurminning Guðs og manna. Það er að sönnu satt, að meðvitund mannsins um allt hið illa, er hann hefir framið, hlýtur mikillega að hvetja hann til að gjöra allt það gott, sem hann má enn til leiðar koma; en þó að verk þessi sjeu sannarlega góð — og ekki tómur hjegóma og hræsnis leikur, eins og það var opt, sem þeir, er tókust á hendur að leiðbeina þjóðunum, ímynduðu fávitrum mönnum, þeir gætu leitað sjer fríðþægingar með — þorirðu fyrir það sjálfur að meta þau verk svo mikils, að halda þau geti bætt upp hirðuleysi þitt eður illvirki? Þú gefur ölmusur, og sæll ertu þess, að þú gjörir það! Ritningin segir um heiðinn mann, að bænir hans og ölmusur hafi stigið upp til Guðs, og hann hafi minnzt þeirra (Post. 10, 4), og hún hvetur oss alla, svo segjandi: Gleymið ekki, að gjöra gott og útbýta, því slíkar fórnir falla Guði vel í geð (Hebr. 13, 16). En þó að þú gjörir í þessum efnum ekki að eins það, sem heimtað er af hverjum einum, heldur meir enn það, sem í rauninni sýnist verða heimtað — en sá reikningur er torveldur, því hve nær ætti sá, sem nokkuð hefir að gefa af, að geta sagt: nú er skuld minni lokið, þurfamaðurinn á ekki kröfu til meira? — þó að þú vegna þurfamannanna hafir synjað sjálfum þjer þess, er þú sýnist hafa rjett á að eiga og gjöra þjer gott af, heldurðu fyrir það, að þú hafir bætt syndir þínar? Það lítur svo út, sem margir haldi það, er þeir reyna að losast frá öllum öðrum kröfum lögmálsins með ölmusugjöfum; en lögmálið segir svo: Þetta sæmdi að gjöra, en hitt ekki ógjört að láta (Matth. 23, 23). Hver hefir gefið þjer rjett á að setja hvað í stað annars, og bæta brot allra boðorða með því, sem þjer þótti verða afgangs af hlýðni þinni við eitt þeirra? Er sú nokkur af fórnum þessum, sem hið eilífa rjettlæti hafi heitið að taka í bætur fyrir synd þína?

Hinum seka á að verða hegnt; sú meðvitund hefi jeg sagt væri innrætt hjarta hvers manns, og því leita margir sjer friðþægingar í þjáningum þeim, er þeir verða að þola. Jeg meina ekki með þessu að eins þær þjáningar, sem menn hafa optsinnis lagt á sig sjálfkrafa, og haldið að þeir gætu fullnægt Guði, er þeir höfðu styggt, með því að hafna allri gleði, með því að fela sig í dymmum klaustrum og einsetuhreysum, með því að synja líkamanum fæðslu og aðbúðar, én pinta hann með nýtilbúnum þjáningum. Vera má, að þessu hafi ekki ætíð valdið sú tilfinning, að sá, sem hefir ekki viljað gjöra skyldur lífsins, eigi ekki heldur að njóta unaðsemda þess; því, ef til vill, ættu sumir að skýla á þenna hátt synd sinni og svívirðing fyrir augliti veraldarinnar; og hver, sem þung syndabyrði liggur á, hann á ekki að sækjast eptir unaðsemdum heimsins, hann á ekki að hlífa sjer við að gjöra yfirbót í einveru, og fyrirmuna sjer ánægjur lífsins. En postulinn segir, að barka við líkama sinn sje til lítils (1. Tím. 4, 8), og hún er til ills en ekki til góðs, ef hún er ein saman. Hversu margir hafa ekki einnig í þessum efnum hneigzt til hjegómagirni þeirrar, er þeir ætluðu að forðast, og stært sig fyrir mönnunum af yfirbót sinni; hversu margir hafa ekki af heimskulegum hugarburði leitað þeirrar friðþægingar, er þeir höfðu búið sjer til sjálfir, í stað þess að leita þeirrar friðþægingar, er Guð hefir búið glötuðum til hjálpar! Aptur á mót er guðhræðsla nytsöm til allra hluta, og hin sanna guðrækni leiðir heldur þann, sem stundar eptir iðrun og yfirbót, aptur út í veröldina, ekki til þess að hann verði aptur að nýju tældur af freistingum hennar, heldur til þess hann skuli bæta úr því, sem enn verður úr bætt, og nota þá tíð og þann krapt, sem enn er eptir. Leitaðu þjer ekki sjálfur þjáninga, nema í þeirri hryggð, sem er eptir Guðs vilja, og aflar sáluhjálplegrar betrunar (2. Kor. 7, 10); þær þjáningar, er þú átt að þola fyrir syndir þínar, mun hinn rjettláti, er hegnir en hjálpar þó, senda þjer, án þess þú þurfir að leita þeirra. En ef Guð leggur þjer þunga byrði á herðar, ef samvizka þín segir þjer, að þetta sjeu hinir beisku ávextir af því, er þú sáðir sjálfur, að þú hafir átt það skilið, er þú hafir ekki hlýðnazt föðurlegri rödd Guðs, meðan hún hafi upp-

örfað þig og áminnt blíðlega, þá sæmir þjer að segja: jeg vil þola reiði Drottins, því jeg hefi syndgazt gegn honum (Mikk. 7, 9), þú mátt og vona þess, að þú munir hreinsast í þjáningum þessum, svo að þú gjörist aptur hæfur að líta auglit Drottins, og endurnærast af miskun hans; en hve nær mundir þú dirfast að segja: nú er jeg búinn að þola nóga hegning? hver er sú af þjáningum þínum, að á henni standi merki þess, að Guð hafi tekið við henni til friðþægingar, og að afbrot þín sjeu á þann hátt fyrirgefin, og syndir þínar afmáðar?

þannig er sálin alltaf millum vonar og ótta; hún heyrir þrumur dómsins duna, annaðhvort í fjarska eða nærri sjer, úr undirdjúpunum eða úr hæðum himinsins; hún finnur líka í öllum skelfingum til geisla guðlegrar miskunar, hún elur í sjer von um, að í djúpi guðlegrar líknar verði að vera friðþæging þeirra synda, er menn iðrast. En aldrei getur hún sagt við sjálfa sig: hjer er hún! og aldrei getur hún huggað sig með, að syndirnar sjeu sjer fyrirgefnar. þegar svo er komið, þó ekki sje fyrr, finnur sálin, að hún hefir þörf á guðlegri opinberun, á stöðugu, óbifanlegu fyrirheiti um miskun þá, er hún brennur af löngun eptir, á slíku fyrirheiti, sem henni sje óhætt að reiða sig á, og við hana segi, ef hún gjörir það: verði þjer að trú þinni.

Hversu undarleg er sú fýsn, sem kviknar í hjörtum mannanna til að fara til hinna fjarlægu landa, þar sem spámenn Gyðinga sögðu fyrir ókomna hluti, þaðan sem postular Krists fóru út um heiminn, að boða þá hluti, sem komnir voru fram — til rústa Jerúsalems, til Golgatahæðar? um einn tíma fór mergð pílagríma um hvern veg sem þangað liggur, og þess þreyttari sem þeir urðu, því meira þóttust þeir hafa áunnið, og því fremur geta öðlazt ró handa sálum sínum í gröf Krists. En það, er þeir leituðu að um langan veg, er harla nærri, hvar sem fagnaðareyrindi Krists er boðað: þú getur öðlazt það, hve nær sem þú vilt veita því viðtökur með trúuðum anda: þann er syndlaus var hefir Guð gjört að syndafórn vor vegna, svo vjer yrðum rjettlættir fyrir hann (2. Kor. 5, 21). þetta er það guðlegt fyrirheit, er vjer alstaðar annarstaðar leitum að árangurslaust; þetta er sú friðþæging, sem

Guð hefir metið gilda, og með henni sýnir Guð, að hann álítur ekki syndina nokkurs konar leik, og að mennirnir mega ekki halda syndirnar sjeu lítilvægar, fyrst hann gjörir það ekki, en líka sýnir hann, að hann girnist ekki dauða neins syndugs manns (Ezek. 18, 23), og að apturhvarf og trú geta öðlazt fullkomna fyrirgefning syndanna.

Hjer nemum vjer staðar að sinni; enda getum vjer ekki skyggnzt inn í þá leyndardóma, er postulinn segir um, að jafnvel englarnir girnist að fá þá skilið. En þessir leyndardómar fylla þó hjartað þeirri huggun, er ekkert getur jafnast við. Ef þú hefir nokkurn tíma reynt að hugga hina þjáðu og kvíðafullu samvizku, ef þú hefir tínt til öll mannleg huggunar rök, ef þú hefir reynt að gjöra lítið úr syndunum, en mikið úr góðverkunum, að gjöra sem mest úr miskunsemi Guðs, til þess minna bæri á rjettlæti hans: þá muntu hafa komizt að raun um, hversu ónógt það var allt saman til að útrýma kvíðanum úr sálunni. En þegar þú nefndir Jesú nafn, það nafn, sem er hið eina undir himninum, er menn geta orðið hólpnir fyrir (Post. 4, 12), þegar þú sagðir: hann er framseldur fyrir afbrot vor, og þann, er til hans kemur, mun hann ekki frá sjer reka (Jóh. 6, 37): þá öðlaðist hin óttaslegna sála þín frið, og hið særða hjarta þitt lækning. Ó! heilbrigðir þurfa ekki læknis við, heldur þeir sem vanheilir eru (Matth. 9, 12).

---

# 31.

## KRISTUR ER FRAMSELDUR FYRIR AFBROT VOR.

### Þriðja hugleiðing.

„Sæll er sá, sem öðlazt hefir fyrirgefning afbrota sinna, svo að syndir hans eru afmáðar! Sæll er sá maður, er Drottinn ásakar

ekki fyrir misgjörðir hans (Sálm. 31, 1. 2)". Sá, er þetta hefir ritað, var konungur í Jerúsalem. Hann hafði fæðzt upp með föður sínum, og verið hjarðsveinn, en farið síðan frá hinum næðissömu högum, tekið sverð í hönd, unnið miklar orustur, og frelsað bæði land og lýð. Þá er hann hafði unnið mörg afreksverk, og opt verið í háska staddur, hafði hann öðlazt konungstign, og verndað síðan ríki sitt, og komið á það góðri skipun, og gjörzt svo vinsæll af þjóð sinni, að hún mun honum aldrei gleyma, og svo frægur, að nafn hans mun ætíð uppi vera. En á þeirri stund, er hann bjó til sálm þenna, var það sem hann hefði lagt niður konungstign sína; á sálminum sjest ekki, það sje konungur eður sigursæll hershöfðingi, sem hafi ort hann, heldur maður, sá er finnur, að hann er dupt og aska, svo sem vjer allir erum, fæddur í synd eins og allir forfeður hans; maður sá, er aðrir menn hafa kallað herra sinn, en veit þó og finnur, að hann á sjer herra á himnum uppi, sem ekki fer í manngreinarálit. Hver sem þekkir harmakvæði Davíðs, hver sem hefir heyrt raddir sorgarinnar frá mæddu brjósti hans, þegar hann kvartaði ekki yfir armæðu og ógæfu, og það var ekki órjettlæti annara manna, sem hann var að bera sig upp um við þann, sem einn ræður allri hefnd, heldur þegar meðvitund um órjettindi sjálfs hans lagðist þunglega á hann, og hann kveinaði svo segjandi: jeg þekki afbrot mín, og synd mín stendur mjer æ fyrir hugskotssjónum; í mót þjer, Guð minn! hefi jeg syndgazt, og gjört hið illa í augsjón þinni, en þú ert rjettvís í orðum og hreinn í dómum (Sálm. 51, 5. 6) — hver sem nærri fer um, hvað Davíð hafi tekið út, og hversu hjarta hans hafi verið sundurkramið, mun einnig skilja, hvernig honum hafi orðið við, þegar spámaðurinn sagði honum, að Drottinn hefði numið burt synd hans (2. Sam. 12, 13.), og finna það er hann fann, þá er hann hrópaði: Sæll er sá, sem hefir öðlazt fyrirgefning afbrota sinna, svo að syndir hans eru afmáðar!

Það eru mannlegar tilfinningar, er vjer nú lýstum, sem brjótast inn í hjarta mannsins, á samt ótal öðrum tilfinningum, en fá, ef til vill, á það fremur enn flestar aðrar. Og þó þú hafir ekki enn fundið til þessa, í tilliti til sjálfs þín, þó þú hafir ekki fundið, að

þú hafir drýgt afbrot, sem þurfi fyrirgefningar við, og syndir sem þurfi að verða afmáðar, þá hefir þú þó fundið til þess annara vegna; þú hefir án efa opt sjeð eður ímyndað þjer einhvern vesalingsmann, sem veröldin og hjarta sjálfs hans hafði komið til að hrasa, sem hvorki kunni nje vildi bera á móti því, að hann hefði syndgazt gegn Guði og mönnum, og þó þú hafir fundið, að iðrunartár hans gætu ekki afmáð afbrot hans, þá hefir þú óskað, að honum yrði fyrirgefið á himni og á jörðu. Ef að sá, er órjettinn hafði þolað á jörðu, gekk þá fram og sagði við hinn seka: sekt þín skal vera afmáð, og allt það ógilt, er vitni bar í móti þjer, þá muntu hafa glaðzt af að heyra slík miskunarorð. Og ef þess væri auðið, að þú gætir heyrt rödd frá himnum, er segði við hinn vesæla mann: vertu hughraustur, syndir þínar eru þjer fyrirgefnar! — þá mættir þú sannarlega óska, að þú hefðir kristilegt trúartraust, þó þú hefðir ekki áður öðlazt það, eða værir búinn að týna því, þú mættir óska þess væri auðið, að fullkomin sannfæring frá himnum, frá hinu eilífa rjettlæti, frá hinni eilífu miskunsemi, gæti gagntekið hið sundurkramda hjarta með þessum huggunarorðum: Syndir þínar eru þjer fyrirgefnar!

Er þá sú von árangurslaus, er leitar slíkrar huggunar á himnum? Einn er þó til, sem frá alda öðli hefir verið sagt um, að hann hefði vald á að fyrirgefa syndirnar á jörðunni (Matth. 9, 6); og hin mikla þörf á fyrirgefning syndanna er einhver hin sterkasta hvöt til að leiða mennina aptur til Krists, og kenna þeim að kalla hann ekki að eins Kennara og Konung, heldur og Frelsara, Endurlausnara, Friðþægjara. Í frá öndverðu var það kennt, svo sem höfuðatriði kristinnar trúar, að Kristur hafi dáið fyrir syndir vorar (1. Kor. 15, 3), að vjer höfum öðlazt endurlausn, það er: fyrirgefning syndanna, í honum, fyrir blóð hans (Ef. 1, 7), og meðan nokkurt mannshjarta titrar af meðvitund sektar og misgjörða, mun ekkert spott og engin mótbára hins tortrygga vits geta varið þessu fagnaðareyrindi veg til hins kvíðafulla hjarta.

Að sönnu eru þeir til, sem fegnir vildu banna fagnaðareyrindi Krists þenna veg til hjarta mannsins. Þeir óttast áhrif þess, þeir

bera því á brýn, að það svæfi samvizkuna, gjöri afbrotamennina ugglausa í syndum sínum, að það svipti kröfur lögmálsins helgi sinni, en hótanir þess afli sínu. Og að sönnu eru því miður margir til, sem hafa vanbrúkað þessa háleitu og heilögu og sáluhjálplegu kenning, sjálfum sjer til óhamingju. En mundi nokkur vilja segja í alvöru, að menn mættu ekki sá korni, eður gróðursetja vínvið, af því þeir geta einnig vanbrúkað þessar gjafir Guðs, sjer til óhamingju? Mundi nokkur vilja segja í alvöru, að vjer ættum að kenna, það sje engin fyrirgefning syndanna til, eða vjer ættum að segja við hinn brotlega: vei þjer, að þú fæddist, vei þjer, að menn leiddu þig ekki ungan til vísinda og rjettlætis, að ginningar tældu þig, að heimska og synd lögðust á hjarta þitt, því enginn máttur á himni nje á jörðu mun afmá sekt þá, er þú ert kominn í, meðvitund syndar þinnar mun æ lifa, og kvelja þig um alla eilífð, og verða eilífur þröskuldur milli þín og Guðs, svo að þú getur aldrei orðið frelsaður og sæll og fengið að hvílast í föðurörmum hans? En ef menn eiga að boða fyrirgefning syndanna, mundi sú boðun verða rjettari, sáluhjálplegri og óhultari fyrir vanbrúkun, ef menn tengja ekki fyrirgefninguna við friðþægingu Krists? Verður syndin mönnunum andstyggilegri, verður rjettlæti Guðs skiljanlegra, vinnur harka lögmálsins meir á hjörtu þeirra fyrir það, þótt vjer segjum, það sje ekki þörf á neinni fórn nje fullnægjugjörð, að minnsta kosti engri annari fullnægjugjörð enn þeirri, sem maðurinn geti sjálfur í tje látið? Að sönnu hlýtur hver, sem órjettindi fremur, að þola gjöld fyrir þau; jeg hefi heyrt skáld yðar segja, að hverri misgjörð muni verða harðlega hegnt hjer á jörð; jeg veit, að raddir þeirra hljóma í hjörtum yðrum, og að reynslan ber þeim vitni; en á jeg fyrir það að segja, að þegar hinn seki hafi þolað gjöld synda sinna, og eymd sú, er hann hefir steypt sjer í, sje orðin fullmögnuð, þá muni fyrirgefningin koma sjálfkrafa, og dauðinn að lokunum afmá allt og friðþægja allt? — Ætti jeg þá að kenna, að þeir dómar, er skelfa syndarann í þessu lífi, muni verða öðru vísi í öðru lífi? ætti jeg að kenna, að dauðinn muni friðþægja allt, þó hann færist yfir manninn, meðan hann veltist í öllum syndum sínum, og andinn er ekki lifnaður í honum,

og engin ný lífslind hefir sprottið upp í hjarta hans. Eða ætti jeg að afneita allri reynslu, og segja, að þjáningarnar og hegning sú, er syndarinn verður fyrir, hljóti að vekja í honum nýtt líf, og hreinsa hann, og undirbúa hann undir guðsríki? Það er, því miður, til sú harðúð hjartans, sem vex í þjáningum, og þeir menn eru til, sem deyja eins og þeir hafa lifað — í öllum syndum sínum.

Jeg vil setjast undir kross Jesú Krists. Þar vil jeg ekki grennslast eptir hugarfari þeirra, sem leita hinna helgu staða friðþægingarinnar, einungis til þess, að geta kastað þaðan sundurlyndis og fyrirdæmingar eldibröndum út á bræður sína, ekki heldur eptir hugarfari þeirra, er leita skaðlegs hælis, til að halda á fram syndum sínum í, einmitt þar, er allur góður þróttur á að eflast og dafna. Ekki ætla jeg heldur að reyna til að skyggnast niður í djúp guðlegra ráðsályktana, heldur, ef verða má, niður í djúp mannlegs hjarta. Jeg vil reyna til að komast í skilning um, hvað fara muni fram í hjarta hreinskilins manns, þess er trúir því örugglega, að Kristur sje framseldur fyrir afbrot vor; og með þessu móti vil jeg afla mjer þróttar til að fyrirverða mig ekki sakir fagnaðareyrindis Krists, er jeg viðurkenni, að það sje kraptur Guðs til sáluhjálpar, hverjum sem trúaður er (Rómv. 1, 15).

„Hann ber syndir allrar veraldar“, segir ritningin. — Orð þau, er vjer heyrum optsinnis, fá þrásækilega minna á oss, enn önnur orð, en þessi orð vil jeg láta hafa öll sín áhrif á mig, og jeg vil taka þátt í tilfinningum Drottins míns og Frelsara, þá er hann bar synd allrar veraldar. Því máttkari sem hugurinn er, þess máttkari er tilfinningin, og fyrir þá sök getur engin endanleg vera skilið til fulls, hvað fram hafi farið í hjarta Jesú, þegar allar syndir veraldarinnar lágu á honum. En opt hefi jeg fundið til þess, sem hefir verið svipað því; því þó jeg geti ekki borið neina synd til að friðþægja fyrir hana, hefi jeg þó opt borið syndir veraldarinnar, bæði annara og sjálfs mín, bæði umliðinna alda og nálægra, á þann hátt, að jeg hefi verið þjáður og hryggur. Einn spekingur kemst svo að orði: „Þegar jeg renni augunum yfir jörðina, þá andvarpa jeg yfir því, að jeg er maður“. Hver er sá, er

ekki hafi optlega andvarpað af sömu orsök, ekki að eins yfir eymd mannanna, heldur yfir ómennsku þeirra og óverðleik, heimsku þeirra og syndum? Sú kynslóð, er þú ert af, gjörði þegar í upphafi vega sinna uppreist í gegn Guði, sóttist eptir því, sem henni var bannað, leitaðist við að brjótast undan hlýðni við lög Guðs, vildi drottna yfir jörðunni, og ekki kannast við nokkur yfirráð, reyndi til að byggja upp til himins, og ná veldisstóli hins almáttka, hún vildi vera sjálfráð, án lotningar, án þakklætis, án hlýðni, án kærleika. Hver getur nefnt svo mikla tölu, að með henni megi telja öll þau óbótaverk, sem unnin hafa verið undir sólunni, og hver hefir svo mikla tilfinning, að hún geti náð út yfir þau öll saman? Á ökrum þeim, er nú brosa við blíðlega, hafa bræður myrt bræður sína, og það er í frásögur fært, að á völlunum þar skammt í frá hafi orustur verið háðar, rán framin, brúðgumar drepnir, en brúðir svívirtar — þetta er allt saman umliðið, en það er ritað í árbækur veraldarinnar, það er ritað í bækurnar á himni, með því letri, sem ekki mun afmást að eilífu. Víða má líta miklar rústir, stórkostlegar leifar dýrðlegra halla og dýrðlegra borga — þær sýnast voldugar enn, þótt eyddar sjeu, og hvíla nú í kyrrð, og hinn friðsami ferðamaður setur sig á þær óhultur, og horfir yfir hið fagra hjerað umhverfis. En, ef til vill, hafa þar einhvern tíma búið drambsamar ættkvíslir, sem lifðu í leti og munaðarlífi, og söfnuðu með ránum og undirokun hryggilegri arfleifð handa niðjum sínum, og um síðir, þegar mælir synda þeirra og svívirðingar var orðinn fullur, þá kom hegningin yfir þá, og sverð hefndarinnar var þá opt fengið í hendur óaldarflokkum, sem þrjózkuðust sjálfir gegn lögum Guðs og manna, og ætluðu sjer ekkert að endurbæta nje í lag að færa, heldur einungis að eyða og brjóta. Slíkt er efnið í miklum hluta mannkynssögunnar. Ofan á þetta bætist allt það, sem ekki er í frásögur fært, allt það, er særði eða sundurkramdi hjörtu einstakra manna, er fáir tóku eptir í lifanda lífi, og enginn veit hvar grafnir eru; hvernig grannar hafa optsinnis breytt við granna sína, vinir við vini, og bræður við bræður; öll harðúð og grimmd, öll sviksamleg orð, öll öfund og illska í hjörtum mannanna, öll hjegómagirnd og heimska, allt hirðuleysi um

sannleikann og öll þrjózka í gegn honum; hversu fáir þeir voru, sem brutust undan oki veraldarinnar, og veröldin var þeirra ekki makleg (Hebr. 11, 38); hvernig mennirnir hafa líflátið spámennina, og grýtt þá er Guð hafði sent þeim, þangað til Drottinn dýrðarinnar kom til sinna, og þeir vildu ekki veita honum viðtökur (Jóh. 1, 11), en gáfu honum kross að launum, og gjörðu postula hans samkunduræka, og þóttust gjöra Guði með því þægt verk (Jóh. 16, 2) — Ó! þegar jeg sit undir krossi Jesú, og reyni til að ímynda mjer allt það, er innibinzt í þessum orðum: hann ber syndir allrar veraldar, þá sje jeg hin ískyggilegu upptök mannlegrar eymdar, og skil að þjáningarnar eru ekki orsakalausar, heldur er syndin uppspretta alls volæðis; jeg skil þá, að heimurinn velkist í vonzku (1. Jóh. 5, 19), og að mennirnir verða að leysast undan oki syndarinnar, áður þeir geti orðið frjálsir og máttkir, og áður enn sárþreyðir sælutímar geti runnið upp.

Undir krossi Jesú heyri jeg þessi hin mikilvægu orð: hann er friðþæging synda vorra (1. Jóh. 2, 2), og jeg hlýt sannarlega að þýða þau á þann hátt: að hann hafi ekki að eins friðþægt fyrir syndir allrar veraldar, heldur og einnig fyrir mínar. Því þegar jeg horfi út yfir hið ókyrra haf veraldarinnar, þá er ekki sem jeg sitji og horfi á annarlega hluti, jeg sit ekki óhultur á landi, þar sem jeg get sjeð skipin brotna og mennina týnast, og tek að eins þátt í óförum annara, án þess mjer sje sjálfum hætta búin; heldur er jeg sjálfur í háska staddur, og skyggnist um á hinu ólganda djúpi eptir höfn, til að geta flúið í. Jeg er eins og aðrir grein á hinum spillta stofni, og skil ekki af annarlegum rökum einum saman, það sem fram hefir farið í veröldunni; því þegar jeg ásaka mannkynið, annaðhvort fyrir bleyðuskap eða ósvífni, og segi það hafi ýmist gugnað fyrir sjerhverri mótspyrnu, af ómennsku og ónytjungskap, eða reynt til að brjótast undan öllum yfirráðum af ofdirfsku og óstýrilæti, þá finn jeg glöggt, hvað fram hefir farið í sálu sjálfs mín, og að jeg er í samfjelagi við mannkynið, ekki að eins um þjáningar, heldur og um girndir og alla undirrót fásinnu og synda. Þegar jeg sit undir krossi Jesú, finn jeg, að allir eru undir syndina seldir, og þá getur mjer ekki til

hugar komið, að gjöra eins og Farísearinn, og þakka Guði fyrir, að jeg sje ekki syndugur eins og aðrir menn, heldur finn jeg, að mjer er, eins og öðrum, þörf á að biðja og segja: Guð vertu mjer syndugum líknsamur!

Hvers vegna er þessi tilfinning svo áríðandi? hvers vegna eigum vjer að reyna til að halda henni við? — Skrýðist lítillætinu, segir postulinn, því Guð veitir dramblátum mótstöðu, en lítillátum miskunar hann (1. Pjet. 5, 5). Þó er drambið manninum eðlilegt; oss hættir mjög til að gleyma spillingunni í hjörtum sjálfra vor, og vera heimtufrekir við aðra, en ekki við sjálfa oss. Þegar vjer heyrum menn tala um ástand sitt á jörðunni, þá er það ærið margt, sem þeir vildu láta vera öðru vísi, vjer heyrum æ meir og meir, að þeir ekki að eins ásaka hver annan, heldur dirfast þeir einnig að ásaka það vald, er ræður himni og jörðu, fyrir það þeim vegni ekki betur. En færi ekki betur, þeir byrjuðu á að óska, þeir væru sjálfir orðnir öðru vísi, og reyna til að bæta það, sem í þeirra valdi stendur, það er, hjarta sitt og líferni; færi ekki betur, þeir könnuðust við, að það sje syndin, sem alstaðar hamlar blessuninni, og guðsríki verði að koma í hjörtu vor, áður það geti lýst sjer í gjörðum vorum? Það er þessi þekking, sem vaknar hjá oss, þegar vjer trúum, að Kristur sje framseldur fyrir afbrot vor; þegar vjer sitjum undir krossi Krists, heyrum vjer hina alvarlegu rödd spámannsins, er svo segir: Yfir hverju andvarpar maðurinn, meðan hann lifir? sjerhver andvarpi yfir synd sinni! látum oss gaumgæfa og rekja vegu vora, og snúa oss til Drottins, látum oss hefja hug og rödd til Guðs á himnum. Vjer höfum syndgað og þriózkazt í gegn þjer; þú fyrirgafst ekki, og byrgðir andlit þitt í reiði (Harmagr. 3, 39 og nn. vv).

Þrumur Sínaís duna einnig á Golgata, þar má einnig heyra rödd, er svo segir: Drottinn Guð vor er sterkur og vandlætingasamur Guð, sem lætur illsku feðranna bitna á börnum og barnabörnum; þar sjáum vjer, að á jörðunni liggur óttaleg sekt, fyrir allar syndir kynslóða þeirra, er á henni hafa lifað, og að frá henni hrópar til himins allt það blóð, er úthellt hefir verið fyrir sakleysi, og öll þau laun, sem dregin hafa verið af verkamönn-

unum, og öll opinber óbótaverk, og allir leynilegir glæpir; þar sjáum vjer, að sjerhver af oss er í hinni almennu sekt, því þó vjer höfum ekki flekkað hendur vorar á blóði, þó veröldin geti ekki kallað oss óbótamenn, þá höfum vjer þó syndgað í hvert skipti, sem vjer höfum framið órjettindi, eða vikið frá lögmálinu, eða brotið það, eða vanrækt (1. Jóh. 1, 17. 3, 4). En þegar vjer sitjum undir krossi Jesú Krists, heyrum vjer einnig rödd miskunarinnar og friðþægingarinnar, því Guð sætti veröldina við sig fyrir Krist, er hann fyrirgaf oss afbrot vor, og setti sáttarorð á meðal vor (2. Kor. 5, 19).

Þegar oss verður sýnt, að vjer syndgum allir, er það ekki til þess vjer skulum halda á fram að syndga, heldur til að leiða oss til betrunar. En hver hefir hugrekki til að heyja hina örðugu orustu við freistingar og ginningar, við sjálfan sig, við fornan og fastan vana, og opt og tíðum við öflugustu ástríður sínar, utan sá, er trúir því, að sekt vor muni geta orðið afmáð að ljett geti orðið á ofþyngdri samvizku, að Guð sje að finna? Hver hefir þor til að leggja á stað, ef hann heldur, hann nái aldrei þangað sem hann ætlaði sjer? Setjum oss fyrir sjónir þá menn, er veröldin kallar hrasaða, sem, auk sjálfra sín, hafa við áfelli veraldarinnar og afleiðingar gjörða sinna að stríða, ef þeir vilja reisa sig við: samvizkan er þeim í móti, og segir þeim, að það sje farið, sem farið sje, og að orð og gjörðir verði ekki aptur teknar, að þeir sjeu í skuld, og þeir hafi ekkert að borga hana með. Ef þeir heyra engan miskunarboðskap frá himni, þar er þeir sýnast hafa misst óðul sín, engan sáttarboðskap, er leyfi þeim að kalla Guð Föður sinn, þó þeir hljóti að titra fyrir dómum hans, ef engin rödd er til á himni nje jörðu, er geti sagt þeim, „að syndir þeirra sjeu fyrirgefnar“, svo að þeir trúi því: hvaðan eiga þeir þá að fá hugrekki til orustunnar, úr því þeir yrðu eins aumir, svívirtir og tortýndir eptir sem áður, ef engin synda fyrirgefning er til? Og hinir aðrir, sem veröldin áfellir ekki, en álíta sig þó ekki sjálfir sýkna fyrir það; þeir sem fyrir löngu síðan eru farnir að sækjast eptir Guðs ríki og hans rjettlæti, og fegnir vildu hafa þvegið af sjer allt það, sem illt er og til óvirðingar,

fegnir vildu hafa útvegað sjer þrótt til alls, sem gott er og dygðugt og lofsvert; sem ljetu sjer ekki nægja, að hreinsa sig utan, heldur vildu og fegnir hafa, útrýmt hverri óhreinni tilfinning úr hjarta sínu; sem aldrei þreyttust nje ljetu hugfallast, og fundu þó ætíð, hversu hryggilega mikið þeim var ábótavant, og að þeir gátu enga velþóknun haft á sjálfum sjer, og því síður verið sannfærðir um velþóknun hins eilíflega heilaga og rjettláta Guðs: hvernig öðlast þeir mátt og þor til að gleyma því, sem umliðið er, og ganga í móti því, sem ókomið er?

Undarlegt er hjarta mannsins! það sækist eptir frelsun og friði, og lætur þó þráfaldlega óvin Guðs og manna tæla sig til að láta fallast í faðm örvinglunarinnar, og þykir hægra að hirða hvorki um heiminn nje sjálft sig, og búa við þá huggunarsnauðu tilfinning, að öll von sje úti, öll viðleitni til ónýtis, og að endinn á öllu sje, að tortýnast. En hve nær sem jeg sje djúp spillingarinnar gína undir fótum mjer, hve nær sem að mjer kemur freistni til að gefa mig heldur á vald letilegri og ómannlegri örvílnun, enn að láta áminningar vonarinnar og rjettlætisins kveikja í mjer nýja kostgæfni og nýtt líf, þá vil jeg fara til kross Drottins míns og Frelsara, og heyra þar hvað eptir annað þau hin mikilvægu orð, sem jeg verð aldrei leiður á að heyra, og svo hljóða: Svo elskaði Guð veröldina, að hann seldi í dauða eingetinn Son sinn, til þess, að hver sá, sem á hann trúir, fyrirfarist ekki, heldur öðlist eilíft líf (Jóh. 3, 16). þetta er hinn rjetti fagnaðarboðskapur Krists; þú gætir ímyndað þjer, að þú hefðir getað öðlazt allt annað, sem er til huggunar og til sælu, án Krists, en þetta getur þú ekki öðlazt án hans. — „Svo elskaði Guð veröldina“ — allur ótti og öll órósemi í hjarta mannanna er sprottin af því þeir efast um, að það sje til miskunsamur Guð, er vjer megum dirfast að mæna til og vona á, og þess vegna byrjar fagnaðarboðskapur Krists á kærleika Guðs. þrátt fyrir alla synd heimsins, og alla spilling mannkynsins, hefir Guð ekki yfirgefið það, heldur elskað það, og sýnt því þann vott elsku sinnar, er hjá hverjum þeim, sem trúa vill, er yfirsterkari óttanum fyrir hegningardómum hans, með því hann seldi eingetinn Son sinn í dauða fyrir oss alla.

„Til þess að hver sá, sem trúir á hann, tortýnist ekki". Það er ekkert orð til, er þýði óttalegri eymd, en orðið: að tortýnast. Ef einhver lítur umhverfis sig á jörðunni, og sjer, að honum er alstaðar útskúfað, að hann er tortýndur meðal mannanna, og enginn vill aðstoða hann, og hvergi er líknar eða miskunar að vænta; ef sá hinn sami horfir til himins, og þykist þaðan að eins heyra þá rödd, er segi honum, að hann sje tortýndur, þá mun sál hans örvinglast. En til þess jeg skyldi aldrei álíta mig tortýndan, til þess að í hinu svartasta myrkri ætíð skyldi sjást geisli ljóss og vonar, er gæti aukizt, og orðið að björtum dag huggunar og trúnaðartrausts, til þess gekkst þú í dauða fyrir mig, Líknari minn! því ritningin segir ekki, að þú hafir gengið í dauða einungis fyrir veröldina alla, svo að mannkynið, þegar á það allt er litið, gæti einhvern tíma rjett við, ekki heldur, að þú hafir fórnfært þjer fyrir einstaka útvalda, heldur að þú hafir gengið í dauða, til þess að hver sá, sem á þig trúir, fyrirfarist ekki, heldur öðlist eilíft líf.

Drottinn! jeg vil líka trúa, jeg vil trúa á þig og friðþægingardauða þinn. Jeg vil optlega fara burt úr glepjanda glaumi veraldarinnar, fra gleði hennar og hryggð, og leita til myrkursins í Getsemane, þar sem hatrið og svikin földust í dymmunni, en urðu að framkvæma eilífa ráðsályktun Guðs, heiminum til frelsis og einnig mjer. Jeg vil fylgja þjer, þá er þú sýndist útskúfaður og tortýndur, þá er Faðir þinn sendi ekki hersveitir sínar að frelsa þig, þá er enginn gekk í móti hinum grimmu óvinum fyrir þig, þá er þú barst þyrnikórónuna og þeir köstuðu yfir þig purpurakápunni til að smána þig, og bentu á þig, og hæddust að þjer, segjandi: Sjáið manninn! Jeg vil fylgja þjer þann veg, er þú barst kross þinn, og vildi feginn bera hann með þjer, ef jeg gæti, svo að þungi þess mætti ljetta syndabyrði mína. Jeg vil fylgja þjer til hæðarinnar Golgata, og sjá þig talinn meðal óbótamanna, og negldan á krossinn; þar er það, sem mjer finnist jeg heyri raddir allra iðrunarfullra og sundurkraminna hjartna í öllum löndum frá öllum öldum, svo mælandi:

Jesú! benjablóðið þitt
blessaða oss-æ huggun veitir!

þar vil jeg setjast niður undir krossi þínum og gleyma öllu, nema þjer og hryggð minni; jeg vil safna saman í huga mínum öllum raunalegum endurminningum, og kvíðafullum eptirvæntingum, og öllu því, sem rekur mig til að þrá lausn, þangað til jeg heyri þessi orð: það er fullkomnað — það er fullkomnað hið mikla verk endurlausnar og friðþægingar. þá þagna varir þínar, og þeir fara með lík þitt stirðnað til grafarinnar. þar hvílast limir þínir, en hvíla í upprisuvon. þar skal einnig sála mín hvílast með kvíðafullri von, þar til gröf þín opnast, og rödd heyrist um öll ríki veraldar af lifendum og dauðum, svo látandi: Dauði! hvar er broddur þinn? helvíti! hvar er sigur þinn! Guði sje lof, sem gefur oss sigur, vegna Drottins vors Jesú Krists (1. Kor. 15, 55. 57).

---

# 32.

## KRISTUR UPPREIS OSS TIL RJETTLÆTINGAR.

Hversu dásamlegur var Jesú upprisumorgun! — það var mjög snemma morguns. Lýðurinn í Jerúsalem, er einum degi áður hafði krossfest hinn rjettláta, og sagt: blóð hans komi yfir oss og börn vor, var í fasta svefni; höfuðprestarnir og ráðið, sem hafði fyrirdæmt hann, og skríllinn, sem hafði spottað hann á krossinum, bærðu ekki á sjer; þeir hugsuðu, að nú væri hann frá, og alþýðan aðhylltist hann ekki framar, og innan fárra daga mundi hann verða öllum úr minni liðinn. Lýðinn í Jerúsalem grunaði ekki hvað fram fór fyrir utan borgarmúrana, og hitt annað af veröldinni var hulið myrkum skugga og vissi ekkert af, hvað við bar þenna morgun. þá gengu konur nokkrar út til

grafarinnar, eins á sig komnar og margir eru, með góðar og ástríkar tilfinningar í hjörtum sínum, en án trúar og án vonar til Guðs. Þær sáu, að steininum hafði verið velt frá grafarmunnanum, gröfin var opin; og þar, sem verið hafði myrkur dauðans, ljómaði Guðs dýrð, og engill Guðs tekur til orða: Hví leitið þjer hins lifanda hjá hinum dauðu? hann er ekki hjer, hann er upprisinn.

Þetta var fyrsta dag viku, mjög snemma, um sólar uppkomu. Það var og hinn fyrsta dag hinnar nýju viku veraldarinnar og aldar hins nýja sáttmála; sólin rann upp langt austur hjeðan, hægt og stillt, meðan flestir menn voru í svefni, og hún rann upp til að skína yfir ríki veraldarinnar. Hver getur talið saman allar afleiðingar þessa morguns? Þá leiddi Kristur í ljós lífið og ódauðleikann; frá gröf Jesú dreifðust vottar hans út í allar áttir, til að boða hinn krossfesta og upprisna; þeir gengu fram fyrir Gyðinga og heiðingja, og höfðu alstaðar sama inntak ræðu sinnar, og Páll hafði í Aþenuborg (Post. 17, 30 o. nn. vv.): Að sönnu hefir Guð látið sem hann sæi ekki tíma vanþekkingarinnar, en nú lætur hann bjóða öllum mönnum alstaðar, að þeir taki sinnaskipti; því hann hefir ákveðið dag, er hann ætlar að láta dæma alla heimsbyggðina með rjettvísi af manni, sem hann hefir þar til settan, svo sem hann hefir gjört öllum mönnum bert, er hann hefir vakið hann af dauða. En þegar heimurinn heyrði nefnda upprisu framliðinna, gjörðu sumir gis að því að sönnu, en sumir sögðu: vjer viljum heyra yður tala um þetta aptur. Og þeir heyrðu þangað til, að þessi ræða sigraðist á þeim, svo að menn könnuðust hvarvetna við, Guði Föður til dýrðar, að Jesús Kristur, hinn krossfesti, sem í fyrstu var Gyðingum hneixli og Grikkjum heimska, væri sannur Drottinn, sá er hefði guðlegan mátt og guðlega speki (1. Kor. 1, 23. 24).

Nú þegar sá, sem trúir, að hinn krossfesti hafi upprisið, íhugar með sjálfum sjer þessa trú sína, hvað af henni leiði, og hver áhrif hún eigi að hafa á hugann, þá mun hann skilja, að hugurinn verður að lypta sjer upp yfir þetta stundlega líf til hins ókomna, og verða fullkomlega sannfærður um, að sá, sem vakti

af dauða Drottin Jesúm, muni og fyrir hann vekja oss af dauða (2. Kor. 4, 14). En með því hin kristna trú hefir fyrirheit um ókomið líf, þá á hún einnig að hafa áhrif á þetta líf; hún á þegar í þessu lífi að kveikja og laga í oss slíkt hugarfar, að loforðið um annað líf boði oss fyrirheit um frið og sælu. Á það minnist postulinn, er hann segir: það mun verða talið oss til rjettlætis, er vjer trúum á þann, er vakti af dauða Drottin vorn Jesúm Krist, er framseldur var fyrir afbrot vor og vakinn af dauða oss til rjettlætingar (Rómv. 4, 24. 25). Hina fyrri greinina, að Kristur sje framseldur fyrir afbrot vor, höfum vjer reynt að komast í skilning um og leiða inn í hjörtu vor; en hin síðari grein, að Kristur sje vakinn af dauða oss til rjettlætingar, þýðir naumast öldungis sama, og hana ber oss einnig að íhuga grandgæfilega.

Orðatiltæki heilagrar ritningar eru svo full af mikilli og háleitri þýðingu, að ekki verða höfð skipti á þeim og öðrum orðum; þó menn hafi optlega reynt það, þá hefir það jafnan komið fyrir ekki; þau hafa haldizt í ræðum hinna guðhræddu, og munu haldast þar. Svo er um orðið: rjettlæting. Þegar vjer nefnum þetta orð með nokkurri umhugsun, þá minnir það oss fyrst á, að sá sje yfir oss öllum, er rjettdæmur sje, og að allur friður vor og frelsi sje undir því komið, að hann dæmi oss rjettláta. En það stendur ekki eins á fyrir oss við Guð, eins og fyrir verkamönnum þeim, er geta gengið fyrir húsbónda sinn og sagt: Vjer höfum gjört það, sem oss var boðið; vjer höfum unnið það, er þú hefir heitið oss kaupi fyrir; vjer höfum borið hita og þunga dagsins, gjald oss nú það, er verk vor hafa til unnið! Ef því væri svo varið, þá værum vjer rjettlátir sakir verka vorra, og þá væri því máli ofaukið, að Kristur hafi afrekað endurlausn. En með því syndin er komin í veröldina, og hefir runnið inn til allra manna — með því enginn getur fengið þann dóm, að hann sje rjettlátur sakir góðleika síns og dygða sinna, og enginn hefir slík verk fyrir sig að bera, er fullkomin sjeu fyrir alsjáandi augum hins heilaga — og með því enginn megnar sjálfur að afmá sekt sína og enginn hefir sjálfur neina friðþæging

að bjóða fyrir synd sálar sinnar: þá er Kristur framseldur fyrir afbrot vor, og Guð hefir — eins og postulinn að orði kemst — ekki frelsað oss sakir rjettlætisverka þeirra, er vjer höfum gjört, heldur af miskun sinni (Tít. 3, 5), og hefir sent Son sinn til friðþægingar fyrir syndir vorar (1. Jóh. 4, 10). Og ef vjer spyrjum, hvernig þessi friðþæging komi oss að haldi, þá svarar Krists fagnaðarboðskapur oss ætíð, að það sje þegar vjer tileinkum oss hana með sannri og lifandi trú; því rjettlættir vegna trúarinnar höfum vjer frið við Guð fyrir Drottin vorn Jesúm Krist (Rómv. 5, 1); og jafnvel lögmálið, sem gjörir oss bera að syndum, leiðir oss til Krists, svo að vjer fyrir trúna rjettlættir verðum (Gal. 3, 24).

þegar því postulinn segir, að Kristur sje vakinn af dauða oss til rjettlætingar, þá kemur það fyrst til af því, að upprisa Krists innsiglar trú vora, með því hún veitir oss fullkomna sannfæringu um, að fórn hans hafi verið þegin, og hann hafi vald til að frelsa þá, er á hann trúa. þessi boðskapur: „hinn krossfesti er upprisinn“ er harla undarlegur, og vjer megum með engu móti telja slíkt með náttúrlegum viðburðum — enda getum vjer það ekki. Guðleg stórmerki umkringja huga vorn öllu megin, þegar er vjer rennum honum til þess hins helga lands, er eingetinn Sonur Guðs hefir dvalizt í til að endurleysa mannkynið; það var guðlegt stórmerki, að hann fæddist, án þess að flekkast af syndinni, er allir menn fá að arfi; og það var guðlegt stórmerki, að hann var frumgróði upprisunnar, og frumgetningur hinna endurlifnuðu. En er þetta ekki sannur viðburður? Allir hafa heyrt, og heyra sífelldlega, boðskapinn um upprisuna: Hvernig hefir hann dreifzt út um veröldina? Hvaðan fengu vottar Jesú — lítilmótlegir menn, er hvorki voru vitrir nje voldugir fyrir augliti veraldarinnar, þeir hinir sömu, er skömmu áður höfðu af hugleysi yfirgefið hann og afneitað honum, og falið sig af hræðslu við fólkið, er pínt hafði Drottin þeirra — hvaðan fengu þeir hug til, að ganga fram fyrir þetta hið sama fólk, og æsa það í móti sjer, og fara í önnur lönd, langt út í heim? hvaðan fengu þeir hinn sigursæla stöðugleik til að þola

ofsóknir, háðungar, píslir, fangelsi og fjötra, sjá dauðann sífelldlega gína í mót sjer, og verða loks að herfangi hans, ef þeir hafa ekki haft rjett að mæla — ef stórmerki upprisunnar hefir ekki innsiglað trú þeirra með óbifandi sannfæringu? Eða er nokkurt merki til efasemdar í tali þeirra? Var sá nokkur einn, er sig drægi í hlje, eða ljeti af þeim vitnisburði, að Kristur, sem ljezt fyrir syndir vorar eptir ritningunum, hafi risið upp á þriðja degi, og komið síðan fyrir margra augu, með mörgum og skýrum jarteiknum? En hafi Guð vakið Jesúm af dauða, þá hefir hann með því sett innsigli almættis síns á hvert orð hans og hvert verk hans; og þegar hinn eingetni sagðist gefa líf sitt til lausnargjalds fyrir marga, þá hefir hinn eilífi Faðir sagt já og amen.

Í þessum skilningi köllum vjer því fyrst, að Kristur sje vakinn af dauða til „rjettlætingar“ oss, en þýðing orðsins er þó trauðlega öll þar í fólgin. Því þótt rjettlætingin verði fyrir Guðs miskun, þá verður maðurinn samt ekki rjettlættur, nema hann — fyrir þessa hina sömu Guðs miskun — verði rjettlátari, og hegðun hans rjettari fyrir Guði og mönnum; og þó góðverkum vorum sje það ekki að þakka, ef Guð metur oss rjettláta, eiga samt góð verk að verða samfara rjettlætingunni; og þó að maðurinn rjettlætist fyrir trúna, þá er trúin ekki sönn og lifandi, eða rjettara að segja: hún er ekki trú, heldur hugsunarlaust og hræsnisfullt fleipur, nema hún bæti hugarfar og hegðun vora. Hvernig postulinn í þessu tilliti geti sagt, að Kristur sje vakinn af dauða til rjettlætingar oss, það skiljum vjer, þegar vjer íhugum hvað hinn sami postuli sagði, þegar hann stóð frammi fyrir landstjóranum Felix: „Jeg hefi þá von til Guðs, að framliðnir muni upprísa, bæði rjettlátir og ranglátir, og því kostgæfi jeg að hafa jafnan óflekkaða samvizku bæði fyrir Guði og mönnum“ (Post. 24, 15. 16).

Sjeu þessi orð vel íhuguð, — eru þau sjálfsagt ein af þeim orðum, er hafa allra mest áhrif á hjörtu vor, en þau eru í nákvæmu sambandi við upprisu Drottins; því sá, sem vakti af dauða Drottin Jesúm, mun einnig vekja oss af dauða fyrir Jesúm

(2. Kor. 4, 14), og það verður að vera, að sannfæringin um þetta hvetji oss til að leggja stund á rjettlæti.

„Jeg hefi þá von til Guðs, að framliðnir muni upprísa, bæði rjettlátir og ranglátir". Hver er sá, að þessi von lifi ekki í brjósti hans, ljóst eða óljóst, stundum með tilhlökkun og stundum með kvíða? Það er í oss djúp og óafmáanleg meðvitund, sú er vísar máli voru fyrir Guðs dóm, hvort sem vjer þolum eða fremjum rangindi. Eins sannarlega og Guð lifir, hlýtur allt að fá sinn rjettlátan dóm, því Guð getur ekki afneitað sjálfum sjer (2. Tím. 2, 13). Þessi dómur kemur ekki þegar í ljós, því það væri oss ekki til góðs; það færi ekki vel, að launin yrðu samfara góðverkunum og hegningin afbrotunum, því þá væri ekkert til merkis um, hvort nokkur vildi gjöra hið góða sakir annars enn launanna, eða forðast hið illa sakir annars enn hegningarinnar. En endurgjaldið kemur — margsinnis hjer í heimi, því hið góða verður launað og hinu illa refsað, þó optlega komi það seint fram og á undarlegan hátt; en optsinnis kemur endurgjaldið ekki í þessari veröldu. Þú skalt ekki kvíða, heldur trúa, því rjettindunum verður ekki hallað, og Guð mun gjalda sjerhverjum eptir hans tilverknaði; þeim eilíft líf, er með stöðugleika í góðum verkum leita vegsemdar og heiðurs og óðauðleika; en yfir hina, sem ekki trúa sannleikanum, heldur hlýðnast ranglætinu, mun koma misþóknun og reiði (Rómv. 2, 6 o. nn. vv.). Og sannlega er enginn sá, er af samvizkusemi hefir þolað mótlæti vegna Guðs, og verið sýkn saka (1. Pjet. 2, 19), að málefni hans muni ekki koma í ljós, svo hann öðlist miskun. Enda eru og engin rangindi til, þau er ekki muni koma í ljós og sæta maklegum refsingum. En hver, sem þessu trúir, að dauðir muni upprísa, bæði rjettlátir og ranglátir — hver, sem ekki að eins skilur það, heldur og innrætir sjer það, og heimfærir til sjálfs sín: mundi sá ekki kostgæfa að hafa ætíð óflekkaða samvizku fyrir Guði og mönnum? Þetta er hið fegursta á manninum, og fyrir það eitt á hann lof skilið; því hvort hann hefir þegið mikið eða lítið, hvort sem áform hans heppnast eða ekki, hvort sem þau eru metin rjett eða rangt, er ekki komið undir honum sjálfum; en ef einhver í stóru og smáu, meðlæti og

mótlæti, lofi og lasti, kostgæfir að hafa jafnan óflekkaða samvizku fyrir guði og mönnum, þá lítur hinn rjettláti og miskunsami Guð með velþóknun niður til hans. Nú með því upprisa Drottins vors minnir oss sífelldlega á reikningsskap þann, sem fyrir höndum er, hjálpar hún máttuglega til að leysa oss frá alls konar ranglæti, og hreinsa oss honum til eignar, svo vjer sjeum kostgæfnir til góðra verka (Tít. 2, 14).

En góð verk eru það, sem sprottin eru af góðum rótum, og ekki eru framin af tómum vana og fyrir siða sakir, nje til að ávinna sjer lof eða laun veraldarinnar, nje af kvíða fyrir ókomnum hegningum, heldur af lotningu við það, sem rjett er og satt, og af ást á Guði og mönnum. Til hins góða, sem maðurinn á að leggja stund á, heyrir því einnig og það einkanlega, trúin sjálf, nefnilega að hún verði æ stöðugri og inndælli og ávaxtarsamari. Hvað eigum vjer að gjöra — sögðu mennirnir forðum við Drottin vorn — svo að Guði líki við oss? En hann svaraði og sagði til þeirra: Guði líkar við yður, ef þjer trúið á þann, er hann sendi (Jóh. 6, 28. 29). Hvernig megum vjer ímynda oss, að verk vor sjeu góð, ef vjer gjörum þau án trúar og trausts og stöðuglyndis? Er sá maður góður, sem bifast og efar og lætur hugfallast? Leitar hann vegsemdar og heiðurs og ódauðleika? Trúin er upphaf alls rjettlætis, og enginn getur stundað af kappi það sem rjett er og gott, nema hann þekki önnur lög, enn lög holdlegleikans, og önnur yfirráð, enn þau, sem hann verður var við með skilningarvitunum, og vænti staðfastlega — jafnvel þótt hann sjái ekki annað fyrir augum sjer, enn eyðing og dauða — að hið góða muni bera hærra hlut og guðsríki muni koma. En þessi stöðugleiki hjartans, þessi óbifanlega sannfæring um það, sem ekki sjest, er trú (Hebr. 11, 1). Því segir ritningin, að án trúar geti enginn Guði þóknast, því sá, sem koma vilji til Guðs, verði að trúa því, að hann sje til, og að hann umbuni þeim, er hans leita (Hebr. 11, 6). En þessa trú — þessa von á Guði, þrátt fyrir veröldina og allar efasemdir þær, sem hún kveikir, og þrátt fyrir veraldlega armæðu og eymd — þetta hið stöðuga traust á guðlegri miskun, sem finnst jafnvel í þeirra brjóstum, er finna

veikleika sinn og ófullkomlegleika og synd, og verða að telja sig með þeim, er vantar það ágæti, sem þeir ættu að hafa fyrir augliti Guðs: þessa trú, sagða jeg, megnar ekkert að veita, nema Krists fagnaðarboðskapur. Látum þá, er þykjast geta komizt af án þessa fagnaðarboðskapar, efla sig til góðverka sinna, eins og þeir hafa vit og föng á. En vjer, sem viðurkennum, að Jesús Kristur er vegurinn, sannleikinn og lífið, vjer viljum vera honum áfastir, svo að hann sje með oss; því eins og viðargreinin getur ekki borið ávöxt af sjálfsdáðum, nema hún sje föst á vínviðinum, eins getum vjer ekki borið ávöxt, nema vjer sjeum honum áfastir; því án hans megnum vjer ekkert (Jóh 15, 4. 5). Þegar himininn uppi yfir oss er blíður og heiður, og vjer finnum, að vjer erum sælir í þessari veröldu, þá skulum vjer læra af kristinni trú að ofmetnast ekki, og treysta ekki á fallvölt auðæfi, heldur á lifanda Guð, sem veitir oss ríkulega allt gott til nautnar, svo að vjer gjörum oss auðuga að góðverkum og söfnum oss fjársjóði til góðs forlags fyrir hið ókomna, til þess vjer hreppum hið eilífa líf (1. Tím. 6, 17. o. nn. vv.). Þegar himininn sortnar, eða vatnsflóðin koma og veðrin blása, þá skulum vjer minnast þess, að þolinmæðin ein fullkomnar verkið (Jak. 1, 4), og því er það upphaf allra góðra verka, að trúa á eingetinn Son Guðs, á hann, er forðum hastaði á storma himinsins og öldur sjáfarins, svo að þá lygndi þegar — á hann, sem allt vald er gefið á himni og á jörðu, og hefir sagt: látið ekki hjarta yðart skelfast; trúið á Guð, og trúið á mig! (Jóh. 14, 1). Þegar sá kvíði, er sárri er stundlegum kvíða, vaknar í hjartanu, og ætlar að eyða krapti sálarinnar, og gjöra Föðurinn á himnum að hræðilegum dómara — og þegar óvinur sálar þinnar telur þjer trú um, að syndir þínar banni þjer samfjelag við Guð, og að þjer sje útskúfað, svo þú sjert glataður, þá er eitt góðverk, sem þú átt að gjöra, til að öðlast friðþæging synda þinna: þú átt að trúa á eingetinn Son Guðs, er elskaði oss og gaf sjálfan sig í dauðann fyrir oss, og var píndur fyrir syndir vorar, rjettlátur fyrir rangláta, svo hann fengi leitt oss til Guðs (1. Pjet. 3, 18). Þegar kvölda tekur og á daginn líður, og sá tími fer að höndum, er endar öll verk þín hjer á jörðu, þá er

enn eptir eitt góðverk, sem þú átt að gjöra, þegar þú lykur aptur augu þín fyrir dýrð veraldarinnar og fyrir eymd hennar: þú átt að trúa á eingetinn Son Guðs, þann er sagt hefir: Jeg em upprisan og lífið; hver, sem á mig trúir, skal lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25).

Það er því í nákvæmu sambandi hvað við annað, að Kristur er framseldur fyrir afbrot vor, og að hann er vakinn af dauða oss til rjettlætingar; því hann dó fyrir alla, svo að þeir, sem lifa, lifi ekki sjálfum sjer framar, heldur þeim, sem fyrir þá hefir dáið og upprisið (2. Kor. 5, 15). Og sú er merking orða postulans, er hann segist hafa látið allt fyrir Krists sakir, til að öðlast þekkingu á honum og á krapti upprisu hans (Fil. 3, 10).

---

# 33.

## KÖLLUN GUÐS TIL VOR.

Það er höfuðatriði kristinnar kenningar, að Guð hafi látið boða frið fyrir Jesúm Krist, þann sem er Drottinn allra (Post. 10, 36) og að af engum öðrum sje hjálpræðis að vænta, því meðal manna sje sá enginn annar til undir himninum, að oss sje ætlað hólpnum að verða fyrir hans fulltingi (Post. 4, 12). Frelsun veraldarinnar er fólgin í komu Krists í heiminn, og kennsluembætti hans og friðþægingardauða, og sigurauðugu upprisu og burtför til Föðursins, og tignarsæti við hægri hönd Föðurnum og konungstign yfir öllu á himnum og jörðunni og í undirdjúpunum. En hvernig verður nú einstakur maður aðnjótandi þessa hjálpræðis? Hvernig verður það, að hver einstakur maður fær áunnið Krist og fundið hann, og öðlazt þekkingu á honum og krapti upprisu hans, og hluttekning í píslum hans (Fil. 3, 8 o. n. v.)? Þetta hefir verið kallað vegur sáluhjálparinnar, það er sá vegur er leiðir manninn til Krists, og lætur hann finna frelsun og sælu hjá honum.

þessum vegi hefir verið ýmislega lýst, eptir því sem ritningin kemst ýmislega að orði um hann; vjer megum og ekki ætla, að þeir hlutir, er vjer getum aðgreint í þessu efni, til að mynda, apturhvarf, trú, endurfæðing, helgun, komi í röð hver eptir annan, svo að einn þeirra hætti þar sem annar tekur við; þeir eru með mörgu móti sameinaðir; helgunin byrjar þegar er maðurinn snýr aptur frá villu sinni, maðurinn endurfæðist þegar og fer að lifa nýju og betra lífi, er hann snýr sjer af alhuga til Guðs, og allt þetta verður með tilstyrk lifandi og sannrar trúar; en það er ætíð hið fyrsta, að Guð verður að kalla oss, áður enn vjer getum heyrt rödd hans og fylgt honum eptir.

Köllun Guðs til vor mannanna — Vjer erum orðnir svo vanir við þetta orðatiltæki úr heilagri ritningu, að vjer heyrum það optsinnis, án þess vjer gefum rjettan gaum að þýðingu þess. En hve nær sem vjer íhugum það, hljótum vjer að kannast við, að það er undarlegt orðatiltæki og merkir hinn mikilvægasta hlut. Köllun Guðs til vor mannanna — það er því rödd, sem ávarpar oss í veröldinni, og kemur þó ekki úr þessari veröldu, sú rödd, er Faðir lífsins, Drottinn lífsins og dómsins, hinn rjettláti og hinn miskunsami, ávarpar oss með. Guð býr í því ljósi, er enginn fær aðkomizt, enginn getur farið til himna, að skoða hann augliti til auglitis, og svo sem til að heyra rödd vara hans; og þó verðum vjer hjer á jörðu varir við köllun, er sannlega kemur frá honum, og með henni áminnir hann oss og býður oss til sín. þessi heimur talar til vor á margan hátt; auðurinn ginnir oss, og heiðurinn kallar oss af miklu valdi, og fögnuður lífsins ávarpar oss með ótal röddum, mennirnir leggja fyrir oss meiningar sínar og kröfur, sjerhver þeirra hefir sína rödd, er hann leitar að ávinna aðra með til að hlýðnast sínum vilja og veita sjer þjónustu. En innan um allt þetta heyrum vjer aðra rödd, þá er boðar oss þann vilja, er hefir miklu meira vald, enn vilji mannanna, og skeikar ekki eins og þeirra vilji, oss er boðið til slíkrar þjónustu, er vjer ekki dirfumst um að segja, að hún snerti oss ekki, og vjer viljum ekki gangast undir hana; vjer heyrum sannlega köllun frá Guði sjálfum.

Um þessa köllun Guðs talar Jesús í hinni alkunnu og fögru eptirlíking um húsbóndann, er fór á ýmsum stundum dags, að leigja verkamenn í víngarð sinn (Matth. 20, 1 o. n. v.). Sá dagur, sem talað er um í þessari eptirlíking, er dagur lífsins, það er sá dagur, er þykir vera svo langur um morguninn, er vjer lítum yfir hann; en stund líður eptir stund, vonarstundir morgunsins og hitastundir hádegisins, og kvöldið kemur, fyrr enn oss varir, tekur að kyrra og rökkva umhverfis oss. Og þá stund, sem liðin er, fær þú ekki aptur kallað; minning hennar varir við; kröfur hennar hrópa enn úr djúpinu, sem hún er í sokkin, en enginn mannlegur máttur getur sótt hana þangað sjálfa. Húsbóndinn fór að safna sjer verkamönnum; hann kom hvað eptir annað, og jafnan fann hann nokkra, er stóðu iðjulausir; hann kom á hinni síðustu stundu dagsins, og enn fann hann nokkra, sem ekki voru farnir til vinnu: „Hví standið þjer hjer allan daginn iðjulausir? Dagurinn er að kvöldi kominn og nóttin er þegar á dottin, þá er enginn getur unnið; nú þegar verður reikninginum lokið, og þjer eruð enn ekki byrjaðir á vinnu yðvarri“! Harla mikið verða þessi orð að fá á hjarta sjerhvers manns, er finnur að þau eru til sín töluð! Því að afloknum vinnustundunum, kemur stund reikningsskaparins, og það veit hver maður í samvizku sinni; hann getur gleymt því, hann getur þaggað niður meðvitundina um það, en hann veit það samt í brjósti sjer, að sjerhver eigi að fá þau laun, er gjörðir hans hafa tilunnið, og eins og rjettlæti á að viðgangast á jörðunni, svo hljóti og rjettlæti að vera á himnum, og þess vegna hljóti og sjerhver að verða krafinn reikningsskapar fyrir það, er hann hefir gjört og ógjört látið. Að vísu stendur og náðin hjá veldisstóli hins eilífa, og hinn mikli húsbóndi hefir vald á að gjöra það af sínu, er hann vill; en enginn heyrir rödd náðarinnar, svo hann hafi ekki áður heyrt rödd rjettlætisins, og þegar hún kallar til samvizku hans, en hann þekkist það ekki fyrr enn á hinni síðustu stund dagsins, þegar vinnunni hefði átt að vera lokið, þegar hún minnir hann á daginn, er hann hefir eytt til ónýtis, og á allan hinn umliðna tíma, er hann fær ekki aptur keypt fyrir allt gull sitt og allt blóð sitt, þótt hann vildi láta það fyrir hann:

þá vörumst að kveða upp þann dóm, er sá hinn eini rjettláti Dómari, sem einn saman þekkir alla hluti, hefir lagt á sjálfs síns vald; vörumst að vilja loka dyrum náðarinnar fyrir þeim, er iðrun gjörir, og enginn hefir, ef til vill, komið að leigja árdegis. En vörumst og að gjöra lítið í orðum vorum og hugrenningum úr þeim reikningsskap, er bíður vor, þegar dagurinn er á enda liðinn.

„Hví standið þjer iðjulausir allan daginn?“ Hvað þýða þessi orð á vörum húsbóndans? þau eru sannlega ekki að eins töluð til þeirra, sem ekkert hafa aðhafzt, eður ekkert það, sem gagn hafi í verið; margir eru þeir, er nóg hafa starfað um dagana, þeir hafa borið hita og erfiði dagsins á við hvern annan, þeir hafa ekki dottað í iðjuleysi, þeir hafa, ef til vill, komið nafni sínu á allra varir, og ritað það, ef til vill, með ómáanlegu letri í árbækur veraldarinnar; en samt sem áður hafa þeir orðið að skelfast við þessa rödd, er þeir heyrðu hana á hinni síðustu stundu dagsins, því þeir hafa ekki þekkt ákvörðun dagsins, nje hversu mikið í hann sje varið; þeir hafa ekki framkvæmt það, sem þeim var ætlað, eður þá að minnsta kosti ekki á þann hátt, sem vera bar; þeir hafa, ef til vill, hlýtt öllum röddum, nema rödd hans, er þeir áttu að hlýða; því það eru ekki viðburðir hjegómagirndar nje ágirndar, er gjöra stundu reikningsskaparins ljettbærari. Hins vegar hafa og þeir menn verið til, er lítið var talað um á jörðunni, þeir fóru leiðar sinnar í kyrrð, og múgurinn gætti þeirra ekki, og þekkti hvorki viðleitni þeirra nje hugarfar; en hann, sem metur mikils ófölnanlegt skart hógværs og kyrrláts anda (1. Pjet. 3, 4), hann sá og þekkti þá; þeir eru gleymdir fyrir löngu á jörðunni, en, Guð minn! þú hefir ekki afmáð nöfn þeirra af lífsins bók, og eins og þeir höfðu áður heyrt rödd þína á vinnustundunum, svo hafa þeir og heyrt hana á stundu reikningsins, er hún sagði við þá: Vel hefir þú gjört, hinn góði þjónn! þú varst trúr í litlu, jeg mun setja þig yfir meira, gakk inn í fögnuð herra þíns (Matth. 25, 21).

„Hví standið þjer iðjulausir allan daginn?“ Enginn hefir orðið til að leigja oss, svöruðu þeir. Ó! þegar vjer rennum huga vorum til alls þess fjölda, er aldrei hefir heyrt í hjarta sínu þá rödd, er vekur hinar djúpu tilfinningar, og kallar menn til andlegrar atorku,

og kemur til leiðar öflugum og ráðvöndum ásetningi; þegar vjer rennum huga vorum til alls þess fjölda, sem alizt hefir upp í vanþekkingu, er ekkert hefir haft fyrir augum sjer, nema eptirdæmi spillingarinnar, og ekki tekið við guðsríki, þá er þeir voru börn, og síðan sjeð ekkert í kringum sig, er skylt hefir átt við guðsríki; þá kennum vjer í brjóst um þá, og þökkum Guði fyrir sjerhvern er hann miskunar, svo hann um síðir megi heyra köllun Guðs, og vjer göfgum náð Guðs, er svo optlega virðist að láta hina síðustu verða hina fyrstu. En með þessu getur enginn afsakað sig, sem hefir heyrt köllun Guðs og ekki viljað gefa henni gaum; því þótt að þeir sjeu til, er heyra þessa köllun seinna og sjaldnar og ógreinilegar, enn sumir aðrir, fer þó húsbóndinn seint og snemma að leigja verkamenn sína, og enginn er sá á meðal vor, er með sanni geti sagt, að hann hafi aldrei heyrt þetta ávarp: Far þú og til vinnu, og þá skaltu fá sanngjarnlegt endurgjald.

Öll ráðstöfun Guðs með komu Krists í heiminn er köllun til mannanna, að þeir skuli hverfa aptur frá villu þeirra og komast á rjettan veg. Þegar í frá fornöld hefir Guð optlega og með mörgu móti talað til forfeðranna fyrir spámennina (Hebr. 1, 1); en þetta voru einstakar raddir hjá einni þjóð; nú á tímum hins nýja sáttmála, hljómar köllun Guðs kröptuglegar og almennar, og þess vegna sagði Drottinn vor: frá dögum Jóhannesar skírara og allt til þessa leita menn guðsríkis kappsamlega (Matth. 11, 12).

Þeir menn eru til, sem Guð hefir gefið svo mikla og skæra rödd, að hún rjett eins og hljómar landsenda á millum, og það jafnvel út fyrir takmörk lands þeirra til annarlegra þjóða. Þeir eru sjálfir gæddir svo frábærum krapti og koma í ljós á svo hentugum tíma, að allir gefa gaum að orðum þeirra. Slíkur maður var Jóhannes skírari. Rödd spámannanna var fyrir löngu þögnuð í Ísrael, og enginn hafði komið í ljós svo öldum skipti, sá er það yrði um sagt, að hann talaði af Drottins hálfu á slíkan hátt, sem spámennirnir; samt sem áður var nú kominn sá tími, er hin fornu fyrirheit áttu að rætast á, og öll þjóðin bjóst við því. Þá hóf Jóhannes að kenna á eyðimörku, svo segjandi: Bætið ráð yðvart, því guðsríki er nálægt! og lýðurinn úr Jerúsalem og öllum nálægum

hjeruðum fór út til hans (Matth. 3, 2. 5). Hver var sá um þær mundir í þessum landsbyggðum, er gæti með sanni sagt: Jeg hefi ekki heyrt köllun Guðs, engin rödd er komin til mín, er hafi kallað mig til apturhvarfs og til himnaríkis?

Samt sem áður var Jóhannes að eins fyrirrennari; rjett á eptir honum átti sá að koma, sem meiri var enn hann, svo þótt rödd hans væri blíðari, var hún samt bæði styrkvari og áhrifameiri. Því rödd Jesú Krists hefir hljómað öllum röddum hærra, svo að hvorki víðáttan nje tímalengdin hafa getað sett henni nokkur takmörk. Og þótt þær þjóðir sjeu til, sem ekki hafa heyrt þessa rödd, enn sem komið er, þá nær það ekki til vor; vor á meðal er enginn, er með sanni geti sagt: Jeg bý á svo afskektum stað, að fagnaðareyrindi Krists hefir ekki komizt til mín, jeg er svo vesæll og fátækur, að menn hafa ekki hirt um að boða mjer það, jeg er svo fáfróður, að jeg hefi ekki getað komizt í skilning á, um hvað verið væri að tala. Fjarri fer því! Krists kyrkja er yfirgripsmikill skóli; hún tekur við barninu næstum því eins fljótt og heimurinn, og hún sleppir ekki manninum fyrr enn moldir hans hvílast í skauti hennar; hún geymir þá uppsprettu þekkingarinnar, að spekingarnir og hinir vitru fá aldrei tæmt hana, og hún geymir svo einföld og ljós sannindi, að jafnvel hinir fáfróðustu geta gripið þau; þaðan hljómar jafnan rödd, sú er þannig ávarpar hinn kappsama verkamann: þú ert hugsjúkur um marga hluti, en gleymdu ekki því, sem eitt saman er nauðsynlegt; og þannig ávarpar hinn hrellda: huggun er til handa hverju sundurkrömdu hjarta og lækning handa hverju sári. Er nokkur sá til, sem kallaður er kristinn, að hann geti sagt: Guð hefir ekki kallað mig, enginn hefir áminnt mig að leita Guðs ríkis og hans rjettlætis?

Hvernig Guð á síðan muni kalla þá, er enn þá sitja í svartnætti dauðans, og hve nær og hvernig rödd Krists muni á þenna hátt hljóma yfir þeim, sem í gröfunum eru, og hvernig Guð á meðan kalli þá, er hann hefir ekki hingað til veitt jafnan aðgang og oss að uppsprettum lífsins og sannleikans, þar sem hann leiðir verk sín fram fyrir augu þeirra, og lætur samvizkuna tala í brjóstum þeirra, og hvernig hann muni dæma þá: það ætlum vjer

ekki að hugleiða að þessu sinni, heldur einungis það, sem snertir sjerhvern af oss útaf fyrir sig. Getur þú sagt, hve nær Guð hafi kallað þig hið fyrsta sinn? Hann gjörði það jafnskjótt, sem meðvitund þín vaknaði, á þeim dögum, er minnið geymir ekki, þótt áhrif þeirra haldist lengi við og stundum alla æfi þína. Því snemma sagði faðir þinn, eður móðir, eður kennari, eður vinur þinn, þjer frá almáttkum Guði, þeim er skapað hefir himin og jörð og hafið og alla hluti, sem í þeim eru, og stjórnar öllum hlutum með almætti og alvizku, þeim er hið stærsta ekki þykir undarlegt, og hið minnsta ekki of lítilfjörlegt; og frá hinum allsvitanda Guði, er sjer allt í skarkala dagsins og í kyrrð næturinnar, og sjer fylgskni hjartnanna; og frá hinum heilaga og rjettláta Guði, er hefir gjört skilnað milli góðs og ills, eins og milli dags og nætur, og mun gjalda sjerhverjum eptir verkum hans; og frá hinum líknsama og miskunsama Guði, er tekur að sjer hvern sem ákallar hann af hreinu hjarta, og miskunar syndaranum, sem snýr sjer til hans. Það voru mannlegar raddir, er þú heyrðir, en eigi að síður talaði Guð til þín fyrir þær, og kallaði þig til sín og ríkis síns. Síðan eltist þú og fórst að nema kristileg fræði; þú heyrðir optlega og með mörgu móti þau orð, er heimurinn hefir að vísu svo optlega spottað og fyrirlitið, og leitast við að þagga niður og afmá, en mennirnir hafa samt alltaf aptur orðið að snúa sjer til, af því þau eru hið eilífa orð lífsins, og allar hinar ótölulegu raddir heimsins eru ekkert nema hljómandi bjalla, þegar þessara orða missir við. Þú fórst út um veröldina; en hvar sem þú fórst, fannstu kyrkjur reistar við götu þína, er þú gazt gengið inn í, ef þú vildir, og snúið huga þínum frá jarðneskum hlutum og heyrt áminningar og huggunarorð og fagnaðarboðskap Drottins þíns og Frelsara. Og þótt þú vildir það ekki, þá er ekki guðsorð bundið við kyrkjurnar, heldur brýzt það út þaðan á margan hátt og mætir mönnunum á leið sinni. Það hefir og margsinnis mætt þjer, þá er þú girntist það, og þá er þú girntist það ekki, það mætti þjer í háfaða dagsins, við vinnu þína og í freistingum þínum, og vitjaði þín í einveru þinni og í næturþögninni. Sannlega hefir Guð talað til vor optlega og með mörgu móti, hann hefir talað til vor með

orði sínu og með sjerhverri kristilegri áminningu, er vjer höfum heyrt seint eður snemma; en hann talar og til vor í hjörtum vorum, með heilagri rödd samvizkunnar, og sjerhverri góðri tilfinning, sem hreifir sjer í oss; hann hefir kallað oss með sjerhverju góðu orði og töluðu í tíma, er hann hefir lagt vinum vorum í munn, og sömuleiðis með hallmælingum óvina vorra og ofsóknum, er hafa þrýst oss til að hafa gætur á sjálfum oss og lifnaði vorum og hugarfari; hann hefir einnig talað til vor með hlutskipti því, er hann hefir sent oss, hvort sem það voru velgjörðir eður refsingar. Ó! hversu optlega hefir Guð kallað oss á hinum góðu dögunum, þegar fyrirtækjum vorum varð farsællega framgengt, og blessun og friður vitjuðu húsa vorra, og þegar vjer á ýmsan hátt vorum kröptuglega áminntir um, að þakka honum öll gæði lífsins, sem lýkur upp sinni örlátu hendi og seður allar lifandi skepnur með blessun sinni; og að þeim, sem vegnar vel í lífinu, beri að gjöra sig verðan gæfu sinnar. Hversu optlega hefir Guð kallað oss með mótlætingum og þjáningum, er hann á þenna hátt hneigði sálir vorar til alvörugefni, og kenndi oss að trúa ekki of vel heiminum nje sjálfum oss, er hann svo sem þrýsti oss til, að lypta augum vorum frá jörðunni til himins; hversu optlega hefir hann fælt oss upp af svefni þeim, er á oss var siginn, því satt er það sem skáldið segir, að hið fláráða vald, er situr um að tortýna oss, á vanda til að svæfa manninn með sætum söngvum, þar sem engill frelsunarinnar ber opt að dyrum hart og hræðilega. Víst er um það, enginn er sá á meðal vor, er ekki verði að kannast við, að Guð hafi kallað hann optlega og með mörgu móti.

En til hvers hefir Guð þá kallað oss? vjer getum sagt það með fám orðum: Hann hefir kallað oss frá heiminum til sín. Mennirnir líta á sjálfa sig og hlutina umhverfis sig á tvöfaldan hátt, og er sú skoðun hver annari öldungis gagnstæðileg. Því sumir menn leita alls síns hlutskiptis í þessum heimi, og kalla gæði hans hinn eina ávinning sinn og veraldlegan missi hið eina tjón sitt. Þetta veraldlega hugarfar sýnir sig aptur á ýmsan hátt. Það sýnir sig í óstjórnlegum löstum, þegar maðurinn að eins fýkist eptir hverri stundarnautn, þegar hann lætur girndirnar ráða, án þess að

gá neitt að ókomnum tíma, og án þess að finna til sóma eður blygðunar, og fer fram þá götu, sem heimurinn sjálfur segir að leiði til glötunar. Heimurinn getur ekki heldur veitt slíkum manni neina hjálp, en miskunsamur kærleiki Guðs fyrirbýr honum frelsi enn af nýju, köllun Guðs hljómar enn á bakka glötunarinnar, og á þeim, sem þá loksins heyra og snúa aptur og komast á rjettan veg, rætast opt þau orð, að hinir síðustu skuli verða hinir fyrstu. En hið veraldlega hugarfar sýnir sig einnig optlega í kyrrlátu lífi, þegar maðurinn er hófsamur og iðinn, og leitast við að safna sjer auði og afla sjer metorða, og komast hjá alls konar sárindum og eiga eins gott og hann getur með nokkru móti hjer á jörðu. Þetta líferni er kallað lýtalaust, það þykir vera bísna ólíkt hinu, en raunar er það samrar náttúru; því slíkur maður leitar einnig hlutskiptis síns á þessari jörðu, og þar er hann fastur á fótum, skammvinnir hlutir ginna hann, og þótt hann láti huggast yfir missi þeirra, þá er það ekki í von um betra líf, heldur af nokkurs konar örvæntingu, þar sem hann þaggar niður sjerhverja mannlega tilfinning, er hann heldur muni hagga rósemi hans, og lætur sjer lynda það, sem hann ekki fær umflúið. En hversu reglulegir og heiðurlegir, sem vegir slíkra manna þykjast vera í heimsins augum, þá fer þó svo, að endir þeirra, sem er dauðinn, slökkur að lokunum hið verulega og rjetta líf þeirra. Áður enn þetta líf er með öllu slokknað, áður enn eyrað, sem heyrt getur hina himnesku rödd, er með öllu dofnað, hljómar köllun Guðs til þeirra, er sækjast eptir jarðneskum munum; hún segir: „Hvaða gagn er manninum það, þótt hann eignaðist allan heiminn, ef hann glatar sálu sinni (Matth. 16, 26)? Leitið því fyrst Guðs ríkis og hans rjettlætis (Matth. 6, 33)!“ Hver, sem heyrir þessa köllun og gefur gaum að henni, fer að líta öðru vísi á hlutina, skoðunarmáti hans verður gagnstæður því, sem fyrr var sagt, og postulinn lýsir honum rjett, er hann segir: „óðal vort er á himnum (Fil. 3, 20). Þá er sú meðvitund vöknuð, að Guð sje ekki fjarlægur neinum af oss, heldur lifum og hrærumst og sjeum vjer í honum (Post. 17, 27. 28), að af honum og fyrir hann og handa honum sjeu allir hlutir (Rómv. 11, 33); þá finnum vjer til þess, að vjer erum þegnar mikils ríkis

og eilífs, þar sem öll góð viðleitni sameinast, eins og allar ár safnast í sjóinn, þar sem allt gott sameinast undir einu höfði í einum líkama, sem tengdur er saman með liðum og böndum og þróast guðlegum þroska (Kól. 2, 19). Þar sem slíkt guðhrætt og himneskt hugarfar kviknar, bætir það og leiðrjettir á margan hátt hið ytra líferni, en um fram allt breytir það hinum innra manni; hlutirnir í kringum þig eru enn hinir sömu, en þú sjerð annan bjarma yfir þeim; allt er orðið helgað, athafnir þínar og gleði og hryggð, og baráttunni í heiminum og í brjósti sjálfs þín er linnt, og straumur tímans, sem beljar umhverfis þig, tekur ekkert frá þjer, heldur færir hann þjer gjafir og flytur þig sjálfan nær og nær höfninni, að hinum sælu ströndum fullkomleikans. Enginn á meðal vor býr þegar óhultur í tjaldbúðum friðarins; en hver, sem nokkru sinni hefir komið í þær, hver sem nokkru sinni hefir smakkað hina himnesku gjöf og fundið á sjer krapt hins ókomna heims, hann heyrir að nýju á hverjum degi köllun Guðs; og hvernig sem allt geysar umhverfis hann og í honum sjálfum, heyrir hann samt glögglega í öllum stormum lífsins, þá rödd, er segir seint og snemma: Vinur minn, haltu þjer við Guð og njóttu svo friðar (Jób. 22, 21)!

# 34.

## RJETTILEG HEYRN GUÐS ORÐA.

Frelsari heimsins hefir komið í heiminn, hann hefir fullkomnað eyrindi sitt, hann hefir borið synd allrar veraldarinnar og lokið upp himnaríki, og þess vegna — þess vegna erum allir vjer frelsaðir og munum ekki glatast, munum eignast eilíft líf? Jeg get þó ekki ætlað, þegar vjer tölum í alvöru, að nokkur maður hlaupi svona yfir allar miðgreinirnar í sönnun sinni, því svo mikið kann þó hver

maður í kristilegum fræðum, að hann þekki þessi orð: apturhvarf og trú, og ávöxt trúarinnar í guðrækilegu líferni, og viti að án þessara hluta geti enginn orðið hluttakandi í frelsun Krists. Eður er Kristur í heiminn kominn einungis til að utrýma hegningu syndarinnar, en ekki syndinni sjálfri? einungis til að frelsa þig frá hinum hryggilegu afleiðingum heimsku þinnar og afbrota, en ekki til að frelsa þig frá heimskunni og afbrotunum sjálfum? Guðsríki er þó að eins handa þeim, er vilja þekkjast það, því munu og geta þjófar og ræningjar, munu og geta glópar og skræfur, og maurapúkar, og öfundarseggir, og guðlastarar, og hræsnarar, mun og getur hið veraldlega hugarfar öðlazt himnaríki?

En ef vjer gefum gætur að líferni manna í heiminum, lítur það þá ekki út, eins og allflestir haldi, það sje hægra að ávinna guðsríki, enn hvern annan hagnað í veröldinni? Vjer viljum nú ekki tala um þá, sem hafa gjörsamlega afrækt hina himnesku köllun, og afneita Guði og ríki hans og rjettlæti, eður hirða ekkert um það. En þegar þeir, sem kalla sig kristna og vilja með engu móti afneita kristinni trú, þegar þeir lifa samt án Guðs í heiminum, þegar vjer sjáum þess engan vott, að þeir leiti Guðs rjettlætis, þar sem þeir að eins sækjast eptir jarðneskum munum: þá verða slíkir menn að ætla Kristur taki við syndurum, þótt þeir láti ekki af syndum sínum, og synda fyrirgefning sje til án apturhvarfs, eður að sönn og sáluhjálpleg trú sje til, án ávaxta trúarinnar. Og þó hafa þeir heyrt guðsorð, en Guð komi til! hvernig hafa þeir heyrt það?

Gefið því gaum að, hversu þjer hlýðið kenningu minni (Lúk. 8, 18)! sagði Drottinn vor, og öðru sinni sagði hann: þeim, sem heyrir orð mín og breytir eptir þeim, vil jeg líkja við forsjálan mann, er hefir reist hús sitt á bjargi (Matth. 7, 24); og þá er hann sagði: sælir eru þeir, sem heyra guðsorð, bætti hann þessu við: og varðveita það (Lúk. 11, 28)!

Kristin trú getur engu til leiðar komið, nema menn þekki hana og þess vegna er það hið fyrsta af öllu, sem þarf til þess guðsorð geti borið ávöxt, að mennirnir hafi heyrt það. Postulinn segir: hvernig eiga þeir að ákalla þann, sem þeir hafa aldrei trúað á? en hvernig eiga þeir að trúa á þann, sem þeir hafa aldrei

heyrt neitt um? en hvernig eiga þeir að heyra, án þess nokkur prjediki; og því næst segir hann: þannig kemur trúin af heyrninni, en guðsorð lætur menn heyra (Rómv. 10, 14. 17). — Að vísu er til í mannlegu hjarta meðvitund um Guð, þar er og meðvitund um lögmál Guðs og um afbrot mannanna og mannlega eymd; þar er og til meðvitund um að maðurinn geti ekki hjálpað sjer sjálfur, heldur verði hjálpræðið að koma af himnum ofan; en öll þessi meðvitund er svo óskýr, að hún vaknar ekki nje þróast, án raddar, er komi utan að. Enginn þekkir hinn eina sanna lifanda Guð, utan hann hafi heyrt Guð nefndan, og því síður þekkir nokkur maður hjálpræði það, sem Guð hefir fyrirbúið hverjum manni, utan hann hafi heyrt fagnaðarboðskap Krists. „Nú vil jeg spyrja — segir postulinn enn fremur — hafa þeir ekki heyrt? Jú, sannlega! röddin er farin út yfir alla jörðina, og orðið er komið til endimarka heimsbyggðarinnar (Róm. 10, 18).“ Og vjer getum einnig spurt: hafa þeir ekki heyrt? er nokkur sá á meðal vor, er ekki hafi heyrt? Fjarri fer því! Guðsorð er ekki fágætt vor á meðal, það er ekki lokað inni, og ekki er því tálmað á annan hátt, það greiðir sjer götu að höllum og hreysum, það ávarpar barnið, undir eins og það fær nokkurt vit, og upp frá þeim tíma verður það fyrir manninum æ af nýju, enda þótt hann sje hirðulaus og ljettúðugur. En það sýnir sig og á hverjum stað, að guðsorð beitir engu töfravaldi, það neyðir engan mann, og birtir ekki mátt sinn á mótþróanlegu hugarfari; hver sem á að geta öðlazt hlutdeild í guðsríki, verður að leita Guðs af frjálsum vilja. Því eins og maðurinn megnar alls ekkert, án þess köllun Guðs sje áður búin að ávarpa hann, og guðleg aðstoð styðji hann, svo er og nokkuð hins vegar, sem Guð hefir lagt á mannsins vald; þú getur virt guðsorð, en þú getur og vanvirt það, þú getur leitazt við að festa það í huga þínum, en þú getur og leitazt við að reka það jafnóðum út þaðan með annarlegum hugsunum. Þess vegna var það og, að þegar Drottinn vor leit yfir mannfjöldann, er hafði sjálfkrafa safnazt að honum til að heyra orð hans, og hann hóf að skýra frá ávöxtum orðsins í eptirlíkingunni um sáðmanninn, er fór út að sá (Matth. 13, 3 o. n. v.), þá gat hann fyrst um það sæði, er

fjell niður við veginn, og etið varð af fuglum himins. Og færi það svo með hin máttugu og inndælu orð Drottins vors og Meistara, hvernig getum vjer þá furðað oss, þó margir af þeim, sem heyra guðsorð af vorum vörum, hafi þess engin not, og það gjöri alls engin áhrif á þá? Þó telur og Drottinn vor þessa menn með þeim, sem orðið heyra, en það eru og þeir, er hann kveður svo að orði um, að þótt þeir heyri, heyri þeir ekki nje heldur skilji.

Því sálin hefir heyrn, og hún verður að heyra guðsorð, áður enn það geti komið nokkru til leiðar, svo vitið skilji þýðingu þess, og hjartað finni til máttar þess. Þess vegna leitumst vjer við að leiða guðsorð til hins innra manns, sem hulinn er, og sannlega verður það ekki æfinlega til ónýtis. Nei, Faðir vor á himnum! hversu veikir sem vjer erum, hversu optlega sem orð þitt kólnar og deyr á vörum vorum, þá synjar þú samt ekki þeim, er biðja þig, svo gjörsamlega Anda þíns, að rödd vor sje ekki opt og einatt öflug og hvell og lifandi, þá er vjer boðum orð þitt. Og þá eru og þeir til, sem taka við því með fögnuði, er þeir heyra það. Þeir taka við því með fögnuði — þá verður það og að hafa komizt að eyrum sálna þeirra, og gjört áhrif á hinn betri hluta mannsins, því sá fögnuður, sem guðsorð glæðir, er ekki holdlegur; sá fögnuður, sem vjer þá verðum varir, er hægur og blíður, og það lítur svo út, sem tárin, er þá renna, beri þess vitni, að hjartað sje viknað, og þeir strengir snortnir, sem taka að eins undir hinar himnesku raddirnar. Og ættum vjer ekki að fagna sjálfir, er vjer sjáum slíkan fögnuð? Þarna, segjum vjer þá, grær sáðið, þarna hefir orðið fundið góðan akur, er það getur vaxið á og borið ávöxt. — Æ, Drottinn vor og Meistari! þú ert að búa þjóna þína undir hryggilega reynslu, er þú segir þeim, að undir hinu mjúka yfirborði leynist optlega hin harða hella, og þeir sjeu til, er taki við orðinu með fögnuði, en láti það ekki festa rætur í hjarta sínu, og trúi um stundar sakir, en falli frá á tíma freistingarinnar; og þessi tími freistingarinnar er optlega svo nálægur þeirri stund, þá er þeir sögðust trúa, að þar er ekki á milli nema augabragð. Yður ásaka jeg ekki, er jeg gat aldrei búizt við neinu af, er ljetuð mig aldrei efast um, að guðsorð hefði engin áhrif á yður gjört, þar

sem jeg vissi óvinur Guðs og yðar var viðstaddur, og tíndi hvert sáðkorn jafnótt og jeg sáði því. En þjer, sem ómótmælanlega heyrðuð með eyrum yðrum, og skilduð guðsorð og funduð til þess í hjörtum yðrum, og funduð að kraptar æðra heims hreifðu sjer í brjóstum yðrum; þjer, sem sýnduzt ekki geta komið orðum að mætti lífs þess, er vaknað var í yður: jeg hefi sjeð yður á stundum guðrækninnar og frá yður numda af andlegum fögnuði, og svo hefi jeg aptur sjeð yður á stundum freistinganna, — og hvað sá jeg þá? það voru breiskir menn, er hrasa, en hryggjast jafnframt vegna synda sinna, og kannast við hvað rjett sje og þrá styrkleika til að geta breytt samkvæmt þekkingu sinni — nei! það var opt og mörgum sinnum eins og þessir menn hefðu aldrei heyrt nokkurt guðsorð, og aldrei heyrt talað um guðlegt rjettlæti, og aldrei hefði nokkur neisti guðsótta og ástar á Guði vaknað í hjörtum þeirra, eins og þeir þekktu ekkert lögmál, hvorki á himni nje jörðu, sem mönnunum bæri að hlýða. Og fyrir því skal jeg safna yður saman, yfirdrepstár; og á dómsdegi skal jeg bera yður fram fyrir veldisstól hins eilífa Guðs, ekki samt til þess, að þjer skulið vitna í gegn hinum seku — Guð leiði þá til iðrunar og apturhvarfs! — heldur til þess þjer getið borið mjer vitni, að jeg hafi ekki hætt, fyrr enn jeg var búinn að koma guðsorði inn í þau hjörtu, sem gátu skilið það og fundið til þess. Og þá skal jeg einnig safna saman brennheitum harmatárum augna minna, er svo optlega hafa sært hjarta mitt, og þá skal jeg dirfast að segja: Drottinn minn! jeg hefi einnig borið minn kross í veröldinni, jeg hefi einnig að nokkru leyti bergt á þeim kaleik, er þú tæmdir, þegar þú barst synd allrar veraldar. —

Þegar Drottinn vor leit yfir mannfjöldann, er hafði safnazt að honum, sá hann marga, er svo var háttað, að hið góða sæðið óx upp meðal þyrna í brjóstum þeirra. Og vjer sjáum það einnig, ó! vjer getum ekki annað enn sjeð það, hversu mikið illgresi leitar alstaðar við að kefja niður hið góða sæðið. En meðan vjer getum, vonum vjer hins bezta og optlega rætist von vor, því þeir eru þó til, sem leita Guðs af alvöru og heilum hug, er Guð aðstoðar, svo þeir geti sigrazt á hinum illu girndum, er þeir hafa sjálfir

óttazt eins og vjer. En þeir eru og til, sem ekki óttast og ekki vaka og biðja, og þyrnarnir vaxa upp í þeim og kefja niður orðið, svo það verður ávaxtarlaust. Vjer tölum ekki á þessum stað um þá, er hverfa frá Guði opinberlega, og kasta sjer í faðm stórglæpa og svívirðingar, heldur um þá sem svo er varið, að girndir og áhyggjur þessa heims, að ágirnd og drambsemi og hjegómagirnd og sællífi sprettur upp yfir trúna og vonina og kærleikann, og kæfir niður smátt og smátt hverja góða tilfinning, er snemma hafði vaknað í brjóstum þeirra, svo þeir heyra ekki framar köllun Guðs, eður þá að minnsta kosti láta sem hún snerti ekki sjálfa þá, svo þeir vesna með aldrinum, og missa fjör og afl æskumannsins og fá að eins ókosti ellinnar, en ekki vizku hennar.

En hvers vegna er oss skýrt frá því, að þyrnarnir kefji svo optlega hið góða sæðið á þenna hátt? Mundi það vera einungis til þess, að vjer skulum læra einu atriði meir af mannþekkingunni sem kölluð er, og fá að vita hvernig það sje vant að fara í veröldinni, og við hverju vjer megum búast af mönnunum? Það er sannlega ekki einungis til þess, heldur enn þessi orð: því sjer þú flísina í auga bróður þíns, en gætir ekki að bjálkanum í auga þín sjálfs (Matth. 7, 3) eru til vor töluð einungis til þess, vjer skulum taka eptir því, að aðrir menn sjeu vanir að vera harðir í dómum sínum um aðra, en hlífa sjálfum sjer. Þeir menn eru að sönnu til, er með fullum rökum mega heita spakir á veraldlegan hátt, því þegar þeir lýsa spillingu mannlegs hjarta, gjöra þeir það einungis til að sýna, hvernig það hafi verið og hvernig það sje og hvernig þeir búist við það muni ætíð verða, og hverju vjer megum ætíð búast við af sjálfum oss og öðrum. En þegar Drottinn vor og Meistari dregur skýluna af hjartans hryggilegum leyndardómum, gjörir hann það af því hann ætlar að krefjast betrunar, og vill að sjerhver á meðal vor byrji á því að betra sjálfan sig. Vilji aðrir ekki heyra orð hans, þá átt þú samt að heyra þau, og vilji aðrir ekki breyta eptir þeim, þá átt þú samt að breyta eptir orðum Drottins þíns; og ef þú hælir þjer af hyggindum og viti, svo þú getir tekið eptir gjörðum mannanna, og gefið þeim nöfn og metið þær, og sagt hvers þær sjeu verðar, og getir grannskoðað mannleg

hjörtu, og þekkt hinar huldu hvatir þeirra, og sjeð þyrnana, sem spretta upp og kefja hið góða: ó! hafðu þá vit þitt fyrst og fremst til að skilja sjálfan þig, og þekkja hjarta sjálfs þín, því þyrnarnir spretta einnig í því; og ætlir þú að lagfæra ávirðingar, þá byrjaðu á því, eins og sanngjarnt er og hæfilegt, að lagfæra sjálfan þig, það eru sannindi, að hjer á sá málsháttur við, er þú ber svo optlega á vörum þjer, að hver er sjálfum sjer næstur.

Hversu ómissandi er alvarleg og hreinskilin sjálfsprófun! Sjerhver maður verður þó að játa, að það stendur ekki á sama, hvílíkir vjer erum, hvort sem það er heldur í orðum og gjörðum, í sambúð vorri við aðra menn, eður í hugskoti voru, í hinni djúpu uppsprettu, sem öll vor ytri hegðun er framkomin af. það er til, sem rjett er og gott, og það á maðurinn að gjöra, slíkur á hann að vera; það er og til, sem rangt er og illt, og maðurinn á að forðast hið ranga, og hinu illa á hann að rýma burt úr hjarta sínu. En þú sem kannast við, að takmark sje til, sem maðurinn eigi að komast að, og vegur er hann eigi að þræða: helldurðu þá í raun og veru, að straumur lífsins flytji þig sjálfkrafa að þessu takmarki, ef þú að eins lætur berast fyrir honum, og að sjerhver leið sem fótur þinn þræðir, rjett eins og verða vill, muni koma á hinn rjetta veg, ef þú að eins heldur beint á fram? Eður heldur þú í raun og veru að tilfinning hjarta þíns sje svo hrein, að þú sjáir undir eins að allt hið illa sje illt, og sjerhver skeikun af rjettum vegi sje villa? eður heldur þú að sjerhver löngun hjarta þíns sje fýsn til hins góða, og að sjerhver fýsn í þjer, sem er góð í raun og veru, sje svo vakandi, að hún hvetji þig jafnan og aptri þjer þegar þess þarf, svo þú þurfir ekki nema láta hjartað ráða, til að geta orðið vitur og góður, og náð ákvörðun sálar þinnar. Hver hefir litið yfir heiminn og skoðað hann alvarlega, án þess hann hafi sjeð, hvernig straumar spillingarinnar velta fram með háum og öflugum öldum, stundum hægt og stundum hart, og hvernig þeir flóa optlega út í skyndingu og þegar minnst varir, og hrífa með sjer ugglausa menn út í þungstreymi framrásar sinnar. Hver hefir sjeð hinar mörgu leiðir, sem mennirnir fara í veröldinni, án þess hann hafi orðið að viðurkenna, að eins og sá vegur

er til, sem leiðir til lífsins, svo er og til sá vegur, sem leiðir til glötunarinnar, og að hann er breiður og hægur yfirferðar, og þeir eru margir, sem finna hann (Matth. 7, 13)? Hver hefir látið eptir hjarta sjálfs sín, og gjört hvað hann vildi, og látið það ógjört, er hann fýsti ekki að gjöra, án þess hann hafi optlega síðan orðið að viðurkenna, að hann hafi framið hið illa og látið hið góða ógjört, og ekkert hafi verið í honum, það er nógsamlega áminnti hann og hvetti? Allir góðir andar hafa þá þagað, eður rjettara að segja: þeir hafa að sönnu talað, en gjört það með undarlegum andaröddum, en maðurinn var heptur af jarðneskum munaði og heyrði ekki raddir þeirra. Hver hefir nokkru sinni prófað sjálfan sig, þó ekki væri nema einu sinni, rjett af forvitni, til að vita hvað í sjer byggi, án þess hann hafi komizt að raun um, hversu margar illar girndir búi í honum, og að þær komi ekki fram einar sjer, svo vjer getum sagt: þarna er hið góða, og þarna er hið illa, heldur læsi hið illa í oss sig innan um hið góða, á undarlegan og hryggilegan og hættulegan hátt? Þess vegna er það svo áríðandi, að vjer prófum sjálfa oss kostgæfilega, svo þegar vjer heyrum guðsorð, og heyrum hinar öflugu áminningar og viðvaranir, er þrýsta samvizkunni til að kannast við vald þeirra, þá sjeum vjer ekki hugsunarlausir tilheyrendur, nje sjeum, eins og postulinn að orði kemst, líkir þeim manni, sem gáir að andlitsskapnaði sínum í spegli og gengur á burt og gleymir hvílíkur hann var (Jak. 1, 23).

En eigi þessi sjálfsprófun að koma að haldi, hlýtur hún að vera hreinskilin. Orðið hreinskilni þýðir harla mikilvægan og ómissandi hlut í sambúð manna; mannlegt fjelag mundi steypast, ef hana vantaði gjörsamlega. Hverja kosti sem menn hafa að öðru leyti, þá er samt allur orðstír þeirra flekkaður, ef þeir eru óhreinskilnir, ef þeir vilja svíkja og pretta, ef þeir draga oss á tálar og eru öðru vísi, enn þeir látast vera, og vita annað, enn þeir vilja vjer skulum ímynda oss þeir viti. En maðurinn getur ekki að eins svikið aðra, hann svíkur einnig optlega sjálfan sig, ímyndar sjer að hann sje langt um öðru vísi, enn hann er í raun og veru, og finnur til annars, enn hann vill vera þekktur að, ekki að eins

fyrir öðrum, heldur og fyrir sjálfum sjer. Þegar það er sagt um einhvern mann, að hann gæti ekki bjálkans í auga sín sjálfs, hvað getur það heitið, nema óhreinskilni við sjálfan sig? Hann yrði þó að geta orðið var við hann, ef hann að eins vildi líta á sig með sömu augum, og hann skoðar aðra með, og vildi hafa hin sömu orð um sjálfan sig, og hann hefir um aðra.

En þar sem þessi óhreinskilni er svo almenn og örðug að sigrast á, þar sem það á heima hjá svo mörgum, er postulinn segir, að orðið, er þeir heyrðu, kom þeim til engra nota, vegna þess það fyrir hitti enga trú hjá þeim, er það heyrðu (Hebr. 4, 2), þar sem köllun Guðs og orð hans verða svo optlega ávaxtarlaus hjá þeim, er þau heyra og þeim er ekki heyra þau — eigum vjer þá að sleppa þeim? eigum vjer þá að hætta að kalla, að tala, að áminna, að aðvara? Satt er það, á hryggðarstundum vorum getum vjer freistast til að halda starf vort sje sálardrep og ónýt mæða. En þú, sem hefir svölun handa öllum þeim, er vinna og þjást, þú, sem ert huggun allrar veraldar! þú hefir og huggun handa þjónum þínum, í mæðu þeirra og andstreymi. Þegar bóndinn hryggist af því hann sjer að sæðið, er hann sáði, kemur ekki upp, eður að það, sem upp er komið, visnar aptur, eður að illgresið vex upp á meðal þess og kæfir það niður: Drottinn minn! ættu þá ekki þjónar þínir að hryggjast, er orðið af vörum þeirra hittir fyrir steinhjörtu, sem ekkert bítur á, eður hjörtu, sem eru lin eins og vax, er láta undan öllu, svo hvert áhrifið eyðir öðru eður hræsnisfull hjörtu, er lofa öllu, en enda ekkert, og hafa aldrei ætlað sjer að enda neitt, eður þegar girndir og áhyggjur þessa heims spretta upp í hjartanu og kæfa niður hið góða sæðið? En það hefir farið eins fyrir þjer, þá er þú gekkst á meðal mannanna, og þó var sjerhvert af orðum þínum líf og andi! og lærisveinninn er ekki fremri meistara sínum. En það sæði var og til; er fjell í góða jörð — Ó! fyrst vjer viljum að aðrir skuli trúa orði þínu, því skyldum vjer þá ekki trúa því sjálfir? — Það sæði er og enn til, sem fellur í góða jörð, og sprettur og ber ávöxt — mikinn eður lítinn, en þó má það heita ávöxtur. Þeim sem vinnur, ber að vinna í voninni, og þeim sem sáir, ber að sá í voninni, sjá!

bóndinn væntir dýrmæts ávaxtar jarðarinnar, en þreyir þó, þangað til hann fær morgun- og kvöld-döggina; hjálpa þú oss, Drottinn vor! að vjer getum einnig verið þolinmóðir og styrkvir í hjörtum (Jak. 5, 7. 8)!

---

# 35.

## APTURHVARF TIL GUÐS.

Þegar Páll postuli fór í seinasta sinni til Jerúsalem, af því hann fann æ betur og betur til köllunar þeirrar, er bauð honum fara til vesturlanda, til nýrra starfa og nýrra forlaga, stefndi hann til sín á leið sinni öldungunum í Efesus, þar hann hafði lifað og starfað langan tíma. Þegar hann skildi við þá, var hann sannfærður um, að enginn í þeim hjeruðum mundi sjá hann þar framar; nýr vegur hafði lokizt upp fyrir honum, og hann vonaðist eptir að sá vegur mundi verða sjer ánægjulegur eins og hver annar, er hann hafði farið, og að hann mundi geta rekið á honum eyrindi það, er Drottinn Jesús hafði fengið honum; að öðru leyti vissi hann ekki hvað fram við hann mundi koma, utan að fangelsi og þrautir biðu hans í hverri borg. Á þessari alvarlegu og hátíðlegu skilnaðarstund minnti hann öldungana á, hvernig hann hefði hagað sjer allan þann tíma, er hann hafði með þeim verið, hann minnti þá á, hvað hann hefði þolað á meðal þeirra, hvað hann hefði starfað, og hvað hann hefði kennt bæði á opinberum samkomum og í heimahúsum. Hann taldi til tvö aðalatriði, nefnilega apturhvarfið til Guðs, og trúna á Drottin vorn Jesúm Krist (Post. 20, 17).

Enda á líka öll hin kristilega kenning að vera full af þessu tvennu. Þegar í öndverðu prjedikaði Drottinn sjálfur í Galíleu á þenna hátt: Snúið yður og trúið fagnaðarboðskapnum (Mark. 1, 15)!

Söm er og þýðing þess, er sagt er af seinustu dögum hans á jörðunni, að hann hafi opnað hugskotsaugu lærisveina sinna, svo að þeir skildu ritningarnar, að þetta átti Kristur að þola, og rísa upp frá dauðum, og að prjedika átti öllum þjóðum apturhvarf og fyrirgefning syndanna (Lúk. 24, 45); því fyrirgefning syndanna fæst fyrir trúna á hann.

Hvort af þessum atriðum er hugmynd fyrir sig. Samt sem áður megum vjer ekki ímynda oss, að þau sjeu aðskilin í huga mannsins á slíkan hátt, og þau eru það í ræðu hans. Þau eru náskyld; því áður enn hugur mannsins geti tekið þau umskipti, að hann snúi sjer kostgæfilega til Guðs, hljóta nokkrir neistar af sannleika að vera fallnir í sálina, og hún hlýtur að hafa veitt sannleikanum viðtökur af nokkurri sannfæring, og styðjast síðan við hann með nokkurri trú; og áður enn trúin geti kviknað, og áður enn hjartað geti veitt Guði og miskunarorðum hans viðtökur, af sannri þörf, með trausti og fögnuði, verður það hins vegar að hafa tekið nokkur háttaskipti, því holdlega sinnaður maður, sem er öldungis sokkinn niður í veröldina, skilur ekki þá hluti, sem snerta Guðsanda (1. Kor. 2, 14). Guðsríki kemur ekki allt í einu í hjarta mannsins, heldur sprettur það smám saman af litlu frækorni, þess vegna er apturhvarfið í þessu lífi aldrei svo fullgjört, að hugurinn verði ekki að snúast æ betur frá upprunalegu eðli sínu, og hinn nýi maður að koma æ betur í ljós, og það verður fyrir trúna; ekki er trúin heldur nokkurn tíma svo staðföst og fjörug, að menn þurfi ekki að efla hana og auka, en það verður á þann hátt, að sálin snýr sjer æ kostgæfilegar og innilegar til Guðs. Apturhvarf og trú eru því ætíð samfara í kristilegu líferni; en það er víst, að eigi sönn og sáluhjálpleg trú að geta glæðzt í hjarta mannsins á þann hátt, að sá, sem trúir, fái fyrirgefning syndanna í Jesú nafni (Post. 10, 43), verður fullkomin umbreyting að vera komin á, verður hugur og andi að hafa ummyndazt; því Drottinn, Meistari vor og Frelsari, lætur fyrst boða apturhvarf og síðan fyrirgefning syndanna. Á slíkan hátt prjedikuðu og postular hans, er þeir sögðu: Takið sinnaskipti, og snúið yður, svo syndir yðar geti orðið afmáðar (Post. 3, 19).

Nú nemum vjer fyrst staðar við það atriðið, sem Drottinn vor heimtar að eigi að ganga á undan, en það er apturhvarfið til Guðs.

Frumrit heilagrar ritningar hefir tvö orð, þar sem vjer að eins höfum eitt saman orðið apturhvarf. Annað þeirra samsvarar voru orði að öllu leyti, og er í því líking tekin af þeim, er villzt hefir af rjettum vegi og alltaf villist því meir, sem hann heldur lengra á fram, og fyrirferst svo að lokunum. Sá sem lítur hann viltan og kennir í brjóst um hann, segir honum að hverfa aptur; og ef hann heyrir það og hlýðir því, og snýr aptur, á hann enn frelsis von. Hitt orðið, er postulinn hafði í grein þeirri, er jeg tilfærða fyrir skömmu, þýðir í raun rjettri þá breyting hugarins, að maðurinn rannsaki sjálfan sig og hugsi um undanfarna hegðun sína, og breyti svo hugarfari sínu, endurnýi það, og snúi því til Guðs. Vjer viljum því fremur varðveita þessa þýðingu orðsins, sem hún minnir oss á, að það apturhvarf, sem heimtað er af oss, er ekki breyting á eintómri hegðun vorri fyrir manna sjónum, heldur og á hugarfarinu sjálfu — það er apturhvarf sálarinnar til Guðs.

Þetta er meining Krists postula, þegar þeir segja, að Guð bjóði öllum mönnum alstaðar að snúa sjer (Post. 17, 30). Þess kröfðust þeir, eins og nærri má geta, af heiðingjunum, það er: þeim, sem höfðu þjónað falsguðum, lagt trúnað á alls konar villu, og optlega framið svívirðilega guðsdýrkun. Þessir menn höfðu að sönnu þörf á að snúa sjer til hins lifanda Guðs, og sjerhver geisli, sem ljómaði í myrkrinu, sjerhver áminning um að láta af villu þessari, og hafna lygi og hjegóma heiðindómsins, en trúa á sannan Guð, miðaði til að koma til leiðar apturhvarfi og sinnaskiptum. En postularnir prjedikuðu ekki fyrir heiðingjum einum saman apturhvarf, það er þeim var boðið að kenna; eins og Jóhannes hafði boðað Gyðingum apturhvarfsskírn, eins og Dróttinn sjálfur hafði boðað þeirri þjóð apturhvarf, er hann eptir mannlegu eðli sínu var af kominn, eins segist og Páll postuli hafa boðað Gyðingum og Grikkjum apturhvarf til Guðs. Það er þá auðsjeð, að sú þjóð, sem frá upphafi vega sinna hafði þekkt sannan Guð, og trúað á

þann, og í langa tíma hafði ekki tekið þátt í heiðinglegri villu, þurfti einnig að halda á apturhvarfi til Guðs. Og hver getur efazt um, að einnig meðal vor, sem Kristnir köllumst, og ekki þekkjum skurðgoðavillu, nema af gömlum frásögum, þurfi einnig að prjedika apturhvarf? Því meðan nokkrir afvegir og nokkur villa er til, er apturhvarf nauðsynlegt.

Á öðrum stað segir Páll postuli: Sáluhjálpleg miskun Guðs, sem kunn er orðin öllum mönnum, býður að afneita óguðleik og veraldlegum girndum, en lifa siðsamlega og rjettlátlega og guðrækilega í heimi þessum (Tít. 2, 11. 12). Nú ef einhver hefir ekki svo mikið til að bera, sem siðsamlega hegðun, ef hann er ataður öllum þeim löstum, sem heimurinn sjálfur hefir viðbjóð á og gengur hinn opinbera veg til glötunarinnar, þá segja allir menn, að hann þurfi að hverfa aptur. En hversu lítið er þó varið í hina ytri siðsemi! Jeg ætla ekki að spyrja, hvort nokkur haldi, að kristilegur fullkomleiki sje í því fólginn, að menn leggi niður opinbera lesti, sem hagga allri mannlegri skipun, og sjeu siðsamir fyrir manna sjónum; heldur spyr jeg, hvort hugmyndum nokkurs manns um siðgæði sje með slíku fullnægja gjörð, hvort hver maður kannist ekki við, að menn geti vanrækt margar skyldur og heilagar, hvað siðlátir sem þeir eru í hegðun sinni. Þess vegna bætir postulinn öðru orðinu við, sem er: rjettlátlega, og það orð er mikilvægt og yfirgripsmikið. Að lifa rjettlátlega í veröldinni innibindur í sjer dyggva og stöðuga skyldurækt við alla menn, að gjalda sjerhverjum það, sem honum ber, að gæta sýslu sinnar af öllum mætti, sem Guð hefir gefið manni, að búa í landinu og leita sjer atvinnu á leyfilegan hátt, að forðast allt órjettlæti og ekki að eins forðast áseilni, svik og undirokun, heldur og breyta við hvern mann í öllum viðskiptum eptir því sem rjett er og sanngjarnlegt. Hver sem ekki hefir lifað á þenna hátt, þarf apturhvarfs við, og þarf þess í hvert sinni, er hann víkur frá rjettlætinu, og hvernig sem hann gjörir það.

Mikilvæg eru orð eins spámannsins, er hann segir: Þeir snúa sjer, en ekki samt til himins (Hós. 7, 16), ekki til Guðs. Það lítur svo út, spámaðurinn álíti, það sje til apturhvarf, sem ekki

sje sannarlegt apturhvarf, með því sálin hverfi ekki til uppsprettu lífsins. Þess vegna segir og postulinn, að hann hafi boðað öllum apturhvarf til Guðs, og þegar hann minnist á, að kristin trú kenni oss, hvernin vjer eigum að hegða oss í veröldinni, segir hann, að vjer eigum ekki að eins að lifa siðsamlega og rjettlátlega, heldur og að vjer eigum að lifa guðrækilega. Enda eru til margir menn, sem eiga skilið mikið lof fyrir rjettláta hegðun, en samt sem áður verðum vjer að segja, þeir lifi án Guðs í heiminum, þó vjer getum ekki sagt, þeir lifi óguðlega. Þeir hafa haldið á fram leiðar sinnar, og sjeð stórmerki Guðs umhverfis sig, en hvorki hafa hersveitir himinsins, nje blóm jarðarinnar, nje brimrót sjáfarins, getað komið þeim til að snúa sál sinni til hans, sem skapað hefir himininn og jörðina og hafið, og allt það, sem í þeim er. Ef þeir hafa þegið hið góða, þá getur verið, þeir hafi varið því án drambsemi og munaðar, en þeir hafa ekki þegið það svo, sem væri það frá Drottni, og þeir hafa ekki komizt svo við, að þeir hafi lofað Guð og þakkað honum. Ef þeir hafa þolað hið illa, þá getur verið, þeir hafi verið þolgóðir, en þeir hafa samt ekki gefið sig á vald vilja hans, sem einn saman er vitur, þeir hafa ekki lypt upp augum sálar sinnar úr myrkri hryggðarinnar til guðsríkis, þar hinn eilífi friður á heima. Þeir hafa fundið til áminninga og aðvarana samvizkunnar, og það getur verið, þeir hafi jafnan breytt eptir þeim, en þeim hafa að eins fundizt þær vera kröfur eðlis síns, og ekki raddir Löggjafa þess, er heldur saman öllu, sem lifir á himni og á jörðu, með lögum sínum, en allt það, er hvetur oss til góðs, eru geislar af heilögu eðli hans. Á slíkan hátt halda þeir á fram, á slíkan hátt ganga þeir í mót dauða sínum, og vera má, þeir bíði hans óttalausir, eins og þeir hins vegar þrá hann ekki, þeir hirða ekki um neitt sem heiti hefir, og þess vegna er enginn sá hlutur á jörðunni, er þeim þyki neitt fyrir að skilja við; þeir vænta sjer einskis betra, og geta því sleppt voninni um að mega sjá nokkurn mann aptur, sem þeim var náinn á jörðunni; þeir sleppa voninni um Guð í eilífðinni, eins og þeir höfðu sleppt henni í þessu lífi. Í tilveru þessara manna vanta öll hin sönnu blóm lífsins, sem ein eru fær um, að breyta

eyðimörk tilverunnar með ylmi sínum og fegurð sinni í inndæla paradís, og þessir menn þurfa líklega að snúa huga sínum og hjarta sínu.

Því meir sem vjer íhugum hugmynd kristinnar trúar um apturhvarf, því gjörr sjáum vjer, að hún innibindur í sjer, að maðurinn verði að breyta gjörvöllu líferni sínu, áður hann geti orðið hluttakandi í velgjörðum Krists. Þess vegna sjáum vjer, að þegar postularnir tala um þessa breyting, eru þeir mjög skorinorðir, og heimta, vjer skulum afklæðast hinum gamla manni, og endurnýjast í anda huga vors, og íklæðast hinum nýja manni, sem er skapaður eptir Guði í rjettlæti og heilagleika sannleikans (Ef. 4, 22). En skorinorðastur er þó Drottinn sjálfur, þar sem hann segir: sannlega, sannlega segi jeg yður, enginn getur sjeð guðsríki, nema hann endurfæðist (Jóh. 3, 3).

Orðin leiða hugrenningar í ljós, en hugrenningarnar koma frá djúpi sálarinnar; en ef mjög mikill mismunur er á þýðingarmiklum orðum hjá þeim, sem tala, þá er og mismunur á hugarfari þeirra. Þegar vottar Krists fóru út um allan heim, eptir skipun hans, til að boða fagnaðareyrindið, þá urðu þeir að læra að tala nýjar tungur; þeir tóku hinar annarlegu tungur, og hvort sem þær voru þjálar eður óþjálar, þröngvuðu þeir þeim til að leiða í ljós leyndardóma Guðs, þeir hrærðu hina hjartnæmustu strengi, og tóku þau orð úr málinu, er komin voru úr innstu fylgsnum mannlegs hjarta, og úr þeim bjuggu þeir til nokkurs konar nýja tungu, þeim hlutum samboðna, er hún átti að birta, og á hana mæltu þeir það, sem snertir guðsríki. Á þenna hátt varð að sönnu hljómurinn margvíslegur eptir þjóðunum, er í hlut áttu; en kenningin var söm fyrir það, því það voru tákn og stórmerki Guðs, sem verið var að boða, og hin djúpsæasta speki og þekking, er hinar margvíslegu raddir töluðu. En eins og það má boða fagnaðareyrindi Krists á ýmsar tungur, án þess það breytist á nokkurn hátt, eins má og boða það á sama málið svo, að það verði öldungis ólíkt. Þegar menn taka hin helgustu orð, sem sótt eru í djúp mannlegs og guðlegs anda, og setja önnur í þeirra stað, sem að eins þýða eitthvað, sem viðber á yfirborði tilverunnar; þegar menn halda hug-

myndirnar um mikilvægustu aðalsannindi kristinnar trúar sjeu að eins austurlenzkar myndir, er menn verði að afmá smátt og smátt, svo að spjaldið er þær voru dregnar á með mikilli fegurð, geti orðið öldungis autt; þegar hinar alvarlegustu og hörðustu áminningar smám saman eru deyfðar, til þess þær heimti ekki of mikið, og nöfn dygða og glæpa eru löguð eptir vana veraldarinnar, svo þau hræði ekki um of: þá er það til lítils, þó nafn Krists sje nefnt endur og sinnum og kenningin sje kölluð kristileg, því þá er hún það ekki.

Þetta veldur að menn heyra nú sjaldan nefnt orðið endurfæðing, og jeg heimta ekki heldur, að það sje jafnaðarlega nefnt í daglegu tali, því vjer eigum ekki að venja oss á, að hafa þau hin mikilvægustu orð ætíð á vörunum, því á þann hátt mundum vjer svipta þau lotningu þeirri, er þeim ber. En nú heyrist orð þetta sjaldan, jafnvel í helgum ræðum; vera má það þyki of þýðingarmikið og heimtufrekt, og þess vegna tala menn heldur um að betra sig, að leggja niður bresti, og sækjast eptir dygðum. Þetta er að sönnu innifalið í endurfæðingunni, en getur optsinnis snortið hegðunina eina, og ekki hugarfarið, einstaka hluti og ekki lífernið allt. Aptur á mót nær endurfæðingin til lífernisins alls. Og fagnaðareyrindi Krists vill einmitt láta oss kannast við, að maðurinn eigi ekki að vera ávallt í því ástandi, sem nú er orðið honum eðlilegt, heldur eigi hann að komast úr því, með því að breyta gjörvöllu hugarfari sínu. Sumir menn falla í opinbera lesti, en sumir eru þegar á unga aldri vandir við reglusemi og siðlæti; sumir fæðast upp í fávizku, og þeim er ekkert kennt til menntunar, en hjá sumum er vitið skerpt þegar á unga aldri, og þeim eru kennd margs konar vísindi; en í þeim öllum býr samt sú eptirsókn og sú viðleitni, sem þeim er eðlileg, en guðsríki mótstæðileg, og miskun Drottins á að lagfæra.

En það ástand, sem nú er manninum eðlilegt, er í því fólgið, að hann er sokkinn niður í heiminn, og álítur gæði hans hin æðstu gæði: því það er skilningarvitum mannsins eðlilegt, að sækjast eptir tímanlegum gæðum, og fjarri fer því, að jeg segi þau sjeu ill og skaðvænleg eptir eðli sínu. Guð skóp þau ekki til

að freista vor, heldur til þess vjer skyldum njóta þeirra í hófi og á hæfilegum tíma, og gleðjast af miskun hans. En spillingin er í því fólgin, að stundleg áhyggja hefir deyft skilninginn á hinu andlega, og löngunin til himneskra gæða er orðin svo lítil, að sálin vill hvílast í hinu jarðneska. Hver er sá löstur, er ekki sje sprottinn af þessari óseðjanlegu eptirsókn jarðneskra gæða, er kemur manninum til að brjála niðurskipun Drottins, og sækjast eptir hinu óæðra, svo sem væri það hið æðra? En það er ekki á löstum og óbótaverkum einum, að hið jarðneska hugarfar sýnir hversu algengt það sje; því optsinnis sjáum vjer, einnig hjá þeim, sem hegða sjer óaðfinnanlega, og eru skynsamir, og, ef til vill, í mörgu tilliti maklegir elsku vorrar, nokkurs konar fastheldni við stundlega hluti, sem tálmar hinu æðra lífi. Þegar hyggindin vara oss við syndum, og hvetja oss til góðra verka, þá er það optast nær inntakið, að vjer eigum að forðast syndina, af því hún steypi þeim í ógæfu, sem í henni gjörist sekur, en sækjast eptir dygðinni, af því hún veiti stundleg gæði, heilsu, velmegun og heiður. Jeg ætla nú ekki að grennslast eptir því, hvort þetta sje satt, og ekki heldur eptir því, hvernig fara mundi, ef vjer kenndum unglingunum að haga sjer eptir þessu, og þeir sæu síðan að lestirnir hreykja höfði hegningarlaust, að hjegómagirni og drambsemi og sjerplægni reiðir vel af, en sannleikur og rjettlæti verða fyrir mótspyrnum og ofsóknum; en að hinu spyr jeg, hvort það sje hreinlæti, að forðast hið óhreina einungis fyrir þá sök, að það eyði stundlegri vellíðun? eða hvort það sje rjettlæti, að sækjast eptir hinu góða, einungis vegna þess, það veiti stundlega farsæld, að krefjast tvöfaldrar borgunar fyrir það sem menn láta í móti sjer, og leita sjer jarðnesks hagnaðar með hverju sem menn gjöra? Hversu opt verðum vjer þess ekki varir, þegar vjer tölum við mennina um leiðslu guðlegrar forsjónar, að þeir halda hún miði einungis til að afla tímanlegrar farsældar; meðan þess er nokkur von, að hinar óglöggu, undarlega samtvinnuðu götur muni geta leitt til farsælla ástands, er þeir kalla, meðan ætla þeir sjer hálfvegis að varðveita trúna; en þegar sú von er úti, þykjast þeir ekki hafa ástæður fyrir trúnni, og gleyma því, að föðurleg forsjón Guðs lýsir sjer

einmitt opt í því, að hún synjar oss stundlegra gæða, eða tekur þau frá oss, til þess vjer lærum að meta æðri gæði rjettilega, og getum orðið hæfilegir til að njóta þeirra. En með því það kemur alstaðar fram, að maðurinn er sokkinn niður í jarðneskan munað, þá þarf hann að breyta hug og hjarta, hann þarf að endurfæðast, til að geta öðlazt guðsríki.

Þangað vill Guð leiða mennina, er hann lætur þá finna, að stundleg gæði eru ónóg og armæðusöm og hjegómleg. Spurðu þræl auðæfanna, hvort þau veiti honum farsæld. Hann mun halda svo fast í fjársjóðu sína, eins og þú ætlir að ræna þeim frá honum, hann mun verja þá, eins og ljónið ver hvolpa sína, og samt sem áður mun hann meðkenna fyrir þjer, að hann hafi aflað þeirra með mikilli fyrirhöfn, gætt þeirra með mikilli áhyggju, og samt sje hann fátækur innan um öll auðæfi sín. Spurðu þræl hins hjegomlega heiðurs á líkan hátt; vera má hann þykist öðrum fremri, og þú mundir ekki geta komið honum til að láta hót af virðingu þeirri, er hann þykist hafa aflað sjer, en samt sem áður verður hann að játa, dýrð hans hafi sært hann og meitt á margan hátt, að lof mannanna og virðing veraldarinnar sjeu eins og óstöðugir vindar loptsins, að metorðagirndin sje öfundsjúk og verði fyrir öfund, að hún sje gírug, og seðjist þó aldrei og fái aldrei hvíld. Spurðu enn fremur þann, er sækist eptir holdlegum munaði, og hann mun ekki þykjast geta nógsamlega aumkast yfir, eða ef til vill, smánað líf hinna iðjusömu og bindindissömu, og vildi ekki fyrir hvern mun að það ætti fyrir honum að liggja. En spyrjir þú hann svo, hvort líf hans sje ánægjufullt og yndislegt og öfundsvert, mun hann sjálfur segja þjer frá lífsleiða þeim, er kvelur hann, frá ormi þeim, er bítur hann, og aldrei deyr, frá eldi þeim, er brennur í honum og aldrei slokknar. Þessi leiðindi, sem fylgja hinni veraldlegu nautn, og þessi þorsti, sem veröldin aldrei fær slökkt, er harla sár, og mennirnir ásaka optlega fyrir þá sök þann er stjórnar forlögum þeirra; þó leiðir hinn eilífi Faðir börn sín optsinnis aptur til sín einmitt með þessu móti; með sárindunum kennir hann þeim að leita sjer lækninga, og með skorti leiðir hann þau til nægta, og með órósemi til rósemi.

Samt sem áður heldur maðurinn í baráttu þessari frjálsræði sínu. Hann getur örvinglazt, og sleppt voninni á Guði og sjálfum sjer, á þessu lífi og öðru, og þá fer honum, eins og fótgöngumanni á eyðimörku, sem leggst heldur niður í hinn glóánda sand, og kvelst af þorsta, enn að herða sig dálitla stund lengur, til að ná til svalandi lindar. En hann getur líka haldið á fram að leita, og hver sem leitar, hann mun sannarlega finna, því lindir lífsins eru ekki fjarlægar neinum af oss. Ef nokkur heyrir köllun Guðs, þó ekki sje fyrr enn í þjáningunum, og fylgir henni, og snýr sjer innst í hjarta sínu til Guðs, þá mun renna upp fyrir honum nýtt ljós, og við það mun honum sýnast lífið og heimurinn og sjálfur hann, allt öðru vísi enn áður; og ljós þetta er ekki að eins bjart og hlýtt, heldur færir það og frið — þann frið, sem heimurinn getur ekki gefið, sem hefir ekki upptök sín í holdi og blóði, þann frið Guðs, sem æðri er öllum skilningi. Hjá sumum kemur þetta hið nýja líf snögglega, eins og þegar sólin allt í einu kemur fram undan dymmu skýi, og þeir geta nærri því greint til stað og stund, er þeir hafi endurfæðzt; hjá sumum kemur það, án þess þeir verði þess varir, eins og þegar himininn er skýjum hulinn, en þau eyðast smátt og smátt, og hann verður heiður um síðir; en það verður að koma hjá öllum oss, því enginn getur öðlazt guðsríki, nema hann fæðist að nýju. Uppruni þessa hins nýja lífs er leyndardómsfullur — því hver getur lýst veginum frá himni til jarðar? — en þegar það er orðið til, er það opinbert, því það er ekki annað enn það, sem hver maður kann og á að reyna. Þegar Drottinn vor talaði um þetta, sagðist hann tala um jarðneska hluti, það er um slíka hluti, er verða meðal vor hjer á jörðunni; og hver sá, sem er honum handgenginn, verður að geta sagt eins og hann: Vjer tölum það, er vjer vitum og vottum það, er vjer höfum reynt (Jóh. 3, 11. 12).

Hvern þann, er nálgast land hins eilífa friðar, mun hjartað knýja til að segja, eins og postulinn sagði forðum, þá er Drottinn varð dýrðlegur fyrir augum hans: hjer er gott að vera, hjer skulum vjer reisa oss tjaldbúðir! Og hvað kemur þá til vjer dveljumst þar ekki? Vjer eigum ekki enn að yfirgefa veröldina,

og það er ekki að eins hið líkamlega eðli vort, sem leiðir oss æ að nýju út í baráttu veraldarinnar, heldur hnígur og andlegt eðli vort æ að nýju að umsvifum hennar, unaðsemdum og andstreymi. Fyrir það er ekki öllu aflokið með einni orustu og einum sigri, heldur þurfum vjer hvern dag á apturhvarfi að halda, því hvern dag förum vjer á villigötur. Ó Guð vor! yfirgef þú oss ekki, heldur kveik í oss á hverjum degi ný áform og nýja sjálfsafneitun, og lát oss svo reyna hvað endurfæðing sje! Hvert sinn er syndin hreifir við sjer í sálum vorum, hvert sinn er fásinna tælir þær, hvert sinn er veröldin æsir upp í mjer illan ákafa, hvert sinn er ómennska og hirðuleysi kefja í mjer hinn rjetta ákafa, hvert sinn er jeg gleymi ríki þínu og rjettlæti, hvert sinn er jeg örvænti mjer náðar þinnar og miskunsemi — hvert sinn er jeg skeika, þá lát mig að nýju finna til þeirrar hryggðar, sem þjer er þóknanleg og aflar sáluhjálplegs apturhvarfs (2. Kor. 7, 10)! Snú þú mjer, Drottinn! svo verður mjer snúið (Jer. 31, 18)!

---

## 36.

## TRÚIN Á DROTTIN VORN JESÚM KRIST.

Hver sem lesið hefir ræðu Páls postula, er hann skildi við öldungana í Efesus (Post. 20, 19 o. nn. vv.), mun sjálfsagt viðurkenna, að þar tali ráðvandur og hreinskilinn maður, svo og hitt eigi síður, að hann sje ekki ringlaður, nje hafi látið sig villa af neins konar hugarburði, heldur mæli hann sönn og gætileg orð, eins og postulinn segir á öðrum stað (Post. 26, 25). Hann var farinn að eldast, þegar hann fór burt úr Efesus, og hafði kennt í mörg ár, ýmist opinberlega eður í heimahúsum, og þolað margar ofsóknir, og þegar hann horfir fram á þau árin, sem fyrir höndum

kunni að vera, þá sjer hann ekkert í vændum, utan bönd og hörmungar í hverri borg. Og hvað er það þá, sem hann hefir þolað, og er enn albúinn að þola slíkt fyrir? hvað er það, sem hann metur ekkert annað hjá, svo að honum jafnvel þykir ekki undir um líf sitt? hvert er það starf, sem honum er á hendur falið, og hann er staðráðinn í að fremja af fúsum hug, slíka stund sem honum verði lífs auðið, þrátt fyrir alls konar harmkvæli? Hann ætlar að boða Grikkjum og Gyðingum, og hverri þjóð, er Guð lofar honum til að koma, apturhvarfið til Guðs og trúna á Drottin vorn Jesúm Krist.

það hefir hann og gjört, og allir hinir postularnir, sem voru í samverki með honum, og að vísu hafa þeir ekki unnið fyrir gýg, heldur hefir Drottinn unnið með þeim og blessað starf þeirra. Hver fær í mót mælt, að mikið apturhvarf hafi leitt af prjedikun þeirra Páls postula, og menn hafi víða um lönd, einkanlega þar sem mest á reið og styrkur mannkynsins er mestur, snúizt frá skurðgoðavillu til hins sanna og lifanda Guðs, og hof og hörgar hafi eyðzt, en kyrkjur verið reistar til ágætari guðsdýrkunar, og að sú guðsdýrkun hafi haft áhrif á líferni mannanna? Oss er alkunnugt, hversu fjarri fer — því er miður! — að sannarlega kristilegt líferni hafi ætíð orðið samfara nafninu „kristinn“, enda vitum vjer og hitt, og þökkum það Guði, að prjedikunin um rjettlæti, bindindi og ókominn dóm hefir ekki verið árangurslaus. Hver fær í mót mælt, að trú Jesú Krists hafi breiðzt út yfir löndin? Oss er alkunnugt, hversu fjarri fer — því er miður! — að trú þessi hafi ætíð verið hrein og sönn, og djúp, og stöðug og lifandi, eins og hún ætti að vera; enda vitum vjer og hitt, og þökkum það Guði, að þeir hafa ætíð verið mjög margir, sem komizt hafa í sátt við Guð fyrir nafn Jesú, og öðlazt hafa þrek til að sigrast á veröldinni, og fyrirlíta saurugan ávinning hennar og munað, en meta lítils og bera karlmannlega veraldleg harmkvæli, og þeir hafa komizt í skilning um, að trú Jesú er sú leið, sem liggur til guðsríkis.

það, sem postularnir prjedikuðu, á að vera prjedikað sífelldlega enn í dag, á þann hátt, að vjer drögum ekkert undan, það er

nytsamlegt sje — eins og Páll postuli að orði kemst — heldur birtum alla ráðstöfun Guðs. En það er ráðstöfun hans til frelsis mönnunum, að þeir bæti ráð sitt og trúi fagnaðarboðskapnum (Mark. 1, 15). Kenningin um trúna á Drottin vorn Jesúm Krist á því ætíð að vera samtengd kenningunni um apturhvarfið til Guðs.

Þegar litið er sem snöggvast í hinar helgu ritningar, kemur það þegar í ljós, að fagnaðarboðskapur Krists tengir öll fyrirheit sín við trúna, svo sem það skilyrði, er eitt saman ávinni manninum gæði þau, er honum er heitið. Þar er alstaðar kennt, að Guð hafi selt fram Son sinn eingetinn, svo enginn þeirra glatist, er á hann trúa, heldur öðlist þeir eilíft líf (Jóh. 3, 16). Þegar því fólkið spurði: hvað það skyldi aðhafast svo það ynni Guðs verk, þá svaraði Jesús: það er það sem Guð heimtar, að þjer trúið á þann, sem hann sendi (Jóh. 6, 28. 29). Og þegar Jesús sendi frá sjer lærisveinana til að boða öllum mönnum fagnaðareyrindið, tók hann svo til orða: hver sá skal verða hólpinn, er trúir og lætur skírast, það er að skilja: hver sem trúir og er svo öruggur og styrkur í trúnni, að hann hefir þor til að játa hana fyrir öllum í skírninni, og vígja sig svo til háðunga og ofsókna fyrir sakir trúarinnar.

En með því það var höfuðeyrindi Krists í heiminn, að rjettlæta oss fyrir Guði (2. Kor. 5, 21), þá er rjettlætingin einkanlega tengd við trúna, svo að trúin á Drottin vorn Jesúm Krist er rjettlætandi trú. Nýja testamentið kennir alstaðar, að menn verði rjettlættir fyrir trúna án verka lögmálsins (Rómv. 3, 28). Vjer vitum — segir postulinn — að maðurinn verður ekki rjettlættur af verkum lögmálsins, heldur fyrir trúna á Jesúm Krist (Gal. 2, 16); og hann þykist ekki vera í sameiningu við Krist, nema því að eins, hann leiti sjer ekki rjettlætingar af hlýðni við lögmálið, heldur þeirrar, sem Guð veitir fyrir trúna á Jesúm Krist (Fil. 3, 9).

Nú með því Guð — svo sem nú var sagt — mun ekki dæma oss rjettláta, nema vjer trúum, þá verður trúin að hafa einhver áhrif á hugarfarið, þau er maðurinn verði Guði þókn-

anlegur fyrir. En hvaða áhrif hefir þá trúin á Jesúm á hugarfar mannsins? Í fyrsta lagi vekur hún hann til að meta það fram yfir allt, að rjettlætast fyrir Guði. Vjer tölum einungis um hina sönnu trú, en ekki um hina hræsnisfullu, hvort sem á hræsninni ber mikið eða lítið; vjer tölum ekki um þá, sem hafa trúna til þess að áfella aðra með, heldur um þá, sem hafa hana sjer til sáluhjálpar; vjer tölum einungis um það, sem fram verður að fara í hjarta hvers manns, sem alvörugefinn er og hreinskilinn, og leitar Jesú Krists til að verða rjettlættur fyrir hann. Og hvað verður það þá, sem kemur manninum til að yfirgefa unað og áhyggjur, og flýja tálsnörur auðæfa og metorða og munaðar, en leita undir kross Krists, í miðjum hinum jarðnesku önnum og athöfnum, og faðma hinn krossfesta með trúnni? Það er ekkert annað enn sú tilfinning, að ekkert af því, er vjer getum áunnið og öðlazt í veröldinni, komi oss að neinu haldi, ef vjer reynumst ekki rjettlátir fyrir Guði; og þessi tilfinning dafnar og styrkist, því stöðugri sem trúin verður. Það er oss alkunnugt, og því miður! sjáum vjer það dag hvern, að þeir eru margir, sem einskisvirða og fyrirlíta þá hina sömu trú, sem forðum var boðuð um veröldina með þvílíku kappi, og postularnir hafa barizt fyrir, og píslarvottarnir látið líf fyrir. En sjáum vjer ekki einnig, hve lítið þeim þykir undir að rjettlætast fyrir Guði? Það lítur út eins og þeir haldi, að ef nokkur Guð sje til, þá hljóti hann að dæma þá rjettláta; annars kostar eru þeir algjörlega bendlaðir við jarðneskar hugrenningar, og lypta aldrei huganum til þess, sem æðra er, og reyna aldrei að komast í skilning um, í hverju sambandi þeir sjeu við Guð. Þó eru og þeir til, sem þykjast vera rjettlátir fyrir Guði sakir verka sinna; og það er annað ætlunarverk trúarinnar að eyða þessum hinum skaðlega hugarburði. Að vísu fullnægði maðurinn lögmálinu, og væri rjettlátur fyrir lögmálið, ef hann væri fullkominn, flekklaus og kappsamur í hjarta sínu, og ræða hans væri lifandi og heilög, viturleg, skynsamleg, uppörfandi, huggunarfull, og ekkert illt liði fram af vörum hans, og ekkert afbrot nje hirðuleysi findist í fari hans. En hvernig á að vera, það sje ekki skaðlegt — eptir því sem maðurinn er í hugarfari

og orðum og gjörðum — ef hann gjörir sjer í hugarlund, það sje að fullnægja lögmálinu, að vera slíkur sem hann hefir verið, og breyta eins og hann hefir breytt, og að Guð heimti ekki neitt meira? Slík meining veldur því, að maðurinn gjörir sig ánægðan með það, sem hann hefir komizt, en sækist ekki eptir meiru, og hirðir ekki um að komast að takmarki sínu; því hvers vegna ætti sá maður að sækjast eptir framförum í vizku og góðleik, sem hjeldi svo lítið vera varið í fullkomleika þann, sem lögmálið heimtar, að hann væri búinn að fullnægja lögmálinu? Og ætlar þú í alvöru, að nokkur af Adams niðjum muni geta gengið fram fyrir dóminn, og sagt: Þú hinn alvísi og rjettláti Guð! flett þú upp þinni heilagri lögmálsbók, en jeg mun fletta upp þeirri bók, er orð mín og verk eru í rituð; rannsaka þú hjarta mitt og hugarfar, því jeg beiðist ekki ueins annars, enn að hugur minn komi allur í ljós; og vil jeg, að þú dæmir mig og metir rjettlátan, eptir því sem jeg hefi til unnið með spaklegum orðum og góðum verkum, og með góðleik og rjettlæti og kærleika og stöðugleik sálar minnar? En ef oss yrði að bjóða við þvílíku drambi, og standa af því ótti og skelfing, þá föllumst vjer með því á orð kristinnar trúar, að allir hafi syndgazt og hafi skort á því hrósi, sem fyrir Guði gildir, og verði rjettlættir án verðskuldunar af guðlegri miskun fyrir endurlausnina í Kristi Jesú (Rómv. 3, 23. 24).

Nú ef einhver hirti ekki um að vita meira, enn að vjer sjeum allir undir syndina seldir, og að Guð muni vera oss líknsamur sakir Krists, og hjeldi svo á fram að syndga í trausti miskunarinnar, eða lifði í ómennsku og hirðuleysi óttalaust eptir sem áður, þá gæti að sönnu trú hans orðið honum til falls, og það miklu framar enn eintóm þjónusta við lögmálið; enda væri þá trú hans öll önnur, enn sú er heimtuð er til rjettlætingar. Því hin sanna trú á Drottin vorn Jesúm Krist er lífgandi trú. Þar sem postulinn jafnar saman trúnni og lögmálinu, tekur hann svo til orða: Ef þvílíkt lögmál hefði verið gefið, sem lífgað gæti, þá er víst, að rjettlætingin fengist fyrir lögmálið (Gal. 3, 21). En eins og Mósesar lögmál — þótt það sje heilagt, og boð-

orðið sje heilagt og rjettvíst og gott (Rómv. 7, 12) — gat ekki komið öðru til leiðar með öllum boðum sínum, hótunum og tilskipunum, enn hlýðni þeirri fyrir manna sjónum, sem aldrei var ónauðug með öllu: eins getur ekkert annað lögmál getið af sjer fullkomna, fúslega og glaða hlýðni, nema það sameini sig guðlegum fyrirheitum; því þó vera kunni, það geti kveikt lotningu við það, sem gott er, þá gagntekur það ekki hjörtun með kærleika þeim, sem það heimtar til fullnægju sjer, en megnar þó ekki að glæða. Fyrir því heimtar einn af postulunum apturhvarf ekki að eins frá vondum, heldur og frá dauðum verkum; hann segir, að fórn Krists eigi að hreinsa samvizku vora af dauðum verkum, svo að vjer þjónum þeim hinum lifanda Guði (Hebr, 6, 1. 9, 14). Þar, sem líf og krapt vantar í hjartað, þar er enginn fullkomleiki; og þessi orð Krists, að hann sje kominn af himnum ofan og gefi heiminum líf (Jóh. 6, 33), og að hann sje kominn til þess að menninir hafi líf og fulla nægt (Jóh. 10, 10) — þessi orð, sagða jeg, eru að vísu fátæklega skilin, finni menn ekki aðra þýðingu í þeim, enn að Kristur hafi komið til að veita oss mönnunum farsælu. Já, að vísu mun hann veita oss ekki að eins farsælu, heldur og sælu, og sú sæla er í því fólgin, að vjer tökum af nægtum hans, og líf hans kviknar í oss, þegar vjer sameinumst honum í trúnni. Fyrir því getur Páll postuli með sanni sagt, að það, sem lögmálinu hafi verið um megn, er það var vanmáttugt vegna holdsins, það hafi Guð gjört, er hann sendi Son sinn til syndafórnar, svo að kröfu lögmálsins yrði fullnægt á oss, sem göngum ekki eptir holdinu, heldur eptir andanum (Rómv. 8, 3. 4).

Sjerhvað, er sannarlega er gott í lífi mannsins, hefir upptök sín af trúnni. Enginn megnar að leysa líferni sitt úr ánauð holdlegleikans, nema hann hafi áður hafið huga sinn til hins andlega; enginn megnar að þjóna sannleika, rjettlæti og kærleika, nema hann trúi, að guðsríki sje í vændum, og allar góðar tilraunir safnist saman undir merki hinnar himnesku stjórnar til að efla ríki sannleika, rjettlætis og kærleika. Þessari trú getur og enginn maður hafnað með öllu. Nú ef þessi hin hálfa og veika trú, sem að eins er með lífsmarki í hjörtum mannanna, kemur svo miklu góðu

til leiðar, hversu mikið mun þá hin fulla og kröptuga trú megna að framkvæma! En engin trú er full og kröptug, nema trúin á Drottin vorn Jesúm Krist. Í henni er einnig fólgin trúin á Guð, hinn almáttka Föður, þann er skapað hefir himin og jörð, og heldur öllu í sinni voldugri hendi og stjórnar öllu, svo ekkert er svo mikið, að honum vaxi það í augum, og ekkert svo lítilfjörlegt, að honum þyki það einskisvert — þann er snýr öllu með föðurlegri forsjá þeim til blessunar, sem elska hann. Enginn segi, að þessa trú eigi ekki að prjedika, þegar vjer prjedikum Jesúm Krist; því vjer eigum ætíð að prjedika í Jesú nafni, eins og postular hans prjedikuða, að sá, er fram gangi fyrir Guð, eigi að trúa því, að Guð sje til, og muni launa þeim, er leita hans (Hebr. 11, 6), og allur hinn kristilegi fagnaðarboðskapur miðar til þess, að innræta oss fullkomna trú á Guð og vald hans, og rjettlæti, og miskunsemi. Enginn segi, að þessi trú geti verið til án Krists. Víst er meðvitundin um Guð og ríki hans svo innrætt mannlegu hjarta, að hún verður ekki afmáð; en spyrjið reynsluna og sögu mannkynsins, hvað vakandi hún hafi orðið án kristinnar trúar. En í frá þeim tíma, er hin kristna trú tók að breiðast út yfir löndin, þá hefir margur geisli af henni skinið jafnvel inn í hjörtu þeirra, sem ekki hafa viljað þýðast hana alla; og því hafa margir náð þeirri þekkingu á Guði, er vjer megum ekki kalla ranga nje ónýta, þó ekki hafi þeir náð Kristi sjálfum. En öllum, er komizt hafa svo langt, að þekkja Krist og krapt upprisu hans og hluttekningu í píslum hans (Fil. 3, 10) — þeim öllum hefir Guð birzt ekki að eins í sólum himinsins og dásemdum jarðarinnar, þeim er votta þegjandi eilífan mátt og guðlega náttúru Guðs, og ekki að eins í hinum stopulu hreifingum í hjarta mannsins, þeim er jafnótt myrkvast og óskýrast, heldur í **honum**, sem Föðurnum þóknaðist að öll fylling skyldi í búa (Köl. 1, 19), og allir fjársjóðir vizkunnar og þekkingarinnar eru í fólgnir (Kól. 2, 3), og með sanni gat sagt: jeg og Faðirinn, við erum eitt (Jóh. 10, 30), og hver, sem sjer mig, hann sjer þann, er sendi mig (Jóh. 12, 45); þeir allir verða varir við guðlega miskun, ekki að eins í einstöku æfikjörum, og ekki að eins í óskýru hugboði, heldur og í hinu dýrmætasta og yfirgripsmesta

miskunarverki; og þegar þeir finna í hjörtum sínum óumræðanlega elsku Guðs og Krists, þá hverfa þær hinar djúpu og þungu hrellingar sálarinnar, eins og náttmyrkrið fyrir morgunljósinu, og þeir verða gagnteknir af ást á Guði og mönnum, og finna í sjer hug og dug til nytsamlegra framkvæmda.

Og þá er trúin á Drottin vorn Jesúm Krist sáluhjálpleg trú, og sýnir það undir eins hjer á jörðu í raunum og andstreymi þessa lífs. Flestir ímynda sjer frelsið og sæluna, sem Kristur boðar, eins og gjöf, er þeim verði fengin á síðan að enduðu þessu lífi; og sumir, sem kristnir kallast, gjöra sjer í hugarlund, að þegar þeir hafi lagt svo mikið í sölurnar, afneitað svo mörgu, og þolað svo mikið, verði sjer það endurgoldið á upprisudegi sínum í holdlegum munaði þeim, er þá hafi skort hjer á jörðu, og óvinum þeirra muni verða frá vísað, svo þeir geti orðið hróðugir yfir þeim. En guðsríki er ekki matur og drykkur, nje holdlegur munaður og veraldleg sæla, heldur rjettlæti og friður og fögnuður í heilögum anda (Rómv. 14, 17). Sá hefir enginn óðal á himni, sem ekki finnur þetta í huga sínum hjer á jörðu, og finnur hjer í heimi til krapta annars heims. Allt hjer á jörðu er að sönnu ófullkomið, og jafnvel þeir, sem hafa frumgróða Andans, andvarpa eptir lausninni (Rómv. 8, 23); en samt eiga lindir hins eilífa lífs að spretta upp í hjarta mannsins þegar hjer í heimi, og geta það líka. Og þegar þær gjöra það, finnum vjer í huga vorum, að fyrirheit Krists miða ekki einungis til annars heims, heldur taka þau að rætast þegar hjer í heimi. Og í baráttu, þrautum og þjáningum þessa lífs reit Páll postuli þessi hin kröptugu trúarorð, er svo optsinnis hafa glætt trúna í hjörtum annara sannkristinna manna: „Ef Guð er með oss, hver megnar þá móti oss? Hann, sem ekki þyrmdi sínum eigin Syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hví skyldi hann ekki og svo gefa oss allt með honum? Hver vill ásaka Guðs útvalda? Guð er sá, sem rjettlætir. Hver er, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er, já, miklu meira, sem líka er upprisinn, hver og er á hægri hönd Guði, hver eð einnig er meðalgangari fyrir oss. Hver mun svipta oss kærleika Krists? þjáning eða þrenging? eða ofsókn? eða hungur? eða nekt? eða háski? eða

sverð? En í öllu þessu meir enn sigrum vjer fyrir aðstoð hans, sem elskaði oss. Því jeg er þess fullviss, að hvorki dauði nje líf, hvorki englar nje höfðingjadæmi, nje völd, hvorki hið nálæga nje hið ókomna, hvorki neitt, sem á himnum er, nje heldur neitt, sem í undirdjúpunum er, nje heldur nein önnur skepna, mun geta svipt oss Guðs kærleika, sem er í Kristi Jesú, Drottni vorum (Rómv. 8, 31 o. nn. vv.). Þeir eru margir, sem talað hafa háleit orð, þau er svo má að orði kveða, að hljómað hafi síðan í hjörtum allra kynkvísla, og ekki að eins vakið menn til að undrast sálar styrkleika þeirra er töluðu, heldur einnig kveikt í hjörtum annara þann krapt, er sigrast á veröldinni. En ekkert þekki jeg, það er í samjöfnuð geti komið við þessi orð postulans; og þau eru sprottin upp úr djúpi kristinnar trúar; maðurinn, sem talaði þau, var kominn í skilning um Krists frelsi, og fann það í hjarta sínu, og var gagntekinn af því. Og hver sem á sama hátt færir sjer það í nyt, mun einnig sjálfur komast að raun um, að trúin á Jesúm Krist gjörir oss sæla.

Þessi trú hefir verið og er enn fyrirlitin í veröldinni — en sú fyrirlitning hefir sjálf hegninguna í för með sjer, þar sem er áhyggja sú, er etur hjörtu mannanna, og það hið huggunarsnauða ástand mannsins, þegar sífelldlega liggur við, að kvíðinn sigrist á voninni og sorgin á gleðinni, og maðurinn sjer ekki fram á annað, enn eintóma dymmu, og kalla má, að hinar glislegu myndir lífsins sjeu dregnar upp á svartmyrkur dauðans. En þegar jeg sje einhvern, er svo mjög ofmetnast — hvort sem það er af auðæfum, eða metorðum, eða veraldlegri vizku — að hann dirfist að fyrirlíta hina helgu trú, þá er ein saman rjettlætir, lífgar og sæla gjörir: þá kemur mjer í hug sá hinn sami postuli, er hann hafði áður fyrir sagt, — að bönd og harmkvæli biðu sín í hverjum stað, og stóð fjötraður frammi fyrir Agrippu konungi, og hafði talað um apturhvarf til Guðs og trúna á Drottin vorn Jesúm Krist. Þá mælti konungurinn svo sem af spotti: lítið vantar á, að þú hafir talið mig til að taka við kristni; en Páll svaraði í alvöru hjarta síns: Þess vildi jeg biðja Guð, hvort sem þar vantar á mikið eður lítið, að ekki að eins þú, heldur og allir, sem til mín heyra í dag,

yrðu slíkir sem jeg em, að fráteknum hlekkjum þessum (Post. 26, 28. 29).

En einnig með hlekkjum þessum. Því sælla er, að vera bundinn á líkama og frjáls í trúnni, enn vera sem frjálsastur að líkamanum til, og standa bundinn í andlegum þrældómi, án trúar og vonar á Guð.

---

## 37.

### HVAÐ ÞAÐ SJE AÐ TRÚA.

Það er fyrirheit kristinna trúarbragða, að þau skuli veita hvíld sálum vorum og eyða æ betur og betur yfirráðum syndar og sorgar, og gjöra líf mannsins hjer á jörðu æ frjálsara og helgara, og búa hann þannig undir æðri tilveru: Með hverju ætla þau sjer að koma þessu til leiðar? Hvert er það ráð, er eigi við alls konar sjúkleika og öllum sárum? Hvað heitir sá kraptur, er yngir hjartað upp, og veitir hinni veiku og ráðrúmslitlu mannskepnu nógan styrkleika til að geta sigrazt á freistingum og hörmum og kvíða dauðans, og hafið huga sinn og viðleitni yfir dauðlegleikann er ógnar henni og öllu því hún á, og árætt að lifa og starfa til að ávinna sjer hlutskipti í því, sem eilíft er og ævarandi. Ef vjer spyrjum heilaga ritningu, er ein saman getur skorið úr hvað kristin trúarbrögð sjeu, og hvílíkur sje vilji þeirra, þá nefnir hún ekkert til þess utan trúna; ritningin segir þráfaldlega, að henni sjeu gefin fyrirheitin, og vegsamar hána, svo sem uppsprettu alls góðs, er eigi að betra og hugga manninn; getirðu trúað, segir Drottinn vor, þá muntu sjá dýrð Guðs (Jóh. 11, 40), en án trúar getur enginn Guði þóknazt (Hebr. 11, 6). Trúin er ekki að eins tekin fram yfir alla mannlega vizku og allar hugmyndir, er skemmta hinu tilfinningarlausa viti, og öll ráð, er mennirnir hafa sjálfir

hugsað upp, til að ávinna sjer hylli og miskun guðlegrar veru; heldur er hún einnig tekin fram yfir lögmálið, fram yfir það lögmál, sem er guðlegs uppruna, og aldrei á að ónýtast, og tilgreinir og heimtar það, sem sjerhver maður á að gjöra. Páll postuli kveður svo að orði: „Ef þvílíkt lögmál hefði gefið verið, að það gæti lífgað, þá er það ugglaust, að rjettlætingin hefði fengizt af lögmálinu. En ritningin sýnir að allir eru sekir, svo að fyrirheitið veitist þeim trúuðu, fyrir trúna á Jesúm Krist“ (Gal. 3, 21. 22). En því ómissanlegri, sem kristin trúarbrögð meta trúna mönnunum til frelsunar, því meiri nauðsyn er oss á að íhuga eðli og ásigkomulag trúarinnar, og komast í fullan skilning á, hvað það sje að trúa.

Trúin, segir postulinn, er örugg eptirvænting þeirra hluta, sem menn vona, og óbifanleg sannfæring um það, er þeir sjá ekki (Hebr. 11, 1). Það er og undir eins auðsjeð, að þar sem skilningarvitin skynja hið sýnilega, og það sem menn geta heyrt og fundið til, þá skynjar trúin hið ósýnilega og andlega. Það er ekki trú, þótt þú sjáir að sól og tungl og stjörnur gangi yfir himinhvolfið eptir óbifanlegum og öflugum lögum, og að sumar og vetur, sáning og uppskera, komi hvort á eptir öðru í rjettri röð; og jafnvel þótt að hátign náttúrunnar fylli hjarta þitt undrun og lotningu, og jafnvel þótt þú kallir náttúruna Guð, þá er það ekki trú að heldur, því hugur þinn staðnæmist enn þá við hið sýnilega og skynjanlega. Því segir og postulinn enn fremur: fyrir trúna komumst vjer í fullan skilning um að heimurinn sje til orðinn fyrir Guðs orð, á þann hátt, að hinir sýnilegu hlutir sjeu til orðnir af hinum ósýnilegu. Með trúnni hefjum vjer oss þá yfir náttúruna og allt hið skynjanlega, til hins háleita, eilífa, óskapaða Guðs, sem að er annað enn veröldin, og köllum hann Skapara vorn og Drottin. Það var ekki trú, þótt mennirnir sæu verk Krists; þau ljómuðu í augum trúaðra og vantrúaðra, eins og sólin skín yfir vondum og góðum. En að lærisveinar Krist könnuðust við guðlegan mátt hans í þessum verkum, það var trú; því hold og blóð gat ekki birt þeim það (Matth. 16, 17). Og þegar vjer enn í dag tökum við vitnisburðinum um Krist, þá er það trú; því

vjer höfum ekki sjeð það, er þeir sáu, en vitnisburðurinn um það hrærir huga vorn og hjarta, vjer finnum að hann er sannur og trúanlegur, og þannig geta þessi hin huggunarauðugu orð Drottins vors átt heima hjá oss: sælir eru þeir, sem ekki hafa sjeð, og trúa þó (Jóh. 20, 29)! Þess vegna er það og, að eins og vonin er ekki framar von, úr því hún er búin að rætast, þannig mun og trúin ekki framar vera trú, heldur skoðun, þegar oss eitt sinn auðnast að skoða augliti til auglitis. En vjer göngum enn þá í trúnni, en ekki í skoðuninni (2. Kor. 5, 7), og á meðan er það fyrir trúna, að vjer skynjum himneska og eilífa hluti, á meðan er hin jarðneska tilvera vor einskisverð og þýðingarlaus, utan vjer trúum.

Trú þarf þekkingar við, því hver, sem trúir, trúir einhverju, og þetta, sem hann trúir, verður hann að þekkja. Postulinn kveður svo að orði: hvernig eiga þeir að trúa á þann, sem þeir hafa ekkert um heyrt? en hvernig eiga þeir að heyra, án þess neinn sje til, er prjediki? og enn fremur segir hann: þannig kemur trúin af heyrninni, en guðsorð lætur menn heyra (Rómv. 10, 14 17). Enginn getur trúað á Guð, nema hann viti Guð sje til, og endurgjaldi þeim, er leita hans. Satt er það að vísu, að himnarnir framtelja lofgjörð Guðs, og öll verk hans vitna um hann; það er að vísu satt, að meðvitundin um Guð er meðsköpuð hjarta sjerhvers manns; en meðvitundin sefur, og auga mannsins fær ekki lesið nafn Guðs í sköpuðum hlutum, áður eyra hans heyri það nefnt. Enginn getur trúað á þann, er Guð út sendi, nema dýrð Krists sje áður búin að birtast honum. Enginn getur ímyndað sjer af sjálfsdáðum, hvílíkur Kristur hafi verið, og hvað hann hafi kennt og gjört og þolað, heldur verður sjerhver maður að nema það, fagnaðarboðskapur Krists hlýtur að vera undirstaða þekkingarinnar á honum, Kristur þarf að verða boðaður á jörðunni, áður enn mennirnir geti tekið við honum í trúnni. Þess vegna þarf maðurinn ætíð að hafa öðlazt nokkura þekkingu, áður enn trúin geti lifnað í hjartanu. Að vísu hafa margir, sem hafa að eins haft litla þekking og ófullkomna, verið miklu trúarsterkari, enn sumir aðrir, er vitað hafa miklu meir, en villzt út í efablandnar hugsanir; en þeir hafa þó að eins trúað því, er þeir þekktu, þótt þekking þeirra hafi

verið ófullkomin; og þegar hjartað er hreinskilið og trúir Guði, þá verður trúin æ fagnaðarsælli, eptir því sem þekkingin eykst. Vjer viljum ekki ginna þá upp á svimháar hæðir, nje niður í hin dymmu undirdjúp, sem eiga að vinna á láglendinu; vjer viljum ekki skora á kristinn almúga til djúpsærra og örðugra rannsókna; því sannindi kristinnar trúar skína að sönnu gegnum himna himnanna svo hátt sem hugurinn getur lypt sjer, en þau skína og í dalnum og fylla hann blómum og ávöxtum; eður með öðrum orðum: fagnaðarboðskapur Krists hefir í sjer auðlegð og fullnægju handa öllum mönnum, hversu ólík sem kjör þeirra eru, bæði á andlegan og veraldlegan hátt, handa barninu og fáfræðingnum, eins og handa spekinginum og hinum margfróða. En hve furðanlegt er það, að á þeirri öld, er svo almennt lofar þekkingu, og leitast við æ meir og meir að ávinna sjer auðæfi hennar, á þessari öld láta allflestir sjer nægja með svo ógreinilega og litla þekkingu á sannindum kristinnar trúar, að þeir vita varla af að segja, hvað fagnaðarboðskapur Krists hafi fært veröldinni; og hvernig eiga þeir þá að trúa þeim fagnaðarboðskap, sem þeir þekkja ekki? Nei! jafnvel þó maður heimti ekki af þjer að þú sitjir á meðal kennifeðranna og spyrjir þá og svarir þeim; þá er samt aldrei nein sannarleg trú í hjarta þínu, nema þú getir sagt, að svo miklu leyti sem skilningur þinn og kringumstæður leyfa: jeg veit á hvern jeg hefi trúað (2. Tím. 1, 1. 2), nema þú, sem lætur ekki á bresta við önnur tækifæri að verja meiningar þínar og málstað þinn, búir þig undir að geta varið þig með hógværð og lotningu fyrir hverjum, sem krefst, að þú gjörir grein fyrir þeirri von, sem í þjer býr (1. Pjet. 3, 15).

En þekking er ekki eins mikið og sannfæring, því þekking hefir þú, þegar þú getur skýrt frá, hverju aðrir trúi; en sannfæring hefir þú þá að eins, er þú trúir sjálfur, er þú fellst á og samþykkir þau sannindi, sem koma fram í huga þínum. Þetta samþykki sem gjörir þekkinguna að trú, kemur fram af fylgsnum sálarinnar, og einmitt til þess vill Guð ala oss upp og lagfæra, að vjer samþykkjumst því, sem rjett er og satt í djúpi hjarta vors. Því meðan hjartað er ekki rjett, verður og trúin röng, og því

getum vjer með sanni sagt, að af trú mannsins megi sjá hvílíkur hann sje. Sú kenning er til, að samkvæmt henni þjóna menn Guði, með því að hata og ofsækja og kúga, og verja málefni sannleikans, er þeir kalla svo, með báli og brandi; en fallist nokkur í hjarta sínu á þessa kenningu, hlýtur hjarta þess manns að vera drottnunargjarnt og harðúðigt og grimmt. Sú kenning er til, sem treður undir fótum reglur siðseminnar, og kallar hið illa gott og ber sig að ónýta lögmál Guðs; en fallist nokkur í hjarta sínu á þessa kenningu, hlýtur hjarta hans að hata reglusemi og stjórn, og sækjast eptir forboðnum hlutum. Sú kenning er til, sem leyfir að breyta ranglega, að ljúga og svíkja, til að koma fram góðum ásetningi, er menn kalla svo; en fallist nokkur á slíka kenningu, hlýtur hjarta hans að vera limskufullt og flárátt. En sú kenning er og til, sem boðar rjettlæti Guðs og kærleika; hver, sem samþykkist þessari kenningu, verður og í hjarta sínu að bera lotningu fyrir Guði og ást á Guði og mönnum. Þetta samþykki, sagða jeg, kemur fram af fylgsnum sálarinnar, þess vegna styðst það ekki að eins við ástæður þær, er vjer höfum til að hrinda með mótbárunum, og einungis leitast við að þrýsta vitinu til að samþykkjast; þú getur vitað, þótt þú trúir ekki; viti þínu getur verið fullnægt, þótt hjarta þitt sje ekki enn farið að finna til afls sannindanna, og taki ekki við þeim með fullu samþykki; trúin er ekki komin fyrr enn öll sálin finnur hvíld í sannindum, er hún viðurkennir. Slíka trú ljet postulinn í ljósi, þegar Drottinn vor spurði lærisveina sína, hvort þeir einnig vildu fara burt? og hann svaraði: Herra! til hvers ættum vjer að fara? þú hefir orð hins eilífa lífs (Jóh. 6, 67. 68).

Það er samt ekki nóg, að vjer samþykkjumst kristinni kenningu hugsunarlaust, heldur þurfum vjer enn fremur, svo trú vor geti verið sönn og lifandi, að tileinka oss hin viðurkenndu sannindi, og heimfæra þau til sjálfra vor og þess, sem kemur fram við sjálfa oss. Þú hefir í frá barnæsku heyrt talað um guðlega stjórn, er ræður öllu, stjörnum himinsins og orminum í duptinu; þú hefir á rósömum stundum fallizt á það, er þú heyrðir, að vjer eigum að gjöra það, sem í voru valdi stendur, og fela svo

hitt á Guðs vald og varpa allri áhyggju vorri upp á Guð, því honum er annt um oss (1. Pjet. 5, 7). Að svo miklu leyti er nú að vísu trúin til í hjarta þínu, en nú er eptir að reyna hana. Þær stundir koma í lífi þínu, að óveðramökkinn dregur upp yfir höfði þín sjálfs, og ef þú heimfærir þá enn til sjálfs þín, það er þú áður hafðir kannazt við, ef þú segir við sjálfan þig: hjer er Guð einnig; ef þú, í dymmunni umhverfis þig, lyptir sál þinni til hans, sem sleppir eldingunum út, svo þær þjóta af stað og segja við hann, eins og þjónar hans: hjer erum vjer, til hans, sem lætur vizku í flug þeirra og gefur loptsjónunum vit (Job. 38, 35. 36); ef eldingunni lystur niður við hlið þjer, og þú segir enn: enginn titlingur fellur til jarðar án vilja míns himneska Föðurs, og jafnvel öll mín höfuðhár eru talin (Matth. 10, 29. 30); ef rangindin ógna sjálfum þjer, og þú segir enn: þau hefðu alls ekki vald yfir mjer, nema þeim væri gefið það hjer að ofan (Jóh. 19, 11); ef að þú segir enn, hvílíkar ógnanir sem bera þjer að höndum: ef Guð er með oss, hver getur þá verið í móti oss (Rómv. 8, 31)? — þá ert þú trúaður. Þú hefir í frá barnæsku heyrt, að Jesús Kristur hafi komið í heiminn, til að gjöra synduga menn sáluhólpna (1. Tím. 1, 15); þjer hefir, ef til vill, þótt þessi ræða trúanleg, og verð þess í allan máta, að við henni væri tekið; þú hefir, ef til vill, á fögrum og inndælum stundum æfi þinnar, fundið til þess, að það er hið eilífa lífið, að vjer þekkjum einan sannan Guð, og þann er hann sendi, Jesúm Krist (Jóh. 17, 3); og að svo miklu leyti hefir trúin verið í hjarta þínu. En svo kemur raun trúarinnar; þær stundir koma, er óvinur sálar þinnar sviptir þig öllu trausti og allri von, þá er þjer finnst þú sjert einmana, yfirgefinn, glataður, þá er mennirnir, ef til vill, hafa lokað hjörtum sínum fyrir þjer, þá er þú finnur ekki veginn til Guðs, eins og fyrr meir, þá er þjer virðist Faðir lífsins vera búinn að breyta sjer í harðan dómara, og þú dirfist ekki að nálægja þig veldisstóli hins rjettláta í allri synd þinni og volæði. En ef þú þá enn, undir þessari ásókn heldur í hönd Frelsara þíns, ef þú segir við sjálfan þig: Hann er ekki kominn til að kalla rjettláta, heldur synduga, til apturhvarfs (Matth. 9, 13), Guð sendi ekki Son sinn í heiminn, til

þess, hann skyldi dæma heiminn, heldur til þess, að heimurinn skyldi verða frelsaður fyrir hann (Jóh. 3, 17), og ekki sendi Guð hann einungis vegna alls heimsins, og ekki einungis vegna fáeinna útvaldra, heldur til þess, að h v e r, sem á hann trúir, skuli ekki glatast; þess vegna er hann og m i n n Frelsari og m i n n Friðþægjari, hann kallar m i g einnig, og þann, er til hans kemur, mun hann ekki frá sjer reka, því hann kom af himnum ofan, til að framkvæma vilja þess, er sendi hann, en það er vilji Föðursins, er sendi hann, að hann glati engu af því, sem hans himneskur Faðir hefir gefið honum (Jóh. 6, 37 o. n. v). Ef þú segir þetta, og finnur til þess, og tileinkar þjer það í hjarta þínu, og heimfærir það til þín sjálfs í eymd þinni, þá ert þú trúaður. Þú hefir heyrt í frá barnæsku þinni þessa kröfu: sýn mjer trú þína í verkum þínum, þú hefir samþykkzt því, þegar þú heyrðir sagt: eins og líkaminn, án andar, er dauður, svo er og trúin dauð, þegar hún er án verkanna (Jak. 2, 18. 26), og að svo miklu leyti hefir þú hina rjettu kristilegu sannfæringu; en þá fyrst, er þú heimfærir þetta til þín sjálfs, er þú segir við sjálfan þig í freistingum lífsins: hvers vegna kallar þú Krist: Drottin þinn, og gjörir samt ekki það er hann býður (Lúk. 6, 46)? — þá fyrst hefir þú hina sönnu lifandi trú.

En postulinn segir: trúin er ö r u g g eptirvænting þeirra hluta, er menn vona, og ó b i f a n l e g sannfæring um það, er þeir sjá ekki. Ef jeg nú finn til þess stund og stund, að þessi sannfæring lyptir hjarta mínu til himna, og eykur afl þess og fyllir það sælu, en hverfur svo aptur að vörmu spori, ef jeg finn það jafnaðarlega á mjer, að jeg er veikur og duglaus, og vantar krapta til þessa lífs, og von um annað líf, hvernig get jeg þá sagt, að jeg sje trúaður? Hve miklu öðru vísi lýsir ritningin ásigkomulagi hinna trúuðu! Hún setur oss jafnan fyrir sjónir trú Abrahams, er Páll postuli kveður svo að orði um, að hann sje faðir allra vor fyrir Guði, þeim er hann trúði, þeim er lífgar hina dauðu og kallar þá hluti sem ekki eru, eins og þeir væru til; hann trúði með von, í vonarleysu, og veiklaðist ekki í trúnni, og leit ekki á það, er virtist með öllu að ónýta von hans; hann

efaðist ekki með vantrú um fyrirheit Guðs, heldur styrktist hann í trúnni og gaf Guði dýrðina, og var þess fullöruggur, að það er hann hafði lofað, hefði hann og mátt til að efna.' Þess vegna var honum það og til rjettlætis reiknað (Rómv. 4, 16 o. n. v). Þannig getur og trú vor þá að eins orðið rjettlætandi og sáluhjálpleg trú, er hún þýtur ekki eins og snæljós yfir götu vora, heldur skín eins og síljómandi sól, er vjer rennum með stöðuglyndi skeið það, sem oss er fyrirsett, er vjer horfum til Jesú, höfundar og fullkomnara trúar vorrar (Hebr. 12, 1. 2).

Þegar trúin er til í hjartanu, getur hún að vísu vakið ótta og á að gjöra það, því ef vjer áköllum hann sem Föður, er dæmir án manngreinarálits hvern eptir sínum tilverknaði, þá ber oss að hafa andvara á dagfari voru um útlegðartíma vorn (1. Pjet. 1, 17), og efla sáluhjálp sjálfra vor með ugg og ótta (Fil. 2, 12). En samt á trúin jafnan að kveikja trúnaðartraust, því sonarlegt trúnaðartraust á Guði er hið rjetta eðli trúarinnar. Þess vegna eru það og hin rjettu orð trúarinnar, er vjer segjum: jeg trúi á Guð hinn almáttuga Föður, jeg hefi ekki traust á veröldinni, nje á fjársjóðum hennar, nje á veldi hennar og dýrð, jeg hefi ekki traust á sjálfum mjer nje öðrum mönnum, heldur vona jeg til Drottins Guðs míns, sem skapað hefir himininn og jörðina og hafið og allt sem í þeim er, og efnir loforð sín að eilífu (Sálm. 146, 5. 6); jeg trúi á Jesúm Krist, Guðsson eingetinn, Drottin minn og Lausnara, jeg hefi ekki traust á rjettlæti sjálfs mín, á gjörðum mínum og góðverkum, jeg veit að mig skortir heiður í Guðs augliti, og að jeg er í skuld, sem jeg aldrei fæ goldið, en í Kristi Jesú, Drottni vorum, höfum vjer djörfung og aðgang með trúnaðartrausti, fyrir trúna á hann (Ef. 3, 12); jeg trúi á heilagan Anda, jeg sje og verð var við freistingar þær og hættur, sem umkringja mig og geta bægt mjer frá að öðlast guðsríki og hans rjettlæti og jeg reiði mig ekki á vit mitt, sem villist svo optlega, nje á hjarta mitt, er verður svo hæglega á tálar dregið, nje á styrkleika vilja míns, er hefir svo optlega bugast látið, en jeg trúi því að heilagur Andi sje til, almáttugur Andi sannleiks og huggunar, er kemur frá Föðurnum og Syninum

í hjarta þess, er biður einlæglega, og jeg er sannfærður um, að ef jeg fyrirbý honum stað í mjer, ef jeg þekkist áminningar hans og handleiðslu, þá frelsar hann mig úr öllum freistingum og hættum, og leiðir mig til guðsríkis og hins eilífa lífs. — þessu trúir sál mín, og finnur frið og fögnuð og athvarf í trú sinni.

---

## 38.

## ÞAÐ ER SKYLDA AÐ TRÚA.

Margar syndir eru til, sem almennt eru kallaðar það, sem þær eru. þegar glæpir rjúfa guðlega og mannlega niðurskipun, þegar ósvífnir lestir brjótast undan yfirráðum siðseminnar, þegar sakleysinginn er afvega leiddur, þegar embættismenn hafa svik í frammi, þegar einhver tekur undir sig fje sem honum hefir verið fyrir trúað, þá segja allir: það eru rangindi og synd. En margar syndir eru og til, er menn kannast ekki við, og fáir sem engir hirða um, í s í n u fari nje annara. Á meðal þessara synda, sem ekki er gaumur gefinn, er og sú synd, að trúa ekki á Guð, því mundu það vera margir, sem telja það til áfellis sjer eður öðrum? Jeg hefi hegðað mjer óaðfinnanlega — segir margur hver — jeg hefi varðveitt mig óflekkaðan af löstum, jeg hefi goldið hverjum sitt, jeg hefi gætt embættis míns, jeg hefi verið mörgum til aðstoðar; en þó jeg geti ekki borið í móti, að jeg hafi aldrei haft neina hugmynd um það, sem menn kalla guðlega og andlega hluti, þó jeg raunar hafi aldrei hirt um, hvort jeg hefði þessar hugmyndir eður ekki, þó mjer hafi þótt þær kynlegar og ótrúlegar, svo sál mín hafi ekki getað hvílzt í þeim; þá hefir þetta að eins verið stefna hugar míns, og engu breytt í líferni mínu, svo jeg þarf ekki að gjöra neinum reikningsskap fyrir það. Verið getur — segir hann enn fremur — að fáfræðingurinn sje sælli, enn jeg,

þar sem efasemdirnar ónáða hann ekki, og hann hefir trúartraust, er mig vantar; jeg er nú búinn að smakka ávöxtu þekkingarinnar; friður trúarinnar, sem hjarta mitt naut, meðan jeg var barn, er nú horfinn og kemur aldrei aptur, efasemdirnar brjótast inn í sálu mína undir eins og jeg fer að hugleiða andlega hluti, og þess vegna hliðra jeg mjer hjá því. Verið getur þetta sje ógæfa mín, en það er ekki mjer að kenna.

Samt sem áður sagði Drottinn vor, þegar hann var að tala um Anda sannleikans, er hann ætlaði að senda í heiminn, að þessi Andi mundi gjöra heiminn sannan að synd, af því mennirnir tryðu ekki á Krist (Jóh. 16, 8. 9); og postuli Drottins fer um það enn þá harðari orðum, er hann segir: allt, sem ekki fram kemur af trú, það er synd (Rómv. 14, 23). það er að skilja: ef þú fremur athafnir þínar af eintómum vana, eður að dæmum annara manna, ef þú gjörir góðverk þín til að öðlast heiður af mönnum eður endurgjald, þá er ekki að eins öllu lofi þeirra fyrirfarið, hversu góð og fögur og mikilsverð sem þau virðast að vera, heldur er það synd, ef þú lætur vana og geðþótta, eður hjegómagirnd, eður sjerplægni, ráða gjörðum þínum, þegar nokkuð ríður á; því þú átt að breyta eptir þekkingu og sannfæringu, en þessi sannfæring getur ekki verið til, nema hún styðjist við guðlega hluti, eður sje byggð á trúnni á Guð og fullri von um ríki hans.

En þó það sje sjaldgæft, að trúin sje svo algjör sem hún ætti að vera, þá er það og sjaldgæft, að hana vanti með öllu. Jeg hefi sjeð, hversu hirðulausir mennirnir eru um hin helgu sannindi, er þeim ber að kannast við og trúa, jeg hefi heyrt á hið gálausa, hæðilega, guðlausa tal þeirra, og þó hef jeg komizt að raun um, að eins og margir eru verri enn þeir segja, svo eru og margir betri, enn þeir vilja sýnast vera; þeir skammast sín hartnær af því að láta sjá þeir óttist Guð, en geta samt ekki að öllu leyti gengið á móti hinum betra hluta eðlis síns, þeir geta ekki að öllu leyti rofið samband sitt við Skapara sinn og Drottin, trúin felst samt eins og veikur neisti í sálu þeirra, og optlega glæðist hún, enda í þessum mönnum, og verður að ljósum loga,

Guði til dýrðar og mönnunum til yndis og nota. En ef hin daufa og hálfvolga og hvikula trú kemur svo miklu góðu til leiðar, hve miklu meira mun þá hin fullkomna og staðfasta trú fá á orkað! Himnaríki er líkt kröptugu og góðu frækorni, er mennirnir sá, það dafnar smátt og smátt, og gnæfir yfir önnur grös, er ætluðu að kæfa það niður, og verður að eik, svo að fuglar himinsins koma og byggja sjer hreiður í því (Matth. 13, 31. 32); þannig hefir farið um það í heiminum, og þannig fer um það í mannlegu hjarta. En eigum vjer þá ekkert að gjöra við það, nema horfa á, og vita hvort það komi og hvort því heppnist að vaxa? Ó! sje það synd að trúa ekki, þá er það og **skylda að trúa**.

Er það skylda að trúa? þú skelfist af þessu, ef til vill. þú heldur, vjer ætlum nú aptur að fara að tala eins og þeir, sem leituðust við að hjúpa þjóðirnar í vanþekkingu, svo **þeir** gætu leitt þær hvert er þeir vildu, sem höfðu tekið undir sig lykla þekkingarinnar, ekki til þess að ljúka upp fyrir öðrum, heldur öllu fremur til að loka þá úti, og skipuðu mönnunum hverju þeir skyldu trúa, og leituðust einnig í þessari grein við að leggja öðrum á herðar þunga byrði, er þeir, ef til vill, hirtu ekki um að snerta sjálfir einum fingri. þú hefir þá í huga hina **blindu trú**, er menn kalla svo, en jeg verð að segja, að þótt varir mínar geti nefnt bæði þessi orð til samans, getur samt hugur minn ekki sameinað þýðingu þeirra. Trúin, hin innsta, óbifanlega sannfæring, er veitir andanum og hjartanu hvíld og líf, og verður sú lífslind, er hugsanir og orð og gjörðir framkoma af: hvernig ætti hún að vera blind, svo hún vissi ekki, hverju hún tryði nje hvers vegna hún tryði? Trúin, hin hjartgrónasta sannfæring um guðleg sannindi, sem einmitt er mál á milli Guðs og þess manns, og segist trúa; hvernig ætti hún að vera blind, svo að nokkur ljeti aðra trúa fyrir sig, og hjeldi hann gæti sagt þeim að ábyrgjast, hvort hann færi rjett eður rangt? Að vísu getur það verið, að vjer, eins og kristnum sæmir, hlýðnumst valdi Drottins vors og Frelsara í sumum efnum, sem vjer erum ekki enn þá búnir að skilja eður kannast við; en þó er það raunar sannleiki Krists og

guðdómleiki, er vjer trúum, og þess vegna heiðrum vjer sjerhvert orð hans, og þykjumst ekki eiga vald á að hafna neinu af því, sem hann hefir sagt, þótt skilningur vor og tilfinning sje ekki enn búinn að fallast á það; en meðan oss er ekki svo farið fram, meðan sannleikurinn býr ekki í huga vorum og hjarta, þá eflir hann oss ekki heldur að vizku og friði, og þess vegna er samþykki vort ekki veruleg trú.

Hin mikla, hin heilaga skylda að trúa, felur í sjer fyrst og fremst þá skyldu að leita sannleikans, og leita hans með alvöru og einlægni. Og þessa skyldu leggjum vjer á samvizku sjerhvers manns; því ef vjer leitumst við að finna lykla þekkingarinnar, þá gjörum vjer það sannlega ekki af því, vjer ætlum oss að meina kristnum almúga inngöngu í musteri hennar, heldur miklu fremur af því vjer girnumst að ljúka því upp, sem bezt vjer getum, og bjóða öllum mönnum inngöngu; og þegar vjer prjedikum fagnaðarboðskap Krists fyrir fátæklingum að dæmi og boði Drottins vors, þá gjörum vjer það ekki til að teygja þá eptir oss, heldur til þess, að leiða þá til Drottins, svo þeir trúi sjálfir og verði hólpnir af trú sinni. Mismunur er að sönnu á náðargjöfum, en andinn er samur (1. Kor. 12, 4) og trúin er söm. Sumir geta komizt lengra enn sumir í skilningu leyndardóma Guðs og Krists, og ráðið úr fleirum efamálum; en samt verða alltaf sum efamál eptir, sem enginn dauðlegur maður getur úr ráðið, og öllum eru leynd. En undirstöðu trúarinnar getur hinn fáfróði öðlazt ekki síður enn vitringurinn, og trúin getur veitt hverjum manni sælu, ef hann að eins elskar sannleikann, ef hann að eins er hreinskilinn við sjálfan sig, og hvorki trúir nje afneitar íhugunarlaust. Gáum nú að atriðum kristinnar trúar. Hvort Guð sje til yfir þjer eður ekki; hvort viðburðir jarðarinnar sjeu látnir afskiptalausir, sem leiktafl tilviljunarinnar eður mannlegrar geðþekkni, hvort óviðráðanlegt vald skynsemdarlausra forlaga stjórni þeim, eður hvort auga hins lifanda Guðs sjái, og hönd hans haldi, og Andi hans niðurskipi og stjórni; hvort sá, sem kristnir menn kalla Drottin sinn og Frelsara, hafi verið ringlaður og farið með svik, eður hann hafi komið af himnum ofan til að færa heiminum

líf; hvort sá Andi, sem hvetur oss og aðstoðar til að leita sannleikans, að breyta rjettvíslega, að varðveita kærleikann í hjörtum vorum, sje andi heimskunnar, er leiði oss í villu og raski farsæld vorri, og kalli oss frá ákvörðun vorri á jörðunni, til að tefja oss á draumórum um himneska hluti, er vjer hvorki getum þekkt nje öðlazt hjer í lífi, eður hann sje heilagur Andi, er einn saman kveiki hið sanna líf í hjörtum vorum og leiði oss til þess takmarks, sem oss er fyrirsett; hvort reikningsskap vorum sje lokið, þegar vjer lokum augum vorum í dauðanum, eður hvort rödd sje til, sem hljómi niður í grafirnar, og kalli sjerhvern mann fram fyrir dóminn; hvort vizkan hjaðni að lokunum og verði að engu, ásamt með heimskunni, og rjettlætið með órjettlætinu, og kærleikurinn með hatrinu, eður hvort guðsríki komi: ekkert af þessu útheimtir frábæra yfirburði sálarinnar nje sjerlegt tækifæri til að afla sjer þekkingar og speki, til þess það verði viðurkennt, heldur að eins hreinskilna íhugun í samvizkunni. En er oss þá ekki óhætt að segja, það sje skylda sjerhvers manns, að leitast við að komast til slíkrar viðurkenningar? það er, ef til vill, ekki að öllu leyti á þínu valdi, hvort þjer auðnast það fyrr eður seinna, og á fullkominn hátt; en ef þú hirðir ekki um að íhuga þetta mál, eður þú hefir þjer til leiknis að vekja í þjer þær efasemdir um einstaka hluti, er geta aptrað þjer frá að fallast á það, sem skynsemi þín og samvizka fá ekki í móti mælt, í því sem snertir höfuðatriði allrar trúarinnar, þá köllum vjer slíkt synd, því það er brot á helgri skyldu. Sjá! Guð talar til vor í verkum sínum umhverfis oss, og æfikjörum þeim, er hann sendir oss, bæði þá er hann blessar og þá er hann reynir, og þá er hann auðmýkir, og þá er hann tiptar; hann talar til vor í hinum undarlegu tilfinningum samvizku vorrar, í hinum háleita friði hennar og hræðilega kvíða hennar; Guð talar til vor í hinum gömlu, heilögu opinberunum, og um fram allt fyrir hann, sem Guð hefir látið birta sáluhjálplega náð sína öllum mönnum, þann er gat með sanni sagt um sjálfan sig: jeg er vegurinn, sannleikurinn og lífið (Jóh. 14, 6): og þó ætti það að vera manninum leyfilegt, að vita alls ekkert um neitt af þessu? það ætti að vera syndlaust fyrir manninn,

að vilja ekki vita, hvaðan hann sje kominn, nje hvert hann muni fara, hvílíkt vald það sje, er hann lifir undir, hvílíku lögmáli hann eigi að hlýða, hvílík von að skíni á leið hans, hvílíks athvarfs hann geti leitað og megi leita í skelfingum lífsins og dauðans og dómsins? Ó! svo sannarlega sem það er synd, að láta leiðast íhugunarlaust, hvert sem hjátrú og lygi og svik vilja teima oss, svo sannarlega er það og synd, er menn loka eyrum sínum fyrir röddu sannleikans, og þykjast breyta viturlega í að snúa sjer undan geislum þeim, er ljóma hjer ofan að yfir vegu dauðlegra manna á jörðunni, og ekkert vilja vita, nema það, sem snertir holdlega og stundlega hluti.

En þessi áminning um að kannast við það sje skylda að trúa, nær engan veginn til þeirra einna, sem ekkert þekkja til hinna kristilegu sanninda, og hafa annaðhvort virt þau einskis eður afneitað þeim; hún nær einnig og einkanlega til þeirra, sem hafa öðlazt þekkingu á sannleikanum, og fallizt á hann, og tekið við honum í hjörtum sínum, og ætla sjer engan veginn að afneita honum aptur. Og þar sem hinir fyrr nefndu geta gjört gis að þessari áminningu, eins og öllu öðru, þá geta hinir síðar nefndu ekki vísað henni frá sjer; því, þú átt að trúa því, er þú viðurkennir, þú átt að halda þjer fast við það, og gjöra það að eign þinni, og nota það í líferni þínu, svo þú getir af því orðið vitrari og betri og styrkvari og sælli.

Jeg tala því við þig, sem viðurkennir Krist, eins og jeg tala við sjálfan mig. Þú segist viðurkenna og viðurkennir líka sjálfsagt, ekki að eins að Guð sje til, og endurgjaldi þeim, er leita hans, heldur einnig að Guð hafi leitað þeirra, er ekki leituðu hans, að hann sje miskunsamur einnig við hina óþakklátu og vondu (Lúk. 6, 35), að Guð hafi elskað heiminn og elskað mannkynið jafnvel þegar það var fallið og orðið gjörspillt, og hafði risið upp í móti honum, og brotizt undan lögmáli hans, og snúið hjarta sínu frá Skaparanum til skepnunnar; þú viðurkennir, að Jesús Kristur sje útgenginn frá hinum eilífa Föður og Miskunara, að hann hafi lifað lífi sínu hjer á jörðu í guðlegum krapti, bæði í tilliti til kenningar sinnar og verka, að hann hafi fórnfært sig fyrir synd

veraldarinnar, að dauðinn hafi ekki megnað að halda honum í fjötrum sínum, að Guð hafi gjört hann dýrðlegan og kallað hann fram af myrkri grafarinnar, að hann hafi farið heim til Föðursins, og honum sje gefið allt vald á himni og jörðu; þú viðurkennir, að fyrir Jesúm Krist sje sannleikur Guðs opinberaður til vizku og huggunar öllum kynslóðum, að hann hafi afrekað þá friðþæging, er sjerhvert iðrandi og sundurkramið hjarta geti fundið lækning í, að hann hafi opnað veginn til himnaríkis, og að hann hafi getað með sanni sagt þessi orð um eyrindi sitt hjer á jörðu, í hinni fullu og óendanlega miklu þýðingu þeirra: það er fullkomnað. Og hvað er það þá, sem heiminn vantar enn þá, þar sem frelsunin er fullkomnuð? þú svarar mjer: Hann vantar trúna, og án hennar getur hann ekki orðið aðnjótandi neins af velgjörningum Krists; heimurinn hefir ekki viljað þekkjast hann, og þess vegna getur hann ekki veitt heiminum huggun og líf. En hvað vantar þig þá enn sjálfan, er þú þó hefir þekkzt hann og kannazt við, að hann sje Kristur, huggun og eptirþrá allrar veraldar, Sonur hins lifanda Guðs? Hvað vantar þig, vesælingshjarta í brjósti voru! að þú skulir enn þá berjast svo harðlega í hræðslu og órósemi? Hvað vantar þig, hinn endurleysti maður, sem að ert útvalinn til himneskrar vegsemdar og himneskrar sælu, að jarðneskar girndir og jarðneskar áhyggjur skuli hafa eins mikið vald yfir þjer, eins og þú finnur þær hafa? það er sjálfsagt, að þig vantar líka trúna. En hversu undarlegt er þetta og hvað á móti öðru! þú trúir, því þú hefir kannazt við sannindi kristinnar trúar, og skynsemi þín og samvizka eru búnar að fallast á þau; og þú trúir ekki, af því þú hefir ekki gjört þau að þinni eign, nje heimfært þau til þín sjálfs.

Verið getur einhver svari máli mínu á þessa leið: „því er nú miður, svona er því varið; sál mín er hvikul, eins og sjáfaralda, sem vindurinn ber til og frá; jeg dirfist hvorki að afneita, nje vil það, því sannleikurinn er mjer yfirsterkari; og jeg þori ekki almennilega að fallast á, því sannleikurinn er mjer of háleitur og ber huga minn ofurliða; stöku sinnum finn jeg að hjarta mitt hitnar, jeg finn hvernig jeg lyptist frá jörðunni og verð uppnuminn

í himin, og sál mín hvílist í faðmi Guðs míns og Frelsara; en svo kólnar hjartað aptur, hinar kristilegu hugmyndir verða mjer of háleitar, og tilfinning og fögnuður og trúnaðartraust hverfa mjer. En hvað get jeg gjört af því? hvernig getur trúarskortur minn orðið gefinn mjer að sök sem skyldubrot. Enginn maður getur ráðið tilfinningum hjarta síns; þær koma og fara eins og sólarglampi á báru“.

Þannig verður og hjer fyrir oss hið þreklausa hjal, er vjer heyrum svo optlega á þessum spilltu tímum. Satt er það, það er miklu fyrirhafnarminna, að láta hjartað vera sjálfrátt, enn að stjórna því, miklu fyrirhafnarminna, að vísa frá sjer sjerhverri kröfu skyldunnar, með því svari, að maður sje nú svona, og verði aldrei öðru vísi, heldur enn kappkosta að verða æ vitrari og betri, eins og Guð og samvizkan heimta. En þá má og fegra sjerhverja illsku og óguðleik, og fláræði og sviksemi, og alls konar girnd og hjegóma og heimsku, því allt þetta kemur að innan, frá tilfinningum hjarta vors. Og meira að segja, allar illgjörðir koma einnig þaðan; því þegar þjófurinn seilist eptir annarlegu gózi, þá er það fýknin, sem rekur hann, og þegar morðinginn leggur hendur á bróður sinn, segir hann það sje að kenna hinu óviðráðanlega hjarta, er brenni af reiði og hatri og hefndargirni. Og eins er um það, að þegar einhver trúir ekki á Guð, og þann er hann sendi, þá er aptur hinu kalda hjarta kennt um, og sagt það geti ekki ylnað, og hinu efablandna hjarta, og sagt það geti ekki orðið staðfastara; og því næst selur maðurinn sig á vald vantrú sinni, eins og hann gæti með engu móti betrað sig.

En hvað kemur þá til, að Drottinn vor talar um þá synd, að trúa ekki á hann? hvað kemur til, að postuli hans segir, að þeim, sem kemur fram fyrir Guð, beri að trúa því hann sje til? Og hvernig getur nokkur synd og nokkur skylda verið til, ef hjarta mannsins er sem bátur, sá er rekst stjórnarlaus fyrir strauminum? En hver er sá ráðvandur maður, er ekki hafi reynt, að honum hefir optlega tekizt, með Guðs aðstoð, að ráða við hjartað í brjósti sjer, að kæfa niður hinn skæða loga, sem farinn var að

gjósa upp, og glæða þar hinn hreina og heilaga eld. Hygg þú að, hvernig mönnunum tekst optlega að kefja niður hið góða í sjer; þeir þverskallast við rödd samvizku sinnar, sem lætur til sín heyra innst í fylgsnum sálar þeirra, þangað til þeim lærist að kalla rangindi rjettindi, og rjettindi rangindi; þeir þagga niður áminninguna, sem hljómar úr fylgsnum sálar þeirra, um þann dóm, er öllum beri að mæta fyrir, til að taka þar gjöld athafna sinna, þangað til þeim lærist að meta þetta sem eintóma hjegilju; þeir leika sjer og hæðast að sjerhverri kristilegri tilfinning, sem þó hefir á stundum hrært hjörtu þeirra, þangað til þeir að lokunum geta með sanni sagt: vjer trúum hvorki fagnaðarboðskapi Krists nje neinu Guðs orði. Þannig kefja þeir það niður, sem raunar er partur af eðli þeirra, er þeir geta ekki með öllu útrýmt; og skyldum vjer þá segja, að vjer megnum á engan hátt að ráða við vantrú og efasemdir! Maðurinn megnar að girða fyrir strauma sjáfarins og veita fljótum í nýja farvegu, og þó ætti hann ekki að geta leitt hugsanir og tilfinningar á rjetta götu?

J e g s k a l t r ú a; hver er þýðing þessara orða, utan sá ásetningur, að jeg skuli halda fast við þá sannfæringu, sem skynsemi mín hefir kannazt við, að væri rjett og sönn, og samvizka mín hefir samþykkzt; jeg skal ekki kasta stafnum, þegar vegurinn ógreiðist og kraptarnir taka að þrotna, jeg skal ekki snúa augum mínum fra leiðarstjörnunni þegar hafið ókyrrist. Jeg skal trúa; jeg skal ekki láta smásmuglegar efasemdir svipta mig þeim sannindum, sem jeg hefi fundið með kostgæfilegri rannsókn, og áunnið mjer í hinni hörðu baráttu lífs míns, og orðið var við krapt þeirra á hinum beztu og sælustu stundum æfi minnar. Jeg skal trúa; og ef aðrir trúa ásamt mjer, þá skal jeg fagna í samfjelagi þeirra; og ef þeir trúa ekki, þá skal jeg trúa einn saman; jeg skal ekki fyrirverða mig þótt heimskingjarnir hæði, nje hneixlast, þótt hræsnararnir leiki sjer á vanhelgan hátt að því, sem heilagt er. Og eins og mjer ber á hverjum morgni að minna mig á þær skyldur, sem jeg á að rækja, og eins og jeg reyni að minnast þess, hvað skylda mín sje, í hita og þunga dagsins, og mæðu hans og freistingum: svo skal jeg einnig seint og snemma, í friði og í

baráttu, minna mig sjálfan á skyldu mína, að trúa á Guð og þann er hann sendi, og jeg hefi kallað Drottin minn og Frelsara, ekki til þess að verða öðrum samdóma, heldur af því jeg viðurkenndi það í hjarta mínu.

En bænin á að styrkja þenna ásetning. Drottinn! auk þú trú mína (Lúk. 17, 5)! lát hinn veika neista verða að hreinum og öflugum loga! lát þú frækornið dafna og verða að miklu og ágætu trje, svo að allar hugsanir mínar geti fundið hvíld undir limi þess!

---

# 39.

## SAMBANDIÐ MILLUM TRÚAR OG GOÐVERKA.

Ef vjer athugum orð Páls postula, þá kennir hann ætíð, og minnir sífelldlega á, að maðurinn verði ekki rjettlættur fyrir verk lögmálsins, heldur fyrir trúna á Jesúm Krist (Gal. 2, 16. Rómv. 3, 28), og að þeim, er verk vinni, verði launin ekki af náð tilreiknuð, heldur eptir skyldunni, en þeim, er ekki verk vinni, en trúi á þann, sem rjettlætir syndarann, verði trú sín reiknuð til rjettlætis (Rómv. 4, 4. 5); einnig lofar postulinn Abraham, kallar hann föður hinna trúuðu, og sýnir, að Abraham hafi trúað Guði, og sú trú verið talin honum til rjettlætis (Rómv. 4, 16. o. s. f.). Aptur á mót heimtar postulinn Jakob, að menn sýni trú sína í verkinu, og segir Abraham hafa orðið rjettlættan fyrir verk sín, er hann synjaði ekki hinnar dýrmætu fórnar, er af honum var heimtuð; og af því ályktar hann, að menn verði rjettlættir fyrir verk sín, en ekki fyrir trúna eina saman (Jak. 2, 18. 21. 24). Þeir eru til, er svo þykir, sem meiningar postulanna sjeu hjer gagnstæðilegar hvor annari, og þykjast eiga hægast með að ráða úr þeim vanda, ef þeir segi, að brjef það, sem eignað er Jakobi

postula, sje ekki samið af honum, og að þessi orð sjeu ekki eptir neinn af postulum Krists, heldur einhvern annan, er kallazt hafi nafni hans, svo að ekki sje undarlegt, þó honum beri ekki saman við hina rjettu postula.

„Hvernig eiga ólærðir menn að skera úr því, sem hinum lærðu kemur ekki saman um?“ munu menn segja. Að vísu eru og mörg þau vafamál, sem hinn ólærði þarf ekki að skera úr; enda eru og þau sum, er hverjum kristnum manni ríður á að geta úr leyst. Og þegar menn ekki að eins rengja eitthvað einstakt í heilagri ritningu, heldur og taka þær greinir, sem eru í nákvæmasta sambandi við undirstöðu trúar vorrar, og gjöra þær tortryggilegar, svo að vjer vitum ekki á endanum, hvort nokkurt sannarlegt guðsorð sje til á meðal vor: þá snertir það kristinn almúga engu síður enn hina, er menn kalla kennifeður. En hvernig á nú alþýða að geta friðað huga sinn fyrir efasemdum þeim, er menn heyra optlega sagt að kennifeðurnir geti ekki úr leyst?

Hvernig halda menn að hinir lærðu fari að? Hvort gjörir nokkur sjer í hugarlund, að þeir hafi öðlazt fyrir nákvæma rannsókn og haglegar ályktanir það, er þeir kalla trú? og að þeir hafi grafið hana upp úr ryki gamalla bóka? Nei! heldur eins og hver sá, er rengir einhverja kenningu, þá sem öðrum þykir mikil og dýrmæt, hlýtur að hafa fengið óbeit á henni, og vilja að hún reynist óáreiðanleg, áður enn hann leitar að mótmælum og heldur þeim fram: eins leitar enginn maður varnar öðru enn því, sem honum er áður orðið annt um, og hann vill, að bæði sjálfur hann og aðrir komist í fullkominn skilning um, að sje satt. Og eins hljóta kristileg sannindi að hafa tekið sjer bólfestu í hjarta mannsins, áður hann leiti sjer dýpri þekkingar á þeim og röksemda til að verja þau með fyrir mótstöðumönnum þeirra. Sá, sem rannsakar ritningarnar, getur með engu móti sett íhugun sína í stað bænar og guðrækni, heldur þarf hann á þeim að halda allt eins og hinir, sem ekki feta hina torsóttu leið nákvæmrar rannsóknar, en vilja þó finna Guð sinn og Frelsara. Fyrir því mega hinir lærðu, er fræðast vilja til guðsríkis, ekki hlíta sannfæringu þeirri, er þeir fá af þeim röksemdum, sem þeir bera fyrir sig á móti ósvífnu spotti

og köldum efasemdum; heldur lesa þeir hinar helgu bækur með guðrækilegu hugarfari, — og sjer í lagi, þegar þeir lesa frásagnir guðspjallamannanna um líferni Drottins vors hjer á jörðu, og hegðun hans og kenningu; þegar þeir finna til hins sama, og þjónustumennirnir forðum, sem áttu að höndla Jesúm — er þeir sögðu: aldrei hefir neinn maður talað eins og þessi maður; þegar þeir finna til hins sama og Pjetur forðum, er hann sagði: Herra! til hvers eigum vjer að fara? þú hefir orð hins eilífa lífs: þá spyrja þeir sjálfa sig, hvort þetta geti verið skrök og heimska, eða eitthvert tál, sem menn hafi upp hugsað til að blekkja hverir aðra, eða hvort hitt sje ekki heldur, að guðleg sannindi skíni fram af sjerhverri grein. En þessi vegur til sannfæringar er sannlega eins greiður hinum ólærðu og hinum lærðu.

Sama er að segja um rit það, er stendur á meðal hinna helgu bóka, og Jakob postula er eignað. Að sönnu fer það ekki eins djúpt inn í fylgsni kristinnar trúar, og brjef Páls postula; en lestu það guðrækilega, gefðu gaum að tilsögn og áminningu þess um þolgæði í mannraunum, um krapt bænarinnar, um trú og traust á Guði, um auðmýkt þá, er þeim á að vera samfara, um það, að hver maður eigi að stjórna tungu sinni, að margir skuli ekki troða sjer fram til að kenna, og einkanlega um það, að hver maður eigi að sýna trú sína í verkinu — og spyrðu síðan samvizku þína, hvort brjefið muni vera samið af einhverjum svikara, þeim er skrökvi til nafns síns, eða það sje sæmileg og heilög ræða eins af postulum Krists.

Nú ef það eru hvorirtveggja postular, sem kenna um trú og um verk, þá getur ekki kenning annars verið gagnstæðileg kenningu hins, heldur getur ekki hjá því farið, að kenningum þeirra verði komið saman. Enda er það ekki örðugt. Þar sem Jakob postuli kennir, að trúin sje dauð án verkanna, og að trúin fullkomnist af verkunum (Jak. 2, 17. 22), talar Páll postuli einnig ávallt um þá trú, er hann segir um, að hún ein saman gildi hjá Kristi, með því hún sýni krapt sinn í elskunni (Gal. 5, 6). En trú án kærleika kannast hann ekki við að sje sú trú, er hann boðar, og maðurinn rjettlætist af, heldur segir hann: þó jeg hefði trú svo mikla, að

jeg gæti fjöll flutt, en hefði ekki kærleika, þá væri jeg einskis verður (1. Kor. 13, 2). Hann kennir alstaðar, að þeir, sem á Guð trúi, eigi að gjöra sjer far um að taka öðrum fram í góðverkum (Tít. 3, 8); hann áminnir alstaðar hina kristnu um að vera hreinir og flekklausir og auðgir að ávöxtum rjettlætisins, Guði til lofs og dýrðar (Fil. 1, 10. 11). Og ef vjer athugum orð Drottins vors sjálfs, þá sjáum vjer, að hann segir: ef þjer trúið ekki, að jeg sje hinn fyrirheitni, þá munuð þjer deyja í syndum yðrum (Jóh. 8, 24), og á öðrum stað: þeir, sem trúa og láta skírast, munu verða hólpnir, en þeir, sem ekki trúa, munu sæta áfelli (Mark. 16, 16). En hins vegar segir hann og, ef trjeð sje gott, þá sjeu ávextirnir góðir, því trjeð þekkist af ávöxtunum (Matth. 12, 33). Fyrir því — segir hann — skuluð þjer þekkja þá af ávöxtum þeirra. Ekki munu allir komast í himnaríki, þeir er til mín segja: Herra! Herra! heldur þeir einir, er gjöra vilja míns himneska Föðurs (Matth. 7, 30. 21). Þessi orð Drottins vors eru fullskilmerkileg, svo að hver ráðvandur maður á hægt með að skilja þau, hversu einfaldur sem hann er, og það er ekki gott merki, þegar menn hafa brögð við í útskýringu þvílíkra orða, og eins og reyna til að breiða skýlu yfir þau; það verður að vera, það sje eitthvað það í hjarta þeirra eða hegðun, er ekki þoli birtuna. Og því er miður, að þegar vjer rannsökum hjörtu vor, er í oss öllum einhver spilling og einhver aflögun hreinskilni þeirrar, er Guð gaf manninum í öndverðu; en einmitt þess vegna eigum vjer að hafa þvílík orð oss fyrir hugskotssjónum, og láta þau tala til vor með öllum krapti sínum, svo að þau vitni fyrir oss, ekki einungis í mót öðrum, heldur einkanlega í mót sjálfum oss; því fleiri girnast að sjá ljós sannleikans, enn þeir, sem orðnir eru auðugir að góðum verkum; hinir, sem einlæglega fýsast að betra sig, og gjöra sjer far um það, sækjast eptir ljósinu, til að geta ratað þann veg, sem þeir eiga að feta, og sjeð glögglega, hvort þeir sjeu á rjettum vegi eða ekki.

Vjer sjáum nú á þessu, að ritningin sameinar alstaðar trú og góðverk; þar verður því að vera eitthvert samband á milli,

það er að skilja: millum hinnar sönnu trúar og hinna rjettu góðverka.

því hver eru þau verk, sem rjettilega má kalla góð. Enginn, sem hugsar nokkuð eptir því, sem hann segir, mun svara, að það sjeu þau verk, sem hafi farsælar afleiðingar, og verði öðrum til nota; því þá mætti telja öll hin verstu verk með góðverkum. það varð sannarlega affaradrjúgt, að Jósep var seldur í þrældóm til ókunnugs lands, ekki að eins fyrir Jósep sjálfan, heldur og fyrir alla þá, er síðar áttu honum líf sitt að launa; en hver mundi samt vilja telja það með góðverkum, að bræður Jóseps hertu hjörtu sín, og vildu ekki heyra óp hans og kvein? það var sannarlega til blessunar, að Jesús ljezt fyrir lýðinn, og það ekki að eins þeim lýð, heldur gjörvallri veröldinni; en hver mundi samt kalla þá hafa unnið gott verk, er sviku hann og áfelldu? Afleiðingarnar verða optlega allt öðru vísi, enn mennirnir gátu við búizt; margt verk hefir verið gjört af guðhræddu hjarta, framið í rjettsýni og kærleika, og þar að auk með fyrirhyggju og ráðdeild, en hinar sjáanlegu afleiðingar hafa samt ekki orðið að notum, hvorki þeim er verkið vann, nje heldur öðrum; margt verk hefir einnig verið gjört í heimsku og hjegóma og af alls konar illum tilhneigingum, en Guð hefir samt snúið afleiðingunum til góðs. Fyrir þá sök stoðar ekki að meta neitt verk eptir útliti þess, nje eptir því sem af því kann að leiða, heldur eptir hugarfari því, er það er af sprottið. þess vegna var gjöf ekkjunnar meiri, enn gjafir hinna ríku (Mark. 12, 41 o. s. f.), þó svo lítið færi fyrir því, sem hún lagði í musteriskistuna, að þess gæti varla gætt, þegar farið yrði að telja saman peningana til þess að halda við musterinu og prýða það. Og því spyr og Drottinn vor, hvort menn geti lesið vínber af þyrnum eða fíkjur af þistlum (Matth. 7, 16). Ávextirnir fara eptir stofninum, og verkin fara eptir hjartanu, það er að skilja: eptir því hvernig hjartað er í raun rjettri, og það er ekki til þess að hugsa, að neitt sannarlegt góðverk geti sprottið af saurugu og spilltu hjarta.

En hvert er það hugarfar, sem er eins og hrein og tær uppspretta þeirra verka, sem rjett er að kalla góð? Allir munu svara, að það sje rjettvísi og kærleiki. Rjettvísin er sú tilfinning hjarta

vors, er gjörir skjótt og greinilega mun á því, sem rjett er og hinu sem rangt er, elskar hið rjetta og hallast að því, en hefir viðbjóð á hinu og forðast það — hún er hin lifandi hvöt hjartans, er leiðir manninn til að gjöra sjálfur það, sem rjett er fyrir augliti Guðs og manna, og standa í mót lygi og rangindum, þegar hann mætir þeim á vegferð sinni. Verk hins rjettvísa eru hrein í uppruna sínum og stöðug í stefnu sinni; því ekkert það, er heita skal rjettvíst, má hirða um lof nje last veraldarinnar, heldur verður það allt að vera sprottið af djúpri lotningu við heilagt og óbifanlegt lögmál; og ekkert það, er heita skal rjettvíst, má vera óstöðugt og efablandið, það má ekki byrja og hætta svo aptur, það má ekki láta tælast af freistingum veraldarinnar, og ekki láta hugfallast af mótstöðu hennar, heldur verður það allt að stefna stöðuglega að takmarki sínu, og draga ekki af áreynslunni, þó að vegurinn virðist vera greiður, enda gefast ekki upp, þó hann sýnist langur og torfær og vandrataður, og takmarkið þoku hulið. En hvernig ætti nú þetta hið hreina og stöðuga hugarfar að vera til án trúar, og án þess hugurinn hafi lypt sjer upp til einhvers æðra, enn þess, er vjer sjáum og þreifum á, — og lifi í því? Er það mögulegt án þess að þekkja Guð og ríki hans, að þekkja heilagt og óbreytanlegt lögmál, og það, sem er óumræðanlega miklum mun æðra enn sjerhvað sem freistar skilningarvitanna og fullnægir jarðneskri fýsn? Er það mögulegt að ganga stöðuglega á rjettum vegi, sigrast á veröldinni og afneita sjálfum sjer, bera kross sinn og þreyja og vera þolgóður, vilja jafnan hið sama, hvort sem blæs með eður móti, vera staðfastur í voninni, en sjá hana þó optlega að engu verða: er það — segi jeg — mögulegt án trausts á Guði og hans almáttugri forsjón? Er það mögulegt, að finna allan breiskleika sinn, vita sig svo opt kominn af þeim vegi, er vjer eigum að feta, og vera sjer meðvitandi um öll afbrot sín, allt hirðuleysi sitt, og allar syndir sínar, en þó samt sem áður gleyma því, sem bak við er, og stefna beint að takmarki sínu og halda stöðugt á fram með þeirri von að geta orðið rjettvís: er það — segi jeg — mögulegt, án kristilegrar trúar?

Vjer nefndum einnig kærleikann; því það er ekki einhlítt að

efla hið rjetta, þegar það er gjört með hörðu og ósveigjanlegu hugarfari, og án þess að líta upp til **hans**, sem hvert rjettlætisverk á að vera gjört til vilja, og án þess að líta til þeirra, sem hið góða, er fram kemur, á að vera til yndis og nota, og þau verk, er sannlega og fullkomlega mega heita góð, eru þau, sem spretta af kærleika á Guði og mönnum. En hver getur elskað Guð, ef hann trúir ekki á hann? og hvernig getur ástin á Guði orðið alúðlegri enn hún hlýtur að verða, þegar vjer trúum hinu kristilega fagnaðareyrindi, sem boðar fyrst og síðast, að Guð elski oss, og kennir oss að kalla hann Föður um leið og vjer köllum hann Herra, og huggar oss með líknsemi hans um leið og það segir oss, að hann sje rjettlátur dómari? En hvernig getum vjer hins vegar aðhyllzt og trúað á Drottin vorn, sem ekki kom til að láta sjer þjóna, heldur til að þjóna sjálfur, og varði hverri stundu hjervistar sinnar mönnunum til nota, og lagði allt í sölurnar, ekki að eins fyrir þá, sem elskuðu hann og trúðu á hann, heldur og fyrir hina, sem enn hötuðu hann og ofsóttu: hvernig getum vjer — sagða jeg — aðhyllzt og trúað á Drottin vorn Jesúm Krist, án þess að elska vor á mönnunum í kringum oss verði lifandi og trúföst, og velviljuð og sáttgjörn? Vera kann einhver segi, að þeir sjeu margir, sem hegði sjer óaðfinnanlega, og fullnægi skyldum sínum næsta loflega, og eigi jafnvel mikið gott skilið af landi og lýð, og veiti mörgu heimili gagn og gleði, þeim ráð er ráða þurfi, og þeim hjálp er hjálpar þurfi, en þó beri lítið á, að þeir sjeu trúaðir; þeir hafi optast nær hugann á jörðunni en ekki á himninum, en hugsi líklega sjaldan um að þeir sjeu í nokkru upp á Guð komnir, eða þurfi hans miskunar við. Vjer ætlum ekki að draga af mönnum þessum það lof, sem þeir eiga skilið; vjer ætlum ekki að segja, að allt gott, sem þeir gjöra, sje ekki annað enn yfirdrepskapur, og væri það gjörskoðað, mundi reynast, að það væri allt saman sprottið af sjerplægni, hjegómadýrð og hvers konar illum girndum. Heldur segjum vjer, að **það** af því, sem ekki sje sjerplægni og hjegómadýrð, ekki tóm blygðun við dóma veraldarinnar, og ekki tómur vani frá barnæsku, er ekki sje þeim að þakka sjálfum, heldur öðrum er ólu þá upp; það allt segi jeg vera sprottið af trúnni og

einhverri sannfæringu um Guð og tilkomu ríkis hans; og þó sannfæring þessi kunni að vera óglögg og óskýr, þá hlýtur hún samt að vera til í sálunni, áður enn hugurinn geti hafið sig upp yfir veröldina og munað hennar og girndir. En láttu aðra vera eins og þeir eru, láttu hann, sem rannsakar hjörtun og nýrun, gjöra mun á verkum þeirra, þeim er honum þóknast og þeim er honum misþóknast; en viljir þú hafa uppsprettu góðverkanna í hjarta þínu — viljir þú, að stöðug rjettvísi og elska á Guði og mönnum þróist æ meir og meir í hjarta þínu, þá haltu þjer í trúnni við Guð og þann, er hann sendi, Jesúm Krist.

Af öllu því, er vjer höfum sagt, leiðir einnig, að trúin, það er að skilja hin sanna, rjettlætandi trú, getur ekki verið án góðra verka, framar enn góð verk geta verið án trúar. Til eru þeir — og þeir eru harla margir nú á dögum — sem hafa einhvern grun af hinu himneska og einhverja tilfinning um Krists fagnaðarboðskap; þeir vilja ekki láta segja um sig, að þeir gjöri lítið úr trúnni og fyrirlíti guðsorð, þeir láta sig ekki vanta í guðshúsi, og tala opt um, hversu inndælt og sælufullt hafi verið þar að vera; og þó sjáum vjer engan ávöxt af þessu neinu, þeir eru, eins og Jakob postuli að orði kemst, líkir þeim, sem gáir að andlitsskapnaði sínum í spegli, en gengur á burt, og gleymir, hvílíkur hann var (Jak. 1, 23. 24); þeir ganga þaðan eins og þeir komu, fullir heimsku og hjegóma, og vantar sanna lotningu við það sem heilagt er, og einlægni við Guð og sjálfa sig, og trúleik í því að fullnægja skyldum sínum. En hver mundi kalla trú þessa hina stopulu tilfinning, sem kviknar allt í einu, og hverfur undir eins aptur og aldrei verður að sannfæringu, og er veikari hverri efasemd, hverri ástríðu, hverju mótlæti, hverjum kvíða? Væri trúin til í þeim í raun og veru, þá mundu ávextir hennar verða að koma í ljós; því hvernig getur það verið, nokkur finni með sjálfum sjer í alvöru og sannleika, að Guð sje heilagur og rjettlátur og sjái allar gjörðir hans — hvernig getur það verið, nokkur sje fræddur af Guði og sje orðinn hluttakandi heilags Anda, og hafi smakkað Guðs góða orð og krapt komandi aldar (Hebr. 6, 4. 5), nema hann hefji sig meir og meir upp yfir það sem illt er og ósæmilegt, og nema trú

hans verði sá kraptur, er sigrist á veröldinni? Hvernig getur verið, nokkur kalli Krist Herra í alvöru og sannleika, og vilji samt ekki taka ok hans á herðar sjer og nema af honum? Já, þó svo líti út, sem trú einhvers manns væri svo stöðug, að öll veröldin fengi ekki bifað henni, og þó að munnur hans játaði kröptuglega það nafn, sem er svo eitt undir sólunni, að menn hljóti sælu af, en enginn ávöxtur trúar þessarar kæmi í ljós, og engin kostgæfileg viðleitni á því, sem gott er: þá getur ekki hjá því farið, að lygi eða hræsni felist á einhvern hátt í játningu hans; þá verður að vera, maðurinn hafi að minnsta kosti dregið sjálfan sig á tálar, er hann athugar ekki þessi orð hans, er hann kallar Herra sinn: því kallið þjer mig Herra, en gjörið þó ekki það er jeg býð yður (Lúk. 6, 46)? og ætlar eins og að hrinda um koll grundvelli Guðs, þar sem þetta er á-ritað, eptir því sem postulinn að orði kemst: Drottinn þekkir sína, og hver sem nefnir nafn Krists, haldi sjer frá ranglæti (2. Tím. 2, 19). Verið getur, það þyki óþarfi að minnast á þetta; en athugandi er, að villan kemur fram æ af nýju; hún hefir margar myndir og mörg nöfn, en eðli hennar er ætíð samt við sig, nefnilega að leiða menn frá hinni sönnu trú, það er: frá Guði og Kristi. Á meðan fláráðir verkamenn eru til, þeir eð taka á sig mynd postula Krists – sem hinn sannorði vottur Krists, hinn rjetti postuli trúarinnar, segir ekki vera undarlegt, með því djöfullinn sjálfur snúi sjer í ljóssengil (2. Kor. 11, 13. 14) — á meðan, segi jeg, getum vjer tekið oss í munn orð Drottins vors: gætið yðar fyrir falskennendum, er koma til yðar í sauðaham, en eru reyndar glepsandi vargar! af ávöxtum þeirra skuluð þjer þekkja þá (Matth. 7, 15. 16). Eru þeir ekki til enn í dag, enda vor á meðal, er taka kenningu þessa, að menn verði rjettlættir, án þess þeir eigi það skilið, af miskun Guðs, ekki fyrir sinn tilverknað, sem er fullkomlega rjett, og þýða hana svo, að „menn þurfi ekkert að aðhafast til að verða hólpnir, og ekkert góðverk að vinna, og þurfi ekkert einkenni í hjartanu til merkis um að það sje gott, og enga sáluhjálplega betrun.“ Sjáið á þessu, hversu aumlega maðurinn er spilltur! jafnvel því, sem oss er gefið til lífs, og til að vekja og glæða í oss hvern góðan krapt, því breytir hann í dauða, og

slökkur með því anda og krapt. Það er að vísu harla auðvelt að segja: „jeg er syndari, og meir enn því sætir,“ en velta sjer þó í saur syndarinnar, sem Kristur átti að reisa oss upp úr. En hvernig getur það staðizt, að svo háðungarfull og svo ókristileg og óguðleg ræða ætli að sjer muni verða gefið rúm í kristinni kyrkju, þar sem postular hennar hafa ætíð brýnt fyrir oss, að vjer skulum afleggja hinn gamla manninn, sem lagaður sje eptir hinni fyrri hegðun, en endurnýjast í anda vors hugskots, og íklæðast hinum nýja manni, er skapaður sje eptir Guði til rjettlætis og heilagleika sannleikans (Ef. 4, 22 o. n. v.), og Drottinn vor og Meistari hefir sjálfur sagt, að enginn geti notið guðsríkis, nema hann endurfæðist (Jóh. 3, 3)! Og hvernig ætti maðurinn að verða sáluhólpinn, nema hann taki þeim sinnaskiptum, er ein saman gjöra menn hæfa til sáluhjálpar? Því hold og blóð geta hvort sem er ekki erft guðsríki, og hið holdlega hugarfar getur það ekki heldur.

Það er því víst, að Kristur á ekki að vera þjónn syndarinnar (Gal. 2, 17), og að hann gaf sig í dauðann fyrir oss, til þess að leysa oss af alls konar ranglæti, og hreinsa sjálfum sjer fólk til eignar, það er kostgæfið væri til góðra verka (Tít. 2, 14), og að postulinn segir þess vegna í nafni Drottins til allra þeirra, er stæra sig af trúnni: sýn mjer trú þína í verkum þínum! En hitt er og eigi síður víst, að hversu mörg góðverk sem einhver hefir að bera fyrir sig, þá rjettlætist hann ekki af verkum þeim, heldur án verðskuldunar, af guðlegri miskun, fyrir endurlausnina í Kristi Jesú (Rómv. 3, 24). Þeir, sem hvorki þekkja Guðs lögmál, eins og það er, nje heldur sjálfa sig, eins og þeir eru — þeir ímynda sjer annað, og hugsa þeir muni fá staðizt fyrir dóminum; þeir trúa á sjálfa sig og þurfa ekki friðþægingar við. En viljir þú, að samvizka þín fallist á þessa höfuðkenningu ritningarinnar, að maðurinn verði ekki rjettlátur fyrir verk sín, þá litastu um meðal mannanna, og vittu hvað marga þú finnur, sem rjettlátir sjeu, og þú getir leitt þjer í hug að ganga mættu fyrir hinn eilífa dómara og segja: „Hjer eru þínir helgu menn, sem komizt hafa óflekkaðir út úr saurindum veraldarinnar; sjá! verk þeirra fylgja þeim í langri runu, gjör svo vel, að telja þau og vega, og þá er fullnægt rjettlæti þínu, því

þeir hafa hlýtt lögmáli þínu, og hvorki vanrækt það nje út af því brotið!“ Renndu svo huganum til sjálfs þín, og íhugaðu, að fyrir þjer eins og öllum, er á jörðunni lifa, liggur fyrst dauðinn og síðan dómurinn. Ímyndaðu þjer því, að þú stæðir frammi fyrir dómsæti hins hæsta, og hvort þú mundir þá segja: „Hjer stend jeg óhræddur sakir rjettlætis míns; ljúk þú upp þeim hinum hræðilegu bókum, er verk mannanna eru í rituð, og allar athafnir þeirra frá vöggunni til grafarinnar, flettu upp þeirri opnu, þar sem mínar eru ritaðar, leiddu í ljós allt, sem áður var myrkri hulið, þú, sem þekkir öll hjörtu! breiddu út allar hugrenningar mínar og allt sem í mjer bjó, meðan jeg dvaldi á jörðunni, og launaðu mjer síðan eptir verkum mínum eins og þau verðskulda“! En sje enginn maður til, er svo óguðlega gæti talað, þá er ekki heldur neinn maður til, sá er geti rjettlættur orðið fyrir verk lögmálsins.

það er — í stuttu máli — hvorttveggja jafnhættulegt: að tala um trúna, en ekki um ávöxtu hennar í góðum verkum, og að áminna til góðra verka, en tengja þau ekki við trúna. því góðverkin eru einstök, og það getur verið, þú hafir mikla mergð af einstökum góðverkum fyrir þig að bera, og gjörir þjer far um, eins og hinn heiðni höfðingi, að láta engan dag hjá líða, svo að þú hafir ekki nýtt góðverk að bæta við tölu hinna fyrri, og þó getur vel verið, þegar allt er saman lagt, að það sje harla lítið í samanburði við það, sem af þjer var heimtað. því þú átt ekki að fullnægja lögmáli Guðs í einstöku hlutum, heldur í öllu; þú átt að gefa fátækum ölmusu, en þú átt einnig að bægja burt ranglæti; þú átt að fullnægja embættisskyldum þínum, en þú átt einnig að vera góður egtamaki, faðir og húsbóndi á heimili þínu; þú átt að standa stöðugur þegar um mikið er að vera, og vinna sigur í þungum baráttum, en þú átt einnig að vera vitur og sannorður, og kröptugur, og ástúðlegur hversdagslega. Hvað er varið í góðverkin, sem þú gjörir endrum og sinnum, þegar afbrot og hirðuleysi standa þeim æ til hliðar. Sönn guðrækni kemur fram í hverri athöfn, og eins og vorið skýtur upp óteljandi blómum og jurtum og grösum, eins fyllir blíða trúarinnar líferni mannsins marghättuðum blómum og ávöxtum. Ó, vjer erum harla fjarlægir kristilegum fullkomleika,

og þess vegna getum vjer ekki orðið rjettlættir fyrir verk vor. En vjer eigum að nálægjast þessum fullkomleika æ meir og meir, og þar til á hin kristilega trú vor að veita oss ekki að eins handleiðslu, heldur og löngun og krapt. Því sönn og hreinskilin trú fyllir hjartað kærleika á Guði og mönnum, og af þeim kærleika sprettur allt það, er veitir mannlegu líferni sanna fegurð. Þannig er öll þessi kenning fólgin í þessum orðum postulans: í Kristi Jesú gildir ekkert nema trúin, sem er ávaxtarsöm í kærleika.

---

# 40.

## VJER EIGUM AÐ BREYTA EPTIR KRISTI.

### Fyrsta hugleiðing.

Hvað þýðir það, að vera kristinn? Allir, sem vorrar þjóðar eru, nefnast nafni þessu, og fæstir af þeim mundu vilja sleppa því, þó þeir hafi ekki tekið sjer það sjálfir, heldur hafi aðrir gefið þeim það þegar á unga aldri. Vera má, að margir sjeu til, sem geti hvorki gjört sjálfum sjer nje öðrum grein fyrir því, hvers vegna þeir haldi við nafn þetta, en þeir hafa þó nokkurs konar óskýran grun um, að það veiti þeim rjettindi og athvarf, er þeir muni þurfa á að halda, þegar allt annað í veröldinni bregzt. Og það er satt, því eins og þjóðnafn það, er vjer nefnumst, heimfærir oss til þjóðar vorrar, og veitir oss þegnrjett á jörðunni, eins setur nafnið kristinn oss í annað fjelag, er veitir oss önnur rjettindi, sem miklu eru æðri. Það er satt, Drottinn vor og Endurlausnari! að þitt hið heilaga nafn, sem nefnt er yfir oss í skírninni, veitir oss rjettindi, er vjer höldum eptir, þegar hin önnur nöfn vor duga oss ekki lengur, og getur veitt oss huggun og djörfung, ekki að eins á

dögum kvíða og hryggðar, heldur og á degi dauðans, og á degi hins mikla dóms.

En veitir þá nafn þetta að eins rjettindi, og leggur það ekki á oss neinar skyldur? Enginn sannkristinn maður getur efast um það; vjer könnumst allir við, að vjer sjeum skyldir að lifa kristilegu líferni, og vjer heyrum optsinnis, að menn lofa hina kristilegu siðfræði, og segja hún sje fullkomnust af öllum. Samt hefir ekki Kristur nje postular hans samið handa oss neina siðfræði með nákvæmu skipulagi og þar að lútandi greinum og boðorðum, heldur ætlað mannlegu viti að semja hana, eptir því sem það gæti bezt; en það er satt, að það, sem í hverjum öðrum leiðarvísi til rjettrar breytni, — skyldu, dygðar, rjettlætis og kærleika, er ekki nema hálft og einstakt og áhrifalaust, það er bæði óskert og mikilvægt og áhrifamikið í fagnaðareyrindi Krists, er svo segir: Þú getur ekki þjónað tveimur herrum, þú átt að elska Drottin Guð þinn af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum, og náunga þinn eins og sjálfan þig; þú átt fyrst, og fremur öllu, að sækjast eptir guðsríki og hans rjettlæti, og fela allt annað almættisstjórn Drottins á vald; þú átt að afneita sjálfum þjer öldungis og afdráttarlaust, svo að þú megir öðlast sjálfan þig aptur, og megir öðlast hið eilífa líf í Guði. En kristileg siðfræði er byggð á Kristi, eins og hin kristna trú; eins og viðargreinin getur ekki borið ávöxt af sjálfri sjer, nema hún sje föst á viðnum, eins getum vjer það ekki, nema vjer sjeum gróðursettir á Kristi (Jóh. 15, 4). Auk margs annars, er það og fólgið í þessum orðum, sem postulinn segir: Kristur hefir þolað dauða vor vegna, og gefið oss eptirdæmi, til þess vjer skyldum feta í fótspor hans (1. Pjet. 2, 21).

Í kristilegri ræðu hlýtur það orðatiltæki opt að koma fyrir, að vjer eigum að breyta eptir Kristi. Ef vjer nefnum oss kristna af nokkurri sannfæring, þá verðum vjer og að viðurkenna, að Kristur sje leiðtogi vor (Matth. 23, 10); en fyrst svo er, hljótum vjer og að viðurkenna, að vjer sjeum skyldir að fara þann veg, er hann hefir vísað oss. Margir vegir eru til í heiminum, og stefna ekki allir að sama miði. Ef þú fer sama veg og múgurinn, kemur þú

þangað sem múgurinn kemur, og aflar þjer sömu speki og dygðar, og sama rjettlætis, og sama heiðurs og styrkleika, og sömu huggunar og sama friðar, og flestir menn í heiminum öðlast: þykir þjer það svo æskilegt? Ef þú gengur þann veg, sem að gekk Drottinn þinn og Meistari, þá gengur þú til þess takmarks, er hann vísaði til. Hann er fræðari vor, orð hans hafa kennt oss, og kenna oss á hverjum degi, hvernig vjer eigum að lifa í veröldinni; en hann er einnig leiðtogi vor, hann hefir farið þann veg, sem vjer eigum að fara.

Að sönnu er hann eingetinn Sonur Guðs, hinn tignarlegi, hinn eini, og dýrð hans er meiri, enn nokkurrar skepnu, hann hefir á sjer mynd hins eilífa Föðurs, á þann hátt, er engin sköpuð skepna getur haft hana, og enginn fær unnið slíkt afreksverk, er hann hefir unnið, eins og ekki er nema einn miðpunktur í neinum hring. En hvað háleitar hugmyndir, sem þú átt og verður að gjöra þjer um hann, þá máttu ekki álíta hann svo háleitan, að menn geti ekki reynt að líkjast honum. Hann var þó mannsins Sonur og bróðir vor, eins og hann er Drottinn vor, og hið sama lunderni á að vera í oss, eins og var í Jesú Kristi (Fil. 2, 5), og hver, sem segist vera í honum, á að breyta eins og hann breytti (1. Jóh. 2, 6).

Hvaða vegur er það þá, sem hann hefir farið, og vill leiða oss á? Vjer getum sagt það í fáum orðum: í gegnum dauðann til lífsins. Vitið þjer ekki, segir postulinn, að hver af oss, sem skírður er til Jesú Krists, er skírður til dauða hans; því að vjer erum greptraðir með honum í skírninni til dauðans, svo að vjer eigum að ganga í endurnýjungu lífernisins, eins og Kristur er vakinn frá dauðum fyrir dýrð Föðursins. Því ef vjer erum sameinaðir honum, með því að líkjast dauða hans, þá eigum vjer og að vera það, með því að líkjast upprisu hans (Rómv. 6, 3. 4. 5). Í þessum orðum er innifalin öll kenningin um það, hvernig vjer eigum að breyta eptir Kristi; og hún skiptist í tvö atriði, því vjer eigum að deyja með Kristi, og vjer eigum að lifa með honum.

Hvað er þá fyrst að deyja með Kristi? — „Vitið þjer ekki, að hver af oss, sem skírður er til Jesú Krists, er skírður til dauða hans?“ Sá dauði, sem hjer er verið að tala um, getur ekki verið líkamlegur dauði, því hann eiga allir menn sjer vísan; fyrsta andartak vort á jörðunni vígir oss dauðlegleikanum, og fyrsti geislinn, sem skín á oss af sól veraldar þessarar, vígir oss myrkri grafarinnar. En dauði Krists var fórnfæring, eins og allt líf hans á jörðunni, og þess vegna er þess krafizt, að sjerhver játenda hans afneiti sjálfum sjer; þegar postulinn segir, að vjer eigum að deyja með Kristi, þá er það sömu þýðingar og það sem Drottinn sjálfur sagði: hver sem vill fylgja mjer, afneiti sjálfum sjer, og taki kross sinn á hverjum degi, og fylgi mjer (Lúk. 9, 23).

„Hver af oss, sem skírður er til Jesú Krists, er skírður til dauða hans.“ Þegar postulinn reit þessi orð, stóð það hverjum í sjálfsvaldi, hvort hann vildi skírast eða ekki. Hver sá, sem tók skírn, og aðhylltist Drottin og söfnuð hans, gjörði það með ásettu ráði, engum var þröngvað til þess, og enginn tældur til þess með von um nokkurn stundlegan ábata. Síðan heil ríki og lönd hafa tekið kristni, hljóta menn og eiga að taka börnin undir eins inn í söfnuð Krists, til þess þau skilji, að þau sjeu í honum, undir eins og þau fara að vita til sjálfra sín, og geti haft leiðbeining af Kristi í frá æsku sinni. En fyrst þetta er gjört meðan börnin vita ekkert hvað fram fer, áður enn þau geta ákvarðað sig til nokkurs, þá verða þau að vera þess sjálfráð, þegar þau eru orðin fullorðin, hvort þau vilji álíta þau loforð gild, sem aðrir hafa gjört fyrir þeirra hönd, og hvort þau vilji halda kristilegan skírnarsáttmála. En ef þú vilt það ekki, og segist ætla að stefna lífi þínu að öðru takmarki, og velja þjer annan veg, enn þann, sem leyft er að fara í þessu fjelagi, þá er það á valdi sjálfs þín, að slíta af þjer þau bönd, sem þjer er illa við, og sleppa fyrirheiti því, sem þjer hefir verið boðið. En ef þú villt það ekki, og segist vilja halda sáttmála þann, sem gjörður er fyrir þína hönd, og viðurkennir að þú sjert skírður til Jesú Krists, þá getur þú ekki hliðrað þjer hjá skyldu hinna kristnu, þá segir postuli Drottins

einnig við þig: Veiztu ekki, að hver af oss, sem er skírður til Krists, er skírður til dauða hans?

Postulinn þýðir þetta fyrst og fremst svo, að vjer eigum að deyja frá syndinni (Rómv. 6, 2. 10. 11). Að sönnu er sá dauði ólíkur dauða Drottins; hann þurfti ekki að deyja frá syndinni eins og vjer, heldur dó hann fyrir syndina, og með því hann fórnfærði sjálfan sig, skyldar hann oss til að afneita sjálfum oss; en að deyja frá syndinni, er að afneita sjálfum sjer, það er: girndum sínum og tilhneigingum. Þessu samsinna flestir að svo miklu leyti, sem þeir viðurkenna, það sje nauðsynlegt, að þeir, sem lifa í opinberum löstum og óguðleik, betri sig — eða deyi frá syndinni, ef menn vilja kalla það svo. En þeir bæta við í hjarta sínu: Þetta snertir ekki sjálfa oss, því í frá barnæsku höfum við haft viðbjóð á löstunum, og gott uppeldi og sómatilfinning sjálfra vor hafa frá barnæsku verndað oss frá því, sem illt er og óvirðulegt; þó hið góða í oss sje enn þá ófullkomið, þurfum vjer samt ekki að útrýma neinu, nje deyja frá neinu. Þó talar postulinn til allra, sem skírðir eru til Krists; og einhvern tíma, þegar þú reynir til af hjarta að sameina þig Drottni, hlýtur að verða á þjer einhver sú umbreyting, sem líkist dauða, og það hlýtur að verða sífelldlega, svo að kristinn maður getur sagt eins og postulinn, að hann deyi daglega (1. Kor. 15, 31).

Það er í oss sífelld barátta milli skyldu og tilhneiginga. Ekki er það samt í öllu tilliti, því Guði sje lof, að margar af hinum helgustu skyldum, — iðni, trúlyndi, elska, miskunsemi, geta verið samkvæmar tilhneigingum hjartna vorra, og verða það því meir, sem oss fer meira fram. En hvað langt sem vjer komumst, verða þó margar skyldur oss örðugar; já! skyldan rekur oss ekki að eins til að láta af vondum tilhneigingum, heldur bannar hún oss optsinnis það, sem gott er og yndislegt, sem veitir ekki að eins saklausa ánægju, heldur og æðri og háleitari fullnægju, og þegar það kemur opt og tíðum að og á margan hátt, þá verður eðli vort einatt að þola nokkurs konar dauða. Opt kemur í oss þykkja, er sýnist makleg, og er það, ef til vill, í raun rjettri; hún er lík þykkju þeirri, er var í Drottni, þá er hann sagði: þú hin trúar-

lausa og rangsnúna kynslóð! hversu lengi á jeg að vera hjá yður? hversu lengi á jeg að umbera yður (Matth. 17, 17). En eins og Drottinn dvaldist samt hjá þeim, og umbar þá, eins eigum vjer og að temja þykkju vora, og umbera mennina, eins og þeir verða að umbera oss, og þess vegna verðum vjer að sleppa mörgum kröfum, þó rjettar sjeu. Í öllum oss er jarðneskt hugarfar; spilling þess er ekki í því fólgin, að oss þyki vænt um gæði þessarar veraldar, og gleðjumst af að verða þeirra hluttakandi, heldur í því vjer álítum þau svo mikilvæg, og metum þau meir enn allt annað; en þegar hin himneska rödd segir við oss: leitið fyrst Guðs ríkis og hans rjettlætis, þá heimtar rödd þessi, að þetta jarðneska hugarfar deyi. Ó! — og þegar vjer gáum að ástríðum vorum, hversu mikið sjáum vjer þá, er hver af oss þarf að deyða hjá sjer, ef líf ráðvendninnar og kærleikans á að kvikna og eflast: drambsemina, hina illu og ósanngjörnu og óstýrilátu reiði, öfundina, hefndargirnina, lostann, og svo framvegis; og allar þessar ástríður vakna sífelldlega aptur, og verða því að deyðast sífelldlega — daglega. Þar að auki býr í öllum oss nokkurs konar ráðríki, sem vill kenna Guði, hvað hann skuli gjöra, og ákafar óskir, sem nálgast ekki veldisstól hins alvitra með auðmýkt, heldur ætla sjer að ráðast á himininn, og vilja ráða því, hvað oss verði sent hjer ofan að; og þegar ráð Guðs eru ekki samkvæm vorum ráðum, nje heldur vegir hans vorum vegum, þá kemur í oss óþolinmæði, sem ásakar þann, er duptið á að þegja fyrir; þetta allt verður að deyja í oss, eigi elska sú að geta kviknað í oss, sem ein getur aflað sálum vorum hvíldar, og er undirstaða trúarinnar, sem er aðalatriði kristindómsins. Eigi því lífið í Guði, sem er ósjerplægið, styrkt og háleitt, að geta kviknað í oss, þá verður að deyja hið sjerdræga og eigingjarna líf, þá er maður lítur að eins á sig og sinn hag. Slíkur er sá dauði, er postulinn segir vjer sjeum skírðir til, þá er vjer erum teknir inn í kristilegan söfnuð; slíkum dauða hafði hann og orðið að deyja, áður hann gæti með sanni sagt: jeg lifi ekki framar, heldur lifir Kristur í mjer (Gal. 2, 20).

Eigum vjer því að geta fylgt Kristi, þá verðum vjer að deyja frá syndinni, og ekki að eins frá því, er veröldin kallar synd,

það er löstum og afbrotum, heldur og frá þeirri synd, sem brennur í hjörtum vorum, og lýsir sjer í ágirnd og losta og alls háttar illum girndum, og veröldin gefur ekki gaum að; vjer eigum að deyja frá sjálfselsku þeirri og þrjózku, sem gjörir oss ófúsa til að hlýðnast Guði og hjálpa náunga vorum, og lýsir sjer í óþolinmæði við menn, og óþolinmæði í þeim raunum, sem Drottinn leggur á oss. Jeg hefi sett allt þetta saman, því það heyrir allt til þess lífs, sem hefir brotizt undan Guði, og vill vera eitt sjer, en það líf á að deyja; lát það deyja sem fyrst þú getur, því það kann ekki og á ekki að geta staðizt, það hefir sjálft grafið sjer gröf. En er það ekki optsinnis líkast því að berjast við öndina, að láta í móti girndum sínum og ástríðum, og hafna því, er menn eiga rjett á að heimta? Er það ekki optsinnis því líkast, sem værum vjer að slíta hjörtun úr brjóstum vorum, þegar vjer afneitum því, sem er svo mjög samtvinnað veru vorri? Sæll er sá, sem kannast við guðlegt vald Krists orða, svo þau geti talað til hans á reynslustundunum, og annaðhvort latt hann eða hvatt, eptir því sem hann þarf á að halda. En vjer kristnir menn þekkjum ekki að eins kenningu Krists heldur og líferni hans; sæll er því sá, sem hefir dæmi Krists sjer fyrir hugskotssjónum og lærir af því, að afneita sjer, og láta í móti sjer, umbera og þola, eins og Drottinn vor og Frelsari hefir gjört!

þau eru ekki gengin úr gildi enn hin fornu orð, er svo hljóða: „Komið hingað til mín, þjer, sem erfiðið og þjáizt! jeg vil veita yður hvíld. Gangið undir mitt ok, og lærið af mjer, því jeg er hógvær og af hjarta lítillátur, þá skuluð þjer fá hvíld handa sálum yðrum“ (Matth. 11, 28. 29). Vjer eigum ekki bágra með að læra nokkurn hlut, enn hógværð og hjartanlegt lítillæti, og getum þó ekki án þess öðlazt neina hvíld handa sálum vorum. Látum oss því líta til hans, sem hjálpar oss í sjerhverri baráttu, ekki að eins í baráttunni við líkamlega óvini, heldur og í hinni erfiðu baráttu, þegar vjer viljum temja hjörtu vor. Jeg hefi áður sagt, að vjer ættum ekki að eins að láta í móti illum og óvirðulegum girndum, heldur ættum vjer og optsinnis að sleppa því, er vjer sýnumst eiga rjett á, og sýnumst geta heimtað með sanngirni

að öðrum mönnum og lífinu. En þegar vjer lítum svo stórt á sjálfa oss, að vjer viljum ætíð fá fram rjett vorn, og þegar vjer eigum svo örðugt með að brjóta odd á oflæti voru, til að geta hjálpað, þjónað, glatt og gagnað: hvað mun þá fá meiri áhrif á oss, enn að aðhyllast hann af hjarta, sem kom ekki til að láta þjóna sjer, heldur til að þjóna öðrum, og láta líf sitt til lausnargjalds fyrir marga (Matth. 20, 28.)? Hvað gjörir oss svo fúsa til að afneita sjálfum oss, og til að beita ekki í móti öðrum þeim yfirburðum, er Drottinn veitti oss, hvort sem þeir eru líkamlegir eða andlegir, heldur álíta þá sem skuldbinding til að efla annara gagn — hvað gjörir oss eins fúsa til þess, segi jeg, eins og hin dýrmæta áminning postulans, er svo hljóðar: látið sama lunderni vera í yður og var í Jesú Kristi, sem var eptirmynd Guðs, en stærði sig þó ekki af því, að hann væri Guði líkur, heldur lítillækkaði sjálfan sig, og var hlýðinn fram í dauðann, já fram í dauðann á krossinum (Fil. 2, 5 og s. fr.)? Hvernig lærum vjer betur að láta í móti reiði vorri og hefndargirni, og að vera friðsamir og fyrirgefa, en ef vjer setjumst undir kross Krists, þar er Friðþægjari veraldarinnar, hinn heilagi og saklausi, kom til sinna, en þeir vildu ekki veita honum viðtökur (Jóh. 1, 11), og það fyrir þeim, sem höfðu útskúfað honum, og ofsótt hann og sakfellt, og smánuðu hann í pínu hans, og sagði: Faðir! fyrirgef þeim, þeir vita ekki hvað þeir gjöra (Lúk. 23, 24)? þar fær þessi áminning postulans nýtt afl: „það þóknast Guði, að þjer sjeuð þolinmóðir, þegar þjer þolið illt fyrir góðverk yðar. því til þess eruð þjer kallaðir, með því Kristur hefir einnig liðið fyrir oss, og gefið oss eptirdæmi, til þess vjer skyldum feta í fótspor hans. Hann drýgði enga synd, og svikmæli fundust ekki í munni hans; þegar honum var formælt, formælti hann ekki aptur í mót, og þegar hann þjáðist, ógnaði hann ekki, heldur fól málefni sitt honum á hendur, er rjett dæmir“ (1. Pjet. 2, 30). Og hvar lærum vjer betur að gefa oss undir vilja hins eilífa Guðs, og að fela oss og allt vort ráð hinum himneska Föður algjörlega á vald, enn þegar vjer fylgjum Drottni vorum og Meistara til Getsemane, og sjáum hann titra af kvíða, er sál hans er hrygg allt til dauð-

ans, og heyrum hann biðja á þessa leið: Verði samt ekki minn vilji, heldur þinn.

Hver sem breytir eptir Kristi í öllu þessu, og tekur kross sinn, hver sem hann er, sjer á herðar á hverjum degi, og lætur sjer ekki í augum vaxa að láta mikið móti sjer, en telur einnig fyrir því hafanda að láta í móti sjer, þó í litlu sje, hann er sameinaður Kristi, með því að líkjast dauða hans. Þú hefir, Drottinn vor og Meistari! vísað oss öllum þenna veg gegnum dauðann til lífsins, og hvernig ættum vjer að skorast undan að fara hann, úr því þú hefir sjálfur farið hann á undan? því lærisveinninn er ekki fyrir meistara sínum (Matth. 10, 24). Vjer eigum að vera fúsir á að drekka af þeim bikar, er þú hefir drukkið og að skírast hinni sömu skírn og þú (Matth. 20, 22). Gef oss afl hógværðarinnar, og traust lítillætisins, að vjer gætum barizt og þjázt með þjer, og að endingu sigrað með þjer!

---

# 41.

## VJER EIGUM AÐ BREYTA EPTIR KRISTI.

### Önnur hugleiðing.

Vegur vor til guðsríkis liggur í gegnum margar hörmungar. (Post. 14, 22). Þær hörmungar, er fyrstu játendur Krists voru leiddir gegnum til guðsríkis, voru þyngri og örðugri, enn flestar af þeim, sem fyrir oss eru lagðar; þó á hver kristinn maður enn í dag að þekkja hluttekningu í píslum hans, og líkjast honum í dauða hans (Fil. 3, 10); og enn er það í fullu gildi, að ef vjer þjáumst með honum, skulum vjer og með honum dýrðlegir verða (Rómv. 8, 17). En að þjást með Kristi, er ekki innifalið í því

einu, að þola nokkuð af þeim þjáningum, er hann þoldi, heldur og í því, að þola þær með sama hugarfari og hann. Þess vegna er það mikils áríðandi, vjer breytum eptir Kristi í því að vera þolinmóðir og stöðugir í þjáningum.

Þjáningar — það er algengt orð. Vjer nefnum það opt, og það er mikillar þýðingar fyrir oss auma menn. Því hver getur talið eymdir þær, er dauðlegir menn rata í á hinni erfiðu lífsleið? Hversu margar eru uppsprettur táranna, er þau renna úr, lík beiskum straumi, og sýnast vera skepnu Guðs til óprýði! Hversu margir eru harmar þeir, sem kvelja hjarta mannsins á laun; þeir koma honum ekki til að gráta nje barma sjer, en það getur verið þeir leggist því þyngra á hann. Þjáningar — það orð höfum vjer opt fyrir börnunum, til þess það sje þeim ekki ókunnugt, þegar þau eiga að fara að reyna, hvað veröldin veitir. Og ef þú spyrð þau að því, þegar þau fara að eldast, hvernig þeim hafi þótt lífið, munu þau ekki svara, að þú hafir dregið þau á tálar, heldur munu þau kvarta undan harmkvælum lífsins, og stynja undir byrði þess.

En þá er menn kvarta í öllum áttum, ekki að eins fátæklingarnir í kotunum, heldur og ríkismennirnir í höllunum, ekki að eins þeir, sem liggja á sóttarsænginni, heldur og þeir sem traustir eru og heilbrigðir, biður spekin sjer hljóðs, og eggjar hina kveifarlegu kynslóð að eyða ekki tímanum í ónýtu voli, nje orku sinni í eintómum andvörpum: ber þú, segir hún, það er þú átt að bera, en kvartaðu ekki um það, heldur gaktu ötull og ódeigur móti andstreyminu, þá mun það innan skamms missa sárinda sinna, og ekkert vald hafa yfir sjálfum þjer.

En æskjum vjer oss nú þeirrar speki, sem í því er fólgin að láta öll mannleg efni liggja sjer í ljettu rúmi — að lindir tilfinninganna þorni upp í brjóstum vorum, svo vjer getum hrundið því burt úr faðmi vorum, er vjer unnum mest, án þess hjarta vort komist nokkuð við af því, en það valdi oss engrar hryggðar að líta yfir eymd mannanna og renna augunum til sjálfra vor, og hugsa um ástand vort í veröldinni? Var það slík speki, er skein blíðlega í augum Frelsara vors, og bjó í hjarta hans, þegar hann

kallaði til sín alla þá, sem erfiða og þjást, eða þegar hann leit yfir Jerúsalem, er svo má kalla, að búið væri að setja á hana merki þess, að hún skyldi eyðast, eða þegar hann stóð við gröf Lazarusar, eða þegar hann var í Getsemane, og beið þess, er fram við hann átti að koma? það hafa verið til spekingar, sem hefir tekizt að útrýma allri viðkvæmni úr hjörtum sínum, sem hörmungar lífs þessa fengu ekkert á, hvort sem þær vofðu yfir sjálfum þeim eða öðrum. það hafa verið til spekingar, sem hafa getað tekið við eiturbikarnum óttalaust, og skemmt sjer á seinustu stund æfi sinnar við hugrenningar, sem tilfinningin á engan þátt í, og yfirgefið allt án saknaðar eða hryggðar. En Drottinn vor og Meistari var ekki síður mannsins Sonur, enn hann var Guðssonur, og mannlegt hjarta bjó í brjósti hans. Hvað mörgum guðlegum náttúrum sem hann hefir sleppt, þegar hann gjörðist mönnum líkur, hefir hann samt ekki sleppt guðlegum kærleika og guðlegri miskunsemi, því hann kenndi í brjósti um alla þá er þjáðust; og með því hann varð að reyna allt hið sama og vjer, hafði hann og allar hinar sömu tilfinningar og vjer mennirnir. Einmitt þess vegna varð hann mönnunum svo kær, og einmitt vegna þess getur hugur vor ekki að sjer gjört, hann fýsist svo mjög til þeirra staða, er píslir Krists hafa helgað. þar ríkir hryggðin, en þar á líka huggunin heima; þar lifna allar þær tilfinningar, sem hvílast í djúpi sálarinnar, en þar kemst og rjett skipun á þær, og þær verða allar að einni fórn handa eilífum Guði, og öll öfl sálarinnar sameinast til að biðja á þessa leið: Faðir vor! verði þinn vilji.

Nú höfum vjer einkum haft í huga seinustu píslir Krists. Að sönnu voru það ekki hinar fyrstu þjáningar hans, er hann varð fyrir í Getsemane, því löngu áður hafði hann orðið að þola margs konar andstreymi; að sönnu litu seinustu píslir hans allt öðru vísi út fyrir manna sjónum, enn þær þjáningar, er flestir af oss þurfa að búa sig undir; en samt sem áður eigum vjer að fylgja Drottni vorum á píslargöngu hans, til þess að geta lært af honum, að gefa sig með öllu undir vilja Guðs, því að í því á hver kristinn maður að breyta eptir Drottni vorum, þar sem slík undirgefni er

hin mesta prýði á kristnum manni, hverju nafni, sem þjáningar hans nefnast.

„Þegar Jesús kom til Getsemane, tók hann að hryggjast og mjög harmþrunginn að verða, og sagði við lærisveina sína: Sál mín er hrygg allt til dauðans“ (Matth. 26, 36). Sá er þessa pínu leið, og stríddi við dauðann, (svo að sveiti hans var sem þá blóðdropar falla til jarðar, en sál hans var mjög harmþrungin), hann hafði optsinnis áður staðið meðal margra þúsunda, er hlýddu á kenningu hans, en lýðurinn tignaði hann sem konung; það var hin mikla hetja, er ríki veraldarinnar og dýrð þeirra gátu ekki tælt; sem ógnanir hinna voldugu og kurr lýðsins fengu ekkert á; sem varð að þola örbyrgð og ofsóknir, en kvartaði þó ekki; sem óttaðist ekki þá, er líkamann deyða, en geta ekki líflátið sálina. Hann sóttist ekki eptir því lofi að heita tilfinningarlaus, heldur tók hann þátt í mannlegum kjörum, og kallaði baráttu þá erfiða, er hann varð að heyja, og þjáningar þær sárar, er mæddu sálu hans. En hafði hann fyrir það látið nokkuð af tign sinni? eða voru yfirburðir sálar hans að minni? það vekur eintóma hryggð í manni, að sjá þjáningarnar vinna sigur á einhverjum, þegar ekkert er til í honum, er öldur þeirra geti brotnað á. Ef vjer verðum einskis annars varir hjá honum, enn huggunarleysis og örvæntingar, þá kennum vjer að sönnu í brjósti um vesæling þann, er sjálfkrafa gengur út í glötunina, en snúum oss þó undan, því slík sjón ollir óbærilegra sárinda, en hefir ekkert til að bera, er geti mýkt þau. En hvað hryggir sem vjer verðum, þegar hinn þolinmóði þjáist, þá er samt huggunin ekki fjarlæg; því vjer sjáum þolinmæðina og guðhræðsluna eflast með honum, og verða mjög styrkar; vjer sjáum berlega, að menn geta sigrazt á veröldinni, og sú sjón er hjarta voru harla geðfelld, vjer erum fúsir til að hugsa um hana og læra af henni. Því vil jeg, Drottinn minn og Frelsari! optlega hugsa um þig, þegar hin mikla skelfilega stund nálgaðist í Getsemane, þegar enginn af lærisveinum þínum vildi vaka eina stund með þjer, en þú varst einmana í næturmyrkrinu, þegar vald myrkranna vofði yfir, þegar þú fjellst á knje, og barst fram bænir og auðmjúk andvörp, með tárum og kveinstöfum, fyrir þann, sem megnaði

að frelsa (Hebr. 5, 7.), biðjandi: að sú stund liði fram hjá; en jeg vil líka hugsa um það, að þegar forlögum þessum varð ekki breytt, og tíminn var kominn, og þú áttir að verða svikinn í hendur syndurunum, þá stóðst þú upp í guðlegum styrkleik, og þegar þú, sem svikinn varst og yfirgefinn og framseldur í dauða, leizt á óaldarflokkana, og sagðir: jeg em hann (Jóh. 18, 5. 6), þá hopuðu þeir á hæl aptur. Augu sálar minnar skulu optsinnis líta þig með þyrnikórónuna á hinu blóðuga höfði, og purpurakápuna á hinum húðstrýkta líkama, með veldissprota þann í hendinni, er þeir höfðu til að spotta með kvalir þínar; þau skulu líta þig, þá er dómarinn leiddi þig fram fyrir hinn óða lýð, til þess að vita, hvort hann gæti ekki komið honum til að aumkast yfir þig, eða þá fyrirlíta þig, og sagði: sjáið manninn (Jóh. 19, 5.)! En jeg vil einnig líta þig, þá er þú stóðst, í mikilli niðurlægingu, frammi fyrir hinum órjettlátu, og mæltir þessi orð fullur af trausti: samt er jeg konungur (Jóh. 18, 37); jeg vil líta þig, þá er þú mæltir þessi hin mikilvægu orð: jeg er sá, er þú segir mig vera, (Mark. 14, 62), jeg er Kristur, Messías, Sonur hins blessaða, er allar þjóðir hafa eptir beðið, og allar þjóðir munu blessun af hljóta. Jeg vil fylgja þjer á píslargöngu þinni, jeg vil sjá, þegar þú hnígur undir byrði krossins, jeg vil harma með þeim, sem kenndu í brjósti um þig og grjetu yfir þjer; en jeg vil og sjá, þegar þú snýr þjer til þeirra og segir: grátið ekki yfir mjer, dætur Jerúsalems! heldur yfir sjálfum yður og börnum yðrum (Lúk. 23, 28). Með því einu móti, að vjer skoðum styrkleika Jesú, þegar vjer skoðum þjáningar hans, og sjáum dýrð hans skína gegnum niðurlæginguna, með því einu móti getum vjer lært af því, það er vjer eigum að læra, og það er ekki hinn kaldi styrkleiki sálarinnar, sem finnur ekki til sárinda þjáninganna, heldur hið kristilega hugrekki, sem varðveitir frelsi sálarinnar.

Í Getsemane hófust þjáningar þær, sem Jesús hafði lengi sjeð og sagt fyrir. Í fyrstunni var allt kyrrt í kringum hann; það var eins og þegar þrumuský hafa lengi verið að safnast saman yfir höfðum vorum; allt er kyrrt um stund — óttalega kyrrt, en

á vörmu spori munu himinraufarnar opnast, og þrumurnar munu duna, eldingin fljúga út úr hinum svörtu skýjum — hvern mun hún hitta? En Jesús vissi hvern hún mundi hitta, hann hafði sagt vinum sínum það, en þeir trúðu honum ekki, og tóku á sig hvíld, yfirkomnir af svefni. Þá var Jesús einmana, og eins og það er stundum fyrir oss, þá er ótti er í oss, að vjer finnum til alls þess í einu, er fram við oss á að koma hryggilegt um langa tíma, þannig lagðist og á Jesúm þungi allra þeirra písla, sem yfir hann áttu að koma, hver annari hræðilegri, og hann fann fyrir fram til sárindanna af öllum þeim örvum, er áttu að fljúga gegnum hjarta hans. Það var eins og hinn dymmi dauðaengill hefði opinberazt honum, og rjett honum bikar, þann er fullur væri af alls konar hörmungum. Taktu til einhverja hörmung, er þjer sýnist einna sárust, og spyr þú svo sjálfan þig, hvort hún muni ekki hafa verið í bikar þeim, er Frelsari þinn varð að tæma? Sjá! hann var þá enn með fullum kröptum, en þeir áttu að eyðast hverja stundina af annari, og áður enn sól gengi undir næsta dag, átti hann að verða húðstrýktur og negldur á krossinn, og vanmegnast á honum, og láta líf sitt undir bölvun lögmálsins. Þykir þjer, sem spott veraldarinnar, eða hæðnishlátur óvina þinna, eða rangar gersakir vina þinna við þig, eða ótrúlyndi þeirra, sje hið ógurlegasta, sem fyrir þig geti stigið? Sjá! sá, er allt þetta átti að reyna, hafði fyrrum þegið lof veraldarinnar, lýðurinn í Galíleu hafði flykkzt að honum þúsundum saman, og hlustað eptir hverju orði hans; lof hans hafði hljómað á strætum Jerúsalems, og fyllt musterið, allur lýðurinn hnje að honum og hlýddi á hann; kennifeður Gyðinga höfðu farið til hans, ýmist í hreinskilni, eða af fláræði, en hvort sem var, höfðu þeir tignað hann sem meistara, og löglærðan mann, er menntaður væri til guðsríkis. Og nú hafði veröldin yfirgefið hann, nú átti umhverfis hann að hljóma hið grimma óp: krossfestu hann! krossfestu hann! nú áttu þessi hin ósvífnu hæðnisorð að heyrast: öðrum getur hann hjálpað, en sjálfum sjer getur hann ekki hjálpað (Matth. 27, 47). Fyrir fáum tímum síðan hafði hann setið meðal vina sinna, er höfðu unnt honum mikið, og aðhyllzt hann; nokkrir þeirra höfðu hlakkað

til að verða hluttakandi í beiðri þeim, er þeir ímynduðu sjer hann mundi bráðum öðlast; en þeir voru líka til, sem höfðu svarið honum trúnað, þó þeir ættu að láta líf sitt með honum. Og nú var einn þeirra búinn að svíkja hann, og hinir ætluðu að yfirgefa hann, og afneita honum. Þó að ástin á honum væri ekki út kulnuð í hjörtum þeirra, þá hafa þeir nú eflaust tekið að ásaka hann fyrir það með sjálfum sjer, að hann hefði ekki hlíft sjer og þeim, og að hann mundi hafa leitt bæði þá og sjálfan sig í dauða. Á slíkan hátt varð hann að skilja við þá. Að sönnu stóðu síðan ástríkur vinur hans og móðir hans undir krossinum. — Ó! ef þjer þykir það sárast af öllu, að skilja við ástvini þína huggunarlausa, þá hefir Frelsari þinn þolað þá hörmung líka. Sú kona stóð undir krossi Jesú, sem heitið hafði verið, að allar þjóðir skyldu hana sæla kalla, sem hafði huggað sig við fyrirheit það, er hún varðveitti í hjarta sínu, í öllum þeim þjáningum, er hún hafði orðið að þola með syni sínum og fyrir hann; og nú nýsti sverð hjarta hennar. Og sá lærisveinn, er Jesús elskaði, átti ekki lengur að halla höfði sínu að brjósti hans, hann átti síðan hvergi að geta hallað því að, nema að hinum kalda steini grafarinnar. Þykir þjer það hryggilegast, að þurfa að yfirgefa starfa þinn í veröldinni, og allt það er þú hefir varið til lífi og kröptum — það er var einkainndæli þitt, og von þín, meðan dagurinn var ekki þrotinn — og orðstír þann, er þú hugðist mundi geta þjer á jörðunni, svo að nafn þitt mundi verða uppi, þegar nóttin kæmi, þá er ekki verður aðhafst — þykir þjer hryggilegast, segi jeg, að þurfa að yfirgefa starfa þenna ófullgjörvan, og fá hann í hendur öðrum, sem verða kunna ljettúðugir eða óráðvandir, eða þjer óvinveittir, svo þeir dreifi því í sundur, er þú hefir safnað, og rífi það niður, er þú hefir byggt? Ó! á þeirri stund, er Jesús stríddi við dauðann, var hann að eins búinn að leggja grundvöllinn til musteris þess, er hann ætlaði að byggja, hann átti mikið eptir að segja lærisveinum sínum, en þeir voru þá enn ekki hæfir að heyra það (Jóh. 16, 12)? mundu þeir vilja taka á móti Anda sannleikans, er hann ætlaði að senda þeim? mundu þeir varðveita minningu hans og elska hann eptirleiðis, og gæta hjarðar hans? Hann vissi

það mundu koma falsspámenn, grimmir úlfar, er sundra mundu sauðunum: hver átti að safna þeim saman, bæði þeim er fjarlægir voru og nálægir, svo það yrði ein hjörð og einn hirðir? Og á þessum myrkranna tíma hafði Jesús sleppt allri guðlegri dýrð sinni; hann átti ekki að kalla á hersveitir himnanna til að hjálpa sjer, og ljós himnanna áttu ekki að lýsa skelfdri sálu hans með birtu sinni. Hann vissi gjörla, hvaðan hann var kominn, og hvert hann átti að fara, hann vissi gjörla, vegna hvers hann hafði verið sendur, og að sending hans átti ekki að verða árangurslaus, og að sjálfsafneitun hans einmitt átti að fullgjöra starfa hans; en því var og sjálfsafneitun hans fullkomin; hann var um þessar mundir eintómur maður, þó syndlaus, hann vissi ekki stund nje tíma, því það var á valdi Föðursins, heldur fann hann til hins sama, og hið helga skáld, er kveinaði á þessa leið: Guð minn! Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig (Sálm. 22, 2)? Og himin og jörð þögðu, og það var að sjá, sem allar syndir jarðarinnar, og allir glæpir, sem undir sólunni hafa verið drýgðir, væru komnir saman í eitt og orðnir að einni ofboðslegri misgjörð, er jörðin hafði ekki aðra gjöf að bjóða Frelsara sínum enn dauða á krossi, og allar sektir, sem hið styggða rjettlæti hefir lagt á hina föllnu kynslóð mannanna, hefðu safnazt yfir höfuð hins saklausa. — Slíkar voru tilfinningar þær — en hver getur samt skýrt frá þeim öllum? — er særðu sál Jesú, á þeirri stund, er hann tók að hryggjast og mjög harmþrunginn að verða, og sagði: sál mín er hrygg allt til dauðans. Naumast getur sú þjáning komið yfir þig í veröldinni, að ekki hafi hún verið beiskur dropi í bikar þeim, sem Frelsara þínum var rjettur.

Hvað hafðist Jesús þá að, meðan hann titraði af eptirbið þeirra hluta, er fram áttu að koma? Hvar leitaði hann sjer huggunar og trausts, og á hvern hátt gjörði hann það? Hann mundi feginn hafa viljað eiga sjer vin, til að styðjast við; hann hafði og tekið með sjer þá þrjá, er hann unni mest; en hann átti einnig að fara á mis við þá huggun, því þeir vildu ekki vaka með honum eina stund. Þá gekk hann afsíðis einn saman, fjell til jarðar og sagði: Faðir minn! alls ertu máttugur, tak þenna

bikar frá mjer; þó ekki sem jeg vil, heldur sem þú vilt (Mark. 14, 35. 36).

Snú þú nú, kristinn maður! huganum betur til sjálfs þín, því áminningin frá Getsemane talar til þín, hvar Drottinn þinn þjáðist, og eptirskildi þjer þar fyrirmynd, svo þú skyldir feta í fótspor hans. Þú hefir heyrt þau orð hans, er jeg færði síðast til, í ungdæmi þínu, og jeg efast ekki um, að þú hafir geymt þau í minni þjer. Þú hefir ekki þolað sömu þjáningar og Drottinn þinn, en eflaust hefir það komið fyrir þig um dagana, að hörmungar hafi ofsótt hjarta þitt, og þú hafir titrað af miklum kvíða: hefirðu þá breytt eptir dæmi Drottins? hefirðu þá fallið fram fyrir hinum eilífa, og beðið hann, ekki með ávarpi æstra geðshræringa og örvinglunar, svo segjandi: hjálpa oss,. vjer ætlum að týnast! heldur með hógværri og hreinni bæn, er ætíð á bænheyrslu vísa? Hvernig hefir þú talað til Guðs í hinum hörðu baráttum lífs þíns? Hefirðu sagt: Faðir minn! eins Faðir fyrir það, þótt þú tiptir og særir, þótt hjarta mitt titri, og mjer sýnist þú hafa ausið eintómri reiði yfir mig! Hefir þú sagt: alls ertu megnugur? Að sönnu sje jeg ekki nein merki miskunar þinnar, og himin þinn er mjer hulinn, svo að engin stjarna lýsir mjer í myrkrinu; samt trúi jeg, þó jeg sjái ekki, og held mjer fast við þig, þú hinn ósýnilegi! jeg veit að þú hefir öll forlög í hendi þjer! jeg veit, og trúi því, að þú getur sefað ofviðrið, þegar þú vilt, og látið skipið skríða óhult á fram! En hefirðu einnig sagt: verði þinn vilji, þ i n n vilji, en ekki minn; hefir þú sagt það, ekki að eins með vörunum, heldur af fullri alvöru, í einlægni hjarta þíns, og af fullkominni, ótakmarkaðri undirgefni. Ó! það er harla fagurt og huggunarríkt, að heyra mann, á þyngstu stundum æfi sinnar, — þegar það vofir yfir, sem hann óttast mest, og hann hlýtur að bergja af þeim bikarnum, er honum þykir rammastur allra, — segja af fullri sannfæringu: þó þess væri unnt, að jeg mætti taka við stýrinu, og mætti sjálfur ráða forlögum mínum; þó þess væri unnt, að jeg mætti setja frá mjer bikar þann, er jeg kvíði fyrir að drekka — þá skyldi jeg samt engan veginn gjöra það, himneski Faðir! verði þinn vilji, en ekki minn! Þetta er að breyta

eptir Kristi, þetta er fórn, sem Guði líkar vel. Ekki veit jeg, hvað Guð muni hafa fyrirhugað um það, er þú vilt hjá komast, en það veit jeg, að þessa bæn heyrir Guð, og að hún veitir hjörtum hinna biðjendu guðlega huggun og guðlegan frið. Eins og Jesús hafði öðlazt huggun og styrkleika, hugrekki og rósemi, þá er hann stóð upp frá bæninni, þó hann vissi, að tíminn væri kominn, og að sá væri í nánd, er sveik hann: eins mun og slík bæn veita oss þrek til að ganga móti sjerhverju andstreymi. Hver maður á sjer Getsemane, en Drottinn heyrir og enn í dag hverja auðmjúka og trúarfulla bæn, og enn fara englar Guðs ofan, og færa hjörtum hinna biðjendu guðlegan frið.

---

# 42.

## VJER EIGUM AÐ BREYTA EPTIR KRISTI.

### Þriðja hugleiðing.

„Kristur hefir þolað píslir fyrir vorar sakir og hefir eptirskilið oss fyrirmynd, að vjer skulum feta í fótspor hans (1. Pjet. 2, 21)“: Í þessum orðum ávarpar hinn kristilegi fagnaðarboðskapur oss svo sem lögmál. „Kristur hefir þolað píslir fyrir vorar sakir“: þetta er sannarlega undirstaða allrar kristinnar kenningar, og þessi orð kenna oss, að hvað sem vjer þolum og aðhöfumst í veröldinni geti ekkert af því frelsað oss, ef Kristur hefði ekki elskað oss og gefið sjálfan sig út fyrir oss. En jafnframt og Kristur þoldi píslir fyrir vorar sakir „eptirskildi hann oss fyrirmynd, svo vjer skulum feta í fótspor hans“: þessi orð minna oss á, að ekkert af því, sem Kristur hefir þolað og framkvæmt fyrir vorar sakir,

geti orðið oss að notum, nema vjer tökum þátt í þjáningum hans og breytni.

Allir vjer, sem erum skírðir til Jesú Krists, erum skírðir til dauða hans (Róm. 6, 3. 5). Hver sem vill hafa hlutdeild í Kristi, verður að taka kross sinn á hvèrjum degi og fylgja honum eptir; sjálfsafneitun er aðaleinkenni hins kristilega hugarfars. Vjer eigum að afneita, ekki að eins þeim tilhneigingum, sem ætíð eru syndsamlegar í raun og veru, heldur og margs konar yndi og margri tilhneiging, sem raunar er flekklaus og saklaus, og þykir jafnvel vera fögur og sæmileg, en vjer megum ekki láta eptir henni, því Guð kallar oss til að rækja aðrar skyldur; vjer eigum optsinnis að gefa upp nokkuð af rjettindum vorum, og megum ekki heimta að þeim sje fullnægja gjörð, því það sem mennirnir kalla rjett, er ekki ætíð rjett í Guðs augliti; vjer eigum að kefja niður reiði vora, og það jafnvel þó vjer getum rjettlætt upptök hennar; hin rjettláta reiði, sem vaknar í oss, þegar vjer sjáum illskuna í heiminum, má ekki ganga úr hófi, hún má ekki miða til að tortýna, heldur til að frelsa, og ekki til að dreifa sundur, heldur til að safna saman; vjer eigum að afneita vilja sjálfra vor og óskunum í brjósti voru, og það jafnvel þeim óskum, sem sanngjarnlegar eru, þegar vjer sjáum að hugsanir Guðs eru ekki eins og vorar hugsanir, svo vjer möglum ekki heldur hlýðnumst þolinmóðlega Guðs vilja. Til að geta þetta, eigum vjer að gjöra kristilegar lífernisreglur staðfastar í sálu vorri, en til þess þær geti orðið lifandi og ávaxtarsamar, eigum vjer að setja oss fyrir sjónir hið háleita og heilaga dæmi Krists. Viljir þú, kristinn maður! læra að þola þjáningar, þá gakk þú til Getsemane, eður staðnæmstu undir krossi Frelsara þíns, þangað til þú ert búinn að læra, hvað það sje að þekkja samfjelagið við Krist í píslum hans, og lagast til að líkjast honum í dauða hans, og ert kominn í skilning um þýðingu postulans orða, er hann sagði: jeg em krossfestur með Kristi (Gal. 2, 20).

En væri nú nokkrum svo farið fram, að hann gæti tekið undir með hinu helga sálmaskáldi, er svo segir: „Drottinn! hjarta mitt er ekki drambsamt, og jeg horfi ekki hátt, og sækist ekki

eptir miklum hlutum. Hefi jeg ekki stöðvað sálu mína og friðað hana, eins og afvanið barn í faðmi móður sinnar? sál mín er að vísu eins og afvanið barn (Sálm. 131, 1. 2)"; — væri hann þá með þessu móti orðinn slíkur, sem kristinn maður á að vera? Það er fagurt, það getur verið ágætt og mikilsvert, að bera og þola og þjást að Guðs vilja; en þetta er þó ekki nema helmingur hins kristilega fullkomlegleika; það er og vilji Guðs, að vjer skulum starfa og áorka og framkvæma, og einnig í þessu eigum vjer að setja oss fyrir sjónir hið heilaga dæmi Krists; eins og vjer eigum, svo sem eptirbreytendur Krists, að deyja með Kristi; svo eigum vjer og að lifa með honum. Sá vegur, sem Kristur vill leiða oss á, liggur gegnum dauðann til lífsins; og þetta líf á ekki fyrst að byrja í dýrð annars lífs, heldur þegar hjér á jörðu, eins og Kristur ekki að eins lifir Guði í dýrð sinni, heldur og lifði Guði í lægingu sinni hjer á jörðu.

„Sjeum vjer dánir með Kristi, þá trúum vjer og, að vjer eigum að lifa með honum." Jeg ber ekki móti því, að þessi orð bendi einnig til betra lífs í öðrum heimi; þar eigum vjer fullkomlega að lifa með Drottni vorum. En postulinn talar þó ekki um hið komanda líf, er hann segir enn fremur: álítið yður sjálfa sem þjer sjeuð dauðir syndinni, en lifið Guði í Drottni vorum Jesú Kristi; og þá er hann segir: framberið Guði sjálfa yður, svo sem lifandi orðna úr dauðum (Róm. 6, 8. 11. 13); ekki er heldur Pjetur postuli að tala um annað líf, þar sem hann segir, að Kristur hafi borið syndir vorar á líkama sínum, til þess að vjer skyldum deyja frá syndinni og lifa rjettlætinu (Pjet. 2, 24). Og hið kristilega rjettlæti er sannlega ekki tóm þolinmæði og sjálfsafneitun, ekki tómt þolgæði, heldur og framkvæmdarsemi.

Ó! látum oss engan veginn skjóta því á frest, að starfa og framkvæma af öllum mætti, þar til vjer eitt sinn getum gjört það með dýrðlegum mætti í betra lífi, nje að gleðjast í Guði af öllu hjarta, þar til vjer eitt sinn losumst frá allri eymd jarðarinnar og öðlumst dýrð himneskrar sælu. Hjer í heimi, þegar hjer í heimi

eigum vjer að finna í oss krapta ókominnar aldar, eigi þeir nokkru sinni að geta þróast í oss; hjer í heimi, þegar hjer í heimi eigum vjer að ná eilífu lífi, ef vjer eigum nokkru sinni að öðlast hlutdeild í því; og hinu sanna lífi fylgir bæði atorka og fögnuður. Að vísu áttu, kristinn maður! optlega að sjá hvernig Drottinn þinn og Frelsari er svikinn og yfirgefinn, dreginn frá dómstólnum fyrir lýðinn, og frá lýðnum fyrir dómstólinn, þú átt að sjá hann, eins og hann stóð með þyrnikórónuna, eins og hann gekk krossferil sinn, eins og hann dó á Golgata, píndur þjer til friðþægingar, til þess þú getir lært að deyja með honum; en þú átt einnig að sjá hann, eins og hann var, styrktur afli sannleika og rjettlætis og kærleika, eins og hann gekk um kring og gjörði gott, er hann tók að sjer hina líkamlega þjáðu, hina fátæku og veiku, og gjörði gott, er hann tók að sjer þá, sem voru þreyttir á sálu og með sundurkrömdu hjarta, er hann leitaði hins glataða til að frelsa það, svo þú getir lært að lifa með honum. Því Guð heimtar hlýðni eigi síður enn fórnir; mjer virðist að jafnframt og vjer fórnfærum hinu illa, ósæmilega, óstýriláta líferni, og seljum það fram til dauða, þá eigum vjer einnig að íklæðast Drottni vorum Jesú Kristi, og ganga fram í nýju líferni, í sannleika Guðs, og rjettlæti, og kærleika. Eins og urtagarðsmaðurinn á ekki einungis að uppræta hið skaðsamlega og ónýta illgresi, heldur og að fylla garð sinn af fögrum og ylmandi blómum, með heilnæmum ávöxtum, svo er og Kristur kominn ekki einungis til þess að afmá hið illa, heldur og til að framleiða hið góða.

Vjer lifum hjer á jörðu tvöföldu lífi, hinu innra og hinu ytra; vjer lifum allt að einu í kyrrð með sjálfum oss, í hugsunum og tilfinningum hjarta vors, eins og vjer lifum fyrir manna sjónum í orðum og athöfnum.

Í hinu innra lífi er rót hins ytra lífs, og það stendur ekki á sama, hvort það er nokkurt eða ekkert innra líf í oss, nje hvernig það líf er, sem hreifir sjer í brjósti voru. Enginn maður getur að öllu leyti verið sviptur hinu innra lífi, og hverri hræring og hugsun og tilfinning; en í hversu mörgum er þetta líf svefnþrungið og afllaust! hversu margir flýta sjer frá því, svo sem frá

hinu ófarsælasta ástandi, og steypa sjer í iðukast hins ytra lífs, til að flýja fyrir sjálfum sjer, sem er einmitt sama og að flýja fyrir þessu innra lífi! Og í hversu mörgu er og þessu lífi þannig varið, að vert sje að flýja fyrir því, þar sem það er ekkert annað, enn eptirsókn eptir jarðneskum munum, eður eintóm hryggð eður hræðsla, eður reiði og hatur, eður stjórnlausar og skaðsamar girndir. En þar sem engin framför í kristilegum fullkomlegleika getur verið til, nema hið góða fái tíma og tækifæri til að þróast í oss, nema hið innra líf aukist að reglu og þroska, svo kallar hin kristilega áminning oss hvern með öðrum til einverustunda, og bjóðist oss þær ekki sjálfkrafa, eigum vjer að leita þeirra. Ef jeg á að feta í fótspor Krists í þessum heimi, get jeg þá dulizt við, að ferill hans leiði optlega burt úr mannfjöldanum, í einveru og kyrrð næturinnar? Og ef að hann vildi ekki lifa öðru vísi sem maður í veröldinni, enn svo, að sálin gæti fundið næði í rósömum hugleiðingum, og brjóst hans gæti ljett á sjer andvörpum sínum og eptirþrá, og þakklæti í bæn og tilbeiðslu: hvernig ætti jeg þá að dirfast að kalla mig eptirbreytanda hans, ef jeg vendi mig af þessu öllu saman? Já, þótt jeg væri svo ófarsæll, að eintómir píslarandar ásæktu mig í einveru minni, eintómar kveljandi endurminningar og eintómar skelfandi tillhugsanir, þá gæti jeg að vísu leitað mjer svíunar hjá mönnum, í samfjelagi viðkvæmra og skemmtilegra vina: en ætti jeg þá ekki einnig að leita mjer huggunar í faðmi míns himneska Föðurs? og það er að eins í kyrrð og einveru, að jeg get fyllilega orðið var við nálægð hans. Hvað mundi það gagna mjer, þótt jeg vildi leita á flótta fyrir öndum þeim, er ofsækja mig? þeir mundu ei að síður elta mig hvert sem jeg færi; endur og sinnum gæti jeg, ef til vill, gleymt því, að þeir sveimuðu yfir höfði mjer, en með því meiri ógnun mundu þeir ráðast á flóttamanninn, er þeir kæmust aptur að honum einum, þangað til jeg hertygjaðist í móti þeim, og hyggði ekki á flótta, heldur sigur. Og jafnvel þótt jeg vissi að engill hegningarinnar biði mín í einverunni, þá væri mjer að eins því meiri nauðsyn á henni, svo jeg gæti öðlazt vizku til iðrunar og lækningu friðþægingarinnar, og miskun til apturhvarfs til góðs og guðrækilegs

lífernis. Þannig var eigi hið innra líf Jesú, því þótt hann hryggðist á stundum, breyttist sú hryggð aptur í frið, og optlega í sælan fögnuð. Því fremur, sem vjer breytum eptir honum, því fremur líkjumst vjer honum einnig að hinu innra lífi til, og það er ávöxturinn af því að vjer deyum með honum, því þá eigum vjer og að lifa með honum. Því fremur, sem vjer deyum í frá saurugum, eður að eins jarðneskum girndum, því meiri þroska mun afl hins æðra lífs ná í oss, því fremur sem vjer deyum í frá illum ástríðum, frá reiði og hatri, því meiri friður mun fylgja hræringum hjarta vors; því fremur, sem vjer deyum frá óstýrilátum óskum, því fremur, sem hið einráða líf sjálfra vor, er þrjózkast gegn Guði, deyr í oss, því fremur munu þakkir og von og tilbeiðsla fylla einverustundir vorar. Þá sjáum vjer fegurð jarðarinnar umhverfis oss, og ljóma himinsins uppi yfir oss; þá sjáum vjer, að líf vort hjer á jörðu er nokkurs vert, og hið ókomna lífið veitir oss huggun og von; þá lærist oss að fella oss við mennina og samfagna þeim; þá færir kærleiki Krists oss hina sönnu lækning, þá finnum vjer, að Guð er ekki langt frá oss, heldur lifum vjer og hrærumst og erum í honum. Og þá lifum vjer hinu innra lífi, ekki að eins endur og sinnum, heldur fylgir það oss gegnum hita og mæðu dagsins, eigi síður enn í kvölddymmunni, og í óróa og baráttu heimsins, eigi síður enn í rósemi einverunnar, og bæn og trú og von fylgja oss alstaðar.

En aldrei er hið innra líf slíkt sem það á að vera, nema því að eins það knýi oss til hins ytra lífs, aldrei er trú vor og bæn og tilbeiðsla í anda og sannleika, nema vjer fáum af þeim upphvatning, og styrkleika, og löngun til að gegna köllun vorri. Drottinn vor og Meistári settist ekki að á eyðimörkunni, heldur undirbjó hann sig þar í kyrrð og einveru, og tók síðan þátt í mannlegu samfjelagi. Hann reisti ekki tjaldbúð sína á fjallinu, heldur fór hann aptur niður til mannanna í dalinn, að ljetta af þeim mæðu þeirra og hryggð, hann tók þátt í henni, og færa þeim himneskar gjafir, er hann var sendur að gefa gnægtir af. Kristinn maður! þú sem átt að breyta eptir honum, slíkar gjafir eru ekki lagðar þjer í hendur, en ekki leyfir Drottinn þinn og

Meistari þjer að heldur, að þú sitjir afskekktur frá mannlegu fjelagi; komdu, segir hann, og sýndu hvað þú hafir unnið á hinum kyrrlátu stundum hugleiðinga þinna, taktu nú á krapti þeim, sem þú hefir áunnið þjer í bæninni, afljúktu starfi því, hvílíkt sem það er, er þinn himneskur Faðir hefir þjer á hendur falið, og frem þú verk rjettlætisins og kærleikans.

Rjettlæti — hversu lítið skiljum vjer í þýðingu þessa orðs, er vjer látum það ekki merkja meira, enn bann fyrir því að fremja órjettindi! Að fullkomna allt rjettlæti, er sama sem að fullnægja öllum skyldum lífsins, smáum og stórum, staðfastlega og trúlega; og enn fremur þýðir það, að vera reiðubúinn og fús til þess, og fagna því, og meta það mest yndi lífs síns að afljúka því starfi, sem manni er á hendur falið. Æ, hversu fjarlægir erum vjer og í þessum hlut hugarfari Drottins vors og Meistara! því jafnvel þó vjer sjeum að vinnu vorri, hversu optlega stynjum vjer þó undir henni, og kvörtum undan henni, hversu optlega leyfum vjer oss að álíta hlutskipti vort hörmulegt og þungbært, af því vjer megum ekki fara til skemmtana vorra, eður til annarar vinnu, sem oss virðist geðfelldari, eður vjer leikum oss jafnvel að spottast að köllun vorri, svo sem væri hún of lítilmótleg fyrir oss, og bægði oss frá að njóta þess frjálsræðis, er vjer hyggjum eitt saman mundi veita oss, að njóta lífs vors og neyta þess fullkomlega. En hver, sem með alvörugefni og hreinskilni kappkostar að breyta eptir Drottni sínum, hlýtur að fyrirverða sig fyrir lystarleysi það, sem bærir sig í honum, og reyna til að sigrast á því. Látum oss á stundum í huga vorum ganga til staðarins í Samaría, til Jakobs brunns, þar sem Jesús settist niður ferðlúinn, og lærisveinar hans bjuggu honum hressingu. Þá var hann kallaður til hinnar helgu vinnu lífs síns, og það lífgaði sálu hans og styrkti hinn mædda líkama hans: „Fæða mín, sagði hann, það sem seður mig og styrkir og endurnærir, er að gjöra vilja þess, er mig sendi, og leysa af hendi verk hans (Jóh. 4, 33)“. Hver sem ekki getur fundið að þessi orð sjeu háleit og fögur, hver sem aldrei hefir getað tekið þau sjer í munn, þrátt fyrir allan veikleika sinn, hver sem aldrei hefir fundið afl þeirra, nje fylling þá og fögnuð, er

samfara verður meðvitundinni um að ná ákvörðun lífs síns, hann á enn þá langt til guðsríkis, og er ekki enn þá byrjaður á að breyta eptir Drottni sínum. Ef þú segir: að starf þitt sje svo lítilfjörlegt, að það geti ekki vermt hjarta þitt, eður jafnvel svo illt, að það kefji afl anda þíns, komdu þá í það lífi og anda, með trúmennsku og ráðvendni, með skyldurækni og samvizkusemi, með hlýðni við Guð og ást á mönnum, og trúnaðartrausti og von; þetta getur þú sameinað vinnu þinni, hvílík sem hún er, og með því getur þú gjört það veglegt, sem lítilmótlegt er, eins og þú getur gjört það lítilsvert, sem veglegast er, ef þú lætur þessara hluta í vanta. Og þegar þú tekur að þreytast, þegar þjer fer að virðast, sem þú sjert búinn nóg að vinna, láttu þá orð Drottins vors vekja þig úr dáinu, er hann sagði: mjer hæfir að vinna, meðan dagur er, því nóttin kemur, þá er enginn fær aðhafzt (Jóh. 9, 4). Þegar hjarta þitt veiklast í trúnni, eður aðrir telja úr þjer kjarkinn með umræðum sínum, og ætla að koma þjer á þá trú, að öll fyrirhöfn þín sje gagnslaus, og þú fáir engu til leiðar komið; þegar þú ferð að segja, að öll vötn renni til sjáfar, en sjórinn fyllist aldrei að heldur, og hið bogna verði aldrei beint: láttu þá Drottin þinn kenna þjer að lypta upp augum þínum, og sjá að akrarnir taka þegar að blikna til uppskerunnar (Jóh. 4, 35); láttu hann þá tala til þín um sáðmanninn, er fór út að sá, og þó sumt fjelli niður við veginn, og fuglar himins ætu það, og sumt fjelli í grýtta jörð og sprytti þar skjótt, en visnaði og skjótlega aptur, og sumt fjelli á meðal þyrna, er kæfðu það: þá var og það sæði til, er fjell í frjófsama jörð og bar ávöxt, mikinn eður lítinn, en þó ávöxt (Matth. 13, 3 o. n. v.). Slíkur sáðmaður var sjálfur hann, og hann hefir sent oss út til að halda á fram sáningunni, ekki að eins þá, er eiga að prjedika orð hans, heldur og þá, er eiga að breyta eptir því, og vera trúir í allri iðju sinni, hvort sem þeir eru settir yfir lítið eður mikið.

En svo sannarlega, sem allt það, er vjer aðhöfumst í heiminum á að fara fram, samkvæmt heilögu lögmáli rjettlætisins, svo á og ástin á Guði og mönnum að vera hin rjetta undirrót allra vorra hugsana og tilfinninga, orða og athafna; og hvar finnum

vjer nú aptur í þessari grein fyrirmynd þá, er komizt geti í nokkurn samjöfnuð við hið heilaga dæmi, sem Kristur hefir eptirskilið oss? Hversu lítið skynbragð berum vjer á eðli kærleikans, ef vjer höldum hann kenni oss ekki annað enn að umbera og þola! Ó, hversu fyrirhafnarlítið er það að sitja kyrr og láta allt fara eins og fara vill í heiminum, og stynja svo og andvarpa út af því hann sje sokkinn niður í illsku! En líttu til Drottins þíns, er brann af ákafa, svo lærisveinar hans minntust þess, er skrifað hafði verið: vandlæti vegna guðshúss etur mig (Jóh. 2, 17); hlýddu á ræðu hans gegn þeim, er hömluðu mönnum frá því að öðlast guðsríki, en hirtu ekki sjálfir um að njóta þess, og tálmuðu þeim, er þess vildu leita, gegn þeim, er fjeflettu ekkjur undir yfirhylmingu langra bæna, er hlýðnuðust því, sem lítils var um vert, en afræktu það í lögmálinu, sem mest á ríður, það er rjettvísi, góðfýsi og trú, er hreinsuðu hið ytra, en voru innan fullir ráns og órjettinda (Matth. 23, 13). En þegar vandlætingasemin verður að báli, þegar hún tekur að samlaga sig hinu illa í þjer, syndsamlegri reiði og hatri og hefndargirni, þegar þig langar til að geta boðið eldi að rigna af himnum ofan, og tortýna harðsvíruðum mönnum, láttu þá Drottin þinn átelja þig um það, er þú veizt ekki hvers anda þú ert, og hygg þú að breytni hans, því hann kom ekki til að tortýna sálum manna, heldur til að frelsa þær (Lúk. 9, 54 o. n. v.). Sjá! hann leitaðist við að brjóta niður vígi órjettlætisins og draga skýluna af andstyggð hræsninnar, en hann leitaðist ekki við að kveikja óvild og reiði gegn einstökum mönnum; hann gekk um kring og gjörði gott, hann stje ekki á þann, sem fallinn var, hann slökkti ekki hinn daufa neista, hann rak þá ekki frá sjer, er leituðu hans, hann var ætíð viðbúinn að lækna þá, sem höfðu sundurkramin hjörtu. Hann stóð í móti hinum illu, en einungis með hinu góða, er hann barðist fyrir sannleik og rjettlæti, og er þeirra tímar voru og vald myrkranna, þá hallmælti hann ekki aptur, er honum var hallmælt, og ógnaði ekki, þegar hann var píndur; hann hafði kennt lærisveinum sínum á þessa leið: elskið óvini yðar, blessið þá, er bölva yður, biðjið fyrir þeim, er gjöra yður skaða og ofsækja

yður (Matth. 5, 44); og hann kenndi þetta ekki að eins, heldur breytti hann og samkvæmt því, og það í kvölunum á krossinum. Og ást hans var ekki að eins hin almenna góðsemi, er ann öllu, sem hefir mannlega mynd, heldur kallaði hann þá vini sína, er hann hafði kjörið sjer, og höfðu yfirgefið alla hluti til þess að fylgja honum, og hann unni hverjum þeirra fyrir sig af viðkvæmu og tryggu hjarta; hann hafði ætíð elskað þá, og hann elskaði þá til enda (Jóh. 13, 1). Hann hafði lagað þá handa sjer, hann hafði þolað þeim margt og vægt þeim og fyrirgefið þeim, hann hafði kannast við hið góða í þeim, og notið hinna fegurstu stunda æfi sinnar í samvist þeirra, og í samsæti með þeim yfirgaf hann allan fögnuð þessa lífs, og vígði sig píslum sínum.

Þannig samlagar sig í framferði Jesú rjettlætið kærleikanum og krapturinn blíðlyndinu, og þegar vjer íhugum nákvæmlega allar þar að lútandi kringumstæður, fáum vjer aldrei tilefni til að segja það, sem vjer hljótum svo optlega að segja um framferði sjálfra vor og annara, að sumt í því sje of ákaft og sumt of dauft. Og til þess nú að vjer getum stillt ofstopa vorn og breytt vanmætti vorum í styrkleika, ber oss jafnan að líta til hans, er eptirskildi oss fyrirmynd, að vjer skyldum feta í fótspor hans. Því hversu fjarlægir sem vjer erum takmarki voru, á samt enginn skilið að heita kristinn, er ekki kannast við sannleikann í þessum orðum postulans: Hver sem segist vera í honum, á að breyta eins og hann breytti (1. Jóh. 2, 6).

---

# 43.

## HIÐ FYRSTA OG ÆÐSTA BOÐORÐ: ÞÚ SKALT ELSKA DROTTIN GUÐ ÞINN AF ÖLLU HJARTA ÞÍNU.

„Meistari! hvernig á jeg að breyta, svo að jeg eignist eilíft líf?“ sagði lögvitringurinn forðum (Lúk. 10, 25). Og í hverju skini sem hann hefir spurt svo, hlýtur hin sama spurning að gjöra vart við sig í hjarta sjerhvers, er vanda vill líferni sitt — þetta hið skammvinna og hjegómlega líf, slíkir stormar sem á því mæða, meðlæti og mótlæti, kvíði og von, og allar hinar píslafullu ástríður, er sífelldlega deila um einvaldsdæmið, þó engri einni takist að ná því — nei! slíkt líf getur ekki fullnægt mjer, og með það get jeg ekki verið ánægður. „Hvernig á jeg að breyta, svo að jeg eignist eilíft líf?“ Hjer er ekki sagt: svo að jeg verði á síðan tekinn inn í annað líf, er betra sje enn þetta, eins og að líf það, er vjer girnumst, eigi ekki að byrja fyrr enn að liðnu hinu jarðneska lífi; heldur er það eilíft, og með því það er eilíft, þá er það ætíð og alstaðar; og þegar hjer á jörðu, mitt í dauðlegleikanum, getur þú höndlað, og áttú að höndla hið eilífa líf, og höndlir þú það, eða höndli það þig, þá getur þú ekki glatað því aptur á þann hátt, er menn glata stundlegum auðæfum, því þú verður ekki sviptur því með neinu líkamlegu valdi, enda getur þú ekki misst það á þeirri stundu, er þú skalt yfirgefa allar þínar jarðneskar eignir, heldur lýkst það þá algjörlega upp fyrir hinum guðræknu, eins og blómið lýkst í sundur fyrir sólargeislunum, þegar það hefir áður þróast um stundar sakir.

„Meistari! hvernig á jeg að breyta?“ — það eru ekki að eins börnin, sem þurfa að fræðast; því hversu fús væri jeg að setjast við fætur meistara-einhvers, þess er mætti fræða mig, hversu jeg skyldi breyta, svo að hið eilífa líf næði í mjer að þróast! Hversu fús er hver samvizkusamur maður að hlýða á sjerhverja tilsögn þá, er getur leitt hann fram á leið, og kennt honum hvernig hann skuli breyta! En sje nú sá til, er vjer köllum meistara í

æðstum skilningi, og sje nokkur kennari frá Guði kominn, sá er sje vegurinn, sannleikinn og lífið, og hafi orð hins eilífa lífs — eigum vjer þá ekki að hlýða á hann fremur enn nokkurn annan?

Hverju svaraði Jesús lögvitringnum, sem bar upp fyrir honum þessa hina miklu spurningu? Hann svaraði ekki nýjum orðum, heldur vísaði á lögmál það, er kunnugt var þeim, er spurði, það er: hið dásamlega lögmál, sem Guð hafði í fyrndinni birt sig í fyrir Gyðingum. Og hvar finnum vjer í fræðibókum fyrri eða seinni alda nokkurt lögmál, er tali til meðvitundar vorrar um það, sem rjett er og gott, af meira valdi, heldur enn þetta boðorð, er ritað stendur í hinum helgu bókum Gyðingaþjóðar allt í frá öndverðu: „Heyr það, Ísrael! Drottinn Guð þinn er einn; þú skalt elska Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum. Og þessi orð eiga að vera rótgróin í hjarta þínu, og þú skalt brýna þau fyrir börnum þínum, og hafa þau um hönd, þegar þú situr í húsi þínu, og þegar þú gengur um farinn veg, og þegar þú leggst fyrir, og þegar þú stendur upp“ (5. Mós. 6, 4 o. nn. vv.). Á þetta boðorð vísaði nú Jesús lögvitringnum, þegar hann spurði hann, svo segjandi: Meistari! hvernig á jeg að breyta, svo að jeg eignist eilíft líf? og á það vísaði hann og öllum öðrum, er spyrja mundu hins sama um ókomnar aldir. En hitt er allt annað mál, hvernig vjer getum orðið hæfir til að fullnægja þessu boðorði, og hvernig vjer getum vænt rjettlætingar, þar sem vjer höfum ekki haldið þetta boðorð, með því enginn af oss hefir elskað Guð af öllu hjarta sínu, og af öllum mætti sínum; og ef vjer íhugum þetta mál, munum vjer skilja, að enginn dauðlegur maður rjettlætist af verkum lögmálsins. En eins sannarlega og vjer rjettlætumst fyrir trúna á Jesúm Krist, en ekki fyrir verk lögmálsins (Gal. 2, 16), eins sannarlega hlýtur þessi trú, ef hún er sönn og lifandi og rjettlætandi í rauu og veru, að gjöra oss æ hæfari til hlýðni við Guðs lögmál, sem Kristur kom til að fullkomna, en ekki aftaka (Matth. 5, 17), og um allt fram hlýtur trúin að gjöra oss æ hæfari til hlýðni við það boðorð, er sjálfur hann kallaði hið fyrsta og æðsta boðorð (Matth. 22, 38).

Hið fyrsta og æðsta boðorð, segir Drottinn — því

eitthvert boðorð verður að vera fyrst og æðst, og fela í sjer öll önnur boðorð og tengja þau saman. Guðs lögmál er ekki samsafn af sundurlausum reglum og laust saman tengdum, þeim er svo sjeu lagaðar, að oss beri að fylgja sinni í hvert sinn, og hver geti orðið annari gagnstæðileg, svo ekki verði úr skorið, hverja vjer eigum að meta mest; heldur verða öll boðorðin eptir eðli sínu að vera sameinuð í einu boðorði, því er sje fyrirmynd þess hugarfars, er hinir rjettlátu eiga að vera gæddir, og fram á að koma í hverri hugrenning, og í hverju orði, og í hverju verki. Jafnvel þeir, sem ekki aðhyllast Guð, en vilja þó hegða sjer skynsamlega í veröldinni, verða að leita sjer að einhverri reglu, til þess að setja efst; því það lætur að líkindum, þeir vilji ekki vera á sífelldu reiki, heldur leiti að laga alla hegðun sína eptir einni stöðugri lífernisreglu, og hugfesti með sjer, hvað þeir skuli einkanlega aðhyllast.

Og hver er nú þessi lífernisregla? Hver er þessi kærleiki, sem allur annar kærleiki á að vera í fólginn? Hvað eigum vjer að meta mest, svo að vjer leggjum á það allan hug, og vinnum því, og lifum því — hvað eigum vjer að meta mest?

Látum oss reyna, hvort vjer getum sett nokkra aðra reglu í stað þessa hins fyrsta og æðsta boðorðs; ímyndum oss, að einhver segði: Jeg skal elska heiminn af öllu hjarta mínu og öllum mætti mínum. En vjer finnum þegar, áður enn orðinu er sleppt, að heimurinn er stopull og enginn stöðugleiki í honum, og að sá, er selur hjarta sitt veröldinni, selur það um leið undir allar píslir hennar, og hreppir tómleika í stað fyllingar. Þú, sem ert ágjarn! hald þú dauðahaldi utan um eigur þínar, og er óvíst, þú fáir varið þær fyrir ofbeldismönnum, falið þær fyrir þjófum, eða forðað þeim loganda eldi; en hitt er víst, að þau augu, sem mæna á gullið, full ágirndar, verða aldrei södd, og að það hjarta, sem ekkert annað elskar, verður æ öreigi, og þykist æ öreigi, mitt í öllum auðæfum sínum. Þú, sem ert hjegómagjarn! skemmtu þjer við reyk virðinganna, og set á höfuð þjer kórónur þeirra; en þú munt brátt reyna, hverir þeirra eru hluttakandi með þjer, og þú munt sjá, að þær hafa tælt þig, og ekki verið annað enn sjónhverfingar, og að

þá virðing, er menn veita þjer, geta þeir tekið aptur, og munu brátt veita hana öðrum. þú, sem ert þræll veraldlegs munaðar! sökktu þjer niður í alls kyns háðungar, og reyndu að drekkja sjerhverri góðri fýsn, sjerhverri endurminningu, sjerhverri aðfindni samvizkunnar í þeirra myrkum straumi; en þú munt bráðum finna, í hverri ánauð þú ert, og þiggja þau laun, er henni fylgja, og hjarta þínu vera horfin öll huggun og yndi. Haltu í veröldina af öllum kröptum, en kraptarnir hverfa, þegar dauðinn andar á, og ekkert verður eptir af neinu, sem þú unnir, nema einungis hin dymma gröf.

þar á ofan er um svo margt að vera í þessari veröldu, að þegar hjarta mannsins selur sig henni á vald, verður það að hvarfla til allra hliða; og hvað á það þá að kjósa? hvað á það að meta mest? „Ekkert“, kynni einhver að segja, sem vitur þættist í veröldu þessari; jeg festi ekki huga minn við neitt einstakt, jeg lofa hlutunum að koma og fara, nota þá, meðan þeir eru hjá mjer, og sakna þeirra ekki, þegar þeir eru horfnir; jeg þjóna þeim ekki, en þeir eiga að þjóna mjer. þessi ræða er að sönnu spaklegri að heyra, enn hin fyrri; en þegar að er gáð, þá er þetta sama eins og maðurinn segði: Jeg vil elska sjálfan mig af öllu hjarta mínu, af allri öndu minni og af öllum mætti mínum! Víst veit jeg, að fáir munu þannig kveða á með berum orðum, að þetta sje hin æðsta lífernisregla þeirra. það leynist í manninum einhver góð tilfinning og einhver blygðunarsemi, er bannar honum að lofa berlega það, sem illt er og svívirðilegt, jafnvel þótt hann gefi því rúm í hegðun og hugrenningum. En þegar vjer heyrum það orðtæki, að hver sje sjálfum sjer næstur, vera þýtt á þann hátt, og við haft á þann hátt, að nálega öll ráðvendni og öll tryggð og öll líknsemi verða að engu; þegar vjer heyrum það vera sagt eins og í gamni, og þó reyndar í alvöru, að rjettur kærleiki byrji á sjálfum sjer; þegar menn telja oss trú um, að hver tilfinning og hver fýsn í hjarta mannsins sje í raun og veru sprottin af eintómri sjerplægni, og að mennirnir hirði um ekkert annað enn sjálfa sig, jafnvel þegar þeir vinni þau verk, er kölluð sjeu bezt — vantar þá mikið á, að þessi grein: þú skalt elska sjálfan þig af öllum

mætti þínum, sje kölluð æðsta lögmál allra mannlegra athafna og hugrenninga? Því er miður, að sjerplægnin er mikils til of rík, jafnvel í hjörtum þeirra, er á það leggja mesta stund að útrýma henni; hversu óttalega mun þá ríki hennar styrkjast af þvílíkum kenningum, þegar því er hvíslað í eyra, og það er kennt á þekjum uppi, og menn víta þær ekki, heldur jafnvel gjöra að þeim góðan róm, og telja sjer og öðrum trú um, að það verði og eigi svo að vera! En reyndu að koma þessu lögmáli á, láttu ástina á sjálfum þjer eyða sjerhverri annari ást, og vertu sem þóttafyllstur — en muntu þá verða að ánægðari? Ó, hversu gramur og sár og sundurkraminn muntu optsinnis verða, þegar þú finnur, að þú ert ekki jafnmerkur fyrir augum Guðs og manna, sem þú ert fyrir þínum augum, og að veröldin lýtur ekki eins að þínum vilja, og þú heimtar. Reyndu, segi jeg, að koma þessu lögmáli á, og þá muntu hljóta að verða sjálfum þjer sundurþykkur í óteljandi hlutum, með því að tunga þín dirfist ekki, og hjarta þitt megnar ekki, að dyljast við sannindi þau, að menn eigi ekki að líta einungis á sitt gagn, heldur og annara (Fil. 2, 4), og að það sje snautt líf og ófarsællt, er um ekkert hirði nema sjálft sig.

Þú skalt elska náunga þinn! þetta boðorð hljómar innst í hjarta þínu og í hinum kristilega fagnaðarboðskap; þú skalt elska vin þinn og bróður þinn, þú skalt einnig elska þjer vandalausa, því þeir eru og náungar þínir, þegar Guð lætur þig hafa nokkur viðskipti við þá. Guði sje lof, að þeir eru margir á jörðunni, sem kunna skil á kærleikanum, og vita hvað það er, að lifa í öðrum, og láta sjer eins annt, og jafnvel optsinnis annara um þeirra velferð enn sjálfra sín, og leggja fúslega mikið í sölurnar fyrir þá. En mættum vjer samt sem áður búa til handa oss svo látandi boðorð: þú skalt elska náunga þinn af öllu hjarta þínu, og af öllum mætti þínum? Fjarri fer það! því hver maður finnur, að ástin á mönnunum má ekki vera æðst í hjarta voru, hversu hrein sem hún er. Eða ættir þú að bendla þig við það, sem illt er og ósæmilegt, fyrir sakir vinar þíns, ef hann væri hneigður fyrir það? Ef svo bæri undir, að þú mættir ekki hirða um hin jarðnesku forlög þín sjálfs, heldur meta það, sem þú finnur fyrir samvizku

þinni að rjett er og skylda þín, um fram ró þína og hamingju, og eignir, og líf: mundir þú þá mega draga þig í hlje, til þess að hlífa þeim, er þú elskar, og flekka samvizku þína með því að kaupa þá undan því mótlæti, sem þeir ættu ekki að vilja fá umflúið með þeim hætti? Hver, sem elskar föður eða móður meir enn mig, og hver, sem elskar son eða dóttur meir enn mig, sá er mín ekki verður, segir Drottinn vor (Matth. 10, 37). þyrðir þú að bera ljúgvitni, þyrðir þú að ljúga, tæla, svíkja, og afneita þannig sannleik og rjettindum, til þess að frelsa nokkurn, hversu kær sem hann væri þjer? Nei! þú skalt elska náunga þinn eins og sjálfan þig; og eins og þú mátt ekki meta þinn jarðneskan hag dýrmætara því, er samvizka þín finnur að rjett er, eins máttu ekki meta hag annara það.

Sannur drengskapur og sönn hugprýði mannsins eru í því fólgin, að hjarta hans hefir þann kærleik að geyma, sem æðri er ást hans á jarðneskum hlutum, ást hans á sjálfum sjer, og ást hans á nokkrum manni. Og hverju nafni heitir þá það, er hann á að elska fram yfir allt annað? Vera má þú svarir, að það sjeu: skylda og rjettvísi, og að vísu nefnir þú þar heilög nöfn; vei þeim, er ekki heldur þau heilög! vei þeim, er ekki auðmýkir sig undir hin fögru yfirráð skyldunnar, og ekki verður heitur um hjarta, þegar hann hugleiðir mátt og tign rjettvísinnar, sem upp er hafin yfir jarðneskan munað og jarðneskan ávinning, hrein og ósveigjanleg, ætíð söm og jöfn, og án alls manngreinarálits! Vjer skulum aldrei svipta þessi nöfn neinu af tign þeirri, sem þau eiga, en samt skulum vjer ekki láta þau útrýma nafni hins lifanda Guðs. Hver hefir ekki orðið var við, að eins og menn hafa optlega á seinni tímum, þegar rætt hefir verið um hina líkamlegu skepnu, sett náttúruna á veldisstól Skaparans, að jeg svo að orði komist, eins hafa menn forðast í andlegum efnum að minnast á Guðs vilja, og nefnt einungis skyldu og rjettvísi. En hvað er skyldan, sje ekki til Drottinn allsherjar, sá er hafi vald og rjett til að vísa hverjum á það, sem honum byrjar að gjöra? Hvað er rjettvísi? Hvort mun hún vera kraptur án meðvitundar, sá er saman haldi hinum andlega heimi, eins og þyngdin þeim hinum líkamlega?

Og getur þú elskað þyngdina, þó þú sjáir, að hún sje nytsamleg og ómissandi? Hvað er rjettvísin, finnist hún ekki í einhverri lifandi veru, er vilji hið rjetta? Hvað er rjettvísin á jörðunni, sje ekki rjettvísi hjá Guði á himnum?

Látum oss því tala, eins og oss ber að tala, látum oss segja það, sem Drottinn vor og Meistari kenndi oss að segja: Þú skalt elska Drottin Guð þinn. Því hann lifir, og vjer lifum allir fyrir hann einan, hann er oss alstaðar nálægur, og yfirgefur oss aldrei, og gleymir oss aldrei; vjer erum sameinaðir honum að eðli voru, eins og limið stofninum; látum oss því einnig sameinast honum að vilja vorum til og hinni heitustu ást, svo að vjer getum öðlazt af honum æ meiri þroska og vöxt og viðgang.

Þú skalt elska Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum (Matth. 12, 32). En hversu orðin eru sett hjer mörg saman, til þess að leiða fyrir sjónir, að hinu fyrsta og mesta boðorði nægist ekki hálfverk og hálfvelgja! Þú getur ekki þjónað tveimur herrum; viljir þú breyta rjettvíslega í veröldinni, þá máttu ekki hafa í hjarta þínu tvöfaldan kærleika, þann er hvor ónýti annan, eður veiki. En í kærleikanum á Guði er öll hrein ást fólgin. Þegar þú elskar Guð, þá elskar þú einnig fegurð himins og jarðar, með því hún vitnar um hann; þá elskar þú og skylduna, með því hún er vilji hans til þín — og rjettvísina, með því hans heilög vera birtir sig í henni; þá elskar þú mennina, með því þeir eru hans börn og bræður þínir, og ást hans nær yfir þá, allt eins og þig; já — jafnframt og ástin á Drottni Guði þínum kveikir í þjer vandlætingasemi um vonzku og guðleysi, kennir hún þjer um leið að umbera — með því Drottinn Guð þinn er líknsamur og náðugur Guð, og þolinmóður, og mikillar miskunar (2. Mós. 34, 6), og að vera líknsamur, jafnvel þegar þeir eiga í hlut, sem vondir eru og óþakklátir (Lúk. 9, 35), eins og Faðir þinn á himnum lætur sólina renna upp yfir vonda og góða, og regnið koma yfir ráðvanda og óráðvanda (Matth. 5, 45).

„Þú skalt elska Drottin Guð þinn". — Og enn tekur ritningin svo til orða: Drottin Guð þinn skaltu tilbiðja og dýrka hann

einan (Matth. 4, 10); þú átt að lúta hinum eilífa, þú átt að fylla sálu þína skoðun hans dýrðar, og verða gagntekinn af þeirri lotningu við hann, sem þú mátt ekki auðsýna neinni skapaðri veru; þetta er heilagt boðorð, en það er ekki æðst. Enn segir ritningin: óttastu Guð og geymdu boðorð hans, því það ber hverjum að gjöra (Prjedik. 12, 13.); þú átt að vera þess minnugur, að Drottinn er yfir þjer, sem þú átt að hlýða, og að hann er almáttugur, svo að ekkert fær hrifið þig úr hendi hans, og að hann er heilagur og rjettvís og vandlátur, og hegnir illverkum; þessi tilfinning á að vera innrætt sálu þinni, og halda samvizku þinni vakandi, og fæla þig frá því sem illt er, og hvetja þig til að fullnægja skyldum þínum; allir menn, hvort sem eru háir eða lágir, vitrir eða einfaldir, glaðir eða hryggvir, eiga að óttast Guð; og það er mikið boðorð, en þó ekki æðst. Hótun dómsins og rjettvísinnar talar opt til vor af himnum ofan, en hinn eilífi kærleiki talar einnig til vor, og það af munni hans, er sjálfur var hinn fullkomnasti vottur Guðs kærleika, og segir til hvers manns, er þegið hefir líf og anda, og hjarta með tilfinningu: þú skalt elska Drottin Guð þinn. — Þó er sitt hvað, að vita, að Guð sje til, ellegar að þýðast hann og meta hann æðst gæði; það er sitt hvað, að kalla hann Herra og Dómara, og gjöra það með ótta og hræðslu, ellegar að kalla hann Föður, og gjöra það með ást og trúnaðartrausti; það er sitt hvað, að þakka Guði gjafir þær, er hann hefir oss veitt, ellegar að elska hann sjálfan, og finna til sælunnar í samfjelagi hans. Slíkur kærleiki færir hjörtum vorum fullan frið, því postulinn segir, að engin hræðsla sje í kærleikanum, heldur útreki fullkominn kærleiki hræðsluna (1. Jóh. 4, 18). Ef vjer höfum þenna kærleik, þá erum vjer aldrei einmana, aldrei munaðarlausir, aldrei andlega snauðir, því honum fylgir líf og fylling — hin sárasta löngun, og hin sælasta fullnægja. Þessi kærleikur hefir ætíð verið vakandi í hjörtum guðrækinna manna, og verið þeim fögnuður í meðlætinu og hæli í mótlætinu. „Drottinn! styrkleiki minn! jeg hefi þig hjartkæran“, segir Davíð (Sálm. 18, 2). Eins og hjörturinn æpir eptir fersku vatni, eins æpir sála mín til þín, ó Guð! Sálu mína þyrstir eptir Guði, eptir hinum lifanda Guði (Sálm. 42, 2. 3).

Hvern hefi jeg á himnum? þegar jeg hefi þig, hirði jeg hvorki um himin nje jörð. þó jeg örmagnist á öndu og líkama, þá er Guð traust hjarta míns og hlutskipti mitt að eilífu (Sálm. 73, 25. 26).

---

# 44.

## ÞÚ SKALT ELSKA NÁUNGA ÞINN SEM SJÁLFAN ÞIG.

þú skalt elska Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu, það er hið fyrsta og æðsta boðorð. En annað boðorð er því líkt: þú skalt elska náunga þinn sem sjálfan þig. Í þessum tveimur boðorðum er fólgið allt lögmálið og spámennirnir (Matth. 22, 37). Öll þau boðorð, sem rituð eru á hið fyrsta spjald lögmálsins, viðvíkjandi því, er mennirnir eiga Guði að gjalda, eru fólgin í hinu fyrra af boðorðum þessum; og öll þau boðorð, er rituð eru á hið annað spjald lögmálsins, viðvíkjandi því, er mennirnir eiga hver öðrum að gjalda, eru fólgin í hinu síðara. Allar áminningar spámannanna eru fólgnar í þessum tveimur boðorðum, og þó að Kristur kæmi til að fullkomna lögmálið, vissi hann þó engin æðri boðorð, er hann gæti sett í stað þeirra.

Nú er vjer ætlum einkum að hugleiða hið síðara af þessum yfirgripsmiklu boðorðum, skulum vjer íhuga orð postulans Páls, sem berlega hljóða um þetta boðorð. „Gjaldið — segir hann — hverjum, það er þjer eigið að gjalda; þeim skatt, er skattur heyrir, þeim toll, er tollur heyrir, þeim ótta, er ótti heyrir, þeim heiður, er heiður heyrir; verið engum um neitt skyldir, nema það að elska hver annan, því hver sem elskar aðra hefir haldið lögmálið. því að öll boðorðin eru fólgin í þessari grein: elska skaltu náunga þinn sem sjálfan þig (Rómv. 13, 7 o. nn. vv.). Postulinn talar á þessum stað bæði um rjettlæti og kærleika, og sameinar

hvorttveggja mjög nákvæmlega; ef þú elskar náunga þinn, verður þú að breyta við hann rjettvíslega, en þó þú gjörir það, máttu samt ekki halda, þú hafir fullnægt lögmálinu, því það heimtar, vjer skulum elska hver annan.

Þú skalt breyta rjettvíslega við náunga þinn, það er hið fyrsta boðorð, sem hverjum kristnum manni er gefið í tilliti til annara, og er það svo auðskilið, og hefir svo opt verið ítrekað, að óþarfi kynni sýnast, að brýna það fyrir nokkrum, sem þverskallast ekki með öllu gegn áminningum skyldunnar — því fyrir slíkum væri það tómur óþarfi. Þó vildi jeg, að til væri sú rödd, sem hljómað gæti í hjarta hvers manns, hvernig sem á stendur, og sí og æ tæki upp fyrir honum þetta hið sama: Um allt fram skaltu breyta rjettvíslega, því ef þú gjörir það ekki, þá verður ekkert af því, er þú átt eður að hefst, þjer sjálfum nje öðrum til sannra nota. Þó þú værir gæddur öllum andlegum gáfum, óþreytanda afli, og brennanda ákafa, en þig vantaði það, er beinir öllu öðru rjetta leið, vísar hverri athöfn þann veg, er einn liggur að rjettu takmarki, það er: lotningu fyrir hinni heilögu skipun rjettvísinnar: þá gætum vjer að sönnu dáðst að gáfum þeim, er þjer væru veittar, en þú gætir ekki með þeim aflað þjer virðingar, nje heldur verðir þú þeim þjer til sannra nota. Og það væri þjer til lítillar afbötunar, að segja, þú hefðir yfirgefið hina glöggu og beinu götu rjettvísinnar, til að fara aðra brotnari leið, þar er þú mættir vinna meira gagn; því ef það eru sannarleg rjettindi, er þú hefir hallað, eður þú hefir hjá þjer leitt, hvaða gagn geturðu þá unnið, sem sje jafnvægi tjóns þess, er þú hefir ollað, með því að rýra lotningu þá, er allir eiga að sýna rjettvísinni, er þeir hafa ekki búið til, heldur er hún þeim boðin, og þeir ekki yfir henni, heldur hún yfir þeim? Þar á ofan eru afleiðingarnar ekki á mannsins valdi, hann getur ekki ráðið þeim nje sjeð þær fyrir, og þær tengjast opt við gjörðir hans á annan hátt, enn hann hugði; en illa fer, ef afleiðingar þessar snúast oss eður öðrum til ills, og vjer verðum þar að auk að kannast við, að vjer höfum átt það skilið, af því vjer vildum ekki gjöra það, sem rjett var!

Orð postulans minna oss á, að rjettlæti sje það, er vjer eigum hver öðrum að gjalda; þó að þú fremjir það, hefir þú til einskis unnið, því þú leggur það ekki til af góðvild þinni, heldur geta menn heimtað það að þjer, og mannleg lög mega og munu þröngva þjer til að gjöra það, sem rjett var, eptir því sem í þeirra valdi stendur. En þegar vjer tölum um að gjalda hverjum sitt, og borga hverjum það, sem vjer erum honum um skyldir, hugsa fæstir um aðrar skuldir, enn þær, er lúka má með gulli og silfri. Það er að vísu harla gott og nauðsynlegt, að vjer förum svo með hin tímanlegu gæði, að vjer verðum ekki neinum um neitt skyldir; að vjer förum svo með annara eignir, að vjer svíkjum engan, nje gjörum nokkrum manni rangt til, annaðhvort af sjerplægni eða óvild við hann eða öðrum í vil; að vjer förum svo með eignir sjálfra vor, að vjer verðum ekki verkamönnunum skyldir um laun þeirra, nje látum ólaunaða hjálp vina vorra, annaðhvort vegna eyðslusemi, eða hjegómadýrðar, eða ljettúðar: allt þetta, segi jeg, er að vísu harla gott og nauðsynlegt, og Guð gæfi, að allir menn könnuðust við það, svo jeg þyrfti ekki að minnast á það, eða færa neinum þeim sanninn um skyldu hans í því tilliti! Jeg segi ekki, það sje loflegt, heldur segi jeg einmitt, það sje ekki annað enn skylda vor, að gjalda hverjum sitt, þeim skatt, er skattur heyrir, þeim toll, er tollur heyrir, þeim laun, er laun heyra, þeim bætur, er bætur heyra.

En vjer eigum að gjalda hver öðrum fleira enn gull og silfur, og getum á margan hátt gjört hver öðrum rangt til, þó vjer svíkjum ekki. Því hvort sem vjer eigum heldur að skipta við yfirmenn vora, eður undirmenn, eður jafningja, eigum vjer þeim margt að gjalda, og þegar vjer skorumst undan því, gjörum vjer þeim rangt til. Þjer, sem settir eruð yfir aðra menn, og kallaðir eruð herrar á jörðunni, veitið þjónum yðrum það, sem rjett er og sanngjarnlegt, og munið til þess, að þjer eigið og herra á himni (Kól. 4, 1)! og þjer gjörið þeim rangt til, ekki að eins þegar þjer misþyrmið þeim, eða dragið af þeim laun þeirra, eða skammtið þeim þau úr hnefa, heldur og þegar þjer finnið að því, sem ekki er aðfinningarvert, eða meiðið þá, eða særið, eða hryggið, af því

yður er fengið vald á, að gjöra það að ósekju. En þjer megið ekki halda, þjónarnir! að það sjeu hinir voldugu einir saman, sem framið geti rangindi; ekki megið þjer heldur hugsa, að þjer gjörið nokkrum rangt til, nema þegar þjer stelið eða svíkið; því þjer eruð yfirmönnum yðrum ekki að eins skyldir um trúleika, heldur og um hlýðni og lotningu, og það eigið þjer ekki að sýna einungis þegar þeir horfa á, eins og þeir sem þóknast vilja mönnum, heldur eins og þjónar Krists, svo að þjer gjörið vilja Guðs af hjarta (Ef. 6, 6). Þjer feður og kennendur! gáið að því, að þjer breytið ekki að eins órjettvíslega, þegar þjer látið þá, sem yður er trúað fyrir, alast upp án tilsagnar og aðgæzlu, heldur og þegar þjer egnið þá upp, eða tiptið þá fyrir sakleysi, eða freistið þeirra yfir megn fram, eða metið ekki rjettilega viðleitni þeirra; og að þjer breytið órjettvíslega eins fyrir það, þó það sjeu börn sjálfra yðar, og þjer hafið haft mikið fyrir þeim; því Guð, sem hefir trúað yður fyrir þeim, hefir ekki leyft yður að fara með þau eptir hugþótta. En gáið þjer líka að því, börnin góð! að þjer breytið órjettvíslega, þegar þjer eruð baldin og hirðulaus, eða fyrirlítið, eða styggið feður, mæður eða kennendur; eða haldið þjer, að hinir eldri finni minna til þess enn þjer, eða þeir eigi hægra með að gleyma rangindum þeim, er þeir verða að þola, þar sem þó hver ný áhrif útrýma svo skjótt öllum öðrum áhrifum úr huga yðrum? Gáið að því, þjer vinir, og allir menn! að vjer erum ekki að eins hver öðrum skyldir um leigur og laun og borgun, heldur er og boð postulans sanngjarnt og rjettvíslegt, er hann segir: gjaldið þeim ótta, sem ótti heyrir, þeim heiður, er heiður heyrir. Vjer mennirnir erum sannarlega í mikilli skuld hver við annan, og aukum hana í stað þess að lúka hana, þegar vjer þrjózkumst við aðra, eða svívirðum þá, þegar vjer horfum einungis í brestina, en gleymum að meta kostina, og kannast við góða viðleitni, þegar þeir mega fara á mis við launin, sem þeirra eru verðir, og sjerplægnin kveikir öfund og aðfinningasemi. Gjaldið þeim heiður, sem heiður heyrir! Illska, spilling og heimska eiga engan heiður skilið; en hinu góða, sanna og rjetta eigum vjer að auðsýna lotningu. Ef vjer erum lotningarlausir, fjarlægjumst vjer

hina æðstu veru meir og meir, því sá er engu vill lúta, og ekkert vill tigna, lýtur ekki heldur þeim, sem heiðurinn á frá eilífð til eilífðar. Ef vjer erum lotningarlausir, fjarlægjumst vjer og hver annan meir og meir; hins vegar dregur lotningin oss hvern að öðrum, og kemur því til leiðar, að vjer unnum hverjum manni sannmælis, gleðjum oss við margbreytnina á gjöfum Guðs, erum fúsir til að láta hvern ráða sjer og fara sinna ferða, ef hann að eins hliðrar sjer ekki hjá því, sem öllum er nauðsyn á. Þegar vjer gjöldum öllum á þenna hátt allt, er vjer eigum að gjalda, fullnægjum vjer fyrst kröfum rjettvísinnar.

Ef þetta færi fram ætíð og alstaðar, mundi það líta svo út, sem skuldum þeim væri lokið, er mennirnir eiga hver hjá öðrum og til að lúka þeim, hvetur það boðorð, sem aldrei þagnar, og enginn fær undan færzt; því allir finnum vjer, að vjer erum skyldir að hlýða því, ekki að eins vegna hegningarinnar, heldur og vegna samvizkunnar, jeg meina þetta boðorð: Látið engan eiga neitt hjá yður. En þegar postulinn býður oss þetta, og skipar oss að lúka mönnunum allar skuldir vorar, bætir hann við í sömu grein því, er gjörir skuld vora takmarkalausa: „Látið engan eiga neitt hjá yður," segir hann, „nema það að elska hver annan." Lögmál Guðs heimtar ekki að eins rjettlæti, heldur og kærleika; en kærleikinn innibindur í sjer rjettlætið, og þar að auki margt annað.

„Hver, sem elskar aðra, hefir fullnægt lögmálinn." Það er auðsætt, að þetta er satt að svo miklu leyti, sem lögmálið bannar eitthvað — að svo miklu leyti, sem það segir: Þú skalt ekki, það er þú skalt ekki breyta órjettvíslega; því kærleikurinn gjörir engum nokkurt mein (Rómv. 13, 10), hann tekur ekki undir sig annarlegt fje, hann ber ekki ljúgvitni, og af því hann herðir ekki að líkamanum heldur að sálinni, af því hann eyðir öfund, drambsemi og sjerplægni, og illum girndum, kemur hann til leiðar hlýðni við hið síðasta og örðugasta boðorð, er svo hljóðar: Þú skalt ekki girnast. En hver er sá, er ekki kannist við, að lögmálið krefst miklu meira enn þess, að vjer vörumst að gjöra nokkrum rangt til, og borgum það, er vjer höfum þegið? Fátækl-

ingurinn hefir ekki gjört þjer neitt gott, er þú þurfir að borga honum, hann getur ekki kvatt lögin til að þröngva þjer að ljúka upp hirzlum þínum, og miðla sjer af því, er þú nefnir þína eign með fullum rjetti; en á þó ekki ríkismaðurinn, og hver sá sem Guð hefir gefið meir enn hann þarf, mikla skuld að gjalda hinum fátæku? Ókunnugur maður, sem þarf á greiðvikni þinni eða ráðum eða aðstoð að halda, hefir ekki þegið neitt gott af þjer, er þú þurfir að borga honum aptur; en þegar hann biður þig sanngjarnlega og hóglátlega, gjörir hann þig að skuldunaut sínum, að svo miklu leyti sem þú hefðir getað ráðið honum eða hjálpað. Óvinur þinn hefir gjört þjer illt til, hann hefir, ef til vill, synjað þjer rjettar, er vjer höfum sagt að ómissanlegastur væri allra hluta í lífinu; hann hefir, ef til vill, sært hjarta þitt sárum, er svíða enn. En þegar hann kemur til þín, og segir við þig: jeg veit gjörla, að þú ert mjer ekki skyldur um neitt, en jeg þarf samt á aðstoð þinni að halda, og beiðist hennar, gjald nú illu gott! þá afmáir kærleikurinn gjörvalla sekt hans, og gjörir þig að skuldunaut hans, og minnir þig á, að vjer erum skyldir að gjöra þeim gott, sem hafa gjört oss illt. Allt hvað þjer viljið mennirnir gjöri yður, það eigið þjer og þeim að gjöra (Matth. 7, 12). Þetta boðorð, sem lögmál Guðs, og öll vitni hans á jörðunni og samvizkan brýna fyrir oss sífelldlega: þetta hið mikla boðorð kennir kærleikurinn oss að halda, því hann setur oss í annara stað, og lætur oss finna til þarfa þeirra eður báginda, er bæta skal úr, eins glöggt og vjer ættum sjálfir undir þeim að búa.

En kærleikurinn er ekki fólginn í verkunum einum, því hann er ein af tilfinningum hjarta vors. Ef vjer elskum hver annan einlæglega, verður það að sönnu að koma fram í góðum verkum, þegar þeim verður við komið; en það gjörir líka vart við sig, þegar ekkert verður aðhafst, og vjer eigum ekkert til að gefa — nema það, sem bezt er, og hver vinur vill sjer helzt kjósa, en það er viðkvæm ást og tryggt hjarta. Af þessu verður það auðsætt, að postulinn getur sagt það sje kærleikurinn, sem vjer verðum alltaf í skuld um hver við annan, þó vjer reynum til að lúka öllum öðrum skuldum. Því vera má vjer getum borgað hverja þeirra,

svo vjer sjeum skuldlausir í einu tilliti. Vera má, jeg geti farið og borgað hverjum manni, sem á nokkuð hjá mjer, og geti síðan sagt í glaðara skapi: nú eru eigur mínar óbundnar. Vera má jeg geti sagt við barn mitt, þegar jeg er búinn að ala það upp, og gjöra það hæfilegt til að ala önn fyrir sjálfu sjer: nú er jeg búinn að gjöra það, sem í mínu valdi stóð, og er þjer því ekki skyldur um neitt meir. Vera má jeg geti sagt, þegar jeg er búinn að ljúka við eitthvert starf: nú hefi jeg bundið enda á það, sem jeg lofaði, og í þessu efni á enginn neitt hjá mjer framar. En geturðu lokið skuld kærleikans, svo þú eigir engum meiri kærleik að gjalda? Ætlar þú að segja við vin þinn: nú er jeg búinn að elska þig í mörg ár, með því hefi jeg lokið skuld minni, og er búinn að elska þig nóg? Ætlar þú að segja við mennina: vinátta mín hefir staðið yður lengi til boða, og fyrir það erum vjer skildir, nú ætla jeg mjer eptir þetta engan að elska nema sjálfan mig?

Það þarf ekki boðorð til að segja oss, að vjer eigum að elska sjálfa oss, því vjer lítum of mikið á oss til þess, og hugsum of mikið um hag sjálfra vor; en hvernin sem sjálfselskan villir oss, til hversu margra rangra ímyndana sem hún leiðir oss, könnumst vjer þó við það með sjálfum oss, að náungi vor á jörðunni er gæddur sama rjetti og vjer, og hans gagn jafnáríðandi og gagn sjálfra vor, að Drottinn himins og jarðar fer ekki í manngreinarálit, og að hann hefir sett oss í veröldina, til að efla jafnt annara gagn og sjálfra vor; þannig kannast samvizka vor við hið mikla boðorð, er miskunarrík fyrirhyggja Guðs lætur oss svo tíðum heyra: Þú skalt elska náunga þinn sem sjálfan þig.

En hver er náungi minn? þannig spurði lögvitringurinn forðum, og Jesús svaraði honum hinni fögru og frægu dæmisögu um hinn samverska mann, er sá liggja á vegi sínum framandi mann, rændan, særðan og yfirgefinn — útlendingurinn var hvorki sömu þjóðar nje trúar og hann — og tók hann að sjer, eins og hann hefði verið nákomið skyldmenni (Lúk. 10, 29). Dæmisaga þessi fær mikið á hvern, sem les hana, og er oss öllum ógleymandi; en er vjer íhugum hana, hvaða þýðing finnum vjer þá í

henni. Ætli Drottinn vor hafi viljað leysa öll bönd náttúrunnar, skyldleikans og vináttunnar? ætli hann hafi viljað veita vandalausum mönnum eins mikil rjettindi og þeim, er Guð hefir tengt við oss með svo mörgum og sterkum böndum? — Orðið náungi þýðir þann, sem er þjer náinn. Optast eru þau þjer nánust, konan í faðmi þínum, barnið á hnje þínu, vinurinn við hlið þjer, og þeir menn, er þú hefir mest saman við að sælda, og ræður mestu við; og ef þú ert skyldur vandalausum manni, og jafnvel óvini þínum, um viðkvæmni, ráð, hjálp og aðstoð, hví mundir þú ekki vera þeim það enn fremur, sem þú ert skuldbundinn á svo margan hátt, og getur auðsýnt allt þetta betur og optar enn öðrum! En það getur komið fyrir, að Guð gjöri vandalausan mann, sem þú hefir aldrei áður sjeð, og þú ert ekki í neinu sambandi við, nema að því leyti sem hann er m a ð u r, svo náinn þjer, að hann verði þjer í bráð nánastur allra manna, og þú þurfir að taka hann að þjer öllum fremur, og gleyma á meðan, fyrir hans skuld, öllum þeim, sem eru og eiga að vera hjarta þínu dýrmætastir. Þannig var ástatt fyrir hinum auma manni, sem varð á vegi fyrir hinum samverska.

En eins og Drottinn hvetur oss með þessari hinni fögru dæmisögu, til að auðsýna þeim mönnum velvild, sem vjer erum ekki í neinu nánu sambandi við, eins áminnir hann oss með henni um, að elska vor eigi að vera starfsöm, og koma niður á einstökum mönnum, sem þurfa hennar við, svo vjer gjörum þeim gott. Því ef þú segir það satt, að þú elskir mennina, þá er það ekki nóg, að mannkynið allt standi þjer fyrir hugskotssjónum, svo sem í reyk og þoku, eða þú sökkvir þjer niður í grufl um ókunnar þjóðir og óbornar kynkvíslir, og óskir þeim allra heilla; heldur skaltu sýna það, hvernig þjer er í þeli við mennina, með breytni þinni við náunga þinn, við þann mann, er þú átt við að skipta sem þú getur gjört eitthvað gott, og átt að veita gagn og gleði. Látum oss ekki, segir postulinn, elska með orði og tungu, heldur með verki og sannleika (1. Jóh. 3, 18).

Þú skalt elska náunga þinn sem sjálfan þig! Til að geta hlýðnast því boðorði, þurfum vjer að láta í móti oss og afneita

sjálfum oss, og veitir sjerplægni vorri örðugt að halda það. En verður lífið hægra, þegar vjer elskum ekki aðra enn sjálfa oss, og setjumst á eyðimörk, og látum sjerplægni og drambsemi og öfund girða milli vor og mannanna? Ó, Guð minn góður! sem ritað hefir lögmál kærleikans handa oss með helgum orðum, rita það einnig í hjörtu vor, og lát Anda þinn þýða það fyrir oss, og gefa oss vilja og mátt til að breyta eptir því: þá munum vjer komast að raun um, að sjálfsafneitun veitir nægtir, hlýðnin frelsi og kærleikurinn mátt; þá munum vjer fá þessi orð fullskilið: Guð er kærleikurinn, og hver sem er stöðugur í kærleikanum, er stöðugur í Guði, og Guð í honum (1. Jóh. 4, 16).

---

# 45.

## KRISTINN MAÐUR Á AÐ ELSKA DROTTIN SINN.

„Þú skalt elska Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu, þú skalt elska náunga þinn sem sjálfan þig: þetta eru hin tvö miklu boðorð, sem öll önnur boðorð eru í fólgin; geymdu þeirra og muntu lifa.“ Vjer getum ekki með sannindum eignað þessi boðorð fagnaðareyrindi Krists, því löngu fyrr enn það var boðað í heiminum, voru þau þegar rituð í hinu forna lögmáli, er Kristur sjálfur vísaði til. Aptur á móti getum vjer með sannindum eignað þau anda Krists, þeim anda, er vísaði til hinnar sýnilegu opinberunar Krists fyrir munn allra spámannanna, og átti að koma fram af þessari opinberun og breiðast út yfir öll lönd. Af því það var hinn heilagi, eilífi, guðdómlegi Andi, er talaði fyrir munn þeirra, er og að lesa í hinum fornu og helgu ritningum Gyðingaþjóðar guðleg orð, þau er engin önnur orð í heiminum komast í samjöfnuð við. Spekingum annara þjóða hefir tekizt að vera sljettorðari, og semja ræður sínar með meiri snilli og kunnáttu, og

greiða hagar úr kerfi hugmynda sinna; en Guðs andi veitti spekingum Ísraelsþjóðar fylling og krapt og opinberun guðlegra leyndardóma, eg þess vegna hafa orð þeirra slík áhrif á hið dýpsta í mannlegri sálu, að engin önnur jarðnesk speki getur komizt í samjöfnuð við þau. Sýndu mjer, til dæmis að taka, í lögum annara þjóða tvö boðorð önnur eins og hin fyrstu og mestu, þá skal jeg viðurkenna, að Guðs andi hafi einnig verið löggjafi þeirra þjóða.

En þó nú jafnvel þessi tvö boðorð sjeu eldri enn Kristur, það er að skilja, hinn sýnilegi Kristur, er birtist í mannlegri mynd, þá hefir hann þó komið þeim úr bókum lögmálsins inn í hið mannlega líf, og úr afkimum Ísraels út um víða veröldu. En þar sem nú þessi boðorð, sem um er sagt: gjör þetta, og muntu lifa — því þú þarft einkis annars með, ef þú gætir þessara tveggja boðorða, samkvæmt sjerhverjum bókstaf þeirra og samkvæmt allri hinni miklu þýðingu þeirra, er nær yfir hverja athöfn í mannlegu líferni, hverja tilfinning í mannlegu brjósti, þá þarftu einkis framar, þá hefir þú hið eilífa líf, — þar sem nú þessi boðorð eru fyrir Krist komin á hvert land, í hvert hús, á hvers manns varir, þar sem Kristur hefir aukið boðorðið um elskuna til uáungans, svo nú má ekki skilja það eins og Gyðingar gjörðu velflestir, svo sem það hljóðaði á þessa leið: þú skalt elska vin þinn, og bróður þinn, og skyldmenni þitt, og þann sem er þinnar þjóðar og þinnar trúar; þar sem hann hefir aukið það svo, að það hefir nú þessa miklu þýðingu: þú skalt elska sjerhvern mann, sem Drottinn Guð þinn leiðir þjer í móti, svo líf þitt kemur í nokkurt samband við hans líf; þar sem nú þessu er til leiðar komið: er þá Kristur búinn að fullkomna eyrindi sitt, og erum vjer þá í engu öðru sambandi við hann, enn að vjer skulum hlýðnast orðum hans, og þakka honum fyrir það hann hefir eptirskilið oss svo ágæta kenningu?

Rjett áður enn lögvitringurinn kom fram með spurningu sína um hið eilífa líf, hafði Jesús snúið sjer til lærisveina sinna og sagt við þá: Sæl eru þau augu, er sjá það, sem þjer sjáið; því jeg segi yður, að margir spámenn og konungar vildu hafa sjeð það, er þjer sjáið, og sáu það ekki, og heyrt það, er þjer heyrið,

og heyrðu það ekki (Lúk. 10, 23. 24). Hver er sá kristinn maður, er ekki finni að hjarta hans hrærist af þessum orðum? Hver er sá kristinn maður, er ekki hafi girnzt að sjá, þó ekki væri nema einn af dögum mannsins Sonar (Lúk. 17, 22)? Því sannkristinn maður er í slíku sambandi við Drottin sinn, sem maður við mann — jeg get ekki orðað það öðru vísi; — það er ekki að eins kenning Krists, sem er gefin oss, heldur og sjálfur hann; það eru ekki að eins orð hans, er ljóma í veröldinni, heldur eru þeir sín á milli þú og jeg, Lausnarinn og hinir leystu, eins og allir sem unnast. Vjer leitum ekki að eins annara gæða fyrir hann, heldur er hann sjálfur hið dýrsta hnoss öllum þeim er á hann trúa.

Sæl eru þau augu, er hafa sjeð það, sem lærisveinarnir sáu, og sæl eru þau eyru, sem hafa heyrt það, er þeir heyrðu! En þótt vjer getum aldrei á vegferð vorri hjer á jörðu fengið að setjast við fætur honum, og hlusta á rödd vara hans, heyrum vjer samt enn í dag hin merkustu og þýðingarmestu orð, er hann hefir talað; og þótt líkamsaugu vor eigi aldrei að fá hann litið hjer á jörðu, kemur hann samt optlega á einverustundum vorum fram fyrir augu sálar vorrar. Og þessa mynd hans eigum vjer ekki að reka frá oss, miklu fremur eigum vjer að halda henni fastri, því hjá Jesú sjálfum eigum vjer játendur hans. að leita oss allrar fyllingar og vizku, og styrkleika, og huggunar. Og þannig er mjer, sem jeg heyri í fagnaðarboðskapi Krists hið þriðja boðorð, jafnframt hinum tveimur, sem allir þekkja, og það er svo hljóðandi: K r i s t i n n m a ð u r á a ð e l s k a D r o t t i n s i n n. Þetta boðorð tálmar ekki hlýðninni við hin tvö, heldur eflir hana miklu framar, því ástin á Kristi hlýtur að glæða ástina á Guði og mönnum í hjörtum játenda hans.

Kristinn maður á að e l s k a Drottin sinn. Það er að vísu satt, að kristindómurinn heimtar jafnan trú, en trúin er þá að eins sönn og lifandi, er hún sameinar sig kærleikanum. Sá sem kemur fram fyrir Guð, á að trúa því, að Guð sje til, og endurgjaldi þeim er hans leita; en hið fyrsta boðorð heimtar ekki einungis, að vjer skulum trúa á Guð, heldur kveður þar svo að orði: Þú

skalt elska Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu. Satt er það og, að Jesús heimtar að játendur hans skuli trúa á hann, trúa því, að hann sje út genginn frá Guði, sje vegurinn, sannleikurinn og lífið, trúa því, að hann hafi selt sjálfan sig fram til friðþægingar fyrir synd allrar veraldar; en hann vill og, að þeir, sem trúa á nafn hans, skuli vera í kærleikssamfjelagi við hann. Þess vegna líkti hann sjálfum sjer við vínviðin, er hinar mörgu greinar koma saman í, og af því greinin getur ekki borið ávöxt, nema hún sje föst á vínviðinum, sagði hann: verið mjer áfastir, svo að jeg sje með yður, því án mín megnið þjer alls ekkert; þess vegna sagði hann: eins og Faðirinn hefir elskað mig, svo hefi jeg einnig elskað yður; verið staðfastir í elskunni til mín (Jóh. 15, 4. 5. 9)! Þess vegna var það og, að þegar hann var upprisinn og ávarpaði postula þann, er hafði afneitað honum á tíma freistingarinnar, þá spurði hann hann ekki, hvort hann tryði á sig? og hvort hann vildi hlýða sjer og þjóna? heldur sagði hann: Símon! elskar þú mig (Jóh. 21, 15 o. n. v.)? Og þar sem vjer erum einnig limar á hinum sama stofni, þar sem hið æðra líf vort á einnig að öðlast allan þroska sinn og afl af honum, þá spyr hann oss einnig enn þá þess hins sama.

Elskar þú Drottin þinn og Endurlausnara? Dirfist þú að svara og segja eins og postulinn: Drottinn! þú veizt alla hluti, þú veizt jeg elska þig! — Þegar vjer boðum kenningu Krists, þegar vjer tölum um boðorð þau, er hann setti til að koma reglu á líferni mannanna og tilfinningarnar í brjóstum þeirra, þegar vjer minnumst á fyrirheit Krists, þegar vjer tölum um athvarf það, sem hið hrellda hjarta finnur undir krossi Krists, og hvernig Kristur hafi leitt í ljós lífið og ódauðleikann með fagnaðarboðskap sínum og upprisu sinni: — þegar vjer minnumst alls þessa, þá hittum vjer fyrir marga menn með alvörugefnu hugarfari, sem fegnir hlýða orðinu og taka við því; þeir sökkva huga sínum niður í djúp slíkra kenninga, og skynsemi þeirra og samvizku verður fullnægt. En þegar vjer tölum um Drottin vorn sjálfan og sameining vora við hann, þegar vjer segjum, að mannlegu hjarta geti ekki veizt full hvíld, utan í elskunni á honum, mundum vjer þá

og enn hitta fyrir þau eyru, er heyri orðið feginsamlega, og það hugarfar, er taki við því með fögnuði? Þegar postulinn talaði til hinna fyrstu Krists játenda um upprisu Drottins vors, gat hann með sanni sagt: þjer hafið ekki þekkt hann, og elskið hann samt; þjer hafið ekki enn sjeð hann, og trúið samt á hann, og fagnið óumræðanlegum og dýrðlegum fögnuði (1. Pjet. 1, 8); það var hreinn og háleitur fögnuður, er enginn gat frá þeim tekið. Andríkir og hjartnæmir söngvar hljóma og frá seinni öldum, er láta í ljósi brennandi löngun sálarinnar eptir Frelsara sínum, svo sem að er sálmurinn: „Jesú minning“, sem enn er sunginn í kyrkjum lands þessa, þegar söfnuðir Krists ganga til altaris. — Vjer heyrum og lof og þakkargjörð streyma frá vörum feðra vorra, þegar hjörtu þeirra voru gagntekin af fögnuði, af því að

„sannur Guð, Sonur Föðursins,
sjálfur vitjaði mannkynsins“.

Ef vjer berum það, sem vorir dagar eiga að leifa ókomnum öldum, saman við þessa gömlu sálma, hversu dauft og hálfvolgt er þá allt orðið, hversu lítill fögnuður og friður og sönn gleði er nú á dögum í játningum vorum! Af gnægð hjartans mælir munnurinn, og þegar varirnar þagna, mun hjartað vera dautt og ástin orðin köld.

Og þó á kristinn maður að elska Drottin sinn; hver sem viðurkennir, að Kristur sje eingetinn Sonur Guðs, og Drottinn sinn og Endurlausnari, hann á ekki einungis að trúa á hann, ekki einungis að hlýða honum og fylgja, heldur á hann og að elska hann. — En nú kynni einhver að segja: Hvernig verður ást gjörð að skyldu? Jeg get þrýst viti mínu með ályktunum og ástæðum, til að kannast við það, sem satt er og rjett; jeg get neytt gjörðir mínar til að hlýðnast því lögmáli, er jeg hefi viðurkennt, að rjettvíst sje; en tilfinningar mínar get jeg ekki neytt, og ekki haft vald yfir hjarta mínu. Það eru þessi ummæli, er vjer heyrum svo optlega nú á dögum, það eru þau, sem eiga að sundra öllum lífernisreglum, og leyfa mönnunum að halda á fram

að vera slíkir sem þeir eru. Væri það satt, að vjer gætum ekki ráðið við hjarta vort, gætum ekki glætt tilfinningar þess, nje bugað þær, gætum ekki komið þeim á aðra stefnu, enn þær sjálfar tækju, þá værum vjer með öllu seldir á vald náttúrunnar eður tilviljunarinnar, og þá væri ekki til neins að tala um betrun. Hinn rjetti góðleikur sjerhvers manns er þó á endanum kominn undir tilfinningum hjarta hans. „Þó að jeg gæti talað bæði engla og manna tungum, en hefði ekki kærleikann, þá væri jeg eins og hljómandi málmur og hvellandi bjalla. Og þó jeg hefði spádómsgáfu, vissi alla leyndardóma og hefði alls háttar kunnáttu, og þó jeg hefði trú svo mikla, að jeg gæti fjöll flutt, en hefði ekki kærleikann, þá væri jeg einskisverður, og þó jeg gæfi allar eigur mínar fátækum, og ljeti jafnvel brenna mig, en hefði ekki kærleikann, væri mjer það til einskis gagns (1. Kor. 13, 1 o. n. v.)". Og hugsið ekki að vitið geti komizt til viðurkenningar á sannleikanum, nema tilfinningin verði því samtaka; því þegar hjartað brýzt í móti, leitar það að alls konar átyllum, til að losast undan valdi sannleikans, og með því móti getur maðurinn enga sannfæring öðlazt. Hugsið ekki að líferni yðvart geti orðið rjettvíst og gott, nema hjarta yðar sje það einnig; því hvar er uppspretta lífsins utan í hjartanu? Þú getur um stundar sakir haft vald á orðum þínum, svo þau segi annað, enn þú hugsar og finnur til, en að lokunum mælir þó munnurinn af gnægð hjartans; þú getur þrýst þjer til að fremja athafnir, sem kallaðar eru góðar, en visið trje getur samt aldrei borið verulega góða ávöxtu. Ef vjer þá megnuðum ekkert í móti tilfinningum hjarta vors, þá megnuðum vjer og alls ekki að stýra lífi voru að takmarki sínu. En það eru sannindi, að þegar vjer segjum, að vjer megnum ekkert í móti tilfinningum vorum, þá tölum vjer beint á móti sannfæring vorri og reynslu. Vjer vitum dável, að vjer getum vakið og alið skaðsamlegar tilfinningar í brjóstum vorum, og að vjer á þann hátt getum alið í oss beisklyndi og reiði, og rótfest í oss hatur og hefndargirni. Vjer vitum og, að vjer getum bugað þessar tilfinningar, að vjer getum alið og aukið ást og elsku í hjörtum vorum. Og ef vjer getum þetta, eigum vjer og að gjöra það, því ekkert er neinum manni

meiri sómi, enn að vera trúr mönnum, og trúr Guði sínum og Frelsara.

Satt er það, sem postulinn segir, að sá sem ekki elskar bróður sinn, þann er hann hefir sjeð, hann getur ekki elskað Guð, er hann hefir ekki sjeð (1. Jóh. 4, 20). Sá sem er svo kærleikslaus, að hann elskar ekki mennina, er hann lifir á meðal, sá sem ekki vill leita sjer neins manns að binda hug sinn við, hvernig ætti hann að geta orðið var við hina hjartgrónu þörf ástarinnar, er leiðir oss til hins himneska Föðurs? En því viðkvæmara sem hjarta þitt er, því sælli sem ást þín á mönnum gjörir þig, því fremur muntu girnast að ná til uppsprettu kærleikans, hins endalausa kærleika, sem einn saman megnar að veita fulla hvíld hjarta þínu, er sífelldlega þarfnast og þráir. Og Guði sje lof! vjer lifum þær stundir æfi vorrar, að vjer getum beinlínis nálgast hinn eilífa Föður, vjer verðum þá ekki varir neins aðskilnaðar í millum hans og vor, vjer finnum, að vjer lifum, hrærumst og erum í honum; vjer finnum, að vjer erum í honum og hann í oss; hugur vor getur orðið svo frá sjer numinn af andlegum fögnuði, að það er eins og vjer sjáum Guð augliti til auglitis. Og þó að þú á slíkum stundum finnir ekki jafn glögglega til ástarinnar á Kristi, þá óttast þú ekki, kristinn maður! að hjarta þitt sje fyrir þá skuld á röngum vegi, nje að þú sjert fyrir þá skuld úti byrgður frá samfjelaginu við Krist. Guðleg vera öfundar ekki, og eins og hinn eilífi Faðir reiðist ekki heiðri hins eingetna, er kynþættir jarðarinnar lúta honum, eins þykkist og Sonurinn ekki, þó Faðirinn sje heiðraður. Kristur seldi sjálfan sig fram, til þess hann fengi greitt oss veg til Guðs (1. Pjet. 3, 18), og þegar hann hefir komið oss til Föðursins, og vjer hvílumst í faðmi hins eilífa kærleika, þá biður Frelsari vor fúslega — megi jeg komast svo mannlega að orði, — þangað til vjer förum aptur að finna, hversu mjög vjer þurfum hans við. Því heilir þurfa ekki læknis við, heldur þeir sem sjúkir eru (Matth. 9, 12); enda munu þær stundir koma, er hjartað verður aptur snautt og sjúkt, og margs konar harmkvæli nýsta það: sæll er þá sá, sem áður hefir fundið til elskunnar á Kristi og vanur er að leita til hans! Þeir tímar koma, er himininn lokar sjer yfir

höfðum vorum, hugur vor reynir til að fljúga stjörnunum hærra, en fer of djarft og villist á flugi sínu, Guð býr í ljósi því er enginn fær til komizt (1. Tím. 6, 16), þú girnist að lýsa veru hans, og ekkert af orðum þínum á fyllilega við, þú girnist að ímynda þjer hann, og engin af hugmyndum þínum líkist honum. Þá finnur þú, að þú þarft meðalgangara millum Guðs og þín, og farðu þá til hans, sem er geisli Guðs dýrðar og ímynd veru hans (Hebr. 1, 13), og er þjer samt nálægur; sökktu þjer niður í skoðun hans, og óttastu ekki, að þú fyrir þá skuld munir fjarlægjast Föðurinn, því Kristur er hin fullkomnasta opinberun guðlegrar veru á meðal mannanna; hver, sem hefir sjeð hann, hefir sjeð Föðurinn, því hann er í Föðurnum og Faðirinn er í honum (Jóh. 14, 9. 10). — Tímar hryggðarinnar koma yfir þig, svo þú verður að segja hönd hins almáttuga leggist þungt á þig, og þú naumast megnar að segja: Faðir á himnum! af því þjer finnst að hart og óföðurlega sje með þig farið. En hversu eðlilegt er það kristnum manni í dymmu hryggðarinnar að segja: Jesús minn! og rjett gjörir þú að ljetta byrðinni af mæddu hjarta þínu með þessu ákalli, því þá birtist þjer hin blíða mynd Drottins þíns og Frelsara, hann gengur enn inn í híbýli hryggðarinnar, og huggun Guðs og friður Guðs koma þangað með honum; hann fræðir þig ekki að eins um hinn eilífa kærleika Guðs, heldur er hann þjer sjálfur hinn dýrmætasti vottur hans; hversu hörð sem þjer virðist að vera handleiðsla Guðs, hvort geturðu samt efast um, að Guð, sem út gaf sinn eingetinn Son fyrir oss alla, hafi einnig gefið hann út fyrir þig, að Guð elski þig og vilji gefa þjer alla hluti með h o n u m? Þeir tímar koma, að þjer finnst þú vera einmana, og það ekki á óbyggðum stöðum, heldur ertu einmana innan um manngrúann, þú átt engan vin, er þú getir kvartað við um bágindi þín, eður þú vilt ekki hryggja með því vini þína, þú ert óþekktur, ranglega dæmdur, yfirgefinn, útskúfaður. Ó sæll er sá, sem þekkir vin af himnum, og getur setzt við fætur honum og grátið þar nægju sína yfir eymd sinni, og slíkan vin, er lítur þá aptur til hans þeim augum, er öll miskun himnanna ljómar úr, og ekki þarfnast vitnisburðar um nokkurn mann, af því hann veit sjálfur

hvað með manninum býr (Jóh. 2, 25), og hefir sjálfur sagt: þann sem til mín kemur, mun jeg ekki frá mjer reka (Jóh. 6, 37). Þeir tímar koma, er samvizkan vaknar og ásakar, og afbrot vor og hirðuleysi, og allar syndir vorar, fornar og nýjar, koma fram og vitna í móti oss. Hvort sem þær eru miklar eður litlar, á ráðvandur maður ekki svo hægt með að friða hjarta sitt fyrir Guðs augliti. En jafnvel þó þær væru svo miklar, að bæði hjarta þitt og heimurinn sakfelldu þig, og hinir rjettlátu í þessum heimi vildu ekki leyfa þjer að snerta sig, þá er samt einn miskunari til, sá er forðum daga sagði um hina bersyndugu konu, að mergð synda hennar væri henni fyrirgefin, af því hún hefði auðsýnt svo mikil elskumerki (Lúk. 7, 47), hann mun ekki fyrirlíta elsku þína, nje hrinda frá sjer iðrunartárum þínum, nje kremja þitt hið særða hjarta. Og yfir syndarana og yfir hina rjettlátu kemur eitt sinn sú stund, að öll huggun veraldarinnar er þrotin; á þeirri stundu myrkvast sála þín, og fær ekki gripið þau huggunarorð, er áður voru þjer til friðar, og hjarta þitt hefir ekki á dauðastundunni nóg afl, til þess að geta fundið til Guðs eilífa máttar og guðdómleika; en hafir þú að undanförnu elskað Frelsara þinn, þá geturðu enn gripið Jesú nafn, og því fylgja þessi hin miklu orð: jeg em upprisan og lífið, hver sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25); því fylgir von himinsins, og þegar þú átt að ganga fram á hinn dymma og ókunna stig, þá rjettir hann þjer hönd sína, er þú hefir lengi þekkt og lengi elskað, og leiðir þig um dauðans leið til þeirra bústaða, er hann hefir fyrirbúið þjer, og á hinni miklu stund dómsins er hann athvarf þitt og Frelsari.

Kristinn maður! þú átt að elska Drottin þinn. Sjá! forðum daga gekk margur pílagrímur hina löngu og örðugu leið, til að geta andað að sjer því lopti, sem Frelsari hans hafði að sjer andað, og setið á bökkum Jórdanar og hlustað á niðinn í Kedronslæk, til að geta leitað hjarta sínu hægðar á hæð þeirri, sem kross Drottins var á reistur, og sálu sinni hvíldar í gröf hins upprisna. En endurminning Frelsarans er ekki bundin við það land, sem fætur hans hafa á staðið, nje fjöll þau, er hann reikaði

um einn-saman á næturþeli; hann er ekki langt á burt, svo þú þurfir að fara yfir lönd og höf, til að leita hans, hann er á meðal vor, og segir enn, sem forðum daga: komið hingað til mín allir þjer, sem erfiðið og þjáizt, jeg vil veita yður hvíld (Matth. 11, 28). Áttu í engri mæðu nje andstreymi í veröldinni? eður hefir þú fundið einhvern annan, er geti endurnært þig af lindum þeim, er spretta upp til eilífs lífs? Látum oss elska hann, því hann hefir elskað oss að fyrra bragði! Ekki samt á þann hátt, að þú hafir ást þína til sýnis, og látir blása í lúður fyrir þjer, svo það verði sagt á þjóðgötum og mannamótum: þarna er maður, sem elskar Frelsara sinn! Hin sanna ást er hæglát og ófröm, og þú átt ekki að kasta perlum fyrir þá, sem ekki mundu gjöra annað, enn troða þær í sundur (Matth. 7, 6). Geymdu heldur perluna í hinni innstu hirzlu þinni, þar sem enginn getur tekið hana frá þjer. Því satt er það, sem stendur í hinum gamla sálmi:

Tunga engin það tala má
nje teikn því skýra nokkur frá,
óreyndir trúað engir fá,
hvað elsku er Jesú gott að ná.

---

## 46.

### HELGUNIN.

Þegar Guð bauð Ísraelslýð, fyrir munn Mósis, að yfirgefa aðrar þjóðir og vera útaf fyrir sig, þá átti þessi aðgreining að vera til helgunar, og með því einu móti, að fólkið vildi helgast, vildi Guð, eptir því sem ritningin að orði kemst, búa meðal þeirra, og vera Guð þeirra, en þeir skyldu vera þjóð hans (2. Kor. 6, 16). Tala þú við allan lýð Ísraelsbarna, sagði Drottinn við Móses, og

mæl svo til þeirra: þjer skuluð vera heilagir, því jeg em heilagur, Drottinn, Guð yðar (3. Mós. 19, 4). Ef þjer hlýðið röddu minni og haldið sáttmála minn, þá skuluð þjer vera mín eign fremur enn nokkur þjóð önnur; því öll jörðin heyrir mjer til; og þjer skuluð vera mjer kennimannlegt konungsríki og heilög þjóð (2. Mós. 19, 5. 6).

Þegar sá tími kom, að heiðingjarnir skyldu einnig verða náðarinnar hluttakandi, og meðalgangari hins nýja og mikla sáttmála opinberaðist, þá sendi Guð erindsreka sína út um allan heiminn; því Guð vill, að allir verði hólpnir og öðlist þekking á sannleikanum (1. Tím. 2, 4). En með því allir menn vilja ekki þýðast sannleikann, þá er kristin kyrkja enn í dag fjelag útaf fyrir sig — hún er söfnuður, sem allir eru ekki í, jafnvel í hinum kristnu löndum; því hversu margir eru þeir, sem ekki aðhyllast hana? Og með því að ekki komast allir í himnaríki, sem segja! Herra! Herra! (Matth. 7, 21) — með því mörgum er svo varið, að þeir kalla Krist Herra, og vilja samt ekki láta að orðum hans, og hreinsa sig af saurgun holdsins og andans, þá segir rödd Drottins enn í dag eins til þeirra, sem kristnir kallast: farið burtu frá hinum vantrúaða lýð, og skiljizt við hann, og snertið ekki neitt, sem vanheilagt er, þá skal jeg taka yður að mjer (2. Kor. 6, 17). Yfir dyrunum á Krists helgidómi standa þessi orð með loganda letri: apturhvarf, sinnaskipti; og þetta hljómar í eyru sjerhvers, er inn vill ganga: enginn getur notið guðsríkis, nema hann endurfæðist (Jóh. 3, 3). Það eru ekki þess kyns umskipti, sem þegar skipt er um klæði eður nafn; heldur er það mikil og gjörsamleg umbreyting: vjer eigum að afleggja hinn gamla manninn, sem lagaður er eptir hinni fyrri hegðun, og endurnýjast í anda vors hugskots og íklæðast hinum nýja manni, sem skapaður er eptir Guðs vilja, til rjettlætis og heilagleika sannleikans; með þessu einu móti nemum vjer sannleikann, eins og hann er frá Jesú kominn (Ef. 4, 21 o. nn. vv.).

En ef einhver kemst við, og verður gagntekinn af sannleika Krists orða og kærleika hans — ef hann hefir snúið sjer til Drottins, og nýtt líf tekur í honum að glæðast: er hann þá búinn? Þó

menn sjeu ekki fljótt búnir að safna jarðneskum munum, er fjúka sem fis fyrir stormum lífsins, ellegar að byggja á sandi, það sem jafnótt hrynur fyrir þeim, þá eru þeir fljótir með sjálfa sig og undirbúning sinn undir guðsríki. Og þó er hann ætlunarverk allra lífdaga vorra, og hver kristinn maður kann orðið: helgun, og þá kröfu, er því fylgir, að taka æ framförum í heilagleik og fullkomnun. Með því vjer höfum svo dýrmæt fyrirheit — segir postulinn — þá hreinsum oss af allri saurgun holdsins og andans, og fullkomnum helgun vora með Guðs ótta (2. Kor. 7, 1). En eitt orð hverfur skjótt, og hefir engan árangur, nema vjer höndlum það og varðveitum. Þess vegna skulum vjer nú eins og höndla þetta þýðingarmikla orð: helgun, og íhuga það.

Ritað er: verðið heilagir, því jeg em heilagur (1. Pjet. 1, 16). Þetta boðorð hefir Guð ekki að eins ritað í hinar helgu bækur, heldur hefir hann og ritað það í hjörtu vor. Hvert sinn, sem vjer rennum alúðlega huga vorum til Guðs, finnum vjer, að sálin hefur sig ekki að eins upp yfir veraldlegar breytingar til hins eilífa og stöðuga, heldur og upp yfir synd og saurgun veraldarinnar til hins heilaga og hreina: því ekkert, sem óhreint er, getur komið nærri Guði, og hann lítur það einungis til þess að bægja því frá sjer og sínu samfjelagi. Fyrir því er það boðorð, að vjer skulum einnig verða heilagir, fólgið í meðvitund vorri um Guð; og þótt ritningin segi til vor margsinnis og á marga vegu: það er Guðs vilji, að þjer verðið heilagir (1. Þess. 4, 3), þá segir samvizkan oss ekki sjaldnar hið sama. Oss er alls enginn efi á, að vjer eigum að hreinsa oss af allri holdlegri saurgun og af öllum löstum þeim, er svívirða jafnvel hinn ytra mann, og veröldin sjálf getur ekki lofað; oss er og enginn efi á, að oss er boðin önnur hreinsun, sú er miklu er meiri og gjörsamlegri enn hin ytri, með því vjer eigum að hreinsa oss af alls kyns andlegri saurgun, af illum og óhreinum girndum, sjerplægni, öfund, drambi, hatri, og af öllu því, er spillir mannlegri náttúru og blandar ólyfjan í uppsprettur lífsins.

En með því allur fjöldi manna vill dveljast í saurguninni, þá er hverjum boðið, sem Guði vill þóknast, að hlýðnast orðum postulans, er hann segir: farið burtu frá þeim, og skiljizt við þá!

Nú ef þetta væri þar í fólgið, að vjer skyldum flýja úr glaumi og skarkala veraldarinnar út á kyrra eyðimörku, eða fela oss í einhverju klaustri, og hirða ekki um, þó að straumur veraldarinnar og spillingarinnar rynni þar utan veggja, þá getur vel verið, vjer fengjum það ekki af oss baráttulaust; en því meira veraldarsolli sem maður hefði í verið, því saddari og þreyttari mundi hann á honum orðinn, og því fýsilegra mundi honum þykja að hugsa til næðis og einveru; því þótt hana skorti marga ánægju, þá ver hún þó mörgum harmi. En Drottinn vor bað ekki þess til handa hinum fyrstu lærisveinum sínum, að Guð tæki þá úr heiminum, heldur að hann geymdi þeirra við illu (Jóh. 17, 15). Eins eigum vjer að dveljast í veröldinni, en forðast þó það sem illt er og saurugt. Ef alls konar holdleg ánægja væri saurug, og þetta boðorð: að vjer skulum verða heilagir, miðaði ekki til annars, enn að vjer skyldum firrast alla þess konar ánægju, og afklæða hinn ágætara hluta vorn meir og meir hinu holdlega, þá mundi oss að vísu veita það erfitt, og mikillar baráttu mundi við þurfa, en þá vissum vjer samt, að fullkomleikinn væri þar í fólginn, að líkaminn væri undirokaður, og vjer hefðum fyrirlitning á gjöfum jarðarinnar, og ljetum oss nægja það, sem vjer getum með engu móti án verið; og tækjum vjer framförum í þessu einu, þá fullgjörðum vjer helgun vora. En svo fjarri fer að fullkomleikinn sje í þessu fólginn, að þetta er með engu móti af oss heimtað, og þó þú eigir að leggja hið holdlega undir þess vald, sem æðra er, og venja þig á, að geta verið án þess, þegar þú mátt ekki njóta þess, þá er það samt ekki rjett nje sómasamlegt, að lifa á jörðinni, án þess að hirða neitt um hag annara. Því að öll Guðs skepna er góð, og ekkert burtkastanlegt, sje hún þegin með þakkargjörð, með því hún helgast með guðsorði og bæninni (1. Tím. 4, 4. 5); og þegar Guð lýkur upp sinni mildu hendi, sem full er góðra gjafa, og seður allar lifandi skepnur með sinni blessun, þá er það ekki vizka nje kristilegur fullkomleiki, að láta sem menn sjái það ekki, heldur er hitt miklu viturlegra og kristilegra, að fagna og gleðjast af guðlegri miskunsemi. Vjer eigum að brúka heiminn, en saurgast ekki af

honum, heldur firrast hinn holdlega lýð, og snerta ekkert sem saurugt er.

Það er þegar mikils vert, að skilja vel, hvað Guði sje geðfellt, og hver að sje hans góður og fullkominn vilji (Rómv. 12, 2), og sjá glögglega, að ekkert einstakt sje af oss heimtað, svo sem einhlítt til helgunar, heldur vilji Guð, að oss fari fram í öllu, sem fagurt er og gott, svo að oss verði það allt saman jafneðlilegt. Væri, til dæmis að taka, kristilegur fullkomleiki í því fólginn, að leggja af reiðigirni og ráðríki, eiga frið við alla menn, og vera hógvær, vægur og umburðarlyndur, en hirða að öðru leyti ekkert um, hvað fram færi í veröldinni: þá mundum vjer að vísu þurfa mikillar baráttu við sjálfa oss, áður oss lærðist að kefja niður ólgu hjarta vors; en þá væri það ekki nema eitt, sem vjer ættum að verja krapti vorum til, og þá mætti það líklega takast um síðir. En kýs Guð sjer þvílíka þjónustumenn, sem ekkert kapp er í til hins góða, og engin vandlæting um hið illa? Eða hefir Kristur gengið á undan oss með þvílíku eptirdæmi? Nei! vandlætið brann í hjarta hans, hann var kröptugur í verkum og optlega harður í orðum, en þó var hann hógvær og lítillátur af hjarta.

Verðið heilagir í öllu dagfari yðru, eins og sá, er yður hefir kallað (1. Pjet. 1, 15)! — Orðið: helgun, á ekki við um Guð, og ekki heldur um þann, er af Guði var sendur, og bar hjer á jörðu Guðs mynd hreina og fullkomna; heldur á orðið: heilagleiki, þar við. Aptur á mót er það rjettmæli, að segja: helgun, um oss, því vjer erum ekki af náttúru slíkir, sem vjer eigum að vera, heldur verðum vjer að taka umskiptum. Þegar þessi umskipti byrja í manninum, köllum vjer það apturhvarf og endurfæðing; hið æðra líf sprettur þá upp í sálu hans, og við það finnur hann, að hann er upphafinn yfir allt illt og ósæmilegt. Þeir, sem ekki hafa umbreytzt á þenna hátt, eru fjarlægir guðsríki, eður jafnvel ókunnugir því með öllu. Enda verðum vjer og ekki heilagir jafnskjótt og slík umbreyting byrjar í oss.

Mörgum er svo varið, að þeir eru óvandir að við sjálfa sig, og þurfa ekki mikið til, að þykjast fullgóðir, að minnsta kosti eptir því sem þeir kalla að heimtað verði af breiskum mannskepnum,

og í samanburði við aðra. Þar á mót áminnir kristin trú einnig þá, er heyrt hafa hina himnesku rödd og byrjað betra líferni, að þeir fullgjöri helgun sína, og það fylgir jafnvel orðinu: helgun, að oss ber að líkjast meir og meir því sem vjer eigum að verða. Þegar Páll postuli talar um það, er hver kristinn maður á að láta sjer annt um, sem er, að komast í sem nákvæmast samfjelag við Krist, og afla sjer þekkingar á honum, og á krapti upprisu hans og hluttekningu í píslum hans, þá kemst hann svo að orði um sjálfan sig: „Ekki svo sem jeg hafi þegar náð hnossinu, eður sje þegar algjör; heldur keppist jeg eptir að höndla það, með því Kristur hefir höndlað mig. Bræður! ekki alít jeg mig enn hafa hnossinu náð; eitt gjöri jeg: jeg gleymi því, sem bak við mig er, en seilist eptir því, sem fyrir framan er, og skunda til takmarksins, til hins himneska hnossins, sem Guð frambýður mjer fyrir Jesúm Krist“ (Fil. 3, 12 o. nn. vv.). Hinn mikli postuli var þá hniginn á hinn efra aldur, hann hafði starfað meira enn hinir, og orðið að þola meira, og var þá í fjötrum fyrir sakir Krists; og samt sem áður gleymdi hann því, sem bak við hann var, eins og ekkert væri ágengt orðið, og seildist eptir því, sem fyrir framan var, það er: eptir fullkomleika þeim, sem hann áleit ekki sjálfan sig hafa náð. Hversu ólíkt er þetta hugarfari vel flestra! Þeir hafa hugann á því, sem bak við þá er, það er: á einstöku góðverkum, sem þeir telja sjer til gildis, og einstöku baráttu, sem þeir hafa átt, og gleyma svo öllu hinu, sem enn er af þeim heimtað sífelldlega. Þegar um hádegi þykjast þeir hafa lokið sínu dagsverki, svo að hinir yngri menn eigi þar við að taka. Gjarna viljum vjer unna þeim hvíldar, eins og verðugt er, sem borið hafa hita og þunga dagsins, og komnir eru að kvöldstundum æfi sinnar; en með slíkum mönnum teljum vjer enga þá, sem eru í fullu fjöri, og unnið geta ætlunarverk sitt, svo að það er enn af þeim heimtanda. Og eitt verk er það, sem aldrei er á enda kljáð, en það er sú iðja, að taka sjer æ fram í ráðvendni, vizku, góðleik, styrkleika, góðvilja, guðhræðslu. Gjöri nokkur sjer í hugarlund, að hann sje kominn eins langt í þessu, og honum beri að komast, þá hlýtur að vera, hann þekki hvorki þetta boðorð: „verið fullkomnir, eins og yðar

Faðir á himnum er fullkominn“ (Matth. 5, 48), nje heldur sjálfan sig.

Margur viðurkenna að sönnu, að þeir sjeu ekki slíkir, sem þeir ættu að vera, en telja sjer trú um, að þeir geti ekki orðið fullkomnari enn þeir sjeu, og því heyra menn að margur segir: Jeg er nú svona gerður, og verð aldrei öðru vísi, Guð og menn verða að láta sjer lynda, að jeg sje eins og jeg er. Hvílíkt ógrynni ljettúðar og hugsunarleysis kemur fram í þvílíkum orðum! því með þeim afneita menn ákvörðun lífsins, hliðra sjer hjá allri viðleitni á því sem gott er, ónýta alla saman æfi sína, og eins og bíða eptir því, að Guð umbreyti þeim öldungis við endalok æfi þeirra, vinni á þeim kraptaverk og gjöri þá að því, sem þeir hirtu ekki sjálfir um að verða. Að sönnu getum vjer ekki fullkomnir orðið hjer á landi ófullkomleikans, en framförum eigum vjer að taka, og getum það; því til eru þeir, sem taka framförum í vizku og góðleika, eptir því sem þeir eldast; og það er stöðugur sannleiki: að án helgunar auðnast engum að sjá Drottin (Hebr. 12, 14).

Öðrum er svo varið, að þeir tala ekki um þetta með jafnmikilli ljettúð, heldur kvarta þeir um vanmátt sinn með þungum trega: þeir hafa byrjað svo opt, þeir vita fyrir samvizku sinni, að það hefir verið einlægur ásetningur þeirra, að bæta ráð sitt, og taka framförum í öllu góðu, og eru samt ekki orðnir betri enn þetta; hvernig geta þeir þá búizt við að sjer takist seinna betur? En vjer eigum ekki að láta hugfallast, þó vjer finnum til vanmáttar vors, heldur láta hann kenna oss, að leita liðs af hinum almáttka, því kraptur Guðs sýnir sig fullkominn í veikleikanum (2. Kor. 12, 9). — Vilji bóndinn uppskera nokkuð, verður hann að plægja, sá og girða um akur sinn; en getur hann sagt að því búnu: fyrst jeg hefi gjört þetta, þá veit jeg, að jeg hlýt að fá uppskeru? Nei! heldur veit hann, að eigi gnógt sáðs að fylla akur hans, þá verður Herra himins og jarðar að senda regnskúrir seint og snemma, og með þeim blessun sína. þegar einhver ætlar að byggja sjer hús, þá veit hann, að hann verður að safna því sem til þarf, og hafa fyrir að koma því upp. En á hann þá víst, þó hann gjöri þetta,

að sjer muni auðnast að ljúka við húsið og hafa þess not? Nei! heldur veit hann í huga sínum, að nema Drottinn byggi húsið, þá vinna þeir fyrir gýg, sem eru að byggja (Sálm. 127, 1). Og ef vjer fáum engu til leiðar komið án Guðs — hvernig getum vjer þá gjört oss í hugarlund, að vjer munum fullgjöra helgun vora án Guðs ótta, og án vonar og trausts og bænar til Guðs?

Neyð kennir bezt að biðja, segja menn; og að vísu er því svo varið. Sá bóndi, sem ekki er annars vanur að biðja, fórnar þó höndum til himins, og biður Guð um hagstæða tíð, þegar sáð hans ætla að skrælna í sumarhitanum eður deyja í vetrarfrostinu. Þegar sá sem er að byggja sjer að stormarnir og vatnsföllin koma, og ætla að brjóta niður húsið, þá kennir neyðin honum að fórna höndum til himins, þó hann hafi aldrei gjört það áður, og biðja Guð afstýra hættunni, en gefa hamingju til að halda á fram og ljúka við bygginguna. Og mundi oss þá ekki lærast að biðja í vorri miklu neyð, þegar stormar freistinganna ætla að aptra eður eyða helgunarverki voru, og vjer sjáum, hvert oss ber að stefna, en finnum jafnframt til vanmáttar vors: — Orðið: helgun, vísar enda svo til, að helgunin sje ekki sjálfum oss að þakka. Vjer finnum ekki sjálfir það sem rjett er og gott, heldur opnar Guð hugskotsaugu vor, svo að þau sjái eðli hans og eðli vort, og hið endalausa og eilífa sambandið allra hluta, og oss gefi þar af að skilja; hvað vera eigi og hvað ekki, eptir hinni eilífu ráðstöfun; vjer megnum ekki sjálfir að styðja oss og bera og leiða oss að takmarkinu, heldur er vor hæfilegleiki frá Guði (2. Kor. 3, 5). Það er v o r t ætlunarverk að athuga, og gefa gaum, og fela oss Guði á vald, og færa oss í nyt allt, sem Guð gefur oss, en Guð er sá, er veitir oss viljann og framkvæmdina, eptir gæzku sinni (Fil. 2, 13).

Biðjið, þá mun yður gefast (Matth. 7, 7)! Sje því svo varið, ræður að líkindum, að fyrirheitið muni einkanlega rætast, þegar vjer biðjum Guð þeirra gjafa, sem vjer erum skapaðir til að öðlast, og allt er í fólgið, sem oss er heilsusamlegt. Því það er vilji Guðs, að vjer heilagir verðum; þar að lýtur öll Guðs handleiðsla á oss, og sjerhver áminning og tilhvatning, sjerhver refsing og sjerhver

uppörfun, og sjerhvað, er fram við oss kemur á andlegan eða líkamlegan hátt. Það er vilji Guðs, sagða jeg; en hann vill það ekki með sama hætti, sem hann vill, að stjörnur himinsins renni hinar lögðu leiðir, ellegar að sumar og vetur, sáð og uppskera, skiptist á sífelldlega — svo að ekki verði af brugðið; heldur vill hann það á þann hátt, sem vera verður, þar sem í hlut eiga þær verur, sem hann hefir frjálsræði gætt, svo þær geta gjört hvort sem þær vilja, að slíta sig frá Guði og óhlýðnast vilja hans, ellegar að fela sig á vald Guðs og lúta vilja hans. Fyrir því er það ekki ráðsályktun Guðs, að breyta oss allt í einu í heilagar verur, heldur vill hann helga oss, með því að leiða oss fet fyrir fet, svo að vjer færum oss í nyt framfarir vorar, og vöxum í náð og þekkingu Drottins vors og Frelsara (2. Pjet. 3, 18). Það er af oss heimtað, að vilji vor líkist æ meir og meir Guðs vilja, og svo um helgun vora; en þegar vjer viljum sama og Guð sjálfur, þá hlýtur það að takast. Þess vegna eigum vjer að biðja örugglega og efast ekki (Jak. 1, 6). Að sönnu eigum vjer að efla sáluhjálp vora með áhyggju og andvara (Fil. 2, 12), en sú áhyggja á að leiða oss til Guðs; og þegar vjer leitum Guðs af einlægu hjarta, og biðjum hann af einlægu hjarta og gefumst ekki upp, þá skulum vjer ekki óttast og efast, heldur trúa, og verða styrkir og glaðir í trú vorri. Því Guð hefir ekki ákvarðað oss undir hegningu, heldur til að öðlast sáluhjálp vegna Drottins vors Jesú Krists, sem dó fyrir oss, svo að vjer skyldum með honum lifa (1. Þess. 5, 9. 10).

---

# 47.

## HEILAGUR ANDI.

Allir þekkja kraptaverk það, sem forðum daga varð í Jerúsalem, og kom því til leiðar, að hvítasunnu-hátíðin varð hátíð handa öllum heimi — því jafnan hefir hún breiðzt út meir og meir, og mun breiðast út um öll lönd — og varð sú hátíð, er vjer fögnum á boðun Krists fagnaðareyrindis á öllum tungum — þar sem hún hafði áður að eins verið hátíð á meðal þeirrar þjóðar, er á henni minntist boðunar hins heilaga lögmáls á Sínaífjalli. Minning þessa kraptaverks er endurnýjuð á hverju ári, og afleiðingar þess viðhaldast frá einni kynslóð til annarar. Eins og himin og jörð voru í öndverðu mynduð af guðlegum krapti, og náttúran gat ekki hafið skeið sitt á þann hátt, sem nú er kallaður náttúrlegur: þannig var og Krists kyrkja stofnsett af guðlegu kraptaverki, og endurlausn hinnar spilltu náttúru varð ekki á náttúrlegan hátt. Tákn og stórmerki hlutu að verða í Jerúsalem, til þess þrjár þúsundir manna skyldu á einum degi fást til að trúa á þann, sem þeir höfðu krossfezt fáum vikum áður; tákn og stórmerki hlutu að verða á jörðunni, til þess mennirnir yrðu vaktir úr dái til að gefa gaum að fagnaðareyrindi því, sem hljómaði af Gyðingalandi, og veita því viðtökur í hjörtum sínum. Hvítasunnuhátíðin minnir oss þannig fyrst á fornar aldir, eins og sjerhver kristileg hátíð, og áminnir kristna menn um, að þakka Guði fyrir það, sem til hefir borið fyrir löngu og langt hjeðan.

En sjerhver kristileg hátíð á einnig að snúa huga vorum til hins nálæga og ókomna. Þegar Pjetur forðum, á hvítasunnuhátíðinni, gekk fram á meðal mannfjöldans í Jerúsalem, þá minntist hann ekki að eins á það, sem komið var fram við sjálfan hann og hina aðra, sem voru hinir kjörnu vottar dauða Krists og upprisu; heldur talaði hann og um það, sem komið gæti fram við sjerhvern, er hlýddi ræðu hans. „Snúið yður, sagði hann, og sjerhver yðar láti skírast í nafni Jesú Krists til fyrirgefningar syndanna, og þjer

skuluð öðlast gjöf heilags Anda“. Hann snjeri ekki að eins fyrirheiti því, sem nú var framkomið á postulunum, til mannfjölda þess, sem þá var saman kominn, heldur sagði hann enn fremur: „Þjer og börn yðar eigið fyrirheitið, og allir þeir, sem fjarlægir eru, sjerhverjir, sem Drottinn Guð vor vill til þess kalla“ (Post. 2, 38. 39). Og með þessum orðum er fyrirheitinu einnig snúið til vor, og endurnýjað á sjerhverri nýrri kynslóð, sem Drottinn Guð vor kallar til safnaðar kristinna manna.

Ef að gjöf heilags Anda sýndi sig enn í táknum og stórmerkjum, ef hún lyki enn upp vörum mannanna, svo þeir mæltu á nýjar tungur, ef hún veitti þeim enn slíkan mátt, að þeir gætu lagt hendur yfir hina veiku, svo þeir yrðu heilbrigðir: þá mundu og væntanlega þeir vera til, sem vildu fegnir, eins og maðurinn á dögum pstulanna (Post. 8, 18), koma með eigur sínar, til að kaupa fyrir þær svo furðulegan mátt. En það er, eins og Páll segir, að opinberun Andans er gefin sjerhverjum til þess, sem nytsamt er (1. Kor. 12, 7). Á þeim dögum, er Krists kyrkja átti að verða stofnuð á jörðunni, var það nytsamt og ómissandi, að tákn og stórmerki væru gjörð, og þess vegna veitti Andinn sumum mátt til að lækna, sumum til að gjöra furðuverk; sumum spásagnaranda, sumum hæfilegleik og hugrekki til að boða stórmerki Guðs á útlendum tungum (1. Kor. 12, 9 o. n. v.). En hversu mjög sem þessi kynslóð girnist að sjá tákn og stórmerki, hversu fegin sem hún vildi snúa hinni helgu gjöf Andans í töfraafl, tekst henni það ekki, hún megnar hvorki með kænsku nje auðæfum, að ávinna sjer neina hlutdeild í hinum frábæru ástgjöfum, er forðum daga birtu mátt sinn, ekki í leyni, heldur opinberlega frammi fyrir mörgum þúsundum votta. En hvað var þá og aðalatriði þess fyrirheitis, er rættist svo dásamlega á postulunum? Það var ekki hin ytri opinberun kraptarins, ekki táknið, heldur það sem það táknaði, það er að skilja: gjöf Andans í brjósti mannanna. Hvað hefði það notað, þótt þeir hefðu mælt á allar tungur jarðarinnar, ef Andinn hefði ekki áður verið búinn að fylla sálir þeirra með þekkingunni á Kristi, og leiðbeina þeim til viðurkenningar sannleikans, svo þeir gætu mælt heilsusamleg og skynsamleg orð á

þessum tungum, eptir því sem Andinn veitti þeim að mæla. Hvað hefði hann verið, hinn mikli máttur þeirra til að lækna og gjöra kraptaverk, hvað hefði hann verið utan hjegómlegur leikur, ef Andinn hefði ekki áður verið búinn að fylla hjörtu þeirra trú og kærleika, svo að þeir í sannleika gjörðu þessi verk í nafni Jesú Krists. Hið andlega og það, sem allt á ríður, er enn hið sama fyrir alla kristna menn, því hversu mikill sem munurinn er á ástgjöfunum, þá er samt Andinn hinn sami (1. Kor. 12, 4).

Það er eitt af höfuðatriðum hins kristilega fagnaðareyrindis, að vjer getum einnig öðlazt gjöf heilags Anda, og eigum að keppast eptir því, og þetta atriði er harla íhugunarvert. En jafnframt og vjer segjum þetta, getum vjer ekki dulið fyrir sjálfum oss, að eins og mörgum virtist ræða postulanna vera undarleg og ókunnugleg, eins og hún varð svo optlega að hneixli fyrir Gyðinga og heimsku fyrir Grikki, svo er og enn um þessi orð: „gjöf heilags Anda“, að þau þykja vera undarleg og kynleg á vorum dögum. Það er og á engan hátt meining vor, að neinn maður skuli leitast við að vekja eptirtekt annara á sjer, svo sem þeim, er hafi tekið sig út úr flokki vanheilagrar alþýðu, til þess honum gæti hlotnazt ástgjafir Andans fremur enn henni. Ekkert er viðbjóðslegra, heldur enn þegar hið heilaga er gjört að leikfangi hjegómagirndarinnar, og við sjerhvern, sem það gjörir, mundi oss vera óhætt að segja hið sama og postulinn sagði við manninn, sem ætlaði að ávinna sjer gjöf Guðs með peningum: Þú hefir ekkert hlutskipti í þessu orði, því hjartalag þitt er ekki rjett í Guðs augliti (Post. 8, 20. 21). En á guðræknisstundum vorum, þegar sála vor sökkur sjer niður í hinar mikilvægustu íhuganir, þegar vjer tölum við Guð og sjálfa oss, um alla vora athöfn og ásetning, og hinn verulega tilgang lífs vors, og eigum þannig að nefna fyrir sjálfum oss, hver að sjeu hin æðstu gæði: eiga þá einnig þessi orð: „gjöf Andans“, að virðast oss ókunnugleg og undarleg?

Ímyndum oss mann, sem ætti sjer eina ósk: segðu hvað þú girnist, og það skal veitast þjer! hversu mundi hann þá leita um allan heim, neðan úr djúpi og upp á fjallatinda, til þess að vera viss um að finna það, sem bezt væri til í heiminum, og til þess

að ónýta ekki fyrir sjer leyfið, og fara svo á mis við tilgang sinn. Gullið er fagurt, og vjer vitum hversu mikið vald það hefir yfir hjörtum dauðlegra manna; en mundi nokkur maður á slíkri mikilvægri úrskurðar stund dirfast að segja: Jeg veit hvað jeg vil, jeg er búinn að hugsa um það, og búinn að kjósa; hirðum ekki um hvað öðru líður, en veit mjer svo mikinn auð, að jeg geti keypt heiminn? Eður mundi nokkur dirfast að segja: veit mjer tign og vald, svo jeg geti drottnað yfir heiminum? eður veit mjer heilbrigði og sífelldan æskublóma, þangað til seint og síðar meir að stund mín kemur, svo jeg geti notið heimsins? eður: jeg skal láta lífið lynda mjer, jeg skal þola hið illa, til að geta notið hins góða, en tak að eins dauðann á burt, svo jeg þurfi ekki að ganga hinn dymma veg, og yfirgefa heim þenna? Hversu optlega sem vjer heyrum mennina tala, eins og það eður það væri hin æðsta ósk þeirra, erum vjer samt allir eflaust sannfærðir um, að færi svo þeim væri leyft að kjósa, mundu þeir hörfa á bak aptur, er þeir ættu að rjetta hendur sínar fram til að taka það, er þeir hefðu svo langa stund óskað sjer, og taka það svo, að þeir tækju það fram yfir sjerhvað annað, sem æskilegt væri að öðlast; því enginn er sá, sem í alvöru dirfist að segja, að nokkur stundleg gæði sjeu til, sem í raun og veru geti ekki verið nema góð, og gæti satt hjarta hans, og hann skyldi aldrei verða leiður á þeim, og þau gætu bætt honum hvern söknuð. Ímyndum oss nú hins vegar mann, sem væri að hugsa um hið sama, og segði þá: jeg girnist einnig farsællt líf, og gleðin er mjer inndæl, og krossinn er mjer þungbær, eins og öðrum mönnum; en jeg veit ekki hvað mjer sje hentast í þessu efni; gefðu eða sviptu, Drottinn minn! eins og speki þín veit að þarflegt er, en laga að eins hjarta mitt svo í hryggð og kæti, að þinn heilagur Andi geti búið í því — væri þá þessi bæn svo ókunnugleg og undarleg?

Sjerhver sá, sem með athygli hefir lesið heilaga ritningu hefir án efa optlega haft yndi af hinni fögru frásögu um Salómon, þegar hann var á æskuskeiði, og nýbúinn að taka við ríki eptir Davíð konung, föður sinn. Hann lá um nótt í hvílu sinni, þá fjekk hann helga vitrun, og honum þótti hinn hæsti birtast sjer og segja

svo: beiðstu hvers er þú vilt að jeg gefi þjer! Þá beiddist hinn ungi konungur ekki langra lífdaga, og ekki auðæfa, og ekki falls óvina sinna; en hann íhugaði í hjarta sínu, að nú sæti hann á veldisstóli Davíðs, föður síns, og væri enn ungur og skorti þekking og reynslu, og þó ætti hann að stjórna miklum lýð og óteljandi, og dæma vandamál hans. Þá bað Salómon á þessa leið: Gefðu þá þjóni þínum hyggið hjarta til að dæma þjóð þína, og greina með skynsemd milli góðs og ills. Og þessi bæn, segir ritningin, var góð í augum Drottins; og Guð gaf honum viturt og hyggið hjarta, eins og hann hafði um beðið; og Guð gaf honum jafnvel það, sem hann hafði ekki æskt sjer — auðæfi og heiður. Þá vaknaði Salómon, og sjá það var draumur (1. Kong. 3, 5 o. nn. vv.). En hugarfar það, sem þessar íhuganir voru af sprottnar, var ekki draumur; og velþóknun Guðs á þessu hugarfari, og blessun Guðs yfir því, var ekki draumur.

Hvers vegna er nú þessi frásaga oss svo inndæl, hvers vegna hafa einnig vor hjörtu velþóknun á henni? Af því vjer sjáum hjer ungan mann, sem umkringdur er af alls konar veraldarsælu, og þekkir samt það, sem æðra er stundlegri farsæld, og hlýðir ekki röddu holdlegra fýsna og hjegómagirndar á reynslutímanum, og gleymir sjerhverri annari ósk, til að geta beðið, að Guðs andi leiði og stjórni hans anda. Því var það ekki hið sama, sem Salómon bað um, eins og þó hann hefði sagt: Drottinn! gef mjer þinn helgan Anda í hjarta mitt?

Guðs andi er andi spektar og hygginda (Ef. 11, 2); hann sendir birtu í djúp sálarinnar, hann sannfærir hinn efablandna, hann kennir að greina gott frá illu; og sannleika frá lygi og villu, og veitir oss þannig ljós það, sem vjer eigum eptir að ganga. Guðs andi er andi ráðs og styrkleika; hann veitir hendinni afl, og viljanum staðfastan ásetning, hann styrkir vor hin aflvana knje, svo vjer verðum fótvissir, hann kennir oss að hopa ekki fyrir mótþróa hinna ranglátu, og fölna ekki, þegar vjer sjáum dag ógæfunnar. Guðs andi er andi þekkingar og guðhræðslu; hann bendir oss óaflátanlega á lögmál Guðs, og þýðir það fyrir oss, og minnir oss þannig á Löggjafann og Dómarann á himnum, og lætur

oss finna til nærveru hans, til viðvörunar hans, þegar vjer skeikum, og uppörfunar hans, þegar vjer breytum rjettilega. Hann er þess vegna heilagur Andi, sá er hrífur oss burt frá því, sem er auðvirðilegt og illt, og lyptir oss upp til æðri heimkynna, þar sem guðhræðslan öðlast endurgjald sitt, og frelsi og friður búa. Og þess vegna er hann Huggunarandi, hann einn saman færir oss huggun frá Guði, þá er fyllilega svalar hinu hrellda hjarta, hún er blað af friðarins pálmaviði og lækning þeirra sára, sem veröldin megnar að veita en ekki að græða.

Vjer tölum ekki á þessum stað um fjarlæga hluti og leyndardómsfulla, sem fáeinum að eins er veitt að þekkja og reyna; heldur tölum vjer um það, sem er nákomið sjerhverjum manni og sjerhver góður maður hefir reynt. Því er nokkur sá til, er hafi með einlægni og alvörugefni leitað þess sannleika, sem sál hans gæti hvílzt í, og hafi þó ekki lifað þær stundir, er sannleikurinn væri honum ljós, svo villumyrkrið hvyrfi ekki að eins, rjett eins og næturþoka, heldur rynni sól sannleikans upp bæði björt og heit, svo hann fyndi þá fylling og birtu og sannfæring, er hann leitaði að. Er nokkur sá til, sem ljeti sjer alhugað um að gjöra það, sem rjett er fyrir Guði og mönnum, og hafi ekki reynt, að eptir hina hörðu baráttu millum efablandinna hugsana, komi fram, þegar minnst varir, játun eður neitun, sem eyði allri efasemi og krefjist ótakmarkaðrar hlýðni, en launi þá og hlýðnina með helgum friði? Á hinum góðu dögunum, þegar öll veraldarsæla var á boðstólum, sem líklegt var að glatt gæti mannlegt hjarta, en hjartað gladdist ei að heldur, þegar öll gæði lífsins voru breidd út frammi fyrir oss, eins og fagurt hjerað fyrir augum vorum þegar sólskinið vantar yfir það, þá höfum vjer lifað marga þá stund, að æðra ljós skein yfir lífið, svo vjer könnuðumst við og fundum til hvað oss væri gefið, og smökkuðum og sáum að Drottinn er góður, og þakklætið sameinaði hið himneska hinu jarðneska í huga vorum. Á hinum vondu dögunum, þegar hið umliðna hafði skilið eptir biturleik sinn í hjarta voru, hið nálæga lagðist á oss eins og þung byrði, og ókominn tími heimsótti oss fyrir fram með áhyggjum sínum, þá var það á stundum í allri þessari eymd,

eins og einhver æðri hönd hefði svipt af oss sjerhverri byrði, sála vor fann að hún var ljettfær og frjáls, og hafði hugrekki til að bera hið nálæga og vona betri daga. Allt þetta eignar kristin trú jafnan heilögum Anda, sem Faðirinn sendir í Jesú nafni öllum þeim, sem trúa á það nafn, sem eitt saman undir himninum er gefið meðal manna oss til frelsunar (Post. 4, 12), þeim Anda, sem á að kenna oss alla hluti, og minna oss á alla hluti, sem Drottinn hefir sagt oss (Jóh. 14, 26), og leiða oss í allan sannleika (Jóh. 16, 13). Þess vegna minnir Páll kristna menn á, að Guðs andi búi í þeim (1. Kor. 3, 16), og líkamir þeirra sjeu musteri heilags Anda, er þeir hafi af Guði þegið, svo þeir eigi sig ekki sjálfir (1. Kor. 6, 19).

Eða hvernig vakna allar hræringar andans í brjósti voru? Er það raunar ekkert nema andi sjálfra vor, sem lyptir sjer af sjálfs síns rammleik yfir efasemdir og synd og hugleysi og hryggð? Eður finnur ekki hver maður berlega, að einhver æðri kraptur vitjar hans, finnur hann ekki á slíkum stundum, að hann er í sambandi við allt, sem er fagurt og gott og sælufullt, finnur hann ekki berlega, að hið dýpsta í veru hans, og ekki að eins hugur hans, er sameinaður himninum og sjálfum Guði á himnum? Þetta er það sem postulinn kallar samfjelag heilags Anda, og óskar að gæti hlotnazt öllum oss (2. Kor. 13, 13). Sjá! það lítur út eins og sjerhver einstakur hlutur í náttúrunni komi fram af mætti sín sjálfs, og samt slítur ekki hvað sig fra öðru, heldur eiga hlutirnir saman, og hvað er til annars vegna, og á tilveru sína öðru að þakka, svo allir hlutir eru ein eining, ein náttúra, ein veröld. Hvernig getur þetta orðið, nema ósýnilegt band sje til, er haldi saman alheimi, nema kraptur sje til, sem ríki í honum öllum? Því segir og í sköpunarbókinni, að þegar jörðin var auð og tóm, og myrkur var yfir djúpinu, þá sveimaði Guðs andi yfir vötnunum (1. Mós. 1, 2), og á þann hátt kom ljósið fram, og vatnið safnaðist í hafsdjúpin, og jörðin skrýddist jurtum, og lifandi skepnur komu í ljós, og jörðin var fyrirbúin þeim til bústaðar, og ávextir jarðarinnar þeim til fæðu, og allt varð að einni veröldu, er auga Drottins leit með velþóknun. Og þar sem lífið enn án afláts eflist

og skipar sjer niður á þessari jörðu, eignar hið helga sálmaskáld það Guði, þeim er sendir Anda sinn út, og lifandi verur verða skapaðar, og endurnýjar þannig ásýnd jarðarinnar (Sálm. 104, 30). En þar sem nú ekkert dafnar í hinni sýnilegu veröld einstakt og útaf fyrir sig, þar sem máttur Skaparans ríkir í öllu, og Andi hans undirbýr allt og skipar því niður, mundi þá sjerhver andi í hinni andlegu veröld vera einn saman útaf fyrir sig? Satt er það að sönnu, að þar sem allt í hinni sýnilegu veröld verður að hlýða því valdi, sem keyrir það á fram, hefir Guð gefið sálunni frjálsræði til að standa í móti áhrifum hins góða, eður hníga að því. En hver er sá, er ekki finni, að þegar hann hneigist að hinu góða, þá gefur hann sig á vald áhrifum þess Anda, sem kallar þá alla og safnar þeim saman í einn söfnuð, sem heyra vilja hina æðri köllun, og sameinar sálir mannanna sín á milli, og sameinar þær Guði? Þegar vjer viðurkennum sannleikann, þá er því ekki svo varið, að vjer hver um sig búum oss til einhvern sannleika til að láta huga vorn hvílast í, heldur trúum vjer og finnum, að vjer sjeum leiddir til hlutttekningar í því, sem er sannleikur í öllu ríki andanna. Þegar vjer verðum varir við rödd samvizkunnar í brjóstum vorum, hver hefir þá nokkru sinni sagt eður hugsað, að það væri að eins andi hans sjálfs, sem ávarpaði hann, og segði honum hvað hann ætti að gjöra, og ásakaði hann, þegar hann skeikaði, og endurgildi honum, þegar hann breytti rjettilega? Miklu fremur segjum vjer allir, að það sje Guðs rödd, sem vjer heyrum, hin sama rödd, sem talar í brjósti sjerhvers manns, þegar hann vill einlæglega hlýða á hana, og boðar öllum hið sama lögmál. Þegar hjarta vort fyllist helgum fögnuði, þegar sú tilfinning ríkir í oss, sem mál vort getur ekkert kallað nema sælu, þá höldum vjer þó ekki, að vjer veitum oss sjálfir fögnuð vorn, heldur finnum vjer, að oss er veitt hlutdeild í því, sem er gott og sællt sjerhverri veru, sem tilfinning hefir, hlutdeild í sælu hins eilífa. Þegar þú finnur hina sömu tegund jurta í fjarlægum löndum, og þú hefir áður fundið í átthögum þínum, þá segir þú: hjer drottnar einnig hið sama náttúrumagn, hjer lætur einnig hinn almáttugi blómin ilma og frækornið dafna. Og þegar hinar sömu

hugsanir og tilfinningar og ályktanir fylla sálir mannanna fjær og nær, er það þá ekki hinn sami Andi, sem framkvæmir allt í öllu (1. Kor. 12, 6)?

En Andinn, Guðs andi — hvað hugsum vjer oss, þegar vjer nefnum þetta heilaga nafn? Er sá Andi, sem vjer tölum um, einungis eins og vindurinn, sem þýtur, og veit ekki sjálfur, hvaðan hann kemur, nje hvert hann fer? Er hann blindur máttur og meðvitundarlaus, og kveikir hið andlega líf, en veit þó ekkert af sjálfum sjer, nje lífi því sem hann kveikir? Ó! mundi sá, sem gefur öllum líf, ekki lifa sjálfur? mundi sá, sem gefur sálum mannanna ljósar hugsanir og ríkar tilfinningar og öflgan vilja, vera sjálfur án meðvitundar og tilfinningar og lífs? Nei! það er sá Andi, sem rannsakar leyndarráð Guðs (1. Kor. 2, 10), og gengur út frá Föðurnum og Syninum, og kallar og safnar saman og helgar, og farsælir alla anda í hinum takmarkalausa söfnuði, og tengir þannig allan söfnuðinn við sig, og þá jafnframt við Föðurinn og Soninn; því ofar allri breytingu tímanna, ofar öllu, sem til er á himni og jörðu, er eitt órjúfanlegt samfjelag: Faðir, Sonur og heilagur Andi, hinn eini sanni Guð.

Vjer viðurkennum fyllilega, að vjer erum hjer komnir að þeim takmörkum, þar sem augu dauðlegra manna sjá ekki framar skýrt, þar sem hugsanir mannanna truflast, og mál mannanna megnar ekki framar að koma orðum að, og nefna rjettum nöfnum. En sjerhver djúpsæ hugleiðing hlýtur að bera oss að þessum takmörkum; hið sýnilega bendir til hins ósýnilega, og það sem vitið fær glögglega skilið, bendir til órannsakanlegra leyndardóma. Þessir leyndardómar eru ekki birtir oss til þess, að vjer skulum trufla huga vorn á umhugsun þeirra, nje til þess, að nokkur skuli reyna að komast lengra, enn honum er afskammtað, því gjafirnar eru ýmislegar, og Andinn úthlutar sjerhverjum eptir því sem hann vill (1. Kor. 12, 11). Hvað stoðar það, hefir einn guðhræddur maður sagt, þótt þú gætir aldrei svo snillilega talað um leyndardóma þrenningarinnar, ef þú gjörir það, sem misþóknast þríeinum Guði? Mest er undir því komið, sem postulinn segir, að varðveita leyndardóm trúarinnar í góðri samvizku (1. Tím. 3, 9). En hversu

leyndardómsfullir sem lærdómar trúarinnar eru í nokkru tilliti, þá eru þeir samt eins fyrir því ómótmælanlegir og ómissanlegir hverjum þeim, sem kappkostar að varðveita góða samvizku fyrir Guði og mönnum. Hversu huggunarrík er og þannig þessi grein hinnar kristilegu trúarjátningar: jeg trúi á heilagan Anda! þar sem jeg vona að ná ákvörðun minni og ávinna mjer guðsríki, þá trúi jeg ekki á sjálfan mig, á vizku mína og mátt; jeg veit hversu hæglega mannlegt vit og mannlegt hjarta getur villzt, hvernig geðshræringar og girndir blinda vitið, svo það flækir sig í neti rangra hugsana og ályktana, og hvernig rangar hugsanir tæla aptur hjartað og leyfa því slíkt er það girnist; jeg veit hversu hæglega hinn öflgasti máttur mannanna lætur bugast, og ásetningar þeirra eyðast, ýmist í hinni seinfæru og deyfandi rás tímans, eður á hinni stormasömu stund freistingarinnar. En jeg trúi að guðlegur Andi sje til, er láti allt hið góða þróast guðlegum þroska, og leitist við að safna öllum saman í einn söfnuð, og leiði alla, sem koma vilja, til guðsríkis. Jeg trúi á heilagan Anda, jeg trúi því, að þegar jeg leitast við að gjöra líkama og sál hæfileg til musteris handa honum, þá birti hann einnig krapt sinn í mjer, og leiði mig að hinu rjetta takmarki mínu. Jeg trúi því, að þar sem þú, ó Guð! hefir gefið mjer hjarta, sem heyrir bænir, og gefur fúslega þeim, sem biður, góðar gjafir, þá munir þú ekki — þegar jeg bið þig, og bið ekki um þær gjafir, er jeg gæti efazt um hvort þær sjeu góðar eður ekki, heldur bið þig um þinn heilagan Anda, — selja mig á vald anda villunnar og afvegaleiðslunnar, heldur veita mjer það, er jeg beiðist.

---

# 48.

## BÆNIN.

### Fyrsta hugleiðing.

Kristinn maður á að breyta eptir Drottni sínum. Og þegar þú hugleiðir breytni Drottins þíns á jörðunni, sjer þú, hann gekk um kring og gjörði gott, og starfaði að því, er Guð hafði falið honum á hendur, bætti úr bágindum nauðstaddra, líkamlegum og andlegum, og sáði sæði því, er átti að þróast til guðsríkis. Þú átt að gjöra hið sama, eptir orku þinni, þú átt ekki og mátt ekki dirfast, að forðast samblendni við menn, nje hliðra þjer hjá þunga og hita dagsins, nje armæðu þeirri og áhyggjum, sem spretta af sýslu þinni, nje hinni margháttuðu hugsýki, sem er kærleikanum og viðkvæmninni samfara. En þú munt einnig sjá, að hann snjeri burt úr skarkalanum, til að gjöra bæn sína. Hversu opt er ekki frá því sagt, að hann hafi farið út á eyðimörk til að biðjast fyrir, eða hann hafi farið upp á fjöll, og verið þar alla nóttina á bæn til Guðs (Lúk. 5, 16. 6, 12). Hver Kristinn maður á að gjöra það, sem Drottinn hans hefir boðið honum. Og ef þú gefur gætur að orðum Drottins þíns, muntu sjá, að hann hvetur til að halda öll Guðs boðorð, ekki að eins í orðum og gjörðum, heldur og í hjarta og hugrenningum; því hann var sannarlega ekki kominn til að aftaka lögmálið, heldur til að fullkomna það (Matth. 5, 17). En ekkert boðorð heyrir þú optar til hans enn þetta: biðjið, og munuð þjer öðlast (Matth. 7, 7), því hann ljet aldrei af að minna menn á það með berum orðum og dæmisögum, að þeir eiga sífelldlega að biðja og ekki þreytast (Lúk. 18, 1).

Einn af spámönnunum, sem er að tala um anda þann, er Drottinn mundi senda þjónum sínum í fyllingu tímans, kallar það anda líknarinnar og bænarinnar (Sakk. 12, 10), það er þann anda, er gjörir mennina rjettláta í Guðs augum, og veitir þeim miskun hans, og kemur þeim fyrir þá skuld til að sækjast eptir sambandi og sameining við Guð í bæninni. Jesús vandi lærisveina

sína á að biðjast fyrir; og var það ekki auðvelt nje fljótgjört, að kenna þeim að biðja rjettilega. Hann sagði við þá í skilnaðarræðum sínum: Hingað til hafið þjer ekki beðið neins í mínu nafni; en á þessum hinum síðustu æfistundum sínum ljet hann ekki af að áminna þá á þessa leið: biðjið, og munuð þjer öðlast, svo að fögnuður yðar verði fullkominn; og hann gaf þeim þetta fyrirheit til hinnar erfiðu ferðar: sannlega, sannlega segi jeg yður, að hvers sem þjer biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður (Jóh. 16, 23 o. nn. vv.).

Síðan fóru postular Krists út um heiminn til að fylla hann af anda miskunarinnar og bænarinnar; margt var það, er þeir vildu kenna mönnunum, en við hverja kenning tengdu þeir áminningu um að biðja. Biðjið, segja þeir, á sjerhverri tíð í anda (Ef. 6, 18)! biðjið án afláts (1. Þess. 5, 17)! Verið stöðugir í bæninni og kostgæfnir í þakkargjörð, og biðjið líka fyrir oss (Kól. 4, 2)! Postular Drottins voru sjálfir kostgæfnir í þakkargjörð, bæn og fyrirbænum, og vildu kenna oss árvekni í því. Og hvað yrði úr oss, ef vjer mættum ekki biðja? Hvar ætti vesalings hjarta vort, sem æst er af svo mörgum stormum, og sundurkramið af svo mörgum ástríðum, og svo opt hefir verið sjúkt og titrandi, sært og blóðgað, — hvar ætti það að geta fengið hvíld og lækning og frið, ef vjer hefðum ekki lært að biðja? Sálin án bænar er eins og fugl, sem búið er að vængbrjóta, svo hann verður að halda sjer við jörðina. Þess vegna skalt þú aldrei, kalda veraldar speki! slíta bænina frá hjarta mínu; þó að sála mín hafi undir mikilli byrði að rísa, skal hún samt spenna út vængi sína, og andi bænarinnar skal flytja hana upp úr bágindum og eymd heimsins, upp til Frelsara hennar, í faðm hins eilífa Föðurs.

Postularnir kenndu ekki neina grein árangurslaust, og þá ekki heldur bænina. Að sönnu getum vjer ekki sagt, að þeir hafi fyrstir nefnt hið helga bænarorð fyrir heiðingjunum; því þegar Guð ljet manninn ganga upprjettan meðal hinna skepnanna, er til jarðar lúta, og lofaði honum að geta lypt augum til stjarnanna, veitti hann honum föng á, að hefja huga sinn til h a n s, sem ríkir fyrir ofan stjörnurnar. Meðvitundin um Guð er mönnunum

svo sterklega innrætt, þeir finna svo glöggt, að þeir þurfa á guðlegri hjálp að halda, og vonin um guðlega miskunsemi er þeim svo eðlileg, að vjer optsinnis fáum að heyra andvörp þau til Guðs í alvörutali spakra heiðingja, sem kristinn maður gæti upptekið af heilum hug. En sönn og fullkomlega guðrækileg bæn er hjá þeim eins og stöku gullkorn í steini; því allir vitum vjer, hvernig guðsdýrkun og bæn var almennt háttað hjá heiðingjunum. Allt öðru vísi stóð á fyrir Gyðingum; þar hafði andi bænarinnar snemma verið vakinn, og hann kenndi spámönnunum og feðrum þjóðarinnar hinar hjartnæmu, máttugu, hógværu og öruggu bænir, sem hljóma enn um alla veröld. Í Jerúsalem var musteri hins eina sanna Guðs, og það kölluðu menn bænahús, því þangað fór ein kynslóðin eptir aðra til að biðjast fyrir, lofa og þakka, og þegar þjóðin dreifðist út um önnur lönd, byggði hún sjer bænahús, hvar sem hún kom, því rödd bænarinnar átti aldrei að þagna meðal Gyðinga. Svo fór, að mennirnir fengu skilið, að bæninni væri ekki einskorðaður staður í Jerúsalem nje í neinum öðrum helguðum stað, heldur skyldu sannir tilbiðjendur tilbiðja í anda og sannleika (Jóh. 4, 21. 23). Postular Krists fóru út um heiminn, og hvar sem kristnir söfnuðir hófust, hófst og bænin, og stje til himna, sem fórn handa hinum hæsta, og var honum miklu þægilegri, enn feitar brennifórnir og reykelsisilmur.

En þó að menn biðji nú alstaðar, þar sem við kristinni trú hefir verið tekið, getum vjer fyrir það með sanni sagt, að þær bænir sjeu allar í anda og sannleika? Því er miður, að spillingin kemur ekki að eins í ljós fyrir utan kristna kyrkju, heldur og í henni sjálfri, ekki að eins í ljettúð og heimsku veraldarinnar, heldur og á guðræknis og bænar stundunum. Því þegar þeir, sem báðust lengi fyrir af eintómri hræsni, til þess ekki bæri á saurguninni í huga þeirra og hegðun, lögðu bænina eins og byrði á mennina, skipuðu að biðja margar bænir og langar, til að friðþægja reiði himinsins, gjörðu bænina að kalla að hegningu syndarinnar, og kenndu mönnum að þylja bænarorðin hugsunarlaust: leiddi það miklu fremur frá Guði enn til Guðs. Hversu opt hefir ekki verið beðið svo í kristinni kyrkju, að það mætti virðast ótrúlegt, að svo

gætu beðið játendur **hans**, er sagði með berum orðum: „þegar þú biðst fyrir, þá hegða þjer ekki sem hræsnarár, sem vanir eru að standa og biðjast fyrir í samkundum og á gatnamótum, til þess þeir verði sjenir af öðrum. Sannlega segi jeg yður, þeir hafa sín laun út tekið. En þegar þú vilt biðjast fyrir, þá far þú í svefnhús þitt, og loka dyrunum; bið svo Föður þinn í einrúmi, og **hann**, sem sjer það er fram fer í einrúmi, mun veita þjer það opinberlega. Varizt í bænum yðrum ónytju mælgi, eins og heiðingja er siður, því þeir hyggja, að þeir muni verða bænheyrðir fyrir orðafjölda. Varizt því að líkjast þeim; því Faðir yðar veit, hvers þjer við þurfið, áður enn þjer biðjið hann (Matth. 6, 5 og nn. vv.).“ þessar áminningar Drottins hafa verið ítrekaðar á seinni tímum, og hefir það ekki verið árangurslaust með öllu; því það er nú orðið sjaldgæfara enn áður, að hræsnarar reyni til að afla sjer ágætis fyrir látalæti og langar bænir, enda er slík hegðun nú í meiri fyrirlitning enn áður. En ekki viljum vjer grennslast eptir því nú, hvort bænin sjálf sje ekki orðin sjaldgæfari um leið. Bænin fer ekki annara milli enn Guðs og þess er biður, og hann á ekki að leiða vitni til. það veit enginn nema þú og Guð, hvort þú ber óskir þínar fram fyrir hann með þakkargjörð, hvort þú hugsar eins mikið um aðra og sjálfan þig í bænum þínum, og felur þá Guði á hendur, er hann hefir trúað þjer fyrir, og alla ástvini þína, hvort þú spurð Guð á himnum til ráða í öllum fyrirtækjum þínum, hvort þú lyptir huga þínum, þegar þú vaknar á morgnana, til Föður ljósanna, sem ekki að eins lætur dagsljósið skína yfir fjöll og dali, hallir og hreysi, heldur og hefir gefið sálum vorum það ljós, sem vjer greinum við rjett frá röngu, eða hvort þú á kvöldin, þegar þú ert kominn í rúm þitt, felur þig **honum** á vald, sem vakir meðan vjer sofum. Ef þú gjörir það ekki, skaltu gjöra það, viljirðu eiga samfjelag við Guð; ef þú gjörir það sjaldan, skalt þú gjöra það optsinnis; ef þú gjörir það með hálfvelgju, skaltu gjöra það heitt og hjartanlega. þú skalt biðjast fyrir, þegar löngun hjarta þíns rekur þig til þess, og þjer er yndi og unun að bæninni, en þú skalt og einnig biðja, þegar þjer er það í móti skapi; og þegar það er eins og alls konar

örðugleikar vilji bægja þjer frá Guði þínum, skaltu sigrast á þeim, og leita Guðs í bæninni, því hugsirðu sjaldan til Guðs, og sála þín verði ófús á að snúa sjer til hans, þá er því meiri þörf á, að þú sigrist á óbeit þinni, og snúir huga þínum frá glaumi veraldarinnar, og lyptir honum til Guðs.

Því það er eðli bænarinnar, að hún dregur hugann frá því, sem truflar og glepur; ef hugur þinn er á reiki, meðan þú bærir varirnar, má það engin bæn heita. Hversu heilsusamlegt er það að halda saman huganum! það er ekki hinn ljettúðugi einn saman, er lætur glepja sig, og ekki heimskan ein, sem glepur; því hversu margar og hversu truflandi eru hugmyndir þær, er alvörugefinn og ráðvandur verkamaður verður var, að brotizt hafi gegnum sálu hans, þegar hann á kvöldin lítur fram á liðinn dag! Jafnvel erfiðið sjálft, sem heldur huganum saman í svo mörgu tilliti, í hversu margvísleg atvik skiptist það opt eður optast nær, sem útaf fyrir sig eru lítilfjörleg og truflandi! þessi atvik máttu ekki lítils virða, því án þeirra verður miklu starfi aldrei lokið; aldrei verður neitt steinhús byggt, nema menn leggi dyggilega stein á stein ofan. En öll þessi einstöku atvik snúa huganum í margar áttir, og olla manni dags daglega margra örðugleika og margrar armæðu, sem fær margvíslega á huga vorn. Og vjer lifum innan um aðra menn, heyrum ræður þeirra um mikilvæg og um harla lítilvæg efni, og ágreining þeirra um ótal hluti, og truflar það hugsanir vorar og ályktanir á margan hátt. Og hver dagur hefir sína þjáningu, og hver af oss hefir sína byrði að bera, og sitt hefir hver að kæra; hin umliðna æfin hefir sært oss á margan hátt, og hin ókomna skelfir oss með margvíslegum kvíða, en fögnuður og von sækja einnig hjörtu vor heim. Allt hlýtur og þetta þannig að vera; en hvað ætli yrði úr æfi vorri á endanum, ef vjer ljetum hvers konar áhrif teyma oss viðspyrnulaust. Ef ferðamaðurinn gengi alltaf út í bláinn, og horfði aldrei annað enn niður fyrir sig, ellegar á það sem næst væri, mundi hann skjótt villast; þess vegna nemur hann staðar og litast um, til að vita, hvort hann geti ekki eygt takmark sitt, og sjeð, hvort hann sje á rjettum vegi. Ef húsasmiðurinn hjeldi alltaf á fram að hlaða steini

á stein ofan, kynni veggurinn að hallast, og hann kynni þurfa að rífa niður, það er hann þóttist vera búinn að fullgjöra; þess vegna hættir hann á stundum starfi sínu, og gáir að því, sem hann er búinn með, og ber það saman við hugmynd þá, er hann ætlaði að byggja eptir. Á líkan hátt á og maðurinn að nema staðar, og taka saman huga sinn, svo hann sjái, hvað hann fari og hvað hann gjöri.

En sjerhver hugleiðing er ekki bæn, því það er eðli bænarinnar, að hún snýr huganum til Guðs, um leið og hún dregur hann frá glaumi veraldarinnar; en í því, að snúa huganum til Guðs, er fólgin lækning og friður og styrkleiki sálarinnar. Þegar þú biðst fyrir, lyptir sála þín sjer upp frá glaumi veraldarinnar, frá eymd hennar og armæðu, synd og saurgun, og meðvitundin um hinn eilífa og almáttka og heilaga Guð verður skýr í brjósti þjer. Þá minnist þú ekki Guðs í bæninni á slíkan hátt, sem vjer minnumst fjarlægra hluta, er vjer getum enginn afskipti haft af nema í huganum; heldur finnur þú, meðan þú biðst fyrir, að Guð er nærri þjer, að þú lifir, hrærist og ert í honum. Sá er biðst fyrir af öllu hjarta, mun hann nokkuð ímynda sjer á meðan, að Guð byggi langt fyrir ofan stjörnurnar, og óttast að bæn sín heyrist ekki þangað? Fjarri fer því! Sá sem biðst fyrir veit það og finnur, að eyra er í nánd, sem heyrir bæn hans, að hjarta er í nánd — ef vjer megum svo að orði komast — sem miskunar honum, að til er almáttug hönd, sem ekki sleppir. Þess vegna endurnýjar þú og lífgar, hve nær sem þú biðst fyrir, meðvitund þá í hjarta þínu, að Guð sje hjá þjer, og sjái allt er þú aðhefst, og allt er þú æskir, og muni vernda þig á öllum leyfilegum vegum þínum.

En er þú lyptir huga þínum til Guðs, og trúir því, að hann sje þjer nálægur, og heyri bæn þína: hvað ætlar þú þá að bera fram fyrir hann? Ekki annað enn stunur og kvein, ekki annað enn nýjar og nýjar óskir? Hversu fögur er áminning postulans, þá er hann segir: látið í öllum hlutum óskir yðar koma fyrir Guð í bænum og fyrirbeiðni, ásamt með þakkargjörð (Fil. 4, 6); því vjer eigum ekki síður að þakka enn biðja. Ef börn þín

kæmu að eins til þín, þegar þau hefðu einhvers að biðja, ef þú heyrðir það á orðum þeirra, og sæir það á svip þeirra, að allt hið góða, er þú hefðir auðsýnt þeim, hefði ekki ollað þeim neinnar ánægju, og þau væru óþakklát og heimtufrek, og hefðu gleymt því, er þú hefir veitt þeim, og sæktust einungis eptir því, sem þeim hefði verið neitað um: þá mundir þú ekki hafa mikið gaman af að horfa á þau. Ætli það geti þá verið Föður vorum á himnum til velþóknunar, að sjá oss halda á fram vegferð vorri stynjandi og kveinandi, eins og vjer hefðum ekkert gott þegið, þegar hann lýkur upp sinni örlætishendi, og seður allar lifandi skepnur með blessun sinni, en verður þó einskis þakklætis var hjá hinum lifendu, heldur að eins umkvörtunar og heimtufrekju? „Sála mín! lofa þú Drottin, og gleym ekki velgjörðum hans (Sálm. 103, 2)!“ Guð þarf ekki á voru þakklæti að halda, heldur þurfum vjer að minnast miskunar hans. Því þegar sála vor er full mikillar áhyggju, og snýr sjer til Guðs, og ætlar að fara að telja honum harma sína og kveinstafi, hljómi oss þá fyrir eyrum hin helga áminning, er segir oss að bera fram bænir vorrar með þakklæti, þá er sem hún þröngvi oss til að meta velgjörðir Guðs rjettilega; þá finnum vjer, hversu lítið það situr á þeim, er Guð hefir veitt svo marga líkamlega og andlega blessun, að sýta yfir lífinu, svo sem væri það einungis til byrðarauka. Vjer minnumst þá, hvernig Guð hefir verið með oss um liðna æfi, hversu opt hann hefir ljett á oss byrðinni, hefir hjálpað oss á þeim vegum, er erfiðir voru, hefir látið vantrú vora til skammar verða, en látið hið góða spretta af því, er vjer köllum illt. Og því líflegri sem slíkar hugmyndir verða í huga vorum, með því meira trausti munum vjer biðja.

En á oss þá einungis að vera umhugað um sjálfa oss og vora heill og hamingju, þegar vjer biðjumst fyrir? Ef vjer hugsum um nokkurn annan enn sjálfa oss, og höfum svo mikinn kærleika, að vjer getum fagnað með fagnendum og sýtt með sýtendum, ættum vjer þá ekki að biðja fyrir öðrum í bæn vorri til Guðs? Mjer kemur ekki til hugar, að vjer skyldum reyna til í bænum vorum að telja upp alla þá, sem oss er vel við, og alla þá blessun, er vjer æsktum þeim. Það væri að biðja mörgum orðum,

og mörgum óskýrum hugmyndum, því vort hjarta er of lítið til þess, að vjer gætum safnað því öllu saman, hve nær sem vera ætti. En Guðs hjarta er ekki lítið, hann sjer allt, bæði þá, sem eru oss nálægir, og þá, sem feta um fjarlæga stigu, og vjer þurfum ekki að segja honum, hvað þeim sje nytsamlegt; hann veit, hvers þeir við þurfa, áður enn vjer biðjum hann. En eins og vjer eigum að endurnýja samfjelag vort við Guð í bæninni, eins eigum vjer og að endurnýja samfjelag vort hver við annan; þess vegna á góður faðir og góð móðir að innilykja börnin í bæn sinni, og börnin foreldrana, maðurinn konuna, og konan manninn; og bræður og vinir og allir menn eiga að vera fólgnir í tilfinning vorri, þá er vjer rennum bænaraugum til hans, sem veitir allar góðar gjafir.

„Verið ekki hugsjúkir fyrir neinu, heldur berið allar óskir yðrar fram fyrir Guð í bæn og ákalli!“ Hversu mjög reynir kristin trú að eyða áhyggjum þeim, sem vjer kveljum með sjálfa oss og aðra, og veikjum með hugrekki vort og mátt til að starfa! En það ráð, er hún leggur oss til að eyða áhyggjum þessum, sem eru oss svo eðlilegar, og kvikna svo auðveldlega af tilfinning hins nærveranda og tilhugsun hins ókomna, er að biðjast fyrir. „Berið allar óskir yðrar fram fyrir Guð!“ Hvað sem það er, sem þjer er umhugað um, þá ber þú það fram fyrir Guð í bænum þínum. Verið getur þjer þyki það of lítilfjörlegt til þess að bera það fram fyrir Guð; en ef það í rauninni er þjer svo mikils áríðandi, að það gjörir líf þitt myrkt og armæðusamt, þá reyndu til að innilykja það í bæn þinni; og ef þú finnur þá, að þú hlýtur að fyrirverða þig að biðja Guð um slíkt, ætli þú mættir þá ekki einnig fyrirverða þig að kalla líf þitt erfitt, þó þú hefðir þetta að bera? En um verulegar áhyggjur, segjum vjer ekki, heldur það orð, er oss er gefið til leiðbeiningar og huggunar, og vjer köllum guðsorð eptir uppruna þess: varpið allri áhyggju yðar upp á Guð, því honum er annt um yður (1. Pjet. 5, 7). Ef þú færir veg þinn hrelldur og hryggur, og einhver af höfðingjum jarðarinnar mætti þjer, og spyrði þig hvað að þjer gengi, og þú segðir honum frá raunum þínum, en hann segði þú skyldir varpa

þeirri áhyggju upp á sig, og ekki skipta þjer af því framar: mundir þú eflaust gjöra eins og hann hefði sagt, og verða við það í ljettara skapi. Og það er sem Drottinn himins og jarðar mæti oss á hinni örðugu vegferð vorri, og segi við oss: varpið allri áhyggju yðar upp á mig! Jeg skal líka, Guð minn góður! heyra orð þitt og hlýðnast því. Þegar veröldin ætlar dags daglega að glepja fyrir mjer og trufla mig, skal jeg og dags daglega taka saman huga minn í bæninni, og snúa honum til þín, uppspretta lífsins, eilífi og heilagi Guð! Og þegar veröldin ætlar dags daglega að armæða mig með áhyggjum sínum, skal jeg og dags daglega varpa í bæninni allri minni áhyggju upp á þig, almáttugi, líknsami Guð! Því ef jeg held mjer við þig með sannri og lifandi trú, þá ber þú umhyggju fyrir mjer, og leiðir mig gegnum stríð og frið, nægtir og skort, að sönnu á annan hátt, enn jeg hafði til ætlazt, en viturlega og föðurlega, svo jeg geti orðið hæfur til að taka á móti hinum góðu gjöfum, er þú hefir heitið þeim, er biðja þig um þær. Hugur manna getur breytzt, og þeir gleymt loforðum sínum, en þú heldur loforð þín að eilífu, trúi og sannorði Guð!

---

# 49.

## BÆNIN.

### Önnur hugleiðing.

Það er all-inndælt að sjá ungan mann hefja upp vegferð sína fullan vonar og traust, en þó er sú sjón hvorki sjaldgæf nje yfirtaks merkileg; sá er til bjó mannlegt hjarta, gróðursetti vonina í því, til þess að hún leiddi oss æ fram á leið, frá einu starfi til annars; og hinn ungi veit ekki hvað lífið hefir að færa, og

hefir ekki reynt armæðu og örðugleik, hinir fögru æskudraumar hvarfla enn fyrir huga hans, og reynslan er ekki farin að dreifa þeim. Hitt er fágætara og enn fegra, að heyra þann, sem aldraður er, gjöra Guði þakkir, að von sín hafi rætzt; hann veit og hefir reynt, hvílík að er æfileið mannanna, hann hefir eflaust langað til margs, sem honum hefir ekki veitzt, og margur örðugleiki fyrir hann komið, sá er hann hefir ekki mátt yfir stíga, hann hefir optlega sáð, en ekki upp skorið, en og haft margt fyrir stafni, sem honum hefir ekki auðnazt að framkvæma; og segi hann samt, að vonin láti ekki til skammar verða (Rómv. 5, 5), þá hugga og hressa þau orð ekki að eins sjálfan hann, heldur og þá, sem ungir eru, og heyra mál hans.

Hversu huggunarríkt er það þess vegna að lesa þessi orð Drottins vors í guðspjalli Jóhannesar: „Sannlega, sannlega segi jeg yður, að hvers þjer biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður. Hingað til hafið þjer einskis beðið í mínu nafni; biðjið, og þjer munuð öðlast, svo að yðar fögnuður verði fullkominn“ (Jóh. 16, 23. 24). Postulinn hafði heyrt þessi orð, þegar hann var ungur, en var orðinn gamall, þegar hann letraði þau til vitnisburðar fyrir allar ókomnar aldir; og fyrst hann gjörði það, hlýtur að vera, hann hafi sjálfur fundið þau rætast, og reynt, að þessi orð Drottins, eins og öll önnur, voru já og amen. En hafði þá æfi hans verið miklu sælli enn annara manna? Hann hafði þolað harmkvæli og ofsóknir, eins og aðrir postular Krists; og sá þeirra er fyrstur fjell fyrir sverðs eggjum var Jakob postuli, bróðir Jóhannesar (Post. 13, 3), og þegar Heródes ljet taka Jakob, þá mun að vísu bróðir hans hafa beðið, að honum yrði svipt úr hans grimmu höndum, og sú bæn mátti vel sýnast vera fram flutt í nafni Jesú, honum til dýrðar, og til eflingar ríki hans; þó var hún ekki heyrð, og Jakob var líflátinn saklaus. Jóhannes hefir sjálfsagt beðið optsinnis og í hverri bæn sinni, að orðið fengi viðgang, og þó hefir hann sjálfsagt fyrir hitt mörg dáðlaus og ljettúðug hjörtu, sem ekkert hafði stað í. Hann hafði sjeð falskennendur — óvitra, drambsama og hræsnisfulla játendur trúarinnar, sem afneituðu kristilegum sannindum, og ekki fundu

til kristlegs kærleika — troða sjer inn í söfnuðina; hann hefir sjálfsagt beðið, að kenningum þeirra yrði ekki ágengt, og þó spratt illgresið upp innan um hveitið. En þó hinn eilífa spekin hefði synjað honum margs, er hann girntist, þá hafði hann hins vegar hlotið mikla og dásamlega bænheyrslu, því honum veittist hin heitasta og innilegasta ósk hans, er hann sá ríki Krists hefjast og vaxa og sigrast á sjerhverri mótspyrnu. Athugum, hver að var hin fyrsta bæn, er fyllilega var beðin í Jesú nafni. Postular Krists, er voru sviptir Lávarði sínum, svo að hann var hættur að veita þeim sýnilega hjástoð, beiddu um speki, krapt og lið, til þess að stofna og auka kristilega kyrkju, og verja fyrir ofurefli því, er upp reis í mót henni og skömmu áður hafði deytt Drottin þeirra, en vofði nú yfir sjálfum þeim; þessir hinir fáu og auðvirðilegu menn beiddu styrks í mót allri veröldinni; athugum einnig, hversu dásamlega bæn þessi rættist, er kristin kyrkja hafði þróazt svo á einum mannsaldri, að henni varð ekki kollvarpað, en styrkur Gyðinga trúar var horfinn, og heiðnin að hruni komin: og munum vjer skynja, að þetta var kraptaverk, eins og þó fjallið hefði — eptir því sem Drottinn vor að orði kemst — tekið sig upp að boði þeirra, og fleygt sjer í hafið, og Drottinn vor efndi þar þessi orð: allt, er þjer beiðizt með trúnaðartrausti, mun yður veitt verða (Matth. 21, 21. 22), eður þessi: sannlega segi jeg yður, að hvers þjer biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður.

Þessi fyrirheit voru fyrst gefin postulunum, og með því að þeirra ætlunarverk var langt um meira enn vort, þrætum vjer með engu móti, að þeim hafi verið heitið slíkum gjöfum og liðsinni Andans, að vjer megum ekki vænta oss jafnmikils — þeirra bæn var langt um yfirgripsmeiri, og trú þeirra eflaust miklu staðfastari; en eigum vjer þá að halda, að þessi fyrirheit hafi verið fyrir þá eina? það snertir þó að vísu alla oss, að sá fær er biður; og hitt eins, að allt sem vjer höfumst að í orði eða verki, þá eigum vjer að gjöra það í nafni Drottins Jesú (Kól. 3, 17); og fyrir því er hvorki sú skuldbinding, að biðja í Jesú nafni, nje það fyrirheit, sem henni fylgir, einskorðað við æfi

postulanna. En hvílík er þá sú bæn í Jesú nafni, er slík fyrirheit fylgja?

Enginn af oss mun vilja gjöra sjer í hugarlund, að þegar vjer setjum þetta helga og dýrðlega nafn í niðurlag bænar vorrar, þá hafi það svo undarlegan krapt, að vjer getum ekki annað enn orðið bænheyrðir. Það er betra, að byrja á nafni Drottins vors, enn að enda á því, með því að þú átt ætíð að biðja í hans nafni, og það á að fylla hjarta þitt, og laga bæn þína, svo að hún verðskuldi bænheyrslu.

Því í fyrsta lagi verður nafn Jesú, þegar vjer nefnum það í bæn vorri með guðrækni og lotningu, að hreinsa og helga óskir vorar. Allir vjer berum í hjörtum vorum margar fýsnir og óskir, og í einverunni taka þær að vakna, og eins og heimta allar, að vjer berum þær fram fyrir hinn almáttka í bæn vorri, svo að hann veiti þeim það, sem þær beiðast En eru þær þá allar saman hreinar og Guði þekkar? Til eru óskir, sem búa kunna í hjarta mannsinns, en enginn dirfist að bera fram fyrir Guð, af því samvizkan er óðar búin að áfella þær. En til eru og aðrar óskir, sem eru í sambandi við eitthvað, sem gott er, og virðast því sakir uppruna síns vera ekki að eins óaðfinnanlegar, heldur og háleitar, og sprottnar af hollustu við sannleika og rjettindi, en hafa saurgazt á leið sinni um hin krókóttu leynigöng hjartans, svo þær eiga ekki að þróast, heldur eyðast. Verið getur, þú hafir rjettara að mæla enn mótstöðumenn þínir, og það sje sanngjarnleg bæn, að þitt málefni verði ofan á; en ef þjer liggur við að biðja, að hegning af himni komi yfir þá, er í móti standa, þá er dramb og hatur í hjarta þínu, og bænin á ekki að efla reiðina heldur kúga hana. Einnig eru til efasamar óskir, bæði þegar þú girnist eitthvað, sem þú veizt ekki, að hverju haldi þjer kemur, og þegar þú vilt komast hjá einhverri raun, sem þjer kann að vera heilsusamleg. Enn eru til smásmuglegar óskir, áhrærandi það, sem vjer eigum að láta koma og fara eptir því sem verkast vill, taka það þegar það gefst, sleppa því þegar það vill hverfa, en láta það ekki teygja oss af rjettum vegi. Allar þessar óskir, er svo opt glepja fyrir oss, og svo opt ætla að sundur kremja

hjarta vort — ó! mjer er óhætt að segja, að þær geti ekki nefnt Jesú nafn, því þær eiga ekkert samblendi við hann og hans orð; þess vegna er það svo heilsusamlegt að biðja í nafni hans, því þá verðum vjer að hreinsa óskir vorar, og sleppa því úr, sem er saurugt og illt og ósæmilegt, eða þá efasamt, svo að vjer getum ekki beðið um það með fullu trúartrausti, en taka þær einar óskir í bæn vora, sem þola nafn Jesú.

Vjer eigum að biðja í nafni Jesú. Hversu furðanlegt er það, í neyð vorri og þrengingu, jafnvel þegar önd og líkami titra af dauðans ótta, jafnvel þegar oss er rjettur sá kaleikur, sem vjer höfum viðbjóð á, þá er oss boðið að biðja í nafni hans, er bað í Getsemane, svo segjandi: Faðir minn! ef verða má, þá víki þessi kaleikur frá mjer (Matth. 26, 39), en varð þó ekki bænheyrður af Föðurnum, eptir því sem út leit, heldur hlaut að tæma þenna kaleik til hins síðasta og bitrasta dropa! Með hverju trausti get jeg þá beðið í nafni hans, þegar jeg er staddur í neyð? því ekki er jeg betri enn hann, og vera má, mjer sje ætlað sama og honum, og jeg eigi, þrátt fyrir bæn mína, að tæma þann kaleik, er mig hryllir við, án þess að Jesú nafn frelsi mig frá honum. Já, að vísu! megi það ekki verða, að þessi kaleikur víki frá þjer, það er, sje það ráðsályktun hins almáttka og alvitra, að þú tæmir hann, þá getur ekkert nafn og enginn kraptur á jörðu nje himni frelsað þig frá því; en þá verður hann þjer til blessunar, en ekki til glötunar, hversu beiskur sem hann er. Hver raun sem yfir þjer vofir, þá á hún ekki að sigrast á þjer, heldur átt þú að sigrast á henni; en það getur þú ekki, nema þú biðjir og biðjir í Jesú nafni. Því þegar þú ert staddur í raunum og biður í nafni hans, þá verður þú að biðja eins og hann bað, og bæta við orðum þessum, er oss mönnunum veitir svo örðugt að segja: þó ekki sem jeg vil, heldur sem þú vilt, himneski Faðir! því meðan vjer biðjum ekki á þann hátt og það af hjarta, þá biðjum vjer ekki í Jesú nafni. Oss hættir svo mjög til að halda, bænin sje öll í því fólgin, að biðja og heimta, þar sem þó hitt er höfuðatriði hennar, að afneita — afneita kröfum vorum og þeim hinum áköfu girndum, er svo segja: þetta er heilsusamlegt, þetta á mjer að

veitast, og vilja marka Guði stað og stund, en vilja ekki bíða og þreyja með þolinmæði þangað til Drottinn frelsar. Öllum oss má þó vera kunnugt, að vjer vitum ekki hvers biðja ber (Rómv. 8, 26); og þegar vjer vitum ekki hvers biðja ber, þá eigum vjer ekki að heimta í bæninni, heldur fela sjálfa oss og allt vort, allar óskir vorar, allt yndi vort og allan skort vorn, alla von vora og allan kvíða vorn á Guðs vald gjörsamlega og án afdráttar. Og þegar oss veitir það örðugt, þá kemur Jesú nafn til liðs við oss, og með því minning hans og eptirdæmi, og styrkja sálina í baráttu hennar við sjálfa sig, þangað til hún getur sagt: ekki sem jeg vil heldur sem Guð vill.

En hvað verður nú eptir, þegar vjer höfum hreinsað girndir vorar, reynt að útrýma þeim, sem eru illar og óhreinar, en leggja hinar, sem meinlausar eru, undir vilja forsjónarinnar? Vera kann, þú segir: „bænin á að spretta af þörf hjartans og löngun þess, hún á að biðja einhvers og öðlast eitthvað, og þó heimtið þjer, að vjer afneitum í henni óskum vorum, og leggjum þær undir þann vilja, sem fram verður að ganga, hvort sem vjer biðjum eða ekki; það er og engin bæn, sem einskis biður.“ En hvernig er þessu varið? veiztu þá engar óskir, nema þær einar, sem þú ert efablandinn um, hvort þú eigir að afneita eður ekki? veiztu enga ósk, er þessu þarf ekki við að bæta: ef það er til góðs, ef það er Guðs vilji? hefirðu enga ósk, sem þú finnur að samkvæm er vilja Guðs? Þegar þú biðst fyrir, þá úthýstu smátt og smátt þeim óskum, er spretta af holdlegu hugarfari; feldu og á vald alvitrum Guði allar saklausar, hreinar og leyfilegar óskir, þær eð einungis ná til hinna stopulu jarðnesku gæða, stilltu þær með því að vona á miskunsemi Guðs, og gleymdu meir og meir öllu því, sem einungis tilheyrir þessari veröldu: vittu svo, hvort þú hefir enga ósk eptir. Þegar hið stundlega hverfur, þá vaknar hin sanna, kröptuga, innilega löngun í hjarta hins guðhrædda, og verður að greinilegri hugsun, og stígur upp fyrir hinn eilífa, svo biðjandi: Drottinn! þú ræður öllum hlutum, þú sendir storm og hagstæða veðurátt eptir því sem þjer þóknast; nú er jeg legg út á hið ókyrra lífs haf, dirfist jeg hvorki nje vil biðja þig um

heitt tiltekið; en hvort sem að skip mitt á að líða á fram hóglega í inndælu veðri, eða velkjast í ósjó og brimi, þá láttu ekki stjörnu sannleikanns hverfa mjer, heldur láttu mig sjá hana, svo að jeg geti hagað stefnu minni eptir hennar stöðuga ljósi. En ef jeg líki lífi mínu við vegferð, þá sje jeg ekkert af veginum, nema það sem næst er, hitt liggur í undarlega króka, svo að jeg fæ ekki deilt það; mjer er ókunnugt, hvort að leiðin muni verða greiðari eða torveldari, og um það þori jeg einskis að biðja, heldur fel jeg það Guði á vald; en, ó Guð! þegar leiðin er inndæl, og allt brosir við mjer, þá láttu ekki munað og girnd tæla mig af rjettum vegi. veittu sálu minni stöðugleik, svo að jeg hafi aldrei hugann af stefnunni; en þegar leiðin er torveld og hryggileg, þá ljáðu mjer þann krapt, að jeg æðrist ekki af örðugleikanum, og hnígi ekki undir byrðinni, heldur haldi fram stefnu minni, þangað til jeg kem þar að, er sjálfur þú segir: gakk inn til Herra þíns og hvíl þig! Mjer er óljóst, hvað jeg kann að græða með viðleitni minni, og hvað jeg kann að missa af jarðneskum munum, þegar svo ber undir; en, ó Guð! láttu mig samt fá borgið sálu minni, og haldið óðalsrjetti mínum í ríki þínu. Í hjarta mínu er eitt frækorn, er sjálfur þú hefir í það sáð, og allt líf vort er til þess, að þetta frækorn skuli spretta upp og bera blóm og ávexti; láttu ekki stormana feykja því burt, nje vetrarkuldann nje sumarhitann verða því að grandi, heldur gefðu hagstæða tíð af himni, svo að það spretti upp og blómgist. Líka vex eitt trje í veröldinni, sem þú, Drottinn minn! hefir sjálfur gróðursett börnum mannanna til skjóls og yndis; jeg veit, að kristileg kyrkja á ekki að vera armæðulaus hjer í heimi, heldur á hún að stríða og betrast og eflast í baráttunni við óvini sína, bæði þá sem í henni eru og utan hennar — og hvernig mætti jeg þá biðja þig að veita henni frið og jarðneska sælu? Al þú hana upp, eins og hvern einstakan mann, eptir speki þinni, í stríði og í friði, en láttu hinn himneska sannleika geymast þar óafbakaðan um allar aldir, láttu ætíð nokkra vera eptir, sem ekki lúta neinum falsguði, og ekki skammast sín fyrir Krists fagnaðarboðskap, nje heldur hyggjast að kaupa sig í sátt við þig með neins konar ófrelsi, heldur tigna þig í anda og sann-

leika; og láttu mig ætíð eiga við þá frið og samfjelag, sem ákalla þig af hreinu hjarta! — Um slíka bæn máttu vera þess fullöruggur, að fyrirheitið hljóðar um hana; í slíkri bæn er þjer óhætt að nefna nafn Jesú, og heimfæra til hennar þetta loforð hans: Hvers þjer biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður.

En vjer eigum ekki einungis að geta beðið í nafni Jesú heldur eigum vjer að gjöra það, svo að vjer biðjum í trúnni. Vanti nokkurn yðar vizku, segir Jakob postuli, sá biðji Guð, og mun honum gefast; en hann biðji í trúnni, og efist ekki; því sá, sem er efablandinn, hann er líkur hafsins bylgjum uppæstum og hröktum af vindi; sá maður hugsi ekki, að hann fái nokkuð hjá Drottni (Jak. 1, 5 o. m. vv.). þessi orð ganga aldrei úr gildi: getirðu trúað, skaltu sjá Guðs dýrð (Jóh. 11, 40). En með hverju móti getur hjarta mitt öðlazt þá trú og stöðugu sannfæringu, að Guð veiti mjer það er jeg bið? Kemur hún, ef jeg bið í mínu nafni, treystandi á verðskuldun sjálfs míns? Satt er það að sönnu, að Guð gefur gætur að sjerhverjum af oss, og enginn maður er hulinn fyrir augum hans, nje einskisvirtur af honum, sem elur fuglana í loptinu, og skrýðir blómin á jörðunni, og hefir veitt oss þá tign að vera miklu æðri enn þau. En hvernig yrði reyndar sú bæn að vera, er jeg flytti fram einungis í nafni mín sjálfs? Jeg veit fyrir samvizku minni, að glaumur lífs þessa, munaður og þrengingar þess, ljettúð í æskunni og dramb á fullorðinsárunum, hafa optsinnis látið mig gleyma Guði, stundum fyrir deyfð og stundum fyrir ákafa, ellegar ekki hafa hann í huga til vizku, rjettlætis og huggunar; Guð hefir kallað svo opt, án þess jeg hafi heyrt; get jeg þá vænt, að jafnskjótt sem jeg líti til himins, þá lúkist hann upp fyrir mjer, og Guð láti sem hann viti ekki hirðuleysi mitt og afbrot mín, heldur veiti mjer bæn mína, og hugsa mjer ekki annað enn gott! Víst býr í mjer svo mikil von til guðlegrar miskunar, að enginn kvíði getur nokkurn tíma slökkt hana; en þessi von er svo opt efablandin, og ætlar svo opt að gugna, þegar jeg horfi á forlög þau, sem Guð lætur mönnunum að hendi bera, eður íhuga rjettvísi Guðs og tilverknað minn; og

því er hún engin trú. Nú ef jeg get ekki beðið í nafni mín sjálfs með fullu trúartrausti, í hverju nafni get jeg þá beðið öðru enn því, sem öll knje eiga að beygja sig fyrir? þegar jeg bið í Jesú nafni, þá ber jeg fyrir mig friðþægingu hans; jeg veit, að hann hefir goldið og afplánað skuld þá, er jeg átti að gjalda, en gat ekki goldið, og ætíð mundi hafa bægt mjer frá samfjelagi við Guð; jeg finn, að vjer höfum fyrir hann djörfung og aðgang með trausti fyrir trúna á hann (Ef. 3, 12). þegar jeg bið í Jesú nafni, þá renna upp í hjarta mínu þessi kristilegu huggunarorð: Guð, sem ekki þyrmdi Syni sínum, heldur gaf hann út fyrir oss alla — mundi hann ekki einnig gefa oss allt með honum (Rómv. 8, 32)?

Hinn sami postuli, er færði í letur þessi orð Drottins vors „hvers þjer biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður,“ segir svo á öðrum stað: þetta hefi jeg skrifað, svo að þjer trúið á nafn Guðssonar. Og þetta er sú djörfung, sem vjer höfum til hans, að ef vjer biðjum nokkurs eptir hans vilja, þá heyrir hann oss (1. Jóh. 5, 13. 14). Látum oss því — segir annar postuli — ganga með djörfung fram fyrir stól náðarinnar, að vjer öðlumst miskun, og finnum náð til hjálpar oss, nær oss á liggur (Hebr. 4, 16).

---

# 50.

## BÆNIN.

### þriðja hugleiðing.

Orðið bænheyrsla er fagurt orð og huggunarfullt. það sýnir, að einhver hafi verið í vanda og bágindum staddur, og ekki getað ráðið úr þeim, nje hjálpað sjer sjálfur, og hafi því leitað

annara, og hitt fyrir eyra, sem heyrði, hjarta, sem komst við, munn, sem svaraði, og hönd, sem gaf. þegar sá, er biður, verður bænheyrður af mönnum, gleðst hann ekki að eins af gjöfinni, heldur opt og tíðum enn þá meir af ást þeirri og trúfesti, er kom þeim til að hlýða á bæn hans og veita hana. En optsinnis hefir sá, sem bágt á, það böl að bera, er hann hvorki má nje vill segja öðrum, hann vill ekki mæða nje hryggja aðra með því, eða þeir skilja hann ekki, eða geta ekki hjálpað honum, eða hann finnur ekkert eyra, sem heyra vill. Hvert leitar hann þá í eymd sinni og bágindum? þú mannlegt auga, sem ekki snýr til jarðarinnar, nje heldur horfir ætíð niður á hana! þú mannlegt hjarta, sem alltaf þráir eitthvað, er veröldin getur ekki veitt! hvert leitið þið, þegar mennirnir vilja ekki heyra, eða megna ekki að hjálpa? Ó! vjer vitum þó allir, hvað það er, að leita hins æðra, sem er uppi yfir oss, en undir eins umhverfis oss, alstaðar og harla nærri: að leita þess á himnum, sem jörðin megnar ekki og vill ekki veita, það er með rjettu nafni, að biðja Guð, Föður vorn á himnum. Bænin er manninum svo eðlileg, að hann verður lengi að stríða við hana, og lengi að streitast við að kefja niður og aflaga hinar öndverðlegu tilfinningar, eigi hann að geta útrýmt henni úr hjarta sínu. Og þó geta öll brögð og allar þurrar ástæður ekki komið nema einstöku mönnum til að sleppa bæninni; vera má, að hinir flestu biðji sjaldan og með hálfvelgju, en þeir áskilja sjer þó í huga sínum nokkurs konar rjett til að biðja, og gjöra það líka, þegar raunir og bágindi vekja þá af andvaraleysinu: meðan himininn er yfir jörðinni, munu líka mennirnir hefja þangað bænaraugu sín upp frá bágindum veraldarinnar.

En þegar vjer segjum í fullri alvöru, að mennirnir eigi rjett á og sjeu skyldir til að biðja, eru þeir menn til, sem vilja sanna það af reynslu sinni, að það sje til einskis; þeir nefna til eitthvert mótlæti sitt, þá er þeir hafi leitað Guðs, en ekki fundið hann, því hann hafi ekki lagt líknareyru við bæn þeirra, og ekki afstýrt því, nje veitt það, er þeir báðu um. þá er vjer heyrum kvartað um slíkt, verður oss opt til hugar að koma, að postulinn hefir ekki einungis sagt: þjer öðlizt ekki, af því þjer biðjið ekki; heldur

og: þjer biðjið og öðlizt ekki, af því þjer biðjið illa, til þess þjer getið sóað því í býlífi (Jak. 4, 2. 3). Postulinn hefir sjálfsagt ekki að eins þá í huga, sem vanbrúka allt, er Guð gefur þeim, viðbjóðslegum löstum, heldur og þá, er hugsa ekki um annað enn jarðneska hluti, og þekkja ekki aðra bænheyrslu enn þá, sem afstýrir jarðneskri eymd, og veitir jarðnesk gæði. Mörg sannarlega guðrækileg bæn hefir leitað Guðs, en þó ekki veitt þeim, er bað, hina jarðnesku hjálp eða fróun, er hann vildi fá; hinni eilífu spekinni þótti betur haga að neita enn veita, og sá, er bað, hlaut að bera þá byrði, er honum var svo þungbær; en hefir hinn guðhræddi fyrir það nokkurn tíma sagt, að bænin væri árangurslaus? hefir hann fyrir það hætt að biðja? Aptur eru aðrir, sem segja bænin eigi einungis að vera til þess að lypta huganum til hins hæsta, en eigi ekki að bera óskir fram fyrir veldisstól hins eilífa; því Guð veit, segja þeir, hvers vjer við þurfum, þó vjer biðjum ekki um það, og það er heimskuleg ofdirfska að halda, vjer getum komið Guði til að breyta því, er hann hefir ákvarðað í sínum eilífu ráðsályktunum, og laga speki sína eptir vorum fávísu óskum. En hvað verður úr bæninni, ef ekki má biðja? Ef það er allt óbreytanlega ákvarðað, sem fram við mig á að koma, þá get jeg ekki litið til himna til annars, enn til að bíða eptir því, hvernig hin óumflýjanlegu forlög muni dynja yfir, en ekki vegna þess jeg vænti að fyrir hitta þar líknsaman Guð, sem muni hlusta miskunsamlega á bæn mína.

Snúi jeg mjer frá allri þessari þurru speki til orða Drottins míns og Frelsara, öðlast jeg þá huggun, sem miklu er betri; hann eyðir með guðlegu valdi sínu efasemdum þeim, er vantrúin vill bægja mjer með frá Guði mínum og Föður, því hann hefir sagt: hvað sem veröldin og efasemdir bjartna yðvarra kunna að segja, þá segi jeg yður: ef þjer biðjið, mun yður veitast, því hver sem biður, hann mun öðlast; Jesús hefir tengt fyrirheit þetta við hinar viðkvæmustu og heitustu tilfinningar í mannlegu hjarta: Hver yðar, segir hann, byrgir eyru sín fyrir bæn barns síns? eða hver jarðneskur faðir mundi svíkja barn sitt með skaðsamlegum falsgjöfum, þegar það vonast eptir góðum gjöfum? Hversu miklu fremur

mun þá ekki yðar himneskur Faðir gefa þeim góða hluti, sem biðja hann þess (Matth. 7, 7). Ef vjer eigum að geta lært að þekkja guðlega veru, þá verðum vjer að líta hana á nokkurn hátt í hugskoti sjálfra vór, í tilfinningum þeim og fýsnum, er Guð gaf oss í öndverðu, því Guð skapaði manninn eptir sinni mynd. Og sá, snm gróðursetti miskunsemina í hjarta voru, og gaf oss eyru, til að heyra hina auðmjúku og traustfullu rödd bænarinnar, og hjörtu, sem knýja hendina til að gefa, mundi hann ekki heyra sjálfur og auðsýna miskunsemi? Eins og faðirinn miskunar barni sínu, eins miskunar og Drottinn þeim, er hann óttast (Sálm. 103, 13).

Maðurinn á sjer tvo óvini og heita þeir synd og mæða; þeir eru náskildir, og fylgjast tíðum að, en opt koma þeir þó hvor í sínu lagi; ef vjer eigum að geta sigrazt á þeim, verðum vjer að innræta oss áminning Drottins, og breyta eptir henni; vakið og biðjið, segir hann, svo að þjer fallið ekki í freistni (Matth. 26, 41). Freistingarnar eru margháttaðar; ástríður vorar, löngun og viðbjóður, velvild og reiði ætla stundum að hrífa oss með sjer; ótti fyrir mönnum, armæða og bágindi ætla stundum að ógna oss eður tæla oss til að yfirgefa hinn beina veg ráðvendninnar; stundum getum vjer tekið ýmisleg ráð, en vera má að eitt þeirra sje rangt, ekki að eins óviturlegt, heldur og órjettvíst, og leiði til villu og syndar. Hversu opt er ekki hjarta vort reikandi og efablandið, jafnvel þegar vjer höfum sem beztar gætur á sjálfum oss! Og hvað getum vjer þá gjört betra í efa þessum og baráttu, enn lypta huga vorum til Guðs í bæninni, og hafa hann í ráðum með oss? Þegar vjer biðjumst fyrir, minnumst vjer þess ekki að eins, heldur finnum vjer það, og erum oss þess meðvitandi fyrir samvizku vorri, að Guð er oss nálægur, og sjer allt sem vjer aðhöfumst; að ekki er sá glaumur til um daga, að Guð verði vor ekki var, nje þau fylgsni um nætur, að þau geti skýlt oss fyrir honum; og ætti ekki sú hugsun að veita oss styrk í freistingunum, og hvetja oss til að leitast við að geyma allt eðli vort óflekkað fyrir augliti hans? Þegar vjer biðjumst fyrir, minnumst vjer þess, að Guð sjer hvað vjer kjósum og áformum, og hvernig mætti það

vera, að slík hugsun stuðlaði ekkert til, að vjer kysum hið rjetta, og áform vor yrðu svo hrein og vönduð að Guði líkaði þau? Þó er oss engan veginn svo nytsamlegt að biðjast fyrir í armæðu og freistingum, einungis vegna hugsana þeirra, sem spretta upp í sálunni, þegar vjer biðjum, heldur — og það sjer í lagi — vegna þess vjer öðlumst þá guðlega aðstoð vegna bænarinnar, sem vjer fáum ekki án hennar. Að sönnu er hinn miskunsami Guð ætíð búinn til að gefa oss allar góðar gjafir, en hann lætur þær vera komnar undir bæn vorri, vegna þess vjer verðum að eins hæfir til að fá það, sem vjer biðjum um, vegna bænarinnar, vegna auðmýktar þeirrar og trúnaðartraustts, sem bænin kveikir og elur. Ef nokkur fer ekki eptir öðru í freistingunum enn hjarta sjálfs sín, og hirðir ekki um að grennslast eptir hvað rjett sje, og lítur ekki upp til ljóss þess, er gæti leiðbeint honum, þá sviptir Guð hann hjálp sinni, og ofurselur hann girndum hjarta síns (Róm. 1, 24), og lætur hann upp skera hina römmu ávexti, er hann hefir sáð til. Ef nokkur treystir á sjálfan sig, og heldur hann sje fremri öðrum dauðlegum mönnum, og það sjeu að eins önnur duptsins börn, sem rati í freistingar af þrekleysi og ónytjungskap, en að hans sál sje sterk af rammleik sjálfrar sín, svo að hvorki mein nje munaður geti raskað ásetningi hans: þá mun dramb hans lækka, því sá er háskanum næstur, sem óhultastur er um sig; andi Guðs umflýr hinn drambsama, og hann verður að læra að þekkja vanmátt sinn, ef hann á að fá frelsi. En ímyndum oss, að einhver fari í baráttu sálar sinnar inn í svefnhús sitt, og loki að sjer, og tali við Föður sinn himneskan, sem sjer það sem í leyni er, og segi af gnægð hreinskilinnar sálar: það er jeg bið nú um, eru ekki efanleg gæði, það eru ekki jarðneskar gáfur, er jeg kynni að vanbrúka, nje heldur lausn frá bágindum, sem kynnu að vera nauðsynleg mjer til lagfæringar; verði vilji þinn á mjer í öllu slíku! heldur bið jeg um hin sönnu óefanlegu gæði; jeg veit, hversu hægt er að draga mig á tálar, og hversu gjarnt hugsunum mínum og girndum er á að villast, jeg veit að jeg hefi opt álitið það rjett og satt, þegar geðshræringarnar hafa æst mig, sem jeg hefi á eptir sjeð að var

villa, og sótzt eptir því, er jeg seinna hefi iðrazt eptir; tala því, Drottinn! þjónn þinn heyrir (1. Sam. 3, 9), veit sálu minni ljós, svo jeg megi þekkja hið rjetta, veit vilja mínum styrk og stöðugleik, svo jeg megi vilja það og framkvæma, og hvað sem þú annars eptir speki þinni vilt veita mjer eður taka frá mjer, þá skapa, Guð minn góður! í mjer hreint hjarta, og gef mjer nýjan styrkvan anda, kasta mjer ekki burt frá augliti þínu, og tak ekki þinn heilagan Anda í frá mjer (Sálm. 51, 13. 14)! Ef nokkur biður á þessa leið í fullri alvöru hjarta síns, þá er bæn hans full auðmýktar og trúnaðartrausts, og sú bæn heyrist eflaust í himna Guðs, og á von á bænheyrslu hans. Þá kviknar ljós í efasamri sálu vorri, er vjer getum aðgreint við rjett frá röngu, og í djúpi samvizku vorrar sprettur upp heilög sannfæring, er leiðir hina löngu baráttu til lykta, og lætur oss finna, hvað Guð vilji vjer gjörum. Á slíkan hátt frelsast maðurinn frá synd og fásinnu vegna bænarinnar.

Hver faðir byrgir eyru sín fyrir auðmjúkri og öruggri bæn barns síns? Hver faðir mundi gefa barni sínu ónytsamlega eða þá skaðsamlega hluti í stað góðra og gagnlegra, þegar það biður um að borða? Og ef vjer kunnum að gefa börnum vorum góðar gjafir, mundi þá ekki hinn himneski Faðir gefa þeim góðar gjafir, er biðja um þær? Á þessum stað talar Drottinn vor um alls konar góðar gjafir, en á öðrum stað nefnir hann sjer í lagi þá gjöf, sem bezt er af öllum gjöfum; „hvað miklu framar, segir hann, mun Faðir yðar á himnum gefa þeim heilagan Anda, er þess beiðast“ (Lúk. 11, 13)! Og ef nokkur bæði Guð um ljós og aðstoð Anda hans, í stað alls þess, sem æskilegt er á jörðunni, og fremur öllum líkamlegum og andlegum gáfum, mundi Guð synja honum slíkrar bænar? eður mundi Guð senda honum anda lyginnar og villunnar, í stað anda sannleikans og spekinnar, er hann bað um? Ekki verður því í móti mælt, að sumir menn biðjist fyrir — því þeir kveðja nógu marga votta til þess, og vilja fegnir menn haldi þeir biðjist fyrir — og þó megum vjer ekki og viljum ekki segja, að það sje andi Guðs, sem býr í þeim og leiðir þá. Það verður að vera, þeir biðji ekki eins og vera ber, þeir halda þeir

sjeu gæddir því, sem þeir eiga eptir að biðja um, þeir halda, að andi sinn sje helgur Andi, þeir biðja Guð ekki um ljós og leiðbeining, heldur að hann efli hjá þeim hugsanir sjálfra þeirra, og það er þeir vilja af sjálfum sjer; þeir biðja með drambsemi en ekki með hógværð, og öðlast ekki, af því þeir biðja illa. Heilagur Andi, sá sem rjett kennir, flýr frá falsþjenurum, og víkur frá hinum heimsku (Spek. 2, 5), eðli hans er ólíkt því, er menn optsinnis fyrir fram ímynda sjer, og hjarta mannsins verður ekki hæfilegur bústaður handa heilögum Anda, fyrr enn eptir langa tilsögn og baráttu og sjálfsafneitun, og margar hörmungar.

Um fram allt megum vjer og eigum að biðja um andlegar gáfur, en vjer megum og eigum einnig að biðja um stundleg gæði; hver mundi vilja banna hinum þjáða og hinum nauðstadda að flýja til Guðs í bæninni? Sje hjarta þitt hryggt og óttaslegið, skaltu snúa þjer til Föður þíns á himnum, því að miskun hans er jafnmikil og hátign hans. Þegar þú biðst fyrir, minnist þú þess og finnur það innst í meðvitund þinni, að þú ert ekki yfirgefinn nje einmana, að til er almáttugur Guð yfir þjer og hjá þjer, að þú ert ekki háður blindri tilviljun nje mannlegum geðþótta; enginn getur snert eitt hár á höfði þínu, og enginn hefir vald yfir þjer, nema honum sje gefið það ofan að (Jóh. 19, 11). Og hinn almáttki stjórnari forlaga þinna er þar á ofan alvitur, og veit miklu betur enn þú, hvað þjer sje til sannra heilla; hann er rjettlátur, það, er þú hefir falið honum á hendur, mun hann varðveita, og það, er þú hefir sáð, mun hann á sínum tíma láta þig upp skera, og agi hann þig, er hann líka algóður og miskunsamur, og mun ekki synja hinum iðrunarfulla bænar hans. Þessar hugleiðingar veita sálunni djörfung og huggun og von; en hjer skulum vjer í annan stað engan veginn gjöra oss í hugarlund, að ávextir bænarinnar sjeu ekki fólgnir í öðru enn hugrenningum þeim, er hún kveikir, vjer eigum sannarlega að trúa því, að oss verdi veitt það, sem oss er haganlegt, vegna þess vjer biðjum, og að vjer mundum ekki öðlast það, ef vjer vildum ekki biðja. Því forlög vor eru ekki ákveðin af handa hófi, heldur eptir því, sem vjer eigum skilið, og vjer verðum hæfir til að öðlast þau

gæði, sem vjer biðjum um, fyrir bænina, þegar vjer áköllum Guð með auðmýkt og trúnaðartrausti. Ef mennirnir reiða sig á veröldina eða sjálfa sig, á auðæfi eða hylli manna, heilsu eða afl, slægð eða vitsmuni, eða þeir vilja ekki trúa því, að það sje til Guð, sem vilji og megi hjálpa þeim, sem á hann treysta, þá tekur Guð optsinnis frá þeim hnoss þeirra, hinn veika stafinn, er þeir studdust við, og synjar þeim hjálpar sinnar og aðstoðar á tíma bágindanna, svo þeir fái lært, að maðurinn er ekki annað enn eintómur hjegómi, hversu öruggur sem hann þykist vera (Sálm. 39, 6), svo þeir leiti Guðs, og finni hann, ef þeir leita hans af öllu hjarta (Jer. 29, 13). En þegar einhver leitar Guðs á þessa leið, og heimtar ekki, að Guð hafi sömu áform og sömu ráð og sjálfur hann, heldur ákallar Guð auðmjúklega, og biður hann taka burtu kaleik þann, sem hann er svo ófús á að drekka, þá hefir Guð optsinnis tekið hinn ramma kaleik burt, og afstýrt hættunni, og snúið hinu illa til góðs, og látið í tje hina miklu nægð blessunar sinnar, af því maðurinn bað, en það hefði ekki orðið, hefði hann ekki beðið.

Bæn hins rjettláta megnar mikið, þegar hún er einlæg, segir einn af postulunum (Jak. 5, 16): en hann segir ekki, hún megni allt, og getur ekki heldur sagt það. Þeir sem hafa óttast Guð, og orðið rjettlættir fyrir honum, hafa optsinnis beðið í stundlegum háska og bágindum, og þó hefir engin bænheyrsla verið sjáanleg í stundlegum efnum, þeir hafa orðið að drekka þann kaleik, er þeir kviðu fyrir, eins og Drottinn þeirra og Frelsari varð að gjöra á undan þeim. Og hver ætli haldi, að maðurinn gæti beðið svo í stundlegum efnum, að það væri ætíð nytsamlegt, að ósk hans rættist? Því fer svo fjarri, að bænin er í þessum efnum einmitt undirgefni undir vilja hins eilífa: þó ekki sem jeg vil, himneski Faðir! heldur sem þú vilt. En þó svo beri opt við, að bænin fái ekki slíka bænheyrslu, er hún árangurslaus fyrir það, eða lyptir hún sjer til einskis upp til himna? Postulinn hefir kristilega reynslu fyrir sjer, þegar hann segir: verið ekki hugsjúkir, heldur látið í öllum blutum óskir yðar koma fyrir Guð í bæn og ákalli, ásamt með þakkargjörð; þá mun friður Guðs, sem æðri er

öllum skilningi, halda hjörtum yðrum stöðuglega við Jesúm Krist (Fil. 4, 6. 7). Slíka bænheyrslu muntu ætíð öðlast, og er hún hin fegursta; því þegar þú hefir falið þig og öll þín efni öldungis fortakslaust á Guðs vald, og borið upp fyrir honum vandkvæði þín, en endurnýjað loforð þitt, að hvað sem Guð ætlar þjer, skulir þú leitast við að fullnægja skyldu þinni og bera forlög þín, og biður Guð þess utan ekki um annað, enn að gefa þjer krapta til þess, og að gefa þjer stöðugleik og þolinmæði og trú og von: þá sprettur upp friður í hjarta þínu — postulinn segir, að sá friður sje æðri öllum skilningi, enginn getur skýrt þeim frá honum, sem ekki hefir reynt hann, og hann er æðri enn allt hvað heiti hefir; postulinn kallar hann „guðlegan frið“, því hann er ekki sprottinn af holdi og blóði, heimurinn veitir hann ekki, heldur kemur hann frá himnum, eins og allar aðrar góðar og fullkomnar gjafir, og hver sem hefir reynt hann, hefir fundið, að hann hefir öðlazt fyrir hann óðal á himnum. Þessi friður flýr stundum frá farsælustu stundum lífsins, ekki að eins fra glisi og glaumi veraldarinnar, heldur og frá því kyrrlífi, sem ekkert líkamlegt andstreymi mæðir á; aptur kemur hann stundum til mannsins í armæðu og bágindum; Guð heyrir bæn hins þjáða, sem guðhræddur er, og sendir frið sinn í hjarta hans, og gjörir hann auðugan af trú og von, meðan veröldin kallar hann auman og fátækan. Og hefir hann þá enga bænheyrslu fengið, þó hann megi bera kross sinn eins og hinn, sem ekki biður Guð?

Hver sem biður, hann mun öðlast. En megum vjer taka þetta fyrirheit svo, að manninum sje heitið, að undir eins og hann biðst fyrir í freistingunum, verði hann hreinn og heilagur, og undir eins og hann biðst fyrir í bágindunum, staðfestist friður Guðs í hjarta hans? Ó! reynslan kennir allt annað; eins og aldan rís og fellur aptur, eins lyptir hugurinn sjer til hins háleita, ágæta og eilífa, og fellur svo aptur máttvana niður. Baráttan við synd og armæðu hefst að nýju hvern dag, og ætti sálin þá ekki hvern dag að hertygjast bæninni í móti þeim? Hversu mjög fá ekki þau orð á hinn íhugunarsama, er svo hljóða: „hann sagði þeim dæmisögu upp á það, að menn eigá stöðugt að biðja og ekki þreytast“

(Lúk. 18, 1). Já! aldrei þreytast, aldrei vantreysta, heldur halda á fram í bæninni, hafa ekki orðafjölda, heldur biðja sífelldlega, æ hjartanlegar, þangað til bænheyrslan kemur. Það eru til illar tilhneigingar, sem vakna alltaf aptur, sem verða svæfðar, en aldrei deyddar, það eru til hörmungar, sem dynja yfir æ að nýju, og andstreymi, sem hvern dag verður fyrir; fyrir því skaltu alltaf biðja, dag eptir dag, ár eptir ár; hverri bæn fylgir sín bænheyrsla, og stöðugleiki í bæninni leiðir æ nær og nær takmarki sínu. Þess vegna hefir guðspjallamaðurinn ritað frásöguna um konuna, sem kallaði eptir Jesú, og sagði: miskuna mjer, herra! en hann svaraði henni engu orði. Hún fjell til fóta honum, og sagði: hjálpa þú mjer, herra! en hann svaraði henni á þá leið, að það leit út, sem hann neitaði henni og vísaði henni frá sjer. En hún hjelt á fram að biðja með auðmýkt og trúnaðartrausti, og fjekk því loksins bænheyrslu: „mikil er trú þín, kona! verði þjer sem þú vilt" (Matth. 15, 22 o. nn. vv.)! Allt að einu lítur það út stundum, þegar vjer biðjum, sem himininn sje byrgður fyrir oss, og engin rödd svari oss þaðan; stundum er það eins og vjer finnum í hjarta voru, að oss sje vísað burt, og vjer gjörðir rækir, af því vjer sjeum ekki maklegir bænheyrslunnar; en þegar vjer sigrumst á trúarleysi voru og vantrausti á Guði, en höldum á fram að biðja, opnast himnarnir, og huggunarfull reynsla kennir oss, að sá sem biður, hann öðlast, og sá sem leitar, hann finnur.

---

# 51.

## DROTTINLEG BÆN.

Hversu heilsusamlegt og hversu inndælt er að úthella hjarta sínu fyrir Guði í bæninni, og láta allar óskir sínar koma fram fyrir Guð með þakkargjörð og tilbeiðslu! það er svo margt, sem oss er um annt; látum oss tala um það við Guð í bænum vorum. En þegar vjer gjörum það, hættir oss of mjög til, að láta sorgir og áhyggjur vorar glepja fyrir oss, og hafa hugann á einhverju einstöku, en gleyma því, sem miklu er meira og æðra, og vjer ættum einkanlega um að biðja; bæn vorri er svo mjög hætt við að snúast upp í kveinstafi og umkvörtun, þar sem hún ætti að vera full af elsku, auðmýkt og trúartrausti. Og með því vjer vitum ekki opt og einatt, hvað vjer skulum um biðja, svo sem ber, þá er oss ekki vanþörf á, að aðrir kenni oss að biðja, sem kunna það betur enn vjer. þeir hafa verið margir í veröldinni, sem vel og rjettilega hafa beðið, og sumir þeirra hafa síðan fært í letur það, sem þeir voru vanir að tala við Guð á einverustundum sínum, í gleði og hryggð, þegar þeir báðu fyrir sjer eður öðrum. Einn af þeim var Davíð konungur. Hversu margt hafði hann reynt: hann hafði átt góða daga og vonda, þegið af Guði sigur og sæmd, en hins vegar orðið að flýja fyrir óvinum sínum, og fyrir þeim manni, sem hann hafði viljað vel, fyrir syni sínum, hann hafði opt verið í mikilli hættu, hann hafði ekki að eins orðið að kvarta undan öðrum, heldur höfðu sárindi iðrunarinnar kramið hjarta hans. Og með því hann óttaðist og elskaði Guð, og trúði á hann, snjerist gleði hans ætíð í þakkargjörð og sorg hans í bæn, og enn í dag endurhljómar í sálmum hans það, sem hann hefir talað við Guð í hinum margbreyttu kringumstæðum sinna löngu lífdaga; og hver reyndur maður, sem les þá með eptirtekt, mun finna hjarta sitt hitna af lestri þeirra. Á líkan hátt hljóma enn í eyrum oss hjartnæmar raddir margra annara guðhræddra manna, og tendra í hjörtum vorum þær bænarfórnir, sem Guði eru þóknanlegar. En

af öllum bænum þeim, er til eru, þá er ein miklu dýrmætust, og sú bæn er oss einkanlega boðin. Því eitt sinn, er Jesús var á bæn sinni einhverstaðar, sagði einn af lærisveinum hans við hann: Herra! kenn þú oss að biðja, eins og Jóhannes kenndi sínum lærisveinum. Þá sagði hann við þá: Þegar þjer gjörið bæn yðar, þá segið: Faðir vor, þú, sem ert á himnum! og svo framvegis, það er vjer köllum drottinlega bæn (Lúk. 11, 1 o. nn. vv.). Áður fyrr um bað hver kristinn maður daglega slíkum orðum, og þótti sjer ekki geta verið rótt, nema hann endaði daginn með því að nefna það amen, er endar drottinlega bæn, og honum veitti þá huggun, að bæn hans væri heyrð. Að sönnu fylgdi þessu vanbrúkun á stundum — þess viljum vjer ekki þræta, og með engu móti til hennar aptur hverfa; það var ekki gott, að menn vanhelguðu þessi hin helgu orð, með því að hafa þau um hönd svo opt og svo hugsunarlaust, og að menn hjeldu þau hafa svo undarlega náttúru, að ekki þyrfti nema hafa þau yfir til að afstýra illu, og afla sjer góðs, þar sem þó orðin sjálf stoða alls ekki, nema því að eins, að meiningin sje ljós í huganum og efnið vakandi í hjartanu. En nú fer og ekki vel, er bæn Drottins vors verður ekki talin með því, sem menn vita fyrir víst, að hverjum kristnum manni sje tamt allt í frá barnæsku, og þeir kunna að vera margir, þó kristnir kallist, sem aldrei hafa lesið þessa bæn út með alúð og guðhræðslu. Og þó er þessi bæn löguð sem bezt má verða, bæði til að glæða og túlka guðrækilega löngun í hjartanu, í henni er ekkert, nema það sem oss er óhætt að biðja um í Jesú nafni, þar er engu ofaukið og einskis vant, hún á við alla menn, um allar aldir, hryggva og óhryggva, hún er bezt upphaf á morgnana, þegar dagsbirtan vekur oss til vinnu, og beztur endir á kvöldin, þegar vjer felum oss Guði á vald, áður enn vjer leggjum oss til hvíldar. Þessi bæn kennir oss, og þrýstir oss til að hugsa um aðra menn, eins og um sjálfa oss, vjer berum þar fram fyrir Guð þeirra heill og hamingju, þeirra neyð og þörf, þeirra sekt, þeirra freisting og hættu, undir eins og sjálfra vor, svo að alstaðar í kristninni sje hin sama fórn bænarinnar, sú er helgi líferni mannanna, og leiði Guðs blessun yfir jörðina.

þegar jeg hefi um hönd bæn þá, er Drottinn minn og Frelsari hefir kennt mjer, þá lypti jeg augum mínum, röddu minni og hjarta mínu til himins, og segi: Faðir vor! Hver er sá, er jeg dirfist að kalla svo? það er hinn sæli og alvoldugi Konungur konunganna og Drottinn drottnanna, hann, sem einn hefir ódauðleikann, og býr í því ljósi, sem enginn fær að komizt. Jeg, sem er dupt og aska — jeg dirfist að ávarpa Drottin himins og jarðar; en hverju nafni á jeg að nefna hann? Jeg gæti kallað hann Herra og Dómara, heilagan og rjettlátan Guð; og þeim nöfnum skal jeg optlega kalla hann, þegar jeg íhuga eðli hans; og margsinnis, er jeg sje dóma hans ganga yfir jörðina, liggur mjer við að segja: hræðilegi Guð! Hefði jeg því enga tilsögn í bæninni, kynni jeg að efast um, hvort jeg skyldi helzt hafa af öllum nöfnum þeim, sem merkja afskipti Guðs af veröldinni og mjer. En nú efast jeg ekki, því jeg hefi ekki tekið upp hjá sjálfum mjer hvorki nafnið sjálft, nje djörfungina til að nefna það, heldur er það Guðs boðorð til vor fyrir munn hins eingetna, er hann sjálfur vísaði oss á til að heyra hann: þegar þjer biðjið, segir hann, þá biðjið á þessa leið: Faðir vor! Já, þú almáttki Guð! þó jeg væri jafnvel auðvirðilegastur allra manna, þó jeg væri glataður og útskúfaður á jörðunni, þó jeg hefði enga aðstoð neinstaðar í veröldinni, og ekki einn vin í öllum heimi, þó að samvizka mín ásakaði mig, og segði mig ekki vera þess verðan, þó jeg yrði að viðurkenna — eins og jeg líka verð — að jeg hafi syndgazt í himininn og fyrir þjer: þá mundi jeg samt sem áður kalla upp til þín úr djúpi eymdarinnar, og segja, í Jesú nafni, eins og þú hefir boðið: Faðir minn! nei, ekki að eins Faðir minn, heldur og Faðir vor, Faðir allra manna, þeirra, sem í höllunum búa, og þeirra, sem í hreysunum búa, ungra og gamalla, sælla og hryggra, og Faðir allra þeirra, sem mjer er mest umhugað, rjettur Faðir barna minna, og allra, sem jeg ann, bæði þeirra, sem nálægir eru, og hinna, sem fjarstaddir eru, þeirra, sem enn eru á lífi, og þeirra, sem í gröfunum rotna, því þú ert ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu (Matth. 22, 32): Faðir allra þjóða og allra kynkvísla á hinni víðlendu jörð. —

Faðir vor, þú sem ert á himnum! Hvað þýða þessi orð?

Hvort býr hinn eilífi Faðir fyrir ofan stjörnur himinsins, svo jeg þurfi að óttast, að rödd mín muni ekki komast til eyrna hans? og jeg geti ekki hugsað til að nálægjast hann, fyrr enn andi minn losnar úr líkamans fjötrum og flýgur sjálfur til himna? Fjarri fer því! hann er sannlega ekki fjarlægur neinum af oss, því í honum lifum, hrærumst og erum vjer (Post. 17, 27. 28). Heldur er himininn hvar sem hann er, og því er orðunum við bætt, til þess að vjer vitum, finnum og trúum, að hið himneska sje oss nálægt. Það er til æðri og óæðri heimur: í hinum óæðra heimi lifir vor holdlegi partur, og brjóst vort kennir af honum byrði og þunga; en í hinum æðra heimi er frelsi, friður og sæla, og hann er oss alstaðar nálægur; þangað á sála þín að leita, þú átt að nálægjast hið himneska, þú átt að nálægjast hann, sem býr í hinum eilífa friði — það getur þú á hverri stundu — en svo hið himneska opinberist og sendi geisla sína gegnum hið jarðneska, þá byrjaðu bæn þína á þenna hátt:

Helgist Guðs nafn! þetta atriði drottinlegrar bænar er almennt eins og öll hin; það biður þess, að Guðs nafn verði hvarvetna tignað um hina víðu veröld með sífelldri framför í hreinleika þekkingar, tilfinningar og vilja. En látum oss hjer ekki byrja á því að biðja fyrir öðrum, hvorki fyrir fjarlægum þjóðum, er sitja enn í myrkri dauðans, nje fyrir hinum fáráðu, sem nær oss eru, eins og vjer værum þegar komnir það, sem vjer eigum að komast, og ættum ekkert annað ógjört, enn að óska öðrum þess, er sjálfir vjer værum búnir að öðlast. Nei! sjerhver byrji á að biðja fyrir sjálfum sjer: Guð! láttu mig æ halda heilagt þitt hið heilaga nafn, láttu mig nefna það með guðhræðslu og lotningu, láttu það algjörlega gagntaka mig; vektu mig af alls konar deyfð og leti, hreinsaðu mig af öllu, sem ekki er nema uppgjörð og látalæti, láttu mig alla daga tigna þig og óttast í alvöru og sannleika, láttu allt líferni mitt vera til vitnis um, að jeg haldi nafn þitt heilagt! Gefðu mjer einnig krapt og blessun til að geta kveikt hina sömu lotningu í hjörtum annara í kringum mig, bæði á heimili mínu, og í öllum sem jeg hefi afskipti af, hvort sem þeir eru margir eða fáir. Láttu mig einnig ætíð hitta þá fyrir í söfnuði

þínum á jörðunni, sem elska þig og sannleikann, eins og jeg, og jafnvel þekkja hann betur og elska hann heitar, svo að jeg eflist og aukist í ótta þínum fyrir þeirra aðstoð. Og láttu einnig þinn hinn sanna söfnuð breiðast út um landið, og um öll lönd; settu skorður fyrir sjerhverja villu; láttu ljós sannleikans skína skýlaust, svo að nafn þitt verði fullkomlega heilagt á jörðunni, og

ríki þitt komi! Hvernig sem vjer erum ánægðir með hið nálæga, þá er þó í hjörtum vorum allra löngun eptir einhverju æðra, betra, fyllra og sælla, enn því sem reynslan hefir haft að færa; vjer girnumst að sjá mannkynið í fullkomnara ástandi, enn það hingað til hefir verið, og hafa sjálfir hlutdeild í því. Hvað ætti jeg að kalla slíkt ástand annað enn guðsríki? Vei þeim, sem ekkert þekkir æðra enn jarðneskt ríki, og getur saðzt af einum saman ávöxtum þessarar jarðar, og ekkert girnist nema það, sem múgurinn kallar að eiga góða og náðuga daga! Ó! fyrir hvað kæmi það, þó allar hlöður væru fullar, og als konar auðæfi streymdu hingað frá hinum fjarlægustu löndum, og allt það, er menn kalla fullsælu, væri hjer saman komið, en vizka og rjettlæti og kærleiki byggðu ekki í landinu? Hverju værum vjer bættir, þó vjer ættum gjörvalla veröldina, en ekki óðalsrjett í guðríki? Þú hefir heitið oss, Guð! að ríki þitt skuli koma; hvert ár sem líður, og sjerhvað, sem fram fer, einnig þrenging, barátta og óeyrðir, þoka því nær; viðhaltu ætíð í oss meðvitundinni um það, viðhaltu lönguninni eptir því, svo að hjörtu vor hefji sig daglega upp í frið þess frá önnum jarðarinnar og frá hennar munaði, mæðu og áhyggjum, og að vjer höldum þangað stöðugri stefnu, og verðum hluttakandi þess, þegar það kemur!

Því ríki þitt kemur ekki til vor, nema vjer leitum þess, og hver stundi að vinna slíkt, er hann má, til þess að miskun Guðs og blessun hans verði opinber á oss. Fyrir því skulum vjer hvert sinn, er nýr dagur rennur upp yfir oss, með sínu tilkalli og sínum skyldum, biðja með þeim hætti, sem Drottinn vor og Meistari kenndi oss: verði þinn vilji, ó Guð, svo á jörðu, sem á himni! — Verði þinn vilji! Lát oss ekki sljófgast af leti og deyfð, lát ekki ljettúðina glepja svo fyrir oss, að vjer gleymum,

til hvers þú settir oss á jörðina, lát oss aldrei vera annara um neitt enn að framkvæma þinn vilja, til hvers sem þú kallar oss; jafnvel hinar æðri verur á himnum verja ekki lífi sínu til eintómrar skoðunar, heldur eru þær þjónustusamir andar, sendir í þeirra þarfir, sem öðlast skulu sáluhjálpina (Hebr. 1, 14). Lát oss einnig vera þína erindsreka, hvern á því sviði, sem þú hefir honum afmarkað, lát oss vera þjónustumenn rjettlætis þíns og kærleika, framkvæma boð þín, efla rjettindi og góða skipun, og flytja frið og huggun, hvert sem þú sendir oss. — Verði þinn vilji! Lát oss ekki villast nje tælast, og gjöra vilja veraldarinnar, eður holds og blóðs, eður vors afvega leidda og hjegómlega hjarta, í stað þess að gjöra þinn góðan og helgan og fullkominn vilja! Gef oss vizku, svo að vjer þekkjum hann, og krapt og ráðvendni, svo að vjer framkvæmum hann, og svo að nafn þitt helgist á meðal vor, og ríki þitt komi til vor!

En þó vjer stundum það, sem gott er og háleitt, og þó vjer jafnvel leitum Guðs ríkis og hans rjettlætis, þá erum vjer samt sem áður undirorpnir jarðneskum skorti, á meðan vjer dveljumst hjer á jörðu. Faðir og Forsorgari! þú sem allra augu vona til, ljúktu upp þinni mildu hendi, og gef oss í dag vort daglegt brauð! — Gætum vjer safnað saman óskum mannanna, hvílíkan grúa mundum vjer þá sjá þeirra óska, sem einungis snerta hið stundlega, hvað menn eigi að eta og drekka, og hverju þeir eigi að klæðast! hvílík er mergð nauðsynja þeirra, er menn þykjast með engu móti mega án vera, ef þeir eigi að geta lifað eins og þeim sæmi, og notið ánægju og sóma í veröldinni! og hversu fá eru þar á mót þau orð, sem Drottinn vor kenndi oss að fela í allt það, sem oss í þessu tilliti er nauðsynlegt í raun og veru! það er að sönnu satt, að með daglegu brauði er ekki meint eintómt brauð, heldur og aðrir stundlegir hlutir, sem oss eru nauðsynlegir, og að allir þurfa ekki jafn-mikils; Guð gefi sjerhverjum það, sem hann þarf, eptir þeirri stöðu, sem hann er í settur, og eptir tölu þeirra, sem hann á að sjá fyrir! En er vjer nefnum daglegt brauð, þá minnir það oss á, að það er ekki svo fjarska mikið, sem oss er nauðsynlegt í raun rjettri, og að vjer eigum

ekki að biðja um allsnægtir. Láti Guð oss meira í skaut falla, þá kenni hann oss að brúka það eptir sínum vilja; veiti hann oss að eins það, sem vjer köllum lítið, þá kenni hann oss að una því; en veittu oss, himneski Faðir! það sem vjer þörfnumst í raun rjettri. Styrk hendur vorar til nytsamlegs erfiðis, því án erfiðis beiðumst vjer ekki fæðunnar; en veittu oss blessun þína, þegar vjer erfiðum, svo að vjer finnum brauðið í sveita vors andlitis, bæði handa sjálfum oss og þeim, sem vjer eigum að standa straum af, og getum, ef verða mætti, miðlað ekkjunni og hinum munaðarlausa; og þegar þú gefur, þá lát oss finna og við kannast, að þú ert sá, er gefur, og að öll iðni vor og íþrótt fengi engu til leiðar komið, nema þú lykir upp þinni örlætishendi; kenn oss, að gjöra ekki minna úr velgjörðunum, þó þær veitist oss dag hvern, og margsinnis án þess að skortur og áhyggja hafi búið oss undir að meta þær rjettilega! En hafi skortur og áhyggja kennt hinu örmædda hjarta að flýja til Guðs — hversu huggunarrík er þá þessi bæn: gef oss í dag vort daglegt brauð! Því hún ryfjar upp fyrir oss áminning Drottins vors, að vjer sjeum ekki hugsjúkir um hinn næsta dag, en látum heldur hverjum degi nægja sína þjáningu (Matth. 6, 34), það er, látum ekki huga vorn pínast af áhyggjum ókomins tíma, því Guð muni verða með oss á honum eins og þeim er umliðinn sje, og sá tími kunni að verða allur annar, enn vantrú vor hafi gjört sjer í hugarlund, og ekki sje á að ætla, nema vjer sjeum leystir af öllum jarðneskum skorti, þegar þar að komi.

En þegar vjer lítum upp til himins höfum vjer ekki að eins bænir að framflytja fyrir þá daga, er koma eigu, heldur höfum vjer og reikning að lúka, og hann harla þungan, fyrir þá daga, sem liðnir eru; og hvernig megum vjer lúka hann, án þess að snúa vorri auðmjúku bæn til hinnar eilífu miskunar, og segja: fyrirgef oss vorar skuldir! Þær kunna að vera mjög misjafnar skuldir þær, sem hver af oss á að lúka, en drag ekki sjálfan þig á tálar, og seg þig ekki vera syndlausan. Minnstu þeirra daga, sem þegar eru horfnir, og þú færð ekki apturkallað, og getur ekki afmáð eina yfirsjón af; minnstu ekki að eins afbrota þinna, heldur og hverrar gleymsku, og þá mun samvizka þín votta, að þú

sjert þjer meðvitandi mikillar skuldar. Og til hvers væri þjer að geta gleymt henni? hinn eilífi Dómari gleymir alls engu; til hvers væri þjer að skunda fram hjá henni ljettum huga? hið eilífa rjettlætið skundar ekki, og sefur ekki heldur, en heimtar reikningsskap allra athafna vorra. Og eflaust ertu sekur um margt, sem þú veizt ekki af, svo sð þú hefir þar bætt þeirri synd ofan á aðrar, að taka ekki eptir, að þú gjörðir rangt, eða vanræktir skyldu þína. Hvernig viltu lúka reikningi þínum við hinn heilaga og rjettláta Dómara, sem allt sjer? Heldur þú, að tár þín geti afmáð sekt þína, svo að Dómarinn sjái hana ekki? eður að iðrun þín fái apturkallað þann tíma, sem þú hefir ónýtt, og þú munir síðan geta brúkað hann betur, og kallað aptur þó ekki væri nema eina af athöfnum þínum, til að endurbæta hana? Eður hyggst þú að bæta þau hin fornu afbrot með þeim góðverkum, sem þú ætlar að vinna? Geturðu þá gjört nokkuð það gott, er þú sjert ekki skyldur að gjöra, og látið það koma upp í hina fornu skuld? Ó, látum oss biðja svo sem einum munni, því engir höfum vjer neitt að borga með, vjer verðum allir að flýja til hásætis miskunarinnar, og segja: fyrirgef oss vorar skuldir eptir þinni endalausu miskunsemi; afmáðu þær, svo þær vitni ekki framar í móti oss, kastaðu syndum vorum í djúp sjáfarins! Og þegar vjer biðjum á þessa leið, þá heyrum vjer himneska röddu, þá er svo mælir: þjer eruð bænheyrðir, því ekki sendi Guð Son sinn í heiminn til að dæma heiminn, heldur til þess, að heimurinn frelsaðist fyrir hann (Jóh. 3, 17); yðar skuld er yður fyrirgefin, segir hin himneska miskunarrödd, en bætir þó við einu skilyrði: svo sem þjer og fyrirgefið yðrum skuldunautum. Um leið og vjer gjörum hinum æðsta Dómara reikningsskap vorn, eigum vjer og að lúka reikningi vorum hverir við aðra, og eins og vjer viljum að aðrir breyti við oss, eins eigum vjer að breyta við þá; eins og vjer æskjum fyrirgefningar, eins eigum vjer að fyrirgefa. — Skilur þú, finnur þú, hvers þú biður, er þú segir: mín skuld veri mjer fyrirgefin, svo sem jeg fyrirgef? Vjer kunnum allir fornkveðin heilög orð, er svo hljóða; sólin gangi ekki undir yfir reiði yðar (Ef. 4, 26); en allir vjer höfum líka reynt, hversu

örðugt er eptir því að breyta; kalanum er gjarnt að vilja rótfesta sig og þróast þangað til seinna meir. En þegar vjer biðjum á þessa leið, hljótum vjer að stríða við það, og sála vor fær ekki ró, fyrr enn vjer getum í alvöru sagt: jeg fyrirgef, svo sem jeg vænti fyrirgefningar. Hafi því bróðir minn, vinur eða óvinur, styggt mig í nokkru, og jeg verði var við nokkurt orð af munni hans, eður nokkra hugsun í hjarta hans, er til þess mælist, að jeg gleymi hinu umliðna, þá skal jeg gleyma því jafnskjótt, og afmá það úr huga mínum ásamt allri óvild og kala; og þó hann mælist ekki til þess, skal jeg samt fyrirgefa allt það, er jeg get fyrirgefið, og ekki snertir nema sjálfan mig; jeg skal kappkosta að útrýma endurminningu þess úr huga mínum, jeg skal segja, hann hafi ekki vitað hvað hann gjörði, og segja það af öllu hjarta, svo að jeg hafi frið við alla menn, svo mikið sem í mínu valdi stendur, og svo við Guð sjálfan.

Fyrirgef oss vorar skuldir, en hjálpa oss einnig til að fjölga þeim ekki; leið oss ekki í freistni! þetta er mikilvæg bæn, en þó eru þeir fáir, sem biðja svo af hjarta; það er eins og flestir haldi, þeir sjeu stöðugri á fótum, enn að þeir geti fallið — það er eins og þeir haldi, að ef Guð vilji varðveita þá fyrir mótlæti, þá sjeu þeir sjálffærir um að varðveita sig fyrir synd. En vjer skulum biðja eins og Drottinn hefir kennt oss; vjer finnum glöggt bæði af reynslu sjálfra vor og annara, hversu vanmáttugur maðurinn er, hversu auðveldlega hugurinn glepst, hversu auðveldlega hjartað tælist, hversu auðveldlega fóturinn skriðnar, og skulum því biðja: leið oss ekki í freistni! Vjer berum ekki upp svo óskynsamlega bæn, að Guð skuli hlífa oss við hverri baráttu og þraut; en þú, sem hjá oss ert í sjerhverjum háska! láttu hverja baráttu, sem oss er nauðsynleg til reynslu og framfara, enda með því, að vjer berum sigur úr býtum! láttu ekki þrautirnar stíga yfir oss, láttu þær ekki verða oss að freistingu, og leiða oss burt frá ríki þínu og rjettlæti! Varðveittu oss frá að falla, varðveittu líferni vort frá saurgun og smán, varðveittu hjarta vort frá alls konar spillingu, illum girndum og vesælu hugleysi, ágirnd og drambi, hjegóma og fásinnu, vantrú og vonleysi.

Og frelsa oss frá illu — frá öllu illu, hvort sem það

vofir yfir líkama eða sálu, gózi eða mannorði — frá öllu því, sem vjer getum haft illt af, hvort sem vjer þekkjum það og kunnum að nefna, eður ekki; varðveittu oss frá láni og meðlæti, þegar það mundi blekkja hjarta vort, en frá óláni og mótlæti, þegar það mundi steypa oss í örvæntingu! Frelsa oss frá þessu, Drottinn, Frelsari allra manna! Vjer vörpum í bæninni allri vorri áhyggju upp á þig; vjer felum þinni almáttugu og föðurlegu vernd sjálfa oss og alla þá, sem oss er um annt, hvort sem þeir eru nær eður fjær, háir eða lágir, ríkir eða fátækir, hryggir eða glaðir, gamlir eða ungir; vertu með öllum oss, meðan vjer eigum að dveljast hjer á jörðu, og vertu hjá oss á hinni síðustu stund, og láttu hana færa oss frelsun frá öllu illu!

Því að þitt er ríkið og mátturinn. — Hversu opt segja menn, að ríkið og mátturinn sje Guðs, og hversu fágæt er þó trúin ætíð hjer á jörðu! En hvert sinn er vjer endum bæn vora skulum vjer segja það af nýju með glöðum hug og stöðugri trú, og segja það svo, að það endurhljómi ætíð í hjörtum vorum, hvað sem á dagana drífur. Þegar þjóðirnar hefjast til valda, og þegar þær verða fótum troðnar, og þegar mennirnir beita öllum mætti sínum, og öll jörðin er í uppnámi, þá skulum vjer segja: Guðs er þó ríkið og mátturinn. Og þó að viðburðirnir snerti sjálfa oss, og hjarta vort titri, og vjer sjeum leiddir um dymma vegu, þá er vjer hvorki þekkjum nje skiljum, þá skulum vjer segja: Guðs er ríkið og mátturinn; án hans vilja fellur ekki titlingur á jörð, og bærist ekki eitt hár á höfðum vorum. Sömuleiðis þegar þeir hlutir verða, sem hjarta vort fagnar af, þegar þjóðunum leikur í lyndi, og fegurð jarðarinnar endurnýjast, og blessunin vitjar búa vorra og athafna, þá skulum vjer segja: Guðs er ríkið og mátturinn, og öll góð gjöf kemur af himni. Fyrir því á einnig dýrðin að vera Guðs; hver stundin og hver kynkvíslin á að birta annari almætti Guðs, og kenna henni að minnast verka hans, og allar verur á jörðunni eiga að taka undir með hinum himnesku hersveitum, svo að Guði á hæðum sje dýrð um alla eilífð.

Þegar vjer höfum lokið drottinlegri bæn, bætum vjer við

hana trúarorðinu: amen, til að vera þess fullöruggir, að bæn vor sje heyrð; vjer endum bæn vora í nafni hans, er kenndi oss að biðja, og gaf oss það fyrirheit, að þegar vjer bæðum, skyldum vjer öðlast; vjer endum hana í hinu dýrðlega nafni, er vjer eigum ætíð að tengja með hvern daginn við annan, hverja bænina við aðra, og hvert verk við annað: amen, í Jesú nafni, amen!

---

# 52.

## KRISTUR ER KONUNGUR.

Þegar spámenn Ísraels litu fram á ókomnar aldir, bar jafnan fyrir þá langt á burt í vitrunum þeirra, sonur Davíðs, sá er um var spáð, að drottinstignin mundi liggja á herðum hans, og hann mundi nefnast hinum háleitustu nöfnum, og á aukningu veldis hans mundi enginn endir verða (Es. 9, 6. 7); hinn hæsti mundi honum mikinn fjölda manna til býtis gefa, og hinir öflgu mundu honum að herfangi verða (Es. 53, 12); ókunnar þjóðir mundu kallaðar verða, og heiðingjarnir mundu keppast til Ísraels ljóss, og konungarnir til ljómans, sem af því legði (Es. 55, 5. 60, 3). Nafnið Messías, Kristur, hinn smurði, sem smátt og smátt varð hið almenna nafn hins fyrirheitna, merkir konung, því þótt að spámenn og prestar væru á stundum smurðir, var samt konungurinn einkum kallaður Drottins smurði. Þegar sá, er lengi var þráður, átti loksins fæddur að verða, var hann boðaður sem sá, er vera ætti konungur að eilífu, og enginn endir verða á ríki hans (Lúk. 1, 33). Allir þeir, er síðan viðurkenndu að Jesús væri Kristur, viðurkenndu jafnframt að hann væri konungur, múgurinn vildi gjöra hann að konungi, og þegar hann í síðasta sinni hjelt innreið sína í höfuðborg þjóðarinnar, tóku þeir við honum eins og kon-

ungi, þeir breiddu klæði sín fyrir hann, og stráðu pálmaviðar greinum á götu hans, og ljetu rætast orð spámannsins, er svo hafði sagt: boðið Jerúsalemsborg, sjá þú! konungur þinn kemur til þín! þeir æptu fagnaðaróp umhverfis hann, svo sem Davíðs son, og þann, er mundi hefja að nýju hið forna ríki Davíðs, og auka það og vegsamlegt gjöra. Allur borgarlýðurinn þusti út í móti honum, allir lærisveinar hans glöddust og lofuðu Guð fyrir hann hver með öðrum, og smábörnin sameinuðu raddir sínar með þeirra röddum. Hann gekk inn í musterið og beitti þar slíku valdi, sem sá, er ætti helgidóminn, hann velti borðum þeirra, er okruðu með peninga, og rak þá út, er keyptu og seldu í musterinu. Þegar hann kenndi, hnje allur lýðurinn að honum og hlýddi á hann; höfðingjunum gramdist, en urðu samt að þegja; enginn dirfðist að leggja hendur á hann (Matth. 12, 1 o. n. v. Lúk. 10, 37 o. n. v.).

Ef vjer berum það saman við þetta, sem varð fám dögum seinna, þá er allur þessi ljómi horfinn; fagnaðarópið er orðið að heiptarópi, og hver maður dirfist að svívirða hann. Þá spyr höfuðprestur Gyðinga: ertu Kristur, sonur hins hálofaða? og það er kallað guðlöstun, er hann svarar: jeg em hann (Matth. 26, 63). Þá spyr hinn heiðni dómari: ertu konungur? og það þykja óðs manns orð, er hann svarar: rjett segir þú, jeg em konungur (Jóh. 18, 37).

Ertu konungur? hefði þá og margur mátt segja. Að vísu ber þú kórónu, en hún er riðin úr þyrnum, og purpurakápa er lögð yfir herðar þjer, en það er gjört í háðungar skini. Ertu konungur? hvar eru þá þjónar þínir? Sá sem neytti brauðsins með þjer, er búinn að svíkja þig, og sá sem ætlaði að ganga í dauðann ásamt þjer, er búinn að afneita þjer, þeir eru allir tvístraðir og hafa látið þig einan eptir. Ertu konungur? hvar er veldi þitt? Þeir draga þig frá hverjum dómstólnum til annars, og alstaðar dæma þeir þig til dauða; þeir leiða þig á hina blóðugu hæð Golgata — er það vegur konunganna?

Og samt sem áður var hann konungur. Vjer segjum það en með lofgjörð og tilbeiðslu, að svo mörgum öldum liðnum;

ofsóknarmenn hans sögðu það, þegar er þeir leiddu hann til dauða, þótt þeir segðu það af spotti. Það er undarlegt, hvernig eitthvert hulið vald rjett eins og þrýstir mönnum á stundum til að segja það, sem þeir skilja ekkert í, og meina með því allt annað, enn síðan kemur í ljós að verið hafi hin rjetta þýðing orða þeirra. Þegar höfuðprestur Gyðinga sagði það væri gagnlegt, að einn maður væri líflátinn fyrir þjóðina, svo öll þjóðin fyrirfarist ekki, þá vitum vjer hvað hann meinti með orðum sínum; en Jóhannes guðspjallamaður, er skýrir frá þessu, bætir þessu við: en þetta talaði hann ekki af sjálfum sjer, heldur spáði hann, af því hann var æðsti prestur það árið, að Jesús mundi deyja fyrir þjóðina, og ekki einungis fyrir þjóðina, heldur og til þess, að hann safnaði saman hinum sundurtvístruðu börnum Guðs (Jóh. 11, 50). Þegar Pílatus leiddi Jesúm fram hrakinn og hæddan, og sagði við Gyðinga: sjáið konung yðvarn! þegar hann ritaði yfir krossinn: „Jesús af Nazaret, konungur Gyðinga“, var það eflaust ætlun hans, að svívirða þjóðina með þeim, er hann nefndi konung hennar. En það var eins og hulið vald legði honum orð í munn, og stjórnaði hönd hans meðan hann ritaði, og gjörði hann ósveigjanlegan, hvernig sem höfðingjar þjóðarinnar báðu hann að breyta yfirskriptinni á krossinum: „það sem jeg hefi skrifað, það hefi jeg skrifað“ sagði hann (Jóh. 19, 15. 19). Og það stendur skrifað; hann hefir ekki afmáð það, óvinir Jesú hafa ekki afmáð það, tímalengdin hefir ekki afmáð það: Jesús af Nazaret er konungur, hann er konungur allra þeirra, er hluttekning í trú Abrahams hefir gjört þess verða að heita börn Abrahams, hann er ekki að eins konungur einnar þjóðar, heldur allra Guðs barna, hvar sem þau eru dreifð út um hina víðlendu veröld.

Ríki Krists er allsherjarríki, það er að skilja, veldi hans nær yfir alla jörðina og yfir himnana, yfir þetta líf og hið ókomna, yfir þá, sem kalla hann Drottin, og þá, sem ekki þekkja hann, eður og jafnvel þrjózkast gegn honum og einskisvirða hann. Þetta boðar hann sjálfur, er hann segir: allt er mjer af Föður mínum í vald gefið (Matth. 11, 27), og mjer er gefið allt vald á himni og jörðu (Matth. 28, 18); eður þá hann segir: Faðirinn

elskar Soninn, og hefir gefið alla hluti á hans vald (Jóh. 3, 35), og ekki dæmir Faðirinn nokkurn, heldur hefir hann falið Syninum á hendur allan dóm (Jóh. 5, 22). Þetta boða postularnir, er þeir segja: hann hefir boðið oss að prjedika fólkinu og vitna, að hann sje af Guði útvalinn Dómari lifendra og dauðra (Post. 10, 42); þá er þeir segja: til þess er Kristur bæði dáinn og upp aptur risinn og endurlifnaður, að hann skyldi drottna bæði yfir dauðum og lifendum (Rómv. 14, 9). Samkvæmt þessu valdi safnar hann alstaðar að hinum dreifðu, og sýnir einnig mátt sinn þar, sem hann þekkist ekki og nafn hans er ekki nefnt, og eins og skíman, sem eptir er í rökkrinu, kemur ei að síður frá sólinni, þótt hún verði ekki sjen, þannig koma og hinir daufu geislar sannleikans í hinu andlega myrkri, er varla eru neinstaðar með öllu slokknaðir, frá honum, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið; og hvar sem fer að lýsa af morgni, hvar sem menn koma í ljós, er leita sannleikans með einlægni og hreinskilni, og slíta sig frá hinni almennu villu, og greiða veg glöggari þekkingu, þar þjóna þeir honum, þótt þeir viti það ekki, og njóta hans aðstoðar, sem er hið sanna ljós, sem upplýsir alla menn (Jóh. 1, 9).

En satt er það, að Kristur kom í heiminn til að stofnsetja sjerstakt ríki, er átti að safna hinum sundurdreifðu börnum Guðs í einn flokk, til viðurkenningar veldis hans, og átti að aukast meir og meir, svo það gæti orðið ein hjörð og einn hirðir (Jóh. 10, 16). Allir vjer, sem trúum á Krist, viðurkennum og að hann sje konungur í þessum skilningi; en er vjer þá svo sem tölum við hann um ríki hans, svarar hann oss enn, eins og hann gjörði forðum daga, svo segjandi: mitt ríki er ekki af þessum heimi (Jóh. 18, 36). Með þessu svari fældi Kristur forðum daga marga frá sjer. Það var ríki af þessum heimi, sem Júdas hafði búizt við, og þegar það var ekki stofnsett, seldi hann Drottin sinn og konung fyrir vesælan ávinning. Það var ríki af þessum heimi, sem hinir postularnir girntust, er þeir þrættust um, hver ætti að vera hinn fyrsti, hver ætti að sitja við hægri eður vinstri blið Drottins þeirra; og þá er Drottinn svaraði þeim: getið þjer tæmt þann kaleik, sem jeg á að tæma? getið þjer skírzt þeirri skírn,

sem jeg á að skírast (Matth. 20, 22)? þá var það raunar hið sama og hann hefði sagt: mitt ríki er ekki af þessum heimi. það var ríki af þessum heimi, sem lýðurinn girntist, þá er hann vildi gjöra Jesúm að konungi; og er hann flúði þá, og vildi ekki gjörast fyrirliði lýðsins, er sólginn var í sigur og veraldleg yfirráð, og þá er hann vildi ekki leyfa þjónum sínum að berjast fyrir sig, svaraði hann þeim því, að ríki hans væri ekki af þessum heimi; og þessu svari reiddust þeir, þess vegna yfirgáfu þeir hann, eður snjerust í móti honum. Mundi nokkuð Kristur síðan vera farinn að hugsa á veraldlega hluti? sækist hann nú eptir gullnum kórónum og ríkjum þessarar veraldar, og dýrð þeirra? er honum nú í hug að æsa upp þjóðirnar, og steypa valdi laganna? er honum nú í hug að fá þjónum sínum sverðið í hendur, til að gjöra mein og skaða? það stendur enn stöðugt sem áður, að ríki Krists er ekki af þessum heimi; en ef þessi orð væru rjettilega heyrð og rjett skilin á öllum stöðum, mundu þau þá nú á dögum fyrir hitta fúsari áheyrendur? eru þá mennirnir nú farnir svo að hyggja á himininn, að þeir sækist ekki framar eptir gæðum þessa heims, og girnist ekki framar að nota hið himneska til að öðlast með því jarðneska sælu, eður jafnvel hið heilaga til að ná með því vanheilögum ásetningi?

„Mitt ríki er ekki af þessum heimi“. Ó! þessi orð hljóma eins og þytur hins mikla lúðurs á dómadegi yfir höfðum þeirra, sem hafa notað nafn Krists til að ávinna með því þenna heim, og kallað sig umboðsmenn Krists, til að reisa sjálfum sjer hásæti, hærri enn alla veldisstóla jarðarinnar, og safna sjer stundlegum auði af öllum löndum, og látið þjóna sína taka til sverðsins, ekki til þess að vernda kristinn lýð móti heiðingjum og villiþjóðum, nje til að vernda saklausa menn og styðja þau rjettindi, er sannleikurinn hafði að lögum unnið á jörðunni — því til þess hefir Guð fengið höfðingjunum valdið í hendur — heldur til þess að kollvarpa löglegri reglu, og kúga samvizkur, og út hella saklausu blóði, og ávinna brögðum sínum sigur í móti sannleika og rjettlæti. „Mitt ríki er ekki af þessum heimi“; hversu harðlega vitna þessi orð í móti þeim, er hafa notað hið heilaga nafn Jesú til

stundlegs ávinnings, þótt þeir hefðu ekki vald til að vinna undir sig neitt ríki, og leituðu að eins hagnaðar sjálfs sín, og reyndu til undir guðrækins yfirskini að hliðra sjer hjá að gjalda öðrum það sem þeim bar, þeim skatt, sem skattur heyrir, þeim heiður, sem heiður heyrir; og í móti þeim, sem urðu að sleppa voninni um stundlegan ávinning og stundlegan heiður í þessu lífi, en hugguðust við, að í fyllingu tímans mundi verða stofnsett ríki af þessum heimi, þar er þeir bjuggust við að sitja á veldisstólum, og sjá aðra menn fyrir fótum sjer! „Mitt ríki er ekki af þessum heimi“; þessi orð eru enn í gildi, eins og þau voru forðum daga. Því þótt ásýnd jarðarinnar hafi breytzt, þótt mörg ríki veraldarinnar hafi lotið nafni Krists, þótt ríki Krists hafi svo að segja áunnið sjer þjóðleg rjettindi, þá er það samt enn í gildi, að hið sannkallaða ríki Krists er ekki af þessum heimi, og má ekki vera haft til framkvæmdar stundlegum ávinningi. Þjer er leyfilegt, sem kristnum manni, að taka við stundlegu gózi og stundlegum heiðri, ef þjer bíðst það á löglegan hátt; en vei þjer, ef þú þjónar Drottni þínum til að öðlast þessa hluti, því þá eru laun þín horfin, og þú ert búinn að selja þegnrjett þinn í ríki Krists!

En þótt ríki Krists sje ekki af þessum heimi, er það samt í þessum heimi eins og í hinum ókomna. Það mundi verða oss torvelt, að hitta það orð, sem rjettilega gæti sýnt, hvað það sje í þessu dásamlega ríki, sem er alstaðar í þessum heimi og hefir þó ekki neitt samblendi við hann. hvað það sje — segi jeg — sem tengi Drottin þess og konung við þá, sem heyra honum til, ef Drottinn vor sjálfur hefði ekki sagt oss þetta orð, ef hann hefði ekki sjálfur, um leið og hann sagði: „jeg em konungur“, bætt þessu við: „jeg er til þess fæddur og í heiminn kominn, að jeg beri vitni sannleikanum. Hver, sem elskar sannleikann, hlýðir minni röddu (Jóh. 18, 37)“.

Vjer höfum á þessum stað nefnt eitt orð, eður rannar hefur Drottinn vor nefnt það sjálfur í vorn stað, og slíkt orð, sem mörgum er hneixli og mörgum heimska, en það er orðið sannleikur. Þeir eru margir, sem hafa ekki enn komizt svo langt, að hirða um sannleikann? þeir eru sokknir niður í umhyggju

fyrir stundlegu viðurværi, og hversdagslegar umsýslur og áhyggjur og skemmtanir, og hafa aldrei af einlægum hug spurt sjálfa sig, hverju þeim sje óhætt að trúa og hvers að vona, eður hvað þeim beri að gjöra. Þeir eru aðrir, sem þykjast næstum vera vaxnir upp úr því, að grennslast eptir sannleikanum; þegar þeir um stundar sakir eru búnir að flækja sig, eður láta flækja sig, í neti alls konar haglegra hugsana, og eru komnir að raun um, að ekkert hald er í veikum vef, nje föst undirstaða undir húsi því, sem reist er á sandi, segja þeir eins og Pílatus: hvað er sannleikur? og snúa sjer undan með hæðnissvip, þegar á hann er minnzt, og hyggja það sjeu ekki nema heimskingjar einir, er hirði nokkuð um slíkar spurningar. Aptur eru þeir menn til, er hyggja sannleikurinn felist í fylgsnum, hvert að eins fáum auðnist að koma, það verði að fara leynt með hann, af því að eins fáir þoli birtu hans, og bezt sje að draga alþýðu manna á missýningum. Að vísu eru og þau fræði til, sem dyljast sjálf, þótt ekki sje þörf á að leyna þeim; þau geta að eins verið eign einstakra manna, af því það eru ekki nema einstöku menn, sem hafa gáfur og þekkingu til að geta komizt í skilning um þau. En sá sannleikur, sem þarf til guðsótta, verður að geta boðizt öllum sameiginlega; annars væri ríki Krists að eins handa fáeinum mönnum, og þó vildi hann að portum þess væri lokið upp fyrir öllum, og fagnaðareyrindi hans væri boðað hinum fátæku, og hann hefir sjálfur lofað Guð fyrir það hann hafði auglýst það fáfróðum, er hann hafði látið vera hulið fyrir fróðum mönnum og spekingum (Matth. 11, 25).

„Hver sem elskar sannleikann, hlýðir m i n n i röddu“. Sá einn elskar sannleikann, sem getur að eins fundið hvíld handa sálu sinni í því, sem rjett er og staðfast, og girnist sjálfur heitt og einlæglega að komast til þekkingar á því, og vill fúslega stuðla til, að aðrir fái það þekkt, sá er vill sjá ljós og sjálfur lýsa, og hvorki vill láta leiða s i g í blindni, nje vill sjálfur leiða aðra það. Enginn hlutur er ósæmilegri, enn að hafa hið h e i l a g a að leikfangi, og betra er að vera daglaunamaður við auðvirðilegustu vinnu og leita sjer brauðs í sveita andlitis síns, já, betra er að

fara á vergang, enn að ávinna sjer auðæfi og heiður með því að halda alþýðu manna í villu. Hver, sem elskar sannleikann, forðast lygar og hvers konar brögð, sem einnig eru lygar, og leitast við að eyða alls konar yfirskini, bæði fyrir sjer og öðrum. þess vegna segir Páll postuli: vjer höfum afneitað allri leynilegri svívirðingu — því allt sem er hulið er einnig svívirðilegt, og æfinlega er einhver blettur á því; því hvers vegna ætti það, sem er heiðurlegt og hreinskilið að forðast dagsbirtuna? — vjer höfum hvorki vjelar í frammi, nje fölsum guðsorð, heldur mælum vjer fram með oss fyrir hvers manns samvizku með auglýsingu sannleikans, svo sem fyrir Guðs augliti (2. Kor. 4, 2).

„Með auglýsingu sannleikans“, segir postulinn — því sannleikurinn hlýtur jafnan að vera orðtakið í ríki Krists; öll góð og fullkomin gjöf er að ofan, og kemur frá Föður ljósanna (Jak. 1, 17), frá Guði sannleikans; allt illt kemur frá lyginni og föður lyginnar. Kristur segir sjálfur, að hann sje í heiminn kominn til að bera vitni sannleikanum, hann bað fyrir lærisveinum sínum, að Guð vildi helga þá í sínum sannleika (Jóh. 17, 17), hann hjet þeim, sem á hann trúðu, að ef þeir hjeldu stöðuglega við orð hans, þá skyldu þeir þekkja sannleikann og sannleikurinn gjöra þá frjálsa (Jóh. 8, 31. 32), og hann hjet þeim sínum anda, er skyldi leiðbeina þeim til alls sannleika (Jóh. 16, 13). Hann kallaði þá til þjónustu sannleikans, og til hennar kallar hann einnig oss. En þjónusta sannleikans er tvöföld; hún er í því fólgin, að berjast í móti lyginni, og gjöra villuna bera, og kippa í burt öllum ótrúum máttarstoðum; en hún er og í því fólgin, að reisa þá stólpa, sem ekki verður hrundið, og í stað þeirra sjónhverfinga, er ginna að eins heimskingjana, á hún að fylla lífið af fegurð, er friðar og gleður mannlegt hjarta. þjer er ekki borgið, þótt þú sjert búinn að rífa hús það, sem komið var að falli, nema þú hafir reist annað í þess stað, er geti hlíft þjer við regni og vindi, og vetrarhörkunni, og sumarhitanum. þú ert ekki orðinn auðugur, þótt þú sjert búinn að kasta á burt ónýtisglingri því, er þú hafðir kallað auðæfi þín, nema því að eins þú hafir aflað þjer einhvers í þess stað. Sá þorsti er til, sem ekki verður slökktur, nema á lifandi upp-

sprettum, og rótgróin löngun er til eptir þeirri þekkingu, sem sálin geti fyllilega hvílzt í, og lögmál það stuðzt við, er samvizkan bæði elskar og óttast, og fyrirheit þau eru byggð á, sem færa oss huggun og von og frið. Hver sem einlæglega og staðfastlega leitar þessarar þekkingar, hann elskar sannleikann, og hann mun heyra rödd Krists, því Kristur er vegurinn, sannleikurinn og lífið (Jóh. 14, 6).

Hver sem elskar sannleikann, verður og að fylgja sannleikanum, og heimfæra hann einlæglega til sín sjálfs, þagga niður ástríður sínar og sjálfselsku, svo hann geti dæmt um sig eptir sannleikanum, og leitast við að fylgja honum. Mjer veitist engin meiri gleði segir hinn dýrðlegi postuli Krists, enn að heyra börn mín gangi í sannleikanum (3. Jóh. 4 v.). Hver sem elskar sannleikann og leitast við að fylgja honum, verður og að girnast að geta komið öðrum til að gjöra það. En ríki sannleikans á hvorki nje má verða varið nje aukið utan með vopnum sannleikans, með því að láta hann birtast í ljósi sínu og fegurð og greiða honum veg að samvizkum mannanna, þar er hann á að mæla sjálfur fram með sjer. Hver sem elskar sannleikann, beitir engum öðrum vopnum, enda fengju önnur vopn engu til leiðar komið í þessari grein. Þú getur, ef til vill, kúgað menn til að tala og þegja, en ekki til að trúa. Þú getur, ef til vill, með veraldlegu valdi stillt það, sem þú kallar straum villunnar, en hafir þú ekki leitazt við að byrgja uppsprettu hans, eykst máttur hans optsinnis því ógurlegar, og þegar hann að lokunum ryður á burt stíflunni, mun hann valda því meiri skemmdum. Og þú, sem ert maður, veikur og villunni undirorpinn eins og aðrir, hversu hæglega getur þú villzt í dómum þínum; og vei þjer þá, er þú sjerð um seinan, að þú hafðir staðið í móti sannleikanum og ofsótt votta hans, í stað þess að leitast við, ásamt með bræðrum þínum, að komast til viðurkenningar sannleikans! Þá mundi dómurinn loga í sálu þín sjálfs, er þú jafnframt fyndir til vanmáttar þíns, því vjer megnum ekkert gegn sannleikanum, heldur fyrir sannleikann (2. Kor. 13, 8).

En hvað mundum vjer megna, er vjer stæðum einir uppi, ef sannleikurinn hefði ekki þá vörn, sem er styrkvari, enn allur

mannlegur máttur? þess vegna er það svo huggunaríkt að kalla Krist konung, því hver sem á hann trúir, veit að hann er með oss alla daga til enda veraldarinnar (Matth. 28, 20), og að honum ber að ríkja, þangað til hann hefir lagt alla óvini undir fætur sjer (1. Kor. 15, 25). Ó! hefir ekki þyrnikórónа hans blómgazt og orðið að konunglegu skarti, miklu dýrðlegra öllum þeim, sem höfðingjar þessa heims hafa borið? Tíminn hefir velt öldum sínum yfir kollvörpuð hásæti og sundruð ríki, en hans ríki stendur stöðugt í hinum ólgandi straumum. Sannlega eru það ekki menn, er fyrst hafa kallað hann konung, heldur sá, sem bæði vill og má staðfesta ríki hans að eilífu, er setti hann sjer við hægri hönd á himnum, hátt yfir öllum höfðingjadómi og yfirráðum og valdi og herratign, og öllu því, sem nafn hefir, ekki að eins í þessum heimi, heldur og í hinum ókomna, og lagði alla hluti undir fætur honum (Ef. 1, 20 o. n. v.).

---

# 53.

## KRISTIN KYRKJA.

það er alkunnugt um alla veröld, hvað við bar í Jerúsalem á hinni miklu hvítasunnuhátíð rjett eptir himnaför Krists. þegar þeir menn, er Drottinn hafði kosið sjer til postula eður eyrindsreka til nálægra og fjarlægra þjóða, höfðu af lokið hinu örðuga prófi, er hafði komið þeim til að hneixlast og efast og afneita, en ekki getað útrýmt ástinni úr hjörtum þeirra; þegar þeir voru orðnir hreinsaðir í hörmungum, og höfðu síðan öðlazt ævaranda styrk fyrir þann hinn mikla fögnuð að hafa sjeð Drottin upprisinn, og hafa sjeð hann ganga inn í dýrð Föðursins: þá bar svo við á hinni umgetnu hátíð, að andi Drottins fyllti þá, og út bjó þá

fyrst með trú og kærleika, þekkingu á sannleikanum og ákafa í góðum verkum, og síðan með þeim mætti og gáfum, sem nauðsynlegar voru til hins mikla verks, sem þeir voru til kjörnir. Þeir gengu fram og prjedikuðu í Jerúsalem fyrir þjóð sinni á hennar tungu, og þar að auk fyrir útlendum mönnum, sem þar voru staddir, á þeirra tungu. Og Drottinn var þá og síðar í verki með þeim og styrkti kenninguna með táknum, sem urðu henni samfara, og jafnskjótt tóku nokkrar þúsundir manna við trú. Upp frá þeim degi hefir kristin kyrkja verið til á jörðunni; straumar tímanna hafa ekki getað brotið hana, nje sundurþykki sundrað henni, nje árásir óvina eytt henni.

Orðið k y r k j a er nú orðið algengt orð vor á meðal; samt er það útlent, og á sjer ekki rót í voru máli. Svo er því og varið með fleiri orð, sem tíðkuð eru í kristilegum hugleiðingum. Sjálft Jesú nafn er útlent orð, þó hljómar það nú alstaðar í blíðu og í stríðu, í glaumi og skarkala lífsins, og í kyrrð og einveru dauðans, og hver maður veit, að það þýðir þann Frelsara, sem Guð sendi mönnunum. Eins er orðið kyrkja útlent og þýðir hús Drottins.

Þessu nafni nefnum vjer í fyrsta máta hvert musteri og hvert bænahús, sem er byggt Herra safnaðarins til dýrðar. Blessaðar sjeu þær hendur, sem byggðu þau og vernduðu! því í þeim geymist og frá þeim hljómar það orð, sem helgar lífið og huggar mennina. En til lítils væru húsin tóm, ef enginn söfnuður kæmi þar saman; og þenna söfnuð, sem vegsamar Drottin, og játar að hann sje Kennari sinn og Frelsari og Sáluhjálpari, köllum vjer einnig kyrkju, og postulinn líkir henni við hús, sem vex til heilags musteris í Drottni, og byggt er til bústaðar Guðs í andanum (Ef. 2, 21. 22).

K r i s t i n  k y r k j a  e ð u r  s ö f n u ð u r  K r i s t s á jörðunni er fjelag þeirra manna, sem aðhyllast Krist. Þar af sjest, að hún á sjer takmörk, það er: að hún grípur ekki yfir alla menn. Að sönnu hafa þessi takmörk færst yfrið langt út, síðan kyrkjan var stofnsett í öndverðu, þó eru til mörg lönd og margar þjóðir, sem enn eru fyrir utan takmörkin. En vjer getum ekki heldur

sagt, að allir menn í þeim löndum, sem kristnuð eru, heyri til kristinnar kyrkju. Að sönnu er kyrkjan fús á að breiða faðminn móti hverjum manni; börnin eru snemma gjörð henni áhangandi, og í uppvexti þeirra eru þeim kennd kristin fræði, menn helga í kyrkjunni inngöngu unglinganna í veröldina, og þaðan í frá leiðir margur merkisatburður mennina þangað. Allir sem þekkjast þetta, og segja sig ekki berlega út úr fjelagi kristinna manna, þeir eru kallaðir kristnir. En mættum vjer fyrir það dirfast að segja, sjerhver þeirra heyrði kristinni kyrkju til í raun rjettri? Því til eru margir, sem að öðru leyti hirða ekkert um hana; hvorki nauðsyn, nje löngun, nje skyldurækt knýr þá til að sækja þangað, þeir hlýða ekki guðsorði, nje heldur hugleiða það í kyrrþey, sál þeirra lyptir sjer ekki í hæðir, og þeir lifa og deyja í eintómum jarðneskum hugsunum. Hverju nafni sem þessir menn nefnast, getum vjer ekki talið þá með kristnum söfnuði, og Guði sje lof! að nú þröngva menn þeim ekki til að látast vera kristnir; því Drottinn vill ekki safna þeim saman, sem spotta á laun, nje heldur þeim, sem hafa hugann við allt annað, heldur að eins þeim, er tilbiðja hann viljugir. En alla þá, sem aðhyllast oss, köllum vjer fjelaga vora í þessari hinni sýnilegu kyrkju, hvort sem þeir eru meir eður minna ákafir, meir eður minna flekkaðir, vel eður illa viti bornir, því sjerhver þeirra skilur þó að nokkru leyti eðli kyrkjunnar, og að svo miklu leyti skilur hann sig við hinn tilfinningarlausa, hirðulausa eður hæðnisfulla lýð, og gengur inn í hið minna fjelagið, sem aðhyllist Krist.

Hversu dýrmæt var kyrkjan í uppvexti sínum postulum Krists! Heimurinn velktist í hinu vonda (1. Jóh. 5, 19), og það átti nú allt að eyðast, sem þangað til hafði viðhaldizt; en mitt í auðn þessari var sáðreitur tilbúinn, og þaðan átti hið nýja fræ að flytjast um allar álfur. Söfnuðurinn jókst æ meir og meir; en þó það væri gleðilegt, var það hins vegar hryggilegt að sjá, að bæði illir og góðir komu í söfnuðinn, og spillingin smeigði sjer snemma inn í hann. Hversu árvakrir voru postularnir þá, hversu alvarlega vöruðu þeir við hinu illa, og hversu alúðlega áminntu þeir til hins góða! Ef vjer, til dæmis, lesum sendibrjef postulans Pjeturs til

nokkurra af hinum kristnu söfnuðum, mun oss finnast, eins og þessi ágæti postuli, samöldungur og vottur að pínu Krists, eptir því sem hann sjálfur kallar sig (1. Pjet. 5, 1), ferðist hús úr húsi í söfnuðunum, meðal þeirra, sem undir ólíkum jarðneskum kjörum áttu að búa; hann sækir heim konur og karla, unga og gamla, herra og þjóna, kennendur og tilheyrendur, og alstaðar er ræða hans röksamleg, þó hún sje hógvær og blíð, þó hún sje alvarleg, og skraut hennar er ekki fólgið í búningi hennar, heldur sprettur hún ætíð — að vjer brúkum orðatiltæki sjálfs hans — af hinum hulda manni hjartans, í ófölnanlegu skarti hógværs og kyrrláts anda, sem dýrt er metið í Guðs augsýn (1. Pjet. 3, 4); og alltaf minnir hann alla á, eins og Móses fyrr um sína þjóð (2. Mós. 19, 5. 6), að þeir sjeu útvalin kynslóð, konunglegt prestsdæmi, heilög þjóð, samsöfnuð úr veröldinni til eignar handa Drottni, en að þeir skuli fyrir þá sök kunngjöra velgjörðir **hans**, sem leiddi þá til síns aðdáanlega ljóss, og með góðri umgengni hvetja heiðingjana til að vegsama Guð á vitjunardegi hans (1. Pjet. 2, 9. 12).

Hin kristna kyrkja hefir nú staðið í margar aldir, og vaxið og skipazt; en er nú, eptir það guðsorð hefir erfiðað og áminnt alla þá tíð, gjörvallur hinn mikli söfnuður, sem trúir á Krist, um síðir orðinn að hinni útvöldu kynslóð, hinni helgu þjóð, þeirri þjóð til eignar, sem postulinn talar um? því er miður! ekki framar enn það voru allt börn fyrirheitisins, sem áttu kyn sitt að rekja til Abrahams. Til hafa verið tímar og staðir, sem kallaðir hafa verið kristnir, en hvorki Guð nje menn hafa getað horft á með velþóknun, heldur enn á Sódóma; og þó vjer rennum huganum jafnvel til þeirra tíma og staða, þar sem kristnin hefir skinið dýrðlegast og fegurst, hver mundi dirfast að segja, að jafnvel þar hafi allir, eður að minnsta kosti flestir, verið hinir útvöldu, heilögu og ástfólgnu, sem kallaðir voru frá myrkrinu til Drottins dásamlega ljóss? Eflaust byggir enginn von sína um miskun Drottins á því einu, að hann heyri til hins mikla safnaðar, er vjer köllum Krists **sýnilegu kyrkju** á jörðunni; hver maður þekkir það, er Kristur hefir sjálfur sagt: margir eru kallaðir, en fáir útvaldir

(Matth. 19, 30). Hjá Kristi gildir ekkert nema trú, sem sýnir krapt sinn í elskunni (Gal. 5, 6), og fyrst því fer allt of fjarri, að hún sje til hjá öllum, hlýtur að vera til úrval úr hinum mikla grúa, sem að sje Drottins rjettileg eign, það er: minni söfnuður í hinum stærra, sem vjer köllum hina ósýnilegu kyrkju.

Hversu mjög sem vjer optsinnis verðum að hryggjast af spillingu kristinna manna, og hvernig sem vjer knýumst til að kvarta yfir henni hátt og sköruglega, skulum vjer aldrei, hvorki í andlegri nje stundlegri hryggð, kvarta á þann hátt, að vjer gleymum öllu því hinu góða, er Drottinn lofar oss að líta. Og þó vjer megum opt segja, „að veröldin sje döpur og dymm,“ skulum vjer einnig kannast við, „að Guð á himnum eigi sjer þá hjer á jörðunni, sem elska hann, og þó að þeir sjeu hulinn fjársjóður, sjeu þeir þó ljós í myrkri veraldarinnar.“ Því ef þessi minni söfnuður væri ekki, hvað væri það þá, er vjer gætum glaðzt af að líta, þegar vjer rennum augum yfir veröldina? Hvar mundu þau orð verða endurtekin, er vjer mælum af gnægð hjarta vors? Eða hvernig gætum vjer vænzt, að ástandið á jörðunni mundi batna, ef ekki væri til nokkurs konar helgidómur, þar er varðveita mætti hinn heilaga eld, svo að birta og ylur gæti komið þaðan á hentugum tíma? En spyrji menn, hvar þessa minna, rjetta safnaðar Krists sje að leita, getum vjer, Guði sje lof! í einu tilliti svarað, að það sje alstaðar, en í öðru tilliti verðum vjer að svara, að hann sje hvergi, ekki í neinu sýnilegu manna fjelagi, hvaða heiti sem hafa kann. Því hinum rjetta söfnuði er eins háttað og guðsríki, að hann kemur ekki svo á beri, svo menn geti þreifað á honum, eða bent til hans (Lúk. 17, 20), og þess vegna er það rjett, „að hann sje hulinn fjársjóður á jörðunni.“

Þeir hafa að sönnu verið til, sem vildu stofna söfnuði, er vera skyldu fjelög eintómra heilagra manna, af því þeir sáu spillingu hins stærra safnaðar, og grömdust hinum mörgu hneixlunum, sem í honum eru. En ef þú varpar neti í sjóinn, koma í það alls konar skepnur, ætar og óætar (Matth. 13, 47, 48); og ef þú sendir þjóna þína út á þjóðgötur að bjóða þeim, er þeir finna, til kvöld-

verðar, verða þeir að safna saman illum og góðum (Matth. 22, 9. 10). Ættum vjer þá að gjöra dyrnar mjóar og inngönguna torvelda, svo að vjer getum einir saman haft not kyrkjunnar? Eða viljum vjer ekki kalla saman æ fleiri, svo að húsið verði fullt, og svo margir sem auðið er verði hluttakandi í gæðum þess? En þegar margir koma saman frá austri og vestri, eins og vjer óskum þeir gjöri, þar sem kristin kyrkja á hlutinn að, þá verður að vera, margir komi ómaklegir innan um. Eða ættum vjer að setja dómarasæti við kyrkjudyrnar, þar er vjer mennirnir mættum dæma og áfella, kjósa og útskúfa? Ó, látið Drottin gjöra það, þegar hann kemur að skoða boðsmennina, því hann einn þekkir hjörtu mannanna, og hann einn getur dæmt rjettláta dóma! Hvað stoðaði það, þó vjer værum harðir í dómum vorum um hegðun manna, úr því vjer yrðum að hleypa inn Fariseunum, sem eru öðrum fremri að lýtalausri hegðun, en yrðum að banna tollheimtumanninum inngöngu; þó vjer værum vandlætingasamir við hinn lítilmótlega og fátæka, er vjer þyrðum óhult að segja um það er oss litist, en hneigðum höfðingjum og ríkismönnum, og leiddum þá í hin ágætustu sæti? Það er ekki ritað, að Drottinn vor og Meistari hafi sagt, vjer skyldum lesa illgresið úr hveitinu, heldur að hann hafi varað oss við því, með því vjer kynnum þá hæglega að rífa upp hveitið með — að hann hafi sagt: látið hvorttveggja vaxa saman til kornskerunnar (Matth. 13, 29. 30)! Guð lætur sólina skína yfir illa og góða, og lætur rigna yfir rjettláta og rangláta (Matth. 5, 45); á líkan hátt skal sól Krists skína í kyrkjunni yfir alla, sem þangað vilja koma, hvort sem þeir eru þess maklegir eður ekki, að hún megi lýsa þeim og lífga þá alla, ef þess væri auðið. Eins og Guð er þolinmóður og segir ekki við nokkurn syndara fyrr enn á dómsdegi, að honum sje útskúfað: eins eigum vjer ekki heldur að útskúfa syndurunum, heldur greiða þeim eptir mætti inngöngu í kyrkjur vorar, og breiða faðm vorn móti hverjum, sem koma vill, og leitast við að vera öllum allt, eins og postulinn að orði kemst, til þess vjer getum frelsað nokkra (1. Kor. 9, 22).

Fyrir þá sök skulum vjer gefa gætur hverjir að öðrum, og uppörfa hver annan til kærleika og góðra verka, og yfirgefa ekki

söfnuð vorn, eins og sumra er siður til, heldur áminna hver annan (Hebr. 10, 24. 25). Ef vjer vildum slíta sundur band það, er tengir oss alla saman, og stofna nýjar kyrkjur vegna hvers ágreinings, breyttum vjer gagnstætt tilgangi Drottins vors, sem vill, að hjörðin verði ein, eins og hirðirinn er einn (Jóh. 10, 16). Hefðu postularnir útskúfað sjerhverjum, sem Kristur var ekki orðinn myndaður í (Gal. 4, 19), hversu marga hefðu þeir þá getað tekið í söfnuðinn? Hin sýnilega kyrkja Krists er stofnuð, til að kalla syndara til apturhvarfs og frelsunar, og styrkja þá í sannleikanum, sem hafa veitt honum viðtökur. Ef einhver vill ekki koma, skulum vjer ekki þrýsta honum til þess; ef einhver trúarleysingi byrgir eyru sín og fer burt, þá látum hann skiljast frá hinum (1. Kor. 7, 15). En hver, sem heyra vill, finnur, að það er eitthvað, sem heldur honum, að hann á eitthvað óútkljáð við oss, sem útkljá mætti, og þá eigum vjer að reyna til að hylla hann að oss, en fæla hann ekki frá oss, þá eigum vjer að minnast orða postulans, er hann segir, að kærleikurinn umberi allt, trúi öllu, voni allt og þoli allt (1. Kor. 13, 7). En ef vjer slítum bönd kærleikans, þá er öll sáttarvon úti. Aldrei getum vjer, hvort sem er, stofnað þá kyrkju á jörðunni, sem sje án lýta eður galla eður hneixlana. Þó ekki færu til nema tveir eða þrír, og stofnuðu fjelag, er þeir ætluðu að geyma við öllum hneixlunum, og enga taka í nema þá eina, er þeir hjeldu væru í tölu hinna útvöldu, mundi samt óvinurinn koma, því hann sefur ekki, og engar líkamlegar skorður fá varnað honum inngöngu. Þess vegna þekkjum vjer ekkert fjelag, hversu sjerstakt sem vera kynni, sem vjer getum vísað til, og sagt um með sanni, að það sje hinn rjetti Ísrael, hinn minni söfnuðurinn, sem engir sjeu í, nema útvaldir og heilagir ástvinir Guðs.

En þó vjer finnum hvergi nokkurn söfnuð, er á þann hátt sje fráskilinn hinum stærra, að hann sje líka fráskilinn allri spillingu, getum vjer þó með sanni sagt, að hinn rjetti kristni söfnuður sje alstaðar mitt í hinum stærra. Guði sje lof! þeir eru til í öllum áttum, er þekkja það og þrá, sem háleitara er, enn að seðjast ávöxtum jarðarinnar, og ekki halda, þeir hafi aflað sjer hins sanna auðs, þó þeir hafi safnað fjársjóðum á jörðinni, nje heldur, að

þeir hafi náð takmarkinu, þó þeir hafi komizt æ hærra og hærra í hinum hála stiga mannlegra metorða. þeir eru til í öllum áttum, sem trúa Guði; þeir hafa sjeð vott hans allt í kringum sig, þeir hafa heyrt rödd hans í hugskotum sínum, meðvitundin um Guð hefir æ meir og meir gagntekið eðli þeirra, svo að þeir finna, vjer lifum, hrærumst og erum í Guði; þegar fögnuður vitjar hjartna þeirra og híbýla, vitjar Guð þeirra einnig, því þeir vita og kannast við, að allt, sem veitir þeim fögnuð, er gjöf guðlegrar miskunar; og þegar hryggðin kemur, kemur Guð með henni, og er hæli þeirra og huggun, og þeir lúta honum og lofa ráðstafanir hans, enda þótt þær sjeu þeim óskiljanlegar. þeir eru til í öllum áttum, sem hafa fundið, að þeir þörfnuðust þess orðs, sem hefir það vald, sem æðra er mannlegu valdi, en það er guðsorð; sem hafa fundið, að þeir þörfnuðust frelsunar frá synd og glötun, sem enginn maður gæti afrekað þeim; sem hafa leitað Guðs, af því þeir sáu merki hans um alla veröldina, og leitað þangað til þeir hafa fundið hann harla nærri, og hina dýrðlegustu opinberun hans, og þeir hafa fundið til þýðingar þeirra orða, að Guð hafi sætt heiminn við sjálfan sig í Kristi (2. Kor. 5, 19). þeir hafa ekki aðhyllzt Krist, af því það varð siður meðal mannanna, að kalla hann Drottin og Frelsara, heldur af því þeir kölluðu hann það með sjálfum sjer; þar af kemur, að þó að straumurinn fari að renna í aðra átt, segja þeir samt í fullri alvöru: vjer þekkjum engan annan, er vjer getum leitað til. þeir eru til í öllum áttum, sem ekki að eins hafa kallað Krist Drottin sinn, heldur og þótzt skyldir að gjöra það hann býður, og hafa leitazt við og munu leitazt við, að gjöra sálir sínar að musteri handa Guðs anda, svo kristin speki og rjettvísi og ást og staðfesta og þolinmæði megi búa þar, og sýna sig í líferni þeirra, sem aldrei þykjast hafa gjört nóg, nje vera orðnir fullkomnir, heldur gleyma því, sem er á bak við þá, og sækjast eptir því, sem er fram undan, og leitast þannig við að nálægjast takmark sitt meir og meir. Allir þessir menn eru einn söfnuður, hvað ólíkir sem vera kunna, því þeir eiga allir saman, með því þeir eru sameinaðir í einni trú og einni von undir einum Drottni;

þeir eru hinn minni söfnuðurinn í hinum stærra, sem Drottinn hefir velþóknun á.

Nú ef vjer viljum reyna, hver til Krists safnaðar heyri, þá látum oss einkum reyna sjálfa oss, því þú skalt ekki leitast við að bægja öðrum frá hinni sýnilegu kyrkju, heldur skaltu reyna til að útvega sjálfum þjer hlutskipti í hinni ósýnilegu; því allt ágæti vort er í því fólgið, að vjer heyrum til hins sanna safnaðar Krists. Til þess eigum vjer að hjálpa hver öðrum, og hin sýnilega kyrkja er einmitt ætluð til að sameina viðleitni margra, svo að vjer getum vaxið til Krists, sem er höfuðið, sannleikanum trúir í kærleika (Ef. 4, 15). Verði þá nokkrum yðar eitthvað á af breiskleika, þá leiðrjettið þjer, sem andlegir eruð, hann með hógværð, en sjerhver gæti að sjálfum sjer, að hann leiðist ekki til syndar (Gal. 6, 1). Ekkert er eins viðbjóðslegt og dramb og hatur og drottnunargirni og lastmælgi. En verðum vjer fyrir því í veröldinni, bregður oss ekki við það, því við því er að búast í heiminum; aptur á mót megum vjer vonast eptir öðru í kristinni kyrkju, því þar eiga menn að temja vondar girndir, en ekki að láta eptir þeim. Ó þjer, sem viljið vera hinn sanni söfnuður Krists, minnizt þess, að þjer eigið að vera útvalin kynslóð, heilagt fólk, kjörið til eignar handa þeim, er yður hefir leitt úr myrkrinu til síns aðdáanlega ljóss! Yður mun opt finnast, að þjer sjeuð ókunnugir og útlendir á jörðunni, því múgurinn skilur ekki hvað það er, sem fyllir sálir yðrar, og þykir ekkert varið í það, sem þjer verjið til lífi yðru. Þess fremur skuluð þjer leitast við að öðlast óðal í hinum minna söfnuði, sem ekki gjörir sig frábrugðinn að líkamlegu látæði, heldur að ódauðlegu eðli hægláts og hógværs anda; þess fremur skuluð þjer stunda, að eiga frið við þá, sem ákalla Drottin af hreinu hjarta. Því hvað ættum vjer, þó oss væri auðið að eignast allt, ef oss vantaði kærleikann? Gæti það verið — sem ekki er — að vjer hefðum næga vizku til að skilja alla leyndardóma, og hefðum þá trú, sem gæti flutt fjöll úr stað, og þó vjer megnuðum að gjöra kraptaverk, og ljetum þeyta lúður fyrir oss, svo menn sæu góðverk vor: hvað stoðaði það allt saman, ef kærleikurinn yrði því ekki samfara?

---

# 54.

## GUÐSORÐ OG BOÐUN ÞESS.

Kynslóð sú, sem nú er uppi, hefir lifað hina þriðju fagnaðarhátíð, er haldin hefir verið til minningar um mikilvæga endurnýjung og lagfæring í kristinni kyrkju, því þá voru liðnar þrjár aldir, frá því er Guð vakti þá menn, sem áttu að vera þjónar hans að þessu verki. Sjerhver endurminningar dagur, sem settur er til minningar um þá hluti, sem orðið hafa fyrir löngu síðan, færir oss huggun og gleði. Vjer sjáum alstaðar votta þess, hvað mannlegir hlutir eru skammvinnir. Þær byggingar hafa verið til, sem menn ætluðu að standa mundu um aldur og æfi, og eru samt hrapaðar til grunna; og þau afreksverk hafa verið framin, er allur lýður hefir starað á með hinni mestu undrun, en eru nú komin í gleymsku, svo þeir einir þekkja þau, sem rannsaka liðnar aldir, og mörg þeirra eru jafnvel með öllu horfin; þau nöfn hafa verið til, er eitt sinn voru á allra vörum, en nú nefnir enginn þau framar. En það er og til, sem stendur stöðugt og talað er um og lætur sjá afleiðingar sínar, löngu seinna enn sá, sem það framdi, er genginn á burt. Postulinn segir, eldurinn muni reyna hvílíkar að sjeu athafnir sjerhvers manns (1. Kor. 3, 13). Hræringar tímans eru eyðandi eldur, og hin ótrausta bygging verður honum skjótt að bráð, hversu mikið hjegómaskraut sem á henni skín; en traustir steinar eru og til, sem tímalengdin fær ekki unnið á.

Drottinn vor segir í annari líkingu: Sjerhvað, sem minn himneskur Faðir hefir ekki gróðursett, hlýtur að verða upprætt (Matth. 15, 13). Sjerhvað, sem sprottið er af hinu hverfula, á þegar í uppruna sínum fyrir sjer að hverfa; sjerhvað, sem á að standa stöðugt, hlýtur að vera reist á því, sem staðfast er, hið sama og eilífa hlýtur að birtast í því. Þannig hefir kyrkja Krists staðið stöðug, eins og höfundur hennar hafði fyrir sagt, að öll völd helvítis skyldu aldrei á henni sigrast (Matth. 16, 18); þannig hefir og guðsorð stöðugt staðið, eins og sá hafði fyrir sagt, sem sendur

var að boða það með öllum þeim fullkomleik og afli, sem því fylgir, er hann komst svo að orði: himininn og jörðin munu líða undir lok, en mín orð munu aldrei undir lok líða (Matth. 24, 35). Og þegar vjer með alvörugefni hugsum um Krists kyrkju og guðsorð, þá leiðumst vjer sjálfkrafa til að hugsa um það verk, er jeg nefndi rjett fyrir skömmu, hið mikla og dýrðlega og staðfasta endurbótaverk kyrkjunnar.

Hversu optlega hefir Guð kjörið það, sem fyrirlitið var í heimsins augum, til þess að gjöra hinu volduga kinnroða (1. Kor. 1, 27. 28). Sízt uggði það hina drambsömu menn, er höfðu verið svo óskammfeilnir, að setjast á veldisstól Krists, og leitazt við að ávinna sjer öll ríki veraldarinnar og dýrð þeirra í nafni Drottins vors, þótt þeir vissu, að ríki hans væri ekki af þessum heimi — sízt uggði þá, að munkur sá, er þeir hjeldu að þegar mundi falla fyrir einni bannsetningu, mundi kveikja þann eld, er brenna mundi byggingar þeirra, og gjöreyða allri dýrð þeirra. Og sízt vissi þessi hinn ráðvandi maður það sjálfur í fyrstunni, að ákafi sá, sem í honum brann, væri guðleg köllun, er leiða ætti til svo ávaxtarsamra afreksverka. Því Lúter átti ekkert skylt við hjegómagjarna trúarvinglsmenn, heldur veitti hann þeim mótstöðu með öllu hinu mikla þreki og glöggskyggni sálar sinnar. Hann girntist ekki að skrýða sig neins konar heilögum dýrðarljóma, hann þóttist ekki vera spámaður, og hafði hvorki vitranir nje opinberanir frá að segja; hann vildi ekki styðjast við annað enn Drottin sinn og Frelsara, og hans heilaga og sáluhjálplega orð, og samkvæmt þessu orði vildi hann reisa kyrkju Frelsara síns.

Því, sem er gefið oss af guðlegri náð, því, sem áunnið er með erfiðismunum og baráttu ágætra manna, því eigum vjer að halda fastlega, og gjöra ekki lítið úr því, og láta það ekki viðgangast, að ofurefli nje svik svipti oss því aptur. Og þar sem vjer nú erum játendur þeirrar kyrkju, er minnist Lúters með svo mikilli þakklátsemi, að hún setur hann næstan postulum Drottins, þá ber oss að vita það og skilja og finna til þess, hverju hann hefir til leiðar komið fyrir oss, hvílíkt ok hann hefir af oss brotið,

og hvernig hann leitaðist við að koma kyrkjunni aptur í það lag, að hún gæti náð hinum rjetta tilgangi sínum.

Krists kyrkja er samfjelag, er mönnunum ber að taka hlutdeild í. Þetta segjum vjer með eins miklum rjetti, eins og vjer segjum í öðru tilliti, að maðurinn sje ekki ætlaður til að lifa einn útaf fyrir sig; Guð hefir ekki skapað oss til þess, vjer skulum gjöra oss fráskila öðrum mönnum, heldur til þess, vjer skulum leggja fjelag vor á meðal, og hjálpa öðrum og þyggja sjálfir hjálp í þessu samfjelagi, með Guðs aðstoð. Þú átt ekki að fara á eyðimörku og byggja þjer þar kofa, eins og einsetumaður, heldur átt þú að reisa byggð þína í margmenninu, og leitast við að safna að þjer þeim, er sjeu vinir þínir, svo þjer getið aðstoðað hverjir aðra á lífsleið yðvarri. Þú átt ekki, þótt þú gætir, að taka þig út úr mannlegu þjóðfjelagi, heldur áttu að vera því til liðs af öllum mætti, og leitast við að endurgjalda samþegnum þínum að nokkru leyti hin miklu gæði, sem fjelagið við þá veitir þjer. En nái nú stundleg farsæld ekki að þróast, nema margir leggist á einn taum, hvernig ætti þá hin andlega farsæld að geta það? Það er eins örðugt, ef margir hjálpast ekki að því, að finna sannleikann og leiða hann í ljós og greiða úr honum, og gjöra hann ávaxtarsaman í mannlegu lífi, eins og að brjóta gullið upp úr fjölluuum, hreinsa það og smíða úr því gersemar, er ekki verður gjört nema margir starfi að því. Samfjelag það, sem mennirnir ganga í, til að öðlast þekkingu á þeim sanuleika, sem guðsótta eflir, og gjöra hann æ ljósari og ávaxtarsamari í mannlegu lífi, til vizku og betrunar og huggunar, það köllum vjer kyrkju.

En þegar menn gjöra fjelagskap, hljóta þeir að koma sjer saman um eitthvað, þeir verða að hafa eitthvað fast og stöðugt sín á milli til grundvallar fjelagi sínu, annars væri eintómt sundurlyndi og flokkadrættir þeirra á milli, en als engin sameining. Engin kyrkja á að vera, nje má vera, slík samkoma manna, að hver segi þar og gjöri það, sem honum lízt, án laga og reglugjörðar. Sjerhvert hús hlýtur að eiga sjer undirstöðu, eigi það ekki að hrynja. Og hver er þá undirstaða kyrkju Krists? Vjer nefnum hana um leið og vjer spyrjum eptir henni; í Krists kyrkju getur

enginn lagt annan grundvöll enn þann, sem lagður er, og það er Jesús Kristur (1. Kor. 3, 11). Sje hann ekki sá, er vjer söfnumst að, og köllum Drottin vorn og Meistara, og látum orð hans leiðbeina oss, og leitum oss frelsunar í því, sem hann hefir afrekað, þá gætum vjer kennt og ættum að kenna kyrkjuna við einhvern annan enn hann. Væri nú Drottinn vor og Meistari sýnilega nálægur á meðal vor, þá mundum vjer setjast við fætur honum, og nema af honum, og spyrja hann um sjerhvert mál, og hlýða hverri bendingu hans. En vjer vitum, að hann sagði þegar við postula sína, þeim væri það til góðs, að hann færi burt, því með því einu móti gæti heilagur Andi komið til þeirra (Jóh. 16, 7); einungis með því móti að verða reyndir sjálfir, og venjast við íhugun og áreynslu gætu þeir orðið hæfir til að taka fyllilega við áhrifum heilags Anda, og verða gagnteknir af sannleikanum, og alast svo upp, sem frjálsar verur, til guðsríkis. Þannig væri það oss ekki heldur til góðs, að vjer gætum jafnan öðlazt nýjar opinberanir, og þyrftum ekki sjálfir að leita sannleikans, og greiða hann með umhugsun vorri út úr orðum Drottins, sem allir fjársjóðir vizkunnar og þekkingarinnar eru í fólgnir (Kól. 2, 3). En þar sem nú herra kyrkju vorrar er ekki sýnilega nálægur vor á meðal, hljótum vjer að hlýða á vitnisburðinn um hann og kenningu hans. Þenna vitnisburð hittum vjer fyrst, að vísu nokkuð myrkan, en eigi að síður mikilvægan og sannorðan í bókum spámannanna, sem Guð sendi á undan Drottni vorum til að greiða götu hans; og því næst finnum vjer hann ljósari og fullkomnari í orðum postulanna, er Kristur sjálfur sendi út sem votta sína, þegar hann var kominn í heiminn, og gaf þeim vald til að stofna kyrkju hans. Því segir Páll postuli, er hann minnist á söfnuð þann, sem orðinn var til úr Gyðingum og heiðingjum, að hann væri reistur á grundvelli postulanna og spámannanna á þann hátt, að Jesús Kristur væri sjálfur aðalhyrningarsteinninn (Ef. 2, 10). Meðan postularnir lifðu og prjedikuðu, voru þeir vottar Drottins vors og orða hans og kenningar, en af því kyrkja Krists átti að standa um allar aldir, og af því vitnisburður postulanna mundi bráðum hafa orðið aflaga borinn, ef að eins munnlegri sögusögn frá einni kynslóð til annarar

hefði verið trúað fyrir honum, þá hefir guðleg forsjón sjeð svo um að hann yrði ritaður á helgar bækur, og þessar bækur varðveittar í öllum byltingum liðins tíma. En þegar nú þessar helgu bækur höfðu af mannlegu vjelræði verið faldar fyrir almenningi, svo fáeinum að eins var leyft að lesa þær rjett fyrir náð, þá komu þeir Lúter og aðstoðarmenn hans aptur fram með þær, og luku þeim upp fyrir allri þjóðinni í landinu; og þegar mannlegar setningar voru komnar í stað guðsorða, og hinir blindu leiðtogar leiddu með þeim hina blindu, þá komu þessir miklu menn fram er æ munu í minni vera, og gjörðu það að órjúfanlegri reglu, að guðsorð í hinum helgu bókum spámannanna og postulanna og ekkert annað skuli vera grundvöllur kyrkju vorrar. Einungis með því móti, að þessari reglu sje fylgt, verður Jesús Kristur sjálfur aðalhyrningarsteinninn.

„Ekkert annað“ — þetta eru þeir fúsir á að hafa eptir nú á dögum, sem fegnir vilja taka burt hvað af öðru, þangað til ekkert verður eptir. En þessi orð eru að eins neitunin; þau miða einungis til að verja villukenningum inngöngu í kyrkjuna; látum oss ekki gleyma hinu, sem er fullt eins áríðandi, það er: hvað það sje, sem hin sanna kenning er á byggð. Kyrkja Krists á ekki svo sem að hanga í loptinu, eður vera reist á sandi; hún er ekki heldur nýtt hús, er nú eigi fyrst að leggja grundvöllinn að, svo hver sem vill geti lagt sín ráð og sinn skerf til þess; heldur er grundvöllurinn lagður fyrir löngu, og enginn getur lagt annan grundvöll enn þann, sem lagður er. En það er guðsorð í hinum helgu bókum spámannanna og postulanna. Bækur spámannanna eru að vísu gamlar og myrkar í mörgu tilliti; og úr því, sem vandskilið er í þeim, má sjerhver, sem hefir þekking og skilning, leitast við að greiða, eins vel og honum er auðið; mörg ein frásaga og margt orðatiltæki mun jafnan verða nokkrum efa undirorpið, og í tilliti til þess, sem ekki snertir sjálft guðsorð, viljum vjer gjarnan veita hverjum fullt frelsi. En öldungis berlega geyma þessar gömlu ritningar guðlega opinberun, sjerlega boðun frá guðlegri veru til mannanna, frábrugðna hinni náttúrlegu í hinum sýnilega heimi, í skynseminni og samvizkunni; öldungis berlega benda þær til þess,

sem koma átti í fyllingu tímans og verða öllum þjóðum til blessunar; Drottinn Jehóva segir jafnan fyrir munn spámannanna: Sjá, jeg set undirstöðustein í Zíon, reyndan stein, dýrðlegan hyrningarstein, fullkomlega fastan, hver sem trúir þarf ekkert að óttast (Es. 28, 16)! Ef nokkur reynir til að ónýta þenna vitnisburð, þá leitast hann við að hagga undirstöðu Krists kyrkju; að vísu fær hann ekki rofið hana, því hún er óbifanleg um aldur og æfi, en verið getur hann veikli trú annara ásamt með trú sín sjálfs. Það liggur, eins og postulinn að orði kemst, skýla fyrir augum hans við lestur hins gamla testamentis, því einungis fyrir Krist verður henni af honum svipt (2. Kor. 3, 14); og hvað getur hann þá fundið í bókum hins nýja sáttmála, er ekki styðjist að öllu leyti við gamla testamentið, og postularnir vísa jafnan til ritninga spámannanna, er fullar sjeu af guðlegum innblæstri (2. Tím. 3, 16), og segja jafnan: vjer höfum fundið þann, sem skráð er um í bókum lögmálsins og spámannanna (Jóh. 1, 46), og Drottinn vor og meðalgangari þýddi sjálfur lærisveinum sínum það, sem um hann var skráð í öllum ritningum spámannanna (Lúk. 24, 27). En ef nokkur leitast við að afmá, ekki að eins vald hinna fornu spádóma heldur og vald Krists orða og vitnisburðar postulanna, ef hann kannast ekki við neitt í þessu, sem honum sje æðra og hann eigi að leitast við að fá skilið, en megi ekki dirfast að taka neitt burt af því, þó hann geti ekki gripið það, sem á að vera leiðbeining rannsókna hans og regla lífernis hans: þá getur trú hans ekki orðið kristileg, því hún er ekki byggð á kristilegri undirstöðu. Lotning er eðli allrar guðhræðslu; hinn guðhræddi lýtur Guði, og dirfist ekki að deila á skepnu Guðs, nje á guðlega handleiðslu, þótt það sje sumt í þessu efni, sem skammsýnn skilningur hans fái ekki skilið, nje sjái til hvers vera eigi; þannig nálægir sig og kristinn maður orðum Drottins með lotningu, hann viðurkennir, að þau sjeu sett til vitnisburðar handa öllum kynslóðum, hann viðurkennir, að í þeim sjeu orð hins eilífa lífs, hann leitast við að skilja þau æ ljósar og fullkomnar; en sje svo nokkuð, er honum sje myrkt og torskilið, þá þegir hann og veit, að meiri þekking og reynsla getur kennt margt, sem vjer höfum ekki áður getað

skilið, hann veit, að hjer á jörðu er mörg háleit og heilög ræða, sem oss er myrk og fyrst verður úr greitt, þegar vjer í öðrum heimi fáum að skoða augliti til auglitis. Hvernig sem á stendur, eigum vjer að forðast að rýra guðsorð, þangað til það verður ekki ofvaxið skynsemi vorri, eins og hún nú er, en kappkosta heldur að auka skynsemi vora, svo að hún fái gripið fyllingu Guðs orða.

Undirstaða kyrkju Krists er þá guðsorð, sem varðveitt er handa oss í hinum helgu ritningum spámannanna og postulanna; og svo ekki neitt annað. Eður hvað ættum vjer að setja til jafns við það? ætti það að vera fornar sögusagnir, er gengið hefðu munn frá munni? En hvar finnum vjer slíkar, er á allan hátt sjeu trúanlegar, og vjer getum nokkuð af lært í raun rjettri? það hefir sýnt sig of vel, hvílíka byrði leggja má á samvizkur manna, og hvílíkur samsetningur getur komið í stað hinna guðlegu sanninda, ef farið er að meta sögusagnirnar til jafns við hið staðfesta guðsorð. Eður eigum vjer þá að vonast eptir nýjum opinberunum? Ó! þá væri alls konar trúarvingli leyfð innganga í kyrkju Krists. Ekkert fyrirheit er til, sem boði komu nýrra spámanna, og enginn hefir heldur enn komið í ljós, er hafi getað staðfezt sendingu sína, eður haft nokkurt þvílíkt tákn í för með sjer, er hafi getað gjört einlæga vini sannleikans efablandna; þeir sem hafa dregið að sjer fávísa menn með hjegómlegum brögðum, hafa skjótt orðið sjer til minnkunar, ásamt með hinum blindu áhangendum sínum. Eður hefir kyrkjan sjálf ótakmarkað atkvæði, svo henni sje frjálst að bæta nokkru við guðsorð, og meta svo viðbætirinn til jafns við það? Vjer trúum því sannlega, að Guðs helgur Andi sje enn þá máttugur í kyrkju Krists, og í sjerhverjum manni, sem einlæglega lýkur upp hjarta sínu fyrir honum; en kyrkja Krists er mannlegt samfjelag, og í öllu því, sem mannlegt er, getur villan hæglega blandazt saman við sannleikann. það á því hjer við sem annarstaðar, að vjer eigum að rannsaka alla hluti, og halda einungis hinu góða (1. þess. 4, 1). En þegar vjer ætlum að gjöra þessa rannsókn, þegar vjer ætlum að greina sannleikann frá villunni, þá ber aptur að því, að vjer höfum ekkert að miða við, nema guðsorð sjálft, sem er og verður hin eina og

órjúfanlega regla fyrir öllu því, sem kenna á í kyrkjunni. Sjeu nokkrar aðrar bækur, er vjer álítum að sjeu sönn játning kristinnar trúar, þá kemur það til af því, að þær eru samhljóða guðsorði, sem að eitt saman er undirstaða kyrkju Krists.

En á þessari undirstöðu ber oss að byggja. Borg Guðs er ekki komin albúin niður til vor af himni, svo vjer þurfum ekkert að gjöra, nema horfa á; heldur á kyrkja Krists, eins og allt, sem er gott og fagurt á jörðunni, að eflast æ meir og meir af mannlegri tilstilli, eptir leiðbeiningu orða hans og með aðstoð Anda hans. Postulinn kallar kyrkjuna musteri Guðs, en hann segir ekki musteri þetta sje þegar algjört, heldur segir hann, að á undirstöðu sinni vaxi öll þessi bygging til heilags musteris í Drottni (Ef. 2, 21). Hann segir, að Drottinn vor hafi gjört suma að postulum, suma að spámönnum, suma að guðspjallamönnum, suma að hirðurum og kennimönnum, til fullkomnunar heilögum, til forstöðu embættisins, til uppbyggingar líkama Krists, þangað til vjer öðlumst allir eining í trúnni og viðurkenningu Guðssonar, og höfum náð fullorðins aldri og fullkomnum þroska Krists safnaðar (Ef. 4, 11 og nn. vv.). Guðsorð á ekki að liggja í felum, það á að koma í ljós og verða bæði prjedikað og heyrt. Og vjer eigum ekki að prjedika á þann hátt, að vjer einungis lesum upp heilaga ritningu, heldur eigum vjer að þýða sannleika þann, sem hún hefir að geyma, útskýra hann á vora tungu, heimfæra hann til vorra tíma og vors ástands, og leitast við að leiða hann inn í hjörtu mannanna, svo hann geti orðið ávaxtarsamur í trú og líferni þeirra. Þetta er gjört með mörgu móti í söfnuðunum, til þess eru einkum hinar einstöku kyrkjur reistar alstaðar í kristnum löndum er kristin alþýða kemur saman í til að heyra guðsorð prjedikað, og til þess eru þeir settir, sem postulinn kallar hirðara og kennimenn. Því svo sannarlega sem Guð er ekki Guð óreglunnar, heldur Guð friðarins, og svo sannarlega sem allt í kyrkjunni á að fara fram með sómasemi og reglu (1. Kor. 14, 33), svo sannarlega má ekki sjerhver dirfast að troða sjer fram til að kenna. Mundu allir vera kennimenn? segir Páll postuli (1. Kor. 12, 29), og annar postuli segir: bræður mínir! margir yðar gjöri sig ekki að kenni-

mönnum og viti, að ábyrgðarhluti vor verður meiri (Jak. 3, 1). Hið mikilvæga og heilaga embætti, að kenna í kyrkjunni, útheimtir slíka þekkingu, að sjerhver maður hefir hana ekki til að bera, og slíka ástundun, er sjerhver hefir ekki haft nje mun hafa. En þótt einstakir menn sjeu settir einmitt til þessa starfs, hafa þeir samt engan veginn lykil þekkingarinnar svo algjörlega á sínu valdi, að þeir einir skuli ljúka upp og loka, og þótt sjerhver maður eigi ekki að taka sjer dómaravald í kyrkjunni, þá á samt sjerhver að rannsaka, hverju hann trúi sjer til sáluhjálpar og rannsaka það, samkvæmt því orði, sem allir menn nú um stundir, Guði sje lof! geta að komizt, samkvæmt hans orði, sem er leiðtogi allra vor (Matth. 23, 8). Enginn getur lagt annan grundvöll enn þann, sem lagður er, og ekki er lagður af eintómum manna höndum; en á þessum grundvelli verður, eins og postulinn segir, byggt úr gulli og silfri og dýrmætum steinum, en líka úr trje og hálmi; sjerhver hyggi að, hvernig hann byggir, því það mun verða rannsakað, hvílíkt að sje verk sjerhvers manns (1. Kor. 3, 10 o. n. v.). Ó, þú Andi sannleikans! yfirgefðu oss ekki að verki voru, svo það fái staðizt rannsóknina. Því ef vjer sækjum dýrmæta steina í djúp sannleikans og byggjum úr þeim, þá mun það standa stöðugt, er vjer byggjum, dagsljósið mun skína blíðlega á það, og eldurinn mun ekki fá eytt því; en ef vjer byggjum úr trje og hálmi, þá sýnir dagsbirtan hjegóma vorn, og það sem vjer byggjum, sundrast óðar enn það rís. Vjer erum kallaðir til að standa í gegn lyginni, og eigum að leitast við að rífa það allt niður, sem hún hefir reist. En látum oss aldrei gleyma því, að vjer erum engu síður kallaðir til að styðja og styrkja sannleikann, enn til að eyða villunni, og vökum og biðjum, svo vjer reynum ekki til að rífa neitt það niður, sem reist hefir verið eptir reglu sannleikans. Það er skammrar stundar verk að rjúfa, en lengi verið að reisa aptur. Og eins og Drottinn vor og Meistari sagði um sjálfan sig, að hann væri ekki kominn til að ónýta lögmálið, heldur til að fullkomna það (Matth. 5, 17.), svo eigum vjer og að forðast að afmá neitt af því, sem áunnið er, hversu lítið sem vera kynni, heldur kappkosta að fullkomna það allt samkvæmt Guðs

vilja. Sjerhver rannsaki fyrst og framast verk sín sjálfs, áður enn hann fer að rannsaka verk annara, svo það fái staðizt rannsóknina. Látum oss um fram alla hluti leitast við að efla lotninguna fyrir því orði, sem á að vera aðstoð vor í umróti tímanna, og athvarf vort í sjerhverri neyð, og leiðbeining vor í rannsókn vorri, og regla vor í líferni voru, og huggun vor í lífi og í dauða.

---

## 55.

### SKÍRNIN.

Eins og morgunstjarnan boðar daginn, og segir fyrir, að sólin muni upp renna innan skamms og skína yfir öll ríki veraldarinnar, eins boðaði koma Jóhannes skírara, að sá væri í nánd, er feðurnir hefðu átt von á. Jóhannes var ekki ljósið, heldur átti hann að vitna um ljósið (Jóh. 1, 8); hann var ekki Kristur, heldur var hann sendur á undan honum (Jóh. 3, 28), til að greiða honum veg. Hann var spámaður, og þó miklu meiri enn hinir fyrri spámenn (Matth. 11, 9), því sjerhver hinna fyrri spámanna hafði sagt fyrir óljósum orðum, hvað einhvern tíma mundi fram koma, en Jóhannes benti á það, er þegar átti að birtast, svo segjandi: Sá er nú kominn meðal yðar, sem þjer þekkið ekki, sá sem koma mun eptir mig, og hefir verið á undan mjer, hans skóþvengi em jeg ekki verðugur að leysa (Jóh. 1, 26. 27). Og með því Jóhannes skyldi kallast spámaður hins hæsta, og vera fyrirrennari Drottins vors og búa honum veg (Lúk. 1, 76), fyrirleit hann snemmindis veraldlegan munað og veraldlegan hagnað, hann var á eyðimörkum og herti þar líkama sinn til íbúðar hinni styrku sál, þar gekk hann fram í krapti og anda Elíasar (Lúk. 1, 17), þar hóf hann upp rödd sína, og allur Gyðingalýður dreif til hans. En hann prjedikaði ekki til þess, að safna að sjer forvitnum mönnum og hrífa á þá um stundar sakir, heldur sagði hann: ef þjer viljið umflýja

tilkommandi reiði, þá verðið þjer að bera þá ávöxtu, er sambjóði betruðu hugarfari (Matth. 3, 7. 8). Og til að gjöra greinarmun á þeim, er einungis mundu segja, að þeir hefðu heyrt prjedikun Jóhannesar eins og aðrir, og hinna, er mundu íhuga hana og laga þar eptir breytni sína, þá tók hann upp skírnina úti á eyðimörkum Júdeulands.

það er mönnum ókunnugt, hvort að skírnin tíðkaðist áður með Gyðingum; en ef svo hefir verið, þá hafa þeir ekki skírt aðra enn heiðingja þá, er tóku trú þeirra; því sjálfa sig álitu þeir heilaga þjóð og Guði þóknanlega, þá er ekki þyrfti að hreinsast í skírninni. þar í mót vitnaði Jóhannes, að þeim væri það engin líkn, þó þeir væru kallaðir börn Abrahams; exin, segir hann, ríður þegar að rótum trjánna, og hvert það trje, sem ekki ber góðan ávöxt, verður upp höggvið og í eld kastað (Matth. 3, 9. 10). Hann hafði skírnina til þess að merkja það, er hann heimtaði, því eins og vatnið hefir þá náttúru, að það eyðir saurindum, eins skyldu þeir, sem fyrir skírnina teknir yrðu í hið nýja fjelag, hreinsast af andlegum saurindum og helgast í guðsótta.

En Jóhannes vottaði sjálfur, að hann skírði einungis í vatni til lifnaðarbóta, og að sá, er eptir hann kæmi og yrði honum meiri, mundi skíra með heilögum Anda og eldi (Matth. 3, 11). Jóhannes gat vakið samvizkur manna, mátturinn í orðum hans gat komið mönnunum til að láta af margs konar syndum, en hið nýja líf gat enginn tendrað í hjörtum mannanna, nema sá einn, er sendur var til að lífga hið dauða. þegar Kristur kom, var hann allólíkur fyrirrennara sínum; því lögmálið, sem fer á undan fagnaðarboðskapnum, á að ógna og hræða, og lýsa Guðs reiði yfir syndinni; en fagnaðareyrindið lýsir Guðs miskun yfir þeim, er hans leita, og tendrar með því trúna, vonina og kærleikann. þó tilsetti Kristur einnig skírn, og með því sú tilskipun verður æ að haldast í kristinni kyrkju, og allir vjer höfum skírn tekið, og niðjar vorir eiga að taka hana eptir oss, eigum vjer að leitast við að komast í rjettan skilning um eðli kristilegrar skírnar.

Rækileg íhugun veraldarinnar og ástands hennar lætur án efa sjerhvern, sem hreinskilinn er, sanna orð postulans, að allur heimur-

inn velkist í hinu vonda (1. Jóh. 5, 19). Vjer dyljumst engan veginn við það, sem gott er í veröldinni, vjer sjáum daglega umhverfis oss, að Guð lætur sig ekki án vitnisburðar, er hann gjörir oss gott; vjer viðurkennum einnig í hjarta voru, að hver gáfa og hver fýsn, sem Guð hefir innrætt oss, miðar í öndverðu til góðs, og að vjer erum enn Guðs ætt, eptir því sem postulinn að orði kemst (Post. 17, 29), og að það er í oss, er endurnýjazt getur eptir mynd hans, er skóp oss (Kól. 3, 10). En hin sýnilega paradís er ekki ein saman horfin, heldur er einnig spillingin runnin inn í hjörtu allra manna, og hefir skemmt og aflagað það, er gott var í sjálfu sjer og öndverðlega, guðsótti og ást á Guði haldast ekki við, sannleiki og rjettvísi eru orðin mönnum svo ljettvæg, þeir sökkva sjer ýmist niður í ómennsku, eða fýkjast í jarðneska muni með áköfum og saurugum girndum. Móða spillingarinar streymir í gegnum allar kynkvíslir, og maðurinn fæðist ekki nú á dögum eins og hinn fyrsti maður kom frá hendi Skapara síns, vjer erum allir í syndinni getnir, og erum á marga vegu háðir veröldinni, er velkist í hinu vonda. Meðvitundin um þetta knýr oss til að leita til Frelsara veraldarinnar, og hlýða fagnaðareyrindinu um hann, er sjálfan sig gaf í dauða, að vilja Guðs Föður vors, vegna synda vorra, svo að hann frelsaði oss af ófarsæld yfirstandandi aldar (Gal. 1, 4). En frelsi það, er Kristur heitir oss, er ekki í því fólgið, að hann muni taka oss úr veröldinni, heldur í því, að hann muni, áður enn vjer yfirgefum veröldina, gjöra oss hluttakandi endurlausnar þeirrar, er hann hefir afrekað. En það gjörir hann með því eina móti, að vjer aðhyllumst hann af öllu hugskoti voru, og í því skini tilsetti hann skírnina. Þegar hann sendi frá sjer lærisveina sína að boða fagnaðareyrindið um öll ríki veraldarinnar, þá bauð hann þeim að skíra í nafni Föður, Sonar og heilags Anda (Matth. 28, 19); og þegar hann lýsti dómnum yfir þeim er ekki trúa, þá bætti hann við fyrirheitið til þeirra, er trúa, því skilyrði, að þeir ljetu skírast (Mark. 16, 16).

Á þeirri nóttu, er einn af höfðingjum Gyðingja kom til Jesú, sagði hann þegar þessi hin merkilegu orð: ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann ekki fengið inngöngu í guðsríki (Jóh.

3, 5); og hver getur efazt um, að hann hafi með þessum orðum bent til skírnar þeirrar, er lærisveinar hans veittu þeim, er á nafn hans vildu trúa? það var eins og hann segði: sála þín er snortin af krapti sannleikans, þú ert farinn að hallast til hans, það getur verið, þú sjert ekki fjarlægur guðsríki; en þú ert enn á reiki, þú fyrirverður þig enn fyrir mig og orð mitt, þú leynist á fund minn eins og þú hefðist eitthvað illt að; og þess vegna ertu ekki enn hluttakandi guðsríkis, því það lýkst ekki upp nema fyrir hinum trúuðu; getirðu trúað, þá muntu sjá dýrð Guðs, þá muntu ekki fyrirverða þig að kannast við trú þína eður taka skírn, til merkis um að þú trúir, þá munu kraptar himnaríkis birta sig í þjer og blessun þess verða hlutskipti þitt.

Að vísu var þá og lengi eptir allt öðru vísi ástatt, enn nú er. þegar einhver tók skírn, þá yfirgaf hann að sönnu ekki veröldina, og þurfti ekki að flýja samfjelag annara manna, og átti, eins og postularnir gjörðu, að vinna sjer brauð eptir sem áður, og fullnægja hverri skyldu af meira fúsleik og meiri samvizkusemi; en hann gekk þó í eitt lítið fjelag, sem veröldin hataði, og þola varð háðungar og ofsóknir, svo að margir urðu jafnvel að tæma hinn sama bikar, sem Drottinn þeirra og Meistari hafði tæmt, en í erfiði, baráttu, mótlæti, píslum og dauða áttu þeir, sem í því voru, fyrir trú, von og kærleika að ávinna sjer óðalsrjett í hinu himneska og eilífa ríki. Flestir þeir, er þá voru teknir í fjelag þetta, voru á þeim aldri, að þeir vissu hvað þeir gjörðu; ábati, vinsæld og munaður tældu þá ekki til að ganga í það, þess vegna þurfti hugprýði til þess; þeir sem við skírninni tóku, hafa sjálfsagt á undan verið óráðnir og efablandnir langan tíma eður skamman, en síðan öðlazt sannfæringuna í hjarta sitt, en ekki haft þor til að ganga við henni, þangað til þeir hafa ráðið af um síðir að þjóna ekki tveim herrum lengur, og fyrirverða sig ekki framar fyrir Krists fagnaðarboðskap; og þegar hann hefir síðan af einlægu hjarta gjört sáttmála góðrar samvizku við Guð, fyrir hinn krossfesta og upprisna Jesúm Krists, þá hefir það eflaust verið Guði þóknanlegt, þá hefir Guð þegið fórn hans og staðfest í skírninni gjörðan sáttmála, veitt hon-

um gjafir Andans, og látið Krists fagnaðarboðskap verða honum krapt til sáluhjálpar.

þetta hið litla fjelag hefir síðan aukizt og margfaldazt svo það nær yfir lönd og ríki, og í kristnum löndum fylgir því engin þrenging nje hætta að kalla sig kristinn, heldur fylgir því jarðneskur hagur; skírnin er meira að segja nú á dögum sjaldan í valdi þess, er hana hlýtur, nje sprottin af þekkingu hans og áformi, heldur eru ungbörnin skírð, áður enn þau vita hvað fram fer, og nefnd kristin um leið og þau hljóta það nafn, er þau eiga síðan að hafa. Er það rjett gjört, að ráða þannig hag barnsins án þess samþykkis, og bíða ekki þess tíma, að það geti sjálft kosið hvort sem það vill; er það rjett gjört að gefa, fyrr enn barnið hefir vit á að biðja?

þeir hafa jafnan til verið, er vildu fyrirmuna það; stundum hafa þeir sagt, að með því að skírnin gjöri kost á fyrirgefningu syndanna, þá skuli menn ekki flýta henni, fyrr enn eins og búið sje að safna syndum og saurgun handa skírninni að afmá, og því hafa margir skotið skírninni á frest allt til hinnar síðustu stundar, til að geta unað sjer því lengur við syndir sínar; stundum hafa þeir borið fyrir sig, að þótt barnið sje borið í synd, og saurgað af arfgengri spillingu, og þurfi Krists líknar, þá finni það framanaf ekki til spillingar þeirrar, er það þurfi af að leysast, og geti ekki unnið til miskunar Krists með iðrun og apturhvarfi, og ekki bundið heit skírnarinnar, sem fyrirheit hennar sje þó allt undir komið. En í kristinni kyrkju hafa menn ætíð munað til orða Drottins, þá er börnin voru til hans færð, svo að hann legði hendur yfir þau. Lærisveinum hans þótti ótilhlýðilegt að leiða fram börn, sem ekki hefðu vit á, hvað við þau væri átt, til að láta blessa þau. En Drottinn vor þykktist við þá og tók svo til orða: Leyfið börnunum til mín að koma og bannið þeim það ekki, því slíkum heyrir guðsríki til (Mark. 10, 13). þessi orð skiljum vjer eflaust eins og Drottinn hefir til ætlazt, ef vjer fyrirmunum ekki börnunum að komast fyrir skírnina í samfjelag við hann, sem er Frelsari allra manna. Vjer vitum að postularnir hafa optar enn einu sinni skírt menn með öllum hjúum þeirra (Post. 16, 33. 1. Kor. 1, 16), og þá er ekki líklegt, að Faðirinn hafi fyrirmunað börnum sínum að koma

til Drottins ásamt sjálfum honum, og látið þau vera eptir í samfjelagi heiðingja eða Gyðinga, sem hann var sjálfur að yfirgefa, eða að postulunum hafi úr minni liðið það, sem Drottinn hafði ávítað þá um. Og þó menn sjeu komnir til vits og ára, og þeim sje alhugað að taka skírn, þá eiga þeir samt ekki fyrirheit Drottins vors, því eptir því sem postulinn að orði kemst, frelsaði Guð oss með endurfæðingar lauginni, ekki vegna rjettlætandi verka, sem vjer höfum gjört, heldur af náð sinni (Tít. 3, 5), og vjer gleðjumst við þá tilhugsun, að hinn eilífi, himneski, miskunsami kærleiki nái til barnsins og blessi það, áður enn það hefir vit á því, eða veit hvað við það er átt, og þegar það vaxi upp, þá finni það, að það sje komið í það samfjelag, sem það eigi að verða í með Guðs hjálp.

En auðskilið er, að ef maðurinn á að hafa not þeirra gæða, sem kristninni fylgja, þá verður hann að tileinka sjer þau í trúnni, þá verður hann að færa sjer í nyt skírnarrjettindi sín og halda skírnarheitin. það er því fullkomlega tilhlýðilegt, að unglingurinn endurnýi og staðfesti skírnarsáttmála sinn. Jeg tala um unglinginn, þegar veröldin tekur að ljúkast upp fyrir honum, og hann kann að eiga fyrir höndum að yfirgefa foreldra sína og fara þangað sem enginn hefir gát á honum, og fáir verða til að leggja honum ráð, og hann á sjálfur að sjá um sig, og opt og einatt hefir engan hjálparmann, og heyrir ekki annað enn spott og dramb veraldarinnar, ginningar munaðarins og tilhvatningar ágirndar og hjegómagirni, í stað áminninga, viðvarana og upphvatninga, er hann áður heyrði — jeg tala um unglinginn, þegar hann er þroskaður og skilur hvað við hann er mælt, og veit hvað hann talar sjálfur; þá segjum vjer til hans: Viðurkennir þú, að það sje til vont, svikafullt og skaðsamlegt vald, sem umkringi oss öllu megin, og viðurkennir þú, að það sje óvinur Guðs og manna og sálar þín sjálfs, og viltu afneita þessu valdi? villt þú aðhyllast, í sannri og lifandi trú, Guð almáttugan Föður, Drottin og Skapara himins og jarðar, og þann, er hann sendi Jesúm Krist, sem í frá eilífð er sameinaður Föðurnum, gjörðist maður og bróðir vor og vakinn af dauða til rjettlætingar oss, og heilagan Anda, sem kemur af himnum í hjörtu þeirra,

er hans æskja, og býr þá og lagar undir guðsríki? viltu muna, hvað þú hefir heyrt og numið, og hverju þú hefir heitið í æsku þinni, og gleyma því ekki, þó að veröldin gleymi því, heldur muna til þess jafnan við vinnu þína og í freistingum þínum, í meðlæti og mótlæti, og varðveita það þangað til þú verður spurður, hvernig þú hafir efnt loforð þitt? Svari þá unglingurinn, að það vilji hann víst, þá blessum vjer hann, og veitum honum full rjettindi í söfnuði vorum.

Samt sem áður getur verið, að ekki fylgi hugur máli, enda eru menn ekki sjálfráðir um þetta með öllu; því kristnir söfnuðir mega ekki láta það viðgangast, að hinir ungu alist upp án fræðingar í kristinni trú, eður að meðul náðarinnar sjeu vanrækt, og vjer sem eldri erum, verðum að láta sjá vott þess, að vjer höfum leitt hina ungu, er oss var fyrir trúað, til þekkingar á Kristi, og reynt að glæða í hjörtum þeirra trú og góðan ásetning, og festa þá við hann, sem er Frelsari allra manna. En svo er það undir sjálfum þeim komið, hvort þeir vilja við kannast, að skírnin gildi nokkuð og skuldbindi þá, og því ríður ekki mest á því, hvað fram fer fyrir manna sjónum, heldur á því, hvað fram fer milli Guðs og mannsins sjálfs; því skírnin er, eptir því sem postulinn að orði kemst, ekki burtnám saurinda af líkamanum, heldur sáttmáli góðrar samvizku við Guð fyrir upprisu Jesú Krists (1. Pjet. 3, 21). Þenna sáttmála getur enginn gjört fyrir vora hönd, og rjett staðfesting skírnarinnar er því ekki fólgin í orðum heldur í huga, hún er í því fólgin, að maðurinn hugsi, eins og postulinn krafðist af hinum blálenzka manni, er beiddi hann skírnarinnar: Jeg trúi, að Jesús Kristur sje Sonur Guðs (Post. 8, 37), jeg trúi, að af honum einum sje hjálpræðis að vænta, því mönnunum er ekkert annað nafn gefið, er þá megi hólpna gjöra (Post. 4, 12), og fyrir því vil jeg aðhyllast hann, og trúa á hann í lífi og í dauða, og verða þannig í samfjelagi því, er jeg er í tekinn fyrir skírnina; jeg tileinka mjer skyldur þær og rjettindi þau, er henni fylgja.

Nú kynni einhver að segja, að trúin sje þó ætíð mest áríðandi, og með því að trúin hafi fyrirheitið, þurfi ekki skírnarinnar við; og vjer þrætum með engu móti, að hver, sem hefði sanna og

lifandi trú, yrði fyrir hana hluttakandi sáluhjálparinnar, þó eitthvað, sem hann gæti ekki að gjört, hefði bægt honum frá skírninni. En er skírnin óþörf fyrir það? Maðurinn gæti að sönnu nærst aumlega af villiávöxtum jarðarinnar; en er samt vanþörf á, að Guð gefi honum betri fæðslu, til að endurnæra hann og efla krapt líkama hans? eða var það óþarfi, er Drottinn tilsetti náðarmeðul, til að glæða trúna og vonina og kærleikann, og vekja til fyllra og glaðara lífs? þegar móðir þín fæddi þig í heiminn, var þjer gefið mannsnafn og þegnrjettur á jörðu, og tilkall að þínu leyti til þeirra gæða, er þessi heimur megnar að veita; en þegar Drottinn vor tók við þjer fyrir laug endurfæðingarinnar, hlauztu nafnið kristinn, og þegnrjett í hinu himneska ríki og hlutttekningu þeirra gæða, er Kristur kom að veita. Að sönnu er skírnin ekki sama og hin andlega endurfæðing; en allt í frá þeirri tíð, er þú varst skírður, hefir þó heilagur Andi kallað þig og verið þjer nærstaddur, og boðið þjer þær gjafir, er umbreyta manninum að hug og hjarta, og endurfæða hann til hins eilífa lífsins. Hefir þú nokkurn tíma sagt við sjálfan þig í fullri alvöru: jeg finn, að jeg er hundinn af því valdi, er þá umkringdi mig? eða segir þú það nú á þessari stundu? sje svo, þá ertu rjettlættur fyrir Guðs miskun og hluttakandi hins eptirvænta eilífa lífs (Tít. 3, 7). því þegar þessi orð voru fyrst sögð yfir þjer í skírninni, var það ekki einungis eptir mannlegri tilskipun og ekki í nafni neins manns, heldur í nafni Drottins þíns og Frelsara; þá voru þau sögð einmitt til þín, en til einkis annars, og viljir þú enn tileinka þjer þau, þá ná þau til þín jafnt og hvers annars. Hver hefir ekki reynt, að sálin getur trúað því, að Jesús Kristur hafi komið frá Guði til að frelsa veröldina, en að trú þessi getur þó verið svo dauf, að hún glæðir ekki fjör og fögnuð í hjörtum vorum? það er eins og oss finnist, að allt saman þetta snerti einungis allt í sameiningu, en ekki neitt einstakt — snerti, segi jeg, veröldina alla saman, eða einhverja útvalda, en ekki oss. þá vantar trúna eitt af því, sem mest á ríður, sem er, að tileinka sjer, eða heimfæra til sjálfs síns. En svo að þetta vanti ekki, þá eru tilskipuð þau hin helgu embætti, er vjer köllum „sakramentin," og veitt eru hverjum manni útaf fyrir sig. Skírn-

in er ekki prjedikun um rjettlætingu og eilíft líf fyrir Krist, heldur er hún þjónusta, er Drottinn vor hefir boðið að veita skuli hverjum manni. Hvert það barn, sem fætt er í kristnu landi, þó það sje svo lítilmótlegt, að mennirnir hirði ekki um, hvað því líður, og þó það væri fætt í veslasta hreysi og í jötu lagt — þá fyrirlítur hann það ekki, er reyndi sjálfur hið sama, og vjer þjónustumenn hans fyrirlítum það ekki, heldur segjum vjer: Frelsari veraldarinnar sameinar sig þjer í skírninni, og viljir þú með tímanum sameina þig honum í sáttmála góðrar samvizku, þá ertu í hlutskipti með honum, og öðlast hið eilífa lífið til jafnaðar við hvern af þeim, er sýnast vera mestir Guðs ástvinir.

Er þá svo auðvelt að tendra í oss trúna og glæða hana, að vjer þurfum engan þann pant, er hún megi aukast af? Ó, þú höfundur og herra safnaðar vors! þú þekktir hjörtu vor betur, enn hinir tilfinningarlausu vitringar; þú vissir gjörla, að á sumum tímum eru hjörtu vor svo full vonar og sælu, að ekki þarf nema eitt orð til að vekja í oss slíkan hug, að vjer óttumst hvorki neyð nje dóm, hegningu nje dauða. En þú vissir einnig, hversu hverfull að hugur vor er, og að tímar neyðarinnar koma yfir oss; neyðarinnar, segi jeg — ekki að eins hungurs og örbyrgðar og líkamlegra þrenginga, heldur hinnar þungu andlegu neyðar, þegar hjarta vort tekur að finna til þýðingar þessara orða: einmana, yfirgefinn, útskúfaður, glataður; þá vildir þú, að það skyldi finna til þýðingar þess, að þú í skírninni sameinaðir þig sjerhverjum af oss, svo að hver sá, er á þig trúir, fyrirfarist ekki, heldur öðlist eilíft líf. Þú sást, að vjer erum herfang dauðans; þú vissir, að dymma dauðans mundi optsinnis umkringja oss, áður enn andlátsstundin rynni upp yfir oss sjálfum; og þegar vinur stendur yfir gröf vinar síns og veit ekki, hvort hann er farinn — þegar móðir stendur yfir líki barns síns, og getur ekki hjúkrað því nje annazt það framar, þá segir þú svo, Drottinn minn: jeg er kominn í þinn stað; í skírninni hjet jeg hollustu minni þeim, er þú tárast yfir, og kallar þig hafa misst; en sáttmáli minn er eilífur jafnt og líf það, er jeg veiti. Og þegar kvölda tekur og á daginn líður fyrir oss sjálfum, þá ert þú enn hjá oss — þá græða þín huggunarorð vor særðu

hjörtu — þá minnir þú oss á, að þegar vjer fæddumst í heim þenna, vorum vjer um leið vígðir til dauðans, en þegar þú endurfæddir oss fyrir skírnina og fyrir samfjelag Anda þíns, þá vígðir þú oss til eilífs lífs, þá sameinaðir þú sjálfan þig oss, og það band slitnar aldrei, er sameinar þjer hina trúuðu.

Það er til djörfung í trúnni, er í því kemur í ljós, að kristinn maður, í kvíða sálar sinnar og hinni örðugu baráttu, eins og beitir rjettindum skírnarinnar við Drottin sinn og Frelsara, og dirfist að minna bann, eða þó enn fremur sjálfan sig, á öll þau fyrirheit, sem við eru tengd sáttmála skírnarinnar, og heldur sjer föstum við Drottin, svo mælandi: jeg læt þig ekki lausan fyrr enn þú blessar mig (1. Mós. 32, 26). En sjeu rjettindi, eru og skyldur. Þegar Drottinn safnaðarins sameinaði sig þjer í skírninni, þá snerta loforð hans enga aðra, heldur lofar hann þjer hjástoð Anda síns, og rjettlætingu og eilífu lífi; enda snerti og skuldbindingin í það sinni engan nema þig. Þú varst skyldaður þá til að hafa kristilega trú, og vera stöðugur í henni, og láta ekki spott nje ljettúð nje hirðuleysi svipta þig þessu hinu helga hnossi; enda varstu þá og skyldaður til að lifa kristilega, og reyndar er hvorttveggja sama skuldbindingin; því allt sem af Guði er fætt yfirvinnur heiminn, og trú vor er sá sigur, sem yfirvinnur heiminn (1. Jóh. 5, 4); nú ef heimurinn sigrast á oss — ef vjer verðum ekki fyrir trú vora glaðari, styrkari, betri, enn vjer mundum vera án hennar: til hverra nota er hún oss þá, eða hvernig höfum vjer þá fullnægt skuldbindingu skírnarinnar? Þar sem Páll postuli talar um skírnina, bætir hann því við, að þeir er sett hafi trú til Guðs, eigi að leggja stund á að taka öðrum fram í góðverkum (Tít. 3, 8). Hann meinar ekki, að vjer skulum drambsamlega hreykja oss upp, og vilja vera fyrirmynd annara, því sá er ekki nema einn, er vjer eigum allir eptir að breyta; hann meinar ekki, að oss geti safnazt verðleikar af góðverkum vorum, svo að vjer getum orðið rjettlættir fyrir sakir vorra hinna veslu verka, sem eru svo fá og svo lítilsverð og ófullkomin, heldur fyrir Guðs miskun í Kristó Jesú, Drottni vorum. En postulinn meinar, að þar sem hin sanna trú hafi tekið sjer bólfestu, þar verði ávextir

að koma í ljós. Hann meinar, að þegar einhver segist trúa á Guð í hjarta sínu, þá megi hjarta hans ekki vera bendlað við heiminn — þá megi hann ekki láta veraldlegan munað nje veraldlegar þjáningar vinna svig á sjer — þá verði hann að hafa það til að bera, sem þá vanti, er ekki trúi á Guð — þá verði hann að hafa meiri ósjerplægni og hlýðni og auðmýkt og þolinmæði og staðfestu og ást á Guði og mönnum, enn veröldin hafi, eða geti kennt. það fer aldrei vel, þegar einhver haggar einhverri grein, sem vel er á rökum byggð; því hann rýrir með því krapt og fyllingu sannleikans bæði fyrir sjer og öðrum; en hitt er þó enn verra, að hagga einhverri kristilegri lífernisreglu, og kenna ekki og breyta ekki samkvæmt henni. Drottinn vor segir: hver hann haggar einu af þessum boðorðum, er minnst sýnist um varða, og hvetur aðra til þess, hann mun minnstur kallast í himnaríki (Matth. 5, 19); hversu mætti þá nokkur dirfast að hagga hinu mikla boðorði kærleikans og vænta sjer þó hlutskiptis í himnaríki? Skírn vor sameinar oss að vísu Guði á himnum, en hún á einnig að sameina oss hverja öðrum; vjer eigum að kappkosta að lækna en særa ekki, að hlífa en áfella ekki, að safna en dreifa ekki, svo að sje einn líkami, einn Drottinn, ein trú, ein skírn, (Ef. 4, 5), eptir því sem Drottinn vor sagði sjálfur: það á að vera ein hjörð og einn hirðir (Jóh. 10, 16). þetta er sáttmáli skírnar vorrar.

En eins og vjer eigum að beita sáttmála þessum við sjerhverja illa girnd, sem ætlar að tæla oss, eins eigum vjer að beita honum við hvers konar trúleysi; vjer eigum að segja við sjálfa oss: hann, sem forðum sagði: komið hingað, smábörn! því guðsríki heyrir yður til — hann segir enn: komið hingað, þjer sem erfiðið og þjáizt! vertu ekki hrædd, segir hann, þú hin litla hjörð, því Föður yðar þóknast að gefa yður ríki sitt (Lúk. 12, 32).

# 56.

## HIN HEILAGA KVÖLDMÁLTÍÐ.

### Fyrri hugleiðingin.

það er víst að sú dýrkun, sem vjer eigum að veita Guði, er ekki fólgin í hinni ytri þjónusta einni saman, en þó mundi lítið verða um hina innri guðsdýrkun, ef engin ytri þjónusta væri, sem lífgaði hana og efldi. það er eins og heimurinn dragi oss að sjer með hundrað höndum, og þess vegna þarf máttugar hvatir til að draga oss aptur frá honum til Guðs. Máttugar þurfa þær að vera — en ekki háværar; það eiga ekki að vera háar raddir, er hrópi inn í skarkalann; því fer svo fjarri, að það er allt harla kyrrlátt, sem snýr huganum til Guðs, og hinar helgu raddir, sem koma ofan að niður í hinar margháttuðu athafnir mannanna, og innan að út í hinar margháttuðu hugrenningar sálarinnar, láta aldrei til sín heyra, nema þegar kyrrt er um. það er undirrót allrar hinnar ytri guðsdýrkunar, að til sjeu einstöku næðisstundir innan um allan háfaða þann, sem kemur af störfum eða gleðskap mannanna. þegar postulinn segir: verið stöðugir í bæninni og kostgæfnir með þakkargjörð (Kól. 4, 2), hvetur hann með því sjerhvern kristinn mann, til að leita sjer næðisstunda í órósemi lífsins, því alúðleg þakkargjörð og bæn á hvergi heima nema í kyrrð og spekt. Hið forna boðorð, er svo hljóðar: sex daga skaltu verk þitt vinna, en sjöunda daginn skaltu hafa fyrir hvíldardag (2. Mós. 23, 12), býður oss, að láta ekki hjól athafna vorra snúast og suða án afláts, þó vjer eigum að verja þeim tíma, sem oss er ákveðinn í veröldinni, til að starfa að ætlunarverki voru; stöðva þig, þú æðandi straumur manngrúans! hvílizt þjer, sem erfiðið! og hvíl þú þig, mannlegur andi! og hrind á burt hinum áhyggjufullu og kvíðvænu hugrenningum, svo að kyrrt verði kringum þig og í þjer, og þú hafir tóm til að hugsa um það, sem eitt er nauðsynlegt, og getir fært Drottni þínum guðrækilega bænarfórn.

Næðissöm stund fyrir eða eptir eða innan um ókyrrleika dagsins, næðissamur dagur eptir hina virku daga vikunnar, er sálunni eins ómissandi og kyrrð og ró er þreyttum líkama. það er siður í kristnum löndum, að páskavikan sje kyrrðarvika; á þeirri viku eiga menn ekki að safnast saman til glaðværðar, heldur til alvarlegra hátíðishalda, þá má enginn almennur gleðskapur vera, nje mörg önnur meinlaus skemmtun, heldur eiga menn þá að verða hæglátari í hegðun sinni, svo þeir geti orðið það líka í huga sínum. Ekki viljum vjer einskorða of mjög háttalag manna, því vjer viljum ekki neyða menn til að þjóna Guði af hræsni; en samt viljum vjer ekki hagga þessari gömlu, fögru og nytsamlegu venju; menn mega ekki leggja niður hina sýnilegu guðsdýrkun, því ella mundi og hin ósýnilega fyrir farast. Til hvers er kristni sú, er vjer tölum um, ef vjer minnumst ekki hans, sem elskaði oss, og seldi sjálfan sig í dauða vor vegna, nje kvala þeirra, er hann keypti oss með, nje dauða þess, er hann gaf oss líf með? En hvernig eigum vjer að varðveita minningu þessara hluta óbrjálaða, sje ekkert til að minna oss á þá?

Í páskavikunni er einn dagur, sem minnir oss á stofnun hinnar heilögu þjónustugjörðar, er Drottinn vildi einkum láta halda í minningu sína. það er harla fátt, er Kristur hefir sjálfur skipað fyrir um siði kyrkju sinnar. Hann sagði við postula sína: farið út um allan heim og kennið fagnaðareyrindið (Mark. 16, 15), og enn í dag segir hann vjer skulum kenna, því kenning Guðs orða er grundvöllur kyrkjunnar, og þegar guðsorð er kennt hreint og ómengað, hefir Drottinn látið oss þess sjálfráða, með hvaða þjónustugjörð vjer vildum reyna að veita því framgang og efla áhrif þess. Hann hefir ekki skipað fyrir nema tvo hluti, og mega menn ekki sleppa þeim í kristinni kyrkju, því það sem hann hefir boðið, má enginn maður af taka. Annar hluturinn er hin heilaga skírn. Maðurinn á ekki að vera óráðinn í, hvort hann vilji heyra Kristi til eða ekki; þar er ekki um lítilvægi að tefla, sem þú getir leitt hjá þjer, heldur er undir því komið allt hugarfar þitt og trúnaðartraust, og allar aðalreglur breytni þinnar; og því máttu hvorki vera efablandinn nje heldur fyrirverða þig; trúðu og játaðu

trú þína! segir sá, er tilsetti skírnina, sem er vígsla játenda hans, þá er þeir ganga í fjelag hans, og æ er hin sama hver sem í hlut á, hvort sem hann er heldur klæddur purpura eður tötrum. Þar að auki tilsetti Drottinn kvöldmáltíðina; hið síðasta kvöld æfi sinnar, þegar illar hugrenningar voru farnar að kvikna í hjarta svikarans, og veldi myrkranna voru þegar búin til að nota sjer vald það, er þeim hafði verið veitt, og þess var skammt að bíða, að vinir Jesú mundu tvístrast, og hann ekki framar leiðbeina þeim sýnilega: safnaði hann saman hinum fáu, er ávallt höfðu verið honum handgengnastir, og braut brauðið og gaf þeim kaleikinn, og sagði: það er jeg nú gjöri, skuluð þjer framvegis gjöra — gjörið það í mína minningu!

Á þenna hátt tilsetti Jesús næðisstund innan um hinar mörgu ónæðisstundir mannlegs lífs; tvístrizt þjer og farið hver til sinna starfa, hafið nægtir eða þolið skort og mæðu, en þegar andstreymið er á enda kljáð og hið blíða eður stríða um garð gengið, þá farið og safnizt saman í kyrrþey með bræðrum yðar, sem hafa hina sömu sýslu, og látið endurminninguna taka sjer þar bólfestu hjá voninni og auðmýktina hjá trúnni, og þá mun hið jarðneska skína með helgum ljóma í augum yðar, og hið himneska taka á sig sýnilega mynd, og þar mun yður verða borinn sá kaleikur, er hin þyrsta sál mun fá svölun af! Nú er allt öðru vísi ástatt fyrir kristninni, enn á fyrstu tímum hennar. Játendur Krists urðu þá að þola ofsóknir og safnast saman á laun, en nú vernda lögin þá, og þeir safnast saman í skrautlegum musterum, en þó er allt, sem mest á ríður, enn hið sama; á ölturum vorum stendur enn brauð lífsins og kaleikur hins nýja sáttmála, og Frelsari heimsins breiðir þar enn blíðlega út faðm sinn, segjandi: Komið hingað til mín allir, sem erfiðið og þjáðir eruð, jeg mun veita yður hvíld (Matth. 11, 28).

Og hver er sá meðal vor, er hann kalli ekki til sín með þessu ávarpi? því hver er sá maður, er ekki þjáist undir byrðinni? Hann kallar þá til sín, sem þjást undir fátækt og eymd, og þá sem þjást undir auðæfum og upphefð, gamalmennin, sem bogna undir þyngslum ellinnar, og unglingana með hin ókyrrlátu hjörtu

í barmi sjer, sem þjást af hinni margháttuðu von og hinum margvíslega kvíða, er lífið sendir í veg fyrir þá; hann kallar þá til sín, sem lengi hafa sótzt eptir Guðs ríki og hans rjettlæti, en finna þó til hita og þunga dagsins; hann kallar einnig til sín syndara, sem hrekjast hvíldarlaust úr einum stað í annan, af hinni þungbæru meðvitund, er enginn fær af þeim ljett; hann kallar til sín hina daufu og sljófu, til þess Andinn geti lífgað þá, og þeir geti vaknað úr svefninum, og hina spöku og vitru, sem flækzt hafa inn í miklar efasemdir, þegar ein hugmyndin er annari gagnstæð, og þá fer að svima á hæðum þeim, sem þeir eru upp á komnir: komið hingað, segir hann, hinar þjáðu mannskepnur allar saman, svo þjer megið öðlast hvíld handa sálum yðrum.

Hversu fagurt og dýrmætt er það, að Drottinn býður öllum til sín að koma. Boð hans hljómar á svo mörgum og ólíkum stöðum, og á svo mörgum ólíkum málum, og hvarvetna nær það til allra hinna mörgu ólíku manna, og hvarvetna segir Drottinn: komið hingað allir saman, með alla byrði yðra; þann sem til mín kemur, skal jeg engan veginn frá mjer reka (Jóh. 6, 37). En þar eð Drottinn vor og Meistari, sem einn saman veit, hvað með sjerhverjum býr, hefir sagt þetta, ættum vjer þá að dirfast að setja dómarasæti við hliðina á altari Drottins, og eigna oss vald á að reka þá út, er vjer höldum ómaklegir sjeu, og eigna oss vald á að lesa illgresið úr hveitinu, fyrr enn Drottinn kemur, sem í ljós mun leiða það, sem í myrkrum var hulið, og opinberar gjöra hjartnanna hugsanir, og láta sjerhvern fá sín laun (1. Kor. 4, 5)? Ó! þeir vita ekki hvað þeir gjöra, sem vilja ríkja yfir arfleifð Drottins, þeir vilja loka dyrunum til Drottins, og standa við þær svo sem dyraverðir, svo enginn geti komizt út nje inn, nema fyrir þeirra tilstyrk; en vjer viljum gjöra dyrnar háar og víðar, svo hver geti komið, sem þyrstur er, og hver sem vill geti fengið vatn lífsins ókeypis (Opinb. 22, 17). Sagði ekki Drottinn sjálfur: Vei yður, löglærðir og Farísear! sem hamlið mönnum frá því að öðlast guðsríki, því sjálfir hirðið þjer ekki um að njóta þess, og hindrið þá, sem þess vilja leita (Matth. 23, 13)? Að vísu veit jeg, að Drottinn gaf hinum mikla postula lykla himn-

aríkis (Matth. 16, 19), og að hann sagði við postula sína: Hvað þjer bindið á jörðu, skal á himni bundið vera, og hvað þjer leysið á jörðu, skal á himni leyst vera (Matth. 18, 18). En erum vjer þá postular? hefir Drottinn einnig gefið oss vald á að sitja í hásætum (Matth. 19, 28) og dæma þjóð vora, og dæma söfnuð Drottins? Og hvaða vald sem Drottinn hefir gefið postulunum eður oss, þá hefir hann gefið það til uppbyggingar, en ekki til tjóns (2. Kor. 10, 8), til að safna og sætta, en ekki til að tvístra og skemma. Að sönnu veit jeg, að jeg má meta gjörðir manna, og prófa þær fyrir samvizku minni, og nefna sumar góðar en sumar illar, og að jeg má og á að víta menn fyrir lesti og syndir, en uppörfa þá til apturhvarfs; en þegar jeg sje einhvern snúa frá villigötu sinni, og koma til hans, sem kallaður er Friðþægjari syndaranna, og koma af sjálfsdáðum þangað, er hann má vita eins vel og jeg, að vjer verðum allir að segja: Guð veri oss aumum syndurum líknsamur! því skyldi jeg þá dirfast að kefja þessa hræringu í hjarta hans? hver em jeg, að jeg skyldi dirfast að taka hinar skelfilegu metaskálar dómsins, og vega mann mót manni, og segja: þessi er of ljettur? Nei, Drottinn minn! jeg finn, að þú hefir ekki falið mjer í vald lykla himnaríkis, mín vanmáttug hönd gæti ekki valdið þeim; jeg bið þig andvarpandi, að ljúka upp af miskun þinni ríki þínu fyrir mjer, en jeg æski ekki að eigna mjer það dómaravald, er þú hefir áskilið vizku og mætti þín sjálfs. Þegar konungurinn í dæmisögunni (Matth. 22, 2. o. nn. vv.) sendi þjóna sína að bjóða í brullaup sonar síns, áttu þeir ekki að gjöra annað, enn fara út á þjóðgötur, og safna saman öllum þeim, er koma vildu; þeir áttu að safna saman illum og góðum, svo brúðkaupsstofan yrði full af gestum. En konungurinn ætlaði sjálfum sjer að skoða gestina, hvort þeir væru hæfilega skrýddir. Það eru orð Drottins sjálfs, er vjer megum ekki rýra, að margir sjeu kallaðir: látum þá koma úr öllum áttum, svo að bekkirnir verði alsettir.

En það eru einnig orð Drottins sjálfs, að fáir sjeu útvaldir. Það hlýtur að kveikja í oss fögnuð og þakkargjörð að vjer sjáum hversu almennt kall Drottins er orðið; þess bera jafnvel söfnuð-

irnir í guðshúsi vitni, því þeir eru harla margir, sem fegnir vilja heyra guðsorð; þess bera söfnuðirnir við guðsborð vitni, því þeir eru harla margir, sem hlýða þessu boði Drottins: gjörið það í mína minningu! og allir sýna þeir með þessu, að þeir sjeu kallaðir. En mættum vjer einnig segja, að allir þessir sjeu útvaldir? Vjer spyrjum ekki, hvort þeir sjeu fullkomnir; því enginn af þeim er fullkominn; en langar þá til og leggja þeir stund á að verða það? er hver þeirra með því skapi, að hann leitist við að slíta af sjer hvern fjötur, sem honum er til minnkunar, og reyni til að útrýma úr sálu sinni óstýrilátum girndum og trúarlausum ótta, en lífga krapta hins betra lífs, með því að kefja niður ástríðurnar, sem öllu eyða með loga sínum? Er samvizkan vöknuð í hverjum þeirra, svo að hann meðkenni iðrunarfullur rangsleitni sína og gráti syndir sínar? Hafa þeir kannazt við, hversu grómteknir vjer erum allir saman orðnir af spillingunni, og hvernig hún lýsir sjer bæði í háttalagi voru, í hirðuleysi og afbrotum, og hvernig hún fyllir hjartað drambi, öfund og fásinnu, og hversu mikið oss fyrir þá skuld ríður á að endurnýjast, og verða að öðrum mönnum, enn vjer erum eptir eðlisfari voru? Hefir sál þeirra fundið, að hún var sjúk og fátæk og þráði rjettlæti Guðs, og hafa þeir þá leitað hins rjetta læknis sálarinnar, og leitað sættar og athvarfs hjá Guði? hefir hann gefið þeim að drekka úr lindum þeim, sem upp spretta til eilífs lífs? Hafa þeir allir fundið til hinna sáluhjálplegu afleiðinga kristinnar trúar? hefir hún lypt huga þeirra frá hinu fallvalta til hins eilífa, frá heiminum til Guðs, hefir hún gefið þeim djörfung í lífi og í dauða, hefir hún styrkt þá til að gjöra skyldur sínar rækilega og trúlega, styrkt þá til rjettlætis, og blíðkað þá með kærleika, svo að þeir leituðust við að elska Guð um alla hluti fram, og náunga sinn sem sjálfa sig, svo að þeir breyttu eins við aðra, og þeir vildu aðrir breyttu við sig? hafa þeir lært að umbera og fyrirgefa, og gleyma, og yfirvinna illt með góðu? Menn geta, því miður, ekki svarað þessum spurningum með öðru enn þessu: Margir eru kallaðir, en fáir útvaldir.

En þetta segjum vjer ekki til að koma mönnum til að dæma

aðra hart, heldur til þess að minna á þessi orð postulans: hver af oss gjöri Guði reikningsskap fyrir sjálfan sig, þess vegna skulum vjer ekki framar dæma hver annan (Rómv. 14, 12. 13). Þegar þú ert til altaris, skaltu ekki snúa huga þínum til þess, sem er fyrir utan þig, heldur til þess, sem sjálfum þjer er innan brjósts, þú átt þá einkum að hugsa um sjálfan þig, því Drottinn býður oss ekki til kvöldmáltíðar sinnar, til þess vjer prófum bresti og syndir mannkynsins, eða þjóðarinnar, eða safnaðarins, heldur lætur hann postula sinn segja til vor: Hver maður prófi sjálfan sig, og eti síðan af brauðinu og drekki af kaleiknum (1. Kor. 11, 28).

„Hver maður prófi sjálfan sig"! Hversu heilsusamleg er áminning sú, er á þenna hátt er gefin öllum þeim, sem ganga til altaris! Það er svo margt, sem glepur og truflar, að vjer megum blessa þær næðisstundir, er svo alvarlega uppörfa oss til að prófa sjálfa oss fyrir augliti Guðs. Eins og ferðamaðurinn setur sig stundum niður við veginn, og lætur aðra fara fram hjá, meðan hann rifjar upp fyrir sjer það, sem fyrir augun hefir borið og fest hefir rætur í sálu hans, og hugsar um, hvaðan hann sje kominn, og hvert hann ætli: eins látum vjer á guðræknisstundum þessum háfaðan þjóta fram hjá oss, og setjum oss undir kross Jesú Krists, og hugsum þar um þann part vegferðar vorrar, sem farinn er, og þann partinn, sem vjer eigum fyrir höndum.

Þegar menn fara að hugleiða eitthvað, eru endurminningarnar vanar að vakna; lofa þú fögnuði og hryggð hinna umliðnu daganna að lifna á ný í sálu þinni, því það á ekki allt að hverfa, eins og draumur, sem mætir manninum á æfi hans. Lofa Drottin, sála mín, og gleym ekki öllum velgjörðum hans (Sálm. 103, 2)! Ætti jeg að gleyma hinu góða, er Guð hefir veitt mjer svo mikið af, og ekki hugsa um annað enn hryggð sálar minnar. Pílagrímsferðin gegnum lífið hefir optsinnis verið undarleg og optsinnis erfið, en opt hefir líka vegurinn verið greiður yfirferðar, og Guð látið ástvini fylgja oss, sem gjörðu armæðuna ljettbæra, og í aptankyrrðinni lagði optsinnis ilm af alls konar blómum um götu vora, og um blíðviðris nætur skinu allar stjörnur himinsins yfir

henni. Ekki hefir Guð heldur látið mig vanta vitnisburð um sig, því hann hefir gjört mjer gott og satt líkama minn dag hvern á fæðslu, og sál mína optsinnis á fögnuði. Lofa Drottin, sála mín, og gleym ekki öllum velgjörðum hans! En samt sem áður kann jeg ekki nje á að gleyma armæðu lífsins, nje andstreymi því, er á mig hefir strítt, nje hörmungum sálar minnar. En jeg vil minnast þeirra undir krossi Drottins míns og Frelsara, jeg vil hugsa til þess, að lærisveinninn er ekki meiri enn meistarinn, og hafi hann borið sinn kross, á jeg einnig að bera minn; jeg vil venja mig við að segja það, er hann sagði: verði þinn vilji, Faðir á himnum, enn ekki minn!, jeg vil venja mig á þolgæði og sjálfsafneitun og auðmýkt og hógværð, þangað til jeg get sagt: Drottinn gaf, Drottinn tók, lofað sje nafnið Drottins (Job. 1, 22)!

En þegar vjer lítum yfir liðna æfi, höfum vjer þá einskis að minnast, nema þeirra hluta, sem ekki voru í voru valdi — þeirrar gleði og þeirrar hryggðar, er oss hefir verið send? „Hver maður prófi sjálfan sig“! Já! undir krossi Drottins míns vil jeg prófa sjálfan mig, hvað í mjer hafi búið, hvað jeg hafi aðhafzt í veröldinni, og hvað jeg hafi vanrækt. Jeg vil ekki pína sjálfan mig á þarflausu grufli, nje heldur ljúga upp á mig syndum; hafi jeg gjört nokkuð um æfi mína, sem jeg gleðjist við að hugsa til, vil jeg þakka Guði fyrir það, svo sem hina beztu gjöf, og biðja hann að efla mig til góðs, og frelsa mig frá illu. En hins vegar vil jeg ekki draga sjálfan mig á tálar, og segja jeg sje syndlaus. Það er, því miður, harla margt, sem jeg get ekki efazt um að hafi verið synd, annaðhvort vegna þess, jeg hefi gjört það, sem rangt var, eða vanrækt það, sem rjett var. Jeg hefi syndgað af órjettum ákafa, jeg hefi syndgað af löðurmennsku eða deyfð og sinnuleysi; jeg hefi syndgað, svo uppvíst hefir orðið, og jeg hefi syndgað, svo enginn veit nema sjálfur jeg; stundum bjó syndin í brjósti mjer, þó hún gjörði ekki vart við sig í verkunum, og var það ekki yfirráðum vilja míns að þakka, heldur öptruðu kringumstæðurnar því; þar bjó bæði drambsemi og öfund, reiði og losti, heimska og hjegómadýrð, jarðneskt hugarfar og trúleysi. Drottinn, vertu mjer syndugum líknsamur! Það segi jeg ekki af

því, að aðrir hafi kennt mjer að segja það, þegar jeg fer til altaris, heldur segi jeg það í auðmýkt hjarta míns, og jeg vil ekki segja það svo, að jeg hugsi einungis til þess, að jeg sje syndugur eins og allir aðrir menn, heldur vil jeg prófa sjálfan mig, þangað til jeg sje, hversu hryggileg spillingin í mjer er, og þangað til jeg sje, hvað það er, sem jeg einkum þarf að stríða við og þvo af mjer, svo að jeg geti öðlazt speki og styrkleika til að heyja hina góðu baráttuna, um leið og jeg leita mjer miskunar og fyrirgefningar, og geti betrað mig því meir, sem lengra líður á æfi mína.

Því vegurinn er ekki á enda enn, dagur er ekki enn að kvöldi kominn, og jeg á að halda lengra á fram. En þegar jeg horfi fram á veginn, sem ófarinn er, koma von og ótti í móti mjer; samt vil jeg ekki reyna til að draga skýluna af hinu ókomna og ekki grennslast eptir því, sem fram við mig á að koma, og Faðirinn á himnum hefir áskilið sjer að ráða fyrir; heldur vil jeg grennslast eptir því, sem undir sjálfum mjer er komið, en það er sá ásetningur og þær fyrirætlanir, er jeg byrja með hina nýju vegferð. Er það einlægur ásetningur fyrir mjer, að vera staðfastur í hinu góða, og hafa viðbjóð á hinu illa, og varðveita trúna, vonina og kærleikann, hvað sem á bjátar, og reyna til að gjöra hverja skyldu, og vera dyggur í stóru og í smáu, og heimta því meir af sjálfum mjer, sem mjer vegnar betur, svo að jeg sje maklegur gæfu minnar, en heimta líka af mjer þolinmæði og stöðuglyndi þegar móti blæs, svo að jeg geti einnig á þann hátt sigrað illt með góðu? er það einlægur ásetningur fyrir mjer, að hlífa ekki sjálfum mjer, heldur kúga hjarta mitt og láta móti girndum mínum, þegar þær eru óstýrilátar, og vilja fara út yfir hin rjettu takmörk, en vekja sjálfan mig, þegar jeg ætla að sofna, glæða í mjer sjerhverja ástgjöf, og temja mjer þannig að varðveita samvizku mína óflekkaða fyrir Guði og mönnum? Jeg má ekki dirfast að búast við, að kærleikur Krists eða friðþæging hans komi mjer að haldi, nema jeg hafi þenna ásetning; en þegar jeg hefi ásett mjer það einlæglega, og bið Drottin, þegar jeg krýp við altari hans, heitt og hjartanlega, að gefa mjer Anda sinu, sem

helgi mig til Guðs ríkis og hans rjettlætis, en gef allt annað á Guðs vald: þá má jeg og á jeg að búast við að friðþæging Krists komi mjer að fullu haldi; því hann er Frelsari minn, eins og allrar veraldarinnar. En til þess jeg skuli vita það og trúa því, rjettir hann mjer brauð lífsins og bikar friðþægingarinnar, til fyrirgefningar syndanna og til eilífs lífs. Meðtak þú hinn helga pant, svo að þjer verði eptir því sem þú trúðir!

---

# 57.

## HIN HEILAGA KVÖLDMÁLTÍÐ.

### Síðari hugleiðingin.

Í samræðu sinni við hina samversku konu sagði Jesús þessi hin ógleymanlegu orð: Þann þyrstir aptur, sem drekkur úr þessa heims brunnum, en hinn, sem drekkur af því vatni, er jeg mun gefa, skal ekki þyrsta að eilífu, heldur mun það vatn, sem jeg mun gefa honum, verða í honum að lind uppsprettandi til eilífs lífs (Jóh. 4, 13. 14). Sjerhver, sem er kristinn af alvöru, hefir eflaust optsinnis íhugað þessi orð í hjarta sínu. Hungur og þorsti merkja upphaflega hina mestu og sárustu þörf líkamans; þeir sem ætíð hafa haft allsnægtir, og ætíð verið mettir áður enn þörfin kom, vita ekki til fulls hvað þessi orð þýða; en hver, sem reynt hefir skort, hver, sem gengið hefir hinn langa veg um hina brennheitu eyðimörk, hvar engin lind var til svölunar, hann veit, hvað hungur og þorsti er. Hinn andlegi hluti vor hefir einnig mikla og sára þörf. Þú veizt alls ekkert til þess — þú, sem aldrei hefir fundið í hjarta þínu, að þú værir snauður og sjúkur og örmagna, enda hefir þú og aldrei leitað Krists með þeim einum hætti, sem hann verður fundinn. Því það er þörfin, sem á að

leiða oss til hans, og hver sem ekki þykist þurfa hans með, mun aldrei af alhuga aðhyllast hann. Að sönnu hefir Guð gefið honum margt og mikið til vitnisburðar, svo það er öllum bert, að hann er frá Guði kominn; en vjer mundum ekki leita þessa vitnisburðar, nje gefa honum gaum, nje veita honum viðtökur, nema sú þörf, sem ekki yrði fullnægt með öðru móti, væri til í hjarta voru. Kristi mun ætíð verða ofaukið, eður hann mun verða til athlægis í augum hinna heilbrigðu, sem ekki þurfa lækningar við, hinna sljófu, sem ekki eru vaknaðir í hug og hjarta, hinna drambsömu, er reiða sig á veröldina og sjálfa sig, og hinna vitru, er þykjast hafa lykil vizkunnar sjer í höndum og vita hvern leyndardóm, þó að speki þeirra sje í raun og veru ekkert annað, enn hjegómlegt leikfang, til að villa sjónir fyrir öðrum, en ekki til að fullnægja sjálfum þeim. Þess vegna segir Drottinn: sælir eru andlega volaðir, og þeir hinir sorgbitnu, og þeir, sem hungra og þyrsta eptir rjettlætinu; því þeir munu saddir verða og miskun hljóta, og öðlast hlutdeild í himnaríki (Matth. 5, 3. 4. 6).

Það er til mikil þörf, sem öll veraldleg auðæfi og allar veraldlegar uppsprettulindir þekkingar, ánægju og huggunar geta ekki fullnægt. Sú þörf leiðir oss til Krists, og því innilegar og nákvæmlegar sem vjer sameinumst honum, því meiri fullnægja veitist henni. Um þetta talaði hann sjálfur opt og á marga vegu: Jeg em vínviðurinn, sagði hann, þjer eruð greinarnar; eins og greinin getur ekki borið ávöxt af sjálfri sjer, nema hún sje föst á vínviðinum, eins getið þjer og ekki, nema þjer sjeuð mjer áfastir (Jóh. 15, 4. 5). Jeg em hið lifanda brauð, sem kom niður af himni; ef nokkur etur af þessu brauði, mun hann lifa til eilífðar (Jóh. 6, 51). Þau orð, er hann talaði hjer um, þóttu mörgum hörð, og þeir hneixluðust; en hvað segja þau annað, enn að líf og fylling og friður sjeu hvergi nema í hinni nákvæmustu sameiningu við þann, er kom til að veita heiminum líf?

Þessari sameiningu gætir þú nú gjört þjer far um að viðhalda, án vissra sýnilegra meðala og þjónustugjörðar. Þó þú byggir á eyðimörku fjarlægur öllum mönnum, eða þú værir meðal

manna, þar sem allur hugur þinn væri öllum ókunnur, og enginn tæki þátt í trú þinni, von þinni og kærleika þínum, svo þú værir eins og á andlegri eyðimörku, þá gætir þú, og ættir þú samt að endurnýja fyrir sjálfs þíns hönd minningu Frelsara þíns, og aðhyllast hann í trúnni. En nú er heimurinn, sem þú lifir í, svo gjörður, að hinum margvíslegustu hlutum ægir þar undarlega saman; þú lifir innan um margháttaðar athafnir, glaðværðir og áhyggjur, meðal þeirra manna, sem optast nær hugsa og tala um allt annað; en allmargir af þeim bera þó í brjósti sjer hina sömu kristilegu meðvitund sem þú, og allmargir hverfa á stundum úr glaumi lífsins til kyrrðarinnar við altari Drottins: hví skyldir þú ekki fara þangað með þeim? „Gjörið það í mína minning! sagði Drottinn vor sjálfur, þegar hann tilsetti kvöldmáltíðina. Hann vissi víst, að postular hans mundu aldrei geta gleymt honum öldungis, er þeir höfðu verið honum samtíða svo lengi og reynt svo margt í samfjelagi við hann, og orð hans höfðu fengið svo mjög á hjörtu þeirra, og hann sjálfur verið þeim kærstur af öllu því, er augu þeirra sáu. En hann vissi einnig, að hver endurminning fölnar þegar frá líður, og það, sem liðið er, hverfur æ lengra inn í móðu fjarlægðarinnar, og vegna þess bauð hann, að lærisveinar hans sliti sig frá hinu nálæga endur og sinnum, og söfnuðust saman til helgrar þjónustugjörðar, og minntust hins umliðna með ást og lotningu. Vjer getum ekki heldur nokkurn tíma gleymt honum öldungis; hann hefir þannig ritað nafn sitt í veröldina, að það skín með ómáanlegu letri fyrir augum allra manna, hinna vitru og hinna fákænu, þeirra, sem vilja sjá það, og þeirra, sem ekki vilja sjá það. En hvílíkur munur er á hinni stopulu endurminningu, sem kviknar í oss af þeim menjum Drottins vors, er vjer sjáum hvarvetna í heiminum og þeirri, sem glæðist í hjartanu á alvörustundu kvöldmáltíðarinnar, þegar þessi orð hljóma frá altarinu: „Vor Herra Jesús Kristur á þeirri nátt, sem hann svikinn var!“ Sú nótt, er svikræði og illska gjörðu samtök á móti hinum rjettláta, og veröldin útskúfaði þeim, sem kominn var að færa henni líf — sú nótt, er myrkrið stríddi við ljósið meir enn nokkurn tíma endrarnær — þessi hin undarlega,

sorglega, svipmikla nótt líður fyrir hug vorn og sá með henni, er var hlýðinn allt til dauðans á krossinum, en varð hátt upphafinn af Guði, og gæddur því nafni, sem æðra er öllum nöfnum.

En mundi oss þykja tilhlýðilegt, þegar vjer komum saman til að minnast Jesú, að gjöra það á sama hátt og endrarnær, þegar vjer minnumst þeirra, sem látnir eru — mundi oss þykja nóg að segja: Hann var einn af þeim, sem hefir gjört mannkyninu mest gott; hann hefir áunnið sjer mikinn heiður, svo að nafn hans mun aldreigi fyrnast; þess vegna skulum vjer lofa hann og hvetja sjálfa oss til að breyta eptir dæmi hans? Hver kristinn maður er sá, er ekki finni, hversu þessi orð eiga hjer illa við, og hvað þau eru gagnstæðileg þeirri meðvitund, er lætur hann aðhyllast Drottin sinn og Frelsara? Um hina segjum vjer, að þeir sjeu komnir úr þessum heimi, og í önnur híbýli í hinu mikla húsi hins himneska Föðurs, og að þeir sjeu hættir að hafa áhrif á jarðneska hluti, nema að því leyti sem verk þeirra hafi miklar afleiðingar; en hann var ekki eins og aðrir eru, og um hann segjum vjer: hann getur gjört þá fullkomlega sæla, er koma til Guðs fyrir hans sakir; því hann lifir æ til að tala máli þeirra (Hebr. 7, 25). Hann sagði sjálfur: jeg mun vera með yður alla daga allt til enda veraldarinnar (Matth. 28, 20); sömuleiðis: hvar sem tveir eða þrír eru saman komnir í mínu nafni, þar mun jeg vera með þeim (Matth. 18, 20); og hvernig gætum vjer gjört oss í hugarlund, að þetta sje talað einungis um minningu hans, eða um orð hans, eða um ávöxt verka hans? Þegar vjer því heyrum Drottin vorn taka svo til orða yfir kvöldmáltíðinni: „þetta er minn líkami, sem fyrir yður er gefinn; þetta er mitt blóð, sem fyrir yður úthellist til fyrirgefningar syndanna“, þá eigum vjer ekki að rýra krapt hinna helgu orða, nje kalla, að það sje einungis til merkis um sameiningu, er Drottinn sjálfur ætlaðist til að væri hin innilegasta sameining á milli hans og hinna trúuðu. Vjer segjum þetta ekki í því skini, að kveikja þrætur nje ala þær; þeir, sem ekki hafa orðið varir við leyndardóm kvöldmáltíðarinnar, komi þangað eptir trú sinni og skynbragði sínu, og mun Drottinn ekki útskúfa þeim, ef þeir koma með hreinskilnu hjarta; en ekki ber þeim að halda

sig vitrari fyrir það, þó allt vilji sýnast þeim framar í hinni jarðnesku mynd. Því hið guðlega streymir ætíð og alstaðar gegnum hið jarðneska, sá kraptur í brauðinu, sem nærir, og sá kraptur í víninu, sem hressir og styrkir, er kraptur Guðs; og haldirðu Kristur sje meira enn maður, og skiljir þú, hvað það þýði, að hann sje eingetinn Sonur Föðursins, geisli dýrðar hans og ímynd veru hans (Hebr. 1, 3), að hann sje það orð, sem vera Guðs birti sig í — hið almáttka orð, er skapað hafi heiminn og viðhaldi honum, og uppfylli alla hluti: þá hlýtur þú við að kannast, að það sje guðdómskraptur Krists, er birtir sig á líkamlegan hátt í brauðinu og víninu. En í kvöldmáltíðinni — þar sem vjer komum saman í hans nafni, þar sem hann er sjálfur mitt á meðal vor, þar sem vjer heyrum hann segja: þetta er minn líkami, þetta er mitt blóð — áttu einkanlega að finna til návistar hans, og eins og þreifa á honum; og eins og kraptur hans í brauðinu og víninu sameinar sig líkama þínum, eins áttu að nálgast hann í trúnni, svo að Andi hans sameinist þínum anda, og veiti honum næringu, fjör og krapt. Þetta er hin helga merking kvöldmáltíðarinnar.

„Þetta er kaleikur hins nýja sáttmála í mínu blóði." Hinn gamli sáttmáli var öllum kunnur; þegar hann var gjörður, var hinn mikli spámaður, Móses, meðalgangari millum Guðs og þjóðar þeirrar, sem Guð hafði kosið meðal allra þjóða veraldarinnar til að vera öðrum fremur í sambandi við hann, til að þekkja orð hans og geyma þau, og til að vænta hins ókomna. Guðleg tákn fylgdu þá Mósesi; fjallið, þar sem hann boðaði vilja Guðs, logaði og skalf, og það hjúpaðist mistri, myrkri og óveðri, og lýðurinn skelfdist af hinum þungu röddum, og beiddist, að ekki væri meira til sín talað (Hebr. 12, 18. 19). Þannig var Ísrael kallaður til hins mikla ætlunarverks og hins nákvæmara samfjelags við Guð. En nú var hinn gamli sáttmáli á enda kljáður, og annar nýr átti að koma í hans stað; hvernig var hann stofnaður? — Í Jerúsalem sat einn kennari í húsi sjer með lærisveinum sínum, sem ekki voru nema örfáir. Þar úti fyrir gengu menn fram og aptur í hversdagsönnum sínum, flestir án háleitra hugsana, sumir hirðulausir um hið heilaga, sumir gjörandi gabb að því, og sumir lútandi því í

hræðilegri hjátrú og blindni, með svik í hug og grimmd í hjarta. Lengra úti í heiminum voru menntaðar þjóðir, sem þá voru farnar að sljófgast og sokknar niður í munað og rangsleitni; þar slökkti vantrúin smátt og smátt þá hina fáu geisla háleitrar þekkingar, er skinu í myrkrinu, og greiddi veg hinni skaðlegustu hjátrú, sem ekki vildi hafa guðlega hluti til annars, enn að þjóna girndum mannanna; hvað átti að vekja þessar þjóðir? Enn voru til ósiðaðar þjóðir og óstýrilátar, búnar til að æða af stað, og eyða og spilla; hvað átti að spekja þær? Ef vjer ímyndum oss, að einhver hefði þá horft yfir veröldina, og sjeð þar allt, nema hús það, er Jesús sat í með lærisveinum sínum: hvað mundi sá hafa sjeð, það er hann gæti byggt nokkra von á um líf og frelsi handa hinum gjörspilltu kynkvíslum mannanna? Allt var að losna í sundur; hið forna, sem þangað til hafði staðið, var tekið að skjálfa allt í frá grundvelli og gliðna sundur um allar samkomur, og sjerhverri byggingu lá við falli; hið nýja leit ekki út fyrir mannlegum augum öðru vísi enn eyðing og sundrung. Þá sat í Jerúsalem, er einnig var þegar mörkuð til eyðingar, einn kennari með lærisveinum sínum yfir kærleiksmáltíð, sem jafnframt var skilnaðarmáltíð. Hann hafði ekki dvalizt með þeim nema fáein ár; þeir höfðu heyrt orð hans, en það vantaði mikið á, að þeir hefðu skilið þau til hlítar; þeir höfðu sjeð verk hans, en það vantaði mikið á, að trúin væri orðin rótgróin í hjörtum þeirra; og nú átti hann að yfirgefa þá. Sá var og þar viðstaddur, er sú hugsun hafði kviknað í, sem hræðilegust er allra hugsana; hann hafði ætlað sjer að hafa jarðneskan hag og jarðneskan sóma af samfjelagi við Jesúm; og þegar honum þótti þeim hlutum seinka, og jafnvel útsjeð um þá, vildi hann græða það, sem grætt yrði, fór til og seldi Drottin sinn og Meistara í hendur óvina hans. Ef Júdas hefir heyrt, áður enn hann gekk út, orð þau, er Jesús stofnaði með hina heilögu kvöldmáltíð, og borið þau til þeirra, er ofsóttu Jesúm, þá hefir án efa þeirra grimmi hugur espazt enn meir, og þeir hafa hugsað með sjálfum sjer: víst skaltu verða seldur í dauða, víst skal blóði þínu verða úthellt; en sáttmáli sá, er þú gjörðir, verður ekki til annars, en þjer til glötunar; fjelagi því, er þú stofnaðir, skulum vjer skjótt sundra,

verki því, er þú hófst, skulum vjer skjótt eyða; áður enn langt um líður skal enginn dirfast að nefna þig framar, og straumur tímans skal afmá minningu þína. Á þessari nótt tók Jesús kaleikinn og sagði: þetta er kaleikur hins nýja sáttmála; hann sagði þetta með eins miklu trausti og æ hafði komið fram í hverju orði hans og verki. Hinn nýi sáttmáli er ekki eins og hinn gamli; hinn gamli snerti ekki nema eina þjóð, en hinn nýi allar kynkvíslir á jörðunni; hinn gamli átti að verða afmáður, en hinn nýi haldast um allar aldir. Átján hundruð ára eru nú liðin í frá þeirri nótt — hvílík ákafleg tímalengd er það, þegar vjer hugsum fram á hið ókomna! Hvað mun verða orðið af öllu, sem nú er, ef veröldin á enn eins langan tíma fyrir höndum? Hvað mun þá verða komið í ljós, sem ekkert auga hefir enn sjeð, og ekkert eyra enn heyrt, og aldrei hefir í neins manns hug nje hjarta komið? Allar þessar aldir eru nú liðnar í frá þessari nóttu, straumur þeirra hefir eytt, umturnað, umbreytt öllu, sem þá var, jörðin hefir breytt ásýndum, svo það er eins og fjöllin hefðu sokkið og dalirnir hafizt upp til skýja himinsins, þjóðirnar hafa blandazt hver innan um aðra, tungumál, siðir og venjur, meiningar og vísindi er orðið öðru vísi, ekkert er óbrjálað, nema sáttmáli sá, er Drottinn vor og Lávarður stofnaði, þegar hann var svikinn, þegar heimurinn útskúfaði honum, þegar líkama hans var fórnfært og blóði hans úthellt fyrir marga.

„Þetta er kaleikur hins nýja sáttmála í mínu blóði, sem úthellt verður til fyrirgefningar syndanna“. Hversu dásamleg og líknarfull eru þessi orð! Allt annað, sem heyrðist í veröldinni, boðaði hegningu, þrumur hins almáttka voru farnar að duna, eldingin leyptraði í hinu dymma skýi, og sagði fyrir, að Guð mundi ekki láta að sjer hæða, og þeir dagar færu í hönd, að mennirnir mundu örmagnast af eptirbið þeirra hluta, er koma skyldu yfir jarðríki; en á meðan hinir voðalegu og skaðsamlegu kraptar voru í uppgangi, þá var þó ein rödd í hinni víðu veröld, einungis ein huggunarrödd, sem boðaði líkn og fyrirgefning syndanna, með því Guð — eptir því sem postulinn að orði kemst —, sætti heiminn við sig fyrir Krist, og tilreiknaði mönnum ekki afbrot þeirra, og setti sættarorð á meðal vor; því þann, sem aldrei þekkti synd,

gjörði hann að syndafórn vor vegna, svo að vjer fyrir hann rjettlættir yrðum (2. Kor. 5, 19. 21).

„þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn, þetta er mitt blóð, sem fyrir yður úthellist til fyrirgefningar syndanna“, sagði Drottinn vor til postula sinna, er hann sagði einnig, að blóði hans yrði úthellt „fyrir marga“, og postularnir sögðu: hann er friðþæging fyrir syndir vorar, og þó ekki að eins vorar, heldur og gjörvallrar veraldarinnar (1. Jóh. 2, 2). þegar vjer komum saman til hinnar helgu kvöldmáltíðar, ná því þessi orð „fyrir yður“ einnig til vor, já, til sjerhvers af oss, hins háa og hins lága, hins vitra og hins fákæna, þess, er heimurinn kallar syndara, og þess, er hann telur meðal hinna rjettlátu. Engum er vanþörf á hinni himnesku gjöf, en enginn er frá henni úti byrgður. Fegurð sakramentanna í kristinni kyrkju er þar í fólgin, að þau snerta hvern og einn sjer í lagi. þess vegna er sagt yfir kvöldmáltíðinni ekki að eins um alla jafnt, að Kristur sje friðþæging fyrir syndir gjörvallrar veraldar, heldur og til hvers kristins manns útaf fyrir sig: þigg hinar helgu gjafir, þetta er líkami Jesú, er í dauðann var seldur eins fyrir þig og aðra, þetta er blóð Jesú, sem úthellt var eins fyrir þig og aðra til fyrirgefningar syndanna. þessi orð „fyrir yður“ krefjast trúar af sjerhverju hjarta; þú verður að heimfæra til þín það sem þú veizt um endurlausn Krists, áður enn þú getir haft not af henni. En hin heilögu náðarmeðul eru einmitt til þess ætluð, að glæða trúna, sem dylst í hjörtum mannanna eins og daufur neisti, svo hún verði að skærum loga til hreinsunar, fræðingar og vermingar. þetta er kærleikur hins nýja sáttmála, og þegar kaleikurinn er rjettur að þjer útaf fyrir þig, þá verður hinn almenni sáttmáli um leið sáttmáli við þig sjer í lagi; hinn eingetni Sonur Guðs, hinn mikli Meðalgangari millum Guðs og manna, kemur þá til þín sem Meðalgangari þinn, hann er á millum Guðs og þín, og gleymir þjer ekki, þó grúi mannanna sje ótölulegur. Fyrir því er þessi kaleikur bikar fróunar og huggunar; kom þú hingað, aum og þjáð mannskepna! hann er rjettur þjer í bágindum þínum, svo að þú örmagnist ekki, svo þú haldir ekki að þú sjert yfirgefin, svo að kraptur hans lífgi þig, og þú vitir og sjáir og

trúir, að þú eigir einnig Guð og Frelsara. Það er friðþægingarkaleikur, því hann er hluttekning Krists blóðs (1. Kor. 10, 16), þeirrar fórnar, sem fram var borin fyrir synd allrar veraldarinnar. Æ, það er kominn aðskilnaður á millum mannanna og Guðs, þú hefir einnig orðið var við hann, og fundið að þú varst fjarlægur Guði og lífinu í honum, þegar þú vildir nálægjast Guð, fannstu opt að þjer var frábægt, þú sást að þú varst skrifaður til skuldar, sem þú ert ekki fær um að borga, hryggileg reynsla kenndi þjer hvað það er að hræðast þann, sem vjer eigum að elska yfir allt fram, sem er allt hæli vort, sem einn saman megnar að senda oss huggun og von. Sjá, hjer er bikar friðþægingarinnar, hann er eins og hver annar bikar fyrir þá, sem bergja á honum, án þess að hafa trúna í hjarta sínu, og ef trúin leiðir ekki til apturhvarfs, er hún einskis verð, eða verri enn einskis verð — því hún er þá ekki annað enn leikfang og vanbrúkun hins heilaga; en fyrir trúaða er kaleikurinn pantur Guðs miskunar, og felur í sjer læknisdóm hinna dýpstu sára, og fyrirgefningu syndanna, og von hins eilífa lífs. Það er bikar kærleikans; sjá, hinn eilífi kærleiki lætur rjetta oss hann til svölunar í mæðu vorri, til huggunar í sorg vorri, til friðþægingar í synd vorri; ó! látum oss elska hverjir aðra, eins og Kristur elskaði oss, og gaf sjálfan sig út fyrir oss. Og þá skal þessi kaleikur einnig vera oss frelsisbikar, svo vjer finnum, að vjer sjeum upphafðir yfir jarðneska baráttu og jarðneska eymd, og verðum nú þegar varir við það frelsi, er bíður vor, þegar sá kaleikur verður oss rjettur, er eyðir öllum jarðneskum draumum, og vígir oss til eilífra unaðsemda og til þess samfjelags, er lætur oss skoða augliti til auglitis.

---

# 58.

## HÖNDLAÐU HIÐ EILÍFA LÍF.

Þegar vjer stöndum á árbakka og hörfum ofan í strauminn, sjáum vjer hvernig hver bylgjan eltir aðra og berst æ lengra og lengra, þangað til hún hverfur oss af sjónum, og rennur til hafs, þar sem öll vötn koma saman í hinum mikla veraldar sæ: en þótt vatn árinnar skiptist óaflátanlega, er hún samt jafnan hin sama, og uppsprettur hennar, sem aldrei tæmast, endurnýja hana sí og æ. Þegar vjer virðum þessa sjón fyrir oss, sem er svo harla breytanleg og þó jafnan sjálfri sjer lík, vekur hún smátt og smátt í hjörtum vorum undarlegar og alvarlegar og einatt sorglegar tilfinningar. Því þetta er eptirmynd mannlegs lífs hjer á jörðu, svona rennur það án afláts fram af hinni huldu uppsprettu sinni, og ber fram bylgjur sínar, ýmist hóglega, eður með stríðu iðufalli, en straumur þess þrýtur aldrei, lífið rennur óaflátanlega á fram á jörðunni, einungis hið einstaka, augnablik, stundir, dagar og ár líða hvað af öðru og fjarlægjast æ því meir, þangað til þau eru horfin og koma aldrei síðan.

Eigum vjer þá að standa á árbakkanum og láta tár vor hrynja í strauminn, af því hann rennur á fram, og vjer megnum ekki að stöðva hann, hversu fegnir sem vjer vildum það? Eður eigum vjer að hrinda með hörðu þessu hugsunum, eigum vjer að steypa oss í ólgustraum tímans og gleyma svo í iðunni, að tíminn berst á fram og með honum sjálfir vjer? eigum vjer að gleyma, að líf vort hjer á jörðu líður fram hjá eins og skuggi?

Sú kenning er til, er segir: höndla hið hverfula, fyrr enn það hverfur! og vjer þrætum þess ekki, að slík áminning sje á góðum rökum byggð; oss ber og að höndla stundina, sem líður, nota hana og njóta hennar, fyrr enn hún er umliðin, og safna hunangi úr blómunum, fyrr enn þau eru visnuð, og hversu skjótt ber það ekki stundum að? En ef vjer girnumst á þenna hátt að höndla hið hverfula eitt saman, þá höndlar það oss, og gjörir veru vora hvað af

hverju eyðingu og dauða undirorpna, eins og það er sjálft. Miklu djúpsærri sannindi hljóma í eyrum vorum, eins og alstaðar í heilagri ritningu, þar sem postulinn segir þessi hin mikilvægu orð: höndlaðu hið eilífa líf (1. Tím. 6, 12)! og þau eru sannlega þess verð, að hver ráðvandur maður íhugi þau með allri kostgæfni.

Þegar eilíft líf er nefnt, merkir það venjulega hið ókomna líf, og svo er það og kallað í ritningunni, af því hið eilífa á að birtast á fullkomnara og dýrðlegra hátt í hinu betra og æðra lífi hinu megin grafarinnar, og opinberun þess á þar að vera stöðugri, enn í tilveru vorri í þessum heimi. En hið eilífa er einmitt það, sem ekki er undirorpið breytingum tímans, það hefir verið til án upphafs, og er án breytingar, og verður til án enda; þess vegna getur hið eilífa líf ekki byrjað, heldur er það jafnan til, eins og það hefir ætíð verið. Ekki eigum vjer heldur að ímynda oss, að hið eilífa líf birtist að eins í öðrum veröldum, og þessi veröld sje að eins ætluð hinu stundlega lífi, því hið stundlega lífið á sjer einnig rót í hinu eilífa lífi. Myndir þær, sem bera fyrir augu vor í þessu lífi, köllum vjer skugga, af því útlit þeirra er einatt óljóst og þoku hulið, og af því þær líða einatt fram hjá eins skyndilega og skugga ber yfir land; en skugginn, sem er lítið eður ekkert í sjálfum sjer, vottar jafnan, að verulegur líkami sje til, sem skugggann beri af, og eins vottar hið stundlega líf, að eilíft og sannarlegt líf sje til, er það hafi rót sína í, og í því birtist. Því fremur sem nokkur hefir hið eilífa og sanna líf í sjer, því fullkomnari og öflgari og sælufyllri er tilvera hans hjer á jörðu; því fremur sem hann fjarlægir sig því, því fremur aðhyllist hann og eltir það sem er einber skuggi, því fremur verður öll tilvera hans smátt og smátt einungis eins og hræðilegur skuggi; og þetta ástand kallar ritningin dauða, það er: sloknun hins rjetta og sannarlega lífs. En eins og þessi dauði ógnar hvarvetna, og leitast ætíð og alstaðar við að svelgja lífið, þannig er og hið eilífa, hið sanna og himneska líf ætíð og alstaðar nálægt. Þess vegna hjet Drottinn vor þeim, er til hans vildu koma, ekki að eins tilveru í öðrum heimi, heldur vildi hann þegar hjer á jörðu leiða þá að þeim lindum, sem spretta

upp til eilífs lífs, svo þeir gætu svalað hinum sára þorsta sálar sinnar; og þegar postulinn segir, vjer skulum höndla hið eilífa líf, ætlast hann til vjer gjörum það þegar hjer á jörðu.

Er og nokkur sá, er ekki hafi á sælustundum sínum fundið það til huggunar sjer, að kraptar ókomins heims geta gjört vart við sig í oss hjer á jörðu, að mikið líf og ríkt og sælufullt — sem ber það með sjer, að það á sjer ekki rót í hinu eilífa — geti gagntekið veru vora? En ef vjer viljum láta hið eilífa líf staðnæmast í oss, þá verðum vjer að höndla það og halda því fastlega; því ef vjer seilumst eptir því, sem stundlegt er, þá teygir dauðlegleikinn að oss hundrað hendur til að hremma oss; en svo þrífur og hið eilífa líf oss, ef vjer leitumst við að höndla það með heitri og öflugri eptirþrá.

Allt sem vjer vitum, vitum vjer af reynslunni, á þann hátt, að það hefir runnið upp fyrir oss, og hefir birt sig oss, og vjer höfum fundið til þess. Þú veizt af jörðunni og dýrð hennar, einungis af því, að þú hefir sjeð hana og smakkað hana og fundið til hennar; þú þekkir hersveitir himinsins einungis af því, að geislar þeirra hafa snortið augu þín; þannig veit og enginn neitt um eilíft líf, utan sá sem hefir fundið til þess í sjer, og því öflugar sem það hefir hreift sjer í honum, með því meiri vissu veit hann, að það er ekki draumur, er hafi tælt hann, heldur sje það það, sem í raun rjettri er verulegt og satt. Að vísu gjörir hið eilífa líf vart við sig í hverjum manni, sem í heiminn er borinn, hann verður sjer þess meðvitandi, ekki síður enn hins stundlega lífs, en hann byggir þessari meðvitund út úr huga sínum, og slökkur hana meir og meir að sama skapi, sem hann hallast einungis að stundlegum hlutum. Því segir og postulinn: forðastu þessa hluti! áður enn hann segir: höndlaðu hið eilífa líf! Rjett þar á undan hafði hann einkum talað um ágirndina, og sagt, að hún flækti menn í freistni og snörur og margs konar heimskulegar og skaðsamar girndir, er sökkva þeim í spilling og glötun, því ágirndin er rót alls ills (1. Tím. 6, 9 o. nn. vv.). Höndlaðu auð þessarar veraldar! sú hvöt er til, sem þannig kallar um víða veröldu, leitaðu, segir hún, ábata og gróða, svo þú getir aukið eigur þínar, og notið svo heimsins og

sjeð þjer borgið í Eigur þínar? þú nefnir að vísu þetta orð á hverri stundu, en taktu nú vel eptir þýðingu þess, og spurðu svo sjálfan þig, hvort þú í raun rjettri getir átt eigur hjer á jörðu? Auðæfi þau, sem þú hefir aflað þjer, eru á valdi þjófanna og eldsins og skemmdanna, ekki síður enn þínu valdi, og þótt þjer heppnist að verja þessum óvinum inngöngu, brýzt samt dauðinn inn til þín að læstum dyrum, og hrífur þig burt frá gulli þínu og gersemum, og þú megnar ekki að hafa neitt af þeim með þjer þangað sem þú fer; kallar þú þetta eigur? En einmitt af því auðurinn hefir ekkert gildi, nema í hinu jarðneska lífi, einmitt af því slokknar æ framar í þeim, sem fæst við hann einan og tengir allan huga sinn og ást sína við hann, meðvitundin um eilíft líf; hann fær ekki að reyna það og finnur ekki til neins af því, sem skylt á við æðra heim; vjer hittum engan harðúðarfyllri, engan, sem sje fastari á, að halda það allt að vera draumóra sjúks ímyndunarafls, er vjer segjum um hið eilífa, enn þann, sem hefir gefið sig á vald ágirndarinnar, og sellt sálu sína við hinum ískyggilega auði þessa heims. Forðastu þenna löst, en forðastu einnig hjegómagirni og kveifarlegt munaðarlíf. Virtu þá fyrir þjer, sem sækjast eptir þessum hlutum! Hinir hjegómagjörnu elta fyrirburð, sem skreppur frá þeim, þegar þeir eru rjett komnir að honum, og nái þeir í hann, halda þeir gufu einni í faðmi sjer, er enga fróun veitir þeim, og geti þeir enn um stundar sakir skemmt sjer við litarbragð hennar, sundrast hún bráðum og hverfur, og þá er ekki að eins fangið tæmt, heldur er og sálin, sem hafði alla sína skemmtun af þessum sjónhverfingum, orðin tóm og of sljóf til allrar háleitrar áreynslu, og óhæfileg að geta fundið til þess, sem í raun rjettri er kjarni lífsins. þannig eyðir og munaðarlífið ekki að eins kröptum líkamans, heldur dregur það og alla dáð úr sálunni, því hún girnist einnig hlýja og mjúka hvílu, og vill láta blíðan andvara að eins leika um sig, og mettast án afláts í holdlegum og skemmtilegum draumum; og þegar svo stormar lífsins taka að veifa hinum sterku vængjum, þegar vatnsflóðin duna og regnið lemur, þá hefir sál þeirra engan mátt í sjálfri sjer, og hefir ekkert athvarf fyrirbúið sjer, er hún geti leitað til á tíma reynslunnar. Og vissulega er því svo varið,

að hver sem leitar sjer að eins munaðar í hinni jarðnesku veröld, hann leitar sjer einnig munaðar, og einskis annars, í því sem æðra er, hafi það komið fram í meðvitund hans; því hvað ættum vjer að kalla hana annað, þessa kveifarlegu eptirþrá, þessar afllausu umkvartanir, þessar huglausu efasemdir, sem fylla sálina og hrekja hana fram og aptur, svo hún þorir hvorki að afneita hinu eilífa, nje höndla það, og eru eins fráleitar sannri guðhræðslu, eins og gagnslaus læti leikandi manns eru fráleit öflugu og iðjusömu lífi.

Forðastu þessa hluti, segir postulinn; en sækstu eptir rjettlæti og guðsótta, og trú, og kærleika, og þolinmæði, og hógværð! Lifi menn guðlegu líferni, verða þeir sjer Guðs meðvitandi, og verji menn öllu lífi sínu til að ávinna sjer hið eilífa, verða þeir varir við hið eilífa í sjer. Hvert sinn, er hjarta þitt gjörir greinarmun þess, sem er þægilegt og þess, sem er rjett, hvert sinn, er þú segir við sjálfan þig: þetta yndi, eður ávinning, eður hægð vildi jeg feginn öðlast og fá að njóta, en jeg dirfist þess ekki, af því það er rangt; eður þú segir: þessa skyldu er mjer þungt að rækja, þetta, sem jeg nú legg í sölurnar, er mjer óljúft að láta, en mjer hæfir að gjöra það, af því það er rjett: þá hefir þú jafnframt kannast við gildi slíks lögmáls, sem hefir ekki holdlegan eður stundlegan uppruna; og hvert sinn, er þú hlýðnast þessu lögmáli, og afneitar jarðneskum fögnuði og jarðneskum hag sakir rjettlætisins, finnur þú að hinir miklu kraptar hins eilífa lífs hreifa sig í þjer. Hvert sinn, er þú tekur með hógværð við hinu illa, sem mennirnir gjöra þjer, hvert sinn, er þú tekur með þolinmæði við hinu illa, sem þjer er ætlað að bera, og kefur niður harm þinn og sviða, og geymir sál þína rósama og staðfasta í mótlæti þínu, þá er sá kraptur í þjer, sem sigrar heiminn; það er hið eilífa, sem styrkir sálina, bæði til að einskisvirða óhreina dýrð stundlegra hluta, og til að bera skammvinnar þjáningar. Þannig getur og þannig á maðurinn að fá skynbragð á hinu eilífa lífi, meðan hann lifir hjer í dauðlegleikanum, ekki að eins í hugsunum og ályktunum, heldur beinlínis af reynslunni. Það er þjer ætíð og alstaðar nálægt, þú getur fundið að það er í þjer og þú í því, en hvernig ættir þú að finna það og finna til þess, þú steypir þjer í hinn æðanda straum dauðlegleik-

ans, og lætur ekki hið eilífa líf fá tíma nje tækifæri til að eflast í þjer? Sækst þú eptir guðsótta og trú! það er til fýsn í hverjum manni, sem hvetur hann að nálægjast hið háleita, og nokkurt traust og nokkur von til guðlegrar stjórnar; en þegar þú forðast þessar raddir í brjósti þínu, eins og þú hugsir þær leiði þig á villigötu, og fjarlægi þig ákvörðun þinni og fögnuði þínum, þegar þú berð ekki við að ala og efla hinn betra hlut veru þinnar, þegar þú varpar þjer í straum tímans: þá er ekki að eins allt, sem þú reynir umhverfis þig, heldur og allt í sjálfum þjer, einungis stundlegt, hjegómlegur fögnuður og hjegómleg mæða, og dauðinn á baki þess alls saman; en leiðirðu sálu þína frá glauminum til róseminnar, hefjirðu hana yfir trufl og skarkala þessa heims, notirðu hin helgu náðarmeðul, þá nálægist sálin hið eilífa, og þá finnur þú beinlínis af reynslunni, að það er til, sem háleitara er og betra og sælla, enn það sem augað sjer og eyrað heyrir og komið hefir upp í hinu holdlega hjarta; í umbyltingunum finnur þú til þess, sem stöðugt stendur, í hrellingum heimsins finnur þú til hins himneska friðar, á bak við hina dymmu nótt eygir þú morgunroða eilífðarinnar, og lífið á baki dauðans.

Af þessu sjáum vjer hvað postulinn meinar, er hann segir: höndlaðu hið eilífa líf! Hann gjörir ekki ráð fyrir það sje fjarlægt, heldur algjörlega í nánd; hann segir ekki, að Guð muni á sínum tíma veita oss það hinu megin grafarinnar, heldur segir hann oss sje boðið það þegar hjer á jörðu, og vjer skulum höndla það; að vísu vill hann vjer skulum taka oss stundir til guðræknis og upplyptingar sálu vorri, en ekki ætlar hann samt það sje nóg, að vjer tökum stund og stund til undirbúnings undir eilífðina; hann kallar oss ekki burt frá þessu lífi, nje út á eyðimörk, að vjer skulum byggja oss hreysi til að sitja þar við eintómar hugleiðingar, nje heldur kallar hann oss burt frá saklausri skemmtun, nje til tilfinningarleysis í þjáningum lífs vors, heldur sýnir öll ræða hans, að maðurinn höndlar og ávinnur sjer hið eilífa líf með því að hegða sjer vel í heimi þessum. En hversu mikill munur er á að hegða sjer vel, og því, að vera sýkn af ákærum rjettvísinnar fyrir mannlegum dómi! Tveir menn hafa hið sama starf á hendi; annar gjörir það

af nauðung og af því það verður svo að vera, hann ætlar að vinna sjer brauð, eður auð og metorð; meðan hann á von á þessu, heldur hann á fram, en sjái hann ekkert endurgjald, þyki honum starf sitt of umfangsmikið, til þess hann geti uppskorið ávexti þess, eður of lítilfjörlegt, til þess það geti veitt honum fje og frama, hættir hann við það; hinn leitast við að ná ákvörðun sinni og afljúka því starfi sem honum er á hendur falið, og nota vel þann tíma, sem honum er veittur, þess vegna lætur hann endurgjaldið koma eins og honum er ætlað það; en fyrst af öllu hugsar hann um að koma því af, sem honum ber; þyki honum verk sitt mikið, treystir hann því, að sá, sem fól honum það á hendur, muni einnig senda þá, er unnið geti með honum, og frækorn það, sem hönd hans sáir, muni ekki glatast; þyki honum verk sitt lítilmótlegt, kemur honum til hugár, að enginn bygging yrði fullgjörð, ef enginn fengist til að leggja í hana stein á stein ofan, en sje hver, sem að henni vinnur, trúr í því litla, sem til hans nær, þá láti Guð allt verk þeirra til samans þróast guðlegum þroska; annar þessara manna ávinnur sjer ekkert, ef til vill, eður þá auð og frama, en hinn höndlar hið eilífa líf. Tveir menn njóta gæða þessa lífs; annar þeirra tekur þau eður sóar þeim, og lyptir aldrei huga sínum hærra, skógurinn breiðir yfir hann laufhvelfing sína einungis til að veita honum forsælu, stjarnan skín einungis til að bera birtu á götu hans, blómin ljúkast upp í aldingarði hans, einungis til þess hann geti sýnt þeim, sem koma að skoða þau, að hann eigi slíka prýði, og svo eru þeir, ef til vill, eins hjegómlegir og hugsunarlausir eins og sjálfur hann; hinn lítur frá gjöfinni upp til gjafarans, hann sjer Guð í blómum jarðarinnar og í stjörnum himinsins, og í sjerhverjum fögnuði lífs síns sjer hann glampa hinnar eilífu dýrðar, eins og þegar sólin speglar sig í daggardropa; annar þessara manna hefir þegið öll sín gæði, hinn hefir hjer í hinu stundlega lífi höndlað eilíft líf. Tveir menn bera hryggð og mæðu þessa lífs; annar þeirra herðir sig í gegn þeim, hann setur upp spekingssvip, og segir að stunur og kveinan komi að engu liði, og óþolinmæðin gjöri sár hans enn dýpra, svo gáir hann að í kringum sig, hvort allir taki eptir stöðugleik hans; hinn geymir viðkvæmt hjarta í brjósti sjer, svo hann

geti fundið til hryggðar sín og annara, en hann ber harm sinn í hljóði og lýtur ráði Guðs, hann veit, að allir hlutir verða þeim til góðs, sem Guð elska; annar þessara ávinnur sjer, ef til vill, lof af mönnum, hinn hefir höndlað hið eilífa líf.

þannig eru ekki tveir sjerstakir heimar til, svo annar taki þar við, sem hinn hættir, eður svo, að vjer skulum ýmist hefja oss upp í annan þeirra, eður láta aptur sígast niður í hinn; heldur er að eins einn heimur til, í þeim skilningi, sem vjer tölum nú um þetta mál; hið eilífa opinberast einnig á þessari jörðu, og þótt það birtist ekki á jafn fullkominn og sælufullan hátt, sem í hinum æðri og betri heimkynnum, er það eigi að síður hið sama og þar birtist. þessi jörð er forgarður helgidómsins, en hún er einn hluti hins mikla musteris, og samhljómur sá, sem fyllir musterið, heyrist þegar í forgarði þess. það er ekki nema einn Guð til og hann er Guð himins og jarðar; lögmál það, sem hljómar í samvizkum vorum, er hið sama lögmál, sem hlýtt á að verða um alla eilífð, hin ráðvanda og Guði þekka viðleitni, sem þú hefir byrjað á hjer í veikleika þínum, er hin sama, sem þú átt að halda á fram í öðru lífi; og hin sönnu gæði, sem hafa glatt hinar dýpstu tilfinningar hjarta þíns í þessu lífi, eru hin sömu, sem vonin lætur ljóma með enn meiri fegurð í móti þjer úr ókunnu lífi. Allar áminningar kristinnar trúar, öll kenningin um kristilegt rjettlæti og kristilega guðsdýrkun, koma þess vegna saman í þessum orðum: höndlaðu hið eilífa líf!

En þar sem vjer finnum til hins eilífa lífs og gjörum það að eign vorri, öðlumst vjer jafnframt fulla sannfæring um að eilíft líf sje til og ódauðleiki. það sem er eintóm þoka verður að breytast og sundrast, það sem er einber skuggi, verður að líða fram hjá, en hið verulega og sanna er ævarandi. því fremur sem maðurinn hefir leitað hlutskiptis síns í stundlegum munum, því fremur sem hann hefir sökkt veru sinni niður í þá, því fremur virðist honum, að sjálfur hann sje vígður til sundrunar og algjörlegs dauða. þetta er að vísu eintóm missýning og ósannindi, því kjarninn í veru hans á sjer rót í hinu eilífa, og getur ekki að engu orðið, en hann selur hann á vald ómælanlegum hörmungum, þar sem hann sökkur honum niður í

ólgusjó dauðlegleikans. En því fremur sem maðurinn leitar hlutskiptis síns í hinu eilífa, því fremur losar hann sig undan valdi dauðlegleikans. Þess vegna segja hinir fornu spekingar að ódauðleikinn sje í ætt við vizkuna (Spek. 8, 17), að viðurkenning boðorða Drottins sje lífs menntun, og þeir sem gjöra það, sem honum þóknast, neyti af trje ódauðleikans (Sír. 19, 19); þess vegna segir og postulinn þessi hin háleitu orð: vjer letjumst ekki, því jafnvel þótt hinn ytri maður vor hrörni, endurnýjast samt hinn innri maður dag frá degi; því þrenging vor er skammvinn og ljettbær, og aflar oss yfirgnæfanlegrar eilífrar dýrðar, þar sem vjer lítum ekki til hins sýnilega, heldur hins ósýnilega, því hið sýnilega er stundlegt, en hið ósýnilega eilíft (2. Kor. 4, 16—18).

Renndu því, straumur tímans! jeg skal ekki hryggjast af hraðför þinni; ný blóm spretta jafnan upp á bökkum þínum, og það sem þú hrífur með þjer af því sem mjer var kært, flytur þú til þeirrar strandar, er jeg mun síðar á koma, og finna þar aptur það, sem jeg hefi misst. Renndu, straumur tímans! jeg veit það að vísu, að ár mín eru talin hjer á jörðu, en jeg skal ekki hryggjast af því, að reynsluár mín líða hvert af öðru; hafi það verið ljett ár, vil jeg þakka Guði fyrir sjerhvern fögnuð, sem ylur himinsins leiddi fram af hinu dymma skauti jarðarinnar, hafi það verið þungbært ár, vil jeg þakka Guði, að það er liðið og borið, þakka Guði, hafi hann kennt mjer í þessari raun að varðveita trú og kærleika, og þolinmæði, og hógværð. Hið ófullkomna verður aftekið, hið hryggilega líður undir lok, en hið fullkomna eflist og dafnar. Sæll er sá, sem höndlar hið eilífa líf, og safnar sjer af fyllingu þess krapti, sem þreytist ekki, og fögnuði, sem enginn fær af honum tekið!

---

# 59.

## GUÐ ER EKKI GUÐ HINNA DAUÐU, HELDUR HINNA LIFENDU.

Þar sem öll hin kristilega kenning snertir hið eilífa líf, er hún byrjar með því fyrst og kemur að því síðast, þá talar hún engan veginn um það eitt, sem á að verða hlutskipti vort, þegar vjer erum komnir að takmörkum þessa lífs, því hið eilífa líf hefir verið til frá upphafi, og er og mun verða æfinlega, og þegar hjer í hinni stundlegu tilveru vorri eigum vjer að höndla, og getum höndlað hið eilífa líf. En hver sem hefir höndlað það, og fundið til þess í sjer stöðuglega, hann hefir og um leið áunnið sjer ódauðleika; því nafnið sýnir það sjálft, að hið eilífa líf getur ekki verið dauðanum undirorpið. Þess vegna leiðir og kenning Krists til sannfæringar um ódauðleika. Drottinn vor segir sjálfur: jeg em upprisan og lífið, hver sem trúir á mig, hann mun lifa þótt hann deyi, og hver sem lifir og trúir á mig, hann mun ekki deyja að eilífu (Jóh. 11, 25. 26); og postuli hans segir, að Jesús Kristur hafi afmáð dauðann og leitt í ljós lífið og ódauðleikann með fagnaðareyrindi sínu (2. Tím. 1, 10). Hvar sem þessu fagnaðareyrindi hefir orðið framgengt, hefir það svipt dauðann broddi sínum, og ríki dauðans sigri sínum; Jesús hefir veitt og staðfezt von ódauðleikans, bæði með kenningu sinni og upprisu.

Þegar hinn ágæti og guðhræddi maður, sem andvana líkami Jesú var á hendur falinn, var búinn að leggja hann í gröfina í klettinum, ljet hann velta miklum steini fyrir grafarmunnann. En að morgni páskadagsins var búið að velta þessum steini á burt þaðan, og það var hið mesta og fagnaðarauðugasta kraptaverk, sem nokkru sinni hefir orðið í heiminum; því það var ekki að eins sú byrði, sem svipt var á burt, og sú gröf, sem lokið var upp, heldur skein fagur geisli niður í allar dymmar grafir, og þungri byrði var svipt af sjerhverju manns brjósti. Slíkir bústaðir dauðra, sem sá, er líkami Jesú var í lagður, eru alstaðar um öll

lönd; hvort sem þeir eru höggnir í klettana, grafnir í jörðina, eður reistir með allri þeirri dýrð, sem listamennirnir geta upp hugsað, eru þeir samt allir saman grafir; dauðinn liggur þar á herfangi sínu, og grafarsteinninn gjörir slíkan aðskilnað, að meiri getur ekki orðið hjer á jörðu, skilnað hinna dauðu og hinna lifendu. Satt er það að vísu, að steinn þessi ver skarkala heimsins og öllum mæðum þessa lífs inngöngu í gröfina; undir skjóli hans er hæli að finna, hafi hinn þjáði maður hvergi fundið það annarstaðar á jörðunni; þar særir ekki sótt, þar bítur ekki hungur; gröfin er öruggt vígi, svo bárur ofsóknanna brotna á því, hún hrekur á bak aptur hina dymmu hryggð og hinn fölva ótta; farið og áreitið hina lifendu, en dirfist ekki að hagga ró grafarinnar. En sá steinn byrgir og úti allan fögnuð lífsins; þegar búið er að leggja hann yfir moldir vorar, auðnast oss aldrei framar að líta blómin gróa og vorið brosa, þá bjóðast oss aldrei framar frægðarverk að vinna, þá kallar morguninn oss aldrei framar til skemmtilegrar vinnu, nje kvöldið til inndællar hvíldar, þá vermir ástin ekki framar hjörtu vor, og sæla vonarinnar fyllir ekki framar brjóst vort: farið allar á burt, þjer blíðu unaðsemdir lífsins! vitjið bústaða hinna lifendu, en ekki þeirra, sem dauðir eru. Þess vegna leggst og steinn grafarinnar þungt á oss, löngu fyrr enn hann er laggður yfir moldir vorar; myndir dauðans brjótast inn á millum mynda lífsins, tilfinning dauðlegleikans leitar að færa klaka sinn yfir blómvöllu lífsins, löngu fyrr enn að því er komið, að ljárinn gangi yfir þá; svo það eru ekki hinir dauðu, sem steinn grafarinnar leggst þungt á, heldur einmitt þeir sem lifa. Hver mun velta þessum steini frá grafarmunnanum? Hver hefir almáttugt afl og almiskunsaman kærleika til að taka á burt byrði þá, sem liggur á brjostum allra dauðlegra manna?

Lofaður sje Jesús Kristur, fyrir það hann hefir leitt í ljós lífið og ódauðleikann með fagnaðareyrindi sínu, og látið von ódauðleikans renna upp og skína yfir dýrð auðæfanna og eymd fátæktarinnar, yfir fjölmennar borgir og fámenn hreysi, yfir alla söfnuði hinna lifendu og allar grafir hinna dauðu! Að vísu hefir Guð gróðursett þessa von í mannlegu hjarta, og þegar hjartað er

fjörugt og hugurinn er skýr, þá kannast maðurinn einnig við, að eilíft líf gjöri vart við sig í honum, og að hinn betri hluti hans, hin rjetta vera hans, sje ekki herfang dauðans. En fagnaðareyrindi Krists var nauðsynlegt til að vekja hjartað og leiðbeina hinum efablöndnu hugsunum, og upprisa Krists var nauðsynleg, til að staðfesta fagnaðareyrindið og votta berlega, að hinar háleitu og fagnaðarfullu hugsanir sjeu sannar, og fyrirheit þau, sem hjartað hlýðir svo feginsamlega á, komi frá Guði.

Allar alvarlegar hugsanir, sem hafa nokkra staðfestu, leiða oss jafnan að lokunum til ódauðleikans, hverja stefnu sem þær hafa tekið í fyrstunni; en þar sem vjer nú að þessu sinni viljum snúa sálu vorri einmitt að þessu efni, þá látum þau orð, sem Jesús hefir sjálfur talað, vísa oss á, hverja götu vjer skulum þræða. Svo bar við einhverju sinni, að nokkrir fróðir menn og mikils metnir af Gyðingalýð báru upp fyrir honum kaldar og fávíslegar efasemdir viðvíkjandi öðru lífi, og þá svaraði hann þeim á þessa leið: „þjer villizt og skiljið ekki ritningarnar, og ekki vitið þjer heldur hvílíkur að er máttur Guðs. Hafið þjer þá ekki lesið það, sem Guð hefir til yðar talað, er hann segir: jeg er Guð Abrahams, Guð Ísaaks og Jakobs. En Guð er ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu“ (Matth. 22, 29 o. n. vv.). Látum oss halda fast við þessa hugmynd og leitast við að komast í skilning um, hvernig það leiðir af veru Guðs, að líf það, sem hann hefir gefið, hljóti að vara við um allar aldir.

Hver sem þekkir ritningarnar, hinar helgu bækur, er þekkingin á Guði er varðveitt í, eins og hann hefir sjálfur opinberað hana, og eins og hann vill hún skuli verða geymd og sýna mátt sinn á jörðunni, sá veit og, að Guð er þar alstaðar boðaður sem sá hinn lifandi Guð. Það sýnist vera óþarfi að bæta orðinu „lifandi“ við nafn Guðs, því það gefur að skilja, að hann, sem gefur öllum líf og anda, hljóti einnig að vera sjálfur lifandi, í æðstum skilningi þessa orðs. Samt hefir það ætíð verið nauðsynlegt, og mun ætíð verða það, að vjer köllum Guð með fullum orðum hinn lifanda Guð, þegar vjer viljum láta hugmyndina um Guð hafa full áhrif á oss, því ætíð hafa mennirnir viljað minnka

dýrð Guðs og setja skepnuna í stað Skaparans. Vjer viljum nú ekki fá oss til orða villur þær, sem spámennirnir þurftu eigi að síður að prjedika í móti um margar aldir fyrir þeirri þjóð, sem átti að rekja kyn sitt til þeirra forfeðra, er snemma höfðu öðlazt þekkingu á sönnum Guði, og postular Krists urðu að prjedika í móti fyrir öllum heiðingjum, og þeir menn, sem Drottinn vakti til að hreinsa kyrkju hans, urðu að prjedika í móti, mitt á meðal kristinna manna, — jeg meina þær villur, er mennirnir kölluðu ljós himinsins eður dýr jarðarinnar, eður dauðlega menn, eður skapaða anda, mönnum æðri, guði sína, eður eignuðu dauðum líkneskjum guðlegan mátt. En hversu opt verður það enn, að náttúrunni er slengt saman við Guð, og þá um leið skepnunni við Skaparann. Sjerhver, sem hefir augu að sjá með og vit að skynja með, hlýtur að kannast við opinberun guðlegrar veru í hinum sýnilega heimi. Þegar nóttin leiðir hinar skínandi hersveitir yfir himinhvolfið, eður þegar dagurinn breiðir sundur hinn blómfagra auð jarðarinnar, þegar vjer verðum varir við mátt og reglu og speki, djúpt undir rótum fjallanna, er aldrei bifast, eður í hinu æðanda hafi, sem aldrei er kyrrt, þegar blessunin líður niður frá himninum í lífganda yl, eður svalandi dropum, og kemur aptur upp af skauti jarðarinnar í ilmsætum blómum og fögrum ávöxtum: þá fyllist sjerhvert hjarta tilbeiðslu, og sá er enginn, er ekki kannist við, að eitthvað guðdómlegt opinberi sig í náttúrunni. En þetta hið guðdómlega er ekki Guð; — þú sjerð fald klæða hans, þú sjerð glampann af dýrð hans í hinum skapaða heimi, en Skaparann sjerðu þar ekki. Viljirðu komast í nákvæmara skilning um veru hans, að svo miklu leyti sem þú fær gripið hana, verður þú að skoða anda þín sjálfs, því Guð hefir skapað þig eptir s i n n i mynd. Og þar sem þú verður þá ekki að eins vís þess, að þú lifir og aðhefzt, á líkan hátt og trjeð lifir og dýrið hefst að í hinum óskýru draumum sínum, heldur finnur í sálu þinni hugsanir og tilfinning og vilja og ljósa meðvitund, er veit af sjálfum þjer og því, sem er umhverfis þig, og er yfir þjer og undir þjer; mundi þá h a n n, sem kveikti neista þann, er skín í hugskoti þínu, ekki sjálfur vera ljós? Ó! himininn er hásæti hans, og jörðin er skör fóta hans,

sólirnar í hæðum eru hersveitir hans, og öll dásemdarverk á jörðunni eru af honum gjörð, hann hefir niður skipað öllu því, sem skapað er, og náttúran er opinberun vizku hans og máttar; en sjálfur er hann ekkert af öllu þessu, hann er sá hinn lifandi Guð, og af honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir.

Til hans, sem er og lifir eilíflega, lyptir maðurinn huga sínum, sem hann hefir gefið, og kallar hann hinn almáttka og hinn alvitra. Hver megnar að rannsaka dásemdir almættis hans? hefir tölu að telja þær með, og orð til að lýsa þeim með? En þær eru til, vjer göngum úr skugga um það, vjer sjáum þær, vjer þreifum á þeim, og vjer sökkvum oss niður í skoðun þeirra. Hið mikla dásemdarverk er í því fólgið, að heimurinn er til, og vjer erum til, og erum á órannsakanlegan hátt skapaðir af engu, og kallaðir fram af nóttu meðvitundarleysisins. Mundi þá hann, sem leiddi lífið fram með almáttugri bendingu sinni, ekki halda því við? Mundi þá sú hin eilífa vizkan einungis byggja til að rífa aptur niður, og skapa til að eyða því aptur, sem skapað er? Mundi það vera tilgangur almættisins og vizkunnar, að sálin, með öllum kröptum og hæfilegleikum, með öllum sínum djúpu tilfinningum, öllum sínum framfúsu hugsunum og öllum sínum einlægu ásetningum, skuli aptur verða að engu? Þá væri Guð Guð hinna dauðu og ekki hinna lifendu.

En látum oss nefna þau nöfn Guðs, sem hrífa með enn meira afli á sálu vora. Enginn er sá, er lyptir huga sínum til hins hæsta, utan hann kalli hann einnig hinn rjettláta. Hvort sem oss mætir hryggð eður kæti, hvort sem vjer gjörum það er oss hæfir, eður vjer látum það ógjört, hvort sem geðshræringarnar æða í oss, eður allt er dautt og dofið í oss og umhverfis oss, hvort sem vjer sjáum dygðir, er prýða jörðina, eður lesti, sem gjöra henni vanvirðu, lætur samt samvizkan ætíð til sín heyra, með slíkri röddu, sem ekkert fær niðurþaggað, og hin helgasta sannfæring í brjóstum vorum boðar oss, að hvort sem rjettlæti er til á jörðu eður ekki, þá sje samt rjettlæti til hjá Guði á himnum. Það lögmál er til, sem maðurinn hefir ekki sett sjer sjálfur og megnar ekki heldur að ónýta; hann getur hlýtt því, eður óhlýðnast

því, en hlýði hann því, nýtur hann hugrekkis og friðar, og óhlýðnist hann því, hlýtur hann að titra og skjálfa. Að vísu birtist rjettlæti Guðs þegar hjer í heimi; bæði endurgjald og hegning koma optlega fram hjer á jörðu á undarlegan hátt, stundum skjótt og stundum seint, stundum svo, að hinn seki verður þess einn saman vís, og stundum svo, að það er bert öllum lýð. Þegar Kaín var óttafullur og landflótta á jörðunni, er drukkið hafði blóð bróður hans, það er hann hafði út ausið, voru það ekki mannlegar hótanir, heldur skelfing hins eilífa rjettlætis, sem ráku hann fram og aptur hvíldarlaust. Þegar Páll postuli var sigri hrósandi, og fann á sjer styrkleika og fögnuð, er hann var fjötrum reirður og hæddur og ofsóttur, þá var það hið eilífa rjettlæti, sem endurgalt honum þegar hjer á jörðu trú hans og stöðugleika með slíkum gæðum, sem meira var í varið, enn allt það sem heimurinn kallar ávinning. Og samt hlauzt þú, hinn mikli postuli! að láta líf þitt fyrir sverði böðulsins, samt sagðir þú áður enn það yrði: ef vjer vonum á Krist einungis í þessu lífi, þá erum vjer vesælastir allra manna (1. Kor. 15, 19). Hver mundi hafa sjeð full gjöld hins góða og hins illa hjer á jörðu? Og væri allt þrotið, þegar hið jarðneska brjóst hættir að anda, mundi jeg þá með sannindum geta kallað Guð rjettlátan, er jeg stæði við banasæng hins guðhrædda, er hlyti að láta líf sitt í ómaklegum þjáningum, eður jeg stæði við banabeð guðleysingjans, er hefði einskisvirt Guð og menn, allt að hinu síðasta andartaki; mundi jeg geta það, ef jeg ætti þá að segja: nú er allt þrotið, allur rjettur og órjettur, öll afbrot og öll góðverk, allur fögnuður og öll þjáning, öll von og allur ótti? Já, jeg spyr sjerhvern, hvað sem hann hefir reynt og hvað sem hann hefir sjeð í þessum heimi: getur þú ráðið hina myrku ráðgátu lífsins með þessum orðum: dauðinn endar alla hluti? En það getur þú engan veginn, því ráðning gátunnar hljóðar á þessa leið: fyrst er dauðinn og svo dómurinn. Látum oss því segja það staðfastlega og með fullri sannfæringu: Guð er ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu, því honum lifa allir menn (Lúk. 20, 38). Já, allir — allir þeir sem glöddust og grjetu, þeir sem upphófust og þeir sem voru niðurlægðir, þeir sem hlýddu og þeir sem þrjózkuðust,

þeir, sem heimurinn endurgalt, og þeir, sem hann gat ekki endurgoldið, hvort sem þeir dreifðust og hvar sem þeir gengu til moldar, — allir lifa þeir fyrir hið eilífa rjettlæti.

Guð er kærleikur. Hver dirfist að efa það, hver getur efað það, og hver vill efa það! Sjertu maður, hefir Guð þá látið sig án vitnisburðar fyrir þjer? Hefir þú ekki sjeð hann ljúka upp sinni mildu hendi, og seðja allar lifandi skepnur með blessun sinni? Hefir hann ekki gjört sjálfum þjer gott, og satt ekki að eins líkama þinn, heldur og optlega fyllt sálu þína fögnuði? Sjertu kristinn, hefir Guð þá ekki gefið þjer hinn dýrmætasta vott elsku sinnar, er hann seldi fram Son sinn eingetinn fyrir þig og alla menn? Spyrðu hjartað í brjósti þjer; hafirðu fundið til ástar á jörðunni, hafirðu unnt nokkrum manni af alhuga, hafi föðurástin eður móðurástin hreift sjer í hjarta þínu: hver hefir þá kveikt kærleikann í brjósti þjer, utan Guð kærleikans, hann, sem allt faðerni er frá komið á himni og jörðu? Mennirnir fara víðs vegar til fjarlægra stranda og allt á strönd eilífðarinnar; en gleymum vjer fyrir þá sök vinum vorum? Gleymum vjer þeim, þótt mynd þeirra sje hnigin til þess staðar, er þeir eiga aldrei apturkvæmt úr í ljós þessa heims? Æ! skarkali lífsins og skyldur þess banna oss að horfa óaflátanlega á þann stað einan, sem þeir hvurfu á, og Guð hefir gefið tímanum og trúnni megn til að græða, er vjer eigum ekki að hrinda frá oss. En er það samt ekki, eins og hinn framliðni ávarpi oss úr fylgsni sínu, þar sem heimurinn þekkir hann ekki framar, nje gefur neinn gaum að honum, og mæli til vor á þessa leið: lát mig ekki vera gleymdan, nje glataðan, nje gjörsamlega afmáðan, eins og hefða jeg aldrei verið til! og svarar þá ekki röddin innst í brjósti voru; alla þá stund, sem hjarta mitt berst, er þjer fyrirbúinn staður á jörðunni, sem vera skal bústaður þinn? Finnum vjer það ekki innan um allan grúa hinna lifenda, hvað sem oss hefir leift verið, og hvað sem oss hefir síðan hlotnazt, — finnum vjer það ekki á einverustundum vorum, með sárri og sætri tilfinning, að röddin segir í brjósti voru: nei, vjer getum aldrei gleymt yður! Og þú, ó Guð! Guð kærleikans og trúfestinnar! mundir þú nokkuð gleyma oss? Mundi enginn

samastaður vera til handa oss í hinum mörgu heimkynnum þínum? Mundu nokkuð forfeðurnir, er lifðu í ótta þínum, og börðust hinni góðu baráttu, og varðveittu trúna, og runnu skeið sitt á enda, og leifðu minning dygða sinna og sæmdarverka á jörðunni, — mundu þeir nokkuð vera þjer úr minni liðnir, þeim er þeir trúðu á og kölluðu Guð sinn? Og hjarta mitt, sem trúði á þig og vonaði til þín, og elskaði, ekki að eins mennina, heldur og þig, Faðir á himnum! og þekktist engan fögnuð utan þitt samfjelag: mundir þú nokkuð kremja það, þá er það snjeri sjer til þín í eymd sinni, og selja sálu mína á vald eilífri glötun, svo hún vakni aldrei framar og þakki þjer aldrei þaðan í frá, Nei, þú ert ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu, því þú ert kærleikurinn.

Að hinn lifandi Guð, hinn almáttki, hinn alvitri, hinn rjettláti, sem allur kærleiki er frá kominn, og sjálfur er kærleikurinn, skapi ekki lífið til þess að selja það á vald dauðanum, að hann sje ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu, það er svo bert, sem nokkur sannleikur getur verið, ef vjer að eins viljum kannast við það. En þungbærar stundir eru til í lífinu, þá er það bifast, sem staðfastast er, og það verður oss myrkt, sem ljósast er; og sje þá auga þitt daprað af tárum, sje sála þín þoku hulin og hjarta þitt orðið tilfinningarlaust í langvinnri hryggð: hvert á jeg þá að leiða þig, svo trúin og vonin og kærleikurinn geti aptur lifnað í brjósti þjer? Látum oss ganga til grafar Jesú, og setjast á stein grafarinnar, og hugleiða þar hvað Guð hafi látið fram við oss koma. Jesús er sá, sem sendur var til að boða heiminum, að Guð vill ekki vjer skulum tortýnast, heldur eignast eilíft líf; hann er sá, sem sagt hefir: hver, sem á mig trúir, skal lifa, þótt hann deyi; hann er sá, sem hefir sagt: jeg lifi, og þjer skuluð lifa; en hann varð og að ganga hinn dymma veg og vera hlýðinn til dauða, til dauðans á krossinum, og hjer hafa þeir lagt líkama hans. Hefði hann nú legið kyrr undir steini grafarinnar, hefði hin síðasta umbreyting hans farið fram í leynum, og ekkert tákn hefði orðið fyrir augum hinna dauðlegu, þá hefði orð Guðs á vörum hans vantað staðfesting sína, og hann hefði ekki leitt í ljós lífið og ódauðleikann. En hann er upprisinn — ó! látum það hljóma eins

langt og himininn nær, um öll ríki lífsins og um hið dymma ríki dauðans: hann er upprisinn! Var það ekki Guði samboðið, að láta hann verða frumgetning hinna dauðu? Og eru ekki færðar sönnur fyrir þessum viðburði fremur enn fyrir öllu öðru, sem orðið hefir á liðnum öldum. Vottar hans, hinir sannsöglu, heilögu vottar, er boðuðu það, sem augu þeirra höfðu sjeð, og hendur þeirra þreifað á (1. Jóh. 1, 1), hafa farið út um allan heim, og boðað Jesúm Krist, krossfestan og upp aptur risinn; þeir hafa ekki girnzt silfur og gull, nje heiður veraldar þessarar fyrir vitnisburð sinn, þeir voru viðbúnir að staðfesta hann með því að selja sig fram til dauða Drottins þeirra, og margir þeirra hafa tæmt hinn sama bikar og sjálfur hann, og hafa í dauða sínum, er þeir þoldu hans vegna, litið upp til hins upprisna, svo segjandi: Drottinn Jesús, tak þú við anda vorum (Post. 7, 59)! Hertu ekki hjarta þitt, og tak heldur við vitnisburði þeirra; og þegar þú svo snýr aptur frá Jesú-gröf, til þeirra grafa, sem þú ert vanur að dveljast við, muntu þar heyra rödd, er svo mælir: því leitar þú hinna lifendu meðal hinna dauðu? þú sjerð þann stað, er þeir hafa verið lagðir á, en þeir eru þar ekki; duptið eitt fúnar í moldinni, en þeir eru farnir á undan þjer til Föður þeirra og Föður þíns; þar muntu sjá þá aptur, eins og sagt hefir Drottinn þinn og Frelsari, sem Guð hefir gefið vald til að uppvekja dauða og gjöra lifandi. Snú því aptur til lífsins, og vertu að verki þínu, og farðu ókvíðinn leiðar þinnar; geturðu ekki þagað og beðið litla hríð? Vjer finnumst þó allir að lokunum í heimkynni voru, því Guð er ekki Guð hinna dauðu heldur hinna lifendu.

---

# 60.

## UPPRISA LÍKAMANS.

Í öllum kristnum löndum er á hverju ári haldin páskahátíð; það er mikil hátíð og inndæl, og harla merkileg eptir tilgangi sínum. Á helgidögum hátíðar þessarar kemur fjölmenni í kyrkjur vorar, bæði háir og lágir, ungir og gamlir, ríkir og fátækir; þeir menn eru allir hver öðrum í því líkir, að þeir fyrir litlum tíma síðan — það er sama, hvort hann er lengri eða skemmri, því mannsæfin er ekki löng — hafa raknað úr því óminni, sem enginn mannlegur skilningur getur skyggnzt inn í, og hafa lifað á ávöxtum jarðarinnar, og átt við margt að búa, ýmist blítt eða strítt, yndi eða armæðu; þeir menn eru allir hver öðrum í því líkir, að þeir munu innan lítils tíma — það er sama, hvort hann er lengri eða skemmri, því mannsæfin er ekki löng — allir verða horfnir af jörðunni, þar er þeir lifðu, því þeir eru dauðanum háðir. En þeir eru allir komnir til kyrkju til að halda upprisuhátíð, vegsama, biðja og þakka, eins og þeir sjeu ætlaðir til ódauðleika, og til að viðurkenna, að lífið sje eilíft, og að Guð, sem er brunnur lífsins, og lifir frá eilífð til eilífðar, hafi veitt oss hluttekningu í því lífi, sem aldrei slokknar, heldur logar, eins og eilíft ljós, um allar aldir. Dauðlegir menn halda nú hátíð þessa víða um lönd. En hvernig er slík upprisuhátíð undir komin? Hún var ekki til í fornöld. Að sönnu hefir vonin um ódauðleika ávalt búið í hjörtum mannanna, og á henni brytt í einstökum orðum, sem þó hafa optast verið efasöm; hún falst í myrkum fræðum og líkingum heiðinna spekinga, en gat aldrei komizt úr fjötrum sínum, til að glæða, efla og ávaxta líf einstakra manna eður heillra þjóða. Hve nær hafa mennirnir farið að halda hátíð, bæði fyrir vitra og fáfróða, þá er þeir bjóða óvini lífsins byrginn, og segja: dauði, hvar er broddur þinn? gröf hvar er sigur þinn? þetta hlýtur að hafa haft einhver upptök, eins og allt annað á jörðunni; og vjer þekkjum upptökin gjörla. Vjer vitum að hátíð ódauðleikans hófst á vígvelli dauðans,

við gröf þá, er harmandi menn höfðu lagt ástvin, kennara og herra sinn í. þangað gengu lærisveinar hans og vinir, hinir fáu, er honum höfðu reynzt trúir, til að gráta við gröf hans, og auðsýna honum lotningu í síðasta sinn, og til að snúa síðan aptur án vonar og huggunar. Snemma morguns, þegar þeir komu þangað, sáu þeir, að búið var að velta steininum frá gröfinni, og heyrðu þann boðskap, að sá lifði, er þeir ætluðu dauðan; síðan sáu þeir hann sjálfan margsinnis og með mörgum skýrum rökum, og jafnvel þeir, sem í fyrstunni efuðust, urðu að viðurkenna eins og hinir, að Drottinn væri sannarlega upprisinn. Síðan báru postularnir vitni um upprisu Drottins Jesú með miklum krapti, og mikil náð var með þeim öllum (Post. 4, 33). þeir fóru og kenndu alstaðar, og Drottinn var í verki með þeim og staðfesti kenninguna með táknum, er henni fylgdu (Mark. 16, 20); fagnaðareyrindi það, er þeir boðuðu, ruddi sjer til rúms, breiddist út í allar áttir, og hefir haldizt betur við á jörðunni enn nokkur annar boðskapur, og þess vegna er enn á hverju ári haldin sú hátíð, þá er vjer segjum með fögnuði, þakkargjörð og lotningu: Drottinn er sannarlega upprisinn!

þegar vjer boðum líf Jesú á jörðunni, segjum vjer, að hver, sem á hann trúir, eigi að taka þátt í því, og sje skyldur að breyta eins og hann breytti (1. Jóh. 2, 6); vjer segjum, að hver, sem vill breyta eptir Jesú, verði að taka kross hans á herðar sjer, og afneita sjálfum sjer, og læra af honum að vera hógvær og af hjarta lítillátur; vjer segjum að vjer eigum allir að deyja með Kristi, ekki að sönnu á krossinum, eins og hann, en vjer finnum þó allir, hversu sáran dauða, ekki að eins drambsemi vor og fávizka verður að þola, heldur og opt og tíðum óskir vorar, þær er saklausastar eru, og sú von um betri daga, er vjer þóttumst hafa fullan rjett á að hafa, og hversu sáran dauða sjálfselska vor verður að þola, ef vjer eigum að geta orðið hans maklegir. En þegar vjer boðum upprisu Jesú og líf hans í dýrðinni, boðum vjer og, að hver, sem trúir á hann, og deyr með honum, skuli lifa með honum; eins og hann gjörðist fyrirmynd vor í mæðu og baráttu, þannig er hann og orðin fyrirmynd sú, er vjer eigum að

ná, frumgetningur meðal margra bræðra (Rómv. 8, 29). Það er: vjer eigum að upp rísa eins og hann, og verða dýrðlegir eins og hann; þess vegna segir og hver sá, er kristna trú játar: jeg trúi upprisu líkamans.

En mörgum þykja orð þessi óljós og efasöm. Ef vjer ætlum að reyna til að greiða úr skilningi þeirra, mun enginn betur geta leiðbeint hugleiðingum vorum enn postulinn Páll, sem bæði talar fagurt og fróðlega í endanum á fyrra brjefinu til Korintumanna um þetta efni, sem svo mjög er áríðandi og huggunarfullt.

„Vjer trúum upprisu líkamans", hafa kristnir menn alltaf sagt. En verið getur, að menn komi nú með aðra trúarjátning, og segi: „vjer trúum ódauðleika sálarinnar", vjer trúum því, að sál vor fái einhvern tíma frelsi, og að þetta frelsi sje einmitt í því fólgið, að hún brjóti af sjer fjötra líkamans, sem er daufur og þungur á sjer, og háður holdlegum áhrifum og veldur sjúkleika, sárindum og syndum, og heyrir jörðunni til, og verður því að hverfa til hennar aptur. Postulinn er og þessu að miklu leyti samdóma, því hann segir, að það sem upp rísi sje ekki dauðlegt heldur ódauðlegt, og ekki holdlegt heldur andlegt (1. Kor. 15, 42. 44); og því fer fjarri, að hann segi vjer munum hafa jarðneskan líkama í hinum sælla heimi. Látum oss nú íhuga nákvæmlega von vora um hina mestu sælu. Getum vjer gjört oss það í hugarlund, að öll hin líkamlega veröld, og öll dásemdarverk hins almáttka og öll hin margfalda fegurð, er svo opt hefir skemmt augum vorum hjer á jörðunni, muni hverfa eins og draumur, þegar skýlan verður á síðan tekin burt frá augum vorum, og vjer verðum álitnir hæfir til að sjá það, sem æðra er? Þá yrði oss einlægt að langa hingað aptur, til að sjá það, er vjer áður fengum að sjá. En Drottinn hefir sjálfur sagt: í húsi Föður míns eru mörg híbýli (Jóh. 14, 2); og sjáum vjer þau ekki álengdar blika í næturkyrrðinni? er það ekki, sem vjer fáum grun af því, þegar vjer sjáum skin þeirra, hvar ástvinir vorir muni dvelja, og hvar vjer munum eiga að dvelja með þeim? En ef til eru önnur híbýli, þar oss er ætlað að vera, og aðrar veraldir, er dýrð hins almáttka fyllir

bersýnilega upp, mundum vjer þá ekki öðlast augu til að sjá hana með, og hæfilega mynd til að vera þar? Eða hvernig heldur þú að þú verðir, þegar þú yfirgefur þá jörð, er þú vitkaðist fyrst á? ætlar þú að taka á þig vængi vindanna, og þjóta milli skýja himinsins? eða ætlar þú að íklæðast geislum ljóssins, og sveima milli himins og jarðar? Slíkar hugmyndir eru einnig líkamlegar; eru þær betri, ánægjufyllri, rjettari enn hin forna játning, er svo hljóðar: vjer trúum upprisu líkamans? Hirð þú ekki um speki hinna dramblátu hugsana, er látast vera skynsamar er þær reyna til að svipta oss því, sem nokkur staðfesta eða fylling eða huggun er í, og skilja oss ekki annað eptir enn skugga og óskýrar hugmyndir, sem bæði vanta fjör og krapt; hirð þú ekki um hana, heldur trú því, að óspillt tilfinning eigi hægra með að finna sannleikann enn hið smásmugla vit. Rannsóknir vitsins eru svo kaldar, en tilfinningar hjartans svo heitar.

Nú kynni einhver að segja: vera má, að Guð gefi oss líkama aptur, en það verður allt annar líkami enn sá, er vjer höfðum hjer á jörðunni; því hvernig ætti það að safnast saman eða rísa upp, sem rotnað er sundur í jörðunni, og komið er upp í loptið, og vindurinn hefir feykt í allar áttir, og samlagazt hefir öðrum líkömum? Postulinn samsinnir þessu að nokkru leyti; þegar þú sáir, segir hann, sáir þú ekki því, sem fram á að koma, heldur einberu frækorni, er Guð gefur slíkan líkama, og hann vill; enn fremur segir hann, að upprisu dauðra sje þannig varið, að holdlegum líkama verði sáð, en upp aptur rísi andlegur líkami; og hann fyllyrðir það, að hold og blóð geti ekki erft guðsríki, nje dauðlegleiki ódauðleika (1. Kor. 15, 37. 38. 44. 50). Postulinn útrýmir á þenna hátt allri jarðneskri hugmynd um líkama þann, er vjer eigum að öðlast; hann segir ekki, að almættið muni safna saman í upprisunni öllum þeim pörtum, sem tvístrazt hafa sinn í hverja áttina; hann segir einmitt hið gagnstæða, því hold og blóð geta ekki erft guðsríki. Enda meðan vjer lifum hjer á jörðunni, er það fremur mynd sú, sem hold vort og blóð lagast eptir, er vjer köllum líkama vorn, enn holdið og blóðið sjálft. Blóðið er á sífelldri rás um líkamann, en aldrei hið sama, því það breytist án

afláts, verður og eyðist og verður að nýju, meðan maðurinn andar og hjartað bærist; það er eins og á, sem alltaf hefir sama nafnið, þó vatnið í henni sje aldrei hið sama. Nú er ekki einn blóðsdropi nje einn vöðvi í líkama þínum samur og í æsku þinni, og þó segir þú að líkami þinn sje hinn sami, hvernig sem hann breytist. Af þessu má sjá, að hið jarðneska, er vjer tökum utan að, og samlögum líkama vorum, er ekki það hið verulega í honum, heldur er hið verulega í honum nákvæmlega samtengt við sálina, og myndar innan að allt það, sem samlagast líkamanum, eptir mynd sinni. En allt er hjer á jörðunni ófullkomið og spillingu undirorpið; hve nær öðlast mannleg mynd alla þá fegurð og alla þá tign, er henni var ætlað, þar sem hún átti að vera bústaður sálarinnar, er Guð skóp eptir sinni mynd. Endur og sinnum í blóma æskunnar, eða þegar maðurinn er upp á sitt hið bezta, einkum þegar skýrar og háleitar hugsanir, eða helgar og öflgar tilfinningar brjótast út úr fylgsnum sálarinnar, skrýðir sálin líkamann tign sinni og fegurð, svo að hann skín, sem væri hann ódauðlegur orðinn. En ekki varir það nema skamma stund, æska og fegurð hverfa skjótt, og blómið eyðist í óveðrum lífsins; lífsmagnið eitt eyðist ekki, það megnar að gjöra svip hins aldraða virðulegan, og ásjónu deyjanda manns dýrðlega. En það, sem alltaf var að reyna til að koma í ljós, en gat ekki, það, sem aldrei gat sýnt sig fullkomlega í hinum holdlega og hrörlega líkama, það, sem vjer allir höfðum grun af, en enginn sá, það, sem heppið ímyndunarafl eitt saman fjekk litið þegar bezt ljet, en enginn listamaður gat gjört sýnilegt nema til hálfs, það, sem lærisveinarnir sáu á fjallinu, þegar Drottinn ummyndaðist fyrir augum þeirra, og það var sem hin himneska fegurðin bryti af sjer hina jarðnesku fjötra: það er það, sem á síðan mun koma í ljós í hinni síðustu ummyndun vorri, þegar fiðrildið, sem fyrst var skríðandi ormur, en síðan óf sjer gröf sína, losnar úr fangelsinu, og flýgur fram í allri sinni fegurð. Þessarar meiningar er það, sem postulinn segir á öðrum stað: Vjer vitum, segir hann, að þótt þessi jarðneska tjaldbúð vor, þetta hreysi vort verði rofið, höfum vjer af Guði þegið hús, sem ekki er með höndum gjört; samt andvörpum vjer, af því oss langar

til að verða íklæddir — það er: að sálin verði íklædd hinu himneska húsi (2. Kor. 5, 1. 2). Þetta er það, er hann útlistar svo fagurt á þeim stað, er vjer til færðum fyrst. Þegar þú sáir frækorni í jörðina, segir hann, sáir þú ekki því, sem fram á að koma (1. Kor. 15, 37); gróðrarmagnið í korninu getur þú ekki sjeð, en þegar kornið deyr lifnar gróðrarmagnið, og nýr líkami kemur í ljós, miklu skrautlegri enn sá, er þú lagðir í jörðina. Þannig er og varið upprisu dauðra; hjer er sáð dauðlegum líkama, enn upp rís ódauðlegur; hjer er sáð óásjálegum líkama, en upp rís vegsamlegur, hjer er sáð veikum líkama, en upp rís máttugur; holdlegum líkama verður sáð, en upp rís andlegur líkami. Hinn fyrri maður var mold af jörðu, hinn síðari maður, Drottinn, er af himni; og eins og vjer höfum borið líking hins jarðneska, eins munum vjer og bera líking hins himneska (1. Kor. 15, 42 o. nn. vv.). Þannig er varið upprisu dauðra. Vjer munum ekki afklæðast, heldur íklæðast, ekki hverfa, heldur ummyndast. Að sönnu hafa ástvinir vorir horfið af jörðunni, og hjer mætum vjer þeim aldrei framar; en vjer munum sjá þá aptur, og þá munu þeir ekki, eins og áður, blómgast og visna svo aptur, nje þola tálmun af jarðneskum skorðum, nje kveljast af sjúkleika, nje gugna undir andstreymi lífs þessa; vjer munum sjá himneskar myndir, en ekki jarðneskar, og samt hinar sömu og áður; það er hið sama lífsmagn, er myndar hinn nýja líkama, og mun það verða auðkennilegt meðvitund vorri og endurminning þeirri, er í öllum breytingum faldist í djúpi sálarinnar, þó ekkert jarðneskt auga hafi eygt það, nje það í nokkurs manns hug eður hjarta komið. — Þannig er varið upprisu líkamans.

Ekkert trúaratriði er oss dýrmætara nje mikilvægara enn þetta. Það er mikilvægt, af því það útrýmir þeim hinum röngu hugmyndum um ódauðleika mannsins, sem alltaf vilja smeigja sjer inn hjá oss, og aflaga hin kristilegu sannindi, sem eru svo heilsusamleg, uppörfandi og huggunarfull. Síðan menn eru farnir almennt að fyrirverða sig að segja, maðurinn heyri einungis jörðunni til, að líf sálarinnar, hugsanir og tilfinningar sjeu ekki annað enn náttúrur hins jarðneska líkama, sem rotni í gröfinni ásamt hinum

holdlega parti mannlegrar veru; síðan menn eru farnir að kannast við, að duptið eitt geti horfið aptur til jarðarinnar, þar það áður var, en að andinn verði að hverfa aptur til þeirrar veraldar, er hann á heima í: síðan er farið að brydda á nýjum meiningum, er leysa öll þau bönd kærleikans og rjettvísinnar, er áttu að halda lífinu saman, næstum eins algjörlega og hinar. Margir eru til, sem að sönnu játa, að hið andlega í manninum sje ódauðlegt, en sýnast þó halda, það komi fram í öðrum verum, eins og hold og blóð leysist sundur í jörðunni, og samlagast svo öðrum líkömum, og kemur fram í öðru sambandi; þeir segja hinn andlegi kraptur við haldist, en hinn sami maður sje ekki til framar, sú meðvitund sje ekki til framar, er kom manninum til að segja hjer á jörðunni: jeg er sjálfur hinn sami frá byrjun æfi minnar til ellidaga, hvernig sem allt breytist; þeir segja, að hinu megin grafarinnar sje engin endurminning hins umliðna til, heldur muni það allt sökkva niður í djúp gleymskunnar, og aldrei koma þaðan aptur; öll synd og öll afbrot, og allur óguðleiki, og öll góð verk, og allt trúlyndi, og allur kærleiki muni hverfa eins og draumar næturinnar, og enginn muni minnast þess að eilífu. Ekki veit jeg hvort nokkur, sem þessu trúir, getur verið kvíðalaus, en hjarta mitt fyllist fögnuði, og andi minn gleður sig í Guði, Frelsara mínum, þegar jeg endurtek hina kristilegu játning og segi: jeg trúi upprisu líkamans. Því þegar líkaminn rís upp, þegar hinn sanni, ódauðlegi, andlegi líkami kemur fram af hinum er eyðist, þá er það ekki ný vera, sem kemur í ljós, heldur hinn sami maður, er Guð hafði áður skapað, og áður þekkt, og hafði verið ein af hugsunum hans, og getur því hvorki gleymzt eða týnzt. Það er ekki önnur vera, er mæta skal fyrir Dómaranum á himnum, heldur sjálfur þú, hinn sami, sem gekkst veg þinn frá vöggunni til grafarinnar hjer á jörðu, og gjörðir þínar munu fylgja þjer, því þú hefir framið þær sjálfur. Það, sem ekki heyrðist hjer fyrir háfaða, mun þar hljóma hátt og skýrt; það, sem gleymdist hjer smám saman, geymdist samt í djúpi meðvitundarinnar, og mun birtast, þegar bókunum á himnum verður lokið upp, og Guð allsvitandi, sem engu gleymir, leiðir það í ljós eins og sjálfan þig. Þar mun hver maður heyra

sjálfur rödd hins rjettvísa; þar munt þú sjálfur heyra, en enginn annar, — annaðhvort hina óttalegu rödd, er svo hljóðar: farið burt frá mjer, þjer illgjörðamenn (Matth. 7, 23)! eður hina sælu rödd, þá er hin eilífa líknin segir við alla þá, sem sóttust eptir ríki hans og rjettlæti, við sjerhvern, er hann hefir fyrirgefið syndirnar, og skýlt afbrotum hans, og litið miskunsamlega á trú hans og viðleitni: Vel hefir þú gjört, góður og dyggur þjónn! þú varst trúr í litlu, jeg mun setja þig yfir meira; gakk inn í fögnuð Herra þíns (Matth. 25, 21)! það var ekki annar Frelsari, er upp reis úr gröfinni heldur hinn sami Jesús, sem þeir krossfestu, svo að þeir gætu sjeð hvern þeir hefðu stungið (Jóh. 19, 37); það er ekki annar Frelsari, sem er í dýrðinni á himnum, heldur hinn sami, sem var á jörðunni, sem elskaði oss og seldi sig fram vor vegna, og fór burt að fyrirbúa oss stað (Jóh. 14, 2). Og þannig munum vjer og hjá honum finna hina sömu fornvini og tryggðavini, er skildu við oss hjer á jörðu, og komnir eru burt á undan oss, svo og líka smám saman þá, er síðar munu koma. það er ekki annað barn og þjer vandalaust, er lagt verður þjer í skaut, þú hin viðkvæma móðir! heldur barn sjálfrar þín, hið sama er þú misstir, og kom hingað í samfjelag við þig; það hefir að sönnu ummyndazt, hefir tekið framförum, og er orðið dýrðlegt, eins og englar Drottins, en er samt þitt barn, og verður það um alla eilífð.

O! er hin kalda spekin betri enn hin varma, og sú er særir betri enn sú, er græðir og huggar með eilífri og himneskri huggun? Jeg fyrir mitt leyti hverf, eptir öll þau hyggindi jeg hefi lært, og alla þá þekking jeg hefi öðlazt í veröldinni, aptur til þeirrar tilfinningar, er bærðist í brjósti mjer, er jeg eygði fyrst morgunroða eilífðarinnar, og jeg vil einlægt feginn vera barni mínu samdóma, og hverjum kristnum manni, sem segir í einfeldni og hreinskilni: jeg trúi upprisu líkamans. þegar vjer öðlumst þessa trú, finnum vjer fyrst að vjer erum ekki háðir dauðlegleikanum, þá skiljum vjer fyrst hina rjettu þýðingu þessa lífs, og samband þess við annað líf. þegar vjer skoðum samfjelög vor á jörðunni með þessari trú, verða þau ekki eins og veikir þræðir, er menn

hníta eður slíta að gamni sínu, heldur eins og sterk bönd, er sameina þá, er saman eiga, svo þeir verði aldrei viðskila hver við annan. Sá sem hefir misst það, sem honum var kærast á jörðunni, og sá, sem finnur að sjúkleiki og dauði eyða hinum jarðneska líkama hans, segir í trausti trúar þessarar: bíð þú Drottins, því að jeg mun honum enn þakkir gjöra (Sálm. 42, 6); hversu mjög sem jeg finn til valds dauðlegleikans, trúi jeg því samt, að jeg muni sjá blessun Drottins á landi hinna lifendu (Sálm. 27, 13), og að jeg muni ganga fyrir augliti Guðs í ljósi lifandi manna (Sálm. 56, 14).

---

# 61.

## ANNAÐ LÍF.

### Fyrri hugleiðingin.

Hvar sem kristin trú er kennd, er og kennt, að dauðir muni upp rísa. Vjer getum ekki boðað Guð, hinn himneska Föður, án þess að segja um leið, að hann sje ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu; vjer getum ekki boðað Jesúm Krist, Frelsara veraldarinnar, án þess að segja, að hann sje upprisan og lífið; vjer getum ekki boðað heilagan Anda, án þess að segja, að hann leiði til guðsríkis þá er honum hlýða, og gjöri þá hluttakandi hins eilífa lífs. Orðið: upprisa, er því á allra vörum og hugmyndin, sem það merkir, er í allra hugskotum, en Guð gefi, að huggunin af henni og krapturinn í henni megi einnig vera í allra hjörtum.

Þó að vegur mannanna í veröldu þessari sje harla margvíslegur, og vjer getum ekki fyrir sjeð, hvort hann muni verða langur eða skammur, ljettur eða þungur, þá vitum vjer þó með

fullkominni vissu, að vegur hvers manns endar að síðustu í gröfinni. Jafnvel þeir, sem ekki hljóta greptrun á jörðunni, eiga þó einhverstaðar beinin að bera, og ljós lífs þeirra á einhvern tíma að slokkna. þetta eru endalokin á allri jarðneskri dýrð, sem menn hafa undrazt og öfundað, og á allri jarðneskri eymd, sem menn hafa aumkvað og kennt í brjóst um; þetta eru endalok hinna miklu fyrirætlana, sem bjuggu í brjósti hins unga, hinna dýrðlegu athafna, sem hinn fullorðni framkvæmdi, og sem allir undruðust, og hins lata og daufa lífs, sem ekki var jörðunni til annars enn þyngsla; hinn rjettláti, sem kannaðist við, að lögmál væri til yfir sjer, eptir hverju hann gjörði sjer far um að laga hegðun sína, og afneitaði heiminum og sjálfum sjer, liggur þar við hliðina á þeim, sem hafði losað sig við rjettlætið, og tekið munað og hag þar sem þess var kostur; þar er það hjarta kólnað, sem elskaði Guð og menn, og hitt, sem ekki elskaði aðra enn sjálft sig; Drottinn og Frelsari! þar hefir hinn dimmi dauði brugðið skugga sínum á þann, sem hefir trúað og vonað á þig, og hinn er spottaði þitt heilaga nafn. En til þess ertu risinn af dauða, að vjer vitum, að það, sem er endalok þessa lífs, er upphaf annars lífs, svo að sjerhver, sem á þig trúir, segi eins og postuli þinn: jeg hefi þá von til Guðs, að framliðnir muni upp rísa, bæði vondir og góðir (Post. 24, 15). því þó vegir mannanna komi allir saman í gröfinni, þá dreifast þeir aptur hinu megin grafarinnar; þar er sá vegur, sem liggur hóglega upp eptir þangað sem er ljós, frelsi og friður, hver, sem þar vaknar, mun segja: hingað hefir öll löngun mín stefnt, og hingað hefir allt hugboð hjarta míns bent; þar er enn annar vegur, sem liggur niður eptir dýpra og dýpra burt frá ásjónu Guðs, þangað sem þeir hitta ávöxtu verka sinna, sem fóttroða sannleikann hjer í heimi og leggja stund á ranglæti.

En þegar minnst er á upprisuna, ber það sjaldan við, að neinn þori öldungis að mótmæla henni, en hitt er og sjaldgæft, að nokkur þori öldungis að reiða sig á hana; flestir skjóta þeirri tilhugsun langt í burt, nærri því út í hin yztu myrkur, svo að hún veki þá ekki af draumum þeirra. Ritningin talar um upprisu dauðra við endalok veraldar þessarar; hún segir berlega, að

sá dagur sje í vændum, er verði endurgjaldsdagur bæði fyrir þá, sem verði kallaðir dauðir á jörðu, og fyrir hina, sem þá verði kallaðir lifandi, að sá, sem veröldin útskúfaði og afneitaði, skuli þá birtast í dýrð sinni, og að það sje hulið í Guðs leyndarráði, hve nær þetta skuli fram koma og með hverjum hætti; og vegna þessa er eins og margir gjöri sjer í hugarlund, að þeir muni liggja í fasta svefni þangað til sá dagur renni upp; og með því að hver kynslóðin er sofnuð eptir aðra, og eptirvæntingin um síðasta dag hefir opt vaknað en aldrei rætzt, og allt stendur við það, sem verið hefir frá upphafi veraldar, með því að þúsund ár eru sem einn dagur fyrir Drottni (2. Pjet. 3, 4. 8), þá halda þeir, að það verði eins framvegis líklega um óteljandi aldir, og með því móti er tilhugsun annars lífs vísað svo langt í burt, að hún hefir nærri því misst allan krapt. þetta kemur sjer að sönnu vel hjá þeim, sem hafa beig af sjerhverri mikilli og vekjandi hugmynd; en er líka huggun í því fyrir þá, sem bíða sinnar síðustu stundar með vakanda hug, eða fyrir þá, sem hafa horft á eldingar dauðans, er þær hittu það, sem þeim var kærast — er þeim, segi jeg, huggun í því, að hinir dauðu sofi sí og æ, þangað til þeir vakni við hinn síðasta lúðurhljóm, ekki fyrr, ef til vill, enn óumræðanlega löng tíð er liðin?

þegar Jesús sagði við Mörtu: bróðir þinn mun upp rísa, og hún svaraði: jeg veit, hann á að upp rísa í upprisunni á-efsta degi, þá virðist hún meina hið sama, að hún mundi ekki sjá aptur þann, sem hún hafði misst, fyrr enn í fyllingu tímans. En þegar Jesús sagði: jeg em upprisan og lífið, hver sem trúir á mig, mun lifa þótt hann deyi (Jóh. 11, 23 o. nn. vv.), þá benti hann ekki svo langt fram, heldur vísar hann svo til, að þeir, sem trúi á hann, hafi stigið yfir frá dauðanum til lífsins (Jóh. 5, 24). þegar Jesús talar í líkingunni um þá tvo menn, sem höfðu átt svo ólíka æfi hjer í heimi, en hreppt síðan sömu afdrif, og dáið báðir, þá sagði hann ekki, að bein þeirra hvíldu í jörðu, þangað til þeir mundu vakna við hinn síðasta lúðurhljóm, heldur sagði hann, að vegir þeirra í öðru lífi lægju þegar sinn til hvors staðar, sem stór geymur væri á milli (Lúk. 16, 19 o. nn. vv.). þegar ræninginn,

sem píndist á krossinum, kannaðist við að hann hefði til þess unnið, og tók til orða fullur iðrunar og trausts við þann, sem var krossfestur með honum: minnstu mín, herra, þegar þú kemur í ríki þitt! þá svaraði Jesús ekki á þessa leið: jeg skal vekja þig á efsta degi, heldur sagði hann: sannlega segi jeg þjer: í dag skaltu vera með mjer í Paradís (Lúk. 23, 42. 43). þegar Jesús var lagður í gröfina, duldist hann ekki til þess á degi hins mikla dóms, heldur sýndi hann sig lifanda litlu síðar, og sannaði svo orð sín. Jeg lifi, og þjer munuð lifa (Jóh. 14, 19). þegar því postulinn er að þrá burtför sína, þá býst hann ekki við, að hann muni sofa í dymmu grafarinnar þangað til dagur Drottins komi, heldur býst hann við að koma til Drottins, þegar hin rjetta vera sín losist við líkamann (2. Kor. 5, 8); hann segir: Jeg er efablandinn — mig langar til að losast hjeðan og vera með Kristi; því langt um inndælla væri það, en hitt er nauðsynlegra yðar vegna, að jeg dveljumst í holdinu (Fil. 1, 23. 24). Og þegar sá, sem fyrstur staðfesti vitnisburðinn um hinn krossfesta og upprisna með lífláti sínu, horfði til himna á dauðastundunni, þá sá hann þá þegar opna, og baðst fyrir og sagði: Drottinn Jesús! meðtak þú anda minn (Post. 7, 56. 59).

Af þessu má sjá, að himnarnir ljúkast upp þegar fyrir hinum guðhrædda — en hvað þýðir það? hvort flytja ósýnilegir kraptar hann? Himnarnir merkja hjer eflaust einhverja ákveðna staði, og til hins sama benda og þessi hin mikilvægu orð Jesú: í húsi Föður míns eru mörg híbýli (Jóh. 14, 2). Já, að vísu eru mörg híbýli í hinu mikla húsi! Dagurinn er ætlaður til að birta jörðina, því á daginn áttu að ganga um á henni og vinna verk þitt; en í kyrrð næturinnar vakna dýpri hugsanir og háleitari löngun, og þá dregur nóttin upp hið mikla himintjald. Dagsbirtan glepur þó fyrir í mörgu tilliti, hún felur hið mesta útsýni, sem veitt er dauðlegum augum, upp í gegnum hinn háa, ómælilega himingeym, meðal hinna ótölulegu hersveita, þar sem eru hnöttur við hnött, sól við sól, heimur við heim. Ó! í húsi Föður vors eru mörg híbýli, og ein stjarnan er annari bjartari (1. Kor. 15, 41); vjer þekkjum þær ekki á öðru enn ljósi þeirra, sem vjer sjáum endur

og sinnum, og er nóg til að sýna, að þær sjeu til, en ekki hvílíkar þær sjeu. En hann, sem leiðir þær allar í ljós, og hefir tölu á stjörnunum og nefnir þær allar á nafn (Sálm. 147, 4), hann þekkir þær allar, og þekkir oss alla, hann veit, hverja bústaði vjer höfum verðskuldað, hann býr oss hæfilegan stað, þar sem verða mun aðsetur vort, þegar vjer líðum af þessum heimi, þar sem kringumstæðurnar munu verða eins og oss bezt hentar, þegar vjer vöknum af svefni dauðans, og þar sem löngun vorri verður fullnægt fyrst um sinn, þangað til oss fer meira fram og vjer verðum hæfir fyrir annað enn æðra.

En vera má, þú segir: vjer vöknum þar að sönnu, en verðum þar ókunnugir, söknum þess, er vjer skildum við hjer í heimi, og þekkjum ekki það, sem þar er. Að vísu er það enn ekki opinbert, hvað vjer eigum að verða (1. Jóh. 3, 2), og mönnum er ekki unnt að koma orðum að dýrð himneskra hluta (2. Kor. 12, 4); en þó er samband millum þessa lífs og annars, vjer eigum að hafa þar hinn sama Guð, hinn sama Frelsara, hinn sama helgunar Anda, sem hjer, og eiga þar samblendi við þær verur, sem verða sömu ættar og vjer; líka heyra hin æðri heimkynni til hins sama húss og hinnar sömu skepnu, og ef oss á þar að auðnast að sjá musterinu upp lokið, þá erum vjer nú þegar í forgarði þess. Postulinn segir um þá hluti, sem menn geta þegar reynt hjer á jörðu, að auga hafi ekki sjeð, og eyra ekki heyrt, og í einkis hug hafi komið, hvað Guð hafi fyrirbúið þeim, er elski hann (1. Kor. 2, 9); og hver sem þetta hefir reynt, hver sem gagntekinn hefir orðið af hinu nýja lífi, sem Kristur veitir, hann hefir einnig eptir því sem ritningin kemst að orði á öðrum stað, smakkað hina himnesku gjöf og krapt komandi aldar (Hebr. 6, 4. 5). Svo að ef þú vilt vita, hvað í vændum sje annars heims, skaltu spyrja sjálfan þig, hvað þú hafir kallað sönn gæði þessa lífs á hinum beztu og sælustu æfistundum þínum; ímyndaðu þjer síðan þessi gæði laus við tálmun og ófullkomlegleika, og þá færðu hugmynd um það, sem fram mun koma um alla eilífð.

Sjerhver kristinn og guðhræddur maður álítur trúna gæði lífs síns, og það slík gæði, að án þeirra mundi öll fegurð lífsins fölna

og visna; hann hefir optlega hugsað og fundið, að það er hið eilífa lífið, að vjer þekkjum einan og sannan Guð, og þann, er hann sendi, Jesúm Krist (Jóh. 17, 3). þekkjum, segi jeg? Já, Guði sje lof! hann hefir ekki látið sjálfan sig án vitnisburðar, hann er ekki fjarlægur neinum af oss, og þetta fyrirheit: sælir eru hreinhjartaðir, því þeir munu Guð sjá (Matth. 5, 8) nær einnig til þessa lífs En á þeim stundum, er hjarta þitt hefir verið hreint og blítt, og þú hefir fundið, að þú varst Guði svo nálægur, og að þú varst í honum og hann í þjer, en hugur þinn vildi komast lengra, og rannsaka leyndarráð Guðs, þá fannst þú líka, að vjer lifum hjer í trú, en ekki í skoðun (2. Kor. 5, 7). þú hefir hjer á jörðu ávarpað Jesúm, þú hefir kallað hann Drottin og Frelsara, þú hefir reynt samfjelag písla hans og krapt upprisu hans, þú hefir elskað hann, þó þú sæir hann ekki; en þegar þú hefir reynt að komast í skilning um eðli hans og samfjelag hans við Föðurinn og við oss, og um hina djúpu leyndardóma friðþægingar hans, þá hefir þig að sönnu grillt til þessara hluta, og þú hefir getað farið um þá skynsamlegum orðum, en þú hefir þó fundið, hve sönn að sjeu orð Drottins vors: Enginn þekkir Soninn, nema Faðirinn (Matth. 11, 27). Og þó girnist sála þín óaflátanlega að auka, fylla og glæða þekkingu sína, þú leitar og finnur, en þú finnur þó aldrei fullkomlega það, sem þú leitar að; og hvert sinn, er þú finnur hverjar skorður þjer eru reistar, hvert sinn, er þig vantar það, sem oss er ekki veitt hjer á jörðu, þá hlakkar hugurinn til þeirrar stundar, er þokan hverfur af augum þínum, og þú verður leiddur að uppsprettu þekkingarinnar; því nú sjáum vjer — segir postulinn — gegnum dymmt gler og í ráðgátu, en á síðan augliti til auglitis; nú þekkjum vjer að nokkru leyti, en þá mun jeg sjálfur þekkja eins og jeg er sjálfur þekktur (1. Kor. 13, 12).

Að þekkja Guð og ráðsályktanir hans, og handleiðslu hans: það er næring og það er blessun fyrir þann anda, sem leitar sannleikans, og fær ekki svölun nema á uppsprettum hans. þegar vjer hjer á jörðu sjáum eins og votta hins almáttka, og verðum varir við þá hluti, sem vjer verðum að segja um: þetta er ekki hending, og ekki af manna völdum heldur Guðs, þegar oss grillir í tilgang-

inn í handleiðslu Guðs á gjörvöllu mannkyninu ellegar einstöku mönnum, þá fyllist hjarta vort undrunar, og sjerhver, sem leitar sannleikans með ráðvendni og alvörugefni, hlýtur optlega, fullur lotningar, að taka undir með postulanum, svo segjandi: ó þá dýpt auðæfanna bæði speki og þekkingar Guðs! En hversu optlega höfum vjer einnig haft orsök til að segja: ráðsályktanir Guðs eru órannsakanlegar, og vegir hans órekjanlegir, því hver hefir þekkt huga Drottins? Þá getum vjer að vísu trúað, og þá ber oss að trúa, þó vjer sjáum ekki, vjer getum unnið verk vort og oss ber að gjöra það, og þreyja og bíða hógværlega þar til Drottinn frelsar oss; en oss veitir þó svo örðugt að feta hina dymmu leið, og vjer andvörpum eptir geislum morgunroðans, þeim er endurnæri sál hins vegmóða ferðamanns, og sýni honum, hvert hann sje leiddur. Sje nokkuð til, er sýni fullberlega, hve litlu menn trúa í raun rjettri af því, sem þeir látast trúa, og hve lítil gleði þeim er í raun og veru að von ódauðleikans, þó þeir látist hafa hana, þá eru það ástæður þær í mót guðlegri forsjón, sem þeir leiða margsinnis útaf því, sem fram fer í veröldinni, ef þeir sjá ekki að það miði til stundlegrar gæfu og stundlegra hagsælda. Og þó liggur svarið svo beint við. Ætti maðurinn ekkert í vændum hinu megin grafarinnar, þá væri öll þessi tilvera ekki að eins myrk og óskiljanleg, heldur svo gagnstæðileg sjálfri sjer, að vjer ættum sem fyrst að flýja langt burt frá allri alvarlegri íhugun; en ef þessar dymmu leiðir liggja til ljóss eilífðarinnar, hversu megum vjer þá vænta að ná hjer á jörðu þeim tilgangi, sem á að fullkomnast um ótöllulegar aldir, er ekki verða mældar nje taldar, eða hvernig getur oss komið til hugar að dæma Guðs hugsanir og vegu eptir hinu litla sviði, er vjer sjáum út yfir? En þegar vjer göngum hjer um hinar myrku leiðir, þegar Guðs vegir eru ekki vorir vegir, þegar hans hugur er ekki vor hugur, þá eigum vjer að hlakka til þeirrar stundar, er mæðu vorri og baráttu verður lokið, og vjer fáum að skoða hvern hlut í guðlegri birtu. Því það, sem þetta líf hefir borið upp fyrir oss eins og myrka ráðgátu, mun aptur koma fram í öðru lífi, og þar verða úr því leyst; og þegar vjer sjáum þar orsakir þær, er vjer höfum svo optlega spurt að hjer í heimi efa-

blandnir og vantrúafullir, þegar vjer komumst að raun um, hvað það var, sem Guð var að hreinsa oss af, hvað það var, sem Guð var að venja oss við og gjöra oss að, þegar vjer skiljum til fulls þessi orð, sem hjer voru sögð til að styrkja trú vora: þann sem Drottinn elskar, þann tiptar hann (Hebr. 12, 5), þegar vjer — segi jeg — sjáum á þenna hátt þráð þann, er liggur í gegnum öll kjör vor á jörðunni, og hinn almáttki Stjórnari hefir haft til að tengja oss við sig og vorn sanna og eilífa hag, þá skulum vjer segja í skoðun og glöggri þekkingu það, sem vjer segjum nú í trúnni: ó, þá dýpt auðæfanna bæði speki og þekkingar Guðs! því að af honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir; honum sje dýrð að eilífu (Rómv. 11, 36)!

Já, lof og dýrð og tilbeiðsla sje Guði vorum, hinum almáttka og alvitra, hinum rjettláta og miskunsama! þetta segjum vjer þegar hjer í duptinu, vjer segjum í myrkri því, er hylur vora jarðneska vegu, og hvert sinn, er vjer segjum það og tilbeiðslan vaknar í sálu vorri, þá gleðst hjarta vort. Eða mundi sá, sem guðhræddur er, ganga fram hjá unaðsemd guðhræðslunnar og tilbeiðslunnar, þegar hann telur unaðsemdir sínar? Drottinn! jeg elska staðinn þíns húss, og þann stað, þar er þín dýrð býr, segir Davíð (Sálm. 26, 8). Hversu yndislegar eru þínar tjaldbúðir, Drottinn hersveitanna! Sála mín þráir og tregar eptir forgarði Drottins; líf mitt og sál mín gleður sig í hinum lifanda Guði. Sælir eru þeir, sem í þínu húsi byggja! þeir geta lofað þig sífelldlega (Sálm. 84, 1 — 5). Hvað er fegra af því, sem manna hendur hafa prýtt jörðina með enn musteri þau, er hvarvetna eru byggð hinum eilífa til lofs? Og hver mundi ekki kalla það unaðsemd, þegar hinn inndæli hljóðfærahljómur streymir í gegnum þau, og hinar skæru raddir frá mannlegu brjósti sameinast honum, þegar Guðs andi fyllir hjörtu talenda og heyrenda, þegar guðsorð er flutt hreint og ómengað, og fellur í góða jörð og færir ávöxt, og þegar allra sálir verða samtaka í einni tilbeiðslu? þó fremjum vjer hjer á jörðu þjónustuna í því musteri, sem er að eins eptirmynd og skuggi hins himneska (Hebr. 8, 5), og það, sem hjer á jörðu gagntekur brjóst vort, er ekki annað enn hugboð um það, sem fram í

oss á að koma, þegar hinum rjetta helgidómi verður upp lokið, og vjer verðum þjónustumenn í hinni sönnu tjaldbúð, sem Drottinn hefir reist, en enginn maður (Hebr. 8, 2), og allir helgidómar á jörðunni eru að eins myndaðir eptir, og heyra þann samhljóm, sem allar raddir á jörðu eru að eins ómur af.

Þó verðum vjer ekki kallaðir til eintómrar íhugunar, því eins og hinn eilífi Faðir vinnur (Jóh. 5, 17), framkvæmir, skapar, skipar og stjórnar, eins og englarnir eru þjónustusamir andar, sendir í þeirra þarfir, sem öðlast skulu sáluhjálpina (Hebr. 1, 14), eins mun Guð kalla oss til hlutteknngar í verki sínu, og þessi hin miklu orð, sem postulinn segir um ófullkomna viðleitni vora hjer á jörðu, að vjer sjeum samverkamenn Guðs (1. Kor. 3, 9), munu miklu fremur eiga þar við. Að vísu er það enn ekki opinbert, fremur í þessu efni enn öðrum, hvílíkir vjer eigum að verða, hvar vjer eigum að þjóna Guði og með hverjum hætti; enn þann, sem hjer var trúr yfir litlu, mun Guð setja yfir mikið í öðrum heimi (Matth. 25, 23), og Guð mun setja marga, þar eins og hjer, heilögum til fullkomnunar, þjónustunni til framkvæmdar, Krists líkama til uppbyggingar (Ef. 4, 12), eptir því sem hver er til hæfur. Eins og maðurinn var settur í hina jarðnesku Paradís til að yrkja hana og varðveita (1. Mós. 2, 15), eins munu hinir sáluhólpnu verða settir í himneska Paradís, og hún mun blómgast af starfi þeirra. Því allir hlutir eiga einnig í öðru lífi að þróast guðlegum þroska, og verða miklum mun fegri og frjófgari enn hjer. Hversu mikið munu jafnvel þeir, sem þykja hæfir til að þjóna Guði í betri heimkynnum, þurfa að nema og rannsaka og taka sjer fram! Og hversu mikla aðstoð munu þeir þurfa að veita hverjir öðrum! Stórar sveitir af ungbörnum líða yfir jörðina eins og í draumi, líta ljós veraldarinnar, og hverfa síðan; þeim heyrir guðsríki til eins og öðrum, en þau verða að alast upp til þess, og þegar því dauðinn hrífur barnið úr faðmi vorum, felum vjer það að sönnu fyrst á vald hins himneska Föðurs, en í huga vorum er eins og vjer felum það einnig þeim á hendur til ástúðlegrar umönnunar, er sjálfir eru farnir á undan til hinna dýrðlegu bústaða, og hafa trúað oss fyrir þeim, er þeir skildu eptir á jörðunni. Og allir þeir, sem líknsemi Guðs mun

ekki útskúfa, en ekki náðu hjer fullum þroska, og fengu hjer ekki eða gátu ekki notað þá aðstoð, sem þeim var nauðsynleg til þess að þekking og rjettlæti og kærleikur gæti þróazt í þeim til hlítar — munu vinna upp í öðru lífi það sem þá vantaði hjer, og munu fá tilsögn og leiðbeining, og til þeirrar þjónustu munu þeir verða hafðir, er sjálfir komust lengra hjer í heimi, og drógu saman þann forða, sem ekki þverr, þó öðrum sje af honum miðlað.

Hversu inndæl er æfi vor hjer á jörðu, þegar ekkert aptrar framkvæmdum vorum, og heill og árangur og blessun er samfara störfum vorum í þeirri stjett, sem vjer erum í settir! En hversu sjaldgæfar eru slíkar kringumstæður á jörðunni! Vjer finnum ekki að eins skorður alla vega í kringum oss, heldur verðum vjer og því miður sífelldlega varir við skorður í sjálfum oss, erum efablandnir, hvað oss beri af að ráða, duglitlir í framkvæmd, og miklu veikari að kröptum enn vilja. En hvort er þetta eintóm óhamingja, er vjer fáum ekki að gjört? Er ekkert brotlegt og ekkert syndsamlegt í dugleysi voru? Vjer skulum ekki ásaka oss, þegar vjer höfum ekki til þess unnið, nje kenna oss um það, að vjer erum takmarkaðir af stundlegum hlutum að óvilja vorum; en er nokkur sá, er þori að segja, þegar hann finnur, hvað hönd hans er máttlaus og hugur hans sljór: jeg hefi gjört það, sem í mínu valdi stóð, og allt þetta hirðuleysi, allar þessar yfirsjónir, allt þetta dugleysi, sem mjer býður svo optlega við bæði á sjálfum mjer og öðrum, kemur að engu leyti af viljaskorti mínum, deyfð minni og hugsunarleysi, dáðleysi mínu, vantrú minni, nje því, að jeg hafi haft hugann á mjer einum og gleymt öllu, sem yfir mjer og kringum mig er? Æ, hið verðskuldaða og hið óverðskuldaða blandast hjer svo undarlega saman; en er nokkur sá vandaður maður, sem verja vill lífi sínu eins og vera ber, er ekki hafi optlega andvarpað af löngun eptir því ástandi, að geta þjónað Guði með fullkomnari þekkingu, með traustara krapti, með hreinna vilja, enn honum hefir auðnazt hjer í heimi? Og með því vjer vonum þessa í því lífi, sem í hönd fer — hvað missum vjer þá með þessu lífi, nema skorður og tálmanir, nema sorg og synd.

Vera kann þú segir, að vjer missum hverjir aðra? Því mundi

nokkur hugsa um unaðsemdir þessa lífs og gæði þau, er hann hafði hjer í heimi, án þess að minnast ástvina sinna, þeirra sem urðu honum samferða á leið lífsins, og honum voru hjartfólgnir? Og ef dauðinn væri annars konar skilnaður, enn eins og þegar vinur vor fer á undan í annað land, þangað sem vjer eigum að koma á eptir, ef vjer skildum fyrir fullt og allt á grafarbakkanum; og sála vor lifði svo eilíflega án endurminningar og án ástar, þá hefðum vjer misst hjer á jörðu það, sem oss bættist ekki um alla eilífð.

En það land, er vjer förum til, er land lifandi manna; og þar finnast þeir, er hjer skildu. Þar líður móðan af augum vorum, og hver missýning hverfur á burt, og þar hittast þeir aptur, sem ekki voru fúsir til sátta, meðan þeir voru hjer saman á vegferð sinni, og þeir, sem skildu hjer í reiði og fjandskap; þar er ekki manngreinarálit, og þar hittast þeir aptur, sem gjörðu hver öðrum rangt til hjer í heimi, hinir voldugu, sem vanbrúkuðu vald sitt, fyrirlitu lítilmagnana, vernduðu ekki saklausa, eða undirokuðu varnarlausa; eins hinir lítilmótlegu, er þrjózkuðust í gegn lögum og og rjetti, særðu þá, er vildu þeim vel, eða möttu einkis það, sem þeim var gott gjört; þar hittast þeir, sem hjer í heimi voru kallaðir vinir og vandamenn, en rufu trúnaðinn og skyldur sínar, þar hittast menn og konur, foreldrar og börn, sem ekki voru blíð hver til annara, heldur gjörðu daglega hvert öðru rangt til, og voru hvert öðru til óánægju. En, algóði Guð! þar lætur þú einnig þá finnast, er hjer skildu í friði, þá er sýndu hver öðrum trúskap og hollustu, meðan þú leyfðir þeim að vera saman, og gjörðu hver öðrum gott hjer í heimi; þeir, sem stunduðu rjettvísi og tömdu sjer líknsemi, finna þar þá, sem þeir hafa skotið skjóli yfir, og nú taka við þeim í hinar eilífu tjaldbúðir (Lúk. 17, 9); þar finnur móðirin barn sitt og barnið móður sína, maðurinn konu sína og konan manni sinn, og vinirnir, sem gengu hjer hver sinn veg til grafarinnar, hittast þar aptur, ekki eins og hjer með sorg og tárum og söknuði, og ekki eins og hjer með því skilyrði, að vita ekki, hve nær þeir eigi aptur að skilja, heldur uppyngdir af uppsprettulindum ódauðleikans, veglegir orðnir í eilífu lífi. Og þar eigum vjer einnig að

sjá þig, Drottinn vor og Frelsari! er oss hefir svo optlega langað til að sjá á hinni mæðusömu pílagrímsferð! Hversu mikil, hversu sælurík var boðun sú, er postular þínir heyrðu forðum: "hinn krossfesti er ekki í gröfinni, þar sem þeir lögðu hann; hann er upprisinn, og farinn á undan yður til Galíleu; þar munuð þjer sjá hann, eins og hann hefir sagt yður" (Mark. 16, 6. 7). Ó! væri enn einhver Galílea á jörðunni, þar sem vjer gætum sjeð þig, hversu mjög mundi oss þá fýsa að fara þangað, eins og mörgu guðhræddu hjarta hefir verið svölun í að sjá þá staði, þar sem þú hefir gengið, þó þú sjert horfinn þaðan fyrir löngu. En þótt augu vor fái aldrei að sjá þig hjer í hinu stundlega lífi, þá á það samt enn við, að þú ert einungis farinn á undan, og að þeir staðir eru til, er vjer eigum að sjá þig, eins og þú hefir sagt. Því þú lifir, og vjer eigum að lifa, og með þjer í ríki þínu, lifa allir þeir, sem á jörðunni hafa leift eptir sig heiðurlega minningu hjervistar sinnar, allir þeir, sem mannkyninu hefir verið sönn prýði að, og allir þínir útvaldir; þeir eru allir hjá þjer, og vjer verðum teknir í fjelag þeirra, annaðhvort undir eins eða smátt og smátt, eptir því sem vjer verðum hæfir til þess; því það er nógur tími hinu megin grafarinnar til þess, að allir þeir geti komið saman, er heyra til hins mikla safnaðar, er þú safnar í lifendum og dauðum.

Þar er hið rjetta og sanna, er vjer sáum hjer ekki nema í þoku og gátum aldrei náð; þar hverfa missýningar þessa lífs, þar mun Guð þerra hvert tár af augum hinna hryggu, og dauðinn mun ekki framar til vera, og hvorki harmur, nje vein, nje mæða mun framar til vera (Opinb. 21, 4). Ó! sæll er sá, sem ekki lætur kalda speki og orðkróka útrýma kristilegri von úr hjarta sínu, því hún ein veitir sanna speki og huggun, og, Guði sje lof, að allir geta hennar aðnjótandi orðið, jafnvel hinir fákænu og einföldu. Vegirnir um veröldu þessa eru undarlegir og optsinnis þungir og þröngvir, og hinn síðasti vegur liggur að hinni dymmu gröf. En sæll er sá, er trúir á Jesúm Krist, og hefir aldrei hugann af hinu æðra lífi.

---

# 62.

## ANNAÐ LÍF.

### Síðari hugleiðingin.

"Að morgni ráðguðust allir æðstu prestar og öldungar lýðsins um það, að ráða Jesúm af dögum, bundu hann síðan, leiddu hann þaðan og seldu í hendur landstjóranum, Pílatusi hinum pontverska. En sem Júdas, er sveik Jesúm, sá, að hann var til dauða dæmdur, iðraðist hann, og skilaði hinum æðstu prestum og öldungunum aptur þeim þrjátíu silfurpeningum, og mælti: jeg hefi illa gjört, er jeg sveik saklaust blóð; en þeir sögðu: hvað varðar oss um það? ábyrgstu sjálfur. þá kastaði hann silfrinu á musterisgólfið, skundaði þaðan og hengdi sig. En yfirprestarnir tóku silfrið, og sögðu: ekki hæfir að leggja þetta fje í guðskistuna, því það er blóðpeningar. Fyrir því tóku þeir það ráð, að kaupa fyrir þá akur eins leirkerasmiðs, til að jarða í útlenda menn; og vegna þess heitir þar Blóðreitur enn í dag" (Matth. 27, 1 o. nn. vv.).

þessi hin alvarlega frásögn leiðir oss á harla hryggilegan stað. "Reitur, til að jarða í útlenda menn" — þar láu þeir andvana, hver við annars hlið, ferðamennirnir, er komnir voru að takmarki leiðar sinnar, en þó ekki því takmarki, er þeir höfðu ætlað. þeir höfðu farið til Jerúsalem, að sjá hina helgu staði og taka þátt í hinni háleitu hátíðagleði, en hlutu þar greptrun í stað glaðværða, ekki með frændum og vinum, heldur í fjarlægð, þar sem enginn þekkti þá, og enginn saknaði þeirra, meðal annara ókunnugra ferðamanna, sem dauðinn hafði hrifið til sín á ferð þeirra, eins og sjálfa þá. þessi reitur hjet Blóðreitur, því hann var keyptur fyrir blóðpeninga, er sjálfum illskunnar þjónum þóttu vera saurgaðir, er hinn rjettláti hafði verið framseldur fyrir í hendur hinna ranglátu, er vinur hafði selt vin sinn fyrir og lærisveinn meistara sinn. — Hvað hafði nú svikarinn ábatazt? Hann leitaði verðlauna fyrir ranglætti sitt, og fjekk þau líka, en hversu óttalega hurfu þau á burt úr höndum honum! Hann hafði sjálfur engin not af þeim, og það var ekki eptir af þeim annað, enn hryggilegar menjar, sem

voru til minnis um glæp hans lengi eptir burtför hans, og um verðlaun þau, er hann ávann sjer að síðustu.

Allir þessir viðburðir eru fyrir löngu liðnir, landið allt, þar sem þessi tíðindi urðu, er nú orðið blóðakur, öllu er þar sundrað og umturnað, og menjar þær, sem áður voru kunnar öllum í landinu, eru afmáðar fyrir löngu. En minningin lifir þó frá kynslóð til kynslóðar, hún er rituð á bækur þær, sem tímalengdin fær ekki eytt; og allt, sem ritað er á hinar helgu bækur, er ritað í vorar þarfir — til huggunar oss, eða til uppörfunar, eða til viðvörunar.

En nú kynni einhver að segja: til hvers er þessi viðvörun? Guði er svo fyrir að þakka, að það, sem hún talar um, er harla sjaldgæft, eða rjettara að segja: getur ekki orðið nema einu sinni, því Frelsari heimsins átti ekki að verða seldur í hendur syndara optar enn um sinn. Og jafnvel það, að vinur svíki vin sinn í þeim skilningi, eður að lærisveinninn selji meistara sinn, er svo sjaldgæft og svo óttalegt, að sjerhverjum ofbýður það, svo að ekki þarf að vara við því. Og líferni og afdrifum Júdasar var svo varið, að þau skelfa huga vorn, og með Guðs hjálp er ekki hætt við, vjer munum freistast til að feta í fótspor hans. Já, með Guðs hjálp! En hefir þú líka athugað, hvað þau orð þýða, er þú segir nú? Ef Guð vill hjálpa þjer, þá er þjer ekki hætt; og Guð vill hjálpa þjer, ef þú vilt leita hjálpar til hans · ef þú vilt vaka og biðja. En viljir þú það ekki, þá getur svo farið, að straumur spillingarinnar beri þig með sjer, eins og svo marga aðra, þangað til þú kemur þar að, er þú hafðir sízt ætlað. Hvað margir eru þeir, sem íhuga til hlítar ofbeldi það, sem fylgir mannlegum geðshræringum, eðli þeirra og ásigkomulag, uppruna þeirra og hvert þær leiða um síðir þá, sem ekki losa sig undan þeirra grátlegum yfirráðum?

Margar ósannar greinir ganga munn úr munni og verða algengar í tali manna; en ekkert er ósannara, enn að ofstopi geðshræringanna framkvæmi það, sem mest sje í varið í veröldinni. Það er að sönnu satt, að engu verður til leiðar komið með leti og deyfð, heldur með ákafa og atorku; en það, sem gott er og mikilsvert í raun rjettri, verður þó ekki framkvæmt, nema með skynsamlegum

og rjettum ákafa, og hversu fjarlægur er hann ákafa geðshræringanna! því allar tungur viðurkenna að geðshræringin sje blind, eða sjái skakkt, rjettara að segja, því hve nær sjá menn í því ástandi hlutina eins og þeir eru, eins og menn sjá þá eptir og áður? Og hvernig getur þá þvílíkt ástand leitt menn til að framkvæma það, sem gott og háleitt er? Geðshræringin eyðir og skemmir, og kemur manninum til þess, sem hann iðrast eptir á síðan. "Jeg hefi illa gjört, er jeg sveik saklaust blóð", sagði Júdas. Að vísu gjörðir þú illa, vesæll maður! og leiddir þunga og hræðilega sekt yfir höfuð þjer; en hver hefir nú komið þjer í skilning um það? Var ekki verkið hið sama, þegar þú hugfestir það, og gekkst af stað til að selja Drottin þinn, og þegar það var unnið? vissir þú ekki eins vel á undan, að hann var saklaus? vissir þú ekki eins vel á undan, að það er illvirki að svíkja saklaust blóð? En hvað kemur til, að þú sjerð það nú, hvað kemur til, að þjer getur nú skilizt það, en gazt það ekki áður? Af því geðshræringunni hefir nú slotað og ský hennar hafa dreifzt, og hið bjarta ljós sannleikans skín nú hlífðarlaust niður á illvirki þitt.

Ágirndin hefir að vísu verið stærsti löstur manns þessa; hann girntist auðæfi þessa heims, og hafði aðhyllzt Jesúm, af því hann hjelt eins og alþýða manna, að hann mundi stofna jarðneskt ríki handa Ísrael, og skipta svo jörðunni með áhangendum sínum. þangað til ætlaði hann að vera ánægður með lítinn og saurugan ávinning, þar sem hann bæri að hendi; en þegar hann sá, að launin, sem hann vonaði eptir, voru ekki í vændum, þegar hann fór að skilja betur og betur, að það var ekki jarðneskt ríki; sem Jesús ætlaði að stofna, þá illskaðist hann, og þegar Jesús sá hvað hann hugsaði, og ljet í ljósi við hann, að hann vissi hvað í honum byggi, og benti á hann svo sem tryggðrofa og svikara, þá magnaðist bræði hans og varð að þrjózku og hefndargirni — að geðshræringu, sem blindaði hann, svo að hann sá ekki hið bjartasta. — þú, sem íhugar æfi manns þessa, þú munt ekki hafa svikið þinn lánardrottin, nje selt vin þinn; en þekkir þú samt ekki hryggilegt ofbeldi geðshræringanna af sjálfs þíns reynslu? hafa þær aldrei komið þjer til að tala nje gjöra neitt, það er fullnægði hjarta þínu

í bráð, en særði það síðan, svo þú hlauzt að fyrirverða þig og segja með hryggum huga: jeg gjörði illa, jeg hefi syndgað, mjer var ekki vorkunn á að sjá hið ranga eins þá og nú, en jeg sá það ekki, því jeg vildi ekki hafa stjórn á mjer, og ljet geðshræringuna ráða við mig.

Hversu undarlegar eru geðshræringarnar! það lítur svo út, sem sá er gjörir eitthvað í geðshræringu, gjöri það af miklu fjöri og afli; hinar ytri mótspyrnur svigna fyrir honum, og hinar innri mótspyrnur, er hefðu getað tálmað honum, hefir hann yfirstigið, hann gefur ekki gaum að neinu lögmáli, nje rjettindum, nje skyldu, hann lætur hjarta sitt ráða, og fremur vilja sín sjálfs, og það lítur svo út, sem hann aðhafist að sjálfs síns rammleik, og samt er hann háður annarlegu valdi. Segjum vjer ekki og hver maður með oss, að hann ráði ekki við sjálfan sig, og þess vegna sjer hann ekki það, sem hann hefði annars kostar getað sjeð, og hefði sjeð, og þess vegna talar hann og gjörir það, sem hann hefði ekki viljað gjöra; hann aðhefst ekki sjálfur, heldur kúgar annarlegt vald hann, og ræður gjörðum hans. Hvílíkt er þetta vald? Ó, hversu undarleg og óskiljanleg er mannleg vera! hversu furðanlega er hann tengdur við það, sem meira er og máttkara enn sjálfur hann! Að vísu er hann frjáls skepna, hann getur hneigt vilja sinn til hverrar hliðar sem hann vill, hann getur slitið sig lausan, eður selt sig fram, en valdi því, sem hann selur sig, verður hann að hlýða, og það leiðir hann miklu lengra, enn honum hefði getað til hugar komið. Hinn ráðvandi og rjettláti og guðhræddi hefir ekki sjálfur komið upp með hið góða; sá sem er honum meiri, hefir ritað lögmál sitt í hjarta hans, og gefið honum fýsnir og áminningar til hins góða; gefi hann þeim gaum og láti leiðast af þeim, lifnar í honum rjettlætið og kærleikurinn, og stjórna orðum hans og gjörðum; á þeim stundum, sem hann selur sig Guði á vald, sýnir Guðs andi mátt sinn í honum og fyrir hann, og það að nokkru leyti hjá honum, sem með fullum sanni átti heima hjá postulunum, er Drottinn sagði um: það er ekki þjer, sem talið, heldur er það Andi Föður yðar, sem í yður talar (Matth. 10, 20). Og eins og því er varið með orðin, svo er það og með gjörðirnar; því í þessu tilliti fram-

kvæmir Guð einnig í honum viljann og framkvæmdina eptir gæðsku sinni (Fil. 2, 13); hann er verkfæri í hendi Guðs til að framkvæma hið góða, og sjer optlega ekki, hvað það merki, nje hvað af því muni leiða, en eigi að síður þróast það í höndum hans Guði til lofs og dýrðar. Svo er og um endurgjald það, er hann finnur til, Guðs frið, þann er æðri er öllum skilningi, að hann veitir sjer það ekki sjálfur, heldur kemur það af himnum ofan, eins og öll góð og fullkomin gjöf, og æðri kraptar enn sjálfs hans, hinir himnesku kraptar ókomins heims bæra sig í honum. Selji maðurinn sig hins vegar á vald hinu illa, hefir hann gengið í hörmulega ánauð; því hjer er hann ekki heldur einn saman, heldur leiða hin mannskæðu völd myrkranna hann fjötraðan eptir sjer; þau kveikja í honum ískyggilegan eld illra girnda, er brenna hjartað, en veita því hvorki birtu nje yl, þau blinda augu hans, þau deyfa krapta hans, þau þrýsta honum til að tala og aðhafast það, er hann vildi ekki áður, og girnist síðan eptir á að fá aptur tekið, þótt það ætti að kosta allar eigur hans, þótt það ætti að kosta blóð hans; því þessi völd kenna honum einnig að gjöra það, sem hann megnar ekki að meta rjettilega, og hafa hönd hans til að sá því sæði, sem þróast til bölvunar. Andar öfundarinnar og reiðinnar og hatursins og hefndargirninnar taka sjer bústað í brjósti hans, og reka hann æ lengra með þorsta þeim, er ekkert fær slökkt, því hver hefir nokkru sinni orðið saddur á rangfengnum ágóða og hjegómlegum heiðri og munaðarlífi? Órósemin, sem rekur hann, samvizkubitið, sem ofsækir hann, örvæntingin, sem slítur sundur hjarta hans, er ekki sjálfsköpuð, nje sprottin af holdi og blóði, nje draumaleikur sjúkrar sálar, heldur finnur hann, að völd eru til, meiri og máttkari enn sjálfur hann, hræðileg völd, er æpa á hann og segja: þú ert vor! og engin frelsun býðst honum undan þessum völdum, utan sú, er þau aptra honum frá, það er friðþæging sú, sem veitt er sjerhverju iðrunarfullu og sundurkrömdu hjarta, sem flýja vill undir vængi guðlegrar miskunar.

"Jeg hefi syndgað, er jeg sveik saklaust blóð", sagði Júdas. Þetta var enn þá góð tilfinning í brjósti hins ófarsæla manns, það var hin síðasta áminning frá honum, sem ekki vill að neinn synd-

ugur maður glatist. Hefði hann hlýtt þessari áminningu með sannri auðmýkt og iðrunarfullri trú, hefði hann látið hana leiða sig þangað, sem hún kallaði hann, að krossi þeim, sem hann hafði sjálfur framselt Drottin sinn á, þann er ekki var á krossinn negldur einungis vegna vina sinna, heldur og vegna þeirra, sem hötuðu hann og ofsóttu, og sem fórnfært var til fyrirgefningar margra syndum, þá hefðu enn hinir góðu andar, sem fagna yfir sjerhverjum syndara, sem yfirbót gjörir; hrifið hann og leitt hann til frelsunar. Þegar sá af sampostulum hans, sem önnur geðshræring hafði blindað, sem óttinn hafði komið til að afneita þeim, er hann hafði heitið trú og hollustu allt til dauða — þegar hann rankaði við sjer aptur, viðurkenndist hann og sagði: jeg hefi syndgað, af því jeg afneitaði hinum heilaga og rjettláta, og þá gekk hann burt og grjet beisklega, þá fór hann í flokk þeirra, sem hörmuðu við gröf Drottins, og þegar Jesús birtist aptur, gat hann öruggur sagt: Drottinn! þú veizt alla hluti, þú veizt jeg elska þig (Jóh. 21, 17). En hvað gjörði Júdas? iðrun hans varð einnig að geðshræringu, og þessi geðshræring glapti aptur sjón sálar hans, svo hún sá ekki frelsið, heldur eintóma glötunina.

Hversu undarleg — segi jeg enn — hversu óskiljanleg er mannleg vera! Hvað óttastu svo mjög, vesæll maður? Hví dirfist þú ekki að halda blóðpeningunum? Þeir eru þín eign, enginn heimtar þá aptur, þú getur enn keypt fyrir þá allt, sem þú ætlaðir þjer, þegar þú seldir Drottin þinn fyrir þá; hvers vegna brenna þeir hendur þínar, svo þú verður að snara þeim frá þjer? Enginn er sá á jörðunni, er ógni þjer, enginn er krefji þig reikningsskapar, þú hefir framið vilja heimsins, og framið vilja myrkravaldanna, er tími þeirra var kominn, og eigi að síður titrar þú, eigi að síður vildir þú biðja hæðirnar að hylja þig, og fjöllin að hrapa ofan yfir þig. Sjáið hjer, hvernig sannleikurinn lætur einnig þann munn votta um sig, sem hatast við hann. Hinn óguðlegi snýr á flótta, þótt enginn elti hann (Sal. orðsk. 28, 1), einhver ógnarleg skelfing keyrir hann á fram hvíldarlaust, og hann getur ekki sagt, hvað ótta hans valdi: það er engin af skelfingum þeim, sem á jörðunni eru, það eru ekki mennirnir, því þeir ásaka hann ekki, það er

ekki sverðið, því það vofir ekki yfir höfði hans, það er ekki dauðinn, því hann æðir sjálfur út í hann, og sjer hvergi frelsi nema í glötuninni; heldur eru það píslir samvizkunnar, sem hann fær ekki afborið, það eru þrumur hins eilífa dóms, sem duna yfir honum, það eru völd undirdjúpanna, sem hann finnur að hann er í hendur seldur. En sjáið og í þessu blindni geðshræringanna! það eru ekki völd jarðarinnar, heldur æðri völd, er þú óttast, og þó skundar þú í hendur þeim! þú óttast það, sem er hinu megin dyra eilífðarinnar, þær ljúkast ekki enn upp fyrir þjer, og þú býst sjálfur til að brjóta þær upp, þú hyggst að geta flúið úr höndum hins lifanda Guðs, þú ætlar að búa þjer hvílu í undirdjúpunum, og hyggur að hann sje þar ekki, og hönd hans geti ekki einnig hrifið þig þar, og almáttug hönd hans haldið þjer föstum!

Hinir postularnir segja, hann hafi yfirgefið embætti sitt og postuladæmi, og farið til síns staðar (Post. 1, 25). Hvar er sá staður, og hvernig er honum háttað? — Ó! er nokkur sá til, er hjer dirfist að segja: dauðinn friðþægir allt, dauðinn afmáir öll afbrot, þegar líkaminn er að velli lagður, er syndin gleymd og fyrirgefin? — Hinu megin grafarinnar er harla dymmt, og einskis dauðlegs manns auga hefir getað uppgötgvað, hvað eilífðin hafi að geyma; en yfir hinu dymma og hljóða hliði er ritað með eldlegum stöfum: Villizt ekki, Guð lætur ekki að sjer hæða! Í hinu mikla ómælanlega húsi eru mörg híbýli; ætti jeg að segja, að þeir, sem hjer í heimi hafa þrjózkazt gegn Guði, og hafnað miskun hans, fari til híbýla ljóssins og friðarins? Ætti jeg að segja, það sje ekki annað enn draumórar, eða samsetningur til að hræða með börn og hjervillinga, að til sjeu hryllileg híbýli, sem eru fjarlægari ljósi guðlegrar miskunar, enn þessi jörð, og að ómælanlegur geymur sje millum þessara híbýla, og þeirra, er Drottinn mun veita þeim þjónum, sem hafa verið trúir í litlu, og hann mun setja yfir meira, og seðja á fögnuði sínum? Aldrei skal jeg — nei! Guð minn góður! aldrei skal jeg dirfast að taka mjer í hönd hinar óttalegu metaskálar, sem eru í þinni hendi, og aldrei skal jeg dirfast að kveða upp þá dóma, er þú getur einn dæmt rjettvíslega, af því

þú þekkir einn alla hluti. En eins og jeg hefi sjeð, að þeir eru til, sem þegar hjer í heimi geyma nokkurs konar helvíti í brjósti sjer, orm sem ekki deyr, og eld, sem ekki slokknar; eins og jeg hefi sjeð, að þeir eru til, sem þegar hjer í heimi efna upp á nokkurs konar helvíti handa sjálfum sjer og öðrum: eins getur samvizka mín ekki borið á móti því — sála mín titrar, en hún getur ekki borið á móti því, að hinu megin grafarinnar sje til enn svartara myrkur, mjög fjarri himnaríkis sælu; hún megnar ekki og dirfist ekki að bera á móti orði Guðs, sem auglýsir dóma hans, og segir oss bæði í tilliti til þessa lífs og annars: Guð mun gjalda sjerhverjum eptir verkum hans; þeim, sem með stöðugleika í góðum verkum leita vegsemdar og heiðurs og ódauðleika, mun hann veita eilíft líf; en þeim, sem mótþróanlegir eru og hlýða ekki sannleikanum heldur rangsleitninni, mun hann senda bræði og reiði; hrellingar og harmkvæli munu koma yfir sálir allra manna, sem illsku drýgja (Rómv. 2, 6 o. nn. vv.).

Hver dauðlegur maður mundi vilja reyna til að segja, hvað fólgið sje í þessu myrkri? En eins og blessanin kemur hjer að ofan, og vekur grun í hjörtum mannanna um sælu hinna útvöldu, og eins og til eru staðir og stundir á jörðunni, er vjer segjum, að hafi himneska sælu að geyma, eins eru og til helvízkir logar, er kvikna þegar hjer í lífi, og bölvun, er hinn almáttki sendir yfir híbýli og hjörtu hinna seku. Því þar sem óguðlegir menn koma saman til viðbjóðslegs athæfis, þar sem hinir ungu þegar eru vígðir til svívirðingar, og háðungin hvílir á hærum hinna gömlu, þar sem sundurlyndi og fjandskapur drottna, og hver höndin er uppi móti annari, þar sem hjörtun etast af óstjórnlegum geðshræringum, heipt og örvinglun, þar sem hegningar þær, er Guð hefir látið fylgja löstunum, sækja þá heim, og mannlegt rjettlæti einnig verður að kúga og tipta, þar sem þessi lýsing á við, sem stendur í einni spádómsbókinni: og mennirnir stiknuðu af miklum hita, og þeir átu tungur sínar af ofraun, og þeir hæddu Guð himnanna fyrir píslir þeirra, og snjeru sjer ekki frá illverkum sínum (Opinb. 16, 9 o. nn. vv.): þar þurfum vjer engu við að bæta, þar er þegar helvíti hjer á jörðu. Og ef hinn óguðlegi herðir hjarta sitt allt til

æfiloka, og ef hann lítillækkar sig ekki, og snýr sjer ekki til Guðs, að gefa honum dýrðina, heldur skilur við í öllum syndum sínum: er þá nokkur sá til, er dirfist að hæða hið eilífa rjettlæti, og segja: hann fór til friðarins heimkynna?

Er þá engrar endurlausnar von þaðan? Ó! ef það væri mögulegt, að hinn tortýndi gæti með sannri iðrun sent úr djúpi glötunarinnar andvörp sundurkramins og trúaðs hjarta til hinnar óendanlegu miskunsemi, þá mundi hinn almiskunsami heyra þau, því hann hefir ekki velþóknun á nokkurs syndugs manns dauða. En er það mögulegt? Getur sá fundið þaðan veg til apturhvarfs og trúar, sem hjer í lífi hefir hafnað sjerhverri áminningu guðlegrar miskunar, og hvorki hefir látið vekjast af velgjörðum Guðs nje hegningum hans, heldur hert hjarta sitt í synd og hatri og þrjózku? — Enginn hefir getað að því komizt, hvað Frelsari veraldarinnar hafi boðað, þegar hann fór að prjedika fyrir öndunum, sem voru í varðhaldi, eptir því sem postulinn segir (1. Pjet. 3, 19), enginn hefir komizt að þeim leyndarráðum, sem framkvæmd eiga að verða, þangað til fullkomnunartími allra hluta er kominn (Post. 3, 21); þeir hlutir eru byrgðir og innsiglaðir allt til hins síðasta tíma, eins og spámaðurinn að orði kemst (Dan. 12, 14). En einnig úr undirdjúpunum hljómar þessi rödd til vor: Verið eigi ómildir í dómum yðar um aðra, að eigi dæmi þeir ómilt um yður; sakfellið ekki, svo þjer verðið ekki sakfelldir (Lúk. 6, 37); en sjerhver efli sáluhjálp sína með áhyggju og andvara (Fil. 2, 12), og í dag, meðan þjer heyrið rödd Guðs, þá herðið ekki hjörtu yðar (Hebr. 3, 7. 8).

Ó almáttki, trúfasti Guð, er vjer flýum til í hverri neyð og hættu! ættum vjer í bæn vorri til þín að gleyma hættum sálarinnar, þeim hættum, sem ekki eru búnar jarðneskum munum, nje heldur hinu fallvalta lífi, heldur þeim, er sálin getur villzt í, og misst trú sína og von, frið og frelsi. Vjer eigum óvini umhverfis oss, og móti þeim verðum vjer að berjast, vaka og biðja, en vjer eigum þar að auki óvini í hjörtum sjálfra vor, illar girndir og skaðsamlegar ástríður; svo eru og veldi myrkranna, er sitja um hina ístöðulitlu, og svæfa þá með sætum söngvum, til þess þeir

skuli vakna í skelfingu. Ó Guð vor, lát sálina vakna fyrr enn það er orðið um seinan, og kenn oss að hertygjast þeim hlífum, sem engin vopn bíta; en kenn oss um fram allt að grípa skjöld trúarinnar, er vjer getum slökkt með öll eldleg skeyti óvinarins (Ef. 6, 16). þeir verða aldrei fyrirdæmdir, sem eru í Kristi Jesú, og ekki lifa eptir holdinu, heldur eptir andanum (Rómv. 8, 1); hans vegna segjum vjer, er sála vor hvílist í óendanlegri miskunsemi Guðs með sannri og lifandi trú, óhultir fyrir alls konar ógnunum: dauði! hvar er broddur þinn? helvíti! hvar er sigur þinn (1. Kor. 15, 55).

---

# 63.

## GUÐSRÍKI.

þegar hinn mikli fyrirrennari Jesú, Jóhannes skírari, hóf prjedikun sína, þá var þetta boðun og áminning hans til Ísraels barna: Bætið ráð yðart, því himnaríki er í nánd (Matth. 3, 2). Og þegar Jesús tók sjálfur að kenna, er svo að orði komizt um hann, að hann hafi flutt fagnaðarboðskapinn um guðsríki (Mark. 1. 15). því svo var ástatt, að hjá hinni merkilegu þjóð, sem Guð hafði ætlað til sjerlegra forlaga og alið upp á sjerlegan hátt, var dásamleg eptirvænting um mikið ríki, er hefjast mundi af hinu forna Júdaríki, og ná yfir allar þjóðir og allar aldir. Guð hafði lokið upp augum spámannanna svo að þeir sáu fram á hinar ókomnu aldir, og lutu þegar því, er verða átti í fyllingu tímans; þeir vitnuðu um það í helgum ræðum, þeir vöktu vonina um það og hjeldu henni vakandi öld eptir öld, svo að hún varð æ kröptugri og þjóðinni hjartfólgnari. það var ríki Davíðs, sem um hafði verið talað; og syni Davíðs, þeim er ríkið átti að hefja, var ekki lýst eins og jarðneskum höfðingja, og hann átti ekki að færa

mönnum eina saman jarðneska blessun. Nú þó að fjöldi fólksins hafi haft um þetta jarðneska von, og þó að hún hafi jafnvel blandazt saman við hugmyndir hinna vitrari og betri manna, þá voru það í raun rjettri háleitari hugsanir, sem breiddu ljóma sinn yfir hina helgu von. Það sjáum vjer þar af, að það varð almennt að kalla ríki þetta: himnaríki, og guðsríki, er skyldi koma frá Guði og verða stjórnað af Guði, og mundi færa mönnum guðlegan sannleika, guðlegt rjettlæti og guðlega blessun.

Guðsríki er til yðar komið, sagði Jesús; öll fyrirheit hans voru loforð um guðsríki, og öll kenning hans var leiðbeining til þess. Þetta orð hljómar í öllum hinum helgu bókum, en þó skærast í bókum hins nýja sáttmála. Þetta sama orð hefir og hljómað í hjarta hvers sannkristins manns, því sjerhver, sem hinar kristilegu hugmyndir hafa haft nokkur áhrif á, verður að komast við, þegar hann heyrir með guðrækilegri eptirtekt þetta orð: guðsríki. Þó hann sje ekki alls kostar fær um að greiða úr þýðingu þess, þá finnur hann samt, að öll innilegasta löngun hans og öll hans inndælasta von koma saman í þessu eina orði. En hve nær kemur þá ríki þetta, sem öll löngun þráir og öll fyrirheit boða? Það kemur ekki með fullum blóma, fyrr enn mannsins Son kemur, fyrr enn eingetinn Sonur Guðs birtist á degi Drottins, og dýrð hans ljómar yfir jarðríki, eins og þrumuljósið, er það kemur skyndilega fram í einni átt himins og leiptrar til annarar. Þó er oss sagt, að guðsríki sje til vor komið, og Drottinn talar ætíð um það á slíkan hátt, svo enginn efi er á, að vjer getum orðið þess hluttakandi þegar hjer í heimi. En hvar er þá guðsríki? Eru nokkrir þeir staðir á jörðunni, að vjer getum með sanni sagt: sjá, hjer er það, eða: sjá, þar er það? er nokkurt það land, að vjer þurfum ekki annað enn fara þangað, er nokkur sá söfnuður, að vjer þurfum ekki annað enn ganga í hann, til að finna guðsríki? Eigum vjer að leita þess í fjölmenni eður á eyðimörkum? Og hvað er það, sem vjer leitum að, er vjer leitum guðsríkis? — Slíkt eru mikilvægar spurningar, sem hverjum manni ríður á að úr sje leyst.

þessi bæn í faðirvori: tilkomi guðsríki! er án efa sú bæn, sem fæstir skilja. Í hin önnur orð, er Drottinn vor kenndi oss að biðja með, mun sjerhver leggja einhverja skynsamlega þýðingu, þó hann skilji þau ekki fullkomlega; en jeg er hræddur um, að fæstir yrðu búnir til svars, ef þeir ættu að gjöra grein fyrir, hvað þeir meina, er þeir tala þessi orð. Og þó er oss óhætt að segja: að allar aðrar bænir komi saman í þessari einni, og þegar oss veitist hún, höfum vjer allt gott. Ef jeg á að snúa þessari bæn á tungumál veraldarinnar, eða rjettara að segja — því hvernig væri það mögulegt að koma orðum að kristilegri tilfinningu á veraldlegan hátt? — ef jeg á að tilgreina þá ósk í veröldinni, er samsvarar þessari kristilegu bæn, þá er það óskin um hamingju. Eins og allar óskir sannkristins manns koma saman í þessari einni: tilkomi guðsríki! eins koma allar óskir veraldarinnar saman í óslökkvanlegum þorsta eptir hamingju, og það sem í Krists fagnaðarboðskap er leiðbeining til guðsríkis, er í heiminum leiðbeining til að verða farsæll á jörðunni. Ef vjer berum þessi tvö orð saman, þá getur ekki verið efi á, hvort fegra sje og þýðingarmeira, og hvors rjettara sje að óska. Orðið hamingja merkir þau gæði, er falla jafnt í skaut manna, hvort sem þeir eru vondir eða góðir, og því segja menn um hamingjuna, að hún sje blind. Að sönnu eru það í raun rjettri sjálfir vjer, sem erum blindir, því Stjórnari hamingju vorrar sjer sannarlega hverju hann úthlutar, og hann sendir ekkert í blindni; en vjer vitum ekki, eptir hverri reglu hann veitir eða synjar, heldur sjáum vjer það eitt, að það fer ekki eptir mannkostum, því það, sem vjer köllum hamingju, hlotnast eins opt ómaklegum, eins og það hlotnast ekki þeim, sem maklegri er. En í guðsríki getur ekkert saurugt komizt, órjettvísir munu ekki guðsríki erfa (1. Kor. 6, 9), og án heilagleika getur enginn sjeð Drottin (Hebr. 12, 14). Hamingjan er ekki í manninum sjálfum, hún mætir honum á æfileið hans, hún færir honum þess konar gæði, sem ekki samlagast eðli hans og geta því ekki staðnæmzt hjá honum; þau skilja við hann, eða hann við þau; en guðsríki færir mönnum aptur á mót stöðug gæði, er sameinast anda þeirra. Enn fremur geta menn bægt hverjir öðrum frá

hamingjunni, þar á mót getur enginn maður bannað öðrum guðsríki með líkamlegu valdi nje rænt því frá honum. En þó að guðsríki sje harla ólíkt eintómri hamingju, þá er það sannarlega inndælt og æskilegt; að því skapi sem veröldin er áköf í því að æpa eptir hamingju, að því skapi biður hinn guðhræddi innilega sí og æ, að guðsríki komi; því guðsríki er það ástand mannanna, að þeir njóti sannra, verulegra, stöðugra gæða með Guðs blessun.

þar, í guðsríki, verður það að vera, sem mennirnir leita að með svo mikilli ókyrrð og fyrirhöfn, en finna ekki; þeir leita þess í öllu, sem glæsilegt er í heiminum, og teygir þá að sjer með útliti sínu, svo sem eru auðæfi, metorð og jarðneskur munaður — en gull og metorð og munaður svara: það er ekki í oss. þar, í guðsríki, verður það að vera, sem huggar hið hrellda hjarta, svalar hinni sáru löngun, og seður en þyngir ekki; þar hljóta þær uppsprettur að vera, sem ekki ala þorstann, þegar hinn örmagnaði drekkur af þeim — þær uppsprettulindir, sem ekki þorna í sumarhitanum, ekki frjósa í vetrarkuldanum, og renna blíðlega um eilíft vor meðal sætlega ilmandi aldina; þar — ó! sjerhver löngun og sjerhver von er fólgin í þessu: þ a r. Getum vjer þá undrazt, þó að Farísear spyrðu forðum, nær guðsríki mundi koma? Fjarri fer því! það er miklu fremur eins og allar bíðandi kynkvíslir og öll lifandi mannahjörtu spyrji svo sem í einu hljóði: hve nær guðsríki muni koma. Og Guði sje lof, að Farísear spurðu þessa — í hverjum tilgangi sem þeir hafa gjört það — meðan h a n n var á jörðunni, sem kom að færa mönnunum guðsríki. því mjer finnst, að ef Jesús væri enn á jörðunni, þá yrði sjerhver, sem trúir, að hann sje vegurinn, sannleikinn og lífið, að fara til hans og segja: Drottinn og Meistari! hve nær kemur guðsríki, það er þú kennir og boðar? En nú getum vjer ekki heyrt sjálfir svör hans, og Guði sje lof, að guðspjallamaðurinn hefir fært í letur, hverju hann svaraði í þann tíma: Guðsríki kemur ekki þannig, að á það verði bent, og ekki verður sagt: sjá! það er hjer, eða: sjá! það er þar; því guðsríki er þegar í yður (Lúk. 17, 20. 21).

Ó, að vjer vildum allir taka vel eptir þessu! Hin rjetta uppspretta heilla vorra og óheilla kemur ekki niður af fjöllunum, svo að vjer þurfum að mæna upp á brún þeirra, þar sem hún felst í skýjum himinsins, og vænta þaðan blessunar; upptök hennar eru ekki heldur í fylgsnum jarðarinnar, svo að vjer þurfum að kanna undirdjúpin til að finna hana; heldur sprettur hún upp í hjarta mannsins. Þar býr kali og órósemi og kvíði, þar býr einnig gleði og traust og von; þaðan kemur hin dymma þoka, sem leggst yfir alla jarðneska dýrð, þaðan kemur og hið blíða ljós, er bregður birtu sinni yfir alla jarðneska fegurð; þar býr bölvun og þar býr blessun. Þess vegna sagði Drottinn vor oss, að guðsríki, hið sæla ástand, sem allir hugir girnast, sje einkanlega fólgið í innri gæðum; mennirnir þurfi að betra sig, svo að þeim líði betur.

Nú viljum vjer reyna að komast betur í skilning um orð Drottins, og láta einn af postulum hans útskýra þau fyrir oss. Páll postuli segir, fullkomlega í sömu þýðingu sem Drottinn og Meistari hans og vor: Guðsríki er ekki matur og drykkur, heldur rjettlæti og friður og fögnuður í heilögum Anda (Rómv. 14, 17). Já, guðsríki er sannarlega hvorki matur nje drykkur, það verður ekki borið fram meðal hinna dýrðlegu rjetta og ekki skenkt í bikara; það er að vísu farsælleg eign, sála þín gleðst, þegar guðsríki kemur til þín, en ekki á sama hátt og dýrið gleðst, þegar það seður sig á ávöxtum jarðarinnar. Ekki er guðsríki heldur í dýrðlegum herbergjum, nje fullum hlöðum, og hvað sem þú vildir nefna af veraldlegum gæðum, hvað sem þú vildir benda á og segja: sjá! það er hjer, eða, sjá! það er þar, þá er ekkert af því guðsríki. En postulinn nefnir þrjú orð, sem allir kunna, og það, sem þau þýða, getur verið á hverju heimili, og í hverju herbergi, og í hjarta hvers manns.

Hann segir fyrst: guðsríki er rjettlæti; hvar sem er hreinn, góður, stöðugur vilji til að fullnægja skyldum lífsins, þar er guðsríki. Sjáið hjer enn, hver munur er á guðsríki og því, er heimurinn kallar hamingju! Þó veröldin beri ekki á móti, að lífinu fylgi skyldur, er fullnægja þurfi, þá andvarpa mennirnir

undir þeim eins og hinni þyngstu byrði, og álíta það óhamingju, að manninum sje boðið að fylla svo margar og þungar skyldur. Er nokkur sá, er vígt hafi líf sitt til þjónustu við rjettlætið, og lagt stund á, að hlýða boðum skyldunnar, án þess hann hafi reynt, að maðurinn á þunga mæðu fyrir höndum og erfiða baráttu bæði við sig og aðra, þegar hann vill fullnægja skyldu sinni. En spurðu þá, sem hafa forðazt hið þunga ok, þá, sem láta bönd skyldunnar vera veikari enn þráð, og virða að vettugi kröfur rjettlætisins — spurðu þá, hvort lífið hafi verið þeim ljettbært? Spurðu þræla ágirndar og metorðagirndar, ofáts og ofdrykkju og munaðar, hvort þeim hafi fundizt þeir vera frjálsir, og jörðin eins og Paradís, og æfin eins og aldingarður, og hvort sætleiki fullsælunnar hafi, þegar til kom, verið á botni þess bikars, er þeir hafa drukkið af með svo mikilli áfergju? Æ! hversu opt sem þeir egna oss til reiði, hversu opt sem þeir gremja oss með viðurstyggð synda sinna, þá sjáum vjer samt, þegar vjer íhugum til hlítar, hversu líf þeirra er visið og vesælt og fagnaðarsnautt, að þeir eru enn fremur brjóstumkennanlegir í mesta máta, eins og þeir finna sjálfir optsinnis. Oss veitir ekki örðugt að þjóna rjettlætinu af öðru enn því, að vjer erum ekki fullnuma í því, af því vjer drögum af oss í baráttunni, af því vjer hikum og efumst, og viljum þjóna tveim herrum og ekki verja oss öllum til, og þjóna Drottni Guði vorum af öllum mætti. Látum oss minnast vorra beztu æfistunda, þegar Guð vakti sálu vora af hennar þungu draumum, og stökkti á burt hinum illu ástríðum, þegar Guð gaf oss náð til að gjöra það, sem gott er, með trúskap og fúsleik og fjöri; þó að það, sem vjer framkvæmdum, væri langt um minna, enn vjer á kusum, en vjer borguðum samt, á hverri stund og hverjum degi, nokkuð af hinni miklu skuld, og bættum jafnan steini á stein ofan í hið mikla musteri, ó! þá fundum vjer samt, að ok Drottins er inndælt og byrði hans ljett (Matth. 11, 30), þá skildum vjer, hvað það þýðir, að boðorð hans sjeu ekki þung (1. Jóh. 5, 3), og þá gat sú hin svívirðulega spurning ekki upp komið í huga vorum: hvort að guðsríki væri fólgið í jarðneskum munaði, eða í því að þjóna rjettlætinu með heiðri og sóma.

Guðsríki er friður, segir postulinn enn fremur; því ríki veraldarinnar verða á stundum unnin í stríði og missast aptur í stríði, en guðsríki vinnst í friði. Að sönnu á þjónustumaður Guðs að vera ákafur og kröptugur til allra góðra verka, hann á að standa alskrýddur guðlegum hertygjum, búinn til bardaga við sjálfan sig og veröldina og alla hina andlegu herflokka vondskunnar undir himninum; en þegar postulinn lýsir þessum hertygjum, þá kemst hann svo að orði: „standið reiðubúnir og hafið yðar lendar umgyrtar með sannleika, verið íklæddir brynju rjettlætisins, og útbúið fætur yðra með boðskap friðarins, sem ætíð sje yður við hönd; en um fram allt, grípið skjöld trúarinnar, og takið hjálm hjálpræðisins, og sverð andans, sem er guðsorð (Ef. 6, 14. o. nn. vv.). Hjer af má sjá, að þessi stríðsmaður er í rauninni þjónn og erindsreki friðarins; og eins og hinn mikli Konungur gekk til hinnar þyngstu baráttu við völd myrkranna, ekki með harki og háreysti, heldur hógvær og lítillátur í hjarta (Matth. 21, 5), eins ber lærisveini hans að breyta. Ef svo má vera, þá haf frið við alla menn; en ef ekki má svo vera, ef það er ekki í þínu valdi að geyma hinn ytra frið, þá geymdu samt hinn innra: friðinn við aðra menn, að því leyti sem þú getur, með því að þola og fyrirgefa, friðinn við samvizku þína, með því að láta ekki hið illa sigra þig, heldur sigra hið illa með góðu (Rómv. 12, 21), og friðinn við Guð, því Guð hrindir dramblátum af stóli, en gefur lítillátum náð (1. Pjet. 5, 5). Það er til friður jafnvel mitt í baráttunni; veröldin veitir hann ekki, og veröldin þekkir hann ekki, hann kemur að ofan, eins og öll góð og fullkomin gjöf; það er guðlegur friður, sem æðri er öllum skilningi, og orð fá ekki útlistað, en hver, sem hefir smakkað hann, veit hvað guðsríki er.

Að síðustu segir postulinn, að guðsríki sje fögnuður í heilögum Anda. Nú nefnum vjer þau orð, sem vjer megum varla nefna í veröldinni og vjer eigum ekki heldur að saurga þau með því að nefna þau fyrir þeim, er ekki vilja skilja þau; vjer eigum ekki að kasta perlum fyrir þá, er vilja stíga þær í sundur (Matth. 7, 6). En þig, sem leitað hefir guðsríkis kostgæfilega, þig minni

jeg á fögnuð þann, sem þú hefir optlega smakkað, stundum í helgidómum náttúrunnar, á ströndu sjáfarins, í hinni fögru hlíð, eða undir hinum stirnda himni, stundum í heimahúsum, meðal ástvina þinna, eða einn í herbergi þínu, eða í guðshúsi, ýmist á vinnustundum þínum, og ýmist á stundum hvíldar og hugleiðinga og bænar, þegar þú hefir verið ekki að eins rólegur og glaður, heldur og sæll, þegar þú hefir falið þig öldungis á vald Föður þíns á himnum, þegar efasemdir og kvíði og sorg hafa flúið eins og náttmyrkrið fyrir morgninum, þegar gjörvöll sála þín hefir verið trú og von og kærleikur, og allur hugur þinn þökk og tilbeiðsla: þá fannstu til þess innst í hjarta þínu, að sá andi, sem hitti sálu þína fyrirbúna sjer til musteris, og gaf hjarta þínu fögnuð, harla ólíkan þeim fögnuði annara, er korn og vín þeirra margfaldast (Sálm. 4, 8). — þá fannstu, segi jeg, að sá andi var heilagur Andi, Andi Guðs og Jesú Krists, og hann kom þjer í skilning um, að guðsríki er í oss.

það er því munurinn á guðsríki og jarðneskri hamingju, að menn fýkjast í hana svo sem þann hlut, er koma verði að utan, svo menn geti þreifað á henni og bent á hana; vjer heyrum þá optlega segja: sjá, hjer er hún, eða: sjá, þar er hún, þar, í því landi er jarðnesk Paradís, værum vjer þar, mundum vjer reisa tjaldbúðir vorar, eður þeir segja, að hamingjan sje í höllum konunganna, eða úti í löndum í harki og hernaði, og í björtum ljóma nafntogaðra frægðarverka, eður sje hún í því fólgin að lifa í ró og næði, svo ekki beri á manni; allir leita hennar í kringum sig, og flýta sjer úr einum stað og í annan, úr einu ástandi og í annað, og sjeu þeir bundnir við einhverja stjett og einhvern stað, þá kenna þeir því um hamingjuskort sinn; en um guðsríki aptur á mót segir hin eilífa spekin oss: guðsríki er í yður. Á því er auðsjeð, að hið bezta og sælasta, það, sem allt mæti lífsins er í fólgið, það, sem vjer kristnir menn erum til kallaðir, getur fundizt í sjerhverri stjett, og engum er frá því bægt; og úr því þú hefir höndlað það, þá er það fullkomin eign þín, og ekkert annarlegt vald getur tekið það frá þjer, þjófar geta ekki stolið því, og mölur og ryð geta ekki skemmt það. Sjerhver, sem leggur stund

á kristilega speki, verður að hafa fundið þetta, og sagt optlega við sjálfan sig: já, sannarlega er guðsríki í sjálfum oss. En hvort er nokkur sá, er þora mundi að segja, þó hann hafi stundað kristilega speki, að frá því guðsríki hafi runnið upp í sálu sinni, hafi það verið stöðugt í henni, hann hafi horft á sólina koma upp og ganga undir, árin koma og fara, og færa honum gleði og sorg, og heiminum nýja mynd, en það hafi ekki fengið á hann, hann hafi horft áhyggjulaus á byltingar tímanna, og hugur hans hafi verið samur og jafn, rjettlæti Guðs og friður Krists og fögnuður heilags Anda hafi aldrei myrkvast í honum? Ó, vjer berum guðlega náð í brothættum kerum! því það er það, sem hryggilegast er í veröldinni, að ekki einungis hin ytri blóm fölna, heldur og hin innri, að ekki einungis hið ytra ástand vort er svo margri umbreyting undirorpið, heldur og hið innra, að sálin, sem finnur á stundum, að hún er svo lifandi og fjörug og sæl, eins og væri henni burtu svipt úr jarðneskri mæðu og þrengingu — að, segi jeg, hin frjálsa sál leitar aptur niður á við, og stynur í ánauð undir hinum gömlu þyngslum. Víst megnum og eigum vjer að taka ávallt framförum í þessu, því sálin getur styrkzt fyrir Guðs miskun, hún getur orðið rólegri, sjálfri sjer líkari, stöðugri í því, sem gott er. Víst er guðsríki ekki dautt í oss, þó lítið beri á því um stundar sakir, og vjer finnum ekki eins til þess og áður; því eldurinn á altarinu getur sýnzt vera kulnaður út, en neistinn lifir langt niðri í öskunni, og kemur upp í ljósum loga óðar enn varir; trjeð sýnist dautt í hríðviðrum vetrarins, og þó hreifir lífið sjer í því, og gjörir vart við sig aptur, og skrýðir hinar bersnauðu limar lífi og blómi og ávöxtum; og eins er guðsríki varið. það er, sagði Drottinn vor sjálfur, líkt frækorni því, er sáð er í jörðina, og er þá allra frækorna minnst, en er það vex, verður það svo stórt, sem eik, svo að fuglar himins koma og gjöra sjer hreiður í greinum þess (Matth. 13, 32). Sælir erum vjer, ef vjer geymum frækorn guðsríkis þannig í hjarta voru, að það sje eins og sú jurt, er þolir veturinn og stormana, lifir undir klakanum, og kemur í ljós þegar Guð lætur vora aptur. En þó stynjum vjer optsinnis, þunga þjáðir, jafnvel þeir, sem hafa frum-

gróða andans, stynja með sjálfum sjer þreyjandi endurlausnina (Rómv. 8, 23) og það ástand, þar sem hið illa er bundið og hið góða er frjálst, þar sem skorðurnar eru í burt teknar, og synd og vanmætti aptra oss ekki, og stundlegar þarfir fjötra oss ekki við jörðina, og sálin sýkist ekki og hrörnar með líkamanum; og meðan þetta hið frjálsa og sælufulla ástand er ekki hlutskipti vort, getum vjer ekki með sanni sagt, að guðsríki sje algjörlega til vor komið.

Og þó að einhver einstakur hefði höndlað það, og væri þegar fullkominn, þá eru menn svo nákvæmlega samtengdir hverjir öðrum, og ástand hvers einstaks er svo mjög samtvinnað heiminum, að enginn getur með sanni sagt, að guðsríki sje komið til hans, nema það sje einnig komið til annara umhverfis hann. En þegar jeg sje, að menn kaupa og selja, og vinna verk sín, og byggja bústaði sína á jörðunni, án þess að hirða neitt um guðsríki; þegar jeg sje, þeir skeyta ekki sannleikanum, heldur spotta hann ýmist með ljettúð og ósvífni, eða rangfæra hann með hræsni og lygi; þegar jeg sje, þeir draga á tálar sjálfa sig og aðra, og blindir leiða hina blindu, þegar jeg sje alla svívirðing rangindanna, alla þá lesti, er storka Guði opinberlega, alla þá illsku, er í myrkrunum læðist; þegar jeg sje, að bönd friðarins eru slitin og ástin er köld; þegar jeg heyri ósvífinn háfaða ósæmilegrar kæti kefja niður sjerhverja áminning um stillingu og siðsemi, og að menn hafa svo lítið yndi af hinum blíðu og hreinu glaðværðum: get jeg þá sagt, að guðsríki sje komið til vor? Að sönnu ber oss að þakka það gott, sem er; og þó allt mannlegt sje harla ófullkomið, eru þó sannindi og rjettindi og friður ekki eins ókunnug á jörðunni, eins og þeir segja, er sjálfir eru ókunnugir þessum hlutum; það er þó á jörðunni heilagur og almennur söfnuður, sem er samfjelag heilagra eða að minnsta kosti guðhræddra manna, og hann getur orðið og á að verða æ stærri og skína æ bjartara. Þegar Frelsari veraldarinnar kom, nálægðist guðsríki með honum og fyrir hann; það hefir ekki horfið síðan, og mun ekki hverfa allt til enda veraldar; og þegar menn hafa látið hugfallast og sagt: nú er ljósið að slokkna, nú er vald myrkranna að vinna sigur, þá

hefir Guð látið ríki sitt þroskast æ meir. En samt sem áður stynjum vjer undir fásinnu og synd sjálfra vor og annara, og hefjum einatt augu vor til himna, svo spyrjandi: nær mun dagurinn upp renna?

Stærið yður, þjer hetjur og vitringar! svo sem hefðuð þjer sigrazt á veröldinni, og veraldleg sorg og kæti væru langt fyrir neðan yður, og sæla væri þess háttar hlutur, sem þjer gætuð fyrirlitið, og þjer hefðuð í sjálfum yður allt, er þjer með þurfið; því hinn aumi og örmæddi hefir samt rjett til hluttekningar í jarðneskum gæðum. Að sönnu veit jeg hvar þær lindir eru, sem upp spretta til eilífs lífs, og hversu opt hafa þær svalað mjer, styrkt mig og endurnært sálu mína! en þó er krossinn optlega þungur, og jeg hefi hrellzt og mun hrellast af minni og annara eymd. þegar jeg sje góðan og drenglundaðan mann, í fjötrum duptsins, berjast við stundlegan skort og sjúkdóm og vesæld, þegar jeg sje þá, sem bera í brjósti sundurkramið hjarta, sekir eða saklausir, og þiggja að sönnu líkn af hinum algóða, en kenna þó harma sinna þangað til þeir gefa upp andann, þegar jeg sje alla eymd og armæðu veraldarinnar, að sekir vinna sigur, en saklausir andvarpa, þegar jeg sje dauðans dymma engil þrífa til, og slíta barnið úr kjöltu móður sinnar og vininn úr faðmi vinar síns: á jeg þá að segja, að þetta ástand sje guðsríki?

Sæll er sá, sem situr til borðs í guðsríki! sagði einn af þeim, er sátu með Jesú í húsi Faríseahöfðingjans (Lúk. 14, 15). Já, sannarlega eru þeir sælir, sem leystir eru úr jarðneskum bágindum, frelsaðir af synd og sorg, og hafa náð traustu hæli í hinum sælli bústöðum! því þar er betra enn hjer, og þegar þeir, sem háðu hið góða stríðið, runnu skeiðið á enda, og varðveittu trúna, hafa safnazt til feðra sinna, þá segjum vjer, að þeir sjeu í guðsríki. Að því leyti merkir orð þetta fullkomnara, betra og sælla ástand, sem er hinu megin grafarinnar. En eigum vjer þá að vanrækja þenna heim? Hann er þó fenginn oss ekki að eins til bústaðar, heldur og til þess, að vjer prýðum hann, og bætum ástandið í honum; um það erum vjer áminntir snemma á morgni lífsins. þegar er hinn fyrsti kraptur tekur að vakna í sálu vorri

og líkama vorum, um það erum vjer áminntir dag frá degi þangað til vjer megnum ekki lengur að starfa, þá felum vjer viðleitni vora þeirri kynslóð í hendur, er eptir oss á að koma, svo að hún haldi fram verki því, er vjer urðum að yfirgefa óbúið. Á nú öll þessi viðleitni og fyrirhöfn að vera til einskis? eru allar kynkvíslir jarðarinnar ekki ætlaðar til annars, enn reyna að fylla botnlaust ker, rita á hafsöldu, og vinna fyrir gýg, án þess að komast nær takmarki því, er þær stefna að? Sá, sem erfiðar, á að erfiða í von, sá sem sáir, á að sá í von, og ef von uppskerunnar hyrfi, hyrfi og einnig viðleitni sáðmannanna. En eins sannarlega og Guð er trúr, eins sannarlega og hið dýpsta hugboð mannlegrar samvizku er ekki eintómar sjónhverfingar ímyndunarinnar, eins sannarlega og líf mannanna er ekki fánýtt leikfang, og eins sannarlega og það er sannleikur í Jesú Kristi: eins sannarlega nálægist guðsríki meir og meir. Það þróast, eins og kornið sprettur, dag frá degi, án þess á beri, það eflist svo það er sjónarmunur, á hagstæðum tíðum, þar til einhvern tíma, að sú stund kemur, er Faðirinn einn þekkir, er undirstaða jarðarinnar mun skjálfa, og kraptar himinsins taka að bærast, og dýrð Himnakonungsins mun ljóma yfir allt jarðríki, eins og eldingin kemur úr einni átt himins og leiptrar til annarar.

---

## 64.

### DAGUR DROTTINS.

Þegar vjer spyrjum einungis með jarðnesku hugarfari í veröldinni, þá fyllist hugskot vort órósemi, og vjer erum jafnnærri von og ótta; vjer sjáum þá hinar óstýrilátu öldur hreifast og rísa, og vitum ekki hver muni stöðva þær eður stjórna þeim. En ef vjer

snúum huga vorum til hins almáttka Guðs, þegar vjer spyrjum á þessa leið, lítillækkast að sönnu hjarta vort, en þeirri lítillækkun eru trú og traust samfara. Að sönnu vitum vjer ekki hvað Guð ætlar heiminum eður sjálfum oss á hverri stund; vjer vitum að erfiðar tíðir geta komið, og það á að kenna oss að vaka og biðja, og hreinsa hjarta vort af búksorg; en vjer vitum einnig, að eptir myrkrið ljómar morgunroði sælla dags, og öll fyrirheit Guðs segja oss, að eptir umrót veraldarinnar muni guðsríki ljóma.

Fagnaðareyrindi Krists er boðun þeirra hluta, er fram eru komnir í veröldunni og þar á ofan þeirra hluta, sem ekki eru enn fram komnir. „Boðið dauða Drottins“, segir postulinn (1. Kor. 11, 26), boðið þann, sem elskaði oss, og gaf sig í dauða vor vegna, svo hann gæti endurleyzt oss sjer til eignar, boðið það, er hann hefir gjört og þolað vor vegna; en postulinn bætir þessu við: „þangað til hann kemur.“ það er: þegar vjer minnumst hins umliðna, er birtist í afleiðingum sínum alstaðar í kringum oss, og ætti að gjöra vart við sig í sálu vorri, þá eigum vjer um leið að renna huganum til hins ókomna,. því fullkomnunin er enn ekki komin. Í kristilegri trúarjátningu vorri teljum vjer fyrst vitnisburðinn um komu hins eingetna Sonar Guðs í veröldina þjáningar hans og dauða og dýrðlega upphefð, og um vald það, er hann stjórnar með ósýnilega hinu sýnilega, og bætum síðan við: „þaðan mun hann koma aptur, að dæma lifendur og dauða.“ Jafnvel bæn sú, er Drottinn kenndi oss að biðja, snýr daglega huga vorum að þessu efni: „tilkomi guðsríki!“ þessi bæn táknar löngun, sem þráir eitthvað mikilvægara, sælla og dýrðlegra enn það, sem enn er fram komið, og það mun eflaust síðan fram koma.

„Drottinn er kominn“, sá, sem spámennirnir hafa talað um, og forfeðurnir hafa átt von á: þetta var sá boðskapur, er postularnir hófu á Gyðingalandi, og fluttu síðan til annara landa. En með eins fullum vísdómi boðuðu þeir, að tilkoma Drottins væri í vændum, það er: önnur dýrðlegri tilkoma enn sú, þá er veröldin gat útskúfað honum og afneitað. „Drottinn kemur“ (1. Kor. 16, 22), sögðu þeir, til að hvetja hina kristnu til að vaka og biðja, og ástunda allt það, sem sómasamlegt er og dygðugt og loflegt,

svo þeir gætu orðið maklegir til að standa framml fyrir mannsins Syni; "Drottinn kemur" sögðu þeir við þá, sem þverskölluðust og fyrirlitu sannleikann, og vildu hvorki veita sannleikanum viðtökur sjálfir, nje heldur lofa öðrum að gjöra það; og þegar þeir þurftu sjálfir á huggun að halda í mæðu sinni og baráttu, minntust þeir þess fyrirheitis Drottins: "Sjá! jeg kem, og hefi með mjer endurgjald handa sjerhverjum, eptir hans tilverknaði (Opinb. 22, 12).

Þessi orð hljómuðu þannig ár frá ári frá einni kynslóð til annarar; en því lengur sem það dróst, að þau rættust, þess heldur var við því að búast — eins og sjá má í einu af brjefum postulanna, sem er meðal hinna yngstu — að þeir menn mundu koma, sem gerðu gis að þeim, og segðu: hvað verður úr fyrirheitinu um tilkomu hans? Feðurnir eru sofnaðir, og þó er allt eins og það verið hefir frá sköpun heimsins (Pjet. 3, 3. 4). Samt sem áður er þetta fyrirheit ein af þeim greinum, sem um hefir verið sagt: himin og jörð munu farast, en mín orð munu aldrei eyðast (Lúk. 21, 33); vjer getum ekki afmáð þetta fyrirheit, þó vjer vildum, því það stendur eins stöðugt og öll önnur orð, sem Jesús hefir sagt.

En þegar vjer íhugum nákvæmar, hver að sje þýðing eptirvæntingar þessarar, verður oss margt þungskilið. Orðin eru spámannleg, þau benda til einhvers, sem fram á að koma, en eru líka almenn og optsinnis í líkingum, og taka það saman, sem, ef til vill, á að vera að koma fram um ómælanlega tíma; hver getur lagt þau út? hver getur dregið skýluna af hinu ókomna, og sýnt hvernig einn atburðurinn muni fylgja öðrum öld eptir öld? Margir hafa reynt það, og eru fyrir löngu orðnir sjer til minnkunar. Fjarri fer því, að vjer viljum reyna til þess að nýju; en kristileg sannindi, sem eiga að vera öllum til uppfræðingar og huggunar, verða að vera fólgin í þessum orðum Drottins, eins og í öllum öðrum orðum hans.

Hversu hvikull er hugur mannsins! Þær hafa verið tíðirnar, að ræður Jesú um tilkomu sína á síðasta degi höfðu gagntekið svo hugi mannanna, að þeir þóttust sjá fyrirboða tilkomu Drottins, undir eins og ófrið bar að höndum, eða ófriðar fregn, eða uppreisn,

eða hungur, eða drepsótt; þeir fóru jafnvel að reikna, og þóttust hafa fundið, að endir allra hluta væri í nánd; þess vegna yfirgáfu margir eignir sínar og sýslu sína á jörðunni, af því þeir hjeldu að þeir gætu þá betur búið sig undir hinn mikla dag Drottins. Heimskir menn og blindir! hefir ekki sá sami, er sagðist mundi koma með lúður dómsins og laun mannanna, einnig sagt: það er ekki yðar, að vita stundir eður tækifæri, er Faðirinn hefir tekið sjer sjálfur umráð yfir (Post. 1, 7)? hefir hann ekki sagt: þann dag og þá stund vita ekki englarnir sjálfir, og enginn, nema Faðir minn á himnum (Matth. 24, 36). Hins vegar getum vjer ekki borið á móti því, að hugmyndir þessar eru nú orðnar mönnunum svo ókunnar, að vel flestum detta þær sjaldan sem aldrei í hug, og það lítur svo út, að flestir menn haldi, allt muni fara eins og það hefir farið frá upphafi veraldar, ein kynslóðin muni koma þegar önnur fer, armæðast í andstreymi og baráttu, ávinna til þess aptur að missa, byggja til að rífa niður, fagna og sýta og hverfa síðan, til þess að nýjar kynslóðir geti byrjað á hinu sama upp aptur og aptur. Verðum vjer ekki aptur að segja: Heimskir menn og blindir! ímyndið þjer yður í alvöru, að alltaf eigi að vera að byggja, en aldrei neitt að verða fullgjört, að þær fýsnir og þær hvatir samvizkunnar, er vjer köllum góðar og Guði þekkar, gjöri ekki annað, enn tæla oss og kúga til árangurslausrar áreynslu, en hið mikilvæga, fagra og ágæta, er þær miða til, muni aldrei fá viðgang, og guðsríki aldrei koma? Ímyndið þjer yður í alvöru, að þeir sem þrjózkast gegn sannleika og rjettindum, muni alltaf geta haldið á fram að þrjózkast? eða hljóta ekki rjettindin að fá sigur og álit, svo sannarlega sem rjettlátur Guð er til á himnum? Hljóta ekki þeir, sem unnu launalaust, og þoldu illt að ósekju, að öðlast heiður og laun og frið? Að sönnu bendir allt þetta til annars lífs, en úr því það er skylda vor, að reyna til að koma betra ástandi á á jörðunni, hlýtur þetta ástand að komast á, ef tilraun vor á ekki að vera eintóm árangurslaus armæða.

Þetta boðar og hið kristna fagnaðareyrindi: að guðsríki muni um síðir sigrast á öllum mótspyrnum og nýir himnar koma og ný jörð, þar rjettlætið byggi (2. Pjet. 3, 13). En þegar vjer lesum

ræður Drottins um þetta efni (Matth. 24, 1 o. nn. vv. Mark. 13, 1 o. nn. vv. Lúk. 21, 5 o. nn. vv.) með athygli, sjáum vjer, að í þeim eru, eins og í öllum öðrum spámannlegum ræðum heilagrar ritningar, löng tímabil og margir og margvíslegir atburðir settir saman í eina vitrun; það er eins og þegar vjer höfum fyrir oss mikið víðsýni, að sumt liggur harla nærri, svo vjer þurfum ekki að ganga nema nokkur spor til að komast þangað, en það, sem fjær er, blandast hvað innan um annað, svo vjer sjáum ekki afstöðu þess, fyrr enn jafnótt og vjer komumst lengra áleiðis. Eflaust miðar nokkuð í þessum ræðum Drottins til hins fjarlægsta og síðasta, til hinnar miklu opinberunar mannsins Sonar með krapti og mikilli dýrð, eins og þegar elding kemur úr austri og leiptrar til vesturs, svo að enginn efi mun á því verða hver kominn sje, og að hann sje kominn, eins og einn kristinn fræðimaður hefir að orði komizt. En sumt er það í ræðum þessum, er auðsjáanlega miðar til þess, sem er langt um nær; þar stendur með berum orðum: Sannlega segi jeg yður, þessi kynslóð mun ekki nndir lok líðin áður þetta komi fram. Menn hafa og ætíð kannazt við, að Drottinn væri einkum að tala um eyðingu Jerúsalems; hann minntist á dýrð musterisins, og sagði, að þar skyldi ekki steinn yfir steini verða; heldur skyldi svívirðing eyðingarinnar standa á hinum helga stað, hann boðaði hörmungar, er koma skyldu yfir Gyðingaland, en skyldu þó verða styttar sakir hinna útvöldu. Mannsins Sonur, sá er þeir höfðu lítilsvirt og frá sjer rekið, opinberaðist einnig í þessum viðburðum með valdi og mikilli dýrð, hann sendi hefnd yfir þá, sem höfðu heimtað, að blóð hans kæmi yfir sig og börn sín, og vildu síðan ekki snúa sjer meðan langlundargeð Drottins beið þeirra, hann ljet ástvini sína ná rjetti sínum, og frelsaði þá frá verstu mótstöðumönnum þeirra, og þegar þessi tálmun var í burt tekin, nálægðist guðsríki sannarlega.

– Orðatiltækið "dagur Drottins" finnst þegar í gamla testamentinu; í æðsta skilningi merkir það þann dag, þegar þessi veröld er á enda og nýir himnar og ný jörð eiga að koma í ljós, en stundum bendir það auðsjáanlega til daga, sem áður eiga, á einstöku stað og í sjerstöku tilliti, að raska hinni eðlilegu rás viðburðanna,

aftaka það sem áður var, og leiða í ljós hið nýja. Þannig segir spámaðurinn Óbadías, þegar hann spáir gegn Edom: Dagur Drottins vofir yfir öllum heiðingjum; þig skal henda það, sem þú hefir til unnið, og endurgjaldið skal þjer í koll koma (Óbad. 15. v.). Þannig segir og spámaðurinn Esaías: Dagur Drottins hersveitanna mun koma yfir allt það, sem upphafið er og drambsamt og hátt, og það mun niðurlægt verða; yfir öll voldug sedrustrje á Líbanon og öll eikartrje Basans, yfir öll há fjöll og alla bratta tinda, yfir alla háa turna og alla rammbyggða múra, yfir öll hin dýrmætu skip kaupmannanna og allt það, sem skemmtir augunum. Öll mannleg drambsemi mun beygð verða, og allt jarðneskt vald niðurlækkað, og Drottinn einn saman vera mikill á þeim degi (Es. 2, 12 o. nn. vv). Þetta er að sönnu lýsing á þeim degi, sem á að verða síðasti dagur gjörvallrar veraldar, og lýsingin á einnig við um suma daga, sem þegar hafa komið yfir einstöku staði og lönd. Slíkur dagur kom yfir Sódóma og Gómorra, þegar Guð brenndi þær til ösku, og fyrirdæmdi þær til umturnunar, og setti þær til dæmis fyrir þá, sem eptir á mundu lifa óguðlega (2. Pjet. 2, 6). Slíkur dagur kom yfir Babýlon, þegar Drottinn sendi eyðanda storm yfir hana. Áður hafði Drottinn sagt fyrir munn spámannsins: Jeg hafða þig að hamri, Babýlon! og að hervopni, og eydda jeg þjóðflokkum með þjer. Nú endurgeld jeg, svo að þjer sjáið, þeim í Babýlon allt það illt, er þeir hafa framið í Zíon. Far á brott þaðan, mín þjóð! og hver forði lífi sínu fyrir grimmdarreiði Drottins; því hinir breiðu múrveggir Babýlonar skulu brotnir verða, og hin háu port upp brennd, kynþættir skulu hafa unnið til ónýtis, og þjóðir lagt að sjer til að útvega eldinum bráð (Jer. 51, 20. 24. 46. 58). Slíkur dagur kom yfir Jerúsalem, þegar óvinir hennar gjörðu hervirki um hana, þröngvuðu henni á alla vegu, og lögðu hana gjörsamlega í eyði, og börn hennar með henni, og ljetu ekki stein yfir steini standa, af því hún þekkti ekki vitjunartíma sinn (Lúk. 19, 43.-44). Slíkir dagar hafa komið, og munu að vísu enn koma yfir marga einstaka staði, áður enn stjörnurnar slokkna og undirstaða jarðarinnar tekur að brenna; því allt það, er vill brjótast undan yfirráðum Guðs, og stærir sig af sjálfu sjer, þolir hann að sönnu um

stundar sakir, en um síðir kemur dagur Drottins yfir það. Slíkur dagur er sannarlega dagur Drottins, því hann veitir hinum dramblátu mótstöðu, og sýnir, að allt sem kallað er mikið, þegar miðað er við mannlegt afl, er ekkert, og að enginn er mikill nema Drottinn. Slíkur dagur er dómadagur, því hann borgar hinum óguðlegu eptir verkum þeirra, og framkvæmir það, sem rjettlætið hafði lengi ógnað með. Slíkur dagur er hinn síðasti dagur fyrir margar drambsamlegar fyrirætlanir, hjegómlegar ímyndanir og heimskulegar vonir, sem ekki voru byggðar á Guði. Slíkur dagur kemur optlega sem þjófur á nóttu (2. Pjet. 3, 10), og eins og snara yfir þá, sem á jarðríki búa þegar þeir segja: nú höfum vjer frið, og erum óhultir, þegar þeir kaupa og selja, eta og drekka, gipta og giptast, eins og á dögum Nóa og Lots, þá hljómar hinn mikli lúður dómsins, og glötunin er þegar yfir höfðum þeirra.

Þó að endirinn dragist — en hver veit það? hve nær sem styrjöld kemur, eða fregn um styrjöld, eða uppreisnir og hörmungar, getur hann verið í nánd, en hann getur líka verið fjarlægur; hver veit það, utan hann, sem áskilið hefir sjálfum sjer að ákvarða tíma og stund? — Þó að hann dragist, renna samt optsinnis upp dagar Drottins, er aðvara mennina og áminna þá um að vaka og biðja, svo að þeir geti orðið maklegir að umflýja þá hluti, sem fram eiga að koma, og maklegir að koma fram fyrir hann, sem birtir dýrð sína í hverri umbylting, sem verður í veröldinni. Vakið! sökkvið yður ekki niður í ofát, ofdrykkju, ágirnd og hjegómadýrð, nje í deyfð og hirðuleysi, heldur verið hófsamir og árvakrir, og hafið ætíð fulla gát á, hvað fram sje að koma, og hvað í vændum er! Og biðjið! nálægið yður Guði, svo að Guð sje yður nálægur, og varðveiti yður frá freistni og falli, svo að þjer þurfið ekki að segja til fjallanna: hrynjið yfir oss! nje til hálsanna: hyljið oss! heldur getið flúið á náðir Guðs, og líkn hans geti verið skjöldur yðar!

Því slíkar tíðir fara yfir með ógn og skelfingu, og þjóðirnar örvinglast undir oki þeirra, og mennirnir örmagnast af ótta og eptirbið þeirra hluta, er koma munu yfir jarðríki. En hversu undarleg og mikilvæg eru þau orð, sem Drottinn áminnir og upp-

örfar hina trúuðu með, þegar hann talar um þetta efni: þegar þessir hlutir taka fram að koma, segir hann, þá lítið upp, og hefjið upp höfuð yðar, því þá er lausn yðar í vændum (Lúk. 21, 28). Því Guð umturnar ekki, nema til að leiða hið nýja og dýrðlega í ljós; þegar hann tekur burt anda sinn og mátt, kemur það til af því, að hann ætlar aptur að senda út anda sinn, og þá verður skapað, ásýnd jarðarinnar endurnýjast (Sálm. 104, 30). Drottinn tekur líking af trjánum: þegar laufknapparnir koma á þau, vita menn að vorið er í nánd, þó bæði sje dymmt og eyðilegt; stundum líður blíður blær yfir hina snjóþöktu jörð, og þá kemur vorhugi í hjörtu vor. Svo er og þegar vetur er í veröldunni, þegar allt sýnist líflaust, þegar engum finnst neitt koma til þess sem oss þykir heilagt og dýrmætt, þegar vjer eygjum ekki nokkurn blett, er oss þyki ánægja að líta, kemur optsinnis blíður blær frá betra heimi og kveikir í hjörtum vorum von um komanda vor. Því sú von fylgir kristinni trú, að guðsríki nálægist við hverja bylting í veröldinni; verið getur samt, það nálægist ekki þá, sem fyrstir áttu kost á því, en höfnuðu því; en það kemur til þeirra, sem því var fyrirbúinn staður hjá, og nálægist meir og meir hvern þann, sem öðlazt hefir inngöngu í hinn heilaga, almenna söfnuð, og vonazt hefir eptir því, og varið æfi sinni því til eflingar. Og því meiri sem mótstaðan hefir verið, því ágætari mun sigurinn verða. Því ávallt bryddir á mótþróa móti kristnum sannindum og guðsríki, en stundum magnast hann, hvort sem þá heldur, eins og einn postuli að orði kemst, einn maður syndarinnar auglýsist, útbúinn Satans krapti, með öllu afli og táknum og stórmerkjum lyginnar, og með öllum vjelum ranglætisins, meðal þeirra, sem glataðir verða, af því þeir meðtóku ekki sannleiksást sjer til frelsunar (2. Þess. 2, 3. 9.-10), eða margir falskristar koma, eins og annar postuli að orði kemst (1. Jóh. 2, 18). Hver sem ekki er þá fastur í kristinni trú, mun annaðhvort láta tæla sig og afvega leiðast, eða hann mun láta huggfallast, og sleppa voninni um tilkomu guðsríkis. En einnig í þessum efnum er trú vor sá sigur, sem yfirvinnur heiminn (1. Jóh. 5, 4), og hver sem berst hinni góðu baráttu, og varðveitir trúna, hann hefur upp höfuð sitt, er

hann á lausn í vændum; hann hefir ekki bundið huga sinn við neitt á jörðunni, heldur við guðsríki, og það getur enginn frá honum tekið, og enginn tálmað viðgangi þess. Fegurð þess og víðátta fara æ vaxandi, þangað til hið eilífa vor kemur.

Allt eins og hin fyrsta bók hinna helgu rita, sem guðsorð geymist í, byrjar á hinum fyrsta degi, þegar þeir hlutir urðu til, er vjer sjáum nú í veröldinni, en eiga þó allir að hverfa, þannig talar sú bókin, sem hin helgu rit enda á, Opinberanabókin, um hinn síðasta dag veraldarinnar, að sönnu óljóst, en þó með krapti og mikilli eptirvæntingu. Einhvern tíma taka öfl spillingarinnar að brjótast um í öllu hinu mikla smíði, einhvern tíma ferst þessi veröld með allri sinni dýrð og öllum sínum girndum. En sem hún tekur að farast, rennur dýrð Guðs upp, og þá birtist hann, sem mennirnir útskúfuðu, afneituðu og gleymdu, en hefir þó allt vald bæði á himni og jörðu, og allir óvinir hans munu verða lagðir til skarar fóta hans, en hann ríkja að eilífu. Hann er hin skæra morgunstjarna, segir spámaðurinn (Opinb. 22, 16); eins og morgunstjarnan boðar komu dagsins, þannig boðar og hin fyrsta tilkoma Krists hina síðustu: hinn nýja, dýrðlega dag, sem myrkva mun aldrei á draga. Og allar guðhræddar sálir munu sameina raddir sínar og hrópa í mót honum: kom! þá svarar sá, sem allt þetta vottar: já! jeg kem skjótt — tímar þessa heims líða þó á fram, en hvort sem hann kemur seint eða snemma, kemur hann þó fyrr enn flesta varir. Kom, Drottinn Jesús! segir spámaðurinn (Opinb. 22, 20); og á þessu andvarpi enda hin helgu rit.

---

